hans dogom var [Cristr borenn[1] i þenna heim. Af þessom keiserom tveim hafa namn tekit bócmanaþer .ii. Julius oc Augustus.

Systrungar Augusti voro brøþr[2] .iii. Flavius, es Clemens var callaþr oc gøfgastr var alra Rumveria vnder Avgusto keisera, en annarr Faustinianus, es fra mun verþa sagt, þriþi var Bassus, es verstr var þeira brøþra. Syster þeira brøþra var Plautilla, es leþe Poli postola haufodux síns, þa er hann var leidr til haugs. Hennar geldingar voro þeir Nereus oc Achilleus, es tru retta tóco af kenningo Petrs postola, þa [fec] Plautilla til at þiona dottor sinne, er het Flavia Domitilla, oc af þeira orþom varþ Flavia[3] cristen. En þeir voro baþer pinder firer goþs sacar, oc es messodagr þeira vico [efter cross[4] messo a varet.

2. [5]Faustinianus hafþi velde miket under Augustus keisera, oc hann var settr høfþingi øldunga i Rumaborg oc hafþi forraþ heraþa, es liggia i nónd viþ Antioch(i)o Sýrlandz haufotborg. Kona hans hét Mathidia rumversc at kyne, hon var forcvndliga vęn at iferlite oc raþvønd harþla oc vel vite borin, oc var iþen at blóta heiþen goþ. Maþr hennar var algerr at sér at alre veraldar specþ, hann blótaþi scurgoþ at siþ Rumveria en eige af alhuga, firer þvi at hann truþe raúnar .i. vera almatcan goþ. Þau Faustinianus oc Mathidia otto .iii. sono. Einn het Faustus, annarr Faustinus, enn þriþi var heitenn efter føþurbroþor sinom oc hét Clemens. En er þeir voro comner ór barnósco, þa tóc Bassus føþorbroþer þeira at legia girndar[6] hvg a Mathidiam moþor þeira oc broþorkono sina, oc leitaþe hann til þess meþ fiølcynge sinne, ef hann mętte blekia hana. En er hon fann vilia hans ohøfan viþ sic, alz hon var raþvønd kona, þa leitaþe hon sér raþs, hvé hon mętte styra bazt undan ilzco hans. Hon bio sic at þeim hętte sem hon var vøn at buasc, þa er hon hafþesc at blótom, oc gec siþan a malstefno viþ buanda sinn oc męlte viþ hann: „Mer hever lengi verit ahyggia at, hvat leggiasc muni firer sono occra. Ec gek of dag, svá buen sem nu em ec, i musteri solar goþs, es Apollo heiter oc aldregi mun liúga. Ec fǫrþa þar forner solar goþi oc frettag at siþan, hvat leggiasc munde firer sono mina. En ec fec þar þvilic svǫr: Tacþu sǫno þina tvá Faustum oc Faustinum oc bu þá til farar, oc far meþ þa til Sýrlandz, oc sel

1 [Cristus natus *Cd.* 2 fratres *Cd.* 3 flavio *Cd.* 4 [post crucis *Cd.*
5 *Jvf. ovenfor Peters Saga Cap. 64.* 6 *Først* girnþar *men rettet til* girndar.

þa til fóstr(s) enom froþostum spekingom. Þeir muno verþa gøfger kennimenn. En Clemens sọnr þinn scal vera heima meþ feþr sinom til huggonar honom, oc mun at honom vegr vera frendom hans oc ollom Rumaborgar lyþ at eilifo." Viþ þessi orþ varþ Faustinianus dapr harþla oc svaraþe af moþe miclom oc mẹlti: „Ef þat er goþs firerhyggia, at sva scyli verþa, sem þu segir, þa má engi þvi hnekia." Siþan bio hann scip gott, oc gek þar á kona hans oc syner hans .ii. ener ellri meþ fiarhlutom miclom oc fọrvneyti vegligo.

3. [1]Þeim forsc vel unz þeir liþo umb Sikiley. Þau foro i nónd viþ borg þa er Patera heiter oc Nicholaus byscop var siþan føddr[2] í. Þar tóc þau útsýnningr steínóþr oc keyrþi of nott at eyio þeire, es Corpho heiter. Þar leysti scip alt i sundr under þeim, oc fiarhluter aller oc menn, nema Mathidia oc syner hennar þau ein høfþo lif. Hon fylgþi scipsborþe nøcqerio til landz, oc gek siþan a land up. Hon com of miþnẹtti til hus einnar auþegs mannz kono, oc var þar teket vel viþ henne. Þeir Faustus oc Faustinus sóto a scipsflaki, oc er lysa tóc, þa so þeir fara i nond sér vikinga scip. Þeir letøþo sér raþs sín a milli, hvat tiltøkiligast være. Þa melte Faustus viþ Faustinum broþor sinn: „Þesser menn muno taca ocr oc selia mansali; gefom viþ ocr nomn aunnor en viþ eigom aþr. Ec mun nəmnasc Niceta, en þu scalt heita Aquila." Siþan gripo vikingar sveina þessa baþa oc høfþo þa ut of haf til Jorsalalandz, þeir seldo þa i siaborg þeire, es Cesarea heiter, husfreyio auþegre, oc hét sú Justa oc var Gyþinga kyns. En husfreyia su lagþi ast micla a sveinana oc gerþe þa sér at óscbọrnom. Hon selde þa til leringar Simone enom fio(l)kunga af Samaria, es craftr goþs almattegs lezc vera. Enn er þeir họfþo numet allar iþrotter hans, þa fundo þeir, at hann lodde flørþ einne saman oc ilzco. Þeir hlióposc a braut fra Simone illa oc sotto fund Petrs postola. Hann tóc viþ þeim vel oc kende þeim cristinn dóm, oc gerþosc þeir þa hans lerisveinar.

Mathidia hafþe virþingar goþar af husfreyio þeire, es viþ henne hafþi teket. Hon var buen itarliga fyrst, þa er hon com ór scipsbrote til hus hennar, oc þottesc husfre(y)ia þaþan af vita, at hon mynde gøfugmenne vera. Hon melte of dag viþ hana: „Þat þykiomc ec sia a þér, at þu munt kynstór kona vera, þu ert alvẹn iferliz, latoþ vel oc vitrmál harþla, enda er hannørþ a hvivetna þvi, es þu tekr þinum hondom til at gera. Nu vil ec, at

1 *Jvf. ovenfor Peters Saga Cap 66. 68.* 2 natus *Cd.*

þu gerer mér husbunoþ oc buer clęþi, ef menn muno bera at høndom þer, oc mun þér þat alt saman verþa gott til fiar.“ Mathidia gerþi, sem hon var beþin. Þaþan fra boro menn at henne clęþi morg til gerþar. En hon gerþi sva, at hveriom var vel at[1] scapi, þeim es atti. Þat varþ of unga menn, es sa hana oc asiono hennar oc handnørþer a hverian veg vel gervar oc hørþo orþalag hennar vitrligt, at þeir løgþo a hana astarhug mikinn. En hon veic undan at hafa þyþleíc ne einn viþ þá. En þeir costgøfþo eigi at miþr at geta ost af henne. En þat varþ henne firer of dag, at hon fór i fiøro oc toc steina hvassa oc barþi þeim i andlit sér, svat hon varþ øll blá oc bloþog of andlit. Siþan tóc hon hinnu þunna eþa roþ af fiske oc þanþi of andlit sér oc gerþi sic sem enndimligsta a at sia. Hon meidde oc hendr sinar meþ griote, at hon var til engrar syslo før þeirar es vanda scylde. Siþan fór hon til herbergis sins oc létzc vera orþen firer vanheilso. En þat harmaþe husfreyia hennar fyrst acafliga oc gørþi viþ hana vel oc miscunnsamlega of stundar sacar, en þaþan fra leiþ eigi langt, unz hon lagþi á viþ hana orøcþ micla oc gaf at henne engi gaum.

Mathidia fann þat bratt, at þa matte eki þar lengr vera viþ vanheilso þá es hon hafþe, þa for hon braut ór þorpe þvi oc gec til sevar. Þa sa hon hus litiþ þat riuca, þat lauc hon up oc hitte þar kono eina fatøkia, er sat viþ gløþr, oc qvade hon þa fyrre. Hon svaraþe oc melte: „Vel þu comen, drotning min! Alt mitt scal þitt vera. Ertu husfreyia en rumverska, su er comt ein a land, þa er alt førunayti þitt forsc. Micill harmr es þat, er þu ert sva aum orþen. Vestu meþ mér, sva lengi sem þu vill, oc scaldu ein aullo raþa þvi es ec á.“ Þeim orþom varþ Mathidia sva fegin, at hon feldi tór. Siþan melte hon viþ þa es firer bio: „Fir hvi ęs þu comen i cot þetta?“ Hon svaraþe: „Fir nøcqeriom vetrom mista ec buanda mins, svat viþ ottom engi erfingia. En ec vilda ein vera firer mér efter dag hans, fór ec af þvi a braut or borg oc baurluþumc her firer. Nu a ec akr necqern oc fá þá sauþe til atvinno mér. Ec hefi nu fengit licþra, oc ma ec nu eki at hafasc.“ Þa melte Mathidia: „Ec mun vera her oc hugga þic oc þiona þér, unz enn coma betri dagar ifer okr.“ En fra þeim dege fór Mathidia of þorp oc borger oc baþ firer þęr matar, oc burgosc þęr þa viþ þat. I þeim staþ hǫfþosc þęr viþ

[1] *Først skrevet* i, *men dette er underprikket af Afskriveren og* at *skrevet over.*

litils vant .xx. vetr, unz þęr fingo miscunn af fundi ens helga Petrs postola, sem siþar mun fra verþa sagt nacqvat.

4. [1]Nu scal þar til mals at taca, es Faustinianus (er) faþer þeira brøþra Faustus oc Faustinus, þa er hann spyrr tiþende þessi, at scip þat hafþe faritzc viþ Corpho, es kona hans var á oc søner. Hann hugþi, at þau mundo øll þar tapazc hafa Hann cunni þvi sva illa, at hann lagþesc i rekio af, oc þótte nér sem hann være af viti ginginn i harmi sinom. Þa fór Bassus broþer hans til fundar viþ hann oc lét megingóþvętliga, en ilt bió vnder. Hann qvadde broþor sinn bliþliga oc męlte: „Sé cc, broþer, at þu ert dapr harþla af mannamisse þeim, es þu hyggsc fengen hafa. En hit er raþ at huggasc oc gerasc staþramr viþ, þót þér þyki eigi alt at vilia þinom sialfs ganga. Kona þin hefer comet a land meþ miclom fiarhlutom, oc es nú i austrholfo heims langt a braut ýr Rumveria velde. Hon es nu gefen einom þrele þinom, þeim es lengi hefer vircþamaþr hennar verit.“ Viþ þessi tiþende varþ Faustinianus styggr mioc oc mátti lengi eigi orþi up coma. Hann settesc up oc melte: „Hvat ętlar þu, broþer, hver stiarna þvi mun valda meþ scaupum, er sva illa hever snuezc scap kono minnar?“ Bassus melte: „Gǫngom viþ i vircþahus þat, es viþ eigom oc alr stiornogangr es marcaþr i.“ En er þeir voro þingat comner, þa melte Bassus: „Sér þu nu her, broþer, hverso stiornornar ganga?“ Hann svaraþe: „Vist sc ec.“ Bassus melte: „Þikistu scilia mega, hvar Friggiar stiarna mun staþit hafa a getnaþartiþ eþa burþartiþ kono þinnar.“ Faustinianus melte: „Eki ma ec ǫtlon a slict coma firer harmi þeim, es ec hefic beþet.“ Þa melte Bassus: „Þat þykiomc ec vita, at a burþartiþ kono þinnar mun Friggiar stiarna staþet hafa i þeim staþ, sem sol kǫmr up, þa er dagr es scemstr. En su kona es sva verþr boren má at ǫngom coste raþvǫnd vera, ef hon verþr fultiþa.“ Viþ þessi orþ varþ Faustinianus oqveþi meþ øllo, oc viþ þat es hann sagþe[2] slict, oc vildi hann eki lengr røþa viþ broþor sinn. Hann tóc at heita a enn eina goþ, at hann scylde þvi sciota i hug honom, es honom gegnde hellzt, hvat hann legþi firer sic þaþan fra. Þa mintesc hann a þat, at hann hafþe velde ifer heroþom, þeim es liggia viþ Anthekio, honom þotte oc þaþra glícligast til, at hann mønde nacqvat mega spyria til kono sinnar eþa sona. Siþan bio hann scip miket oc scrautligt harþla oc gek þar a scip sialfr[3] meþ føruneýti miclo. Hann helt scipi þvi

[1] *Jvf. ovenfor Peters Saga Capp. 64—68 (S. 59³⁴ - 61³).* [2] dixit *Cd.* [3] ipse *Cd.*

i Griclandz haf, oc horfþesc fyrst miøc vǽnliga á a farlengþ hans, en hinn veg laúc þó, at of nott cayrþi scip þat i óþaveþre at biorgom nøcqeriom i ey þeire es Ciprus heiter, oc Norþmenn calla Kipr. Þa brotnaþe scip þat alt i sundr, oc tyndusc fiarhluter aller, þeir es a scipino voro, oc engi maþr comsc a land nema Faustinianus einn, oc varþ honom viþ bana sialfan. En er hann tóc hvild a lande oc lysa tóc, þa kende hann, hvar hann var comenn, hann gek i borg nøqera litla, oc fek hann goþar viþtøkur. En engi maþr kende hann þar. Hann gek þar i syslo micla, oc gerþesc hann þar varþmaþr i borg þeire Þa syslo hafþi hann .xviii. vetr eþa litlo miþr, unz þingat com Petrus postole oc kende honom tru retta.

5. [1] A are eno þriþia efter pining drottens oc a eno .x. áre veldis Tiberij keisera, þa com Barnabas postole af Jorsalalande a scipi til Rumaborgar, oc fór of nótt i stiga up i borgena Oc tóc hann þegar enn sama dag at bioþa tru rétta oc sanna, es hann com i borgena. En menn løgþo eigi miclar virþingar a tǫlor hans, þeir es til hlydo. Þar com fram maþr ungr oc buenn itarliga meþ riþerasvéit micla oc qvadde sér hlioþs. En hann hóf sva mál sitt: „Hvi verþr yþr þat firer Rumveriom at gera i gegn borgarsiþ oc løgom orom, oc taca eigi betr viþ ǫrendreca goþs, þeim es boþar hiolp oc heilso øllom heime, at þvi er ek hygg.“ Þa gatsc hlioþ gótt af alþyþo. Siþan laut sá inn unge maþr Barnabe postola oc qvadde hann a þessa lund: „Heildu oc vel comenn, heilagr[2] postole goþs [drottens vars Jesu Cristz[3]! Segþu oss fra hingatcomo Cristz i þenna heim oc fra burþ hans oc tócnom, þeim es hann gerþe, oc fra kenningom, fra piningo hans oc upriso af dauþa, fra upstigning til himna oc fra tilcomo [heilags anda[4], es hann gaf postolom sinom. Oc sva viliom ver, at þu seger oss fra annarre hingatcomo hans, þa er hann scal coma i enda veraldar at døma of manncyn oc lata hvern hafa þat es til gører meþ goþs miscunn.“ Þa tóc Barnabas postoli at greiþa þat mál alt, sem hann var beidr, oc hlyde þá øll alþyþa vel, unz hann lauc kenningo sinni, sem hann vilde. Siþan tóc sá inn ungi maþr viþ honom í herbergi sino oc fec honom alla reiþo gnogliga oc boþaþe þingat þeim mønnom øllom, es heyra vildo orþ goþs.

Fóm dogom siþar melte sá inn ungi husbuande viþ Barnaban

[1] *Jvf. ovenfor Peters Saga Capp. 50 - 73.* [2] sanctus *Cd.* [3] [domini nostri Jesu Cristi *Cd.* [4] [sancti spiritus *Cd.*

postola: „Ec vil segia þer deili a mér oc a cyni mino. Ec heiti Clemens, en faþer minn Faustinianus systrungr Augustus keisera. Ec varþveite at forraþe føþor mins alla føþorleifþ mína, oc emk nu halfþritøgr maþr at aldri. Nu vilia menn, sem þu sér sialfr[1], eigi miøc scipasc viþ kenningar þinar, oc má vera at sé af þvi, at þér se heldr annar staþar avøxtr at taca af kenningom þinom. Nu farþu í nafni drottens til Syrlandz, oc er þú fiþr inn helga Petr høfþingia postola, þa berþo honom qveþio mína røkiliga, oc seg sva, at á øþro áre mun ec coma til hans, ef ec life, oc mun ec biþia, at hann come hingat i borg þessa. Þat þyki mer arǫþilect, at goþ mun hafa ętlat at senda sinn inn hęsta postola oc ørendreka í ena øzto høfoþborg heimsens at snua þeim lyþ til goþs, es þessa borg byggver.

Efter þat let Clemens bua farscost goþan til handa Barnabe postola oc fec alla reiþo a scip þat, þa er hann þurfti at hafa. Siþan leide Clemens Barnaban til scips oc baþ honom vel farasc, oc fal sic meþ tarom under bøner hans, es þeir scilþosc. En scip, þat er barnabas postole var á, fór greít unz þat[2] nam staþar firer utan haf i borg þeire, es Cesarea heiter. Þar var Petrus postoli firer oc i husom þess manz, es Zacheus heiter oc þa hafþi byscopdóm teket ifer þeire borg af Petro postola. Sa enn same Zacheus es nefndr in evangelio til þess, at hann gerþi fǫgnoþ [drotne orom[3] i husom sinom i borg þeire, es Jericho heiter.

En a øþro are com til þeirar borgar ennar sømo af Rumaborg Clemens frende Augusto (!) k(e)isera oc sønr Faustinianus oc Mathidie. Viþ honom tóco aller borgarmenn vel, oc alra bazt þeir es cristner voro. Þa minntesc Barnabas postole a þat, hverso vel Clemens hafþi hans mólom teket i Rumaborg. Hann fylgþi honom a fund Petrs postola, en hann toc viþ honom feginsamliga vel. En fóm døgom siþar var þing fiølment a stręti nęr husom þeim es Zacheus byscop atte. I borgenne var støpull hór miøc. Þar hafþe herberge i støple þeim Simon enn ille oc enn fiolcunge, oc vera lezc craftr goþs. Hann talþesc vera solen siolf[4], en kono sina callaþe hann tungl vera, es qvenkendo namni heiter luna a latino tungo. Stiørnor þęr .v. er løsar fara i lofte oc planete heita at bócmále, talþe hann þęr ambatter vera kono sinnar. Simon inn ille hafþe fyrst scirn teket af Philippo, es .i. var af diacnom .vii. enom fyrstom. Siþan var hann bannzetr af postolom drottens Petro oc Johanne, firer þat at hann hugþesc at fecaupom

1 ipse *Cd.* 2 com *tilf. Cd.* 3 [domino nostro *Cd.* 4 ipsa *Cd.*

myndo gera helgan anda, vilde hann hans gifter fé caupa oc viþ fe selia i gegn þvi es drottenn melte viþ postola sína of helgan anda: At vingiøf[1] oc ǫst heilagre þogot ér helgan anda, enda scolot ér felaust veita.

En a nemndom dege com Petrus postole goþs til þings oc gec at þingstøþenne neþan fra sio. Þingat com oc Clemens meþ micla svéit, þa er under Romveria voro haller. Þar com oc Simon inn ille meþ sveit sina, oc sat hann á ofanverþo strę̣ti i nónd viþ støpul sinn. A þingi þvi reis up Petr postole fyrstr allra manna oc qvadde allan lyþ a þessa lund: „Friþr se yþr øllom, es af øllo hiarta oc af øllom crafte elscit drotten goþ yþvarn.“ Þa svaraþe Simon magus: „Eigi þurvom vér friþ af þer at þiggia.“ Þa melte Petrus: „Fir hvi mattu eigi heyra friþ boþaþan? Af synþom oc af laustom hlyzc iamnan sundrþyke[2] oc bardage, en friþe fylgia aller coster oc øll friþende.“ Þa melte Simon: „Hitt es nu raþ, at þu ger onýtt mál mitt, ef þu mátt nøcqeria flørþ finna í orþom minom. Ec mun oc costa at onýta kenningar þinar, es loclayso einne loþa saman, oc mun ec sýna, hvat et sanna er, (at) til þurftar oc til hialpar sé allre alþyþo.“ Þá melte Petrus: „Førom viþ fram oc þa mól okor meþ hófseme oc scapgøþe.“ Simon svaraþe: „Ensces ero verþ mal þín øll.“

Þá callaþe sá enn illi carl Simon. hótt meþ øllo oc melte: „Hlyþet mér aller menn, þeir es her eroþ comner. Ec emc craftr almattex scapera. Ec comk af himnom ofan oc vasc getenn i qviþi kono þeirre, es Rakel het. Hon føde mic .x. vetr vandliga. En .i. hvern dag selde hon i hønd mer sigþ, oc sende hon mic til cornscurþar. Ec com til acrsens oc melta ec viþ sigþenn: Scerþu nu cornet. Hann scar acrenn eigi seinna en .x. menn. Mér es hlyþen øll scepna til þess es ec vil. Ec ma fliúga i lofte i ellz like. Ec gere sva, at aldentre eþa acr rennr þar up sem ec vil. Ec ma fara i gegnom fioll, hvars ec vil. At boþorþe mino hlę̣ia licnesce, þau es ger ero ór tre eþa ór malme, oc hrørasc þau oc mę̣la, ef ec byþ þat. Ec scipte iferlitom minom, ef ec vil, svat ec synome stundom gamall maþr oc scegiaþr miøc oc hárr, en stundom fultiþe maþr oc nacqvat scegiaþr, en stundom synome ec gransprettingr eþa yngre, oc sva ungr oc stundom ungmenne. Stundom bregþ ec a mic kycqvenda like ymissa, fogla eþa orma, fiska eþa dýra, nauta eþa hrossa, hruta eþa hafra.“

[1] vinbgiøf (*opr.* vmbgiøf) *Cd.* [2] syndrþyke *Cd.*

Þa er Simon talþe slict firer lyþnom, þa andsvaraþe Petrus postole: „Synesc yþr eigi sem sia sialfr diøfols maþr lyse ifer fiolcynge sinne oc flęrþ i sinom orþom, en eigi of godome þeim es hann lezc hafa oc hann hefer þo at øngom coste.“ Lyþrenn svaraþe: „At viso sýnesc oss svá.“ Þa melte Petrus viþ Simon: „Hviliker muno þeir menn verþa, es hverfa efter þér?“ Simon svaraþe: „Sva sem ec em siálfr eilifr oc odauþlegr, sva muno oc aller miner menn aldregi deýia.“ Petrus melte: „Hvárt truer þu upriso dauþra manna?“ Simon svaraþe: „Eigi, eigi.“ Petrus melte: „Hvi vildo liuga? Þat veit ec, at þu hefer i vitom þinom lic barns, þess es þu sialfr [1] banaþer, oc gengr þu viþ þat til frettar. En ór þeim enom litla búc veiter diøfull þér andsvǫr of þa hluti, es þu spyrr at. Førom vér nu, es a Cristum truum, oc rannsøcom vit Simonar, oc vitom hvat vér finnom þar.“

Þa er Petrus melte þessi orþ, þa syndesc mønnom sva sem Simon flygi i lopt up, enda hvarf hann allr hia støpli sinom. Þa var oc comet at nott, oc tóc þa at myrqva miøc, es Simon hvarf. Þa melti Petrus viþ allan lyþ: „Nu mego þer siá, at Simon vill eigi lata randzaca vit sín. Faret ér nu i goþs friþe, hverr i hus sitt, oc comit til mín at morne ardeges, þa scolot ér heýra formęli mit, oc þa mun lysasc firer yþr saþr goþs craftr til hialpar øndom yþrom oc licømom, oc heþan af mun eyþasc atrunoþr viþ Simon, af þvi at menn mego aller vita, meþ hve micil svic hann ferr.“

Annan dag efter com fiolþe manna a fund Petrs postola ardeges. En þa var Simon horfenn ór borgenne meþ alt sit, oc lengi siþan visso menn eki til hans i þeim heroþom. Þann dag talþe Petrus lengi firer lyþnom oc gerþe cunna [2] alre alþyþo flęrþ Simonar. Þa gaf hann oc heilso morgom siúcom monnom, þeir es þar como til hans. Þaþan cristnaþesc fiøiþe manna oc tóc scirn i namne drottens. Oc þa var Clemens scirþr oc alt føruneyti hans, oc rezc hann til fylgio viþ Petr postola (oc baþ hann Petr postola), at hann scylde fara til Rumaborgar at boþa þar goþs ørende þeim monnom, es þar vilde heyra. En hann lezc fyrst mundo reca goþs ørende a Gyþinga lande, sva sem honom var boþet af goþe, en lox lét hann vón, at hann mynde vitia Rumaborgar a firerętlaþ(r)i tiþ af goþe, oc callaþesc hann þar møndo enda lif sit at goþs vilia.

Siþan boþaþe Petr postole goþs namn of Gyþinga land alt oc of Syrland, oc of Griclandz eyiar oc þau heroþ, es þar ero i nond.

1 ipse *Cd.* 2 flęrþ *tilf. Cd.*

En Clemens fylgþe honom, hvar sem hann fór. Þeir Niceta oc Aqvila brøþr Clementis voro þa iamnan i fylgio meþ Petro, oc cønnoþosc[1] þeir þó eki viþ Clementem i þann tiþ, at þeir være brøþr hans.

Sva bar at, at scip, þat es Petrus postole var á, com viþ ey þá es Corpho heiter. Þa er þeir dvolþosc þar i einni hverre høfn, þa gengo þeir Niceta oc Aqvila of dag a land up. Þeir como þar es leicstefna nøcqer var fiølmenn, oc toco þeir at boþa þeim monnom a fund Petrs postola, es heyra vildo goþs orþ eþa kenning helga, eþa fa bót meina sinna, þeir es þar være vanheiler. Þar com Mathidia at gangande oc nemndesc ǫþro na(m)ne en hon átte. Hon melte viþ þá Nicetam oc Aqvilam: „Hvers vętte þit, hvart mér món at nøcqerri hialp verþa, ef ec cømc a fund Petrs postola.“ Þeir svoroþo: „Ef þu ert saþr þurvamaþr, enda vildo trua a Jesum Cristum son goþs, þa mundo vist miscunn fá af funde hans, sem aller þeir es at flęrþlauso vilia hans kenningar heýra oc hafa.“

Annars dags com Mathidia af tilvison þeira a fund Petrs postola oc fell til fóta honom oc baþ hann olmosogiafar. Petrus melte: „Af hvi þarftu at þiggia olmosogiafar eigi oheileg kona nu, at þvi es mer synesc.“ Hon svaraþe: “Freyia min es vanheil oc licþro, oc vinn ec til reiþo oer boþom. Af þvi biþ ec þic olmosogiafa.“ Petrus melte: „Hvat scylder þic til at vinna firer kono þeire?“ Þa er Mathidia scylde þat segia, þa comsc hon viþ acaflega miøc oc mátte øngo orþe up coma. Þa melte Petrus postole: „Þat er ętlon mín, at þu munt verit hafa kona gøfug at metorþom oc auþeg, en nu cǫmr þér i hug ęfi þin en fyrre, oc scamasc þu nu valaþs þins oc vesalþar, er nu es ifer þic comen.“ Mathidia melte: „Rétt ętlar þu nu, herre mïnn,“ qvat hon Mathidia viþ postolann. Petrus melte: „Come hingat husfreyia þin, oc sióm vér, hvat siþan geresc af.“ Þa var sýst til þess, at husfreyio hennar var fylgt þingat til fundar viþ Petr postola, oc var hon laugþ firer føtr postolans. Þa melte hann viþ þęr baþar: „Vilit it trua a goþ føþor almatcan oc a son hans Jesum Cristum [drotten varn[2] oc a helgan anda?“ Þęr svoroþo: „Vist monom viþ trua, sem þu kenner.“ Siþan signde Petrus ena siúco kono, oc varþ hon þegar heil af licþró sinne. En þvi nęst voro þęr scirþar baþar i namni þrenningar. Þa fór su kona, es heilsona hafþe fengit, til frendliþs sins meþ leyvi Petrs[3] postola. Mathidia tóç

1 cønnoþesc *Cd.* 2 [dominum nostrum *Cd.* 3 Petres *Cd.*

at biþia, at hon scylde ná at fylgia Petro postola, oc girndesc hon at heyra kenningar hans of daga, enda var henne þat veitt. Hon rezk þa i sveit meþ konom þeim helgom, es vóro i føronauti Petrs postola, en þeygi visso menn of stundar sacar, hver hon var.

En stundo siþar como þeir Petrus oc Clemens scipi sino viþ Kipr, þar voro þeir i hæfn nøcqerri eigi allscamma stund. En þar gec Petr postole up a land hvern dag oc baþsc þar firer løngom a biarge nøcqero, es nęr var høfnenne. Þar var oc vatnfall mikit einom megin hia biarge þvi. Þar com af lande ofan at gangande carl gamall oc hǫroscegge. En hann stoþ .iii. daga alla miøc sva i sømom sporom oc hlyde til bønahaldz postolans oc til formęlis þess es hann veitte þeim monnom, es til hans como. Karl sa melte eki orþ a þeim .iii.m dogom. En at aptne ens .iii.ia dags, þa er hann biosc braut at ganga, þa melte hann þessi orþ of Petr[1] postola oc of fauroneyti hans: „Þesser ero menn goþer oc staþfaster i scaphøfnom sinom oc muno vera eigi vitrer, at þvi [es mer] virþesc" Þau orþ hørþe Petrus oc melte viþ sina menn: „Taket ér carl þann oc førit mer." Þeir toco carl þann siþan oc førþo honom. Þa melte Petrus: „Hverr er þu firer þer, fostre?" Hann svaraþe: „Ec emc varþcarl einn fatøcr oc rumverscr at cyne." Petrus melte: „Hvaþan af callar (þu) ǫss menn goþa oc geþfasta oc þo ovitra?" Karl svaraþe: „Þvi calla ec yþr goþa oc geþfasta, at ec heyrþa hve litellatliga oc hvé ohrapallega ér męltozc firer viþ goþ yþvarn, ma ec oc scilia af malsendom yþrom, at ér elscit raþvende oc gøzco, en ér hatit odaþer oc ilzco. En af þvi calla ec yþr ovitra menn, at mer virþesc sva sem ér callit mann i. dauþan vera goþ yþvarn, oc truiþ ér a hann sem a goþ. En þat ma hverr maþr vitr scilia, at .i. es goþ almattegr[2] oc obrigþlegr." Petrus męlte: „Þu callar ǫss ovitra menn, firer þvi at vér truum a mann dauþan. En ec cann þer þat segia, at hvartke þu ne annarr maþr ma alvitr vera nema hann scili þat, at sa enn same maþr, er þu callar dauþan oc vér truum á, es bøþe maþr dauþlegr oc goþ lifande almattegr[2] oc obrigþlegr." Karl melte: „Hverso meget ér slict satt vinna, ofroþer menn oc iþrottalauser?" Petrus męlte: „Þat vil ec, at þu dvelisc meþ ǫss nøcqeria stund of daga, oc mon ec fa mann til af liþe mino oc fauroneyti at reýna iþrotter þinar." Karl melte: „Gørþu sva, ef þu vill."

Annan dag efter lét Petrus Clementem coma til máls viþ

1 Petrs *Cd.* 2 omnipotens *Cd.*

carl þann, firer þvi at hann þótte algerr at ser of allar iþrotter, þęr er Rumveriom voro tiþar at kunna. Þá toco þeir Clemens oc carl sa enn gamle at cannasc viþ of iþrotter. En sva reyndesc, at hvartvegge kunni allar iþrotter þér er spekingar voro vaner at cunna i þann tiþ. Siþan løgþo þeir fram firer sic enn fyrsta dag iþrott þa er gramatica heiter, oc kenner hon hve retliga scal at hverio orþi qveþa, oc hve øll orþ hneigiasc a latino tungo. Þa iþrótt foro þeir alla ifer enn fyrsta dag Annan dag tóco þeir þá iþrótt at rannsaca er rethorica heiter, hon kenner malsnild alla. En þriþia dag gec fram dialectica, es þrølor cann scilia. En fiorþa dag foro þeir ifer musicam, es saungsiþrótt er. Enn fimta dag var caunnot arithmetica, es tølvise alla greiþer. Enn setta dag gek fram geometria, er kenner hvé męla scal hęþ eþa dýpt, lengþ eþa breíd vel hvers hlutar Sva cannaþesc til, at allar iþrotter þęr kunni sa inn gamli carl necqve framarr en Clemens, oc cunno þeir þo baþer vel. En si[þarst] toco þeir at tala[1] of stiornoiþrott, es astronomia[2] heiter. E[n þo] vilde inn gamle carl eyfit lata af leiþasc at røþa of þa iþrottena. Þat fann Clemens oc męlte viþ hann: „Hvart er, at þu[3] cant verr þessa iþrott en aþrar, eþa hvi lętr þu þér her sva fátt um finnasc?“ Karl svaraþe: „Þa iþrott þottomc ec bazt cunna, en þat hever mér miøc brugþezc, oc þykiomc ec nú mega ǫngo treystasc of iþrotter minar.“ Clemens melte: „I hvi hever þér þat mest brugþezc?“ Karl svaraþe: „Þat tregar mic miǫg at segia.“ Þa tóc Clemens miøc at grava þat mal viþ hann. Ennda var þa Petrus postole hiá malstefno þeira, oc crafþe hann, at sá inn gamle maþr scylde segia, hvat ifer hann hafþe gengit. En honom þótte sva miket firer at rifia up harm sinn allan, þann es hann þottesc beþet[4] hafa, oc com hann traut orþe up. En þa męlte hann of siþer: „Ec átta mér kono goþa oc raþvanda, at þvi es ec ętlaþa, oc óttom viþ ocr .iii. sono. En hon viltesc ǫll fra mér, oc lagþe hon ilt firer sic. En broþer minn sannaþe þat firer mér af stiorno iþrott, at stiørnogangr hafþi sá .verit a burþartiþ hennar, at eigi være vón, at hon mętte raþvønd vera til elli sinnar. Siþan hefi ec allr firerorþet mic, enda trui ec nu eki a stiørnoiþrottena siþan.“ Petrus męlte: „Þat er villa micil, es þu ętlaþer at stiornogangr mynde raþa raþvende kono þinnar; þat hygg ec, at þu munt þat rett hafa ętlat, es þu hugþer kono þina goþa kono

1 taþa *Cd.* 2 astronona *Cd.* 3 þa *Cd.* 4 bøþet *Cd.*

vera oc raþvanda. Segþu nu mér sannlega alla athøfn þina, oc ma vera at þat verþi þér at necqveri huggon."

Þa melte hann sá inn gamli carl: „Ec heite Faustinianus, en kona mín hét Mathidia, sonr minn es Clemens." Þa tóc Clemens viþ at vacna oc at heilsa føþor sinom, oc varþ þar fagnafundr mikill meþ þeim feþgom. En þvi nęst com þat up, at þar var Mathidia i fauroneyti þeira Petrs postola, oc þar voro syner þeira Faustus oc Faustinus, es þa cølloþosc Niceta oc Aqvila. Þa verþr hvert þeira feþgina[1] auþro fegit, oc søgþosc sin a mille alt þat, es iver þau hafþe gengit, siþan er þau haufþo scilizc. En efter þat talþe Petrus postole tru fircr Faustiniano oc beide, at hann myndc scirn taca." En hann svaraþe: „Ec vil trua sva sem þu kenner, en sva freme vil ec scirn taca, es ec emc necqvi froþare at helgom ritningom, en ec sia enn." Þa reþsc Faustinianus til fauroneytis meþ Petro postola oc gerþisc honom sva hlyþinn oc sva hendelangr, sem hann være honom i barnøsco til lcringar seldr. Hann hafþi þa virþing micla af øllom monnom, þeim es Petro fylgþo, þót hann beresc sialfr[2] litiþ á.

I þann tiþ spurþe Petrus, at Simon inn ille, es magus var callaþr, vilti þioþ alla i Antiochia, svát þeir truþo hann at sønno goþ vera. En þeir cøstoþo niþr tru þeire allre, cs Petrus hafþe kent þeim. Þa fystesc Petrus at fara þingat, enda fór hann, unz hann com i borg þa á Jorsalalande, es Cesarea heiter. Þar hafþi Cornelius .c. høfþingi vald miket, sa cr Petrus hafþe scirþan. Hann veitti þar viþtekio(r) goþar Petro postola, oc hann fcc honom riþerasveít micla til føronautis i Anthekio. En er þcir nolgoþosc þingat, þa spurþo þeir, at borgarmennener ętlǫþo at banna Pctro inngøngo í borgena Anþekio af firertølom Simonar ens illa. Þa męlte Faustinianus viþ Petar postola: „Theophilus heiter maþr gøfugr i Anþekio, hann hever oft verit gestr minn i Rumaborg, ec hefi oc iamnan[3] verit at herbergi i husom hans, þa er ec hafþac velde of heroþom þessom, oc var vinátta okor einca goþ. Nu vil ec fara til fundar viþ hann, oc mun ec taca herbergi at hans. En þaþan af vętti ec, at viþ munom sva umb sysla, at þu munt ná inngaungo i borgena oc fauroneýti þitt." Petrus męlte: „Farþu ef þu vill. En þo fysi ec þic, at þu taker aþr scirn, þa vętti ec, at Simon myni eki mega þér til meins gera, þót it finnezc. En ella es mer von, at hann gere þér necqvet ogagn eþa geig." Faustinianus melte: „Eki meín mon hann of gera. Þa vil ec

1 friþgena *Cd.* 2 ipse *Cd.* 3 iamnat *Cd.*

scirn taca, er ec cǫm aftr til þín.“ Petrus melte: „Verþi sem goþ vill.“ Siþan fór Faustinianus til Anþekio, oc tóc Theophilus vel viþ honom. Hann hafþe fa daga þar verit, aþr hann gat snuit Theophilo fra øllom trunaþe viþ Simon, oc tóc hann up tru retta, sva sem Petrus postole hafþi kent honom fyrr meirr.

Sva barsc at .i. hvern dag, at þeir Faustinianus oc Simon gengosc at mote a strǫti, oc sa hvárr þeira annan, en eki mǫltosc þeir viþ. Faustinianus þottesc kenna blǫ́ necqern a andliti sér, es þeir gingosc at mote, sva[1] sem orpit være bleyto nøcqerri i andlit honom. En litlo siþar com hann i herbergi sitt oc hugþesc eki hafa scipazc at iverlitom sinom En hann var þo orþenn sva glicr Simone at asia, at engi matte maþr øþrom glicare vera en Faustinianus var Simoni, oc eigi kendo menn hvarn þeira só· En þegar es hann com í herbergi, þa callaþe Theophilus oc melte: „Dragstu út heþan, diofuls maþr! Engva dvol scaltu her hafa.“ Faustinianus mǫlte: „Hvi qveþr þu mic sva hermiliga, husbuande?“ Theophilus mǫlte: „Ętlar þu at ec vita eigi, hverr þu ert firer þér, Simon inn ille oc enn fiǫlcunnge?“ Faustinianus mǫlte: „Faustinianus em ec, en eigi Simon inn ille.“ Theophilus melte: „Annan mattu ṡva blekia, en eigi mic, ec kenni þic fulgerla, hverr þu ert.“ Faustinianus mǫlte: „Hyggþu at fatabuningi minom oc clǫþom, oc kenn mic þaþan af, ef þu matt mic eigi at iverlitom kenna eþa asiono minne.“ Scm trauþast matti hann þvi til sannz coma firer Theophilo, at hann være eigi Simon magus. En er þeir þottosc sia baþer, hvaþan af hann hafþi mein fingit, þa reþo þeir þat, at hann fór a braut or borgenne sem sciotast oc a fund Petrs postola.

En er hann com þar, þa fell hann til fota postolanom oc mǫltc: „Veittu mér miscunn, herri minn, qvat Faustinianus, oc lát mic hafa iferlit min, þau sem ec hafþa áþr Simon spillte asiono minne.“ Petrus postole svaraþe: „Eke synesc mér brugþet vera iferlitom þinom. En þót øþrom monnom syncsc brugþit vera asiono þinne, þa er þér þat eki mein.“ Faustinianus mǫltc: „Hverr maþr hyggr mic enn versta mann vera, sa er mic sér.“ Petrus melte: „Þat it sama scal Simone verþa at miclo hløgi, es hann þykesc þér hafa til meins gert. Fylgþo nu róþum minom, qvat Petrus, tac þu nu blezon af mer, oc far siþan i Anþekio oc i hus Þeophili vinar þins, oc lat þar eki verþa vart viþ þic, fyrr en þu gengr þar fram a strǫti .i. hvern dag, þa er þar er fiolmenne mikit. Þu scal þa callasc vera Simon magus, þu scal

[1] ne *Cd.*

teliasc verþa scyldr til þess of sinn a hverio are at lysa siþo þina oc atgiørfe firer alþyþo. Siþan scal tu segia a hønd þér fiølcynge oc allar flerþer illar, þęr er ec kann þér segia, at Simon es saþr aþ. Þess vętti ec, at Simon mon coma at heyra a orþ þin. Hann mon eigi mega standasc tølo þina þessa, hann mon raþa til menn sina[1] at sciota at þer eþa gera þer necqern geig, ef þeir mego. Þu scal hafa aþr raþna til .ii. menn at halda firer þic scioldom oc hlifa þér, ef menn veita þér tilraþ. En ef þer verþa tilraþ veitt, þa costaþu at hverfa aþr a braut or borgenne sem sciotast, oc com siþan til min.“

En efter þessa tilscipon tóc Faustinianus blezon af Petro oc fór siþan i Anþekio oc háttaþe øllo sva sem Petrus bauþ honom. En er þar com, at hann stóþ a stręti oc talþesc Simon vera oc lysti iver odaþom sinom oc endemom[2], þa matesc (!) Simon magus þat eigi of standasc, hann lét sciota at honom ǫrom tvennom. En þar brugþu menn sciøldom viþ, es til voro setter at hlifa Faustiniano. Þa callaþe Faustinianus oc melte: „Nu mon ec hǫtta þesse røþo, en þvisa nęst mon ec synasc meþal yþvar a stręti.“ Viþ þessi orþ hvarf hann a braut alr, svat hann varþ hvergi litenn i borgenne þaþan fra. En lyþr, sa er aþr hafþi horft a hann, litaþesc umb, oc so þeir þá Simon standa a meþal sín. Þa toco þeir at rękia hann oc melto viþ hann: „Nu vitom vér, hverr svicare þu ert, hever þu nu sialfr[3] sagt efter þer undr oc endemi þau es enge[4] mego viþ iamnasc.“ En er hann vilde sialfr[3] svara firer sic, þa østesc øll alþyþa a hendr honom, oc cøstoþo þeir at honom griote oc trióm oc hvivetna, es þeir mótto til fa. I þeire rimmo tóco þeir borgarmenn Simon inn illa a braut ór Anþekio, svát hann efldesc þar eki siþan of aldr.

Faustinianus com bratt a fund Petrs postola oc sagþe honom þau tiþende, es gerzc høfþo i Antiochia, oc lét hann þess vón, at hann mynde þar fa goþar viþtøcor. En siþan sende Petrus postole Nicetam oc Aquilam i Anþekio at gera vart viþ, at hann var þingat a fǫr. En er borgarlyþrenn visse, at Petr postole nolgaþesc þingat, þa fóro aller ener gøfgusto menn langt a braut ór borgenne a mot Petro oc gingo berføtter oc i harcleþom oc syndo sva iþron sina Petro postola, firer þat es þeir høfþo horfit efter villo Simonar ens illa oc truat a flerþer hans oc ilzco.

Þa er Petrus com i borgena, þa dreif at honom alþyþa mannz, oc voro þar borner at honom siuker menn ymisligom sottom hvaþan ęva,

1 sinna *Cd.* 2 endemmum *Cd.* 3 ipse *Cd.* 4 engo *Cd.*

þeir er sér vętto haps oc heilso af verþleicom postolans oc iarteinom hans. Þa leit Petrus iver folc þat, es til hans var comet, oc þakaþe goþe tru þeira, þa er hann sa [algerva], es þa var comen i briost þeim. Siþan męlte Petrus postole viþ lyþenn: „Þat megot ér sia, at ec em maþr glicr yþr at øllo øþle oc at ostyrcleic licama mins. Nu scolot ér eigi þat hyggia, at ec mega geva yþr heilso af crapti minom; en ef ér iatit þvi, at Jesus Cristus [sonr goþs[1] lifanda gefr ýþr heilso, oc trueþ ér a hann af øllom hug, þa er vón at ér megit miscunn fá i hans namni.“ Þá iátte allr lyþr Cristo domino oc lezc buinn vera at gera þat alt, es Petrus vilde bioþa. En i þvi bili com lios miket af himne ofan iver allan lyþ, enda fingo þa þeir menn aller bót meina sinna, es siuker høfþo verit. Þa runno cryplingar at fotom Petro postola, oc øll alþyþa lovaþe [nafn Cristz drottens[2]. En þaþan fra fylgþe sva micill goþs craftr Petro postola, at a .vii. dogom enom nęstom toco .x. þusunder manna scirn meþ fullre tru til goþs.

Efter þat beide Theophilus enn cristnasti maþr i Antiochia Petar postola, at hann vigþi høll gøfugliga, es hann atte, til kirkio, enda fór þat fram. I þeire kirkio var setr stoll Petrs postola a þeim dege, sem nu er siþan halden Petrs messa a vár, oc þa saung þar Petr postole fýrstr messo allra manna, at þvi er bøcr segia. A þeim dege fell Faustinianus til fota Petrs postola firer allre alþyþo oc melte þesse orþ: „Nu þykia mér goþs orþ, þau er þu hever sagt i briost mér, vera buen til at gera góþan avøxt. Nu fysomc ec at taca scirn, oc vil ec siþan vera hlutakere heilagrar þionusto.“ Þa scirþe Petrus Faustinianum, oc þa tóc hann asiono sina, þa sem hann hafþi haft aþr Simon brygþe iverlitom hans. A þeim dege talþe Petrus lengi firer lyþnom oc hóf þar mál sitt, es Faustinianus var, oc gaf a honom dǫme øþrom monnom, hve hann var snuenn fra heiþnom dome af miscunn goþs til algørrar tru oc til dyrlegs lifs. En þaþan fra virde alþyþa Faustinianum sem engil goþs, oc marger menn þionuþo honom eki miþr en Petro postola. Ęve hans laúcsc meþ góþo oc kono hans oc suna i tru heilagre oc atferþ dyrligre at goþs vilia.

6. Petrus postole helt .vii. vetr byscopstol i Anthekio, en siþan com hann til Rumaborgar a þeim dogom, er Claudius var keisere iver øllom heime. Þar var hann fyrstr pave oc hafþe hann þat velde halvan þriþia tøg vetra. Clemens fylgþi honom miøc sva alla ęve þaþan fra, er hann com til fundar viþ Petr

1 [filius dei *Cd.* 2 [nomen Cristi domini *Cd.*

postola. oc Clemens gerþi bóc þa of farahag oc iarteiner Petrs postola, es heiter Iterarium Petri, en þat þyþesc sem se farabóc Petrs. Sva seger boc, at a ofanverþom dogom Petrs postola þa com .i. hvern dag fiolþe manna a fund Petrs postola at heyra formęli hans oc kenning. Þa reis Petrus up a mannfunde þeim enom fiolmenna, oc toc hann hønd Clemens oc melte siþan: „Þat hever drottenn[1] vitrat mér, at nu nolgasc miǫc andlaztiþ min. Nu set ec þenna mann Clementem i stol minn at stýra oc at raþa allre Rumaborgar cristne, oc honom byþ ec at halda up kenningom helgom oc boþorþom guþs øllom efter dag minn meþ velde þvi, es ec hevi teket af lerifeþr minom oc drotne[2] Jesu Cristo at binda oc leysa alt þat es ec vil a himne oc a iǫrþo. Sia maþr hevir mér fylgt miǫc langa ęve vel oc truliga, oc veit ec hann bazt til fallenn at sitia i stole minom firer tru sacar oc vitrleix oc gøzco.“ Þa setti hann Clementęm i stol sinn oc lagþe hendr sinar i høfot honom meþ blezon heilagre þeire, at hann vigþe hann til byscops oc til pava iver alre cristne. Þa minnte Petrus pave Clemens á miǫc morgom orþom, hverso hann scy(l)de halda byscopdom eþa hvé hann scilde(!) stýra cristne þeire, es hann var þa iver setr.

Þaþan fra leiþ eigi langt sceiþ, unnz goþs unnande Petrus postole lét lif sit firer ena holei'osto ǫ́st viþ inn almatca goþ, [sva sem sialfr drottenn[3] hafþe vitrat honom. Enn fyrste pave af Petro vigþr oc til kǫrenn var Linus, oc var hann litla stund. En annarr pave var Cletus efter Linum at forraþe Petrs postola, oc lifþe scamma stund. Enn þriþi pave fra Petro var sia inn gøfge Clemens sonr Faustinianus ens mesta spekings, oc hann var sonr Mathidie[4] ennar cynstørsto kono oc dasamlega raþvandrar sva sem fyrr var fra sagt.

7. En sia en helgi ęttarbøter Clemens glicþi atferþ sina oc kenningar helgar efter Petro postola lerifeþr sinom, oc Clemens pave hafþe ost oc elsco micla af Gyþingom oc heiþnom monnom sva sem af cristno folke. Heiþner menn elscoþo Clemens af þvi, at hann følde eigi siþ þeira, heldr synde hann þeim meþ micille scynseme af þeira bócom sialvra, hverso illa oc flǫrþsamlega þeir Þórr eþa Oþenn eþa aþrer ęser voro getner, oc hverso illa oc herviliga þeir lifþo, oc dó siþan vesaliga heþan ór heime, oc ma þa af þvi ǫngom sannondom goþ calla. Clemens pave sagþi sva heiþnom monnom, at þeir mønde þegar ǫþlasc lien oc miscunn af goþe, es

1 dominus *Cd.* 2 domino *Cd.* 3 [sicut ipse dominus *Cd.* 4 Mathadie *Cd.*

þeir hyrfe fra blotom oc alre gœfgon viþ scurþgoþ sín. En Gyþingar elscǫþo Clemens pava af þvi, at hann lét vel of logum þeira oc sagþe langfeþr þeira vera helga menn oc goþs vine micla, oc qvat eigi myndo aþra fyrr øþlasc oc eignasc inngøngo himenrikis vistar, ef þeir tryþi þvi, es helger spamenn þeira høfþo spaþ oc firer sagt of hingatcomo Cristum (!) drottens[1] i heim þenna. En af heilagrė vitro oc goþe gefinne oc hyggeligre raþléitne teygþe Clemens pave Gyþinga oc heiþna menn til asthuþar viþ inn almatca goþ føþor oc son oc helgan anda, þann er bøþi er i. oc þrir, oc fek sva umb røt viþ allan lyþ, at sem sízt stygþesc hugr þeira viþ kenningar hans, oc svat ǫllom rynne sem mest astarhugr til heilagrar miscunnar[2] eingetens sonar goþs. En eigi hafþi hann þessi bliþmęli firer þeim søcom viþ lyþenn, at hann hredesc óger manna ne styriøld, firer þvi at Clemens boþaþi þar namn goþs oc tru retta, es hann visse áþr mesta heiþne vera oc scurþgoþa villo.

Oc af hans kenningo sneresc til tru retrar agęt kona, su er Theodora hét, oc com oft til kirkio oc þionaþi astsamlega oc vel goþe almatcom. En Sisinnius buande hennar Theodoro var grimmr maþr oc heiþenn. En .i. hvern dag gec Sisinnius af forvitnes søcom efter Theodoro kono sinne i ǫnnor kirkiodyrr. Enn er lerþer studo bøn pavans oc qvoþo amen, þa varþ Sisinnius þegar bøþi blindr oc daufr, oc melte sva viþ þiona sina, at þeir scylde taca i hendr honom oc leiþa hann a braut þaþan, þviat ec ma nú hvartki siá ne heyra. Þionar hans oc þrelar leido hann of kirkiona innan oc mótto eigi hitta út oc fundo eigi dyrr a kirkionne. Þeir foro sva oft i hring of kirkiona innan, unz þeir como þar of siþer, es Theodora var kona hans a bønom sinom. En er hon sa, hvar þeir foro meþ Sisinnium buanda hennar, þa veic hon fyrst fra funde þeira, oc ętlaþe hon, at Sisinnius mønde sia nacqvat, þviat hann hóf up augo sín sem heileýgr maþr. En þó sendi hon mann efter þeim at vita þat, hvat þeim være orþet til meins, es þeir foro sva ogreít. En er þeir svoroþo oc søgþo sva: „Þa er Sisinnius dominus varr vilde sia þa hluti oc héyra, es honom var eigi lofat heiþnom manne oc trulausom, þa tynde hann af þvi bøþi heýrn sinni oc sýn, oc mego nu aller sia þat, at ver hittom eigi leiþ ora ór kirkio út“ Theodóra fell a kne til bøųar sinnar, þa er hon heyrþe tiþende þessi søgþ oc baþ enn almatca goþ meþ tórom, at þeir mętte ganga ut or kirkionne. Þa melte Theodora viþ þrelana: „Takit ér nú i hendr Sisinnio oc leiþit hann heim,

[1] domini *Cd.* [2] misericordie *Cd.*

en ec mon halda sva bøn minne, sem ǫss gegni ollom bazt, oc scynda þegar heim, es tiþom es lokit.

Sveinarner toco i hendr herra sinom Sisinnio, sem Theodora bauþ þeim, oc leido heim til hallar sinnar. En þeir fóro siþan aftr til fundar viþ Theodoro scyndiliga oc saugþo henne Sisinnium vera beþe blindan oc daufan. Þa hvarf Theodora af nyio til bønar sinnar oc baþ honom þrasamliga goþ miscunnar[1] buanda sinom, oc fell hon til fóta Clemens pava, þegar er tiþom var lokit, oc sagþi buanda sinn vera beþe blindan oc daufan, þa er hann vilde forvitnasc of hage okra. Þa felde Clemens tór oc eggiaþe þa menn alla, es þar voro, at biþia firer Sisinnio, at goþ gęfi honom syn oc heyrn. Oc fór hann heim meþ Theodoro, es bǫn þeira var lokit, oc hafþi hann alt traust under goþe almatcom. En hiu hans øll Sisinnius stoþo gratande iver honom, oc máte hann eki til sia eþa heýra, es hiu hans heilsoþo Clemens pava oc Þeodoro. Þa hóf Clemens pave up augo sin til drottens[2] oc baþ Sisinnio [miscunnar goþ[3] oc melte a þessa lund: „[Drottenn minn[4] Jesus Cristus, þu [er gaft[5] postola þinom Petari himinrikis lukla, lęrifeþr minom oc meistera, oc þu heilagr goþ męlter sva viþ hann, at sa scal hverr leysasc a iǫrþo fra ǫllom meinom oc øþlasc eilifa miscunn af goþe feþr firer þit heilact arnaþarorþ oc himinrikis vist, er þu vill sva vera lata, en sa hverr bundenn oc fyrdømþr oc goþs flottamaþr verþa, er þit atqveþi es þat; bioþo nu, drottenn, at up lukesc augo þessa mannz oc eyro, þviat þu męlter sva: hverskis es ér biþit, truit ér þvi, cristner menn, at ér munoþ geta þat, es ér biþit, oc mun sva verþa. En þetta heit þit es vist sat, oc hever sva verit of allar veralder veralda.“ En er aller svoroþo, þeir er hia voro, oc qvoþo amen, þa lucosc þegar up augo Sisinnius oc eyro.

En er Sisinnius sá Clemens pava standa hia kono sinne, þa viltesc hugr hans miøc af micille ilzco oc afbryþe oc ętlaþi sva firer sér, at Clemens pave hefþi gervan hann mann blindan oc daufan af fiolcynge sinne. En af øþe þeire oc heimsco, es þa slo a hann Sisinnium, melte hann viþ þrela sina, at þeir scylde taca Clemens pava oc binda hann oc draga hann of øll stręti firer þa søc, es hann fiflde kono hans oc tóc sýn oc heyrn fra honom meþ fiolcynge sinne, sagþe Sisinnius. En þa þotosc þręlar hans draga Clemens pava aftr oc fram at stræetom, sva sem Sisinnius bauþ

1 misericordie *Cd.* 2 domini *Cd.* 3 [misericordie a deo *Cd.* 4 [dominus meus *Cd.* 5 [ert gaf *Cd.*

þeim herre þeira. En þar hlifþe goþ heilagr Clemens pafa astvin sinom, oc drógo þeir efter ser of streti stoka oc steina. Oc sva syndesc Sisinnio sem þrelom hans, at þeir dregi þar Clemens pafa. Enn þeir ener sǫmo hløgesmenn, es eigi visso hvat þeir gerþo [1], hlogo sva at honom sem at bandingia. En Sisinnius qvazc bana scyldo honom sem galdramonnom. „Macliga dragit ér nu stoka oc steina, sagþe Clemens pafe, þviat ér hafit steinhiǫrto oc trueþ a stoka oc steina.“ Þa veite Clemens pave blezon Theodoro, oc fór heim siþan oc melte sva viþ hana, at hon léte eigi af bøn sinne, aþr goþ heilagr miscunnaþe Sisinnio buanda hennar. Oc þa vitraþesc henne Theodoro, es hon var a bǫ́n sinne gratande, .i. hverr gamall maþr gøfuglegr miǫc at alite, oc sagþe henne sva: „Firer bǫner þinar oc gøzco mun buande þinn hialpasc, at þat synesc, es Póll broþer minn sagþe [2]: Helgasc mun otrur maþr oc vandr af kono sinne goþre oc trure, oc vánd kona mun batna af sinom manne goþom oc raþvóndom.“ En þa hvarf Petr postole braut fra henne.

En Sisinnius callaþe þegar a kono sina Theodoro, es hann sa hana, at þat sannaþesc, es Petr postole hafþi sagt henne, sva sem vón var at honom: „Biþþu nu [drotten goþ þinn [3], at hann biarge mér, þoat ec sia overþr, af sinne heilagre miscunn, oc se mer eigi reiþr, þviat afbryþes søcom gec ec efter þér i kirkio inn, oc tóc ec þegar víte a mér, þa er ec forvitnoþomc of þat at sia þa hluti oc heyra, es gerþosc i navisto Clemens pafa. Nu biþþu hann, þoat ec sia þess omaclegr, at hann come til fundar viþ mic, oc mega ec vita sanna tru, þviat mer syndesc sva oc þrelom minom, sem ver byndem pavann sialfan, þa er ver drogom stoka oc steina efter ǫss“ Þa for Theodora scyndiliga efter Clemens pafa oc sagþe [2] honom feginsamliga vitron þessa oc tiþende, es Petr postole hafþe sýnzc henne, oc hon sagþe [2] [fe]ginsøgu þar meþ, at Sisinnius mønde snuasc fra villo sinni, [sem] þegar gec efter, oc sende hann mic nu efter þer, at þu scylder coma þingat til fundar hans.

En Clemens dvalþi þa eigi oc fór feginn meþ henne. En Sisinnius tóc þa vegsamliga viþ honom, sem macligt var, es hann com þingat. Clemens pave talþi þa firer honom tru retta oc sanna oc hvat til andar heilso scylde vinna. En Sisinnius tóc þa at styrciasc i tru retre, oc fell hann til fóta Clemens pafa oc mẹlte siþan sva: „Þaker gerec nu sønnom goþe, sagþe [2] Sisinnius, oc

[1] oc *tilf. Cd.* [2] dixit *Cd.* [3] [dominum deum tuum *Cd.*

almatcom, þeim es mic let blindan verþa oc daufan firer otru mina, til þess at ec mega nu sia it sanna oc heyra en rettu boþorþ, þau er ec hafþa fyrr at scøpi haft. Oc es nu hreinsat hugscot mit fra øllom saure scurþgoþa villo, þviat þat es diofla leýni oc fylscne þeira scurþgoþ, þau er ver truþom miøc oc heimsliga á hingat til oc gaufguþom af allre aluþ, es verr var, en þau tęla alla þa menn, es þeim trua. En ec scal nu trua a Jesum Cristum sannan goþ a himnom.“ Þa føgnuþo aller cristner menn, es hugr hans scylde sva vel scipazc hava a litelli stundo. En Sisinnius tóc þa scirn, oc hiu hans voro scirþ at poscom. En þar[1] var alt saman .xvi. monnom fęra en .xiii. þusunder. Oc sia Sisinnius snere siþan morgom gøfgom monnom til retrar tru af orþom sinom oc goþom firertølom oc þeim iarteinom, es hann hafþi af goþe þegnar, oc af hans miscunn oc af kenningom Clemens pafa.

Þa reidesc blótmaþr, sa er Publius Torqvatianus heiter, viþ þat, at hann sá otal manna snuasc fra scurþgoþa blótom oc til atrunaþar viþ eingetenn son goþs [drotten varn[2] Jesum Cristum. Publius bar fe mikil a rikismenn viþa i heroþom oc baþ þa gera ofriþ mikenn cristnom monnom. Oc þa gerþosc þretor miclar oc sundrþyke meþ Rumaborgar lyþ of Clemens pafa, oc gec liþit sveitom mioc, oc melto sumer menn sva: „Hvat hefer sia inn góþe goþs vinr Clemens illa gert, eþa hvat se þat goþra verca, es eigi geri siá goþs elscare, oc ferr hverr maþr feginn fra hans funde, þot hryggr come til hans. Oc siuker menn fara heiler fra Clemens pafa, þeir es hans astróþ søcia oc hafa siþan, oc taca þar bøþi heilso andar oc licama. Engom gerer hann grand ne geig, en hann duger ǫllom þeim es hans raþ elsca, oc farselesc hverr maþr af honom.“ Aþrer sveitarmenn svoroþo oc sǫgþo sva: „Af fiolcynge einne gerer hann slict alt, oc eyþer hann blotom orom oc alre dyrþ goþa varra. Oc osømer hann sva in gaufgo goþ or, at hann seger, at Þorr se eigi goþ fultrue varr oc en sterxte ǫ́ss aręþesfullr, oc er nęr hvars sem hann es blotenn; en þá osømþ oc ovirþing veiter hann Óþne orlausnafullom oc hvarfseme, at sia Clemens callar hann fianda oc ohreinan anda; en hann qveþr Freyio portkono verit hafa; føler hann Frey; en hrøper Heimdaull; lastar hann Loca meþ sløgþ sina oc vęlar, oc callar hann oc illan; hatar hann Høni; bølvar hann Baldri; tefr hann Tý; niþer hann Niorþ; illan seger hann Ull; flimter hann Frig; en hann gør Gefion; sekia dømer hann Sif. Fir ilzco sina qveþr hann

1 þars *Cd.* 2 dominum nostrum *Cd.*

svát orþe. Oc sia lagabriotr føler øll goþ ór oc lastar þau miøc oc gremr at ǫss, oc engi þeira asa ma hann heýra vel latenn, hvártke Þór ne Oþenn. Øllom bindr hann þeim iamnan sciøld up goþom orom oc callar øll ohęf meþ øllo, eþa hvart heyrþo þer mann slict męla fyrr? Blóte hann nu þegar í staþ, eþa hafe bana ella. Nu er sa domr várr allra of hann."

8. Þa lét Mamertus Julianus Rumaborgar greife leiþa Clemens pafa leyniliga til máls viþ sic, oc toc sva til orþa: „At alr Rumaborgar lyþr seger þig lasta miøc goþ ór oc vera mann fiǫlcungan oc vęldan miøc af villo þeire, es þu gøfgar Cristum necqern ocunnan mér, oc tekr þu up nybreýtni þa i gegn goþom orom oc i mót logom orom. Nu legþu niþr oscil þin ǫll, oc dyrca in gøfgo goþ ór." Heilagr[1] Clemens svaraþe vel oc hofsamliga orþom greifans: „Þess øski ec þér af tign þinne, at þu nemer[2] scynseme retta, oc røþþu heldr viþ mic of scynsemesmál en of þretor ocunna manna oc heimscra. Præta oc syndrþyki alt hefsc avalt af ogegnom monnom oc heimscom, oc má eigi til sannz ne eit of føra viþ þá. En i hlioþe scal spakr maþr oc vitr spyria oc hyggia þá at heilso sinne, oc leita meþ scynseme hugar þins ens sanna goþs, þess es þu mát alt traust viþ hafa."

Þa sendi Publius Torqvatianus efter viþrmęle þesse þeira Clemens oc Julianus greifa rit oc innsigli meþ sendimonnom sinom til Traiano keisera, oc sagþe[3] sva, „at mikit sundrþyki geresc meþ Rumaborgar monnom af kenningom Clemens pafa, oc spenr hann alt folc oc allan landher fra alre dýrþ goþa varra oc dregr i villo sina oc til atrunaþar viþ Cristum necqern, oc hann slęsc á it mesta amęle viþ Þór eþa Oþen, oc alla føler hann þa ęse oc øll goþ ór." En Traianus keisere sende þau orþ at móte, at Clemens scylde blota goþom þeira meþ sęmþ fullre eþa fara a braut ella yr Rumaborg of sę necqern til utlegþar oc i eyþimorc. En Clemens pave var heldr fúss til utlegþar oc meinlęta, en hann hrædesc viþ, þviat af ǫ́st þeire heilagre, es hann unni almatcom goþe, scein sva biart himenrikis sol i hiarta hans, at hann var fuss til allra meinlęta, þeira es goþ heilagr vilde lata at hende honom coma, þviat hann visse víst, at goþs miscunn mønde avalt meþ honom vera i hverre mannrøn oc þraút. En þa toc Clemens oc talþe meþ goþom vilia tru rétta oc sanna firer greifanom, svát hann comsc viþ miǫc of siþer greifenn oc felde tór acaflega, oc melte sva viþ Clemens, þviat goþs milde tøþe avalt mólom pavans:

[1] Sanctus *Cd.* [2] meger *Cd.* [3] dixit *Cd.*

„Goþ þinn, qvat greifenn, sa er þu truer á af øllom hug oc gaufgar vel oc truliga oc dyrcar miøc i øllo life þino oc athęfi, vere hann avalt meþ þér, oc efli hann þic til allra hluta oc farar þessar oc utlegþar.“ Oc gaf greifenn honom scip got oc þa reiþo alla, es honom var mest þaurf at hafa meþ sér til farar[1] þeirar, oc baþ hann fara i miscunnar fri(þe) goþs sins, þess er hann truþe á. En heiþner menn mátto eigi vatni halda, es Clemens pave scyldi sciliasc viþ þá. Sva var hann øllom monnom hugþekr oc astf'lgenn miøc, at hvert barn unni honom.

En siþan scipaþe Clemens scip þat es greifenn hafþi gefit honom. En honom varþ liþ auþfengt til farar meþ sér, sem vón var at, þviat marger cristner menn vildo giarna honom fylgia, sem þeir gerþo. Oc forsc þeim alt it greizta, unz þeir como i þann staþ, es Certona heiter. En þar var liþ mikit firer, meirr en .xx. hundroþ cristinna manna, oc i anauþ þeire, at þeir telgþo griót, oc voro þvi þiaþer sva miøc, at þeir truþo a Jesum Cristum. En er Clemens pave visse þat, at þeir voro af þvi landflótta oc utlager gerver, at þeir vildo eigi hafna ost viþ Cristum dominum oc tru retre, þa huggaþe Clemens þá meþ kenningom sinom oc melte sva viþ þa alla saman: „Macliga let Cristus [drottenn minn[2] mic hingat fara til yþvar, at ec taca huggon meþ yþr af goþe firer ór meinlęti.“ En þeir søgþo honom til sinna vandręþa, at þeir urþo .vi. milor allar at bera vatn a baki sér, þviat eigi getr nęrr sva, søgþo þeir. „Biþiom ver nu aller saman, sagþe[3] Clemens pafe, at [drottenn varr[4] Jesus Cristus luce up brunn goþan firer iaterom sinom, sa er forþom gaf Moisi vatn or steine oc lyþ sinom i ayþimorc, svát ver megim nú fagna goþom giøfom hans oc iarteinom, þviat hann mon veita oss miscunn sem øllom, es hann biþia nauþsynligra hluta meþ astsamre tru.“ En þa er þeir høfþo lokit bøn sinne, þa litaþesc Clemens umb, oc sá hann lamb standa til høgre handar sér a hóle einom, oc rétti lambit fót sinn oc tafsaþi honom, sva sem þar være vazt(!) vón under. Oc þa scilþe Clemens af crafte heilags anda, at goþ almattegr[5] synde honom einom lamb þat. En hann varþ þesse miscunn goþs oc syn fegenn miøc, oc fór hann þegar þingat sem goþ synde honom sit tacn oc melte sva viþ cristna menn, „at i þessom staþ gravit ér nú iǫrþena [i namne føþor[6] oc sonar oc anda heilags.“ En er þeir grovo þar iǫrþina miøc langa stund oc fundo eigi þann staþ, es lambit hafþe

1 ifarar *Cd.* 2 [dominus meus *Cd.* 3 dixit *Cd.* 4 [dominus noster *Cd* 5 omnipotens *Cd.* 6 [in nomine patris *Cd.*

tafsat, til þess at almattegr[1] goþ birti þat enn framarr oc berligarr, hverso miclo hęstan verþleic sia inn miscunnsamasti Clemens pafe hafþe viþ goþ a himnom, þa tóc Clemens pafe graftol i hønd sér oc hio tysvar palinom niþr under føtr lambino. En þar spratt þegar micil ó up oc fór rennande, þviat goþ dvalþi eigi miscunn sina, þegar es þęr enar helgo hendr oc enar litellato ęsto goþ giafar miscunsamligrar viþ sic. Oc lysti goþ ifer þvi, at af crafte oc verþleic ens helga Clemens veitte hann mesta þessa ena dasamlixto astgiøf viþ folkit. Þa ‚urþo þeir aller fegner iartein þesse, es goþ hafþi þeim veitta firer tru retta, oc sungo þeir hót lof goþe almatcom oc melto sva, at rennande ó gleþr borg goþs. Oc þa drifo marger heraþsmenn þingat, es þeir frago iarteiner þessar oc þeir so þessa ó renna oc up spretta, þar er þeir høfþo avalt vitat fyrr þurran staþ. En þeim bra mioc viþ þesse tiþende oc vel, es þeir knatto þar lita. En meþ þvi at goþ heilagr unni þeim monnom micillar farsęlo sva sem øllom auþrom, þeim es meþ goþfyse sótto a fund Clemens pafa, þviat af hans orþom fystesc sia alr mannabólcr [til lifanda goþs], es slicar vingiavar gefr oc veiter af sinni heilagre miscunn, [to]co þar tru oc scirn a þeim dege meirr en[2] .v. hunndrot manna, oc sva vel efldesc þar cristenn domr, at a þeim misserom var halfr atti tęgr kirkna þar gorr oc vigþar af kennimonnom, oc sva øll scurþgoþ broten i þeim heroþom oc øll hof eýd oc aller blótstallar brennder. Oc þa hlógo cristner menn at otru heiþinna manna oc blotom þeira.

En þvi nęst com su saga firer Traianum keisera, at otal manna sneresc til Cristz fra blotom af kenningo Clemens pava. Oc þa var domande sa sendr þingat af hende konongsens es Aufidianus hét, til þess at pina oc vega marga cristna menn. Enn er greivenn fann þat oc‸reynde, at þeir voro aller fuser ener cristno menn til pisla oc bana firer goþs sacar, þa vęgþi hann mannfiolþa þeim oc lét taca Clemens einn saman, en hann neyde aþra til blóta, sem hann mátte mest. En er hann sa hug Clemens pava staþfastan i tru heilagre oc a þionusto viþ goþ a himnom, þa melte hann viþ þiona sina oc þręla, at þeir scylde feria Clemens pava út a sió langt fra lande, oc binnda miket akere viþ háls honom oc saucqva honom sva niþr i siovar[3] diup, at eigi taki cristner menn at gøfga hann sem goþ. En siþan gripo þeir Gyþingar enn gøfga Clemens pafa oc røro út fra lande miøc langt. En siþan løgþo þeir hendr a Clemens oc bundo akere viþ háls

[1] omnipotens *Cd.* [2] in *Cd.* [3] siøvar *Cd.*

honom oc scuto þeim enom staþrama goþs cappa utan borz, oc gallt hann sva þa ena helgo ǿnd goþe, es fylgt hafþi þeim enom hreina licama, es þeir hǿfþo þa firer borþ lagþan.

En þa stoþo aller cristner menn a sęvarstrondo gratande efter, es þeir fǫrþo Clemens pafa til bana, oc voro í enni mesto sorgmǿþe hugar sins, es þeira astvinr var tekinn oc numenn or hǿndom þeim til meinlętis ogorlex bana, alt til þess unz lerisveinar hans Febus oc Cornelins huggoþo lyþenn oc melto sva: „Biþiom ver aller bréþr meþ einfǿldom hug, qvoþo þeir, at [drottenn varr[1] Jesus Cristus sýni ǫss piningarvatt sinn Clemens pafa.“ Oc fello þeir þar aller til iarþar oc boþo litellatliga goþ, at þeir knętte sia licama ens sęla Clemens pafa. En þa gerþosc þęr iarteiner enar hvarmiclo, at sęrenn fell út fra lande of .iii. milor. Oc þa gengo cristner þar efter meþ lofe ens hęsta goþs. Oc veitti goþ heilagr lyþ sinom þurra gauto, unz þeir como at mustere miclo oc itarligo harþla, [þvi er[2] englar goþs hǿfþo gert ýr marmara grióte. Þeir gengo inn i mustere þat oc dyrcoþo þann goþ, es þeim veitti [þat] firer verþleic oc dyrþ sanna Clemens pafa oc firer bǿner hans lerisveina, at [þeir] fundo þa licama Clemens pafa oc lagþan i nyia steinþro oc akere þar hia honom lagit niþr hia altare. Oc þęr runar fundosc a steinþro pavans, at þeir tǿki hann eigi a braut þaþan, þvi at sva myclo mest dyrþ (var) þessom enom itarliga goþs vin veit at greftre oc at þionustu heilagra[3] engla almattex goþs, sem nu ma heyra. Oc þęr iarteiner gerasc þar a hverio áre of hotiþ Clemens pafa, at sęr fellr út af lande, oc veiter goþ heilagr þar þurra gǿto at ganga til Clemenskirkio vico alla i samt. Firer verþleíc Clemens gefr goþ þa miscunn monnom til hialpar sér, at þeir dyrke þar goþ i þeim staþ oc inn helga Clemens pafa. En þa er menn hǿfþo lokit bǿn sinne þar, þa leto menn aftr vannliga kirkiodyrr efter sér, oc fór hverr heim a leiþ til sins herbergis. En sęr fell at lande hvinanda oc haf colblát meþ ǿllo efter ǿþi sino. En faþer sveinsens þess, es[4] somnaþr var i Clemenskirkio, þa er aþrer menn fóro a braut þaþan, oc moþer hans leitoþo sonar sins a meþal cuþra manna sinna oc cunningia, þviat þau saucnǿþo hans eigi fyrr, en þa es þaú voro heim a faur comen, oc vętto þess oc vilnoþosc, at hann mǿnde fylgt hafa nagrǿnnom þeira. En þau fundo hann eigi, sem gliclegt var, þviat sveinnenn svaf fast efter i mustereno, þa er annat liþ fór a braut þaþan. En faþer sveinsens oc moþer urþo harþla

[1] [dominus noster *Cd.* [2] [þ'r *Cd.* [3] sanctorum *Cd.* [4] er *tilf. Cd.*

daupr viþ tion sonar sins, oc ętloþo þau þat firer sér, at sęr mønde sveininom hava grandat i utanfør þeira, oc saucøþo sic of gløp sinn oc athugaleysi, es þau høfþo eigi gaþ sunar sins. En at iamlengþ annars vetrar Clemensdag sialfan, þa fell sęr ut fra lande at vanþa sinom, oc gingo menn þurrom fotom til Clemenskirkio. Oc como þau hiu þar fyrst til musteres allra manna, es sonar sins þottosc mist hafa. En þau urþo þa fegin, es sonr þeira var lifs i Clemenskirkio, oc rann hann þegar a mót þeim meþ enom mesta fagnaþe oc eno mesta astrike viþ bøþi þau fauþor sinn oc moþor. En þau spurþo son sinn at þvi, hverso hann of mętte sva lengi føzlolaust of lifa þar . . . . . .

---

*Tillæg 2.*

## SAGA AF PILATUS.

---

*Her hefr upp ok segir fra Tirus konungi ok af Pilato syni hans. capitulum*[1].

1. Tirus het konungr ættaðr af þeim þioðum, er Magutiensis ero kallaðar. Hann var af borg þeiri er Berseik het, hann kunni vel stiornuiþrott, sem þar er miok titt. Hann reið einn tima langt i brott æ dyraveiðar, ok eitt kvelld er nattmyrkr bannaði honum veiðiskapinn, ok var þo heiðr himinn, rannsakaði hann loptit ok gôngu stiarnanna, tið ok tima stundanna. Hann undirstendr af stiornuganginum, at ef hann ætti þa natt samræði við konu, mundi af hans bloði getaz sa maðr, at raðandi mundi verða margs folks ok heraða ok storum agiętr. Hann var fiarri staddr konu sinni, er Anna het, en hann villdi æigi missa þessa getnaðar; hann sendir sina menn i næstu borg at fa honum konu, þa sem honum væri sæmilig til hiabuðar. Þeir hitta æ eina mylnumannz dottur friða, er Sopila het, ok hvilldi hia honum um nattina. Ok siðan eptir rettan tima þaðan fra fæðir hon sveinbarn. En af þvi at þau Tyrus konungr voru æina natt æsamt, vissi hon æigi nafn

[1] *Her segir af þvi er Pilatus mannbickian var getinn B.*

hans ok matti æigi af hans nafni kalla son sinn, þi kallaði hon af sinu nafni sveininn Pilatum. Ok er hann var þrevetr, sendir hon hann feðr sinum, þviat sva hafði hann fyrir mællt. Nu fæðiz Pilatus þar upp með feðr sinum nærr iafnalldri broður sinum syni Anne; ok sva sem hann var fyrir þeim at moðurættinni, sva var hann ok æðri i allri atgervi. Þetta þolir Pilatus æigi betr, enn hann drepr broður sinn ok leynir. Enn þo kom þat upp um siðir, ok harmar konungr miok ok lætr stefna þing ok leitar doms um mál Pilati. Folkit allt kallar hann ulifissmann. Konungi þickir þa lagðr glæpr á glæp ofan. Hann tekr þat rað, at hann sendir hann i skatt til Romaborgar, þickiz hann þa firra sik sonar drapi enn leysaz undan skulld ok skatti. Ok er Pilatus kom i Romaborg, feck hann ser þann kompan, er Pagrinus het, son konungs af Franz, er enn var sendr fyrir skatt. Pagrinus þickir fyrir þeim i aullu, ok þvi lykr Pilatus sva með hann sem með broður sinn, at hann drepr hann. Þetta mislikar Romverium, ok vilia sumir lata drepa hann þegar, en sumum þotti hann val fallinn til formannz moti uvinum þeira, ok taka þat til raðs at setia hann yfir ey þa, er Pontus heitir. Þat folk var sva illt ok hart, at þat þoldi óngvan hófðingia yfir ser, ok þotti þeim val, hvart sem helldr væri, at hann bryti þeira þriotzku, eðr þeir gerði með hann eptir verðleikum ok dræpi hann. Nu skilr Pilatus, hversu Romveriar hafa sett hann i hættu, ok giętir sva til, at hann getr undir sik brotit folkit sumt með fegiofum, enn sumt með harðlyndi. Af þessu verðr hann miok agiętr, er hann feck þat folk tamit, er engin gat aðr, ok var siðan kallaðr Pontius Pilatus af eyiunni. I þenna tima rikti yfir Galilea ok Jerusalem ok aullu Judea Herodes tetrarcha, hann frettir framkvemd Pilati ok sendir honum orð, at hann kięmi til hans, ok heitr honum, ef hann kemr, riki yfir Judea. Pilatus ferr fyrst til Romaborgar ok gefr Tiberio keisara goðar giafir ok þiggr af honum lén yfir Judea, þat er Herodes hafði aðr boðit honum, ok þar með iarls nafn, ok ferr hann nu til Jerusalem. Þetta mislikar miok Herode konungi, ok reisiz nu mikill fiandskapr millum þeira, ok stoð sa til þess er guð var pindr. Herodes lætr eina konu sina, enn tekr Herodiam dottur konungs af Arabia ok broðurkonu sina. Um þat vandar Johannes baptista, ok fyrir þat lætr Herodes setia hann i myrkvastofu, ok .xii. manaðum siðarr lét hann hoggva hann, þviat hann hræddiz, at folkit mundi eptir hans orðum vikia ok hafa hann af rikinu. Litlu siðarr draga þeir mágar Philippus ok Arethe konungr lið

saman ok beriaz við Herodem, ok fellr allt lið Herodis, ok var honum þat guðlig hefnd fyrir drap Johannis baptiste, ok fyrir þenna osoma allan saman var Herodes rekinn af riki i utlegð Vienneborgar.

### *Fra Ruben ok konu hans er fæddi Judas skarioth*[1].

2. A dogum Herodis konungs var sa maðr i Judea af ætt[2] er Ruben het, enn kona hans het Ciborea. Þat var eina natt er hon hafði sofnað eptir samlag att með bonda sinn, ok er hon vaknar, grét hon sært. Ruben spurði, hvi sætti. Hon svaraði: „Ek þottumz vita, at skipti ock(u)r hofðu verit. Siðan þottumz ek sea barnit i kviði mer, ok vissa ek, at þat barn mundi verða tion ok tapan allz Gyðingalyðs.“ Ruben reiddiz ok mællti: „Þetta er annathvart talat af ærslum eðr fitonsanda.“ Hon sverr um sinn visdom, ok segir þat til marks, at „æ rettum tima man ek þetta barn fæða með miklum lifshaska, ok annathvart er, at hann er af mer dauðri tekinn, ella deyr hann tvennum dauða, enn folk vart fyrir hann sumt drepit enn allt hertekit.“ Nu liða stundir þar til er Ciborea fæðir sveinbarn með tvennum sárleik holldz ok hugar. Ruben veit æigi gloggt, hvern veg hann skal nu breyta, þickir afskapligt at tortima barninu, enda uraðligt upp at fæða til slikra luta, sem fyrir var spáð. Hann samtengir nu grimd ok milldi, hann gorir stock einn, ok bikar utan ok leggr sveininn þar i ok setr aa utan hanka, sem sagt var fra Moysy. Enn þo bar sina byrði hvarr stockrinn ok til uiafnrar frammkvęmdar. Hann kastar stockinum a sio ut. Veðr stoð af landi, ok rekr stockinn upp i ey þa er Skarioth heitir. Drottning eyiarinnar geck með strondinni, ok þeonostukonur hennar fundu stockinn ok barn liggianda i. Drottningin var sonlaus, enn barnit vænligt, þa baðu þeonostumenn hennar, at hon fæddi upp barnit ok segði sinn son vera. Hon ferr nu at hvila ok lætr sem hon hafi þetta barn fætt ok átt með bonda sinum, ok var þat aullum monnum mikill fagnaðr, ok er honum nafn gefit, ok kallaðr Judas skarioth af eyiunni. Litlu siðarr atti hon son með bonda sinum. Þeir vaxa upp baðir samt, ok var Judas harðleikinn, ok geck hinn gratandi undan. Þat þotti drottningu þungt, þviat hon vissi, hvat titt var, enn þorði æigi upp at bera. Enn þo um siðir segir hon. Ok er Judas veit þat, þickiz hann neistr ok svivirðr, ok fyrir þat drepr hann

1 *Her segir af þvi er Judas var getinn ok udæmum þeim er hann hendi B.*

2 *Aabent Rum i Codex for Ætnavnet.*

konungsson leyniliga ok liopz æ brott með þeim monnum, er skatt fluttu til Romveria. Judas ferr, unnz hann kemr til Pilatum ok bittz honum a hendi, ok af þvi at Pilatus hafði þa fundit mann með skap sitt, þa gerir hann Judam fehirði sinn ok ræðismann, sva at allt gerði hann með hans samþyckt, þvi at fastaztan felagskap gerir likr likum. Einn dag stendr Pilatus með holl sina ok ser i einn alldingarð lystiligan avðxt, ok sva mikil fyst kom at honum til þessa alldins, at lif hans lá við, ef hann feck eigi. Þa kallar hann til sin Judam kompán sinn ok biðr hann taka ser alldin i garðinn, ok segir at lif hans liggr með. Judas leypr i garðinn ok tekr alldinit. Þenna garð atti Ruben faðir hans. Hann leypr til ok mællti hart með Judam. En hann svaraði illa, ok slær i deilu með þeim ok illyrði, þviat hvargi þeira kannaz með annan, þar til er Judas slær Ruben með steini á halsbeinit, sva at þat brotnar, ok deyr Ruben. Ok er hann finnz, ætla menn hann orðinn braðdauðan. Pilatus ser nu, hve mikit hann let sik kosta at gera hans vilia, ok launar honum þvi, at hann gefr honum konu Rubens ok þar með alla eigu hans. Þetta þiggr hann ok fær Ciboream. Hon var iafnan i ryggu skapi, er hon kom i hvilu hia honum. Ok einn tima er þau koma i hvilu, spyrr hann, hvat hana angrar. Enn hon svarar sva: „Mart er mer til sorga. Ek atta son með bonda minum, ok var honum kastat a seo ut, ok for hann þar. Bonda minn fra ek braðdauðan, en þat er eitt er mer þickir mest, at ek skal mann hafa i moti vilia minum.“ Judas svaraði: „Ill efni munu i vera, ek man vera son þinn, enn þu moðir min, ok man ek hafa myrðan fôður minn enn haft at eiginkonu moður mina.“ Fær honum þetta nu mikils. Enn af fortôlum Ciboree ferr hann æ fund Jesu Kristz ok geriz hans lærisveinn ser til syndalausnar, ok geymdi þa olmosu, sem fatækum monnum var gefin, ok stal hann þar iafnan nockuru af, ok leiddi hann sva annan glæp aa annan ofan, þar til er hann selldi sealfan guð til dauða ok piningar, enn hengdi sealfan sik i snôru með ôrvilnan ok deyddi ok sprack i sundr af aumleik, ok fellu ut iðrin með illzku.

*Her segir fra Adrianus ok Vespasianum*[1].

3. Eptir pinsl ok dauða Jesu Kristz ok hans upprisu, þa ihugar Pilatus sitt mæl ok uggir reiði keisarans, fyrir þat er hann hafði til dauða dæmdan saklausan mann, sva nytsamligan aullu folki,

1 *Er Vespasianus læknadiz af kuikum B.*

sem Jesus var. Tok hann nu þat ræð, at hann sendir til Romaborgar þann mann er Adrianus het vin sinn með storfe at afsaka sik með[1] keisarann. Adrianus lætr i haf, ok rekr hann allt vestr til Galizulandz, þar sem nu hvilir hinn heilagi Jacobus postoli. Þar fyrir er settr Vespasianus einvalldzhôfðingi af Tiberio keisara. Þat voru þar lôg, at allt þat sem þar ræki a land upp skylldi vera vágrek, ok skylldu landzmenn bæði eigha valld æ fe ok monnum. Nu eru þeir Adrianus teknir ok leiddir fyrir Vespasianum. Adrianus mællti: „Herra! ek er nu kominn á yðvart valld, ok þvi biðr ek, at þer gefit oss miskunn ok frið at fara þagat, sem ver vilium, hvat er af fenu verðr.“ Vespasianus svaraði: „Hvaðan komtu eðr hvert villtu fara?“ Adrianus svaraði: „Ek em af Jerusalem, ok villda ek fara til Romaborgar, enn veðr bægði oss higat.“ Vespasianus mællti: „Seg mer, ertu þaðan sem menn eru vitrir, kanntu nockut af lækningum? Leyn mik æigi, ef þat er.“ Vespasianus hafði kvikur i nôsum allt fra þij sem hann var fæddr, enn þat mein kalla þeir vespas, ok þvi var hann kallaðr Vespasianus. Adrianus mællti: „Ongva bót ma ek þer vinna. Enn var sa dyrðligr maðr með oss, ef þu hefðir hann fundit, værir þu nu heill.“ Vespasianus svaraði: „Þu kant, ok þar við skal liggia lif þitt.“ Adrianus mællti: „Sa hinn sami er syn gaf blindum, heilsu siukum, hreinsaði likþra, græddi ok lifgaði dauða, leiðretti villta, hann veit, at ek kann enga lækning, ok hann man mik leysa undan lifshaska.“ Vespasianus mællti: „Hverr er sa, er þu segir þetta fra?“ Hann svaraði: „Jesus nazarenus, sa maðr sem mattugr var i orði ok verki, hann dæmdu Gyðingar til dauða ok krossfestu hann.“ Vespasianus mællti: „At visu truir ek, ef hann lifði, at ek væri þa heill nu.“ Adrianus mællti: „Enn muntu heill verða, ef þu truir hans krapti.“ Vespasianus mællti: „Sannliga truir ek, at sá má mik heilan gera, sem dauðum gaf lif.“ Ok þegar sem hann hafði þetta mællt, fellu allar kvikur or nôsum hans, ok varð hann þegar heill. Hann varð storfeginn ok mællti: „Oruggr em ek i þvi, at sa er guðs son, er mik græddi, ok þegar ek fær leyfi af keisaranum, skal ek fyrirkoma þeim niðingum, er þetta overkan hafa unnit. Enn þer ok þinu godzi gef ek frið, ok far nu heim aptr, enn ecki með þeim ôrindum, sem þer voru boðin.“ Hann gorir sva ok snyr nu aptr.

1 vid *B.*

*Fra Albano ok Veronico husfru*[1].

4. A þessum tima spurðiz i Romaborg, at i Judea i Jerusalem var sæ læknir, at alla siukleika gerði heila með orði einu. Keisarinn vænti ser þaðan liknar, þviat hann var likþrár, enn vissi æigi hvat titt var. Hann sendi þann mann Pilato iarli, er Albanus het, ok bað hann senda ser lækni þann, er Jesus het ok allt gerir heillt, at hann vinni honum bot sins meins. Albanus kemr a fund Pilati ok segir honum qveðiu keisarans ok orðsending. Pilatus verðr nu okveði við þessu ok biðr ser halfs manaðar frest til andsvara, ok þorði æigi at svara utan vitra manna rað, þviat þa var Jesus liflatinn, ok þorði hann æigi at segia þat Albano. Kona het Veronica, er i mikilli vingan var með Jesum, goð husfru ok ræðvônd. Hon segir Albano marga agięta luti fra Jesu ok kvað hann vera guð sinn ok drottin, „ok þa er hann var her, var hann mer huggan ok minu hyski, enn Pilatus dæmdi hann til krossfestingar ok dauða fyrir illvilia Gyðinga. Siðan reis hann upp a þriðia degi eptir pining sina ok syndiz sinum monnum, en æ .xl.da degi steig hann til himna upp.“ Albanus mællti: „Segir þu þann Jesum til himna hafa stigit, er Pilatus het at senda keisaranum?“ Veronica svaraði: „Pilatus uggir reiði keisarans, þvi at hann veit sik mest sakaðan um þetta mál.“ Albanus mællti: „Mikla eyrindlausu fer ek nu, er ek skal ôngva bot vinna minum herra keisaranum.“ Veronica svaraði: „Þa er minn herra ok meistari for um landit at kenna monnum retta tru, var þat stundum, at ek mista hans navistu, þa villda ek nôckura hans liking hafa mer til hugganar, ok þa villda ek færa duk einn einum skrifara, at hann pentaði þar æ drottins mins ææsconu. Þa mætta ek sealfum honum, ek er ek sagði honum spyrianda efni gongu minnar, þa tok hann dukinn or hendi mer ok strauk með andlit sitt ok feck mer siðan Ok var þa dukrinn markaðr fagrliga hans asionu ok likneskiu, ok væntir ek þess, ef keisarinn litr þenna duk, at hann fai heilsu sina.“ Albanus svaraði: „Er sia gersimi nockuru gulli eðr silfri samvirðilig?“ „Nei, segir hon, engum utan fastri tru ok fullum goðvilia.“ Albanus mællti: „Hvat er nu til ráðs?“ Veronica mællti: Ek man fara með þer ok syna keisaranum þessa guðliga ásionu.“ Þessu verðr Albanus feginn, ok foru þau til Romaborgar. Keisarinn verðr Albano sva feginn at hann heilsar honum fyrri, þviat hann ætlaði, at Jesus mundi þar vera með honum Albanus segir keisaranum, hvat titt var.

1 *Af forlogum Pilati ialls B.*

Keisarinn svaraði: „Hvart er mer þa engin ván lækningar?“ Albanus svaraði: „Agięt kona er her með mer, su er hans þeonostukona hefir verit, ok hefir hans likneskiu á einum duki með sealfs hans hendi skrifaða[1] með himneskum bætti þer til heilsubotar.“ Keisarinn bað þenna heilaga dom þegar til sin bera, ok let breiða fyrir allan veginn með pelli ok dyrum vefium[2]. Ok iafnskiott sem keisarinn sa þessa guðliga asionu, þa varð hann alheill. Veronica lofar guð fyrir sinar iartegnir. ok ferr hon siðan heim með miklum giôfum af keisaranum. Siðan lætr keisarinn stefna þing ok synir aullum guðs krapt æ ser ok bað, at Jesus væri tekinn i goða tôlu, þvi at sva sem sa einn er nu fullkominn i heilagra manna tolu, sem i Romaborg ok af pava er lôgtekinn, sva skylldi sa ok engin i goða tolu, sem æigi væri af Romverium logtekinn. Aulldungar villdu æigi þessu iata, þviat þeim þotti omerkilig alþyðu sogn um þetta Nu urðu þeir at raða, ok fyrir þessa sok let keisarinn suma senatores drepa, en gerði suma utlæga. Enn þat var þa siðr allra landa, at ef nockut bæri til merkiligt, skylldi hverr hôfðingi rita til Romveria, ok skylldu þeir fyrstir visir verða. Pilatus tekr nu þat rað, þa er hann ser, at eigi ma leynaz, at hann skrifar til Romaborgar til keisarans fyrst um iartegnagerð, um pining ok upprisu guðs sonar, ok vikr aullum saukum af ser ok á Gyðinga, ok væntir ser liknar af keisaranum, ef hann fyndi með honum sannindi ok einurð. Keisarinn lætr þetta bref upp lesa i Capitolio, ok biðr enn, at Jesus se hafðr i goða tôlu. Enn þeir voru enn samir sem fyrr, þviat þeir þottuz sviviršir i þessu, er alþyðu orðromr [lek aðr a[3], ok þotti þat nu aðrir dæma[4], sem þeir attu at dæma[4]. Tiberius keisari var iafnan siðan vinr truar ok kenningar Jesu.

*Her segir af Pilato iarli ok Gyðingum*[5].

5. Gyðingar satu nu hræddu hôfði fyrir Romverium ok settu margar sakvarnir fyrir sik, ok voldu ser til førmælanda hinn heilaga Stephanum, ok siðan tok hann tru af Petro postola en dauða af Gyðingum. Siðan snua Romveriar aullum fiandskap a Pilatum ok Gyðinga, ok eru at þeim hver fádæmi færð. Pilatus let færa likneski Tiberij keisara eina natt leyniliga i Salomons musteri til lotningar ok atrunaðar. Ok af þessu varð hann sva oþockaðr folkinu, at þeir sneru fullum fiandskap upp æ hann. Enn þo var

1 *Her beg. Fragm. C.* 2 klæðum *C.* 3 [kom aðr *C.* 4 dœma *C.* 5 *Af otta Gydinga B.*

þeim þetta sannlig hefnd af guði, er sva kolluðu i guðs sonar pinsl: Non habemus regem nisi cesarem. Gyðingar samnaz nu saman ok biðia Pilatum taka brott or musterinu likneskit. Pilatus setz yfir domstol sinn ok setr vapnaða riddara i kring um sik, hann heitr þeim drapi ok dauða, ef þeir mæla nockuru i moti. Enn þeir vilia helldr deyia enn þola þessa skomm. Ok er Pilatus sa þa orugga, let hann brott bera likneskit. Pilatus ser, at nauðigt var til vatz i Jerusalem ok vill leita ser frægðar. Hann let stemma upp eitt vatn mikit fiarri borginni ok veitir með eirtrumbum allt i borgina .ccc. skeiða. Til þersa kostnaðar tekr hann fe or Salomons musteri, þat sem guði var gefit til upphalldz ok pryði musterinu. Þetta likaði folkinu sva illa, at hellt við, at þeir mundu[1] ganga at Pilato. Pilatus bað sina menn koma ser i lið þeira, sva at þeir væri i klæðum yfir vapnum, ok vera[2] dreift her ok hvar .ii. eðr .iii. saman, ok hafa lurka i hondum, ok þa er iarlinn gerði þeim bending, lômdu riddararnir á .ii. hendr folkit, suma drapu þeir, enn suma særðu þeir, enn allir flyðu, þeir er lifit þagu. Nu geck illt ok illu verra yfir Gyðinga fyrir sinn glæp, sva at alldri geck af þeim sverð ok sut, ufriðr ok illzka, þar til er at endalykt gaf þeim yfirbreizl allra sinna harma ok kvala, þa er Jerusalem var upptekin af Romverium. Enn þo fellr niðr þessi athofn Pilati, þvi at Gyðingar hofðu aðr bref sent til keisarans ok sagt honum aull þau fadæmi, er Pilatus gerði með[3] þa, ok kveðaz æigi vilia hann hafa lengr yfir ser.

*Fra dauða Pilati iarls ok undrum eptir hann.*

*6.* Nu koma boð fra keisaranum, ok stefnir Pilato a sinn fund til Romaborgar. Hann ferr, ok þegar er hann kemr þar, er hann tekinn ok fiotraðr ok settr i dyflizu. Siðan a keisarinn stefnu við hofðingia, hvat af Pilato eðr Gyðingum skal gera, þottu hvarirtveggiu til dauða hafa gort. Þar var þa kominn Vespasianus ok eggiaði hvarumtveggium pinu, ok lykr sva, at þeir dæmdu dauða Pilato. Enn Vespasiano var uppgefit valld yfir Judea til hernaðar ok folkit allt til dauða ok þrældoms. Pilatus varð þessa varr, ok vill eigi biða [komandi skulu[4] harmkvæla, hann hafði lausar hendr i myrkrino, bregðr saxe, er hann hafði a ser, ok skerr a barka ser sva ogurliga, at driugum geck af honum hofuðit. Þetta var sagt keisaranum. Keisarinn mællti: „Sannliga hefir hann valit ser hinn versta dauða, er sealfs hans hônd tortimdi hans

1 *saal. B C*; mundi *A.* 2 *saal. C*; ver *A*, var *B.* 3 við *C.* 4 [koma skulandi *C.*

lifi.“ Lik hans var bundit við einn mylnustein ok sôkt niðr i ææna Tifr. Enn illzkufullir fiandr fagnaðu þessu bannsettu valningarkeri ok gera þar môrg undr yfir, syna hann stundum standa ææ ánni, stundum gora þeir þann okyrrleik [i vatnit[1], at þat fellr[2] með forsum ok bylgium, ok hverskonar læti voru þangat at heyra; stundum var þar i loptinu at sia, sem elldingar flygi eðr reiðarþrumur gengi, stundum var þangat at heyra brak ok brestir. Þetta þola hôfðingiar illa, ok draga menn hann brott or æænni ok til Vienneborgar, ok baðu sôckva i ææna Rodanum, þviat Vienne þyðiz gata helvitis, ok kvaðu maklikt[3], at bôlvaðr staðr tæki bôlvaðan buk. Æigi þoldu þeir þat lengi, þviat slikr illzkukraptr eðr meiri varð þar enn i Romaborg. Þeir flytia hann þaðan i þa borg, er Sosamne heitir. Litla rið hefir hann þar verit, aðr enn þar varð slikt eðr verra enn i hinum stoðunum. Siðan drogu þeir þenna fiandakrapt ææ ubygð fioll, þau er heita Septus Mons, þar er lukt um oðrum fiollum. Þeir socktu honum þar i einn diupan pytt. Þat er sogn þeira manna, er þar byggia næstir, at ecki fyrniz fiandanum enn til þessa dags um sitt valningarker at leika með allzkyns ognum ok aumligum latum, er þangat er at heyra, þviat hans pinsla er upphaf enn æigi endir.

---

## II.

### *A.*

1. Petrus postoli hofðingi annarra postola ok Andreas broðir hans voru Johans synir baðir ok ættaðir af heraði þvi er Galilea heitir, ok voru fiskimenn, aðr þeir komu til fylgðar með drottni varum Jesu Kristo. En guðspiôll segia fra þvi, hversu þeir voru kallaðir brøðr fra skipinu, en her er sagt fra Petro, er at sonnu er kendr durvôrðr himinrikis. Eitthvert sinn þa er mart lið kom til at heyra kenning Jesu Kristz, þa stoð hann hia sio þeim er Galilea sior heitir, ok sa hann þar skip tvau standa a strôndinni, en fiskimenn voru at bua net sin. Þa ste hann a skip þat er Simon atti, ok ytti þvi fra landi littat, til þess at eigi þrôngðiz menn at honum of miôk, ok þaðan talaði hann af skipinu.

1 [*tilf.* *C.* 2 fell allt *C.* 3 ok viðrkvæmiligt *tilf.* *C.*

Siðan mællti hann við Simon Petrum: „Roi þer a diup ok leysit net[1] yður til fiskiar.“ Petrus svaraði: „I alla nott hôfum ver mikit erviði haft ok fiskat ekki, en þo at þinu boði mun ek leysa netit.“ Ok þeir gerðu sva. En þegar toku þeir mikinn fiolda fiska, sva at net þeira slitnaði af. Þa kôlluðu þeir Petrus a felaga sina, er a landi voru ok annat skipit attu, Johannem ok Jacobum sonu Zebedei, at þeir kømi til at tøia þeim. Ok þeir komu til ok hloðu bæði skipin, sva at nær hugðu þeir, at sôkkva mundi. En er Simon Petrus sa þat, þa fell hann til knianna Jesu ok mællti við hann: „Far þu fra mer, drottinn, þviat ek em maðr syndugr.“ Jesus mællti við hann: „Hræðz eigi þu, þviat heðan i fra skaltu menn veiða.“ En er þeir komu at landi, þa fyrirletu þeir skip sin ok net ok allt þat er þeir attu af hvarutveggia skipinu, ok fylgðu drottni varum.

2. A annarri tið bauð Jesus lærisveinum sinum at stiga a skip ok fara fyrir ser yfir fiôrð nôkkurn, en hann sialfr for landveg. En at aptni var Jesus einn a landi, en lærisveinar voru a skipi a storum sia, ok mikit veðr i gegn þeim, ok borðuz þeir þar við, allt til þess er þriðiungr var af nott, ok fengu eigi land tekit. Þa kom Jesus gangandi a sionum at þeim. En er þeir sa hann ganga a sionum, hrædduz þeir ok ætluðu at skrimsl væri. Þa mællti hann til þeira: „Hafi þer traustit, þviat ek em, eigi skulu þer hræðaz.“ Þa svaraði Petrus: „Ef þu ert, drottinn, þa bioð þu mer, at ek koma til þin yfir sioinn.“ Jesus mællti: „Kom þu.“ Þa ste Petrus fyrir borð af skipi ok gekk a sionum til drottins. En er hann sa sio storan ok vind mikinn, þa hræddiz hann, ok þegar tok hann niðr at sokkva, ok kallaði a Jesum ok mællti: „Drottinn, gerðu mik holpinn!“ Þa retti drottinn hond sina til hans ok mællti við hann: „Litil er trua þin, fyrir hveria sok efaðir þu nu?“ En er þeir stigu a skip, þa fell þegar vindrinn af. En lærisveinar, er a skipinu voru, lutu drottni, er þeir kendu hann, ok mælltu: „Sannliga ertu sonr guðs lifanda, er vindr ok sior hlyðir boði þinu.“

3. Enn kom Jesus um dag til borgar þeirar, er heitir Cesarea Philippi, ok spurði lærisveina sina ok mællti: „Hvern segia menn vera son mannz?“ Þeir svoruðu: „Sumir segia Johannem baptista, sumir Heliam, sumir Hieremiam eða einnhvern af spamonnum.“ Jesus mællti enn við þa: „Hvern segi þer mik vera?“ Þa svaraði Simon Petrus: „Þu ert Kristus sonr guðs lifanda.“ Jesus

1 skip *Cd.*

mællti við hann: „Sæll ertu Simon dufu sonr, þviat eigi vitraði þer þetta holld ok bloð, helldr faðir minn er a himnum er. En ek segi þer, at þu skallt heita Petrus – en þat er steinn a vara tungu – ok mun ek yfir þann stein smiða kristni mina ok gera sva styrka, at eigi munu helvitis hlið mega i mot henni; ek gef þer lykla himinrikis, ok allt þat er þu bindr a iorðu, skal a himnum bundit.

I oðru guðspialli syndi drottinn Petri, hversu hann skylldi þessa velldis neyta, ok mællti við hann: „Ef broðir þinn misgerir við þik, þa hirtu hann sva, at þit set tveir saman. Holpit hefir þu honum, ef hann hlyðnaz þer. En ef hann hlyðnaz þer eigi, þa haf þu til með þer tva eða þria, at mal þitt se bundit með vitnum tveimr eða þrimr. En ef hann hlyðnaz þer þa eigi, þa seg þu at kirkiu fullri manna. En ef hann hlyðnaz þa eigi þer, þa se hann sem bersyndugr eða heiðinn.“ Þa mællti Petrus: „Ef broðir minn misgerir við mik opt hit sama, skal ek fyrirgefa honum siau sinnum?“ Jesus svaraði: „Eigi segi ek þer siau sinnum, helldr siau tigum sinna siau sinnum.“

4. A þeiri nott aðr Jesus var hôndlaðr ok til pislar leiddr, þa mællti hann við postola sina: „Allir munu þer við mik skiliaz eða styggiaz a þessarri nott, þviat þat er ritit: Drepinn mun hirðirinn, ok munu dreifaz sauðirnir.“ Petr svaraði: „Alldri mun ek styggiaz við þik, þo at allir styggiz aðrir.“ Jesus svaraði: „Satt segi ek þer, Petrus, at þu munt þrysvar neita mer a þessarri nott, aðr hani gali tvisvar.“ Petr svaraði: „Þo at ek ætta at deyia með þer, drottinn, þa munda ek eigi neita þer.“ En er sendimenn yfirgyðinga hôndluðu Jesum ok bundu, þa bra Petrus sverði ok hio eyra af einum þræli Gyðinga, ok syndi sva ôruggleik sinn. Jesus mællti við hann: „Fel þu sverð þitt i umgiorð, þviat hverr er sverði vegr, mun sverði sleginn verða.“ En Jesus grøddi þat sar. En er Jesus var leiddr i garðinn kennimanna Gyðinga, þa gekk Petrus eptir honum litlu siðar ok sat við gløðr ok vermdi sik, þviat veðr var kallt. Þa spurði ambatt nokkur hann, ef hann væri lærisveinn Jesu, ok þess spurði ônnur ambatt hann ok sagðiz kenna mælsku hans, at hann var galverskr, ok þat mællti kunningi eða frændi þess mannz, er Petrus hio eyra af, at hann sa hann um nottina með Jesu. En hann neitti i hvert sinn, er þau spurðu, ok kvaðz eigi vita, hverr Jesus var. Enda gol þa haninn. En þa leit Jesus til hans, ok mintiz þa Petrus orða Jesu, er hann hafði mællt, ok gekk ut ok gret beiskliga.

Su iðrun var sva þæg guði, at engill, sa er vitraði trufostum konum upprisu Kristz, nefndi Petrum einn a nafn allra postola ok mællti við konurnar: „Fari þer ok segit lærisveinum Kristz ok Petro, at hann er upprisinn ok mun fyrir yðr koma i Galilea herað."

5. Þat var eptir upprisu drottins, at hann vitraðiz lærisveinum sinum siau saman hia Galilea sio. Þar var þa Simon Petrus ok Thomas, er kallaz didimus, ok Nathanael ok tveir synir Zebedei, ok aðrir tveir af lærisveinum Kristz. Simon Petrus mællti við þa: „Fara mun ek at fiska" En þeir svǫruðu: „Fara munum ver með þer." Ok þa stigu þeir allir a skip ok fisktu ekki a þeiri nott. En at morni stoð Jesus a strǫndinni, ok kendu lærisveinarnir eigi at hann var, ok mællti hann við þa: „Sveinar, hafit nǫkkveria fiska?" En þeir svǫruðu: „Ekki," sogðu þeir. Jesus mællti við þa: „Leggi þer net yður til høgri handar, ok munu þer finna fiska." En er þeir gerðu sva, þa mattu þeir trautt upp draga fyrir fiolda fiskanna net sin. Þa mællti lærisveinn, sa er Jesus elskaði, við Petrum: „Drottinn er." En er Petrus heyrir þetta, þa stytti hann upp kyrtil sinn ok ste fyrir borð ok tok netzhals ok dro at landi fullt storra fiska. En þeir voru sva margir, .c. ok .l. ok .iii. fiskar, ok var netit þo oslitnat. En aðrir lærisveinar reru at landi a skipi, ok voru þeir aðr .cc. faðma fra landi. Ok gekk þa Petrus með net sem a þurru landi. En er þeir komu at landi, þa sa þeir fisk lagðan a gløðr ok brauð. Jesus mællti við þa: „Føri þer mer fiskana, þa er þer tokut, ok komi þer ok matiz með mer." Þa gaf Jesus þeim brauð ok fisk ok bergði ok sialfr hvarutveggia.

Þat er sagt i oðru guðspialli, er i þetta sinn varð, at Jesus let Petrum heyriliga ok þrefalldliga iata ser, ok mællti drottinn við Petrum: „Simon Johans son, elskar þu mik framar en þessir?" Hann svaraði: „Þu veizt, drottinn, at ek elska þik." Jesus mællti: „Føð þu lomb min." Enn mællti drottinn i annat sinn: „Simon Joans son, elskar þu mik?" Hann svaraði: „Þu veizt, drottinn, at ek elska þik." Enn mællti drottinn: „Føð þu lomb min" Enn mællti Jesus hit þriðia sinn við hann: „Simon son Joans, antu mer?" Þa ogladdiz Petrus, at Jesus mællti þrysvar hit sama við hann, ok svaraði hann þo: „Þu veizt, drottinn, allt, þu veizt, at ek ann þer." Jesus mællti við hann: „Føð þu lǫmb min. Þa er þu vart ungr, þa gyrðir þu þik ok gekkt þann veg, er þu villdir, en er þu elldiz, þa mun gyrða þik annarr ok leiða þik þann veg, er þu villt eigi fara." En þetta mællti hann til þess at

syna, hverium dauða Petrus mundi deyia, ok retta hendr sinar a krossi. En til þess beiddi hann Petrum þrysvar iata elsku sinni, at hann bøtti þat i þrefalldri iatningu, er hann hafði guði þrysvar neitat.

6. Siðan er varr drottinn Jesus Kristr ste upp til himna af fialli þvi er Oliveti heitir, þa hurfu postolar af fiallinu ofan aptr til Jorsalaborgar, ok voru þar Kristz lærisveinar allir saman i einu husi a bønum, þeir er fylgt hôfðu drottni varum, tiu daga með Mariu moður guðs ok oðrum helgum konum, þeim er fylgt hôfðu Jesu. Þa gerðiz gnyr mikill af helgum anda yfir husit, þar er þeir voru inni postolarnir, sva sem veðrs þytr væri, ok fylldiz allt husit af liosi, ok sa þat, at settiz yfir hofuð þeim serhverium sem elldligar tungur, ok fyllduz þeir allir helgum anda ok toku at mæla a allar tungur, sva sem heilagr andi kendi þeim. En þar voru komnir menn af morgum lôndum, ok heyrðu margir orð postolanna, ok undruðuz allir, er heyrðu, er hverium þotti þeir mæla a sina tungu, ok mælltu margir sin a meðal: „Hvart eru þessir menn allir galverskir, er mæla a allar tungur, ok erum ver a ymsum londum bornir.“ Sumir sôgðu: „Þeir eru vindrukknir ok vita eigi, hvat þeir mæla af hofuðorum.“ Þa stoð Petrus upp a meðal annarra postola ok mællti við lyðinn: „Ér Gyðingar ok allir þeir er byggia Jerusalem, þat skulu þer vita, at ver erum eigi vindruknir, sem sumir mæla, helldr er nu þat framkomit, er Johel spamaðr sagði, at a hinum efstum dogum mun ek fram steypa helgum anda yfir þræla mina ok ambattir, kvað drottinn, ok munu synir yðrir spa okomna hluti, ok ungir menn yðrir munu sia himnasyn, en gamlir menn munu fa vitranardrauma, ok mun ek gefa iartegnir a himni ok iorðu. Sol mun snuaz i myrkr, en tungl mun hafa bloðs lit, fyrr en kemr dagr drottins mikill ok ogurligr, ok mun hialpaz hverr, er kallar a nafn drottins. En Gyðingar, heyri þer orð min, hvat ek segi yðr um Jesum hinn nadverska, þann er guð vitraði yðr i morgum iartegnum, þeim er hann gerði, sva sem þer vitit, hann seldut þer til bana i hendr illum monnum, sva sem raðit var af Gyðingum. En guð reisti hann af dauða, þviat eigi mattu helvitis byrgi hallda a honum, sva sem David mællti i psaltara hans rôddu: Sa ek drottin avallt fyrir mer, þviat hann er a høgri hônd mer; fyrir þvi gladdiz hiarta mitt ok fagnaði tunga min, ok hvildiz holld mitt i friði. Þu fyrirlezt eigi ond mina i helviti, kunnar gerðir þu mer lifs gotur ok lezt eigi funa holld mitt. |Eigi sagði David þetta fra ser, þviat

hann do, ok er grôf hans með oss allt til þessa dags; en hann var spamaðr, ok het guð at setia þann yfir sess hans, er or hans kyni væri borinn, en hann sa fyrir upprisu Kristz, ok sa hann Krist eigi fyrirlatinn i helviti, ok hans holld sagði hann eigi funa mundu, af því at þenna Jesum reisti guð af dauða, ok ver erum vattar hans, ok gaf hann oss giôf heilags anda, sem þer siait nu ok heyrit, siðan er hann ste upp til himna ok sitr til høgri handar feðr sinum. Sem David mællti i salmi: Drottinn mællti við drottin minn, sittu til høgri handar minnar, þar til er ek legg ovini þina til skarar fota þinna. En þat skal allr lyðr vist vita a Gyðingalandi, at guð setti drottin allz lyðs Jesum þenna, er þer krossfestut, ok at sa hinn sami er Kristr konungr. En fyrir því at þer gerðut þessa synd ovitandi, þa iðriz þer sem fyrst, þviat guð gefr likn ôllum iðrondum fyrir sina milldi ok ast ok miskunn."

En þeir komuz viðr, er þeir heyrðu tôlu postolans ok mælltu við Petrum: „Hvat skulum ver þess gera, at guð fyrirgefi oss varar syndir?" Petrus svaraði þeim: „Geri þer iðran, ok skiriz hverr sem einn yðarr i nafni Jesu Kristz, ok munu þer þa taka likn synda yðarra ok giôf heilags anda, þviat yðr er heitið heilsu ok sonum yðrum ok ollum þeim, er guð vill til sinnar truar kalla." En er Petrus hafði þetta mællt, þa toku tru ok skirn þriar þusundir manna, ok voru staðfastir a bønum ok hlyðnir kenningum postolanna. En postolarnir gerðu margar iartegnir i Jorsalaborg, ok lofaði guð allr lyðr. En þeir er tru toku, voru allir saman ok lofuðu guð ok attu oll auðøfi saman, þar til er þat var vitrat af guði, at postolar skylldu fara a yms lond, sem siðan for fram at vitran heilags anda ok fyrirsogn Petrs postola.

7. Petrus ok Johannes gengu til kirkiu um dag til nontiðar, en nokkurr fotlami valaðr maðr, sa er með því meini var borinn, sat fyrir kirkiudyrum hvern dag ok bað þa menn olmosu, er i kirkiuna gengu. En er hann sa Petrum ok Johannem inngangendr i kirkiu, þa bað hann giafar postolana sem aðra menn at vanda sinum. Petrus svaraði honum: „Eigi a ek gull ne silfr, en þat er ek hefi til mun ek gefa þer i nafni drottins mins Jesu Kristz. Ris þu upp ok gakk." Þa tok hann i hônd honum ok hof hann upp. Þa styrktuz føtr hans, ok spratt hann þegar upp, ok gengu þa allir saman i kirkiu. En allir er sa þessa iartegn, þa undruðuz ok lofuðu guð fyrir almatt sinn. En er Petrus ok Johannes gengu ut or kirkiunni, þa þustu allir menn at þeim ok undruðuz þa. Petrus mællti við þa: „Hvat undriz þer þetta? Ekki hofum

við þenna mann grøtt af okkrum krapti. Guð Abrahams, guð Isaachs, guð Jacobs, guð feðra varra dyrkaði son sinn, þann er guð reisti af dauða, en ver erum vattar hans, er trua, at nafn hans grøddi þenna siuka mann ok gaf honum heilsu i yðru augliti. Þenna Jesum seldu þer Pilato iarli ok røgðut hann ok vagut skapara lifsins, þann er guð reisti upp af dauða. En ek veit, at þer gerðut ovitendr sva sem hofðingiar yðrir. En guð fylldi þat, er hann sagði fyrir munn spamannanna um pisl Kristz. Iðriz þer nu þvi ok snuiz til guðs, at yðr fyrirgefiz syndir yðrar fyrir þenna Jesum, er guð sendi hingat, Jesum þann er ver boðum, en nu sitr hann a himnum, þar til er hann kemr a upprisutið, þeiri er fyrir sogðu spamenn. Moyses mællti sva: Guð mun upp reisa mikinn spamann af brøðrum yðrum, honum skulu þer hlyða sem mer, hvat er hann byðr yðr. En hverr mun fyrirfaraz, er eigi hlyðir þessum spamanni. Guð sendi yðr son sinn, at hann blezaði yðr, at hverr yðarr sneriz fra villu sinni.“ En er Petrus hafði lokit tôlu sinni, þa toku tru fimm þusundir manna, er heyrt hofðu þessi orð.

8. En hôfðingiar Gyðinga ôfunduðu þat, at postolarnir boðuðu nafn Jesu, ok hondluðu þeir Petrum ok Johannem ok settu þa i bond ok i varðveizlu til morgins. En at morni komu hofðingiar ok kennimenn i Jerusalem ok leiddu Petrum ok Johannem a þing sitt, ok mælltu við þa: „I hverium krapti eða hvers nafni gerðu þer þessa hluti?“ Þeir svoruðu: „Ef yðr fysir at vita, i hvers nafni sa hinn siuki varð heill, þa varð hann heill i nafni drottins Jesu Kristz, þess er þer krossfestut, en guð reisti hann af dauða; i honum einum er heilsa allz lyðs, þviat ekki er annat nafn gefit monnum, þat er oss megi hialp veita.“ En er hôfðingiar sa staðfesti Petrs ok Johannis, ok kendu at þeir hôfðu verit með Jesu, en þeir sa hann heilan orðinn, er siukr hafði verit, þa mattu þeir eigi i gegn mæla. Þa mælltu Gyðingar með ser: „Hvat skulum ver gera við menn þessa? þviat iartegn su er ollum kunn i Jerusalem, ok megum ver þvi eigi dylia En at eigi fregniz þetta viðara, þa skulum ver banna þessum monnum at mæla i nafni Jesu.“ Þa heimtu þeir þangat postolana ok fyrirbuðu þeim at mæla i nafni Jesu ok kenna tru Jesu Kristz. Postolarnir svôruðu: „Syniz þat sialfum yðr rett, at ver hlyðim yðr helldr en guði, þviat ver megum eigi þegia yfir þvi, er ver sam ok heyrðum.“ En er Gyðingar heyrðu, þa øgðu þeir þeim pislum, ok þorðu þeygi at pina þa, þviat alþyða gôfgaði iartegn

þa, er þeir hôfðu gert. En er Petrus ok Johannes komu til annarra postola ok sogðu, hversu hofðingiar Gyðinga mælltu i gegn þeim, þa hofu postolar guðs upp augu sin til himins ok mælltu: „Þu, drottinn, er skopt himin ok iorð ok sio, nu er fram komit a þessum dôgum þat, er heilagr andi mællti fyrir munn Davids: Þioðir ygðuz ok baru onyt orð saman; konungar ok hofðingiar attu samkomur i mot Kristi, þviat þeir Herodes ok Pilatus sômnuðu liði Gyðinga ok heiðinna manna i þessarri borg i gegn helgum syni þinum, at gera þat, er þu hafðir aðr raðit, at verða skylldi. Nu littu, drottinn, ognir þeira, ok gef þrælum þinum traust at mæla orð þin; rettu hendr þinar at gera iartegnir i nafni sonar þins Jesu Kristi.“ En er þeir luku bøn sinni, þa varð landskialfti, þar er þeir stoðu, ok fylliduz allir helgum anda ok mælltu orð guðs með trausti.

9. Þa gerðiz fiôldi mikil truaðra manna, ok var sem allir hefði eitt hiarta ok eina ond, ok eignaði engi ser aura, helldr attu allir allt saman En postolar baru vitni upprisu drottins með miklum krapti, ok var miskunn guðs með þeim Þeir er hus attu eða akra, þa selldu, ok førðu verðit postolum. En þeir skiptu iafnt með ollum, sva at engi var valaðr i liði þeira. Joseph, sa er at ôðru nafni het Barnabas, hann selldi akr sinn ok førði postolum allt verðit. Annanias het maðr, er enn selldi akr sinn ok førði postolum sumt verðit, en hann leyndi sumu, sva at kona hans vissi þat með honum, en hon het Saphira. Petrus mællti við Annaniam: „Fyrir hvi freistaði andskotinn sva hiarta þins at liuga at helgum anda ok leyna sumu af verði akrs þess, er þu selldir, ok sagðir þik allt hafa gefit? Eigi laugtu at monnum helldr at guði.“ En er Annanias heyrði þetta, þa fell hann dauðr niðr. En hann var førðr til grafar. Litlu siðar kom Saphira kona hans ok vissi eigi, hvat gerz hafði um buanda hennar. Petrus mællti við hana: „Segðu mer, kona, er her allt verð akrs þess, er þit selldut?“ Hon svaraði: „Her er allt.“ Petrus mællti: „Þeir munu þik til grafar bera, er lik buanda þins grofu.“ En hon fell þegar dauð niðr. Þeir komu aptr, er Annaniam grofu, ok fundu Saphiram andaða, ok grofu hana hia buanda sinum. Nu varð hræzla mikil yfir ollum lyð.

10. En postolar drottins gerðu margar iartegnir, ok gôfguðu þa allir lyðir. Ok ox hvern dag fiôldi truaðra manna, ok baru þeir siuka menn a stræti fyrir, þar er Petrus for, at skugga hans bæri yfir þa, ok risu þeir upp heilir i skugga hans, hvatki er

þeim var at meini. En yfirgyðingar fyllduz ôfundar ok illzku ok settu postola Kristz i myrkvastofu. En engill guðs lauk upp myrkvastofunni um nott ok leiddi ut postola guðs ok mællti: „Fari þer i musteri guðs ok kennit lifs orð lyðnum.“ En þeir tôluðu fyrir lyðnum i musterinu. At morni dags letu hôfðingiar kveðia þings ok sendu eptir postolum til myrkvastofunnar. Þeir komu aptr, er sendir voru, ok sogðu sva: „Myrkvastofu fundum ver vandliga byrgða ok varðhalldzmenn fyrir dyrum, en ver fundum þar engan mann inni.“ Hôfðingiar undruðuz, er þeir heyrðu þetta, ok vissu eigi, hvat orðit mundi af postolum guðs. Þa kom maðr ok sagði, at þeir voru i musteri guðs ok toluðu fyrir monnum. Þa sendu yfirgyðingar eptir þeim ok leiddu þa a þing sitt ok mælltu: „Ver bônnuðum yðr fram at føra kenning þessa, en þer fylldut alla Jorsalaborg[1] yðarrar kenningar ok reisit a hendr yðr mikla synd.“ Petrus svaraði: „Guði eigum ver framar at hlyða en monnum. Guð feðra varra reisti upp Jesum, þann er þer krossfestut, ok setti hann hôfðingia ok grøðara at gefa lyð Israel iðran ok lausn synda[2]. En ver erum vattar þessarra orða ok heilagr andi, sa er guð gaf ollum þeim, er honum eru hlyðnir.“ Gyðingar atuz innan, er þeir heyrðu þetta, ok villdu vega þa. Þa reis upp einn af yfirgyðingum a motinu, en sa het[3] Gamaliel, ok mællti við lyðinn: „Hyggit at ér, synir Israels, hvat er skulut gera við þessa menn. Fyrir þessa daga var maðr sa er Theodas[4] het, ok sagðiz spamaðr vera, ok truðu honum fiôgur hundruð manna, en hann varð drepinn, ok dreifðuz þeir, er honum fylgðu ok truðu. Siðan kom villumaðr annarr, sa het Judas Galileus, ok sveik hann [margan lyð[5], en hann fyrirforz, ok urðu þeir at engum þrifum, er honum hlyddu. Af þvi lati þer þessa menn fara i friði, ok bannit þeim eigi kenningar, þviat þetta rað mun eyðaz, ef af monnum er upptekit, en ef þat er af guði, þa megu þer eigi standa i gegn guðs vilia.“ Þat var [at engu[6] haft, er Gamaliel mællti, ok bôrðu þeir postolana[7] ok bônnuðu þeim at mæla i nafni Jesu. En postolar foru glaðir af þinginu ok fôgnuðu þvi, er þeir toku meingerðir fyrir nafn Jesu, ok voru hvern dag i musteri guðs ok letu eigi af at kenna monnum nafn Jesu Kristz.

11. Petrus postoli kom um[8] dag til borgar þeirar er Lidde heitir, ok fann hann þar siukan mann, þann er atta vetr hafði i kôr legit, en sa het Eneas. Petrus mællti við hann: „Ris þu

1 Romaborg *Cd.* 2 sanna *Cd.* 3 *Her beg. Fr.* 4 þeodas *Fr.* 5 [marga menn *Fr.* 6 [*mgl. Fr.* 7 Petrum oc baða postola *Fr.* 8 of *Fr.*

upp ok gakk, Enea, drottinn Jesus Kristr grøðir þik.“ En hann reis þegar upp alheill, ok sneruz allir til truar, er sa þessa iarteign. I borg þeiri er Joppe heitir var ein trufost kona, su er Tabita het, full goðra verka ok olmosugøðis, en hon tok sott ok andaðiz[1]. Þa sendu lærisveinar eptir Petro ok baðu hann þangat koma. Petrus reis upp ok for með þeim. En er hann kom þangat, þa stoðu hia likinu ekkiur ok valaðir menn ok gretu miôk, ok syndu honum klæði, þau er Tabita hafði þeim gert[2]. Bað þa Petrus alla ut ganga, en hann var einn hia likinu ok fell a kne til bønar; siðan sneriz hann til liksins ok mællti: „Ris upp þu Tabita!“ En hon hof upp augu sin ok settiz upp, er hon sa Petrum. Hann tok i hônd hennar[3] ok leiddi hana lifandi til þeira manna, er gretu andlat hennar. En er tiðindi þessi foru um borgina, þa truðu margir drottni. Ok dvaldiz Petrus marga daga i Joppe i [husi Simonar, er kallaðiz skinnari[4].

12. Cornelius het nokkurr siðsamr hundraðshôfðingi i borg þeiri, er Cesarea heitir. Sa var heiðinna manna kyns ok truði þo a guð með hium sinum ollum, ok gerði hann môrg goð verk. En hann sa engil guðs koma til sin um dag, þa er hann var a bøn at nontið, ok hræddiz hann ok mællti: „Hverr ert þu, drottinn?“ En engillinn mællti við hann: „Bønir þinar ok olmosugiafir eru [i minningu[5] i augliti guðs. Af þvi send þu menn i Joppen eptir Simoni, þeim er oðru nafni kallaz Petrus, en hann er i husum Simonar skinnarra [hia sæ[5], ok mun hann segia þer, hvat þu skallt gera.“ En er engillinn hvarf fra honum, þa heimti hann þangat þria hina øztu huskarla sina ok sendi þa i Joppen, ok sagði þeim, hvat hann hafði heyrt ok set. En er þeir nalguðuz til borgar, þa var Petrus a bøn i lopthusi nôkkuru at miðium degi. En er hann hungraði ok ætlaði at mataz, er hann hafði bøn lokit, þa leit hann himininn opinn[6] yfir ser ok sa niðr siga duk mikinn af himni með fiorum skautum. I þeim duki voru allzkyns fuglar ok ferføtingar ok skriðkvikendi iarðar. Þa kom rôdd af himni yfir hann ok mællti: „Ris upp þu, Petrus, ok søf þetta ok et.“ Petrus svaraði: „Eigi et ek ohreinendi, drottinn!“ Roddin mællti: „Eigi skalltu ohreinendi[7] kalla þat, er drottinn hreinsaði.“ Þetta var þrysvar mællt[8], ok leið dukrinn siðan upp til himins. En er Petrus undraðiz syn þessa, þa komu sendimenn Cornelius[9] ok

1 do *Fr.* 2 gor *Fr.* 3 henni *Fr.* 4 [husum skinnara þess, er Simon het *Fr.* 5 [*tilf. Fr.* 6 opnaz *Fr.* 7 ohreint *Fr.* 8 við hann *tilf. Fr.* 9 Cornelii *Fr.*

stoðu fyrir dyrum ok spurðu, ef Simon Petrus væri þar inni. Þa mællti heilagr andi við Petrum: „Þrir[1] menn eru komnir er leita þin, ris upp þu ok far með þeim, ok efa[2] eigi, at ek senda þa hingat.“ Þa gekk Petrus a moti þeim, er hans leituðu, ok mællti: „Ek em sa er þer leitit; [firir hveria soc qvamo þer[3]?“ Þeir svoruðu: „Cornelius hundraðshôfðingi, rettlatr maðr ok siðsamr ok lofaðr af allri alþyðu[4] Gyðinga, honum bauð engill guðs at senda eptir þer, ok vill hann heyra orð guðs af þer.“ Þa tok Petrus við þeim at gistingu, ok for hann með þeim annan dag eptir, ok fylgðu honum nôkkurir af brøðrum or Joppe.

En er þeir komu [annan dag[3] i Cesaream, þa hafði Cornelius boðit þangat vinum sinum ok frændum, [ok gekk hann[5] a mot Petro ok fell til fota honum. Petrus tok i hônd honum ok mællti: „Ris upp þu, þviat ek em maðr sem þu[6].“ Þa gekk Petrus inn i hus hans ok sa þar marga menn komna, ok mællti: „Þer vitit, at Gyðingum er bannat at koma til heiðinna manna, en guð syndi mer eigi vera rækan ne ohreinan nôckurn mann, ok kom ek af þvi, þegar er ek var kallaðr. En þer segit, fyrir hveria sok þer kolluðut mik.“ Cornelius mællti: „Fyrir þrim nottum at noni dags, er ek var a bøn i husi minu, þa stoð hia mer ungr maðr i hvitum klæðum ok mællti: Heyrð er bøn þin, Corneli, ok [sen olmosugerð þin[7] i augliti guðs. En þu skallt senda menn i Joppen eptir Simoni, þeim er Petrus kallaz. Þa senda ek menn þegar eptir þer. En þu gerðir vel þat, er þu komt. En nu erum ver allir bunir at heyra þa hluti, er drottinn bauð þer.“ Þa lauk Petrus upp munn sinn ok mællti: „Nu veit ek vist, at drottinn dømir[8] eigi at þessa heims virðingu, helldr er i hverri þioð honum þægr sa, er truir a hann ok vinnr rettlæti. Guð sendi orð sitt sonum Daviðs ok boðaði frið ollum fyrir Jesum Krist. Þer vitit, at þetta orð kom yfir allt Gyðingaland[9] ok hofz i Galilea heraði eptir þa skirn, er Johannes[10] boðaði Jesum, þann er guð drottinn efldi krapti heilags anda. En hann for ok grøddi alla, þa er af diofli voru þrongdir, þviat guð var með honum. En ver erum vattar allra þeira hluta, er hann gerði i Jerusalem ok ollum heruðum Gyðinga, en þeir [krossfestu hann ok bônuðu honum sva[11]. En guð reisti hann af dauða a þriðia degi eptir pining sina, ok syndi hann eigi ollum lyð helldr raðnum vattum af

1 *saal. Fr*; þeir *A.* 2 ifa *Fr.* 3 [*tilf. Fr.* 4 þioðo[ *Fr.* 5 [*saal* [ *Fr.*; hann gekk *A.* 6 þer *Fr.* 7 [aurlyndi *Fr.* 8 færr *Fr.* 9 *saal. Fr.*; Gyðingafolk *A* 10 baptista *tilf. Fr.* 11 [bonnoðo honom oc festo hann a tre *Fr.*

guði oss, er atum ok drukkum með honum, siðan er hann reis af dauða, ok bauð hann oss at vatta þat fyrir ollum lyð, at hann er domandi kvikra ok dauðra. Honum bera allir spamenn vitni, ok allir munu taka lausn synda fyrir nafn hans, þeir er a hann trua.“ En er Petrus hafði mællt þessi orð, þa kom heilagr andi yfir alla þa er heyrðu, ok mælltu þeir a margar tungur ok lofuðu guð. En þeir er fylgðu Petro undruðuz, er heilags anda miskunn kom yfir heiðnar þioðir. Þa mællti Petrus: „Fyrir hvi skulum ver eigi skira þessa menn, er toku helgan anda?“ En er þeir voru allir skirðir i nafni drottins, þa baðu þeir Petrum, at hann dveldiz þar nôckura daga.

Þa fragu postolar, at heiðnar þioðir toku við orði guðs. En er Petrus kom i Jerusalem, þa mælltu til hans þeir er tru hofðu tekit af Gyðingum: „Fyrir hvi gekktu inn til heiðinna manna ok azt ok drakkt með þeim?“ Þa sagði Petrus þeim, hversu hann sa duk koma til sin af himni ok allan þenna atburð. En er lærisveinar heyrðu þetta, er Petrus sagði, þa lofuðu þeir guð þann er heiðnum monnum gaf synda iðran til lifs eilifs. Þa toku lærisveinar Kristz at boða heiðnum þioðum nafn drottins með trausti heilags anda, ok samnaðiz margr lyðr til almattigs guðs.

3. A þeiri tið gerði Herodes konungr ofrið mikinn kristnum monnum, ok let hann hoggva með sverði Jacobum postola broður Johannis postola ok guðspiallamannz. En er hann sa, at Gyðingum likaði þat vel, þa let hann ok taka Petrum postola a paskum ok setia i myrkvastofu, ok selldi hann .xvi. riddurum til varðveizlu ok villdi bana honum eptir paskana. Petrus var halldinn i myrkvastofu. En kristnir menn baðu fyrir honum. En þa nott er Herodes villdi bana honom eptir um daginn, þa svaf Petr a millum tveggia striðsmanna bundinn tveimr iarnrekendum, ok voru þo verðir fyrir dyrum. Þa kom engill guðs, ok skein lios i myrkvastofuna, ok vakti Petrum ok mællti: „Ris upp þu skiotliga.“ Þa fellu rekendr af hôndum hans. Enn mællti engillinn við Petrum: „Bittu skua þina ok tak klæði þin ok fylg mer.“ Petrus gekk ut ok fylgði honum ok hugði ser draums vera. En er þeir liðu um .ii. varðholld, þa komu þeir til borgarhliðs, ok var iarnhurð fyrir, ok lauk hann þat upp fyrir þeim. En er þeir komu til næsta bøiar, þa hvarf engillinn fra honum at syn. En Petrus hvarf aptr til sin ok mællti: „Nu veit ek vist, at guð sendi engil sinn ok leysti mik or hendi Herodis ok af ollu klandi Gyðinga.“ Þa for Petrus til husa Mariu moður Johannis, er ôðru nafni kallaðiz

Marcus. En þar voru margir kristnir menn inni. En Petrus kvaddi hurðar. Mær nockur gekk til hurðar, en hon gaði eigi upp at luka fyrir fagnaði, er hon kendi mal Petrs, ok rann inn þegar ok sagði, at Petr stoð fyrir dyrum. En þeir er inni voru truðu eigi, ok sôgðu hana mæla hofuðora. Petr knuði hurðina i annat sinn. Þa luku þeir upp ok undruðuz, er þeir sa Petrum, en hann sagði, hversu engill guðs hafði leiddan hann ut or myrkvastofunni.

En er at morni kom, þa fundu riddarar eigi Petrum. Þeir undruðuz þetta miok ok vissu eigi, hvat af honum mundi orðit. En er Herodes matti eigi finna Petrum, þa hræddiz hann miok, ok for a braut af Jorsalalandi i borg þa, er Cesarea heitir, ok let þar kveðia þings. Ok er hann sat a domstoli itarligum klæðum skryddr ok talaði a motinu, þa daði allr lyðr mælsku hans, ok kvaðu hann guðs rôddu mæla en eigi manna. En er Herodes drambaði af þessarri virðing ok gaf eigi veg guði, þa laust engill guðs hann illri likþra, ok vall hann moðkum, aðr en hann døi.

14. Philippus het diakn nokkurr, er Petrus hafði vigðan, hann var heilagr maðr ok mikill kennandi. En er hann kom til borgar þeirar, er Samaria heitir, þa toku margir menn vel við honum ok kenningum hans, er þeir sa iartegnir þær er hann gerði yfir siukum monnum, ok varð mikill fagnaðr at þangatkomu hans.

15. Villumaðr nokkurr var i borginni fiolkunnigr, sa het Simon. Hann lezt vera kraptamaðr mikill. A hann truði hverr maðr i borginni, ok sôgðu allir vera mikinn guðs krapt með honum, þviat hann hafði lengi synda kyngi sina. En er Philippus hafði lengi talat fyrir monnum, þa toku margir tru bæði konur ok karlar. Þa tok Simon ok skirn ok fylgði Philippo ok sa iartegnir þær, er hann gerði i guðs nafni, ok undraðiz miok. En er postolar drottins, þeir er i Jorsalaborg voru, fragu, at Samariamenn toku við tru, þa sendu þeir þangat Petrum ok Johannem. En er þeir komu þar, þa baðu þeir fyrir þeim, at þeir tøki helgan anda. Ok er Simon sa þat, at allir toku hinn helga anda, er postolar lôgðu hendr yfir hôfuð, þa tok hann fe ok bar at þeim ok mællti: „Þetta fe mun ek ykkr gefa, at þið gefit mer a moti þat velldi, at hverr taki hinn helga anda, er ek legg minar hendr yfir.“ Petrus svaraði: „Fe þitt fari til glôtunar með þer, fyrir þat er þu ætlar með femunum at kaupa giafir guðs; engan

hlut mattu oðlaz af þessum hlut eða gipt i sliku tilmæli, ok er hug þinum snuit miok fra guði. Nu gerðu iðran fyrir þessa illzku sem braðast, ok bið guð, at hann fyrirgefi þer þetta. En þo lizt mer hinn veg a þik, at sa beiskleikr bui þer i briosti, at trautt megi þer við biarga." Simon svaraði: „Þess bið ek guð, at hann snui þvi ollu fra mer, er nu mælir þu." Siðan hvarf Simon fra Petro ok kastaði aptr tru Kristz ok skirn sinni, ok tok þa af nyiu at nema fiolkyngi ok gerðiz[1] hinn mesti guðs ovinr ok villumaðr, sva at hann kvazt Kristr vera ok gefa hverium allz goðs kosti, [ef a hann truði[2]. Hann onytti kenningar Petrs postola, sem hann matti, ok syndi mikil fatiðindi i gerningum sinum, sva at margir hugðu hann [guð vera ok[3] gera helgar iartegnir [ok truðu a hann[3]. Nu fyrir þvi at hvartveggi þeira Simon ok Petrus var tiðr alþyðu, en kenning þeira var olik, þa þotti monnum[4] þat vel fallit, at þeir hittiz sialfir, ok vita [mætti ok[5] reyna, hvarr rettara[6] mællti. En þa var Petrus i Cesareaborg a Jorsalalandi en Simon i Samaria. Þa var kveðit a dag, nær þeir skylldu hittaz, ok for Simon þa til [þess fundar[7] ok mikill fioldi manna með honum. En er dagr kom sa, ok þegar lysa tok um morgininn, þa kemr sa maðr til [fundar Petrs[7], er Zacheus[8] het. Sa var hofðingi borgarinnar ok mællti: „Menn eru komnir margir ok biða þin, Petrus, ok er Simon oddviti þess liðs, sa er nu er buinn[9] at eiga þrætu

1 *Cap 14 og Begyndelsen af 15 lyder i Fr. saaledes:* Æn er gerþiz ofriþr kristnom maunnom a Gyþingalandi, þa for Petrus postoli bratt ór Jorsolum til Griclanz .iii. vettrum eftir uppstigning drottens oc sætti hann byskupstol sinn i Anthekio oc var þar .vii. vætr. Siþan for hann .ii. vætr oc kændi tru Jesu Cristz of .v. stor heroð Pontum, Galathiam, Cappadociam, Asiam oc Biþþiniam. Siþan for hann til Rumaborgar oc ræð þar patastoli .v. vætr oc .xx., oc vigþi bann .ii. byskupa Linum oc Cletum oc bauð þeim umscygning allz lyðs oc at veita alla þionasto, en hann let alldregi i millum verþa at hallda bǫnom oc hælgom kænningom.

15. Petrus postoli kom til fundar þeira manna, er nyscirðir varo i Samaria heraði at leggia hændr ifir þa, at þeir tǫki enn hælga annda. En Simon enn fiolkungi toc fæ mikit oc bar at handom Petro oc qvað sic myndo gefa honum til þess, at hanu gæfi gipt hins hælga annda. En Petrus sagði honum: „Þu ert flerðarmaðr oc fullr lygi oc vela; hvat hygstu munu kaupa fe gipt heilags anda? Fe þitt fari i gloton með siolfom þér." Siþan hvarf Simon a braut fra Petro, kastaði aftr tru Criz oc scirn sinni, oc toc at næma fiolkyndi(!) oc gerþiz *o. s. v.*

2 [*saal. Fr.*; er honum truðu *A.* 3 [*tilf. Fr.* 4 *saal. Fr.*; hveritveggium *A.* 5 [ef þa mætti *Fr.* 6 eða sannara *tilf. Fr.* 7 [fundar við Petrum *Fr.* 8 Zakarias *Fr.* 9 *saal. Fr.*; kominn *A.* 9 [*tilf. Fr.*

við þik.“ En er Petrus fra þetta, þa [mællti hann, at ser skylldu hvarir vera skirðir menn ok oskirðir. Siðan[1] mællti hann við kristna menn: „Biðium ver allir saman, brøðr, at guð styrki mik nu, er ek skal fara at boða tru sonar hans til hialpar þeim monnum, er hann sialfr skapaði“ Siðan bað hann bøn sinni til guðs. En er þvi var lokit, þa gekk Petrus ut ok sa fiolda manna kominn ok Simon fremstan, sva sem allir væri hans sporgongumenn.

Þa varð gott til hlioðs, ok tok Petrus at mæla a þessa lund: „Friðr se yðr ollum, er komnir[2] erut at iata hinu retta. En hverr er hit retta vill faga[3], þa mun sa taka mikil laun af almatkum guði. En hvat se rettara ne meiri launa vert af guði en vilia honum þiona? Þvi er sva mællt, at fyrst skal leita rikis guðs ok rettlætis hans. Sa leitar rettlætis hans, er vita vill, hversu[2] honum skal þiona, en sa leitar rikis guðs, er forvitnaz um þat, hver laun koma munu eptir þionostu guðs. En sa er þat vill vita, þa [skal hverium eilif sæla[4] þar i moti koma, en þeir er i gegn guðs vilia gera, munu taka slikar kvalir, sem hverr er verðr fyrir sinar syndir. Nu er i þessu lifi ollum gefit leyfi at vinna guðs verk, ok byriar oss fyrir[5] þvi at vita guðs vilia sem fyrst, þviat sa mun eigi goð lok gera a sinu verki, er sva fremmi[6] vill vita, hvat hann skal gera, er lokit er þeiri tið, er vinna ma[7]. Nu er su tið skomm, er i þessum heimi er, en guðs domr nalgaz, sa er hann dømir at verðleik um hvern mann, þvi er þess[8] meiri nauðsyn[, at hverr maðr leiti[9] guðs vilia, hvat þess megi vinna, at oðlaz megi lif eilift. Þessi orð[10] mællta ek fyrir yðr, en þau munu finnaz i morgum ritningum, þviat þeir vilia fastast hallda hinu retta, er bezt lika guði. En ef nôkkurr vill þessu moti mæla, ok þikkiz annat vita sannara, þa segi hann þat, en ver munum hlyða, ok sva hvarir oðrum, at orð var fari hofsamliga oll. Þvi hof ek þetta mal friðsamliga, at ek vil frið ollum bioða.“

Þa svaraði Simon: „Ver þurfum ekki friðar þins, en ef frið ok samþykki skal til þess hafa at vita, hvat hit sanna er, þa hôfum ver miok at þarfleysu hingat farit. Enda ef þat er bezt, at hverr hafi frið við annan, þa erum ver litils verðir, þviat þiofar ok illvirkiar hafa frið með ser, hordomsmenn eru samþykkir ok unnaz mikit, ok sva um mart annat, at þeir eru opt samþykkir a hinn sama hlut, er odaðamenn eru. Nu ef ver skulum allir eitt

1 [*tilf. Fr.* 2 bunir *Fr.* 3 ælsca *Fr.* 4 [*saal. Fr.;* skili hann sva at eilif sæla skal *A.* 5 af *Fr.* 6 *saal. Fr.*; framt ei *A.* 7 skylldi *Fr.* 8 *mgl. Fr.* 9 [en hvers annars at leita *Fr.* 10 *Her ender Fr.*

mæla a þessum fundi, ok verðum a hvert orð sattir, þa hofum ver miok fifida þessa menn, er nu eru her komnir at heyra orð var, ef ver skulum ekki þess mæla, at þeir viti, hvarir satt segia, þar er hingat til hofum ver sitt hvarir kent. Þvi þurfum ver ekki at mæla til friðar helldr til þrætu, at þu megir sigr vega a oss, ef þu treystir þer, ok stiga yfir villu vara með rettri skynsemi, ef þu ert við þvi buinn. En þa er þrætunni er lokit ok reynt er, hvarir satt segia eða hvarir liuga, þa megu allir sattir vera ok hafa þat sem rettast er."

Petr mællti: „Hvat er þess, at þu matt eigi friðinn nefna, eða veiztu eigi, at oll guðs lôg eru i friði ok til friðar sett? Hvi neitar þu friðnum, þar sem þu boðar guðs log, þar er með friði standa oll guðs boðorð? En þar sem friðrinn verðr rofinn, þar geraz misþykkiur með monnum, ran ok orrostur margar ok annarr osomi, sa er guði mislikar, ok slikar syndir megu eigi bøttar verða, nema þeir hverfi aptr til friðarins ok sættiz missattir. Ok verðr af þvi friðrinn upphaf ok niðrlag guðs laga."

Simon svaraði: „Til enskis þikki mer þin orð koma, er her þurfi um at tala, en ek mun nôkkut røða um guðdomsmatt minn, ef þu villt falla til iarðar ok gofga mik. Ek em hinn øðsti kraptr, sa er verit hefir af upphafinu; ek kom i kviði Rakelar moður minnar; ek var fra henni borinn hingat i heim, at menn (mætti) sia mik. Ek flyg i lopti með elldligu fiðri, ok er mer þat engi torføra. Likneskiur læt ek hrøraz. Kveikta ek þat, er aðr var dautt, ok ek gerða brauð or steinum. Ek hefi hlaupit af hinum hæstum hæðum ok eigi komit harðara niðr, en mer hefir høgast verit, þviat englar studdu mik, þeir er mik leiddu. Ek mun þetta eigi með einum orðum sanna, helldr em ek buinn þetta allt at fremia, at oll þioð viti, at ek em sonr guðs æ veranda ok geri alla eilifa, þa er a mik trua. En orð þin, Petr, eru oll tom ok mega enga nytsemi syna, sva sem sa hinn fiolkunnigi, er þik sendi, matti eigi stoða ser sialfum, at hann væri eigi deyddr a krossi. Ek hefi ok þann matt, þo at ek verða hôndum tekinn, þa mega þeir mer eigi hallda minir ovinir, ok eigi sia hvar ek em. En þeir megu mik sia, er ek vil, at sva se. En ef ek vil undan flyia, þa ma ek auðvelldliga fara i gegnum fiöll ok biörg, ok ma ek sva vaða biorg hin horðustu sem leir. Enda ma ek mik leysa, þo at ek se bundinn eða fiotraðr, en ek ma hina i bôndum lata sitia, er mik bundu. Þo at ek se i myrkvastofu settr, þa ma ek i brautu komaz, alldri er hon sva rambygð. Ond kveiki

ek i likneski, sva at ollum syniz þat kvikr maðr vera. Ok alldintre læt ek upp renna af iörðu, ok geri ek þar landit hrisi vaxit, er aðr var slettr vôllr. Vera ma ek i elldi, sva at ek brenna ekki. Ma ek ok vera þann veg a at sia, sem ek vil, at eigi verða ek kendr. Tvær asionur ma ek senn hafa, ek ma synaz sauðr eða geit, ungr sveinn synumz ek, stundum gamall maðr, ok hefi ek sitt skegg. Visa ma ek monnum til fiar, hvar sem folgit er, ok gefa þeim konungdom, er ek vil, ok vera gofgaðr sem guð. Eigi þarf at gera langmælgi um þetta, margar raunir hafa a þvi orðit, at ek gera hvervetna lok a þvi, er ek vil. Þa er Rakel moðir min sendi mik a akr at skera korn, þa sa ek þar liggia sigð buinn til skurðar; þa bauð ek sigðinum, at hann skæri sialfr, ok skar hann meira en tiu menn. Margan við let ek upp renna a einni stundu or iorðu ok þegar alldin spretta a hveriu tre."

Þa er Simon hafði ut talat, mællti Petr: Þer er tungan lông orðin, ok hefir þu þat nu rausat, at hverr maðr ma vita fiolkyngi þina ok gløpi þa er þu gerir. Þu ert miok olikr Kristi, þeim er þu segiz vera, þviat hans iartegnir eru ollom nytsamar ok syna guðdom hans, en sionhverfingar þinar eru skripiligar ok at engu nytar, helldr skaðsamligar þeim er þar a trua. En ef þu villt eigi iata, at þu ser fiolkunnigr, þa fôrum við til musteris þins með þessu folki, er þer fylgir nu, ok reynum til staðar, hverr fiolkunnigr er."

Þa tok Simon at bôlva Petri ok mællti sva illt við hann ok mikla guðlastan við Jesum Kristum, at engi maðr þottiz slikt heyrt hafa. Þa gerðiz ohlioð mikil ok styriolld af monnum, þviat allir villdu þekta Simon ok mattu eigi. En Petr oaðiz eigi við Simon ne illyrðum hans, helldr stoð hann i somum sporum sinum ok avitaði Simon um villu sina akafliga. Þa tok lyðrinn at reiðaz Simoni ok drogu hann i brott af motinu, ok varð su hans for, at hann var einn rekinn a braut, en hann kom fiolmennr þangat ok drambaði mikit. En er hlioð var orðit, þa tok Petr til mals: „Ver eigum, goðir brøðr, at bera þolinmoðliga meingerðir vándra manna, þviat guð ma hefna oskila þeira, þegar er hann vill, ok telr hann ser misboðit i ollu þvi, er oss er, en hann vill eigi hefna fyrir domsdag, þa er hann sialfr kemr at døma um alla hluti, ok lætr hvern hafa þat, sem hann er verðr, gott eða illt; þvi skulum ver (eigi) taka fyrir hond guðs at hefna, fyrr en hann vill. En þer allir, er til guðs vilit hverfa ok iðraz vilit syndanna, þa fallit nu a kne til bønar." Þa tok allr lyðr at falla til bønar a iorð

niðr. Siðan hellt Petr hondum sinum til himins ok bað með tarum, at drottinn villdi miskunna þeim ok taka þa menn i sætt, er til hans vilia hverfa. Ok er hann hafði beðit fyrir þeim, song hann messu ok bauð ollum at koma þar um morguninn eptir ok heyra kenningar sinar.

16. En um morguninn eptir kom einn lærisveinn Simonar til fundar við Petrum, sa het Marcellus, ok mællti: „Ek bið þik, at þu takir við mer valuðum manni, er tældr em af Simoni hinum illa, þviat ek truða a hann sem a guð, þa er ek sa hann gera marga undarliga hluti. En siðan er ek heyrða orð þin, þa syndiz mer hann eigi guð helldr maðr þo vandr. Þa i gærdag er hann var i brott rekinn, þa var hann einn, ok fylgda ek honum, ok reynda ek eigi litil endemi af honum, er hann kom heim. Ok er hann sa mik fylgia ser, þa sagði hann mik sælan ok bað mik fylgia ser til huss sins. En um nottina mællti hann við mik: Ek mun þik lata ollum monnum øðri vera, ef þu villt fylgia mer ok staðfestaz ok trua mer. Ok ek sor honum þat. Þa beiddi hann mik at unna honum þess søris, ok gerða ek þat. Siðan lagði hann rekindi nokkur a bak mer, þa er hann villdi eigi lata aðra menn vita, ok bað mik bera þat ofan til strandar. Þa forum við baðir, unz við komum þar, er skip la við bakka. Siðan tok hann byrði af baki mer ok gekk ut a skip, ok er at skammri stund a brott horfinn, ok þa er hann kemr aptr, er bagginn a brottu. Þa sagði hann mer, at hann mundi fara til Romaborgar, ok kvaðz þar mundu metorð oðlaz, at menn mundu gofga hann þar sem guð. Hann bað mik miok með morgum fogrum orðum, at ek skyllda fara með ser, en ek nam eigi trua a þat, er hann sagði, ok baðz ek undan forinni, ok sagða ek, at ek hefða fotarmein, ok at ek væra obuinn við sva langri for, en her er kona min ok born, ok ma ek eigi skiliaz við þau. Þa a taldi hann mik ok kvað mik vera litilmenni ok mællti enn: Er þu fregn agæti mitt i Romaborg, þa muntu iðraz, at þu hefir eigi fylgt mer. Siðan skildumz við. En hann for til Romaborgar, en ek for hingat, ok em ek nu buinn at leiðrettaz, ok iðrumz ek nu þeirar villu, er Simon kendi mer.“

En er hann hafði mællt, sem hann villdi, þa bauð Petr, at hann sæti þar eptir, en hann gekk sialfr i þann stað, sem hann hafði verit, þa er þeir Simon rødduz við. En þar var meiri mannfioldi kominn en hinn fyrra dag at heyra orð guðs. Þa tok Petrus til orðs ok syndi þeim þann mann, er hafnat hafði villu Simonar ok

mællti: „Sa maðr, goðir brøðr, er þer siait þar standa, kom til fundar við mik fyrir stundu aðan ok sagði fra fiolkyngi Simonar, ok at hann þikkiz nu fundit hafa i þessu sinni, ok treystir ser eigi lengr at vera i þessu landi, þviat nu i nott let hann niðr sôkkva i siovardiup illzkutaufr þau, er hann hafði gert af illzku sinni, eigi fyrir þvi at hann iðraðiz fiolkyngi sinnar, helldr fyrir þvi at hann oaðiz, ef skripindi þau fyndiz eptir honum, at hann mundi þa fyrirdømaz af landzlôgum, ok villdi hann fyrr fyrirfara þessum ohreinendum ok æstá a nyian stofn annarra, þar er hann kemr." En er Petr hafði lokit sinu mali, þa toku menn at stara a þann vandliga, er hann hafði sagt fra, ok þotti þat mikil sônn(un) allz þess, er Petr hafði mællt, ok var þar engi sa maðr, at eigi toldu Simon allir fiolkunnigan ok hinn versta villumann. En Marcellus tok tru ok skirn af Petri postola ok fylgði honum avallt siðan ok gerðiz mikill guðs vinr, sva at hann ma með rettu vera i tolu heilagra manna.

17. Siðan gerði Petr postoli fôr sina brott or Jorsalalandi, af þvi at þar tok til at vaxa ofriðr við kristna menn, ok foru þa allir postolar i brott til ymisra landa, sva sem heilagr andi kendi þeim. Þa voru liðnir fra upprisu ok uppstigning vars drottins .iii. vetr. Þa for Petr postoli til Anthechioborgar ok tok þar byskupsdom þann dag, er nu hefir heilagr verit halldinn .xx. nottum eptir kyndilmessu, ok var hann a þeim stoli .vii. vetr. Siðan for hann um .v. storheruð a Grikklandi at kenna monnum retta tru, i Pontum, Galatiam, Capadociam, Asiam, Bithiniam. En er hann kom i borg þa er Tripolis heitir, þa for hann til husa þess mannz er Maron het, þviat honum var þar vel fallit at mæla fyrir monnum. Þa tok at drifa þangat fioldi manna, sem straumr støði. Postolinn ste a steinvegg nokkurn ok taldi fyrir þeim um tru retta ok siðsemi. Þeir menn voru þar nôkkurir, er kvaldir voru af dioflum ok fellu til iarðar, er þeir heyrðu tôlu postolans, ok mælltu ohreinir andar fyrir munn þeira ok baðu, at hann ræki þa eigi a braut þann dag. En Petr postoli þekti þa ok bað þa a braut fara sem skiotast. Ok þegar foru þeir i braut, en menninir urðu þegar heilir a hinni somu stundu. En er þetta gerðiz, þa baðu margir siukir menn, at Petr gæfi þeim heilsu, en hann kvaðz verða at luka tolu sinni, aðr hann bæði þeim heilsu. En su var kenning hans ok tala: „Lofaðr se drottinn minn almattigr guð, sa er ollum vill miskunn veita ok hialpa ollum monnum, sa er son sinn drottin varn Jesum Kristum sendi hingat i heim at

kenna oss lifs kenningar. A hann skulu allir trua, at hann er sonr guðs, foður sinum sameilifr ok iafn i ollum krapti, getinn af foður fyrir allar tiðir eilifliga. En a varri æfi tok hann likamligt eðli ok gerðiz maðr ok let beraz fra meyiu. Hann var her i heimi ok kendi ollum gôtu til himinrikis ok braut allar torførur a þeiri leið, þa er hann sialfr syndalauss tok likamligan dauða a sik ok ste yfir andardauða varn, ok með likamsdauða sinum gaf hann eilift lif ok eilifa sælu ollum þeim er trua a hann ok hans upprisu ok þiona honum. En ér Grikkir, er spakastir menn eru taldir i ollum heimi, hyggit at vandliga, hvat ek mæli, ok siait at likindum, hvart skynsamligra er, at gofga guð þann, er allar skepnur hefir skapat, ok sva miskunnsamr er, at hann do sialfr til lifs ollum, [eða at gofga[1] griot eða steina, malm eða tre, þat er þer gerit yðr sialfir með hondum yðrum likneski vandra manna. Hvat kemr þeim spekt i halld, er slikt ætla guð vera? þviat guð er almattigr ok allz orkandi ok ollu styrandi, en þetta, er þer kôlluðut guð, er ovita ok omala, dauft ok sionlaust, ok ma hvergi hrøra sik ok eigi ser koma or elldi, ef þvi er þangat kastat. Þetta mællta ek eigi af þvi, at þer munut nu vilia slika villu faga, helldr fyrir þvi at þer munut nu vilia hafna sem fyrst villu þeiri, er frændr yðrir kendu yðr i øsku, þviat morgum er trautt at hafna veniu sinni ok frænda sinna. En sva er sundrleit trua Kristz ok skurðgoðanna, at engi er verðr at bera kristins mannz nafn, nema hann fyrirlati aðr alla gofgan við skurðgoð. En sa er eigi vill trua þessarri skynsemi orða, þa gaf Jesus mer ok oss postolum sinum þat velldi, at ver mættim gera allzkyns iartegnir i hans nafni, at þeir tryði af iartegnum þvi, er þeir villdu eigi trua af orðum; þvi em ek nu buinn in nomine domini Jesu Cristi at leggia hendr yfir siuka menn ok grøða þa, at trua yður megi magnaz, sva at engi efi se eptir hinnar fornu villu. Eigi vilium ver saka yðr miok, þott þer ætlit þat vel vera, er frændr yðrir gofguðu, meðan þeir vissu eigi annat sannara, en þat er hverium afallzdomr at trua (eigi) hinu sanna, er hann nair at heyra. Þvi mun hverr batna eða versna við helgar kenningar, at sumir leggia a hug, en sumir abbaz við, þa er þeir verða avitaðir fyrir gløpi sina, sva sem þa er drottinn taldi tru fyrir Gyðingum, at sumir hlyddu honum, en sumir stygðuz við hann ok reðu um hann fiðrraðum.“ En er Petr hafði lokit tôlu sinni, þa efndi hann heit sitt við hina siuku menn ok bað fyrir þeim, ok

1 [en dyrkit eigi *Cd.*

þegar fengu þeir heilsu sina. Siðan for Petr postoli til skips or Tripolisborg.

18. En er hann kom i ey, þa er Andaradum heitir, þa kom hann i hus þat er i myndum var gert. Þar sa hann stolpa þa er or gleri voru gervir. En er hann leit a smiði þetta ok fôrunautar hans, þa sa hann ok þeir konu nokkura standa uti fyrir dyrum, ok bað þa menn giafar, er þar gengu ut ok inn. Petr postoli leit við henni ok spurði, hvat henni var at meini, þess er hon vann eigi helldr til atvinnu ser en biðia aðra. En hon bles við ok svaraði: „Væri sva vel, at ek hefða hendr minar heilar ok mætta ek vinna, en nu er þvi verr, at ekki er afl i þeim, þviat þær eru allar þornaðar, ok nær ekki eptir nema litr einn.“ Þa tekr Petr til handa hennar ok þreifaði um, ok varð hon þegar heil. En su kona var moðir Clementis lærisveins Petrs postola. En þa er þeir voru til brautfarar bunir, þa mællti konan við Clementem son sinn: „Þu hinn bezti sonr, þat villda ek, at launat væri konu þeiri, er mer veitti gisting, þviat hon er kararmaðr ok þarf miok yðar.“ En er Petr postoli heyrði þetta, þa varð hann feginn goðgirni hennar ok mællti við hana, at hina siuku skylldi bera þangat. En er hon var þar komin, þa var hon niðrlogð i rekkiu sinni i miðium flokki manna. Þa mællti Petr postoli, sva at allir heyrðu: „Ef ek em rettr kennandi sannrar truar, þa risi kona su upp in nomine domini Jesu Cristi, til þess at trua þessarra manna styrkiz, er her eru nu við staddir, at þeir viti ok trui, at sa einn er guð, er skapaði himin ok iorð.“ En þegar er Petrus hafði þetta mællt, þa reis konan heil upp ok fell til fota Petri ok kysti føtr hans, ok sva allir frændr hennar ok vinir, ok lofuðu guð.

19. Siðan for Petr til gestaskala, þviat þa var framorðit dags. En husbuandi, sa er fyrir skalanum reð, mællti við Petr postola: „Þat er ofallit, at þu sva heilagr maðr byggir oitarligt hus, þar er ek hefi allt ørit at fa þer ok forunautum þinum, bæði mat ok klæði.“ Petr taldi við at fara með honum. Þa kom þar husfreyia með sonum sinum tveimr, ok baðu Petr ok fellu til fota honum, at hann skylldi þar vera með þeim. En hann villdi eigi þat. Þa kom dottir þeira, su er marga vetr hafði diôfuloð verit, ok var lukt i litlum klefa, ok fioturr a, ok hendr hennar voru eigi lausar; hon fell þegar til fota Petro, þegar er hon kom þar, ok mællti: „Rett er þat, drottinn minn, at þu halldir i dag með oss heilsufôgnuð minn ok styggir eigi foður minn ne moður.“ En Petr spurði, hvi þat gegndi, er hon mællti, eða hvi fiotrar þeir

væri a henni. En frændr hennar undruðuz, hvi sæta mundi, ok urðu sva fegnir, at þeir mattu eigi orðum upp koma at segia Petri þat, er hann spurði. En huskarl foður hennar sagði: „Su kona misti vitz sins, þa er hon var vii vetra, ok hefir verit ør siðan avallt; en nu er hon meir en tvitug. Hon var sva oð, at hon beit ok barði ok reif klæði sin ok af oðrum, ef hon matti na. Margan mann meiddi hon ok veitti sumum alldrtila, aðr en hon varð bundin, þviat diofull, er hana kvaldi, gerði hana hverium karlmanni styrkri. En sa hinn sami fiandi oaðiz, þegar er þu komt i nand ok flyði fra henni, ok varð hon þegar heil. Dyrnar lukuz þegar upp sialfar, ok kom hon þa hingat ok fell þegar til fota þer, ok biðia nu allir, at þu þiggir soma at henni ok at frændum hennar." En er hann hafði þetta mællt, þa losnuðu bond oll af henni. Petrus matti þa eigi dyliaz við, at af hans verðleikum var mærin laus orðin ok fengit heilsu sina. Ok þa hann gisting ok allan beina af foður hennar Siðan for Petr postoli, unz hann kom heim til stols sins i Antheehio.

20. Þa er Petr postoli hafði setit a stoli sinum siau vetr, ok gerði allzkyns iartegnir i nafni drottins, þa spurðiz til Simonar hins illa, at hann var kominn i Romaborg ok efldi sva miok villu sina, at margir truðu a hann, at hann væri guð. En hvervetna var kenning hans skaðsamlig, en allra skaðsamligust i Romaborg, þviat þar voru flestir hofðingiar ok gofgastir, ok þotti við þvi buit, ef keisarinn tøki við villu hans, at oll heimsbygð mundi næst trua a hann. Þvi var þat rað allra manna kristinna, at Petr postoli føri til Romaborgar ok gengi a mot villu Simonar ok eyddi, ok þotti þat makligast, at hinn øzti hofðingi kristninnar gengi a moti hofðingia villumanna. Petrus postoli reðz i þessa for, ok fylgði honum Marcus guðspiallamaðr ok Clemens, er siðan var pavi, ok Apollinaris byskup, ok margir aðrir kristnir menn, þeir er honum þionuðu. Þa var Claudius keisari, er Petr kom i Romaborg. Þa voru .xii. vetr liðnir fra uppstigningu drottins ok .xii. nottum eptir iol. Hann gekk fyrst til fundar við Gyðinga ok sagði, at hann var Gyðingr at kyni, ok kvaðz fyrir astar sakir brøðra sinna þangat kominn. En er þeir røddduz við miok marga daga, þa gat Petr postoli hingatkomu Kristz ok sagði þeim margar iartegnir drottins ok taldi fyrir þeim, at hann væri sonr guðs. En margir hlyddu kenningu Petrs postola ok gerðu iðran fyrir villu sina ok toku skirn, eigi at eins Gyðingar helldr ok margir Romaborgar menn, þeir er truðu a Krist af kenningu Petrs postola.

Þa tok bratt at vaxa fioldi kristinna manna, ok var ollum forkunn a at heyra orð guðs. Þa baðu þeir Marcum, at hann gerði þeim guðspiall, sva sem Petr hafði honum fyrir sagt, þviat postolinn matti eigi tømaz fra kenningum við menn eða fra bønum sinum. En Marcus gerði þat, er hann var beðinn, ok ritaði guðspiall. Siðan vigði Petr postoli hann til byskups, ok sendi hann i Alexandriaborg a Egiptalandi, ok er þar siðan patriarkastoll. Tva byskupa vigði hann ok i Romaborg, Linum ok Klitum, at veita monnum þa þionostu er til kennimanna kemr, en hann sialfr var a bønum iafnan ok kendi monnum tru. En er hann vissi nalgaz andlat sitt, þa var þat einn dag, at mart lið var komit til kirkiu at heyra hans kenningar, þa mællti hann: „Hlyði þer mer, goðir brøðr! Drottinn minn Jesus Kristr hefir þat vitrat mer, at nu er skamt til andlatz mins. En ek hefi mann valdan til þess velldis, er drottinn minn gaf mer, Clement lærisvein minn, þann er mer hefir lengi fylgt, ok eru (honum) oll guðs lôg einna mest i kunnleika; hann reynda ek goðan mann i allri freistni, astsaman við guð ok menn, hreinlifan ok hogværan, rettlatan ok hofsaman, þolinmoðan ok goðgiarnan, namgiarnan ok froðan. Fyrir þvi sel ek honum þat velldi, er guð gaf mer at leysa ok binda, ok hans atkvæði skal standa um alla kristni.“ Siðan lagði hann hendr yfir hofuð honum ok setti hann i stol sinn ok vigði hann til pava. En þoat Petr postoli væri morgum tiðr af iartegnum sinum, þa voru margir hinir, er framar truðu a Simon hinn illa. En þa var Nero keisari i Romaborg ok truði hann Simoni.

21[1]. A nokkurri tið andaðiz einn gofugr maðr, sa er morgum var harmdauði, en frændr leituðu, ef nokkurr mætti honum lif

1 *1 C lyder Capitel 21 saaledes:* Eptir þetta toku til skipti þeira Petri postola ok Simonis fiolkynga. Ok er þeir fluttu fram sinar kenningar hvorr eptir sinum hǫtti fyrir romverskum lyd aa einum degi, þa var borit lik hia þeim. Þa mællti Petrus: „Sanna þu tru þina, Simon, ok reis upp þenna hinn dauda mann til lifs. Enn ef þu vill eigi þenna kost, þa mun ek þetta gera.“ Simon svaradi ok kalladi til lydsins: „Ef ek reise þenna mann upp, þa skuli þer drepa Petrum.“ Lydrinn svaradi: „Wer skulum hann kvikan i elldi brenna, ef þu reisir þenna mann upp.“ Simon magnar þa fiolkyngi ok kallar diofla til sin ok gerdi sva, at menn saa likit hrǫraz. Þa mællti Petrus: „Ef hann lifir, þa matiz hann ok mæli ok gangi heim til herbergis.“ Simon brazt þa reidr vit ok flydi. En Petrus geck at likinu ok reisti upp hinn dauda. Allr lydr kalladi ok mællti: „Einn er gud, saa er Petrus bodar.“ Menn gerdu þa fôr at Simoni ok villdu brenna hann i ellde. Enn Petrus stod fyrir þvi, ok for þat eigi framm. Litlu sidar batt Simon hund olman, þar sem Petrus skylldi fara, ok er Petrus

gefa. Kristnir menn leituðu fyrst þess, at Petr postoli kømi til þess, þviat þeir treystu honum vel, en heiðnir menn toldu, at meira mundi stoða tilkoma Simonar, en a þat sættuz þeir, at hvartveggi skylldi til koma. Ok er þeir komu baðir, þa mællti Petr, at Simon skylldi gefa lif hinum dauða, ef hann mætti, ok kvað honum enga þraut, ef hann væri Kristr. En Simon svaraði sva: ef hann skylldi bera ahyggiu fyrir þvi, ok yrði hinn dauði uppreistr, þa kvaðz hann eigi vilia lengr hafa Petr i moti ser. Lyðrinn svaraði: „Ver munum Petr kvikan i elldi brenna, ef þu gefr þessum manni lif." Þa tok Simon at kalla a diofla, ok gerði sva af gǫlldrum sinum, at hinn dauði þotti hrøraz. Þa mællti Petr: „Ef hann lifir, þa mæli hann ok fari heim til husa sinna ok matiz. Þa braz Simon reiðr við ok villdi i braut ganga, en lyðrinn let hann eigi kost eiga, ok varðveittu hann. Þa reisti Petr postoli upp hinn dauða ok gaf honum lif. Þa kallaði oll þioð: „Einn er guð, sa er Petrus boðar." En er þeir villdu Simon brenna i elldi, þa kom Petr honum undan ok mællti: „Ørit er honum þat til kvalar, er hann er yfirstiginn i kyngi sinni, lifi hann ok siai nauðigr vaxa guðs kristni." Simon kvaldiz miok, er hann sa sik yfirstiginn, ok for a braut. Siðan tok hann hund mikinn ok batt i dyrum fyrir Petro, at hundrinn biti hann. En Petrus leysti hundinn, er hann kom at honum, en hundrinn lagði þegar eptir Simoni ok villdi bita hann ok bra honum undir sik. En Petrus rann eptir honum ok kallaði a hundinn ok mællti: „Ek byð þer i nafni drottins Jesu Kristz, at þu bitir eigi horund hans." Þa tok hundrinn at rifa af honum klæði oll, en siðan greip hann sialfan hann ok dro ok kastaði honum niðr fyrir borgarvegg, ok var hann eigi senn a þrimr misserum.

22. Aðr Pall postoli kom til Romaborgar, þa vitraðiz drott-

kom, þa let Simon hundinn lausan ok sigadi honum aa postolann. Hundrinn snyr þegar at, þar sem Simon er, ok rędr a hann ok rekr hann undir sik. Petrus geck þa at med huggędi ok miskunn ok mællti vid hundinn: „Ek byd þer i nafni Jesus Kristz, at þu bitir hann eigi, helldr rif klędi hans." Hann gerdi sva sem Petrus baud. Simon tok at yla sva sem vargr ok for ut af borginni, ok vard þa eigi vart vid hann þann vetr. Litlu sidar vitradiz drottinn Petro postola ok mællti við hann: „Þeir Simon ok Nero ero fullir diǒflum ok bera saman rad i moti þer. Enn þu skallt eigi ottaz, þviat ek em med þer, ok eigi mun ek þik fyrirlata. Enn ek mun gefa þer mikla huggan ok traust i þinum mannraunum, her kemr bradliga minn þionn Pall postoli, ok mun hann þer fylgia ok alldri sidan vid þik skiliaz."

inn Petro ok mællti við hann: „Þeir Simon ok Nero fullir af diöfli bera rað saman a moti þer, en þu skallt eigi ottaz, þviat ek em með þer, ok mun ek gefa þer fullting Pals postola mins, ok mun hann koma a morgun hingat, ok munu þit baðir eiga þrautir við Simon ok stiga yfir hann, ok siðan fara af heimi með sigri a einum degi baðir.“ En um morguninn eptir kom Pall postoli i Romaborg, sva sem drottinn hafði honum fyrirheitit. En Gyðingar foru þegar til fundar við hann[1] ok mælltu: „Sanna þu tru vara, þa er þu hafðir i uppruna þinum, þviat eigi er rett, at þu geriz lærifaðir heiðinna þioða, þar er þu ert Gyðinga kyns, ok attu eigi at eyða skurðarskirn[2], þar er þu hefir sialfr skurðarskirn. En þa er þu finnr Petrum, før[3] þu fram kenning þina i gegn honum, þviat hann eyddi fyrir oss lög var oll ok bannaði oss hatiðir varar ok fyrirbauð oss at hallda þvattdaga.“ Pall svaraði: „I þvi megu þer marka[4], at ek em sannliga Gyðingr, at ek varðveiti skurðarskirn ok ek helld þvattdaga, þviat a þvattdegi hvildiz guð af ollum verkum sinum. Ver eigum höfuðfeðra ok spamanna log, hvat boðar Petrus þvilikt i riki heiðinna manna? En ef hann vill kenna nokkura nyia kenning, þa segi þer honum [ofundlaust, at við finnimz[5], ok mun ek reyna kenning hans, [sva at þer set hia[6]. [En ef kenning hans verðr sönnuð[7] með vitni yðarra boka, þa samir oss ollum at hlyða honum.“ En er Pall hafði þetta mællt, þa foru Gyðingar at segia Petro, at Pall villdi finna hann. Petrus varð feginn, er hann heyrði þessi orð, ok reis upp þegar ok for at finna Pal postola. En er þeir funduz, þa varð hvarr oðrum sva feginn, at [hvargi matti vatni hallda[8]. Pall sagði þa allan atburð farar sinnar, ok sva hversu erfiðliga[9] hann hafði þangat komit. Þa sagði ok Petrus honum, hveriar meingerðir hann hafði tekit af Simoni mago[10]. Þa for Petrus heim at aptni.

23. En er annarr dagr kom, þa for Petr til fundar við Pal postola, ok fann þar mikinn fiolda Gyðinga fyrir dyrum. En þar var mikil[11] þræta milli Gyðinga ok kristinna manna ok heiðinna. Gyðingar mælltu: „Ver erum kyngöfugir, komnir fra [guðs

1 *Begyndelsen af Capitel 22 hertil lyder i C:* Þa er Pall postoli kom til Romaborgar, komu Gyðingar til hans 2 tru Gyþinga skirnar ok tęgia oskirdum *C.* 3 flyt *C.* 4 reyna *C.* 5 [*saal. C*; at ek vil finna hann *A.* 6 [*tilf. C.* 7 [*saal. C*; sannast *A.* 8 [þeir felldu tar fyrir fagnadi *C.* 9 *saal. C*; osælliga *A.* 10 enum fiolkynga *C.* 11 sundrþycki mikit ok *C.*

vinum[1] Abraham ok Isaach ok Jacob ok spamonnum, þeim er guð sialfr mællti við ok syndi þeim takn sin ok leynda doma; en þer erut af heiðnum þioðum, ok eru feðr yðrir [af engu agætir nema af[2] blotum ok skurðgoðum, ok [hafi þer[3] verit æ rækir fra[4] guði.“ Þa svoruðu kristnir menn: „Þegar er ver heyrðum hit sanna, þa hurfum ver eptir þvi ok fyrirletum villu vara; en [ér vitit[5] log feðra yðarra, ok sa þer takn spamanna, ok gengut þer þurrum fotum um sio, ok sa þer ovini yðra sôkkva i sio, ok syndiz yðr elldligr geisli[6] a himni um nætr, en sky liost um daga, ok gaf guð yðr himnabrauð[7] at føzlu en vatn or steini. En eptir þessa hluti alla gerðu þer yðr skurðgoð ok blotuðut þat, en þer truðut eigi a guð ok fyrirletut hann; en ver sam engi takn ok truðum a guð, þann er þer fyrirletut ok truðut eigi.“ En er kristnir menn ok Gyðingar þrættu a þessa lund, þa tok Pall postoli til orða ok mællti: „Eigi skulu þer hafa þrætur[8] a meðal yðar, helldr skulu þer a þat lita, at guð efndi heit sitt, þat er hann het feðr varum Abraham, ok sor þess, at i hans kyni mundi allar þioðir þrifaz, þviat guð virðir eigi menn at kyni; ok þeir er i gegn logum misgera, þeir skulu at logum fyrirdømaz, en þeir er fyrir utan log misgera, munu fyrir utan log fyrirfaraz, þviat su hyggiandi er gefin i hugskot manna, at þeir megu skilia[9], hvat a milli er goðs ok illz, at þeir megi[10] eignaz eilifa[11] ômbun fyrir goð verk, [ok refsi illa hluti a sialfum ser[1].“ En er Pall hafði þetta mællt, þa stôðvaðiz þræta hvarratveggiu. En hofðingiar Gyðinga avituðu Petrum um þat, er hann fyrirbauð þeim [at hallda[12] logþing þeira.

Petrus mællti [ok svaraði þeim[13]: „Hlyði þer þvi, brøðr, er heilagr andi het David feðr varum, at fra honum mundi sa koma, er [sitia mundi[14] yfir sess[15] hans. Við þann mællti faðir af himni: son minn ertu, i dag gat ek þik. Þann hinn sama krossfestu Gyðingar af ofund sinni, en hann tok a sik þessa hluti alla, til þess at hann fylldi lausn þa, er nauðsynlig var ollum heimi. Ok sva sem Eva var ger af[16] rifi Adams, sva skapaðiz ok kristnin af siðu hins krossfesta Kristz, ok var sva fôgr, at hon hafði engi lyti a ser ne flekk. En þessa gôtu syndi

1 [*tilf. C.* 2 [*saal. C*; at engu nytir nema at *A.* 3 [hafit ér *C.* 4 fyrir *C.* 5 [þer vissut *C.* 6 stôpull *C* 7 himnamiôl *C.* 8 *saal. C*; þrætni *A.* 9 hvat þeir skulu gera eda *tilf. C.* 10 *tilf. C.* 11 *mgl. C.* 12 [*mgl C.* 13 [þa til Gyþinga *C.* 14 [setiaz mundi *C.* 15 sęti *C.* 16 or *C.*

guð sonum Abraham, Isaach ok Jacob, [at þeir væri[1] i tru Kristz ok hans kristni, en eigi i otru Gyðinga. Snuiz þer ok þa til guðs ok gangit inn i fôgnuð Abrahams foður yðars, [þviat guð fylldi þat er hann het honum, sva sem spamaðrinn mællti: Drottinn sor ok mun eigi iðraz, þu ert kennimaðr at eilifu. Kristr gerðiz kennimaðr a krossi, þa er hann veitti verolldinni forn holldz sins ok bloðs[2]." En er postolar drottins hofðu þessum orðum mællt ok morgum þvilikum, þa truði mestr hluti þess lyðs a guð, er þessi orð heyrðu, en fair voru þeir, er i gegn[3] mælltu [kenningu þeira[4]. Þa sa hôfðingiar Gyðinga ok rikismenn þioða, at eyðaz mundu lôg þeira af kenningu postolanna, ok røgðu þeir þa við lyðinn, ok varð osætti af orðum þeira. En siðan røgðu þeir þa við Neronem konung, en þeir lofuðu Simonem magum. En er otal þioðar sneriz til truar af kenningum Petrs postola, þa tok ok tru kona Neronis keisara, en hon het Libia, ok þa tok tru kona borgargreifa þess, er Agrippa het, en hon het Agrippina, ok skilduz þær siðan fra samlagi buanda sinna. En fyrir kenning Pals postola hurfu margir [til rettrar truar[2] fra riddarasyslu ok fra hirð konungs ok gerðuz kristnir ok [gerðu eigi aptr hverfa[5] til konungshallar ne riddarasyslu.

24. [En Simon magus fylldiz[6] ôfundar ok mællti mart illt um Petrum ok kvað hann fiolkunnigan vera. En þeir truðu Simoni, er sa sionhverfingar hans, ok hugðu þat takn vera, þviat hann gerði orm or eiri, þann er hrørðiz[7], ok hunda or steini, þa er go, ok likneski or malmi, þau er hlogu ok hrørðuz, en hann syndiz sialfr fliuga i lopti [i elldz liki[4]. En Petrus gaf heilsu siukum, en sion blindum með bønum sinum, ok rak diofla fra oðum monnum ok gaf lif dauðum. En hann mællti, at menn skylldu sia við svikum Simonar ok við allri villu hans, ok lata eigi at velum dioful s, þviat hann kvað Simon vera lygimann ok fiolkunnigan galldramann ok vándan þiof, ovin guðs ok allz hins retta, ok kvað bratt augliosa mundu verða hans illzku fyrir ollum lyð. Þa gerðiz sva, at allir raðvandir menn ok siðsamir røgðu[8] Simon ok sogðu hann vera skrôksmann, en Petrum guðs vin helgan. En þeir er Simoni fylgðu baru liugvitni með honum ok kvaðu Petrum fiolkunnigan, [þar sem þeir voru sialfir fiolkunnigir[2]. En er þetta mal kom fyrir Neronem konung, þa bauð hann, at Simon magus

1 [*saal.* *C*; ok þeir eru *A*. 2 [*tilf.* *C*. 3 moti *C*. 4 [*mgl.* *C*. 5 [komu eigi siðan *C*. 6 [Eptir þetta fylltiz Simon upp *C*. 7 skreið *C*. 8 ræktu *C*.

skylldi koma til fundar við hann. En er hann kom ok stoð fyrir konungi, þa tok hann at skipta yfirlitum sinum ok asionu, sva at hann syndiz stundum ungr en stundum gamall, stundum har en stundum lagr, en stundum [braz hann i yms liki[1] manna eða kvikenda. Þa hugði Nero, at hann væri sialfr[2] sonr guðs. Þa gekk Simon fram fyrir konunginn ok mællti: „Hlyð þu mer, goðr konungr, þviat ek em sonr guðs stiginn af himni; allt hingat til hefi ek setit Petro þat, at hann segiz postoli vera, en nu er mer tvefolld meingerð i[3], þviat Pall[4] [gengr ok i moti mer ok[5] i lið með Petro ok kennir hit sama sem hann. En þat skalltu vita, konungr, at eigi mun riki þitt standa, nema þu raðir þeim bana.“ Þa varð Nero konungr ahyggiufullr ok bað [gera eptir þeim postolum ok leiða þangat[6].

25. En annan dag eptir, þa er þeir postolar guðs komu fyrir konung [ok Simon magus[7], þa mællti Simon: „Þessir eru lærisveinar [Jesu Nazareni[8], ok eru eigi þess verðir, at þeir heiti Gyðingar, þott þeir se af þeira kyni.“ Nero spurði: „Hvat er Nazarenus[9]?“ Simon svaraði: „Borg heitir Nazareth a Gyðingalandi, su er oss er avallt gagnstaðlig, en or þeiri borg var lærifaðir þeira.“ Nero spurði: „Ef guð leiðrettir ok elskar alla menn, hvi hatar þu þessa?“ Simon svaraði: „Þessir menn tældu allt Gyðingafolk, at eigi tryði þat mer[10].“ Petrus svaraði ok mællti við Simon: „Þoat þu [mættir alla aðra tæla[11], þa munt þu eigi[12] mik svikia, þviat fyrir mik kallaði guð fra villu þa, er þu hafðir svikit. En er þu hefir reynt fyrr, at þu matt eigi vega sigr a mer, þa undrumz ek, af hvi þu hrosar þer [i augliti konungs[13], ok ætlar at þu munir vega sigr a lærisveinum Kristz með fiolkyngi þinni.“ Nero spurði: „Hvat [er Kristr[14].“ Petr svaraði: „Kristr er sonr guðs, sa er Simon þikkiz vera, [ok segiz þar goðr, sem hann er illr ok hann vinnr diofuls verk[15]. En ef þu villt vita, konungr, þa hluti, er um Krist gerðuz a Gyðingalandi, þa lat þu taka bref[16], þat er Pilatus iarl sendi Claudio, ok mattu þa vita hit sanna.“ Þa let Nero taka brefit[17] ok lesa. En [þessi orð eru a brefinu[18].

1 [bra hann a sik liking ymissa C. 2 sannr C. 3 *mgl.* C. 4 Paulus C. 5 [gerir i gegn mer ok gengr C. 6 [leiða postolana fyrir sik C. 7 [*mgl.* C. 8 [ens naddverska ok ens krossfesta C. 9 enn naddverski C. 10 Nero mællti við Petrum: „Fyrir hvi erut þer otruir ok allt kyn yðart“ *tilf.* C. 11 [tælir alla aðra C. 12 alldri C. 13 [*saal.* C; fyrir mer A. 14 [*saal.* C; Kristr þat væri A. 15 [*tilf.* C. 16 rit C. 17 ritit C. 18 [þar var sva ritat C.

Pilatus iarl sendir kveðiu Claudio. Fyrir skommu [bar þann hlut at, er ver reyndum sialfir[1], at Gyðingar fyrirdømdu sik ok kynsmenn sina af ófund sinni, þviat guð þeira af himni het feðrum þeira, at hann mundi senda þeim son sinn, þann er vera mundi konungr þeira, ok var þeim heitit, at hann mundi [af meyiu føðaz[2]. En er hann kom, ok þeir sa hann gefa syn blindum, ok heilsu likþram, ok lif dauðum, ok reka diofla fra oðum monnum, ok ganga þurrum fotum a[3] sio ok stoðva vinda, ok gera margar aðrar iartegnir, sva at mestr hlutr Gyðingalyðs kallaði hann guðs son, þa fyllduz kennimanna hofðingiar ófundar [a moti[4] honum, ok toku hann ok selldu mer, ok sogðu hann fiolkunnigan ok gagnstaðligan logum þeira[5]. En ek truða lygi þeira, ok let ek beria hann, ok dømda ek hann [til dauða[6]. En þeir krossfestu hann ok grofu ok settu vardhalldzmenn hia[7] leiði hans. En hann reis upp a þriðia degi. En sva mikil var illzka Gyðinga, at þeir gafu varðhalldzmonnum peninga[8], til þess at þeir skylldu þat segia, at hans lærisveinar [stæli honum[9] a brott. En þo at þeir tøki við fenu, þa mattu þeir eigi [yfir þvi þegia, sem gorzt hafði[10], þviat þeir sogðu, [at hann hafði upprisit, ok sva þat at þeir toku feit af Gyðingum[11]. En ek reit þetta til þess, at engi skylldi trua lygi Gyðinga, þott þeir segði allt annan veg.

26. En er rit þetta var lesit fyrir konunginum, þa [spurði hann Petr, ef þetta væri sva sem þar var sagt[12]. En Petr svaraði: „Sva er, konungr, eigi lyg ek at þer. En Simon sia er fullr lygi ok flærðar ok ætlar sik guð vera, þar sem hann er vándr[13] maðr. En Kristr er bæði guð ok maðr, ok tok til þess manndom a[14] guðdom sinn, at hann leti ser soma at hialpa monnum. En þessi Simon er maðr, ok hefir með ser dioful þann, er [hverium manni[15] vill mein gera.“ Simon mællti: „Þat undrumz ek, at þu, konungr, skallt nokkurs virða orð þessa hins ovitra ok hins lygnasta fiskimannz, er [oitarligr er at buningi ok[16] at mælsku ok at kyni ok at allri atferð. En ek mun eigi sitia honum lengr þessa meingerð, ok mun ek bioða englum minum, at þeir hefni min.“ Petr svaraði: „Eigi mun ek hræðaz engla þina, en þeir

1 [*saal.* C; barst sva at, at ver reyndum *A*. 2 [fra meyiu beraz *C*. 3 um *C*. 4 [i gegn *C*. 5 sinum *C*. 6 [sidan at vilia þeira *C*. 7 yfir *C*. 8 fe *C*. 9 [hefdi tekit likam hans *C*. 10 [þegia yfir þvi, sem þar gerdiz *C*. 11 [sik séd hafa hann upprisa *C*. 12 [mællti Nero. „Segdu mer, Petre, ef þetta er satt“ *C*. 13 illr *C*. 14 eilifan *tilf.* *C*. 15 [monnum *C*. 16 [oitarligan buning hefir ok herfiligr er *C*.

munu mik hræðaz i krapti drottins Jesu Kristz." Nero spurði: „Hvi hræðiz þu eigi Simon, er með taknum sannar guðdom sinn?" Petr svaraði: „Ef guðdomr er með[1] honum, sa er veit leynda hluti, segi hann mer nu, hvat ek hygg[2] eða hvat ek mun gera. En þa hugrenning mun ek segia [i eyra þer[3], konungr, at hann þori eigi at liuga, hvat ek hygg[4]." Nero mællti: „Gakk hingat þu, ok seg mer hvat þu hyggr." Petrus mællti: „Bioð þu, at hingat se førðr[5] brauðleifr leyniliga." En er brauðleifrinn var selldr Petro, þa mællti hann: „Segi Simon nu, hvat hugt[6] var eða mællt eða gert." Þa mællti Nero: „Hyggr þu, at ek trua því, at Simon viti þetta eigi, sa er mann reisti af dauða, ok gerði allt þat er ek bað hann." Petrus mællti: „Ekki sa ek hann þat gera." Nero svaraði: „Ek sa hann þetta gera allt, ok bauð hann englum sinum at koma til sin af himni, ok komu þeir." Petrus mællti: „Ef hann gerði þat, er meira var, fyrir hvi gerir hann eigi hvat[7] minna er. Segi hann nu, hvat ek hygg eða hvat ek gerða." Nero mællti: „Hveriu svarar þu nu, Simon? Eigi skil ek nu, hvarr ykkarr sannara mælir[8]." Simon mællti: „Segi Petrus, hvat ek hygg[9]." Petrus svaraði: „Þa mun ek syna, at ek veit, hvat hann hyggr, [ef hann gerir þat, er hann hefir ætlat[10]." Simon mællti: „Þat skalltu vita, konungr, at engi veit hugrenningar manna nema guð einn, en Petrus lygr ok læzt þat vita, er hann veit eigi." Petrus mællti: „Segðu, Simon, ef þu læzt vera sonr guðs, hvat ek hugða eða hvat ek gerða." En Petrus hafði blezat brauðleifinn ok brotit i ermar ser leyniliga. Þa reiddiz Simon, er hann matti eigi segia hugrenning postolans, ok mællti: „Fari fram hundar olmir[11] ok svelgi Petrum i augliti konungs." Þa synduz þar hundar miklir ok [gerðu fòr[12] at Petro. En Petrus retti hendr sinar a moti þeim ok syndi þeim brauð þat, er hann hafði blezat[13], ok hurfu hundarnir allir þegar, er þeir sa brauðit. Þa mællti Petrus við Neronem konung: „Nu synda ek þer i[14] verki þat helldr en [i orði[15], at ek vissa, hvat Simon hugði, þviat sa er het at senda engla a moti mer, nu syndi hann [þat, at hann hefir[16] eigi guðliga engla, helldr hundliga." Nero mællti við Simon: „Þat ætla ek nu, at við sem yfirstignir." Simon svaraði: „Petrus hefir opt slika hluti gerva a Gyðinga-

1 i *C.* 2 hugsa *C.* 3 [þer hliodliga *C.* 4 hugsada *C.* 5 borinn *C.* 6 hugsat *C.* 7 þat sem *C.* 8 hefir *C.* 9 hugsada *C.* 16 [er ek geri vid þvi sem hann hugsadi *C.* 11 miklir *C.* 12 [foru *C.* 13 vigt *C.* 14 med *C.* 15 med ordum C. 16 [sik hafa med ser *C.*

landi, ok atti hann opt[1] þrautir við mik, ok er nu þess viss orðinn, at þetta [eitt rað la til, at hann mætti[2] forðaz. En engi ma [hugrenningar manna sia[3] nema guð einn.“ Petrus mællti: „[Hvi mattu eigi sia hugrenningar manna, er þu kveðz guð vera[4]?“ [Þa mællti Nero við Paulum: „Fyrir hvi mælir þu ekki, Paule?“ Paulus svaraði: „Þat skalltu vita, konungr, at sia hinu fiolkunnigi Simon mun samna margri illzku at þer, ef þu lætr hann lengi þvisa fram fara[5].“ Nero spurði: „Hveriu svarar þu nu, Simon?“ Hann svaraði: „Nu mun ek syna, at ek em guð. Lattu mik hoggva i myrkum stað, ok lattu mik þar liggia, sem ek var hoggvinn. En er[6] ek ris upp a þriðia degi, þa mattu vita, at ek em guðs son.“

Þa bauð konungrinn[7] at gera sva sem Simon sagði. En Simon gerði sva i gerningum sinum ok gǫlldrum, at þar var hrutr til hoggs leiddr, [en monnum syndiz sem Simon væri[5]. En er hann var i myrkum stað hoggvinn, þa hafði sa forvitni við, er hoggvit hafði, ok bar hofuðit [til lioss, ok var þat[8] hrutz hǫfuð, en hann þorði eigi at segia konungiuum, at eigi yrði hann sakaðr [af forvitni sinni[9]. En Simon kom siðan ok tok a braut hræ hrutzins, en bloð hans var þa storknat eptir a iorðu[10]. En Simon syndiz Neroni a hinum þriðia degi, ok sagðiz upp hafa risit af dauða ok mællti: „Lat þu þerra bloð mitt af iorðu, þviat ek var hoggvinn, ok reis ek af dauða [a þriðia degi[5], sem ek het þer.“

[Litlu siðar[11] mællti Simon við konung: „Lat þu gera mer stopul hafan af triam, ok mun ek [stiga i stopulinn ok kalla þaðan a engla mina, ok munu þeir føra[12] mik til himins til mins foður, sva at allir siai[13]. En ef þeir mega eigi slikt gera, þa [eru þeir[14] lygimenn.“ Nero mællti við Petr: „Heyrðu nu, hvat Simon sagðir, er hann kveðz mundu[15] syna, hvern krapt hann hefir.“ Petr svaraði: „Villtu þat skilia konungr, at sa maðr er fullr af diofli, en eigi af guði.“ Nero mællti: „Hvat þarf nu orða við? A morgin skal yðr alla reyna.“

1 margar *C.* 2 [rad la til, sva at hann matti *C.* 3 [hug mannz vita *C.* 4 [Þu segir þik gud vera, fyrir hvi segir þu eigi hugrenningar manna *C.* 5 [*tilf. C.* 6 ef *C.* 7 keisarinn *C.* 8 [i lios, ok sa, at þat var *C.* 9 [um forvitni sina, þviat honum var bodit at gera þetta i myrkum stad *C.* 10 steinum *C.* 11 [En a ǫðrum degi *C.* 12 [kalla þangat engla mina ok bioda, at þeir hefi *C.* 13 megi sia *C.* 14 [mattu reyna, at þeir eru *C.* 15 *tilf. C.*

27. En þa komu þeir annan dag fyrir konunginn, ok tok Simon til máls: „Truir þu þvi konungr, at ek se fiolkunnigr, þar sem ek hefi risit af dauða?“ Þa mællti konungr við Pal postola: „Hvi mælir þu ekki, Pall, eða hverr er þinn lærifaðir, eða hvilik er kenning þin, su er þu kendir i borgum? En hit ætla ek, at þu [ser engi spekingr[1] ok megir engi stormerki gera.“ Pall mællti: „Hyggr þu þat, konungr, at ek muna vilia orðum onytum deila við ovitran[2] mann, ok þar með fiolkunnigan ok daðlausan, þann er ond sina selr til dauða, ok mun bratt fram koma glatan hans, þviat hann lygr, [er hann segiz sa vera, er[3] hann er eigi, ok tælir menn alla með fiolkyngi sinni. En ef þu villt trua[4] honum, þa muntu glata ond þinni ok riki, þviat hann er hinn versti maðr. Sva sem þeir tveir fiolkunnigu menn Jamnes[5] ok Mambres [a Egiptalandi[6] leiddu i villu Pharaonem konung ok her hans allan, til þess er þeir sukku [i hafit rauða[7], sva tælir sa ovitra menn með velum [foður sins diofulsins[8] ok gerir mart illt fyrir fiolkyngi sina, ok svikr hann þa er ovitrir eru ok gerir mikla meiðing [riki þinu[9]. En ek bið helgan anda með tarum[10] mins hiarta, at sem skiotast megi synt verða, hversu mikla diofuls villu sia maðr byðr, þviat þa er hann ætlar [ser upp at stiga[11] til himnanna, þa mun hann niðr [detta til helvitis[12], þar er vera mun gratr ok tanna gnistan. En þar er þu spurðir at kenningu minni[13], þa megu þeir einir við henni taka, er þiona vilia guði með hreinni ast. En ek kenda hverium þat er til friðar er [ok astar[14], ok for ek með friðarboði allt i Jerusalem[15], talda ek þat fyrir ollum, at hverr [skylldi elska[16] annan. Kenda ek þat rikismonnum ok auðigum[17], at þeir drambi eigi [ne treysti a auðøfi sin, helldr hefði þeir visa van ok traust a guði, ok at þeir skipti með fatøkum ok væri þakklatir guði, en þeir er ser ætti atvinnu, yndi þvi, er[18] þeir ætti, ok girntiz enskis framar. [Kenda ek þat[19] feðrum, at þeir kendi þat sonum sinum [at unna guði; kenda ek þat sonum, at þeir væri hlyðnir feðrum

1 [hafir enga speki *C.* 2 otruan *C.* 3 [sik vera þat sem *C.* 4 hlyda *C.* 5 Ramnes *C.* 6 [er voru fordum a Egiptalandi ok *C.* 7 [nidr i sia *C.* 8 [diofuls *C.* 9 [velldis þins *C.* 10 mętti *C.* 11 [upp at hefiaz *C.* 12 [sǫkkva i it nedra helviti *C.* 13 lærifôður þins(!) *C.* 14 [*tilf.* *C.* 15 Jorsalaborg *C.* 16 [elskadi *C.* 17 audkyfingum *C.* 18 [af ovisum audęfum ne treystiz i þeim, helldr hefdi þeir visa van ok treystiz i miskunn guds. En þat kenda ek voludum, at þeir fagnadi i voladi sinu ok þackadi gudi, enn þeir yndi sliku, sem *C.* 19 [Þat talda ek fyrir *C.*

sinum ok møðrum[1] sinum ok ollum þrifsamligum[2] aminningum. Kenda ek þat fiareigondum ok farmonnum eða kaupmonnum, at þeir gylldi [vel skatta alla ok lôgskulldir allar[3]. Kenda ek þat konum, at þær [ynni bondum sinum[4] ok væri þeim hlyðnar; kenda ek þat bondum, at þeir ynni sinum konum ok sæi sva við saurlifi[5] við aðrar konur, sem þeir villdi sinar konur grandvarar[6]; þviat þat er karlmanni mislikar við oraðvanda konu sina, þa hefnir guð slikrar syndar oraðvondum[7] karlmanni. Þat kenda ek drottnum, at þeir væri høgir við þræla sina, en þat þrælum at þiona[8] vel drottnum sinum ok truliga sva sem guði. Þat kenda ek allri kristninni at gôfga einn guð truliga almatkan ok osyniligan. En su kenning er mer eigi af monnum gefin, helldr af guði Jesu Kristo ok dyrðar foður, [þeim er af himni mællti við mik þessum orðum[9]: „Far þu, en ek mun vera með þer lifs andi ok ollum þeim, er a mik trua, ok mun ek efla allt þat er þu gerir eða mælir.“

28. Nero undraðiz tôlu þessa ok mællti við Petrum: „Hvat [røðir þu um tôlu þessa[10]?“ Petrus svaraði: „Hvert orð er satt, er Pall mællti; þviat margir vetr eru nu liðnir, siðan ek tok rit af ollum byskupum, þeim er voru i Romaborgar velldi, ok sogðu allir [eitt um hans orð ok verk[11]. En þa er hann var ovinr laga Kristz, kallaði [rodd guðs hann af himni[12] ok kendi honum hit sanna, þviat hann var eigi fyrir ôfund ovinr varrar truar, helldr fyrir þvi[13] at hann vissi eigi hit sanna. Enn voru ok fyrir vara æfi villuspamenn ok villupostolar sva sem[14] Simon, ok gerðu i moti helgum bokum ok villdu glepia[15] hit sanna; en þessum manni Pali þotti nauðsyn at gera i gegn þeim, þviat hann framdi enga syslu aðra allt fra uppruna sinum, en hann rannsakaði takn guðs laga, ok skildiz honum af þvi at vera vinr hins sanna en ovinr flærðar. En af þvi at ovinatta hans var eigi af ôfund helldr af ast laganna, þa mællti sialfr hinn sanni af himnum við hann: Ek em hinn sanni, sa er þu [villt orøkia[16], lat af þu at gera i gegn mer, [þviat þu berz i moti vinum hins sanna[17]. En er hann

1 [hlydnir at vera fedginum *C.* 2 kenningum ok godum *tilf. C.* 3 [skatt ok landaura ok allar lôgsamligar skylldir *C.* 4 [elskadi bęndr sina *C.* 5 munudlifi *C.* 6 radvandar *C.* 7 ograndvorum *C.* 8 þeir þionadi *C.* 9 [En er drottinn vorr Jesus Kristr sendi mik til kenningar, þa mællti hann við mik *C.* 10 [segir þu, Petre *C.* 11 [mer slikt fra hans ordum ok verkum *C.* 12 [himnesk rôdd a hann *C.* 13 þat *C.* 14 þessi *tilf. C.* 15 nidr briota *C.* 16 [ofsękir *C.* 17 [*mgl. C.*

varð viss hins sanna, þa fyrirlet hann þat, er hann hafði aðr fylgt, ok tok at elska Krist, þann er hann hafði aðr hatat, þann er eilift lif er ollum þeim, er a hann trua, ok satt lios þeim, er guðs gotu ganga.“ Simon mællti: [„Skildu konungr! sambundit er rað þeira[1] i moti mer.“ [Nero spurði: „Hverr er hinn sanni?“ Simon svaraði: „Ek em hann[2] enn sanni, en þessir setia rað i gegn mer.“ [Petrus mællti: „Engi er sannleikr i þer, helldr gerir þu ok mælir allt með lygi[3].“ Nero mællti: „Hvat segir þu nu, Pall?“ [Hann svaraði[3]: „[Sva er sem þu hafir heyrt mik mæla allt, þat er Petrus talaði[4], a einn veg skilium við baðir, þviat við truum a einn guð Jesum Kristum.“ Simon mællti: „Hyggr þu þat, konungr, at ek muna lengr þræta við menn þessa, er hug sinn reisa við[5] mer? [En þið skulut þat vita, Petr ok Pall[6], ef ek ma ekki her at ykkr gera, þa munum ver þar koma, at ek skal ykkr døma, [þviat ek mun vægia ykkr, unz ek kem i krapt minn[7].“ Pall [svaraði: „Hyggr þu þat, Simon, at þu munir heðan heill komaz[8]?“ Petr mællti: „Fyrir hvi hlær þu eigi at [þessum oramanni[9], er [leikinn er af diofli, ok hyggr, at hann muni leynaz mega.“ Simon mællti: „Ek mun vægia yckr, þar til er ek syni krapt minn.“ Paulus svaraði: „Hyggr þu, Simon, àt þu munir heill heðan komaz.“ Petrus mællti: „Eigi mun Simon fyrr trua, at hann se eigi guð, en hann ser[10] krapt drottins Jesu Kristz.“ Simon mællti: „Þu hinn bezti kōnungr, tru þu eigi þessum monnum, þviat þeir eru eigi Gyðingar ok hafa þo skurðarskirn sem Gyðingar.“ Pall mællti: „Fyrr en við[11] vissum hit sanna, þa tokum við[11] likamliga skurðarskirn, en siðan er við sam hit sanna, þa [skirðumz við[12] skurðarskirn hiartans.“ Petr mællti við Simon: „Ef ill er skurðarskirn, fyrir hvi ertu þeiri skirðr?“ Nero spurði: „Hefir Simon ok skurðarskirn?“ Petr mællti: „Eigi matti hann annan veg meir svikia andir[13] manna, en hann liktiz Gyðingum ok syndi sik kenna guðs log.“ Nero mællti: „Sva syniz mer, Simon, sem þu ôfundir þessa menn, ok ser þu af þvi ovinr þeira, at ofund se a milli þin ok Kristz þeira, ok uggi ek,

1 [Samanbundit rad þessa tveggia mattu skilia *C.* 2 [En ek em *C.* 3 [ *tilf. C.* 4 [Þat sem þu heyrðir af Petro, ętladu þat sem ek hafa þat mællt *C.* 5 i moti *C.* 6 [Enn męllti Simon vid postolana: „Hlydit þit nu“ *C.* 7 [*mgl. C.* 8 [męllti: Se þu, konungr, hvilikar ognir hann bydr ockr *C.* 9 [manni þessum hofutęrum *C.* 10 [*saal. C*; sva er leikinn af diofli, at hann hyggr leynaz muni hann, en eigi mun hann trua, at eigi se hann guð, fyrr en hann reynir *A.* 11 ver *C.* 12 [skirum ver ok skirumz *C.* 13 salur *C.*

at þeir stigi yfir þik eða komi fari nôkkuru at þer." Simon mællti: „Svikinn ertu nu, konungr!" Nero mællti: „Hvi[1] em ek svikinn? Þat segi ek, er ek se [a þer[2], at þu ert ovinr þeira Petrs ok Pals ok lærifoður þeira." Simon mællti: „Eigi er Kristr lærifaðir Pals." Paulus mællti: „Sa er Petrum lærði her i heimi, hann sialfr vitraðiz mer siðan ok lærði mik. En er Simon avitar oss um skurðarskirn, segi hann þa, hvi hann hefir sialfr skurðarskirn." Simon mællti: „Af hvi spyri þið mik þess?" [Pall svaraði: „Sok er til þess, hvi við spyrium þess[3]." Nero mællti: [„Hvat er nu Simon, þorir þu eigi at segia þeim þat, er þeir spyria[4]?" Simon mællti: „A þeiri tið, er ek tok skurðarskirn, þa var hon boðin af guði." Postolarnir svôruðu: „Heyrðir þu nu, konungr, hvat Simon sagði. En ef goð er skurðarskirn, fyrir hvi [gaftu þat ôðrum at sok ok lezt vega þa menn, er skurðarskirn hôfðu[5]?" Nero mællti: „Eigi ma ek ykkr enn vel trua ne ætla ykkr goða vera." Postolarnir svoruðu: „Engu mali skiptir[6] okkr, hvart þu ætlar okkr goða eða illa, en þat er nauðsyn, at fram komi þat, er lærifaðir okkarr het." Nero mællti: „[Eigi er vist, at ek vilia þat[7]." Petr svaraði: „Þat mun verða, er Kristr vill, en eigi þat er þu villt." Simon mællti: „[Ser þu[8], konungr, at þessir menn svikia þik ok draga at þer vel." Nero mællti: „Þu hefir [eigi at fullu[9] synt mer, at þu ert[10] goðr." Simon mællti: „Undrumz ek þat, konungr, at þu skallt eigi trua sva môrgum iartegnum ok storum taknum, er ek synda þer. "Nero svaraði: „Engum yðrum [mistrui ek at fullu[11], helldr svaraðu þvi, Simon, er ek mun spyria þik." Simon svaraði: „Nu þarf ek eigi at svara þer." Nero mællti: „Ek mun þik ok enskis virða, þviat ek hygg, at þu liugir allt, ok sva allir þer þrir, ok veit ek eigi, hverium yðrum ek skal trua, þviat þer synit allir hug yðarn ostaðfastan." Petrus mællti: „Einn guð boða ek, foður ok son ok helgan anda, skapara allra hluta, þann er gerði himin ok iorð ok sæ, ok er hann [allz drottinn ok eilifr[12] konungr, ok verðr eigi endir rikis hans." [Nero spurði: „Hverr er konungr ok drottinn?" Paulus svaraði: „Grøðari allra þioða ok skapari[13]." Simon mællti: „Ek em [hann sa, ek em hann sa[14]; en þat skulu þið vita, Petr ok Pall, at [ykkr mun eigi verða þat[15],

1 I hveriu *C.* 2 [*tilf. C.* 3 [*mgl. C.* 4 [Hvart hrędiz þu, Simon, at svara þeim? *C.* 5 [glatadir þu þeim er hana toku ok letz vega þa? *C.* 6 vardar *C.* 7 [Er vist at ek vil þat? *C.* 8 [Hvart ser þu eigi *C.* 9 [enn ok eigi *C.* 10 ser *C.* 11 [trui ek, ok engan ydvarn mistrui ek *C.* 12 [allra *C.* 13 [*tilf. C.* 14 [sa *C.* 15 [þit muuut eigi þat fa *C.*

er þið vilit, ok mun ek eigi þiggia ykkr at pislarvattum." Postolar drottins svoruðu: „Verði þer alldri vel, hinn versti Simon, er fullr ert allrar velar[1]." Simon mællti: „Heyrðu. Nero konungr, ok vit þat, at [þessir menn liuga, en[2] ek em sendr af himni. A morgun mun ek upp stiga til himna ok gera þa sæla, er mer trua, en syna þessum reiði mina, er nu þora at neita mer." Postolar svoruðu: „Okkr kallaði guð fyrir löngu til dyrðar, en þu ert nu kallaðr af diöfli [ok hrapar þu til helvizkra kvala[3]." Simon mællti: „Hlyð þu mer, goðr konungr! Skildu fra liði þinu þessa hina oðu menn, at ek mega þer hollr vera, þa er ek kem til foður mins a himnum[4]." Nero spurði: „Hversu ma ek þat reyna[5], at þu, Simon, farir a[6] himna?" Simon svaraði: „Lattu gera stopul hafan af triam storum, ok mun ek stiga upp i stopulinn; þa munu koma englar minir til min i lopti, þviat þeir megu eigi koma til min a iorðu með syndugum monnum." Nero sagði: „Sia vil ek þat, ef þu efnir þetta heit."

29. Þa let Nero gera stopul [hafan a viðum[7] velli, ok bað koma lyð allan ok rikismenn til þessa leiðmotz. En er [allir menn komu[8] þar annan dag, þa mællti Nero við postola drottins: „Nu mun reynt verða, hvarir satt segia." Postolarnir svoruðu: „Skiott mun þat reynt verða, en eigi munum við [honum glata, helldr drottinn Jesus Kristr, sa er Simon segiz vera[9]." Þa mællti Pall við Petrum: „Ek mun falla a kne til bønar ok biðia til guðs, en þu neyt velldis þins i gegn honum, ef þu ser hann nokkur odømi[10] gera." Þa fell Pall a kne til bønar, en Petrus leit i gegn Simoni ok mællti: „Ger þu þat, er þu hyggr, þviat nu nalgaz glatan þin, en dyrð var þroaz, þviat ek se nu Jesum Krist, ok kallar hann [okkr Pal[11]." Nero mællti: „Hvert munu þið fara gegn vilia minum?" Petrus svaraði: „Þangat er drottinn Jesus Kristr kallar okkr." Nero spurði: „[Hverr er drottinn yðvarr?" Petrus mællti: „Drottinn varr er Jesus Kristr, ok se ek hann nu ok hann kallar mik." Nero mællti[12]: „Ætli þið ok eigi til himins at fara?" Petrus mællti: „Þangat förum við, sem drottinn[13] kallar okkr." Simon mællti þa við Neronem: „Þegar er ek stig upp til himna, þa mun ek senda engla mina til þin ok lata þik koma til min [með veg[14]." Nero [bað hann sva gera[15].

1 illzku *C.* 2 [*mgl. C.* 3 [til eilifra pisla *C.* 4 himna *C.* 5 vita *C.* 6 til *C.* 7 [storan a slettum *C.* 8 [lydrinn kom *C.* 9 [*saal. C*; með honum fara helldr til drottins Jesu Kristz konungsins eilifrar dyrðar *A.* 10 undr *C.* 11 [mik ok Paulum *C.* 12 [*tilf. C.* 13 þeim likar er *C.* 14 [*mgl. C.* 15 [męllti: Giördu þat er þu męlir *C.*

Siðan gekk Simon upp i stopulinn, sva at allir sa, þeir er hia voru, ok retti hendrnar fra ser, ok hafði koronu a hofði ok [tok at fliuga[1] i loptinu. Þa mællti Nero konungr við Petrum: „Simon er sannsogull[2], en þið Pall erut lygnir.“ Petrus svaraði: „Nu muntu bratt reyna ok viss verða, at við erum sannir Kristz lærisveinar, en Simon er eigi Kristr, helldr er hann [magus ok villumaðr[3].“ Nero mællti: „Þorir þu enn at mæla i gegn honum, ok ser þu hann nu [fara til himna[4].“ Þa leit Petrus til Pals ok mællti: „Paule broðir, hefðu upp hofuð þitt ok sia.“ En er Pall [hof upp hofuð sitt[5] ok sa Simon fliuga, þa felldi hann tar ok mællti: „Hvat dvelr þu, Petr? Ger þu þat, er þu [hefir raðit[6], þviat drottinn Jesus Kristr kallar okkr.“ Nero brosti ok mællti: „Nu sia þessir, at þeir eru yfirstignir[7] ok munu nu øraz[8].“ Petr svaraði: „Nu skalltu reyna, at við erum eigi ørir.“ Pall mællti við Petrum: „Gerðu þat, er þu [tokt upp[9].“ Þa leit Petrus eptir Simoni ok mællti: „[Ærir fianda[10], þer er berit hann i lopti at svikia hiortu otrura manna, ek søri yðr fyrir guð skapara allra hluta ok fyrir Jesum Kristum, er a þriðia degi reis upp af dauða, at þer latit Simon nu þegar lausan ok berit hann eigi lengra.“ Þa fell Simon niðr a stræti þat, er kallat er Sacra Via, a fiora hellusteina[11], ok slitnaði hann i sundr i fiora hluti. En þeir steinar[12] standa enn til sigrmerkis[13] postola drottins allt til þessa dags. Þa let Nero taka [þa Petrum ok Paulum ok setia i bond, en hann let vandliga varðveita hræ Simonar[14] ok vænti upprisu hans a þriðia degi. Petrus mællti: „Eigi mun hann upp risa, þviat hann er sannliga[15] dauðr ok dømdr til eilifra kvala.“ Nero spurði: „Hverr lofaði þer at gera gløp þenna?“ Petrus svaraði: „Þræta hans sialfs; en ef þu villt rett virða[16], þa er honum mikit vilnat[17] i þvi, er hann forz fyrr en hann kømi fram sva mikilli[18] guðlastan til øxlingar kvala sinna.“ Nero mællti: „Þið gerðut hug minn ahyggiufullan, af þvi skal deyða ykkr illum dauða.“ Petrus mællti: „Þat mun verða, er okkr er heitit, en eigi þat er þu villt.“

30. Þa[19] let Nero setia Petrum i myrkvastofu. En a þeiri

1 [flo *C.* 2 sannmall *C.* 3 [fiolkunnigr ok lygimadr *C.* 4 [til himins stiga *C.* 5 [leit upp *C.* 6 [tokt til *C.* 7 yfirkomnir *C.* 8 ędraz eda ęraz *C.* 9 [hefir radit *C.* 10 [Englar fiandans *C.* 11 steina *C.* 12 hellusteinar *C.* 13 sigrmarks *C.* 14 [postolana ok binda, en hann baud, at hrę Simonis skylldi vandliga vardveita *C.* 15 *saal.* *C*; andliga *A.* 16 skilia *C.* 17 veitt *C.* 18 illzku ok *tilf.* *C.* 19 Eptir þetta *C.*

nottu komu kristnir menn til hans ok baðu hann forða ser ok fara i braut or borginni. Petrus hræddiz eigi pislir, helldr let hann at bøn lyðsins ok gerðiz[1] braut at fara. En er hann kom til borgarhliðs, þa sa hann drottin Jesum Krist koma i moti ser. Hann laut honum ok mællti: „Hvert ferr þu, drottinn?“ En Jesus svaraði: „Fylg þu mer, þviat ek fer i Romaborg at krossfestaz i annat sinn.“ Þa skildi Petrus, at drottinn mællti þetta um pisl hans, ok hvarf hann aptr i borgina, ok var hann þegar tekinn af liðsmonnum[2] konungs ok leiddr fyrir domstol hans. Nero mællti við Agrippam greifa: „Nauðsyn er oss at glata þessum otruum monnum, af þvi lattu þa beria [i hel[3] með iarnsvipum [ok glata ollum þeim, er þess kyns menn eru[4].“ Agrippa greifi svaraði: „Eigi er þeim sa dauði makligr, er þu byðr, þviat Paulus [ma kallaz[5] saklauss, en Petrus er sekr bæði manndraps ok otruar.“ Nero spurði, [hveriar helfarir þeir skylldu hafa[6]. Greifinn svaraði: „Þat syniz mer rett, at Pall se hoggvinn fyrir aftru[7] sina, þa er hann sannar með Petro, en [þu latir Petrum krossfesta[8] fyrir manndrap, er hann glataði Simoni.“ Nero mællti, at sva skylldi vera[, sem hann dømdi Pall mællti: „Skamma stund mun ek pindr vera, en siðan lifa æ ok æ með Kristi konungi minum. En til þess at þu vitir, at dauði ok lif þionar drottni minum Jesu, þa mun ek synaz þer eptir dauðann ok andlat mitt, at ek em lifandi, ok syna þat. at ek ber sigr af þer, en þu eigi af mer.“ Nero svaraði: „Leiðit hann a braut sem skiotast ok gerit hofði skemra, at hann viti, at ek em sa konungr, sem raða skal lifi hans.“ Siðan var Pall leiddr a braut. En er konungr fra, at drap hans dvaldiz, þa sendi hann hirðmenn sina tva Peregaritem ok Partimium. En er þeir komu þar, þa heyrðu þeir Pal telia um matt Kristz fyrir lyðnum. En er Pall sa þessa drengi, þa mællti hann við þa: „Komit hingat, synir, ok truit a guð, at andir ykkrar megi hialpaz, a þann guð, er mik kveikti til eilifs lifs sva sem alla retttruandi menn.“ Þeir svoruðu: „Við verðum fyrst at segia konungi fra dvolun lifs þins. En þu bið fyrir okkr, at við naim þeiri tru ok skirn, er þu boðar.“ Pall svaraði: „Komi þið þa ok til leiðis mins, ok munu þið þar finna þa Lukam ok Titum lærisveina mina, ok munu þeir duga ykkr[9].“

1 ętladi i *C.* 2 monnum *C.* 3 [til dauds *C.* 4 [*mgl. C.* 5 [syniz mer *C.* 6 [hverium dauda skulu þeir deyia? *C.* 7 otru *C.* 8 [Petrus se krossfestr *C.* 9 [. Þa voru þeir Petrus ok Paulus leiddir fra ógliti Neronis *C.*

31. [1]Siðan toku riddarar i hendr Pali ok leiddu hann til hoggs. En þa varð a gotu hans ein gôfug kona ok siðsom, en hon het Plautilla. Pall mællti við hana: „Liaðu mer duk þinn, kona, at binda fyrir andlit mer, er mik skal hoggva, en ek mun selia þer dukinn, er ek hefi hafðan, sem ek þarf.“ Þa selldi Plautilla honum dukinn. En þeir er Pal leiddu til hoggs, hlogu at henni ok kvaðu hana ekki mundu hafa klæðis sins goðs. Plautilla svaraði: „Eigi mun dukrinn fyrirfaraz, her mun ek biða, unz hann kemr mer til handa.“ Þa var Pall leiddr a stræti þat, er kallat er Via Ostensis, ok hoggvinn þar með sverði, sva at þegar skildiz hofuðit við bolinn, ok nefndi hofuðit nafn drottins a hebreska tungu, en or sarum hans þotti helldr miolk renna en bloð. En er þeir villdu taka dukinn, þa hvarf hann or hondum þeira. Siðan kom lios mikit yfir likit, sva at hinir heiðnu hurfu i braut ok foru heim a leið. En er þeir fundu Plautillam, þa spurðu þeir hana i haðsemi, hvar dukr hennar væri, er Pall hefði henni førðan. Plautilla svaraði: „Her er dukrinn, þviat hann kom með otali engla ok førði mer, sem hann het mer, ok mællti: þu beindir fyrir mer, Plautilla, her a iorðu, en ek mun af bragði beina for þina til himna.“ Siðan tok hon duk sinn or serk ser ok syndi þeim. En þeir urðu okveða við, er þeir sa dukinn bloðgan, ok kendu, at sa var hinn sami, sem Pall hafði haft, ok foru siðan skyndiliga heim at segia konungi þau tiðindi, er gerz hôfðu.

32. En er Petr var leiddr til kross, þa mællti hann sva: „Drottinn minn Jesus Kristr, þa er hann kom hingat i heim, þa var hann a rettum krossi pindr. En hann kallar mik til himins af iorðu, af þvi skal ek horfa hofði til iarðar en fotum til himins a krossinum, at ek em eigi verðr at deyia sem drottinn minn.“ Þa

1 *Cap. 31 lyder i C saaledes:* Enn er Pall postoli var til hôgs leiddr, þa var a gôtu hans ein gofug husfru ok sidsaum, enn hon het Plautilla. Postolinn męllti vid hana: „Liadu mer duk þinn at binda fyrir ôgu mer, þa er ek em hôggvin, enn ek (mun) fęra þer dukinn, þa er ek hefi haft.“ Enn þeir menn, sem Paulum leiddu til hôggs, hlogu at henni ok męlltu: „Hvi tapar þu, kona, duk þinum sva godum?“ Hon svaradi: „Eigi tyni ek honum, helldr mun ek her bida, til þess er hann kemr mer til handa.“ Þa var enn sęli Pall hôggvin, ok syndiz miolk renna or sari hans. Enn er þeir villdu taka dukin, þa hvarf hann or hondum þeim. Sidan fundu þeir Plautillam ok męlltu vid hana med hádi: „Hvar er nu dukr þinn, er Paulus het at fęra þer?“ Hon svaradi: „Her hefi ek dukinn, þviat hann kom sialfr, sva sem hann het.“ Þa tok hon or serk ser blodgan ok syndi þeim. Enn þeir urdu ottafullir, er þeir sa dukin blodgan ok kendu.

sneru þeir krossi hans, ok horfðu hendr hans niðr en føtr upp. En þa kom þangat mikill fioldi kristins lyðs, ok bolvoðu Nero konungi, en sumir villdu vega hann. En Petrus bannaði þeim þat ok mællti: „Hepti þer, synir, eigi for mina, þviat føtr minir ganga nu himneska gotu. Eigi skulu þer ogleðiaz, fagni þer helldr með mer, þviat ek mun taka i dag laun erfiðis mins ok bua rum yðart a himnum. Su er osamvirðilig miskunn, er mer er veitt i samvistu krossins, þviat nu em ek samtengdr guði i þessu astarbandi, at ek mun alldri við hann skiliaz, er ek em festr a hans sigrmark, þviat þetta er lifstre, þat er Jesus Kristr dro til sin alla hluti, þa er hann var hafðr a þat, ok leysti allan heim fra eilifum dauða. En Romaborgarmenn, þer er a Krist truit ok af honum einum væntit allrar hialpar ok miskunnar, minniz þer ok a hans þolinmøði ok huggøði, hve margar iartegnir hann syndi yðr fyrir minar bønir. Biði þer ok þa, unz hann kemr i enda heimsins ok gelldr hveríum eptir verðleika. Drottinn minn hefir yðr þat synt i dag i piningu minni, er hann mællti fyrrmeirr, at eigi væri lærisveinn framar en lærifaðir ne þræll gofgari en drottinn hans. Nu er mer vegsamligt at deyia a pislarmarki mins drottins ok lærifoður, ok ma ek eigi framar beiða en likiaz drottni minum i piningu.“ Þa mællti hinn sæli Petrus þessum orðum: „Þer geri ek þakkir, drottinn minn Jesus Kristr, sonr guðs lifanda, eigi at eins með orðum helldr ok með andanum, þeim er þik elskar ok við þik mælir ok þik biðr ok a þer helldr, ok þik ma skilia ok þik ser; þu ert mer ørinn til allra hluta, sva at ek þarf enskis annars en þinnar miskunnar. En þess bið ek þik, drottinn, at þu gefir þessum monnum þa huggunarsyn, at þeir siai þann fagnað, er mer er veittr i dag.“ En er hann hafði þetta mællt, þa gafz þeim, er gretu pining hans, su huggun, at þeir sa engla með biortum koronum uppi a krossinum ok rettsnuinn krossinn, ok hallda bok fyrir Petri, þeiri er Kristr hafði þeim sellt; en af þeiri bok syndiz þeim hann hvert orð lesa, er hann mællti Þa urðu þeir sva fegnir allir kristnir menn, er þetta sa, at allan hryggleik tok af þeim, en heiðnir menn hurfu braut fyrir guðs krapti. Þa sa Petrus, at margir voru huggaðir af hans dyrð ok þakkaði guði þat, er þeim var veitt, ok mællti: „Þakkir geri ek þer, drottinn, goðr hirðir, at sauðir þinir, er þu selldir mer at geyma, skulu nu fagna með mer. En nu fel ek þa þer a hendi, ok varðveittu þa ok samna þeim til þins huss, þviat þu ert oss ollum eilif gnott, þer se dyrð um alldir allda.“

En er allir sogðu Amen, þa andadiz hinn sæli Petrus postoli hofðingi annarra postola, vegsamaðr af guði sva framarliga, at hann var a krossi pindr sem sialfr drottinn, þa er hann leysti allan heim fra eilifum piningum [1].

33. En Marcellus, sa er skilit hafði við Simonem magum ok fylgði Petro, hann tok lik postolans af krossinum, sva at hann bað eigi leyfis konunginn. Þa synduz nokkurir menn helgir, þeir er komnir letuz fra Jorsolum, þeir voru at með Marcello at þiona likinu postolans ok førðu til staðar þess er heitir Vatikanus ok smurðu dyrligum smyrslum ok logðu i steinþro. Siðan mælltu hinir nykomnu menn við lyðinn: „Þer eigit at fagna ok glaðir vera, þviat þer hafit heyrt formæli hinna øztu postola drottins Jesu Kristz. En þat skulu þer vita, at hinn versti konungr Nero mun eigi lengi lifa ne fagna vigi postolanna, ok mun hann bratt ræntr vera riki sinu.“ Þa var ok sva komit oþokkasælld konungs við alla Romaborgarmenn, at þeir attu þing ok urðu a þat sattir at taka konunginn ok festa i stagl ok beria unz hann døi. Þat var ok a þeim degi, er postolar guðs foru af þessum heimi til guðs, at Pall kom inn i holl konungs at loknum dyrum ok stoð fyrir honum ok mællti: „Sia þu nu, konungr, at Pall er her kominn,

1 *Capp. 32, 33 og 34 lyde i C saaledes:* Enn er hinn sęli Petrus postoli var til kross leiddr, þa męllti hann sva: „Drottinn min Jesus Kristr, þa er hann kom hingat i heim af himni, var hann a rettum krossi pindr. Enn hann kallar mik af iôrdu til himins. Af þvi skal ek horfa hôfdi til iardar enn fotum til himins a krossinum, at ek em eigi verdr at deyia sva horfaudi a krossi sem drottinn min.“ Þa sneru þeir krossinum. Þa kom otal lyds þangat ok bolvadi Neroni, ok vildu sumir drepa hann. Enn Petrus bannadi þeim þat ok męllti: „Synir minir, talmit eigi fôr mina, þviat fętr minir ganga nu himneska gôtu. Eigi skulut er oglediaz, fagnit þer helldr med mer, þviat ek mun i dag taka avôxt erfidis mins.“ Enn er hann hafdi þetta męllt, þa kalladi hann til guds ok męllti sva: „Þackir geri ok þer, godr hirdir, þviat saudir þinir fagna med mer, þeir sem þu selldir mer. Enn ek bid, at þeir taki hlut miskunnar med mer. Þer a hendi fel ek saudi þa sem þu selldir mer, at þeir viti mik enn vera ser at hialp, sva sem þeir vita, at þu vart mer at hialp, þa er ek vardveitta hiôrd þina.“ Enn þa andadiz hann, er hann hafdi þetta męllt Þa vitruduz þar helgir menn, þeir sem þar hôfdu eigi senir verit fyrr, ok letuz vera komnir or H(i)erusalem. Þeir toku likam ens sęla Petri postola ok grofu i stad þeim, er Vaticanus heitir. At þessu verki med þeim var madr sa gôfugr, er Marcellus het, sem fyrr var nefndr. Enn þeir menn er komnir voru męlltu vid lydin: „Glediz þer ok fagnit, þviat þer namut at eiga ydr hialparmenn ena dyruztu vini drottins Jesus Kristz. Enn

ok em ek nu hirðmaðr hins eilifa konungs, ok mattu nu trua, er þu ser, at ek em eigi dauðr, helldr lifi ek nu með guði minum. En þu, vesæll maðr, att nu skamt eptir olifat ok (munt) fara til eilifra kvala, þviat þu hefir marga goða menn latit vega ok gert margar odaðir aðrar.“ En er hann hafði þetta mællt, þa hvarf hann þegar. En við allt saman þetta, frett þessa ok vitrun, þa varð hann þegar felmsfullr ok vissi eigi, hvat hann skylldi at hafaz, ok hliop i braut fra ollu riki sinu ok varð at giallti; ok voru þeir menn, er siðast sa til, at dyr rifu hann i sundr.

34. En þessir tveir hofðingiar ok postolar Petr ok Pall voru pindir a hinu siaunda ari hins fiorða tigar eptir uppstigning drottins. En er Grikkir villdu hafa a braut með ser likama þeira til austrlanda, þa gerðiz landskialfti mikill, ok runnu eptir þeim Romaborgarmenn ok gripu þa hondum i þeim stað, er Katakumbas heitir a Appia gotu a hinni þriðiu milu fra borginni. Ok voru helgir domar þeira þar varðveittir .iii. misseri, unz sa umbuningr var buinn, er þeir villdu hafa lata. Siðan var likami Petrs førðr i þann stað, sem fyrir ondverðu var grafinn, þat heitir Vatekanus, ok gofgar þann stað allt kristit folk En likami Pals var førðr a Ostensis gotu, tvær milur fra borginni, þar sem hann var hoggvinn. En i hvarumtveggia þessarra staða geraz otal iarteigna allt til þessa dags. Biðium nu einkannliga allzvalldanda guð, sa er þessum sinum tveimr postolum ok ollum oðrum gaf þat valld at leysa ok binda a iorðu, at ver mættim af heyrðu þeira truarinnar eptirdømi þeira fotsporum eptir fylgia i lifi ok

þat skulut er vita, at þessi en versti keisari Nero mun eigi lengi hallda riki eptir dauda postola guds.“ Þess var ok eigi langt at bida, at Nero vard fyrir hatri lidsmanna sinna ok allz lyds, sva at menn urdu a þat samrada at binda hann ok beria stǫngum. Enn er hann vard varr vid þetta, þa kom hrezla mikil yfir hann, ok flydi sva at hann fannz alldri sidan. En þeir menn voru, er þat sǫgdu, at hann villtiz a vidum ok fęriz af hungri ok kulda, ok rifi vargar hrę hans. Enn er Girkir villdu a brott taka likama postolanna ok hafa med ser til austrlanda, þa gerdiz landskialpti mikill, ok foru a mot þeim Romaborgarmenn i þeim stad, er kalladr er Catacumbas, þriar milur fra Romaborg a gǫtu þeiri, er Appia heitir. I þeim stad ero vardveittir likamir þeira postolanna .iiii. vetr ok .vii. manadi, ok sidan voru þar kirkiur giǫrvar ok buit um likamina med dyrd ok veg ok guds lofi. Enn þar verda margar iarteinir, ok mega menn þar bęnir geta allt til þessa dags af drottni vorum Jesu Kristo, þeim er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir einn gud i þrenningu um allar alldir. Amen.

dauða, með lifandi tru at stunda[1] til guðs ok fyrir hans nað ok verðugleika oðlaz syndanna fyrirgefning ok upprisu eilifs lifs fyrir Jesum Kristum varn drottin. Amen.

---

## *Fragmenter.*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . manna.

17. Siþan gerþi Petrus fǫr braut af Jorsalalande, þviat þa toc at vaxa ofriþr viþ cristna menn, oc foro aller postolar braut or Jorsolom til ymissa landa, sva sem heilagr ande kendi þeim. En þa voro .iii. vetr liþner fra upstigningo drottens[2]. Þa for Petrus til Anþekio oc toc þar byscopsdom þann dag, es nu er heilagr latinn .xx. nottom post m°(!) messo, oc var hann at þeim stoli .vii. vetr. Siþan fór hann of .v. storherot a Griclande at kenna monnom retta tru, Pontum, Galaþiam, Cappadociam, Asiam oc Biþiniam. En er hann com i borg þa es Tripolis heiter, þa ferr hann til husa þess manz, er Maron hét, þviat honom var þar vel fallit at mela firer monnom. Þa tóc at driva þingat fiølþi manna, sem strǫmr stǫþi. En hann stígr a steinveg nøcqern oc talþi firer monnom tru oc of siþseme rétta. Þeir menn voro þar nøcqerer, er qvalþer voro af diǫflom oc fello til iarþar, es þeir heyrþo tǫlo postolans, oc melto ener ohreino andar firer munn þeira oc boþo, at hann reki þa eigi a braut a þeim dege. En Petr þecti þa oc baþ þa fara, sem scioter være þeir. Oc fóro þeir þegar a braut. En mennener urþo þegar heiler a enni s(a)umo stundo. En er þetta gerþesc, þa boþo marger siuker menn Petr, at hann gęfi þeim heilso. En sia var kenning hans oc tala: „Lovaþr se [almattegr goþ[3], sa er· øllom mønnom vill miscunn veita oc ǫllom hialpa, sa er son sinn [drotten varn[4] Jesum Cristum sende hingat i heim at kenna ǫss lifs kenningar. A hann scolo aller trua, at hann er goþs sǫnr, sameilifr feþr sinom

1 standa *Cd.* 2 domini *Cd.* 3 [omnipotens deus *Cd.* 4 [dominum nostrum *Cd.*

oc iafn i ǫllom crafti, getinn af feþr firer allar tiþer eilifliga. En a varri ǫfe tóc hann licamligt øþli oc gerþisc maþr oc lét berasc fra meyio. Hann var her i heime oc kendi ǫllom gøto til himenrikes oc braut allar torføror a þeiri leiþ, þa er hann sialfr[1] synþa laus tóc licamligan dauþa a sic oc ste iver andar dauþa várn meþ licams dauþa sinom. Hann gaf oc ǫllom eilift lif oc eilifa sęlo i upriso sinni, þeim er a hann trua oc honom þiona. En ér Griker, es spacaster manna ero callaþer i øllom heime, hvggit at ér vandliga at þvi, es ec męli, oc sét at glikendom, hvart scynsamligra er, at gaufga goþ þann er alla scepno hefer scapat oc sva er miscunnsamr, at hann dó sialfr[1] til lifs scepno sinni, eþa at gøfga griot oc malm eþa tre, þat er ér sialfer[2] gerit meþ hondom yþr, licneski vándra manna. Hvat cømr þeim speki i hald, es slict ętla goþ vera, þviat goþ er almattegr[3] oc alz orcandi oc ollo styrandi. En þetta es ér callit goþ, er ovita ero oc omala, dauf oc sionlaus, oc ma hvergi hrøra sic oc eigi sér braut coma or eldi, ef þeim es þingat castat. Þetta męli ec eigi firer þvi, at ér mynit nu vilia slica villo fága, heldr firer þvi at ér hafnit sem mest þeim vanþa trunnar, es frændr yþrer kendo yþr i øsco, þviat morgom es traut at hafna venio sinni oc frænda sinna. En sva er syndrleit trua Cristz oc scurþgoþanna, at engi er verþr at bera cristins[4] manz namn, [nema hann firerlati[5] áþr alla gøfgon viþ scurþgoþ[6]. En sa er eigi vill trua þvisa af orþa scynseme[7], þa gaf Cristr mér oc ǫss ǫllom postolom sinom þat veldi, at vér męttem gera alzcyns iarteiner i hans nafni, at þeir tryþi af iarteinom þvi, er þeir truþo [eigi af orþom[8]; þvi em ec buinn [i namne drottens mins Jesu Cristz[9] at leggia hendr iver siuca menn oc grøþa þa, at trua yþur megi magnasc, svát engi ife se efter ennar forno villo. Eigi viliom vér yþr miøc saca, þót ér ętlaþit þat vel vera, er frændr yþrer gaufguþo, meþan ér vissot eigi annat sannara, en þat er hveriom afallzdómr at trua eigi eno sanna, ef hann naer at heýra. Þvi mun hverr annat tveggia batna eþa versna [viþ helgar[10] kenningar, at sumer leggia óst á, en sumer abbasc viþ þat at eins, er þeir verþa avitaþer of gløpi sina. Sva sem þa es [drottenn varr talþe firer Gyþingom[11], at sumer hlydo [orþom hans[12], en sumer stygþosc viþ hann oc

1 ipse *Cd.* 2 ipsi *Cd.* 3 omnipotens *Cd.* 4 $\overset{i}{x}$ *Cd.* 5 [nisi relinquat *Cd.* 6 idola *Cd.* 7 ratione *Cd.* 8 [non de verbis *Cd* 9 [in nomine domini mei Jesu Cristi *Cd.* 10 [ad sanctas *Cd.* 11 [dominus noster talþe pro Judeis *Cd.* 12 [verbis eius *Cd.*

reþo umb hann fiǫrróþom.“ En er Petr hafþe loket tølonni, þa efndi hann heit sit viþ ena siuco menn oc baþ firer þeim, oc toco þeir þegar heilso sina. Siþan fór Petrus a braut ór Tripolis til Anþekio.

18. En er hann com i ey þa es Anþaradum heiter, þa com hann i hus þat es i myndom var gert. Þar sa hann stolpa þa es gerver voro ór glere. En er hann leit a smiþi þetta oc fǫronautar hans, þa só þeir kono necqeria standa úti firir durom, oc baþ hon þá menn giavar, er þar gengo ut eþa inn. Petrus leit viþ henne oc spurþe, hvat henne vęre þess at meine, es hon vann [eigi heldr[1] til atvinno sér en biþia aþra. En hon blés viþ oc svaraþe: „[Vęre sva vel[2] at ec hefþa hendr minar heilar oc mętta ec vinna. En nu er þvi verr, at eki er afl i, þviat þęr ero allar þornaþar, oc er nęr eki [efter nema[3] litr .i.“ Þa tecr Petr til[4] handa hennar oc þreivaþi umb, oc varþ hon þegar heil. En sia kona var moþer Clemens lerisveins Petrs, oc var hon øllom mønnom cunn i þeim staþ. En þa er þeir voro buner til brautfarar, þa mętti konan viþ Clemens son sinn: „Þat vilda ec, þu inn bazti sønr, at launat være kono þeiri es mer veiti gisting, þviat hon er kararmaþr oc þarf miøc yþvar.“ En er Petr heyrþi þetta, þa varþ hann feginn goþgirni hennar oc melte, at gera scyldi efter enni siuco kono oc bera hana þingat. En er hon var þingat comen, þa var hon niþr lagit i rekio sinni i miþiom floki manna. Þa melte Petrus, svát aller heyrþo: „Ef ec em retr kennande saþrar tru, þa risi kona sia heil up i namni Jesu Cristi sonar goþs, til þess at trua þessa manna styrk(isc), es her eró nú stader, at þeir viti oc true, at sa .i. er goþ, es scapaþe himen oc iorþ.“ En þegar es Petr hafþi þetta melt, þa reis konan heil up oc fell til fota Petro oc cysti føtr hans, oc sva aller frændr hennar oc viner, oc lovoþo goþ.

19. Siþan fór Petr til gestascala, þviat þa var framorþit. En husbuande, sa er firer scalanom reþ, melte viþ Petr: „Þat er ofallit, at þu sva heilagr maþr byggver oitarlect hus, þar er ec hevi alt ørit at fa þer oc fauronautom þinom bøþi mat oc clęþi.“ En er Petr talþi viþ at fara heim meþ honom, þa com þar husfreyia meþ sonom sinom oc boþo Petar, oc fello til fóta honom, at hann scylde þar vera meþ þeim. En eigi hét hann þeim áþr dotter[5] hennar com, su er marga vetr hafþi diofulóþ verit, oc var lucþ i

[1] [non sed *Cd.* [2] [Vtinam *Cd.* [3] [post nisi *Cd.* [4] tiþ *Cd.* [5] þeirar *tilf. Cd., men underprikket som Tegn paa at det skal udgaa.*

litlom clefa oc fiøtroþ ramliga. En þa var hon laus orþin, svát hon mátti braut comasc, en þo hafþi hon meþ sér þar fiotrana, oc voro hendr hennar eigi lausar. Hon fell þegar til fóta Petari, es hon com þar, oc melte: „Rét er þat, drottenn[1] minn, at þu halder i dag meþ ǫss heilsoføgnot minn oc styggver eigi føþor minn oc moþor." En Petr spurþi, hvi þat gegndi, es hon melte, eþa af hvi fiøtrar þeir være a henne. En frændr hennar undroþosc, hvi sęta myndi, oc urþo sva fegner, at þeir mótto eigi orþi up coma at segia postolanom þat er hann spurþe. En þeir menn aþrer er þar voro svoroþo honom: „Sia kona misti vit sins, þa er hon var .vii. vetra gømul, oc hever ør verit ofvalt siþan, en nu er hon meirr en .xx. Hon var sva oþ, at engi maþr matti henne nęr coma, þviat hon beit oc barþi til oc reif clęþi af sér eþa af øþrom, ef hon matti na. Marga menn meide hon oc veiti sumom aldrtila, áþr hon yrþi bunden, þviat sá diofull qvalþi hana, es hana gerþi hveriom carlmanne styrckri. En sa inu same fiande oaþisc þegar, es þu comt i nond, oc fløþi fra henne, oc varþ hon heil. Dyrren lucosc up siolf, oc com hon oc fell til fota þer, oc biþia nu aller, at þu þigger beina at henne. Petr mátti þa eigi viþ dyliasc, nema af hans verþleic var męrin laus orþin oc fengit heilso sina. Oc þa hann gisting oc allan beina at føþor hennar. Siþ(an) fór hann unz hann com heim til stolsins i Anþekio. En i fǫr þessi hafþi hann veret .ii. vetr.

20. Þa spurþesc til Simonar ins illa, at hann var comenn i Rumaborg oc efldi sva miøc villo sina, at marger truþo a hann oc hugþo, at hann være goþ. En hvervetna var kenning Simonar scaþsamlig, en allra flęrþsamlegost i Rumaborg, þviat þar voro flester høfþingiar oc gøfgaster, oc þótti viþ þvi buit, ef keiserenn tøki viþ villo hans, at øll heimsbygþ mynde nęst trua a hann. Þvi[2] var þat raþ allra cristinna manna, at Pétr føri til Rumaborgar oc gingi a mót Simoni oc eyde villo hans, oc þótti þat maclegast, at inn øzte høfþingi kirkionnar[3] gingi a mót høfþingia villomanna. Petr reþsc i fǫr þa, oc fylgþe honom Marcus goþspiallascald oc Clemens, es siþan var pafe, oc Apollinaris byscop oc marger aþrer høfþingiar oc cristner menn, þeir es honom þionuþo. Þa var Claudius keisere, es Petr com i Rumaborg. Þa voro .xii. vetr liþner fra upstigningo drottens[4] oc .xii. nottom meirr efter iol þat es hann com i borgena. Hann gec fyrstil(!)

1 dominus *Cd.* 2 þ't *d. e.* þviat *Cd.* 3 ecclesie *Cd.* 4 domini *Cd.*

Enn þridi er himinriki, er yfir þessom er. Celum þyðiz himinn, ok er þvi loptit, at þar er mart leynt i oc hulit fyrir monnom, þat er i loptinu er. Enn þvi er festing kollot himinn, sa er vaxinn er bollotr sem egg, at þat er oss leynt allt, er fyrir utan þat er, er ver megum sia til himins. Enn þvi er himinriki inn þridi himinn, at hann er yfir þeim .ii, er adr voru nefndir. En þat er hann segir, at hann var leidr i paradiso, þa glosa sva helgir fedr, at honom hafa syndir verit hvildarstaþir, þeir er andir rettlatra manna skulo hafa til dóms, en þat er sva at scyra, at i tveningu se paradisus, su er aunnur er her i heimi er, er Adam var setr i. Ok er þat land oc liggr i austrveg, oc sva noccuro hátt sem tungl gengr. En siþan er Adam var a braut rekinn, þa setti guþ til engil sin at varþveita þann staþ, en engi kæmiz þangat. Ok visar til, sem engillin hefþi sverþ i hendi bru(g)ðit. Enn þat er sva. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . fir i hendi þa ma stundom bregþa þvi, sva ero ok hitar þeir enir miklo, er þangat ero, at þa er Enok oc Elias foru i paradiso, þa var sem engillin sliþradi sverþit, er þeir kenndo ecci hitanna af guþs forssia. Enn þa er sem engillinn brygði sverþinu, enn engi matti þangat komast annar. Enn aunnur paradis eru kall(a)dir hvilldarstadir, þeir er godra manna salor hafa annars heims, sem avisar sialfr drottinn i guþspialli, þa er hann mælti i pils sinni til illvirkians: Hodie mecum in paradiso. Þat þydir sva: i dag manto meþ mer vera i hvi(l)þarstaþ. Enn er rett trua, at þa er aundin var skilit vit licama drottins vars a crossinom helga, at hann steg(l) niþr til helvitis meþ guþdoms crapti i þann stad, er fyrir voru salur heilagra manna. Þviat aðr en pilsin kæmi fram, var engi sva heilagr eþa dyrligr, at eigi færi salin til helvitis. Þar eru .iii. stadir greindir i heilagri ritningu. Sa er einn, er Abraham var i oc helgir hofudfedr oc heilagra manna salur, oc var þar engi aunnur pils eþa meinlæti, enn þeir nadu eigi at sia eþa koma til himinrikis dyrþar, fyrr en lausnin kæmi at vitia þeira. Enn þo voru þeir meþ sadri hugan heilagrar vánar, at su lausn mundi fram koma, er þeim var fyrir heitit. Ok þa er þiofrin let lif a crossinom, sa er hvilldinni var fyrir heitit af almatkum guþi oc beiþ sva uppriso drotinns várs. Enn þessi stadr er stundum kalladr at bócmali paradisus enn stundom limbus inferni, oc var þar þa enn hæsta hvild salunum, fyrir þvi at þar var almattigr guþ meþ guþdóms crapti. Enn sa stad(r) er nu eydr, oc hvar sem annars stadar eru salur manna nu i

hvilld, þa heitir sa stadr paradisus. Annarr stadr heitir (i) helviti purgatorium, þat þydum ver hreinsunarstaþ, oc fara þangat þeira manna salur, er sanna iþran hafa gert sinna synda, en oinntar scriptir, oc ero þar til þess, er scriptir ero uppi, eptir þvi sem guþs domr er til, en sidan fara salurnar til hvilldarinnar.

*Pall segir fra helviti.*

I(nn) þridi stadr heitir puceus inferni, þat þydiz pytr hellvitis, oc fara þangat þeira manna salur, er i hofudsyndum lataz oc rekningar ero fra guþi, oc leysist engi or þeim staþ, sa er þangat kemr. Oc her næst i pistolanum segir Pall postoli, at honum hafi syndir verit hvilldarstaþir rettlatra manna, þa segir hann, at guþ hafi a han lagt bardaga, til þess at hann fylldiz eigi upp metnadar af þessom vitronum, oc visar sva til, at hann hafi kent licamligrar freistni a ser, oc kvast hann þrysvar hafa beþit drottinn vann, at þessi freistni hyrfi fra honom, oc it þridi(a) sinni, er hann var a bæn sinni, kom raud yfir hann oc mælti: „Þaurf vidr þer, Pall, miskunn min, þviat craptr oc dyrþ vex i mannraunum, ef hann ber vel.“ En her er umræþa, hverso margar sakir til þess verdi, er guþ ber folkit her i heimi, oc er þat or leyst, at fyrir fim sakir ber hann folkit. Einn er til þess at varþveita litilæti meþ monnom, at hann fylliz eigi obdrambs upp af þeim hlutum, er honom takaz vel, oc var su til bardagans vit Pall; aunnur er su, at hann vill syna sina dyrþ a þat(l) er hann berr, til þess at . . . . . . . .

---

## TVEGGIA POSTOLA SAGA PETRS OK PALS.

1. Petrus postuli hofðingi annarra postula oc durvau(r)ðr himinrikis oc Andreas broðir hans þeir voro Jons synir baðir oc ætskaðir or heraði þvi, er heitir Galilea a Jorsalalandi, oc i borg þeiri er Beðsaida heitir, oc voro fiskimenn, aðr þeir komo til fylgdar með drottni varum Jesu Cristo. Enn guðspiaull segia fra þvi, hverssu þeir voro kallaðir af fiskiskipino. En her er sagt fra Petro·

Eitthvert sinn þa er mart lið kom at heyra kenningar Jesus Cristz, þa stoð hann hia sæ þeim, er kallaðr er Galilæa sær, sa hann þar skip .ii. standa a straundunni. En fiskimenn voro farnir at bua net sin. Þa ste Jesus a skip þat, er Simon Petrus atti, oc ytti hann þvi ut fra landi littat, til þess at eigi þrongðiz menn at honum of miok, oc þaðan talði hann af skipinu. Siþan mælti hann við Simon Petrum: „Roi þer ut a diup oc leysit net yðr til fiskiar.“ Petrus svaraði: „I alla nótt hofum ver mikit erfiði haft oc fiskt ecki, en þo at þinu boðorði mun ek leysa nettit.“ Enn er þeir gerðu sva, þa toko þeir mikinn fiolda fiska, sva at net þeira*slitnaði af. Þa kǫlloðu þeir Petrus a lagsmenn sina, er a landi voro, er annat atto skipit, Johannem oc Jacobum sono Zebedeus, at þeir kæmi til at tia þeim. Oc þeir komo oc hloðu bæði skipin, sva at nær hugðu at sokqva. Enn er Simon Petrus sa þat, þa fell hann til fota Jesu oc mælti við hann: „Farðu fra mer, drottinn, þviat ek em synðugr maðr.“ Jesus mælti við hann: „Hræz eigi þu, þviat heðan fra skalltu mer(!) fiskia“ Enn er þeir komo at landi, þa fyrletu þeir skip sin oc net oc allt þat er þeir attu af hvarutveggia skipino oc fylgðu drottni varum.

2. A annarri tið bauð Jesus lærisveinum sinum at stiga a skip oc fara fyrir ser of fiorð nockurn, enn hann sialfr for landveg. Enn at apni var Jesus einn a landi, enn lærisveinar voru a skipi a storum sæ, oc gerði mikinn vind i gegn þeim, oc borðuz þeir þar við, allt til þess er af var þriðiungr af nott, oc gato eigi tekit land. Enn þa kom Jesus gangandi a sænum at þeim. En er lærisveinar sa hann ganga a sæ, þa hrædduz þeir oc ætluðu, at skrimsl væri. Þa mællti hann við þa: „Hafi þer traustit, þviat ek em her, eigi skaulo(!) þer hræðaz.“ Þa svaraði Petrus: „Ef þu ert, drottinn, þa bioð þu mer, at ek koma til þin yfir sæinn.“ Jesus mællti: „Kom þu!“ Þa ste Petrus fyrir borð af skipi oc geck a sænum til drottins. Enn er hann sa vind mikinn oc sæ storan, þa hræddiz hann. Enn þegar er hann hræddiz, þa tok hann at siga i sæinn niðr, oc kallaði hann a Jesum oc mællti: „Drottinn, giorðu mik heilan.“ Þa retti drottinn haund sina til hans oc mællti við hann: „Litil er trua þin. Fyrir hvi ifaðir þu nu.“ Enn er þeir stigu a skip, þa fell vindr. Enn lærisveinar, þeir er a skipi voro, komo oc lutu drottni, er þeir kendu hann, oc mællto: „Sanliga ertu sonr guðs lifanda, er vindr oc sær hlyðir boði þinu.“

3. Enn kom Jesus of dag til borgar þeirar, er heitir Cesaria

Philippi, oc spurði lærisveina sina oc mællti: „Hvernn segia menn vera son manz?" Enn þeir svoruðu: „Sumir segia hann Johannem baptistam, enn sumir Heliam, enn sumir Hieremiam eða einnhvern af spamonnum." Jesus mællti enn við þa: „Hvern segi þer mik vera?" Þa svaraði Simon Petrus: „Þu ert Cristus sonr guðs lifanda." Jesus mællti við hann: „Sæll ertu, Simon dufu sonr, þviat eigi vitraði þer holld ne bloð þetta takn, helldr faðir minn, sa er a himnum er. Enn ek segi þer, at þu skallt heita Petrus - en þat er steinn a vara tungu - oc mun ek yfir þann stein smiða kristni mina oc gera sva styrkia, at eigi munu helvitiss hlið mega i gegn henni, oc gef ek þer lukla himinrikiss; oc allt þat er þu bindr a iorðu, þat skal bundit a himni, oc allt þat er þu leysir a iorðu, þat skal laust a himni."

I auðru guðspialli syndi drottinn Petro, hversu hann skylldi þessa velldiss neyta, oc mællti við hann: „Ef broðir þinn misgerir við þic, þa hirtu hann sva, at it set[1] tveir saman. Holpit er honum, ef hann hlyðir þer. Enn ef hann hlyðir þer eigi, þa hafðu til með þer einn eða tva, at allt mal þitt se bundit með vitni tveggia eða þriggia. Enn ef hann hlyðir þa eigi, þa segðu at kirkiu fullri manna. Enn ef hann hlyðir þa eigi þer, þa se hann sem bersyndugr eða sva sem heiðinn." Þa mællti Petrus: „Ef broðir minn misgerir opt it sama við mic, skal ek firirgefa honum siau sinnum?" Jesus svaraði: „Eigi segi ek þer siau sinnum, helldr siautigum sinna siau sinnum."

4. A þeiri nott aðr Jesus væri haundlaðr oc til pislar leiddr, þa mællti hann við postula sina: „Allir munu þer við mik styggvaz a þessi nott, þviat þat er ritit, Drepinn mun hirðirinn oc munu dreifaz sauðirnir." Petrus svaraði: „Alldregi mun ek styggvaz við þig, þo at allir styggviz aðrir." Jesus mællti: „Satt segi ek þer, Petrus, at þu munt þrysvar neita mer a þessi nott, aðr hani gali." Petrus svaraði: „Þott ek skyla deyia með þer, drottinn, þa mun ek þer eigi neita." Enn er sendimenn yfirgyþinga hondluðu Jesum oc bundu, þa bra Petrus sverði oc hio eyra af einum þræli Gyðinga, oc syndi sva auruggleik sinn. Jesus mællti við hann: „Felðu sverð þitt i umgerð, þviat hverr er sverði bregðr mun sverði sleginn verða." Enn Jesus græddi eyra þrælsins. Enn er Jesus var leiddr i skiðgarð kennimanz Gyðinga, þa geck Petrus eptir honum litlu siðarr i skiðgarðinn, oc sat við glæðr oc vermdi sek(!), fyrir þvi at veðr var kallt. Þa spurði

1 se *Cd.*

ambatt nockur hann, ef hann væri lærisveinn Jesus. Oc þess spurði aunnur ambatt oc qvazc kenna mælsku hans, at hann var galverskr, oc þat mællti þrællinn, sa er hann hio eyrat af, at hann sa hann með Jesu of nottina. Enn hann neitti þvi i hvert sinn, er þau spurðu, oc qvaðz eigi vita, hverr Jesus var. Enda gol þa haninn. En þa leit Jesus til hans, oc minntiz Petrus þa orða þeira, er Jesus hafði mællt við hann, oc hann geck ut oc grét beiskliga. Su iðrun var sva þæg guði, at engill, sa er vitraði trufostum konum upprisu Kristz, nefndi Petrus einn a nafn allra postula, oc mællti við konurnar: „Fari þer oc segit lærisveinum Kristz oc Petri, at hann er upprisinn, oc hann mun koma fyrir yðr i Galilea herat.“

5. Þat var eptir upprisu drottins, at hann vitraðiz siau lærisveinum sinum hia Galilea sio. Þar var Simon Petrus oc Thomas er kallaz didimus - þat er inn tortryggvi a vara tungu - oc Nathanael oc tveir synir Zebedeus, oc aðrir tveir af lærisveinum Jesus. Simon Petrus mællti við þa: „Fara mun ek at fiskia.“ Enn þeir svoruðu: „Fara munu ver oc með þer.“ Þa stigu þeir allir a skip, oc mattu eigi ne eitt fiskia a þeiri nott. Enn at morni stoð Jesus a straundu, oc kendu lærisveinar eigi, at hann var, oc mællti hann við þa: „Sveinar, hafit nackvat fiskt?“ Enn þeir svoruðo: „Ecki,“ sogðu þeir. Jesus mællti við þa: „Leggi þer net yðr til hægri handar yðr, oc munu þer finna fiska.“ Enn er þeir gerðu sva, þa mattu þeir trautt draga net sitt firir fiolda fiska Þa mællti lærisveinn, sa er Jesus elskaði, við Petrum: „Drottinn er andi.“ Enn er Petrus heyrði þat, þa stytti hann upp kyrtil sinn oc ste fyrir borð ok tok i netzhals oc dro at landi fullt storra fiska. Enn þeir voru sva margir .c. oc .l. oc .iii. fiskar, oc var netit þo oslitnat. Enn aðrir lærisveinar rero a skipi til landz, oc voru þeir aðr .cc. faðma fra landi, oc geck Petrus þetta(!) með netit sva sem eptir þurru landi. Enn er þeir qvomo at landi, þa sa þeir fisk lagðan a gloðir oc brauð. Jesus mællti við þa: „Færi þer mer fiska þa, er þer tokuð, oc komi þer oc matiz með mer.“ Þa gaf Jesus þeim brauð oc fisk, oc bergði oc sialfr hvarutveggia.

Þat er sagt i auðru guðspialli, er i þetta sinn varð, er Jesus leit(!) Petrum heyriliga oc þrefalldliga iata ser, oc mællti drottinn við Petrum: „Simon son Joans, elskar þu mik framarr enn þessir?“ Hann svaraði: „Þu veizt, drottinn, at ek elska þik.“ Jesus mællti: „Fæðu lǫmb min þa.“ Enn mællti Jesus i annat sinn:

„Simon sonr Joans, elskar þu mik?“ Hann svaraði: „Þu veizt, drottinn, at ek elska þik.“ Enn mællti Jesus: „Fæð þu lomb min.“ Enn mællti Jesus it þriðia sinn við hann: „Simon sonr Joans, ant þu mer?“ Þa ogladdiz Petrus, er Jesus mællti þrysvar it sama við hann, ok svaraði hann þo: „Þu veizt allt, drottinn, þu veizt, at ek ann þer.“ Jesus mællti við hann: „Fæð þu sauði mina. Þa er þu vart ungr, þa gyrðir þu þik sialfr oc geckt þangat, er þu villdir, enn er þu elldiz, þa mun annarr gyrða þic oc leiða þic þangat, er þu vill eigi fara.“ Enn þetta mællti hann til þess at syna, hverium dauða Petrus mundi deyia oc retta hendr sinar a krossi. Enn til þess beiddi hann Petrum þrysvar iata elsku sinni, at hann bætti þat i þrefalldri iatningu, er hann hafði þrysvar Cristi neitat.

6. Siðan er drottinn varr Jesus Cristr ste upp til himins af fialli þvi, er heitir Oliveti, þa hurfu postular af fiallinu ofan aptr til Jorsalaborgar, oc voru þar Cristz lærisveinar allir saman i einu husi a bænum .x. daga með Mariu moður guðs oc auðrum helgum konum, þeim er fylgt hofðu drotni varum. Þa giorðiz gnyr mikill af himni ofan yfir husit, þar er þeir voru inni postularnir, sva sem veðrs þytr væri, oc fylldiz af liosi allt husit innan, oc sa þeir, at settuz yfir hǫfuð þeim serhverium þeira elligar tungur. Þa fyllduz þeir allir heilags anda, oc toko allir at mæla a allar tungur, sva sem heilagr andi kendi þeim. Enn þa voru menn komnir af morgum lǫndum i Jorsalaborg, oc kom margr lyðr at heyra orð postulanna, oc undruðuz allir, er heyrðu, er hverium þottu þeir mæla a sina tungu, oc mællto margir menn sin a meðal: „Hvart eru þessir menn allir galverskir, er her mæla a ymsar tungur, eða hvi kveðum þa mæla a varar tungur, er ver erum af ymissum londum her komnir.“ Sumir svoruðu: „Þeir eru vindrucknir oc vita eigi, hvat er þeir mæla af hǫfuðorum.“ Þa stoð Petrus upp meðal annarra postula oc mællti við lyðinn: „Ér Gyþingar oc allir þer er byggit i Jorsalaborg, þat skulu þer vita, at ver erum eigi vindrucknir, sem nocqurir menn ætla, helldr er þat nu fram komit, er Joiel spamaðr sagði, at a enum efstum dogum mun ek ut hella helgum anda yfir þræla mina oc yfir ambattir, qvað drottinn, oc munu senir(!) yðrir spa oorðna hluti. Ungir menn yðrir munu sia himnasynir, enn gamlir menn munu fa vitranardrauma, oc mun ek gefa iarteinir a himni oc a iorðu. Sol mun snuaz i myrkr, enn tungl mun hafa bloðs lit, fyrr enn komi dagr drottins mikill oc ogurligr, oc mun hverr hialpaz,

er kallar a nafn drottins. Þer Gyþingar, heyrit ier orð min, hvat ek segi yðr of Jesum enn nadverska, þann er guð vitraði yðr i morgum iarteinum, þeim er hann giorði, sva sem raðit var fyrir af guði. Enn guð reisti hann upp af dauða, þviat eigi mattu helvitiss byrgi hallda a honum, sva sem Davið mællti i salltaranum hans rauddu: Sa ek drottin avallt fyrir mer, þviat hann er a hægri hǫnd mer; fyrir þvi gladdiz hiarta mitt oc fagnaði tunga min oc hvilldiz holld mitt i friði. Þviat (þu) firirlezt eigi aund mina i helviti; kunnar giorþir þu mer lifs gatur oc lezt eigi funa holld mitt. Eigi sagði Davið[1] . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . Haufðingiar undruðuz, er þeir heyrðu þetta, oc vissu eigi, hvat orðit mundi af postulonum. Þa kom maðr oc sagði, at þeir voru i musteri oc tolðu fyrir maunnum. Þa sendu yfirgyðingar eptir þeim, oc voru þeir leiddir a þingit, oc mællto Gyðingar við þa: „Vær firirbuðum yðr fram at fæꝛa kenning þessa, enn ier fylldut alla Jorsalaborg yðvarra kenninga oc hræsit(!) a hendr oss mikla synð.“ Petrus svaraði þeim: „Guði eigum við at hlyða framarr enn maunnum. Guð feðra varra reisti upp Jesum, þann er iér krossfestuð, ok setti hann hofðingia oc græðara lyðnum oc lausn synda. Enn ver erum vattar hans oc þessa kenninga oc heilagr andi, sa er guð gaf aullum þeim, er honum ero hlyðnir.“ Gyðingar attuz innan, er þeir heyrðu þetta, oc villdu vega postulana. Þa reis upp yfirgyðingr a motinu, enn sa het Gamaliel, oc mællti við lyðinn: „Hyggit at, synir, hvat iér skolut gera við menn þessa. Fyrir þessa daga var maðr, sa er Theodas hét, oc sagðiz spamaðr vera, oc truðu honum .cccc. manna, enn hann varð drepinn, oc dreifðuz þeir, er honum truðu. Siðan kom annarr villumaðr Judas Galileus, oc sveik hann margan lyð, oc fyrirforz hann, oc urðu þeir at ǫngum þrifum, er honum hlyddu. Af þvi lati þer þessa menn fara i friði, oc banit þeim eigi, þviat þetta rað mun eyðaz, ef af maunnum er upptekit, enn ef þat er af guði, þa megu þer eigi standa i moti guðs vilia.“ Þat var haft, er Gamaliel mællti, oc baurðu þeir postulana oc fyrirbuðu þeim enn at mæla i nafni Jesus. Enn postular foro glaðir af þinginu oc faugnuðu þvi, er þeir toko meingerðir fyrir nafn Jesus, oc voru þeir hvern dag i musteri oc leto alldregi af at kenna maunnum nafn Jesus Cristz.

11. Petrus postuli kom of dag i borg þa er Lidde heitir, oc

1 *Her mgl. 2 Blade*; *jvf. ovenfor S.* $163^{40}$-$167^{9}$.

fann þar siukan mann, þann er atta vetr hafði i kaur legit. Enn sa het Eneas, oc mællti Petrus við hann: „Ris upp þu, Eneas, oc gack, drottinn Jesus Cristr græðir þik.“ Eigi þurpti Petrus fleiri bænarorð til at græða Eneam, oc reis hann þegar heill upp oc fylgði Petro postula. Ok sneruz allir til guðs, er sa iartein þessa.

I borg þeiri er Joppe heitir var ein trufaust kona, su er Tabita het, full goðra verka oc aulmosogæðis, en hon tok sott oc andaðiz. Þa sendo lærisveinar eptir Petro oc baðu hann þangat koma. Petrus reis upp oc for með þeim. Enn er hann kom þangat, þa stoðu hia likinu ekkiur oc valaðir menn oc gretu oc syndu honum klæði sin, þau er Tabita hafði þeim gior, oc vattuðu sva skaða sinn firir postulanum, þviat þeir vættu þaðan huggunar, sem hann var. Þa bað Petrus alla menn ut ganga fra likinu. Enn hann fell a kne til bænar. Siþan sneriz hann til liksins oc mællti: „Ris upp þu, Tabita!“ Þa hof hon upp augu sin oc settiz upp, þegar er hon sa postulann. Enn hann tok i hond henni oc leiddi hana lifandi til þeira, er aðr gretu andlat hennar. Enn er þessi tiðindi spurðuz of borgina, þa truðu margir drottni. Oc dvaldiz Petrus marga daga i Joppe i husum skinnara þess, er Simon het.

12. Kornelius het einn hundraðshaufðingi i borg þeiri, er Cesarea heitir, hann var siðsamr maðr. Hann var heiðinna manna kyns oc truði þo a guð sem Gyðingar oc gerði morg goð verk. Enn hann sa engil guðs koma til sin of dag, þa er hann var a bæn sinni at noni dags, oc hræddiz hann oc mællti: „Hverr ertu, drottinn?“ Engillinn svaraði: „Ec em sa, er bænir þinar færik i minning oc i auglit allzvalldanda guðs. Af þvi at guð heyrir bænir þinar, af þvi sentu menn i Joppen eptir Simone Petro, enn hann er i husum Simonis skinnara við sia. Enn fyrir þvi at þu leitar guðs vilia, þa mun hann segia þer, hvat þu skallt gera þess, er guði liki.“ Enn er engillinn hvarf a braut fra honum, þa heimti hann þangat þria ina ætztu riddara sina oc sendi þa i Joppen, oc sagði þeim, hvat hann hafði set eða heyrt, oc bað þa fara eptir Petro. Enn er þeir nalguðuz til Joppen, þa var Petrus i lopthusi nockuru a bæn sinni at miðium degi. Enn er hann hungraði oc ætlaði til matar, þa er hann hafði bæninni lokit, þa sa hann himna opna yfir ser, oc sa hann niðr siga duk mikinn af himni með fiorum skautum. I þeim duki voro allz kyns foglar oc ferfætingar oc skriðkviqvendi iarðar. Þa

kom raudd af himni oc mællti: „Ris upp þu, Petrus, oc sæf þetta oc et.“ Petrus svaraði: „Eigi et ek ohreinindi, drottinn.“ Rauddin mællti við hann: „Eigi skalltu ohreint kalla þat, er guð hreinsaði.“ Þetta var mællt þrysvar við hann it sama. Enn eptir þat leið dukrinn upp til himins. Petrus undraðiz syn þessa. Þa komo sendimenn Kornelius oc stoðu fyrir durum oc spurðu at Simoni Petro. Þa mællti heilagr andi enn við Petrum: „Þrir menn eru komnir uti oc leita þin, oc ris þu upp, oc far með þeim, oc ifa eigi, at ek senda þa hingat.“ Þa geck Petrus ut a moti þeim, er hans leituðu, oc mællti við þa: „Ek em sa, er iér leitið. Enn hvat vili þer?“ Þeir svoruðu: „Cornelius hundraðshaufðingi rettlatr maðr oc siðsamr oc lofaðr af allri þioðu Gyðinga, honum bauð engill guðs at senda eptir þer, oc vill hann af þer heyra orð guðs.“ Þa tok Petrus við þeim at gistingu oc for með þeim annan dag, oc fylgðu honum nocqurir af bræðrum or Joppe oc komo annan dag i Cesaream.

Cornelius hafði boðit þangat vinum sinum oc frændum, oc geck hann a mot Petro oc fell til fota honum. Petrus tok i hond honum oc mællti: „Ris upp þu, oc fall ecki til fota mer, þviat ek em maðr sem þu.“ Þa kom Petrus inn i hus hans, oc sa þar marga menn komna, oc mællti: „Jer vituð, at Gyðingum er bannat at koma til heiðinna manna; enn guð syndi mer engi vera rækian ne ohreinan, þann er a hann truði, oc kom ek af þvi, þegar er ek var kallaðr. Enn ier segit nu, firir hveria sauk ier kolluðut mik.“ Cornelius svaraði: „Firir þrimr nottum at noni dags, er ek var a bæn i husi minu, þa stoð hia mer maðr i hvitum clæðum oc mællti við mik: Heyrð er bǽn þin, Cornelius, oc aurlyndi i augliti guðs, oc skalltu senda menn i Joppen eptir Simon, þeim er Petrus kallaz. Oc senda ek þegar menn eptir þer. Enn þu gerðir vel, er þu komt. Enn nu eru ver bunir at heyra orð þin oc alla þa hluti, er drottinn bauð þer.“ Þa lauk Petrus upp munn sinn oc mællti, sva at allir heyrðu: „Nu veit ek vist, at drottinn dæmir eigi at heims virðingu, helldr er honum þægr i hverri þioðu sa, er a hann truir oc viðr rettlæti. Guð sendi orð sitt sonum Iraels oc boðaði frið aullum firir Jesum Crist, sa er drottinn allra. Ier vitoð, at þetta orð (kom) of allt Gyðingaland oc hofz i Galilea eptir þa skirn, er Johannes boðaði Jesum, þann er guð efldi crapti heilags anda. Enn hann for oc græddi alla, þa er af diofli voru þrongdir, þviat guð efldi hann helgum anda. Enn ver erum vattar allra hluta, þeira er hann gerði i Jorsolum oc i

aullum hieroðum Gyðinga. Enn þeir deyddu hann oc krosfestu hann a tre, enn guð reisti hann upp af dauða a þriðia degi, oc syndi guð hann eigi aullum lyð helldr raðnum vattum af guði oss, er atum oc druckum með honum, siðan er hann reis upp af dauða, oc bauð oss at vatta þat firir ollum lyð, at hann er domandi kvikra oc dauðra. Honum bera allir spamenn vitni, oc allir munu taka lausn synda firir nafn hans, þeir er a hann trua.“ Enn er Petrus mællti þessi orð, þa kom heilagr andi yfir alla, þa er heyrðu þessi orð, oc mællto þeir a margar tungur ok dyrkuðu guð. Enn þeir er fylgt hofðu Petro undruðuz, er heilagr andi kom yfir heiðnar þioðir. Þa mællti Petrus: „Firir hvi skulum ver eigi skira þessa menn, er toko helgan anda sem ver?“ Enn er þeir voro allir skirðir i nafni Jesus Cristz, þa baðu þeir Petrum, at hann dvelðiz þar nocqura daga.

Þa fragu postular, at heiðnir menn toko við orði guðs. Enn er Petrus kom i Jerusalem, þa mællto við hann þeir er tru hofðu tekit af Gyðingum: „Fyrir hvi gecktu inn til heiðinna manna oc atzt oc dract með þeim?“ Þa sagði Petrus þeim, hversu hann hafði sét koma til sin duk af himni, þann er i voro allzkyns dyr oc foglar oc skriðqvikvendi, oc var mællt við hann þrysvar, at hann skylldi eta þat oc sæfa, oc ecki væri rækt þat er guð hreinsaði. „Enn er dukrim leið til himins or augliti minu, qvað postulinn, þa komo .iii. menn, þeir er sendir voro or Cesarea. Enn heilagr andi vitraði mer, at ek skyllda fara með þeim. Enn er ver komum til husa hofðingia þess, er menn hafði senda eptir mer i Joppen, þa sagði hann oc, hversu engill guðs hafði honum boðit at senda menn eptir mer. Enn er ek talda tru fyrir þeim, þa kom heilagr andi yfir þa sem yfir oss. Þa minntumz ek orða þeira, er drottinn mællti: Johannes skirði mik i vatni, enn ier munut skiraz i helgum anda. Enn er guð gaf þeim slika miskunn sem oss, er truðum a Jesum Crist, hvat mætta ek banna þat guði.“ Enn er lærisveinar heyrðu þat er Petrus sagði, þa lofuðu þeir guð, þann er ollum vill miskunna oc helgan anda ġaf heiðnum monnum oc synda iðrun oc ván eilifs fagnaðar. Þaðan af toko lærisveinar at boða heiðnum maunnum nafn Jesus Cristz með trausti heilags anda, oc samnaðiz mart lið til guðs af heiðnum monnum fyrir kenningar postulanna.

13. A þeiri tið gerði Herodes konungr ofrið kristnum maunnum, oc let hann hoggva sverði Jacobum broður Johannis postula. Enn er hann sa, at Gyðingum likaði þat vel, þa let hann oc taka

Petrum postula at paskum Gyðinga oc setia i myrkvastofu, oc selldi hann .xvi. riddorum til varðveizslo oc villdi bana honum eptir paschana. Þa var Petrus halldinn i myrqvastofo. Enn kristnir menn baðo fyrir honum. Enn a þeiri nott, er Erodes(!) villdi lata bana honum eptir of daginn, þa svaf Petrus a millum tveggia riddara bundinn tvennum iarnrekondum, oc voro verðir fyrir durum. Þa kom engill guðs, oc skein lios i husino, oc svaf Petrus aðr. Þa vakti engillinn Petrum oc mællti við hann: „Ris upp þu sysliga oc bitt skua þina oc tak klæði þin oc fylg mer.“ Þa fello rekandirnar af Petro, oc stoð hann upp oc geck ut oc fylgði englinum, oc hugði ser draums vera. Enn er þeir liðu um tvenn varðholld, þa komo þeir til borgarhliðs, þess er iarnhurð var fyrir, ok laukz þat þegar upp fyrir þeim. Enn er þeir komo til næsta bæiar, þa hvarf engillinn fra honum. Enn Petrus hvarf þa aptr til sin oc kendiz við, at hann var vaktr, oc mælltiz við einn saman: „Nu veit ek vist, at guð sendi engil sinn oc leysti mik or bǫndum Herodis oc or ǫllu clandi Gyðinga.“ Þa for Petrus til husa Mario moður Johannis. Enn þar voro margir kristnir menn saman a bænum. Enn er Petrus knuði hurð, þa geck mær nocqur til dura. Enn er hon kendi mal Petrus, þa gaði hon eigi at luka upp hurðina fyrir fagnaði, oc rann hon inn þegar oc sagði, at Petrus var fyrir durum. Enn þeir er inni voro truðu eigi oc qvaðu hana mæla hofuðora. Enn Petrus knuði hurðina i annat sinn, oc var þa lokit upp durum. Enn Petrus for þa i brott i annat(!) stað.

Riddarar Herodes fundu eigi Petrum at morni, þa undruðuz þeir oc vissu eigi, hvat af honum var orðit. Enn er Herodes fann eigi Petrum, þa reiddiz hann oc for i brot af Jorsalalandi oc i borg þa er Cesaria heitir, oc let þar þings qveðia. Enn er hann sat a domstoli i itarligum klæðum oc mællti a motinu, oc mællti allr lyðr, þat(!) er mal hans heyrðu(!), at engi hefði slika mælsku heyrt, oc qvaðu hann guðs roddu mæla enn eigi manz. Enn er Herodes drambaði i þessi virðingu oc gaf eigi veg guði, þa laust engill guðs hann illri sott, sva at hann vall mauðkum, aðr hann do, oc þat er kallat, at hann kendi a ser lifanda af helvitiss qvaulum nockurum.

14. Philippus het einn diakn, sa er Petrus hafði vigðan hann einn af .vii. diaknum. Hann var heilagr maðr oc mikill kennandi. Enn er hann kom til borgar þeirar er Samaria heitir, þa toko margir vel við kristni oc við kenningum hans, þeir er

sa iarteinir hans, þær er hann gorði yfir siukum monnum eða rak diofla fra oðum monnum, oc varð mikill fognuðr at þangatkvamo hans oc kenningum, oc kristnaði hann þar margan lyð.

15. Simon het nocqur villumaðr fiolkunnigr, hann var i borg þessi Samaria, oc qvazt mikill craptamaðr vera. A hann truði hverr maðr i borginni, oc qvaðu allir mikinn guðs krapt með honum vera, þviat hann hafði lengi synda fiolkyngi sina. Enn er Philippus taldi tru fyrir monnum oc margir toku skirnn, þa tok Simon oc við skirn oc fylgði Philippo oc sa iarteinir, þær er hann gerði i guðs nafni, oc þotti undarlict. Enn er postular fragu, þeir er i Jorsolum voro, at Samariamenn toku við tru, þa buðu(!) þeir Petrum oc J.hannem, at þeir færi þangat at styrkia Philippum, oc þeir foro þegar. Enn er þeir komo, þa baðu þeir fyrir maunnum þeim, er tru hofðu tekit, at þeir tæki helgan anda, oc varð sva. Enn (er) Simon sa, at allir toku helgan anda, er postularnir logðu hendr yfir, þa tok hann fe mikit oc bar at þeim oc mællti: „Þetta fe mun ek yckr gefa til þess, at it gefit mer þat at moti velldi sva mikit, at hverr maðr taki inn helga anda, er ek legg minar hendr yfir.“ Petrus svaraði: „Fe þitt fari til glautunar með sialfum þer fyrir metnuð þinn oc fyrir þat, er þu ætlar með fiarhlutum at kaupa giafar guðs, oc mattu engi hlut auðlaz af þessi giof oc gipt með þessu tilmæli, oc er hug þinum snuit miok fra guði, er þu vill gera a mot þvi, er guð mællti of helgan anda, at um giof þagu þer, enda veitið ier sva. Nu gerðu iðrun sem braðaz fyrir þessa illzku, oc bið guð, at hann fyrirgefi þer þetta. En þo lizt mer hinveg a þik, at sa bei(s)kleikr bui þer i briosti, er eigi me(gi) þer borgit verða, oc þat hygg ek, at sva reyniz.“ Simon svaraði: „Þess bið ek guð, at hann snui þessu aullu fra mer, er þu mælir nu.“ Siþan hvarf Simon a brot fra Petro oc kastaði niðr tru sinni oc skirnn oc tok at nema fiolkyngi oc[1] . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

[2]i Jorsolum, oc hefir hann nu tekit velldi af Gyðingum at binda alla þa er a þitt nafn kalla. Drottinn Jesus mællti við hann: „Farðu, þviat hann er valit ker mitt, at hann beri nafn mitt firir konunga oc heiðnar þioðir oc sonu Gyðingaliðs(!). Enn ek mun syna honum, hveria hluti hann skal þola firir minu nafni.“ Þa for Annanias oc lagði hendr yfir Saulo oc mællti: „Sauli broðir, drottinn Jesus sendi mik, sa er þer vitraðizt a gautu, at þu takir syn oc fylliz heilags anda.“ Þa fell af augum hans sva sem

1 *Her mgl. flere Blade; jvf. ovenf. S. 172[8].* 2 *Jvf. Páls Saga I ovenf. S. 216[30].*

hreistr væri, oc tok hann syn sina. Enn þa reis hann upp oc var skirðr oc styrkþizt hann, er hann tok fæzslo, oc var hann nocqveria daga i Damasko með lærisveinum, oc geck hann þegar a þing Gyðinga oc boðaði þeim Jesum Crist son guðs. Allir undruðuzt, þeir er orð hans heyrðu, oc mællto: „Er sa her nu, er a þeim barði i Jorsaulum, er a þetta nafn kaulluðu, sem nu boðar hann oc byðr at trua a, oc kom til þess hingat; at hann leiddi þa bundna til Gyðinga i Jorsali,er sva tryði, sem nu kennir hann.“

### *Af Paulo postula.*

(2.) Saulus, sa er nu heitir Paulus, styrkðiz at meirr oc talði a mot Gyðingum, þeim er voro i Damasko, oc sannaði, at Jesus var sonr guðs. Þa baro Gyðingar rað saman oc byrgðu borgarhlið oc villdu haundla Pal oc drepa. Þa letu bræðr hann siga niðr i festi firir borgarvegg i vandlaupi of nott. Enn er hann kom i Jorsali, þa villdi hann samtengia sik Cristz lærisveinum. Enn allir oðuzt hann oc truðu eigi, at hann væri Cristz lærisveinn. Þa leiddi Barnabass hann til postula oc sagði, hversu guð vitraðiz honum a gautu oc hversu staðfastliga hann hafði þegar boðat nafn Jesus Cristz i Damasko. Þa for Pall i Jorsalaborg með postulum oc gerðizt hraustliga i nafni Jesus oc taldi tru firir Gyðingum, enn þeir villdu bana honum. Enn er bræðr urðu varir við rað Gyðinga, þa fylgðu þeir Paulo i Cesaream, enn þaðan for hann i Andþekio, oc fylgði Barnabas honum. I Anðekio voro margir guð(s) vinir oc kennimenn, þeir er Cristi þionuðo i faustum oc i bænum oc helgum kenningum. Enn heilagr andi vitraði(z) þeim berliga oc mællti: „Veli þer Pal oc Barnabas til þionostu þeirar, er ek senda þa.“ Þa logðu guðs vinir hendr yfir haufuð þeim oc blezuðu þa. Enn þeir foro sendir af helgum anda of heroð oc um borgir oc of eyiar oc boðuðo orð guðs i þinghusum Gyðinga. Enn er þeir Pall oc Barnabas qvomo i ey þa er Paphus heitir, þa fundu þeir þar villumann nocqurnn, en sa het Elimas. Enn hann var með iarli þeim er Sergius Paulus het. Enn iarll var vitr maðr, oc heimti hann þa til mals við sik Pal oc Barnabas, oc var fuss at heyra orð guðs. Enn Elimas inn fiolkungi mællti i gegn þeim oc villdi snu(a) iarlli fra tru. Enn Pall leit við honum oc mællti: „Þu fi(a)nda sonr, fullr lygi oc allra væla, oc ovinr allz rettlætiss! firir hvi lætr þu eigi af at villa rettar gautar(!) guðs? Nu þegar mun kòma yfir þic reiði guðs, oc muntu verða blindr heðan fra.“ Enn þa þegar kom þoka oc myrkr þat yfir Elimas, at hann sa

ecki, oc leitaði hann, ef nocqurr maðr villdi taka i hond honum oc leiða hann. Þa tok iarll tru oc let skirazt, oc mart manna með honum, er þeir sa þetta, oc dyrkuðu kenningar postulanna oc iarteinir.

*Fra Paulo oc Barnaba.*

(3). Þa for Pall oc Barnabas oc fauroneyti þeira aptr i Anðekio oc gengu a þing Gyðinga a þvatdegi nocqurum, oc vissu Gyðingar eigi, at þeir voro Cristz lęrisveinar, oc mællto við þa: „Teli þit firir lyð þessum, ef nocqurr yðvarr er mælskumaðr.“ Þa reis Pall upp oc qvaddi hlioðs. Enn þegar er hlioð gafzt, þa mællti Pall: „Heyri þer, senir(!) Gyðinga, þeir er guð hræðaz. Guð Irael valdi feðr yðra oc iok lyð sinn, þa er þeir voro a Egiptalandi, oc le(i)ddi þa þaðan með storum iarteinum, oc samði hann sið þeira fioratigu vetra i eyðimork, oc dreifði hann siau þioðum fra iorðu þeiri, er hann skipti með feðrum yðrum. Siþan gaf hann domendr allt til Samuels spamanz. Enn þa baðu þeir ser konungs, oc gaf guð þeim Saul or kyni Beniamin, hann var konungr .xl. vetra. Siþan gaf guð þeim þann konung, er hann sialfr bar gott vitni, oc mællti sva: Ec fann David son Jessa hellzt við mitt skap, oc mun hann gera vilia minn. Ur hans kyni sendi guð sonum Irael Jesum græðara, sem hann hafði fyrr heitit, þann er Johannes boðaði ollum lyð Iraels með iðrunarskirn. Enn er allir hugðu Johannes guðs (son) vera, þa mællti hann: Eigi em ek sa, er er ætlit. En sa mun eptir mer koma, er ek em eigi verðr at leysa skua hans. Ier bræðr oc senir Abrahams, þer er guð hræðiz, yðr til handa er send þessi heilso orð, þviat þeir er byggva Jorsalaborg, skilðu eigi orð spamanna, oc firirdæmðu þeir Jesum, enn er þeir fundu ongva sǫk at honum, þa baðu þeir Pilatus iarll, at hann banaði honum. Enn er þeir fylldu alla hluti, þa er ritnir voro of Jesum Crist, þa toku þeir hann ofan af tre oc logðu hann i grauf. Enn guð reisti hann upp af dauða, oc var hann sen marga daga siðan af þeim, er honum fylgðu or Galilea i Jerusalem, oc eru þeir nu vattar hans firir alþyðu. Enn ver boðum yðr þat firirheit er heitit var feðrum varum, þviat guð efndi þat við sonu yðra, þa er hann reisti upp Jesum af dauða, sva sem ritið er i salmi: Sonr minn ertu, i dag gat ek þik. Enn hann reis upp af dauða, oc mun hann eigi deyia siðan, sva sem David mællti i salmi: Eigi muntu helgan likam þinn lata funa. David sagði eigi þetta fra ser, þviat hann do sem kyns-

menn hans oc funaði i molldu, enn sa funaði eigi, er guð reisti af dauða. Enn þat skulu þer vita, bræðr, at guð gefr yðr lausn synda þeira, er þer mattuð eigi fra leysazt i laugum, þviat hverr mun hialpaz, er a hann truir." Enn er Pall hafði þetta mællt oc mart annat þessu glict, þa bað lyðrinn, at hann skylldi koma annan þvattdag oc telia slika taulu. Enn margir Gyðingar toko tru af þessi taulo oc fylgðo Pali postula af moti þessu oc þingi.

*Capitulum.*

(4). Enn annan þvattdag kom miok sva allr borgarlyðr at heyra orð guðs Enn er yfirgyðingar sa margan lyð, þa fyllduzt þeir aufundar oc taulðu i gegn Pali. Enn þeir Pall oc Barnabas mællto: „Yðr ættum(!) ver fyrst at boða orð guðs. Enn allz þer rakut þat fra yðr oc gerðuzt overðir ens eilifa lifs, þa munu ver hverfa til heiðinna þioða, þviat sva bau(ð) oss drottinn, þa er hann mællti firir spamanninn: Ek setta þik lios heiðnum þioðum, at þu veittir þeim hlialp(!) allt til ennda iarðar." Þa urðu heiðnir menn fegnir, er þeir heyrðu þetta, oc dyrkuðu orð guðs oc truðu allir, þeir er ætlaðir voro til lifs, oc for orðasað guðs of all(!) herað(!). Enn Gyðingar baro fe undir rikissmenn oc villdu gera Pali postula ofrið oc faurunautum hans, ok raku þa a braut or herðoðum(!) sinum. Enn þeir foro fullir af fagnaði heilags anda i herað þat er Korinum heitir, oc boðuðu orð guðs a motum, oc truþu margir þeim bæði Gyðingar oc heiðnir menn, þviat þeir gerðu margar iarteinir, meðan þeir voro þar. Enn þeir Gyðingar er eigi villdu tru taka, gerðu ofrið i gegn þeim, sva at allr borgarlyðr skiptizt i tva staði, oc voro sumir með Gyðingum enn sumir með postulum. Enn er Gyðingar villdu grioti beria Pal postula, oc flæði hann oc forunautar hans til borgar þeirar er Listra heitir, oc kendi hann monnum þar orðr(!) guðs. I þeiri borg var siukr maðr, sa er alldri hafði gengit ne a fætr stigit. oc var hann með þvi meini borinn. Enn er Pall sa hann oc vissi, at hann hafði tru til heilsu, þa mællti Pall við hann: „Ristu upp oc statt a fætr þina." Enn hann reis upp þegar heill oc geck. Enn er Pall hafði þetta mællt oc gert, oc lyðrinn sa þat, þa mællti alðyða: „Goð ero komin til var i manna likiom." Oc kaulluðu þeir Pal Oðin, enn Barnabas Þor. Þa kom blotmaðr Þors með maurgum borgarlyð oc færði þangat griðunða(!) oc hafra, oc villdu(!) blota. Enn er Pall oc Barnabas sa þetta, þa kaullu(ðu) þeir oc mællto: „Hvi gegnir þetta, er þer giorit? Menn dauðligir erum við sem iér oc kennum yðr at

snuaz fra blotum oc til guðs, þess er skop himin oc iorð oc sæ oc gefr yðr regn af himni enn alldin af iorðu oc nu fylldi hiortu yðr fagnaðar.“ Enn er þeir mællto þetta, þa toko margir menn tru, er heyrðu þetta oc sa iarteinir þeira. Oc efldiz kristinn domr i hioruðum(!) oc i borgum, þar er þeir Pall haufðu farit, oc vigðu þeir Pall presta oc diacna.

*Fra Pali postula oc hans faur*[*unautum*].

(5). Enn er þeir komo i borg þa er Troade heitir, þa syndiz Pali of nott i dra(u)mi maðr necqverr koma til sin or heraði þvi er Macedonia heitir oc mæla við sik: „Far þu i Macedoniam oc biarg oss.“ Enn eptir þenna draum for Pall i Macedoniam með lærisveinum sinum, þviat hann vissi, at guð kallaði hann. Enn þeir dvaulduzt marga daga i borg þeiri er Kolonia heitir i husum[1] kono þeirar er Lidia het. Enn hon hafði tekit skirnn af kenningum Pals. Enn er Pall oc forunautar hans foro til bænar of dag, þa rann a mot þeim kona nocqur, su er husdrotnum sinum hafði kend morg ferað af visindum sinum, oc kallaði hon, er hon sa Pal oc lærisveina hans: „Þessir menn eru þrælar ens hæsta guðs oc kenua yðr heilsugautu.“ Pall leit til hennar oc mællti: „I nafni Jesus Criz(!) byð ek þer, ohreinn (andi), at þu far a brot fra kono þessi.“ Þa hvarf ohreinn andi þegar a braut fra henni. Enn þeir reidduz, er aðr hofðu ser nyttar spasaugur hennar oc* . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

inu uppi oc hlyddi þaðan til orða postulans. Enn er hann taldi lengi, þa sofnaði enn ungi maðr oc fell ofan af veggnum oc lamðiz hann allr. Þa kom Pall til hans oc bað firir honum lengi, oc mællti við þa er hia stoðu: „Eigi skulu þer hryggvazt, aund er enn i honum.“ Þa lifnaði Eutikus, ok hugguðuz þeir er aðr voro hryggvir, er þeir sa hann þa heilan vera.

*Capitulum.*

(11). Enn annan dag ste Pall a skip með lærisveinum sinum, þat var litlu eptir pascha, oc foro dag fra degi, unz þeir qvomo i stað þann er Miletum heitir. Enn þat er eigi langt fra Effeso. Þa ætlaði Pall at dveliaz skamma stund i Asia, þviat hann villdi koma til Jorsala at hvitadaugum, ef sva mætti verða. Þa sendi Pall eptir forraðsmonnum kristninnar i Effesum, at þeir qvæme

[1] hvnvm *Cd.* * *Her mgl. 2 Blade; jvf. Páls Saga I ovenfor S.* $220^{27}$-$224^{10}$.

allir i Miletum til fundar við hann. Enn er þeir qvomo þangat, þa mællti Pall við þa: Ér vituð, bræðr, siðan ek kom i Asia, hverso ek var með yðr of alla tið, oc þionaða ek guði i aullu litillæti i bænum oc meingerðum, þeim er mer baruðzt at hendi af raðum Gyðinga; enn ek sparða alldri við yðr nytsamligar kenningar, oc boðaða ek Gyðingum oc heiðnum monnum tru drottins Jesus Cristz. Enn nu fer ek til Jorsala, oc (veit) ek eigi, hvat mer mun at hendi beraz, nema þat at heilagr andi vitrar i borgum, at ek muna bundinn vera oc pindr. Enn ek hræðunz(!) þat eigi, þviat ek spari eigi likam minn til pislar fyrir nafni drottins mins, at ek fylla þionostu hans, þa er hann gaf mer at fylla orð miskunnar þinnar(!). Enn ek veit, at ier munuð eigi sia mik siðan, þeir er nu heyra kenningar minar. Af þvi vatta ek nu i dag þetta, at ek em saklauss við alla yðr, þviat ek sparða alldri at kenna yðr heilsurað. Hyggi þer at yðr oc allri hiǫrð yðvarri. Ier (eruð) þeir menn, er heilagr andi setti byskupa yfir kristni guðs, þa er hann leysti með sinu bloði. Ek veit, at eptir mina brautfǫr munu koma olmir hundar til hiarðar minnar, oc munu af yðr sialfum hefiaz villumenn, þeir er leiða munu eptir ser lærisveina. Af þvi verit ier vakrir oc minniz kenninga þeira, er ek kenda yðr þa þria vetr, er ek var með yðr. Enn nu fel ek yðr guði a hendi, þeim er mattugr er at efla orð miskunnar sinnar. Þer vitut sialfir, at ek girntumz eigi gullz yðvars ne silfrs ne clæða, þviat þessar hendr unnu til allz þess er ek þyrfta oc faurunautar minir. Ec synda yðr, hversu yðr byriar at vinna oc tæia valuðum oc siukum oc minnaz orða drottins vars Jesus Cristz, þviat hann sagði sælligra vera at gefa enn at þiggia." Enn er Pall hafði þetta mællt, þa fell hann a kne, oc voro þeir lengi allir saman a bæn. Þa urðu þeir allir oglaðir oc gretu þat, er þeir vissu, at Pall skylldi eigi aptr koma. Enn allir leiddu hann til skips bæði karllar oc konur. Enn er Pall ste a skip oc lagsmenn hans, þa foro þeir dag fra degi, unz þeir komu i Cesaream, oc toku þeir gisting i husum Philippus diacns, þess er .i. var af .vii. diacnum þeim er postular haufðu vigða i Jorsaulum. Enn hann atti dætr .iiii. helgar meyiar, þær er spaleiks anda hofðu. Enn er Pall dvalðiz þar nockura daga, þa kom spamaðr af Gyðingalandi, sa er Agabus het. Hann tok gyrþil Pals oc batt hendr sinar oc fætr oc mællti: „Þat vitraði heilagr andi, at sa þegn, er þenna gyrðil a, mun bundinn verða i Jorsolum oc selldr i hendr heiðnum þioðum." Enn er lærisveinar Pals heyrðu þetta, þa mællto

þeir, at hann skylldi hverfa aptr oc fara eigi i Jorsalaborg. Pall svaraði: „Fyr hvi mæði þer hiarta mitt, bræðr, i grati yðrum? buinn em ek eigi at eins at vera bundinn helldr oc at taka bana i Jorsalaborg fyrir nafni drottins Jesus Cristz,“ Enn eptir fa daga for Pall i Jorsalaborg, oc fylgðo honum lærisveinar hans oc margir aðrir or Cesarea. Enn bræðr toko fegnir við honum, er hann kom i Jorsalaborg, oc for hann annan dag at finna Jacobum postula oc þa bræðr er með honum voro, oc sagði hann, hveria hialp guð hafði gefit heiðnum maunnum fyrir hans kenningar.

### *Fra Pali postula.*

(13). Jacobus postuli varð feginn oc gerði guði þackir oc mællti við Pal: „Þu veiz, broðir, at allir Gyðingar hallda rikt laug sin. Enn þeir hafa heyrt sagt fra þer, at þu brytr niðr laug Moysi oc bannar monnum skurðarskirnn, oc gangir inn i kirkiur með heiðna menn. Af þvi eru þat rað vár, at þu hreinsa þik fyrir fram at laugum Gyðinga, aðr þu gangir inn i musteri með fauronautum þinum oc munu [1] . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

ne gerðac styriolld eða sundrþycki lyðsins, sva at þeir megi saunnur a þvi finna, er mik rægia. Enn villa er i Jerusalem, su er menn þræta of upprisu dauðra manna. Enn ek trui guði þeim, er feðr orir truðu, oc trui ek þvi aullu, er ritit er i laugum oc i bokum spamanna, oc trui ek upprisu dauðra manna, sva sem feðr varir truðu. Enn ek kom til þess i Jorsali at gaufga guð oc færa fornir oc at duga frændlini(!) minu i aulmosugæði. Enn þessir segi nu, ef þeir fundu neckuria hluti illzku at mer, nema þat er ek kallaða a þingi þeira oc saugðumz dæmdr vera of þat, er ek truþa upprisu dauðra manna.“ Felix iarll dvalði at dæma of mal þessi, oc sendi hann hofðingia aptr i Jerusalem. Enn hann bauð einum hundraðshaufðingia at varðveita Pal, sva at hann væri frials oc kæmiz þo eigi a braut, þviat hann hugði, at Pall mundi leysa sik undan með fe, oc kom iarllinn af þvi opt til mals við hann oc spurði hann margra hluta. Enn Pall talði avallt firir honum tru oc rettlæti oc gat eigi sva talt firir honum, at hann villdi tru retta taka, oc var Pall .ii. vetr i varðveizlu hans.

### *Fra Pal postula.*

(18). Enn eptir .ij. vetr gerðiz iarllaskipti, þviat þat voru

[1] *Her mgl. 3 Blade; jvf. Páls Saga I ovenfor S.* $226^{26}$-$231^{1}$.

laug, at ymsir væri iarllar, þeir er iafnkomnir voru til velldis. Enn Felix let binda Pal, aðr hann færi braut, oc let hann þat eptir Gyðingum. Enn sa het Festus, er þa tok við iarlldomi i Cesarea, oc for hann til Jorsala þrimr nottum siðarr. Oc komo þegar til hans Gyðingar oc rægðu Pal oc baðu iarllinn, at hann leti leiða Pal i Jorsali oc byggvir(!) við þvi at lata vega hann, aðr hann kvæmi til borgarinnar. Enn Festus sagði, at Pall væri i varðhalldi i Cesarea, oc bað hann þa menn fara með ser þangat, er sakir ætti við Pal. Enn er Festus iarll hafði verit viku i Jorsalaborg, þa for hann i Cesaream oc fiolði Gyðinga með honum. Enn annan dag sat hann a domstoli, oc let hann þa þangat leiða Pal. Þa baru Gyðingar margar storsakar a hendr honum oc gatu onga sauk saunaða. En Pall sannaði þat, at hann hafði hvarki gert i gegn guðs laugum ne mauna. Enn Festus villdi sva gera, at hellzt likaði Gyðingum, oc mællti við Pal: „Villtu at við farim i Jorsali oc dæmim þar of þessi mal?“ Pall svaraði: „Fyrir domstoli keisara byriar mer at standa, oc skal ec þar dæmðr vera, ef ek verð. Ecki gerða ek Gyðingum til meins, sem þu veizt eigi ogiorr enn ek. Enn ef ek gerða uacqvat þat, er bana se vert, þa forðumz ek eigi banann. Enn ef (ek) gerða ecki þat, er þessir segia, er mik rægia, þa er rett, at ek na laugum at keisara domi, ef Jorsalamenn bioða mer olaug.“ Festus iarll svaraði: „Allz þu kvaddir keisara til þins mals, þa skalltu þvi na at fara þangat.“

*Fra Pali . . . .*

(19). Enn er þaðan liðu nocqurir dagar, þa kom konungr i Cesaream, sa er Agrippa het, þviat hann atti erindi við iarll. Enn er hann dvalðiz þar marga daga, þa sagði iarll konungi fra Pali oc mællti: „Þenna mann let Felix i baundum vera, þa er ek kom hingat.“ Siþan sagði iarll konunginum, hversu Gyðingar villdu raða fiǫrraðum of Pal, oc sva at þeir þrættu of Jesum nockurn, þann er Gyðingar saugðu dauðan, enn Pall qvað hann lifa. Enn ek kunna eigi dæma of þat, oc bauð ek at dæmt mundi of þat i Jerusalem. Enn hann lezt vilia hafa dom keisara, oc ætla ek nu bratt at senda hann þangat.“ Agrippa konungr svaraði: „Sia villda ek þann mann oc heyra orð hans.“ Þa let Festus iarll leiða Pal þangat annan dag eptir oc heimti þangat ena æztu borgarmenn oc mællti siðan: „Se þu, Agrippa konungr, oc allir þer, er nu eruð hia staddir, þenna mann, er allir Jorsala-

menn rægia oc kveða honum eigi lift vera: Enn ek finn onga sauk at honum. Af þvi ætla ek at senda hann til keisara, sem hann beiddi sialfr. Enn ek veit eigi, hvat ek skal keisaranum segia fra honum, af þvi tali þer við hann, oc megi hann sialfr segia fra ser, þat er ek mega rita oc senda keisaranum, þviat ovislikt er at senda bundinn mann oc skyra eigi saukina."

(20). Þa mællti Agrippa konungr við Pal: „Lofat er þer nu at svara firir þik." Þa tok Pall at svara oc syna þeim skynsemi firir sik oc mællti: „Ef ek nai at svara firir mik i dag, þa munu mer vel ganga mal við þik, konungr, of alla hluti, þa er ek em rægðr af Gyðingum, allra hellzt af þvi at þu veizt laug þeira oc siðu. Allir Gyðingar vissu(!) uppruni mina, ef þeir villdi þat satt lata, þviat ec hellt allra fastazt laugum þeira, oc em ek enn staðfastr i þeiri van, er guð het feðrum varum oc allt lið vart truir, oc ek veit, at fram mun koma, þviat ver truum allir, at guð lifgar dauða. Enn firir þa tru oc van em ek nu rægðr af Gyðingum." Siþan sagði Pall konunginum allan atburð farar sinnar i Damasko, oc sva, hve guð vitraðiz honum oc bauð, at hann skylldi bera nafn hans fram i Jerusalem enn kenna siðan heiðnum þioðum. „Enn firir þessar sakar, konungr, qvað Pall, at ek gerða sem guð bauð mer, þa toku Gyðingar mik i musteri oc villdu bana mer. Enn guðs kraptr hlifði mer allt til þessa dags, þviat ek boða ecki annat Gyðingum oc heiðnum þioðum, enn þat er spamenn sogðu at verða mundi, þat er pils Cristz oc upprisa dauðra manna, oc hygg ek þat, at þu, konungr, truir þvi er spamenn segia." Agrippa svaraði: „Leitar þu þess i slikum malum, at ek skyla kristinn verða?" Pall mællti: „Slikrar tru, sem ek hefi, æski ek eigi at eins þer, konungr, helldr oc aullum þeim, er þessi orð heyra i dag." Þa baru þeir konungr oc iarll rað sin saman oc raðunautar þeira, oc syndizt aullum Pall vera saklaus enn eigi dauða verðr. Þa mællti Agrippa konungr við iarll: „Nu mætti sia maðr vera lauss, ef hann hefði eigi sialfr nefndan keisara til at dæma of sik."

(21.) Þa var Pall með auðrum bandingium selldr hundraðshofðingia einum, þeim er Julius het, enn hann atti faur til Romaborgar. Þa ste Pall þar a skip með þessum maunnum, oc snero þeir a leið faur sinni. Enn þeir foru með Asialandi, unz þeir komu i ey þa er Kreta heitir. Enn þa gerði andviðri a mot þeim, oc lagu þeir lengi við eyna oc biðu byriar. Enn þa var eigi langt til vetrar, oc mællti Pall við forunauta sina: „Þat se

ek, bræðr, at iér munut fa skaða bæði farms oc skips, oc er þo mikil ván mannhaska, ef ver faurum fra eyio þessi i haust siðan.“ Enn Julius truði helldr þeim er firir skipi reðu, enn þvi er Pall sagði, oc ætlaði at fara til Fenneyiar, ef byri gæfi, oc vera þar of vetrinn. Enn siðan kom sunnanvindr, oc vætti Julius byriar oc bað siðan taka til segls. Enn þegar er þeir komo skamt fra landi, þa laust a mot þeim utnyrðingi steinoðum, sva at þeir urðu þegar at leggia skipit i rett. Enn er siar tok at stæraz oc veðr tok at vaxa, þa urðu þeir at kasta farminum. Enn hrið su hellzt allar tvær vikur, sva at engi himintungl sa. Þa mædduz þeir af kulda oc af hungri, sva at flestir orvilnuðu ser lifs oc heilsu. Þa stoð Pall upp a meðal þeira oc mællti: „Þat hefði byriat, bræðr, at ier færit eigi braut or Kreta, sem ek bað, oc mundo þer þa eigi hafa beðit þenna skaða. Enn nu skulu ver við þat huggaz, at ver munum allir lifandi til landz komaz oc [at] brotnu skipi, þviat engill guðs, þess er ek þióna, kom i nott til min oc mællti: Hræz eigi þu, Pall, þviat þu munt komaz til Romaborgar, oc veitir guð þer lif oc aullum skipverium þinum. Nu kostit, bræðr, oc verit hraustir, þviat guð mun efna heit sitt við oss, oc munum ver bratt til landz komaz.“ Enn litlu siðarr þa gatu menn at sia land firir stafn fram. Enn er þeir nalguðuz land[it], þa kaustuðu þeir atkerum oc biðu sva dags. Enn er dagr kom, þa mællti Pall: „Lengi haufum ver verit i vasi miklu, af þvi taukum ver nu til fæzslu oc hressum oss.“ Þeir gerðu sva. Enn er þeir voru mettir, þa kǫstuðu þeir farmi utan borðs oc lettu sva skipit. Siðan heimtu þeir upp atkeri oc drogu upp segl oc sigldu at landinu sem raðast. Enn er skipit kendi grunz, þa leysti þat i sundr undir þeim at skutstafni. Þa syndu sumir til landz, enn sumir fylgðu skipviðum, oc komo allir lifandi til lanz. Enn þa kendo þeir, at þeir voru komnir til eyiar þeirar er Militene heitir. Þeir kyndu elld mikinn, er þeir komo a land, oc vermðu sik, þviat frost var mikit. Enn er Pall samnaði trosum til ellz, þa hraukðiz hauggormr at hendi honum. Enn er lanzmenn sa orminn hanga a hendi hans, þa mællto þeir með ser: „Sia er morðingi, er veðr hriota við honum a sæ enn dyr granda honum a landi.“ Þa hristi Pall orminn af hendi ser i elldinn ofan, oc sakaði ecki haundina. Lyðrinn stoð oc sa a hann, oc hugði, at þa oc þa mundi hann dauðr niðr falla. Enn er þeir sa, at hann sakaði ecki, þa hugðu þeir, at hann væri guð. Enn hofðingi eyiar þeirar het Publius, sa atti þar bu a land upp, hann

tok við Pali oc aullum lagsmonnum hans, oc voru þeir þar þria daga. Enn faðir Publius hafði lengi riðusiukr verit. Enn Pall kom til hans oc bað firir honum, oc reis hann þegar heill upp. Enn er sia iartein spurðiz, þa færðu eyiarskeggiar þangat alla menn sina, ok toko þeir heilsu þegar. Allir eyiarskeggiar vegsaumuðu Pal oc faurunauta hans, oc fengu þeir aullum skipverium þa reiðu, sem þeir þurftu at hafa til brautfarar, oc voro þeir þar allz .iii. manuðr. Eptir þat stigu þeir a skip, oc gaf þeim vel leiði, unz þeir qvomo til Romaborgar.

(22.) Enn er kristnir menn spurðu, at Pall kom til borgarinnar, þa runnu þeir a mot honum langa leið oc gretu firir fagnaði. Enn er Pall sa lið þeira, þa gerði hann guði þackir með trausti. Enn er hann var kominn til Romaborgar, þa var honum lofat, at hann væri hvarki byrgðr ne bundinn, oc var hann undir varðhalldi rikissmanz eins. Enn eptir þria daga heimpti Pall til sin nockura Gyðinga oc mællti við þa: „Ek em selldr i hendr Romaborgarmaunnum bundinn or Jorsaulum, þar er ek hefi ecki giort i gegn lyð yðrum ne laugum feðra yðvarra Enn er rikissmenn þottuz vist vita, at ek var saklauss enn eigi dauða verðr, þa villdu þeir mik lata undan ganga. Enn er Gyðingar mællto i mot þvi, þa varð ek skylldr at beiða þess, at ek næða yðrum fundi, oc hafa þat er keisari villdi dæma." Gyðingar svoruðu: „Engi hefir hingat komit af Gyðingalandi at rægia þic við oss ne segia illa hluti fra þer, af þvi vilium ver heyra af þer sialfum, hveria skilning þu hafir, þviat villa su ferr of yðra sveit, er aull þioð mælir i gegn." Annan dag komo Gyðingar margir at heyra orð Pals, oc taldi hann firir þeim allt til aptans oc minti þa a laug Moyses oc orð spamanna oc kendi þeim tru Jesus Cristz. Þa truðu sumir orðum hans, enn sumir eigi, oc giorðiz þræta mikil a milli. Þa mællti Pall: „Nu kemr þat fram, er heilagr andi mællti forðum fyr Ysaiam spamann við feðr vara: Eyrum munu þer heyra, oc skilia eigi, augum munu þer sia þrifgiof guðs, oc þeckiazt eigi. Blint er hiarta lyðs þessa, oc byrgðu þeir augu sin oc eyru, at eigi sæi þeir ne heyrðu(!), oc villdu þeir eigi snuaz til min, at ek byrga þeim, qvað drottinn. Enn þat skulu þer vita, at sia þrifgiof er send heiðnum maunnum, oc munu þeir þeckiaz." Gyðingar hurfu brot fra Pali, er þeir heyrðu þetta. Enn Pall kendi kenningar .ii. vetr i Romaborg, sva at engi bannaði honum, oc feck hann leyfi af keisara, at hann færi i friði, hvert er hann

villdi, oc ox dag fra degi faugnuðr kristnum maunnum af kenningum Pals postula.

*Fra Pali postula.*

Enn er Pall postuli hafð(i) .ii. vetr verit i Romaborg, þa reðz hann a brot oc for of vestrlaund, þar er heitir Affrika, enn þaðan norðr a Frakland. I þeiri faur var hann .ix. vetr oc kendi heiðnum monnum tru retta oc kristnaði sva margan lyð, at engi maðr ma telia. Hann kom nær a hvert þioðland oc sneri otalligum lyð til guðs, hvar sem hann kom. Enn engi fær talið allar iarteinir hans, þviat hann miskunnaði sva hverium, sem hellzt beiddi þurpt til, oc braut þar hellz bag við avallt, er oðrum þotti torvelligast, oc setti hann grundvoll þeirar cristni, er aðrir varðveittu, þa er hann for fra, oc minntiz hann lærisveina i helgum bænum, þviat hann reit .xiiii. pistola oc sendi serhvern til ymisa borga. I þeim pistolum eru sva miklar kenningar, at þær eru eigi ohelgari enn guðspioll, þviat engi heilagra manna hefir framarr haft gipt heilags anda enn Pall. Þat guðspiall, er Lukas hefir gert, hefir Pall firir sagt, oc er þat einna mest gert of stormerki drottins vars Jesus Kristz.

Þa er Pall postuli var farinn af Griklandi, þa fra hann þat, at villumenn nokkurir voru komnir til Korinthsborgar, þeir er onyta villdu kenningar Pals oc buðu maunnum at hallda skurðarskirn oc sva fleira af hinum fornum laugum, þeim er Pall bannaði at hallda likamliga. Þeir foru með drambi oc riðu vegliga oc voru fatpruðir oc vel fiaðir. Þeir kuguðu lærisveina Pals oc buðu þeim ofriki, at þeir hafnaði kenningum Pals enn tryði þeira orðum, oc qvaðu þeir litil mið at Pali oc kenningum hans, oc qvoðu hann eigi vera Cristz lærisvein oc hallda eigi laug Moyses, kǫlluðu hann ongra metorða verðan, þviat hann var felauss oc vann til matar ser sem vesalingar, oc geck hvert er hann skylldi fara, oc hafði ofrið nær af allri þioðu. Enn mal þeira tælldu borgarmenn oc skrau(t)leikr klæðnaðar þeira, þviat þess verðr morgum giarnt at meirr virða menn at fatabuningi enn at tru, oc hlyddu margir kenningum þeira. Enn er Pall fra þetta, þa sendi hann þeim pistola sinn oc rit, þann er sva mællti.

*Capitulum.*

Pall þræll Jesus Cristz, er kallaðr er postuli, sendir qveðiu Corinthismaunnum. Guði minum þacka ek þat, er ier eruð vel at yðr gervir* . . . . . . . . . . . . . . . . . .

* *Her mgl. nogle Blade.*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

[1]gaf guð yðr himnabrauð at fætzlu en vatn or steini. Enn eptir þessa hluti alla gerðu þer yðr skurðgoð oc blotuðut þau. Enn ver sam engi takn þessi oc truðum þo a guð, þann er iér fyrirletuð oc truðút eigi.“ Enn er Gyðingar oc kristnir menn þrættu a þessa lund, þa tok Pall til mals: „Eigi skulu þer hafa þrætur yðvar a milli, helldr skulu þer a þat lita, at guð efndi heit sitt, þat er hann het feðr varum Abraham, oc svarði þess, at i hans kyni mundi allar þioðir arf taka oc þrifaz, oc virðir guð eigi mennina at kyni helldr at laugum oc tru. Oc þeir er i gegn laugum misgera, þeir skulu at laugum fyrirdæmaz, enn þeir er fyrir utan laug misgera, munu fyrir utan laug fyrirfaraz, þviat su hyggiandi er monnum gefin, at þeir megu skilia, hvat a milli er goðs oc illz, at þeir eigniz eilifa sælu, er gott gera, fyrir goð verk, enn þeir hepti illa hluti sina oc refsi.“ Enn er Pall hafði þetta mællt, þa stauðvaðiz þræta hvarratveggio. Þa toko hau(f)ðingiar Gyðinga oc avituðu Petrum of þat, er hann fyrbauð laugþing þeira[2].

Petrus svaraði þeim: „Hlyði þer þvi, bræðr, er heilagr andi vitraði feðr varum Davið, at fra honum mundi sa koma, er hann mundi setia yfir sess hans. Við þann mællti faðir varr af himni: Sonr minn ertu, i dag gat ek þik. Þann inn sama krossfestu Gyðingar af aufund. Enn hann tok a sik þa hluti alla, er fylldiz i pisl hans, til þess at hann fylldi lausn þa, er nauðsynlig var aullum heimi til hialpar. Oc sva sem Eva var gior ór rifi Adams, sva skapaðiz oc cristnin or siðu ens krossfesta Cristz oc varð sva faugr, at hon hafði engi hluta(!) flek a ser. Enn þessa gautu syndi guð sonum Iraels, at þeir se i tru Cristz oc cristni hans enn eigi i otru Gyðinga. Snuizt iér oc þa til guðs oc gangit inn i faugnuð Abrahams fauður yðvars, þviat guð fylldi þat, er hann het honum, sva sem spamaðrinn mællti: Drottinn sor oc mun eigi iðrazt, þu ert kennimaðr at eilifu. Cristr giorðiz kennimaðr a krossi, þa er hann veitti allri þioðu forn holldz sins oc bloðs.“ Enn er postular haufðu þetta mællt oc þessu glikt, þa tok tru Cristz mestr hluti lyðs þess, er heyrðu þessi orð. Enn þeir voru fair, er i gegn mælltu. Þa sa hofðingiar Gyðinga oc rikissmenn, at eyðaz mundu laug þeira af kenningum postulanna, oc rægðu þa við lyðinn, oc varð osætti af orðum þeira. Enn siðan rægðu þeir þa við Nero keisara, enn þeir toko at lofa Simon enn fiolkunga. A þeiri tið sneroz til tru otal þioðar fyrir kenningar Petrus. I þvi

1 *Jvf. ovenf.r S. 184*[10]. 2 þerra *Cd.*

liði tok tru Libia cona Nero konungs oc aunnur Agrippina cona Agrippa borgargre(i)fa, oc skilduz þær við buendr sina heiðna Enn af kenningum Pals hurfu margir til tru fra riddarasyslu oc fra hirð konungs oc giorðuz cristnir oc hurfu eigi aptr siðan til riddarasyslunnar.

(24.) Simon magus fylldiz aufundar a mot Petro oc lastaði Petrum oc qvað hann vera kunngan miok, oc truðu Simoni þeir, er sa sionhverfingar hans, oc hugðu þat vera iarteinir hans. Hann gerði orm or eiri, þann er skreið, oc hunda or steini, þa er go, oc likneski or malmi, þau er hlogu oc hræ(r)ðuz. Enn hann sialfr syndiz fliuga i loptinu. Enn er(!) Petrus gaf syn blindum oc heilsu siukum oc rak diofla fra oðum oc græddi [1] allz kyns sottir með bænum sinum oc gaf lif dauðum. Hann bað menn sia við svikum Simonar oc allri villu hans Nu gerðiz sva, at allir raðvandir menn oc siðsamir fyrirlitu [2] Simon oc qvaðu hann vera enn mesta lygimann, enn Petrum guðs vin. Enn menn Simonar baru liugvitni með honum oc qvaðu Petrum vera fiolkungan, þar er þeir voru siolkunnigir(!). Þa sendi Nero konungr orð, at Simon magus skylldi koma til fundar við hann. Enn er hann kom oc stoð fyrir honum, þa tok hann at skipta likium a ser oc asionum sinum, sva at hann syndiz stundum ungr enn stundum gamall, oc hafði ymsa manna alit eða kyqvenda, oc ætlaði konungr, at hann væri guðs sonr. Þa mællti Simon við konung: „Hlyð þu mer, goðr konungr, þviat ek em guðs sonr ofan stiginn af himni. Allt hingat til hefi ek setit Petro þat, er hann segiz postuli vera, enn nu er mer tvefaulld meingiorð, þviat Pall gerir ok mer mein oc gengr i lið með Petro oc kennir it sama sem hann. Enn þat skalltu vita, at riki þitt mun eigi standa mega, nema þu raðir þeim bana.“ Þa varð Nero ahyggiofullr oc bað giora eptir postulum oc leiða þangat.

(25). Enn er (þeir) komo þar, þa mællti Simon: „Þessir eru lærisveinar Jesus nazarenus oc overðir at heita Gyðingar, þott þeir se or þeira kyni.“ Nero spurði Simon: „Hverr er Jesus nazarenus.“ Simon svaraði: „Borg heitir Nazareth a Gyðingalandi, enn or þeiri borg var lærifaðir þeira.“ Nero mællti: „Ef guð leiðrettir oc elskar alla menn, firir hvi hatar þu þessa menn, ef þu ert guð?“ Simon svaraði: „Þeir tælldu allt Gyðinga folk, at eigi tryði þeir mer.“ Petrus mællti við Simon: „Þo at þu tælir marga, þa muntu eigi mik sviqa(!), þviat firir mik kallaði guð

1 graddi *Cd* 2 fyrirliti *Cd.*

fra villu þa, er þu hafðir aðr svikit. Enn ef þu hefir reynt fyrr, at þu matt eigi vega sigr a mer, þa undramz ek, hvi þu þorir at hrósa þer firir konungi oc ætlar, at þu munir stiga yfir lærisveina Cristz.“ Nero spurði, hvat Cristr væri. Petrus svaraði: „Cristr er sonr guðs, sa er Simon þickiz vera. Enn ef þu vill vita þa hluti, er of Krist gerðuz a Gyðingalandi, þa lattu taka bref, þat er Pilatus sendi Claudio keisara, oc mattu þa vita et sama(!).“ Þa let Nero leita at brefinu oc let upp lesa. Enn þetta var a brefinu.

Pilatus iarll sendir qveðiu Klaudio keisara. Fyrir skaummu reyndum ver, at Gyðingar matu sik mikils oc kyn sitt af aufund sinni oc metnaði, þviat guð þeira af himni het feðrum þeira, at hann mundi senda son sinn, þann er vera mundi konungr þeira, oc var þeim þvi heitit, at hann mundi fra meyio beraz. Enn er hann kom, oc þeir sa hann gefa syn blindum enn heyrn daufum, enn gaungu haulltum oc heilsu likðram, reka diofla fra oðum maunnum oc ganga þurrum fotum um sia, oc stoðva vinda oc hriðir, oc gefa lif dauðum, oc gera margar aðrar iarteinir, sva at mestr hlutr Gyðingalyðs kallaði hann son guðs, þa fyllduz haufðingiar kennimanna aufundar a mot honum oc toku hann oc selldu mér, oc saugðu hann fiolkungan oc gagnstaðligan laugum sinum. Enn ek truða lygi þeira, oc let ek beria hann, oc dæmða ek hann til bana. Enn þeir krosfestu hann oc grofu oc settu varðhalldzmenn yfir leiði hans. Enn hann reis upp af dauða a enum þriðia degi. Enn sva mikla illzko haufðo Gyðingar, at þeir gafo fe varðhallzmonnum, til þess at þeir skylldu þat segia, at lærisveinar hans tæki likama hans a braut. Enn þott þeir tæki við feno, þa mattu þeir eigi leyna, oc saugðu þeir, at þeir hefði hann set upp risa, oc þeir hefði tekit fe til launar oc lygi. Enn ek reit þetta til þess, at engi skylldi trua lygi oc utru Gyðinga, þo at þeir segði allt a annan veg enn væri, þviat þeir hrædduz eigi at vega guðs son, oc baro bækr þeira sialfra aull vitni með honum, at hann væri guðs son oc sendr til lausnar heiminum.

(26). Enn er rit þetta var lesit, þa spurði konungrinn Petrum, ef þat væri sva se(m þa)r var sagt Enn hann svaraði: „Eigi lyg ek at þer, at sva er vist. Enn Simon sia hefir með ser dioful oc fylliz lygi oc flærðar oc lætzt þar guð vera, er hann (er) maðr oc þo illr. Enn Cristr kom til þess at hialpa aullum maunnum, sa er bæði guð oc maðr. Enn ef guðdomr er með þessum Simoni, þa segi hann, hvat ek hygg eða hvat ek ætla at gera, þvi at guð veit allar

hugrenningar manna, oc alla hluti veit hann fyrir aðr enn verði. Enn til þess at Simon þori eigi at liuga, hvat ec hygg, þa mun ek segia i eyra konungi þa hugrenning." „Gack þu hingat, qvað konungr, oc seg mer, hvat þu hugsar." Petrus geck til konungs oc mællti i eyra honum hlyott(!): „Biottu, at hingat se sendr brauðhleifr leyniliga." Sva let konungr gera. Enn Petrus tok við hleifnum. Þa blezaði Petrus hle(i)finn oc braut saman leyniliga oc stack i ermarkios ser. Enn er þetta var gert, þa mællti Petrus: „Segi Simon nu, hvat ek hugsaða, eða hvat ec mælta, eða hvat ek gerða, til þess at ver vitim, at hann er sa er veit hugrenningar manna." Þa mællti konungrinn Nero: „Veit ek, at Simon veit þetta, ef hann vill, þar er ek sa hann reisa mann af dauða oc (gera allt þat er ec) bað hann." Petrus svaraði: „Ecki sa ek hann slict gera." Nero mælti: „Ec sa hann slikt gera, oc ec sa, at hann bauð englum at koma til sin af himni, oc qvomo þeir." Petrus svaraði: „Ef hann gerði þat er meira var, þa er honum auðvellt at gera þat er minna er." Nero mællti: „Svara verðr þu nu nocquru, Simon, fyrir þic. Eigi skil ek, hvarir sannara segia." Simon mælti: „Segi Petrus, hvat ek hygg, oc se iafnmæli með ockr." Petrus svaraði: „Eigi segiumz ek guð vera sem þu. Enn þo mun ek syna, at ek veit, hvat þu hyggr, ef þu giorir þat, er þu hyggr nu." Simon mællti: „Þat skalltu vita, konungr, at engi veit hugrenningar manna nema guð einn. Enn Petrus lygr, er hann lætz þat vita, er hann veit eigi." Petrus mællti: „Ef þu læzt vera sonr guðs, Simon, þa verðr þu skylldr at segia, hvat ek hygg eða hvat ec giorða, þviat þu segir guð vita hugrenningar manna, sem satt er." Þa reiddiz Simon, er hann matti eigi segia hugrenning Petrus, oc mælti sva: „Fari fram hundar miklir oc svelgi Petrus i augliti konungs." Þa synduz þar miklir hundar, oc gerðu faur at Petro. Enn Petrus retti hendr sinar a mot þeim oc syndi þeim b(r)auð þat, er hann hafði blezat, oc hurf(u) hundarnir þegar, er þeir sa brauðit. Þa mællti Petrus við Nero: „Nu sattu, at ec synda þer i verki helldr enn i orði, at ek vissa, hvat Simon hugsaði, oc nu syndi hann þer engla sina, at þeir eru hundligir enn eigi guðligir." Nero mællti þa við Simon: „Yfir eru við nu stignir, Simon." Hann svaraði: „Opt hefir Petrus gert slict a Gyðingalandi a mot mer, qvað Simon. Enn ec mun nu syna, at ec em guð, þviat nu skalltu lata hauggva mic i myrqum stað, oc lata mik þar liggia sem ec (em) hauggvinn. Nu ef ec ris upp a þriðia degi af dauða, þa mattu vita, at (ec) em guðs sonr."

Þa bauð konungr, at (sva) skylldi vera. Enn Simon gerði sva i gaulldrum sinum, at þar var hrutr hauggvinn, er þeim þotti sem Simon væri. Enn þar var myrkt, er hauggva skylldi. Siþan hafði sa forvitni við, er hauggvit hafði Simon, oc bar hofuðit til lioss, oc sa at hrutz haufuð var. Enn sa þorði eigi at segia konungi, at eigi yrði hann sakaðr of forvitni sina. Siðan kom Simon oc tok a braut hræ hruzsins. Enn a enum þriðia degi geck Simon or fylskni, oc syndiz hann þa Nero oc mællti við hann: „Lattu þerra bloð mitt af iorðu, þar er ec var hauggvinn, oc em ec nu upprisinn af dauða, sem ec het.“ Enn er þeir qvomo, þa mællti Simon við konung: „Lattu gera mer staupul havan or triam, oc (mun) ek stiga i staupulinn oc kalla þangat engla mina oc bioða, at þeir hefi mik upp a himna til fauður mins, sva at allir megi þat sia. Enn ef þessir megu eigi slikt gera, þa mattu reyna, at þeir eru lygimenn.“ Nero mællti við Petrum: „Heyrðir þu nu, hvat Simon sagði, at hann qvazt syna mundu, hvern crapt hann hafði.“ Petrus svaraði: „Bratt muntu nu skilia, at hann er fullr af diofli.“ Nero mællti: „A morgin skal reyna yðr alla.“

(27). Þa sneriz Nero til Pals postula oc villdi, at hann svaraði nockuru firir sic, oc mællti við hann: „Hvi mælir þu ecki, Pall? eða hverr er þinn lærifaðir, eða hvilik er þin kenning, su er þu kennir i borgum? Ecki ætla ek þic vera mælskumann, oc engi þrekvirki ætla ek þic vinna mega.“ Pall svaraði: „Hyggr þu þat, konungr, at ec muna orðum deila við otruan mann, þann er aund sina lætr fara til dauða, oc mun nu bratt fram koma glautun hans, þviat hann lygr, er hann segiz þat vera, er hann er eigi, oc tælir hann alla m(eð f)iolkyngi sinni. Enn ef þu vill tæia honum eða hlyða orðum hans, þa muntu glata aundu þinni oc riki þinu, þviat hann er inn vesti maðr, sva sem þeir Jamues oc Mambres fiolkungir menn a Egiptalandi leiddu i villu Farao konung oc her hans, unz þeir sucku niðr i hafinu rauða. Sva tælir sia maðr ovisa menn með vælum diofuls fauður sins oc gerir mart illt fyrir fiolkyngi sina, oc svikr hann heimska oc giorir mikla mæðing velldis þins. Enn ek bið helgan anda með tarum hiarta mins, at sem skiotaz skyli synt verða, hversu mikla diufuls(!) villu sia maðr byðr, þviat þa er hann ætlar upp at hefiaz til himna, þa mun hann niðr sockva i enn neðsta hlut helvitis, þar er gratr oc gnistan tanna. Enn ef þu spyrr at kenningu lærifauður mins, þa mega þeir einir við henni taka, er honum vilia þiona með tru oc hreino hiarta. Enn ek kenda þat hverium, er til friðar er oc

astar, oc for ek með friðarboðorð allt i Jerusalem. Talda ec þat firir feðrum, at þeir kendi þat sonum sinum, at unna guði; talda ec þat firir sonum, at þeir væri hlyðnir feðrum sinum oc mæðrum oc aullum þrifsamligum aminningum. Talda ec þat firir aullum, at hverr elskaði annan. Talda ec þat firir rikiss-maunnum oc auðkyfingum, at þeir drambaði eigi i guðs miskunn. Talda ek þat firir valuðum, at þeir fagnaði valaði sinu oc þackaði guði; enn þeir er ser hefði atvinnu, yndi þvi, er þeir ætti, oc girndizt enskiss framarr. Talda ek þat firir fiareigundum oc farmaunnum eða kaupmaunnum, at þeir gylldi skatta eða landaura oc allar laugskulldir sinar. Talda ek þat firir manna konum, at þær ynni bondum sinum oc væri þeim hlyðnar. Talda ek þat firir bondum þeira, at þeir ynni konum sinum oc væri sva grand-varir við aðrar konur, sem þeir villdi sinar konur grandvarar við aðra menn, þviat þat er karlmanni* . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

ði koronu a haufði oc tok at fliuga i lopt upp. Þa mællti Nero við Petrum: „Simon er sannsaugull, enn it Pall erut lygimenn." Petrus mællti: „Nu muntu bratt viss verða, at við erum sannir Cristz lærisveinar, enn Simon er villumaðr." „Oc þorir þu enn, qvað Nero, at mæla i gegn honum, oc ser þu hann nu til himna fara." Þa leit Petrus til Pals oc mællti: „Pall broðir, hef upp augu þin oc sia." Enn er Pall sa Simon fliuga, þa felldi hann tár oc mællti: „Hvat dvelr þu nu, Petrus, gerðu þat, er þu tokt upp, þviat drottinn Jesus Cristr kallar ockr." Þa brosti Nero oc mælti: „Nu sia þessir, at þeir eru yfirstignir oc munu ganga af vitinu." Petrus svaraði: „Nu skalltu reyna, at vit vitum vel." Pall mællti við Petrum i annat sinn: „Giorðu nu þat, er þu hefir raðit." Þa leit Petrus eptir Simoni oc mællti: „Ér fianda ærir, er berit hann upp i lopt til at sauckva(!) hiortum otrura manna, yðr særi ek fyr guð skapara allra hluta oc fyr Jesum Crist son hans drottin varn, er a þrið(i)a degi reis upp af dauða oc ste upp til himna oc sitr nu a himnum uppi oc mun þaðan koma at dæma of lifendr oc of dauða, i hans nafni særi ek yðr, at iér latið hann lausan nu þegar oc berit Simon eigi lengra." Þa letu fiandr Simon lausan, þeir er aðr baro hann, oc fell hann niðr a stræti, þar er heitir Sacra via, a fiorusteina, oc slitnaði hann i sundr i fiora hluti. Enn þeir steinar standa enn til sigrmarks postulonum allt til þessa dags. Þa let Nero taka þa Petrum oc

* *Her mgl. et Par Blade; jvf ovenfor S. 191⁷-195².*

Paulum oc setia þa i baund, enn hann let taka hræ Simonar oc varðveita, oc vætti upprisu hans a þriðia degi. Petrus mællti við (Nero): „Nu mun hann eigi upp risa, fyrir þvi at nu er hann aðaliga dauðr oc fyrirdæmdr til eilifra qvala.“ Nero mællti: „Hverr lofaði þer at gora slikt?“ Petrus svaraði: „Þræta hans sialfs. Enn ef þu vill rett virða, þa er honum mikit veitt i þvi, er hann fyrirforz fyrr enn hann qvæme fram sva mikilli guðlaustun.“ Nero mællti: „Þit giorðut hug minn ahyggiofullan, af þvi skal ek deyða yckr illum dauða.“ Þa let Nero setia Petrum i myrqvastofu oc varðveita. Enn Pall var leiddr til kornhlauðu einnar, oc skylidi hann þar vera varðve(it)tr.

## *Liflat Pals postula.*

*Enn er Pall var kominn til kornnhussins, þa dreif þangat m(ik)ill fioldi borgarlyðs oc sva hirðmanna konungs at heyra kenningar Pals. Þangat kom oc byrli konungs, enn sa het Petroclus, oc villdi heyra kenningar Pals. Enn þa matti hann eigi komaz inn firir mannfiolða þeim, er þar var firir, þa ste Patroclus upp a husit oc settiz hia glugg einum. Enn þa er Pall hafði þar lengi talit, þa sofnaði Patroclus oc fell af husveggnum oc lamdiz þegar. Enn Pall vissi af gipt heilags anda, hvat orðit var uti, oc mællti: „Heyrit ier, bræðr, nu hefir andskoti fundit færi a at freista yðvar. Gangi þer út oc munu þer finna þion keisara fallit hafa af vegg oc andaðan, færi þer hann mer.“ Þa foro nocqurir menn at leita skyndiliga oc fundu inn unga mann dauðan oc færðo likit Paulo. Allir undruðuz þat, er Pall vissi þetta oc hafði engi sagt honum. Siþan mællti Pall við lyðinn: „Nu mun drottinn syna tru yðra. Nu er su tið, er guð mun sa eilifo saði a goða iorð, oc mun hann gera hundraðfalldan avoxt. Biðiu ver nu allir, at guð lifgi þenna inn unga dreng, til þess at hann lifi betr heðan fra en hingat til.“ Enn þa er allir baðu, þa mællti Pall: „Ris upp þu, Patroclus, oc seg, hvat guð hefir giort við þic.“ Þa reis Patroclus upp, sva sem hann vacnaði or svefni oc lofaði guð.

Enn er Patroclus hafði dauðr fundinn verit, þa var dauði hans sagðr Nero. Enn hann varð hryggr, er hann fra, oc setti annan mann til at byrla ser. Enn inn sama aptan, þa er dauði hans var sagðr, þa kom maðr at hugga konung, sa er sva mællti: „Ver eigi þu ogladr, konungr, her er Patroclus uti firir durum oc lifir.“ Nero undraðiz, er hann heyrði þet'a, oc bað Patroclum inn

* *Jvf. ovenfor Petrs Saga 1 S. 110 Cap. 124 og Páls Saga 1 S. 235 Cap. 23.*

ganga, er aðrir baðu þess. Enn þa er Nero sa engi dauðamerki a honum, þa spurði hann sva: „Hvart lifir þu, Patroclus?“ Hann svaraði: „Lifi ek vist.“ Nero mællti: „Hverr lifgaði þik.“ Patroclus svaraði: „Drottinn Jesus Cristr konungr eilifrar dyrðar oc allra verallda.“ Nero mællti: „Skal sa rikia of alldir oc raða firir aullum rikium heimsins.“ Patroclus svaraði: „At visu brytr hann aull þessa heims riki undir sic, oc þiona honum allir hlutir undir himni, þviat hann er konungr konunga oc drottinn drottna.“ Nero laust hann halshaug oc mællti: „Villtu eigi þeim konungi þiona þa?“ Patroclus svaraði glaðliga: „Vist vil ek honum þiona, þvi at hann reisti mic af dauða.“ Þa varð Nero viss, at margir vinir han(s) voru kristnir, oc bauð hann, at aullum skylldi hrinda i myrqvastofu.

Siðan bauð hann, at þangat skylldi leiða firir domstol hans alla cristna menn, þa er finnaz mætti. Enn þa er þetta var giort, þa ser Nero Pal i þvi liði, oc þottiz hann vita, at Pall var forraðsmaðr þess liðs, oc mællti Nero við hann: „Siþan þu komt i Romaborg, þa spandir þu riddara mina undan mer, oc telz þu þiona enum gaufgazta konungi, oc ertu nu bundinn af minu riki.“ Pall svaraði fullr heilags anda staðfastliga, sva at allir heyrðu, þeir er hia voro: „Eigi at eins hefi ec menn spanit or þinni hirð, konungr, helldr nær of allan heim hefi ek spanit menn til guðs tru, oc er mer þat boðit, at taka við aullum þeim, er þiona vilia eilifum konungi minum, oc mundir þu þess alldregi iðraz, konungr, ef þu tryðir a hann, þviat þer megu ecki stoða auðæfi ne metorð, nema þu þionir honum, þviat þa er kemr sialfr domandinn at dæma of lifendr oc of dauða, þa mun hann eyða allt riki þessa heims, enn gera sæla sina riddara.“ Þa reiddiz Nero oc mællti við greifa sina tva Longinus oc Megistus oc hundraðshaufðingia þann er Acestus het: „Leiði þer þenna afskiranda(!) mann ut or borginni oc hauggvit af honum hofuð.“ Pall svaraði: „Skamma stund mun ek haugvinn vera, enn ek mun avallt lifa með guði konungi minum eilifum, drottni minum Jesu Cristo, þeim er koma mun at dæma kyqva oc dauða oc allan heim með elldz ablasningu.“ Nero mællti: „Hauggvi hann sem skiotaz, at hann viti, at ec em sa, er raða skal lifi hans.“ Pall svaraði: „Til þess at þu vitir, at lif oc dauði þionar drottni minum, þa mun ec synaz þer eptir andlat mitt lifandi, oc mattu þa vita þic yfirstiginn.“

Enn siðan var Pall leiddr til piningar. Þa mællto þeir Megistus oc Acestus oc Longinus við postulann: „Segðu oss, hvar

konungr þinn er, eða hvat gott veitir hann yðr kristnum maunnum at aumbun þeirar astar, er ier vilit helldr deyia herfiligum dauða firir hans nafni, helldr enn niota þessa heims fagnaða, þviat oss syniz þat villa mikil at elska dauða oc qvalar enn fyrirlita lifit." Pall svaraði: „Heyri þer, hygnir menn oc auflgir i goðu viti! fyrirlati þer myrkr villunnar oc okænsku, þa er daukvir vegsamliga skilning yðra, sva at iér siait eigi it sanna, helldr snui þer hugskotzaugum yðrum til sanz lioss oc eilifs, at fyrst kunni þer deili a sialfum yðr, enn siðan megi þer með fagnaði kunna þenna konung. Vær þionum eigi iarðligum konungi, sem ier ætlit, helldr guði lifanda konungi himins oc allra verallda, sa kemr at dæma fyrir elld of aull rangindi, þau er verða i þessum heimi. Þa verðr hverr sæll, er a hann hefir truat, oc hefir sa eilift lif oc sælu. Enn sa er orækir langt tóm oc vill eigi til hans snuaz, sa veit ecki ser vesalla oc fyrirferstz(!) æ oc æ. Enn til þess ste guð niðr til iarðar af himni, sa er skapat hefir himin oc iorð, oc giorðiz fyrir þvi maðr, sa er manninn skapaði, at maðrinn skylldi snuaz fra villu oc illzku sinni oc fyrirlata skurðgoð dumb oc dauf oc onyt, enn gaufga þann er allt hefir skapat. Þann gaufga aull himnesk velldi, oc oll engla fylki þiona honum. Enn ef sva verðr gert, þa veitir guð þeim sitt fulting oc samlag engla sinna oc allra heilagra. Enn af þvi at guð er andligr, þvi skal aund manzins hann gaufga, oc veitir hann aundinni eilifa sælo með heilagra manna aundum. Enn sa er eigi vill trua a guð, sa skal selldr illgiornum diofli i qvalar oc brenna i eilifum elldi." Enn þa er Pall hafði þetta mællt oc mart annat þvi lict, þa mællto allir, þeir er heyrðu þessa taulo: „Þu synir eilift lif oc kennir eilifan sannleik ok heilsu miskunnar, at ver leysimzt or synda snaurum, oc megum forðaz þann elld, er þenna heim skal brenna oc allir ranglatir skulu i kveliaz." Þa mællti Pall: „Ér bræðr, er guð hefir vitiat til yðvarra hiart(n)a, standi þer hraustliga i tru, þviat enn eru eptir guð(s) þionar þeir, er yðr munu skira, oc munu þer hialpaz i elsku drottins, ef ier eruð staðfastir i henni." Þa mællto þeir Longinus oc Megistus oc Acestus: „Biðium ver þic, at þu merkir oss til riddara ens eilifa konungs, at ver forðimz okominn elld oc auðlimzt eilift riki. Enn ver munum lofa þer, at þu farir þangat, sem þu vill, oc munu ver fylgia þer oc skiliaz eigi við þic." Pall svaraði: „Eigi em ek flottamaðr, helldr hraustr riddari mins konungs. Ef ec vissa eigi vist, at ek skyllda fyrir þenna dauða koma til lifs oc dyrðar, þa munda ek eigi at eins

gera þat, er iér biðit nu, helldr munda ek biðia yðr, at iér leyfðit þat." Enn þa er þeir mællto þetta með ser, þa sendi Nero tva riddara Parthenus oc Ferita, at þeir skylldi vita, ef Pall væri hauggvinn. Enn er Pall sa þa, þa kallaði hann: „Trui þer, sveinar, a guð lifanda, þann er mik oc alla lifgar af andar dauða." Þeir svoruðu: „Við verðum fyrst at segia konungi fra bana þinum. Enn þu far til þess staðar, er þic skal hauggva, oc bíð þu ockar þaðan, oc bið þu firir ockr." Pall svaraði: „Yekr er meiri þaurf dvalar dauða mins, enn mer er, ef it vilit trua, þviat firir þenna dauða skal ek fara til lifs eilifs."

[1] Siþan var Pall le(i)ddr or borginni ut. Enn er hann kom til borgarhliðs, þa fann hann þar gaufga husfreyio, þa er Plautilla het, oc mællti Pall við hana: „Le þu mer haufuducs þins at binda firir augu mer, er mik skal hauggva. Enn ec mun sialfr færa þer, er ec hefi hafðan." Plautilla selldi honum dukinn Enn ridarar heimskuðu hana, er hon leði duksins, oc qvaðu hana ecki mundu hafa goðs klæðis. Pall mællti við hana: „Bið þu heðan, unz ec kem at færa þer dukinn með iarteinum dauða mins." Enn er þeir foro þaðan, þa mællto þeir Longinus oc Megistus oc Acestus við Pal: „Hverr mun oss skira?" Pall svaraði: „Komit ier a morgin arla til leiðis mins, oc munu þer þar finna sveina mina Lucas oc Titus, segi þer þeim, at ek senda yðr þangat, oc munu þeir gera yðr Cristz riddara oc erfingia himneskz rikiss." Siþan var Pall leiddr a gautu[2] þa er Ostensis heitir. Þar bað hann firir ser lengi a ebreska tungu, oc batt siðan sialfr dukinn firir augu ser oc fell baðum kniam til iarðar oc var siðan hauggvinn. Þa nefndi haufutið(!) nafn guðs hatt a ebreska tungu, er þat var af bolnum. Enn ór sari hans kom fyrst miolk enn siðan bloð. Enn þa er riddarar villdu taka dukinn, þeir er hoggvit haufðu hann, þa hvarf dukrinn allr. Þa kom lios mikit af himni yfir postulann, sva at aungir þottuz i gegn mega sia. Þar fylgði sva mikill ilmr, at eigi ma mannlig tunga sva fra segia sem var. Allir cristnir menn lofuðu almatkan guð af þeiri dyrð, er veittiz Pali postula hans. Enn inir heiðnu riddarar hurfu a braut oc fundu Plautillam oc mællto við hana með haði: „Hvi hefir þu eigi haufuduk þinn a haufði, þann er þu leðir Pali at binda firir augu ser?" Hun svaraði þeim: Iér vesalir vilit eigi trua, þott ier siait augum yðrum, a guðs takn oc iarteinir hans vina. Vist hefi ek her duk minn með dreyra Pals, þviat hann sialfr kom her

[1] *Jvf. Petrs Saga II A, S. 197.* [2] gauti *Cd.*

siðan með fiolda englaliðs oc mællti við mik: Þu, Plautilla, beindir faur mina a iorðu, firir þvi mun ek beina faur þina til himna.“ Siðan syndi hon þeim dukinn bloðgan. Enn þeir urðu oqveða, er þeir hey(r)ðu þetta, þviat þeir kendu dukinn, oc foru þeir sky(n)diliga oc saugðu konungi alla þa hluti, er þeir hau(f)ðu sét oc heyrt.

### *Pining Petrus.*

(30, 31, 32, 33). Enn næsta dag aðr Pall væri hauggvinn, var Petrus settr i myrqvastofu. Enn of nottina næstu eptir komo margir menn til myrqvastofunnar oc baðu Petrum akafliga, at hann skylldi forða ser. Petrus svaraði: „Þat samir eigi, bræðr, at ek hræðumz at deyia eða flæia, þviat sællict er at deyia firir guðs nafni, þess er með sinum dauða bio aullum oss odauðleik til handa, oc er omaklict at sa flæi dauðann oc sina pils sialfs, er auðrum kennir at flæia eigi sinar pislir.“ Enn lyðrinn bað þess at meirr með tarum, at hann skylldi fara or borginni. Enn hann giorði þat of siðir, sem hann var beðinn, oc eigi af þvi at hann hrædiz at deyia, helldr nenti hann eigi at synia lyðnum þess, er hann var með grati beðinn, oc ætlaði hann a braut or borginni. Enn er hann kom til borgarhliðs, þa sa hann drottin Jesum Crist koma at moti ser, oc laut Petrus honum oc mællti við hann: „Drottinn minn, hvert ferr þu?“ Jesus svaraði: „Fylgðu mer, þviat ek fer i Romaborg at krosfestaz i annat sinn.“ Þa skildi Petrus, at drottinn mællti þetta of pils hans, oc hvarf hann aptr i borgina oc var þegar tekinn af riddarum, er hann kom i borgina, oc leiddr firir domstol Nero. Þa spurði Nero Agrippam greifa, hvart Petrum skylldi beria iarnsvipum til bana eða skylldi hann hafa annan bana. Agrippa svaraði: „Eigi er þat maclict, at hann se bariðr til bana, helldr a hann at vera krossfestr firir manndrap sitt, þat er hann hefir glatat Simoni.“ Nero mællti: „Nu dæmdir þu vel, oc skal sva vera.“ Siðan var Petrus dæmdr til krosfestingar. Enn er hann var leiddr til krossins, þa dreif mikill liðsfioldi til hallar konungs oc mællti; „Þic skulum ver i elldi brenna kykvan, Nero, eða firir hvi villtu fara borg varri i dauða heilags Petrus, eða firir hvi gerir þu þenna glæp? Ohæfa er at firirdæma enn saklausasta mann, oc ugganda at guð muni firirfara oss aullum i drapi sva gaufugs manz.“ Petrus bað, at lyðrinn skylldi sefaz, oc mællti við þa: „Allir iér, er a Crist truit oc alla ván hafit til hans, hafi þer oc i minning hans hogværi oc þolinmæði,

þviat hann hefir yðr margar iarteinir syndar firir mik. Biði þer nu oc þa, unz hann kemr at giallda hveriom sem vert er. Sagt hefir guð mer allt þetta fyrir, at eigi er lærisveinninn meiri enn lærifaðirinn, oc eigi er þrællinn æðri enn drottinninn. Þat var oc firir skaummu, er ec villda lifa eptir yðr oc flæia undan, enn þa kom drottinn i moti mer i borgarhliði, ok laut ek honum oc spurða ek hann, hvert hann skylldi fara. Enn hann svaraði mer: Fylgðu mer, þviat ek fer i Romaborg at krossfestaz i annat sinn. Enn þa er ek fylgða honum, þa mællti hann við mik: Hirð eigi þu at hræðaz, þviat ek em með þer, unz ec kem oc leiði þik i riki fauður mins. Enn firir þetta dveli þer eigi faur mina, at ek vil skynda at skiliaz við likamann oc vera æ með Cristi. Taki þer við likamanum, enn drottinn við andanum.“ Siðan geck Petrus at, þar er krossinn stoð, oc mællti: „Drottinn minn Jesus Cristr var a rettum krossi pindr. Enn hann kallar mik til himins af iorðu, af þvi skal ek horfa haufði til iarðar enn fotum til himins a krossinum, at ek em eigi verðr at deyia sva sem drottinn minn.“ Þa snero þeir krossinum, oc hverfðu hendr hans niðr oc haufuð til iarðar enn fætr upp til himins, sem hann bað. Þa var mikill fiolði cristinna manna þar kominn þeira, er greto andlat postulans. Enn heilagr Petrus postuli huggaði þa oc mællti: „Eigi skulu þer hræðaz ne hryggvaz, helldr fara með mer, þviat i dag mun ek taka laun erfiðiss mins oc bua rum yðvart a himnum, þviat sia er osamvirðilig dyrð oc miskunn, er mer er veitt i navistu krossins, þviat ek em nu sva samtengðr guði i þessu astarbandi, at ek mun alldregi skiliaz við hann, er ek em festr a hans sigrmark, þviat þetta er lifstre, þat er Jesus dro til sin alla hluti á, þa er hann sialfr var upphafiðr a þetta tre oc leysti allan heim fra eilifum dauða. Þetta er mer vegsamlict at deyia a pislartre drottins mins oc lærifauður, oc ma ek eigi framarr æskia enn glikiaz drotni minum i pislum. Nu geri ek þer þackir, drottinn Jesus Cristr sonr guðs lifanda, eigi at eins orðum neına oc allra hellzt með andanum þeim, er þic elskar oc við þic mælir oc þic biðr oc a þer heldr oc þic ma skilia oc þic ser; þu ert mer einn ærinn til allra hluta, sva at ek þarf enskis annars við. Veittu þa huggunarsyn þeim, er her eru nu, at þeir siai þann faugnuð, er mer er veittr i dag.“ Enn er hann hafði þetta mællt, þa sa allir, þeir er hia voro, engla guðs uppi a crossinum með biortum koronum oc rettsnuinn krossinn. Þeir helldu bok firir Petrum, þeir(i) er Cristr sialfr hafði þeim sellt. Enn af þeiri boc

syndiz þeim Petrus hvert orð lesa, þat er hann mællti. Þa tok allan hryggleic af cristnum monnum, þeim er þetta sa. Enn heiðnir menn urðu hræddir oc flæðu brot firir guðs krapti. Þa sa Petrus, at margir voru huggaðir af hans dyrð, oc mællti: „Þackir geri ek þer, drottinn goðr hirðir, er sauðir þinir, þeir er þu selldir mer at geyma, skulu nu fagna með mer. Nu fel ek þa þer a hendi, oc varðveittu þa oc samna þeim til þins huss, þviat þu ert þeim aullum eilif gnott. Se þer lof oc dyrð of alldir.“ Enn er cristnir menn allir qvaðo amen, þa andaðiz postulinn.

Enn Marcellus, sa er skilitz hafði við Simon enn illa oc fylgt siðan Petro, hann tok lic postulans af krossi oc beiddi eigi konung leyfiss at. Þa synduzt nockurir helgir menn, þeir er komnir letuz or Jorsalaborg, þeir þionuðu liki postulans með Marcello oc færðu til þess staðar, er Vaticanus heitir, oc smurðu dyrligum smyrslum oc laugðu i steinþro. Þa mællto enir nykomnu menn við lyðinn: „Ér eiguð at vera glaðir, þviat ier hafit formælendr enna(!) æztu postula guðs oc enna(!) kærstu vini drottins Jesus Cristz. Enn þat skulu þer vita, at sia enn versti konungr Nero mun eigi lengi fagna dauða postulanna, oc mun hann bratt rændr verða lifi sinu oc riki.“ Þa var sva komit ovinsæld konungs við alla Romaborgar hofðingia, at þeir urðu a þat sattir at taka hann oc festa i stagl oc beria, unz hann dæi grimligum dauða.

*Fra postulum.*

(33, 34). Þat var a þeim degi er postularnir foro til guðs, at Pall kom inn i haull konungs nær eykt dags oc stoð fyrir konunginum oc mællti við hann: „Seðu nu, Nero, at her er Pall hraustligr riddari eilifs konungs. Nu mattu trua, at ek em eigi dauðr, helldr lifi ek með guði minum. Nu bratt mun ill ogn taka þic, vesall maðr, oc biðr þin en mesta eilif quaul, firir þat er þu hefir bana latið helgum maunnum guðs oc giort morg stor ohaupp aunnur.“ Enn er postulinn hafði þetta mællt, þa leið hann fra augum þeim. Enn við vitron þessa varð Nero hræddari enn fra megi segia, oc varð at giallti oc vissi eigi, hvat hann skylldi at ser hafa. Vinir hans baðu, at lausa skylldi lata þa menn cristna, er i hoftum voro, Patroclum oc Barnaban oc marga aðra, oc var sva gert. Enn Nero hliop brott fra riki sinu oc varð at giallti, oc letuzt menn þat sia siðaz til hans, at dyr rifu hann i sundr. Enn þeir Longinus oc Megistus oc Acestus komo snemma of morguninn, sem Pall hafði mælt, til leiðiss hans oc sa

þar þa Titus oc Lukass biðia firir ser, sem Pall hafði þeim til visat, oc Pal sa þeir standa a millum þeira, oc namu þeir staðar, oc þotti undarlict þat, er þeir sa Pal þar standa. Enn er þeir Titus oc Lucass sa menn þa, er þeir vissu þat, at fylgt hofðu Pali til bana, þa hrædduz þeir oc flæðu undan. Enn þa leið Pall til himna upp Þa toko þeir Longinus oc kau(l)luðu a þa oc mællto: „Sælir guðs menn, eigi skulu þier gruna oss fyrir þvi komit hafa hingat at vilia bana yðvarn, helldr vilium vær taka af yðr skirn heilags vatz, sva sem inn æzsti kennandi Pall het oss, sa er nu aðan sa ver standa a millum yckar.“ Enn er þeir Titus ok Lukas heyrðu þetta, þa namu þeir staðar með audligum fagnaði oc gafu þeim þa þegar primsigning, oc buðu þeim at fasta þann dag allt til aptans. Enn at apni voru þeir skirðir i nafni drottins Jesus Cristz með algiorri tru oc saðri ast. Enn þeir Petrus oc Paulus voru pinðir a enu siaunda ari ens fiorða tigar eptir uppstigning drottins. Enn er Grickir villdu hafa brot með ser likami þeira til austrlanda, þa giorði landskialpta mikinn, oc runnu Romaborgar menn eptir þeim oc gripu þa haundum i þeim stað, er Katakumbass het, þa er þeir voru komnir nær þriar milur fra borginni, oc voru helgir domar þeira þar varðveittir þriu misseri, unz sa umbuningr var buinn, er menn villdu þa hafa lata. Siðan var Petrus færðr i þann stað, er hann var grafinn firir aundverðu, oc er þar gaufgaðr avallt siðan. Enn Pals likami var færðr a Ostensis gautu .ii. milur fra borginni, þar sem hann var hauggvinn. Enn i hvarumtveggia stað geraz otal iarteina af bænum þeira Petrus oc Pals allt til þessa dags at teianda drotni varum Jesu Cristo, þeim se vegr oc dyrð of allar alldir. Amen.

---

## ANDREAS SAGA POSTOLA.

### I.

1. A Jorsalalandi i þorpi þvi, er Bethsaida heitir, þat stendr i Galilea heraði, þar fødduz brøðr tveir, annarr er Simon nefndr, en annarr Andreas. Johannes er nefndr faðir þeira. Þeir voru fiskimenn. En eitthvert sinn er þeir voru a sio ronir, þa segir

sva heilagr Mattheus i guðspialli, at Jesus Kristr gengi at siovarstrondinni, þar er þeir satu fyrir utan at fiski, en sa heitir Galilea sior. Þa kallaði drottinn a þa ok sagði: „Ek mun gera ykkr at fiskurum mannanna.“ En þegar er þeir heyrðu orð drottins, fyrirletu þeir alla hluti iarðneska ok fylgðu drottni varum. Þeir brøðr hofðu aðr verit lærisveinar Johannis baptista, sem Jon guðspiallamaðr segir. Sa hinn sami Simon var siðan kallaðr Petr, ok eru þeir brøðr af hinu øzta manntali þeira .xii., er mótunautar drottins eru kallaðir. Þessi enn sami guðs almattigs astvinr var með drottni varum alla þa stund, er hann var her i heimi. Við þat hit siðasta ok dyrmætasta matmal var Andreas með öðrum postolum, er drottinn sneri brauði ok vini i holld sitt ok bloð skirdags aptan ok gaf postolum sinum at bergia. Hann var ok staddr við upprisu drottins ok við hans uppstigning, ok við giof heilags anda a hvitasunnudegi, ok við oll þau stortiðindi, er þar gerðuz.

2. En er postolarnir skiptuz til landa, þa for Andreas postoli fyrst til Sviþioðar hinnar miklu at føra þar guði margfalldan avoxt sinna kenninga. Ver hofum litinn hlut at segia af hans iartegnum, en þær er sagðar eru, eru faheyrðar þvilikar. Andreas postoli var miukr ok miskunnsamr, sva at hverr maðr unni honum hugastum, er hann kunni. Hann var manna þekkiligastr ok biartastr yfirlitz, sva at yfirlit hans var likari engla asionu at birti; hann var ok hinn liknsamasti i ollum mannraunum, sem segir heilog ritning: mitissime sanctorum sanctissima extollendo merita; þat mælir sva: þu ert hinn miukasti heilagra, tokt upp hina helgustu verðleika. Andreas sannaði nafn sitt fagrliga i sinum athofnum at guðs vilia, þviat þat er a latinu virilis eða roboratus, þat þyðiz karlmannligr eða öflugr, hann bar ok karlmannliga fram guðs erendi, hvar sem hann kom, ok var oruggr at gera guðs takn hvervetna, þar sem nauðsyn beiddi ok guðs mattr gerðiz biartari þa en aðr.

3. Sa atburðr er sagðr, þa er Andreas postoli kendi kenningar i Achaia heraði, þa kom engill guðs til hans ok mællti við hann: „Mattheus postoli broðir þinn er nu tekinn af heiðnum monnum i borginni Mirmidon ok blindaðr baðum augum ok bundinn iarnrekendum, ok siðan settr i myrkvastofu fyrir guðs nafn. Nu vill guð, at þu farir til fundar við broður þinn ok gefir honum syn ok leiðir hann or myrkvastofu, þviat honum er eigi ætlat at føra guði avoxt sinna kenninga i þeiri borg.“ Andreas

svaraði: „Hversu ma þat vera, þar er ek veit eigi, hvar su borg er?" Þa er postolinn hafði þetta mællt, þa mællti engill guðs: „Far þu til siovarstrandar, ok muntu þar finna skip eitt litit, ok stig þu a þat. En ek mun vera leiðtogi þinn þangat, sem þu skallt fara." Siðan hvarf engillinn at syn fra honum. En Andreas gerði sem engillinn bauð honum, ok fann þar skip litit a siovarstrondunni, ok ste hann a þat. Ok þvi næst þa rennr byrr a hinn høgasti, ok sigldi hann til þess er hann kom til Mirmidoniam borgar, eptir þvi sem guðs engill styrði skipi hans. Siðan gekk hann af skipi i borgina til myrkvastofu þeirar, er Mattheus var inni; ok þa er hann kom þar, þa var a myrkvastofunni varðhalld mikit, ok var hon læst ramliga. En er Andreas postoli kom at myrkvastofunni, þa spruttu þegar fra lasarnir, ok skein lios solu biartara fyrir honum i myrkvastofuna. En er Andreas postoli sa Mattheum postola þar inni með oðrum bandingium, þeim er þeir borgarmenn hofðu i pislum fyrir guðs nafni, þa gret hann beiskliga ok bað til guðs ok mællti: „Drottinn minn Jesus Kristr, sa er ver boðum með tru, ok fyrir þinu nafni førum ver fram þina kenning, ok þu er þer lezt soma at gefa fyrir haleita milldi þina syn blindum, heyrn daufum ok holltum gongu, heilsu likþram ok lif dauðum, bið ek þik, luk upp þu augum þræls þins Matthei, at hann fari at boða nafn þitt." En þegar er hann hafði lokit bøn sinni, þa skalf myrkvastofan, ok þvi næst skein lios mikit i myrkvastofuna af himni. Þa tok Mattheus postoli sion sina, ok fellu af honum iarnrekendrnar, er hann var bundinn með, ok allir þeir er bundnir voru, slitnuðu bondin af þeim, ok urðu þeir lausir, ok lofuðu allir guð ok mælltu: „Mikill er guð, sa er helgir postolar boða." Siðan leiddi Andreas postoli þa menn alla or myrkvastofunni, ok let hvern fara til sins heraðs. Þa varð fagnaðarfundr mikill með þeim postolunum, ok sagði Mattheus postoli Andrea postola, hversu hart hann hafði niðr komit við þar borgarmenn fyrir guðs nafni, ok sva helldu þeir fast sinni villu, at þeir skipuðuz ekki við hans kenningar til batnaðar. Andreas postoli svaraði: „Guð hefir mik sendan hingat til fundar við þik, broðir, fyrir þvi at hann vill annarsstaðar taka avoxt þinna kenninga. Skalltu nu fara brott or þessarri borg ok þangat, er guð hefir þer ætlat at erviða fyrir sinu nafni, en ek mun eiga þrautir við þenna borgarlyð." Þa for Mattheus postoli a braut þaðan ok ut a Blaland, ok leiddi þar margan lyð til guðs fyrir sina kenning, ok let þar lif sitt fyrir guðs nafni, þa er hann hafði aðr snuit

þeim hinum ofagrliga lyð ok gervan fagran i guðligri tru af sinum kenningum.

Þegar er Mattheus var a braut farinn, tok Andreas postoli at kenna kenningar i borginni berliga. Ok þegar er borgarmenn heyrðu hans kenningar þeir er eggiaðir voru af diofuls krapti at svivirða guðs kenningar þa toku þeir þegar hondum Andream postola ok drogu hann um borgina innan a hari sva harðliga, at a hverium steini ok stræti var hans bloð set. Postolinn let eigi at helldr af kenning sinni, sa er fullr var af miskunn heilags anda, ok bað fyrir þeim overðum, at guð gæfi þeim rettsyni til sinnar miskunnar, ok mællti: „Drottinn minn Jesus Kristr, luk upp þu hiartans augum þessarra manna með þinni miskunnar hendi, sva at þeir snuiz fra villu sinni, þviat þeir vita eigi, hvat þeir gera." Af bøn postolans ok hans verðleikum fyrir guðs miskunn varð sva mikils vert um dyrð postolans, at hann var sem mest kennandi ok katastr, er þeir pindu hann sem mest; ok kom sva um siðir fyrir guðs miskunn, at þeir letu hann þegar lausan ok mælltu: „Misgert hofum ver við þik, af þvi at ver vissum eigi, hvat ver gerðum. Biðium ver þik, at þu fyrirgefir oss þat, er ver hofum misgert við þik, ok synir oss heilsugotu, at eigi stigi guðs reiði yfir borg þessa." En er þeir hofðu þetta mællt, þa fellu þeir til fota postolanum. En hann reisti þa upp ok boðaði þeim drottin varn Jesum Krist ok þær iartegnir, er hann gerði i þessum heimi, ok hversu hann leysti heiminn með sinu bloði. En borgarmenn toku tru retta ok skirn i nafni foður ok sonar ok anda heilags at þiggiandi fyrirgefningu sinna synda, ok lofuðu allir guð ok helgan Andream postola.

4. En er Andreas postoli for or þessarri borg, þa for hann þangat, sem hann hafði aðr boðat guðs orð. Ok er hann kom til þeira heraða ok gekk leiðar sinnar um dag með lærisveinum sinum, þa gekk a moti honum einn blindr maðr ok mællti: „Heyrðu, Andreas postoli guðs! Veit ek, at þu matt gefa mer syn mina; en eigi vil ek syn taka, fyrr en þu byðr þeim er þer fylgia, at þeir fai mer nogliga fe, sva at ek mega fa mer mat ok klæði, sem ek þarf." Postolinn svaraði: „Þetta er eigi mannz rodd, er nu mælir, helldr er þetta rodd ovinarins, er eigi villdi, at guðs takn syndiz a honum." Siðan lagði hann hendr sinar yfir augu hinum blinda manni ok gaf honum syn sina, ok for sa maðr leiðar sinnar lofandi guð ok hinn sæla Andream postola.

5. Sveinn nokkurr kristinn het Sostratus, er kom til fundar

Ok hofðu borgarmenn langan tima þessi vandræði þolat. Ok er þeim var flutt, at Andreas postoli nalgaðiz þeira borg, þa for allr lyðr[1] ut i moti honum berandi olivukvistu ser i haundum, ok sungu lofsaungva kallandi ok sva segiandi: „Var hialp ok heilsa er i þinu valldi, guðs þionostumaðr!“ Siðan saugðu þeir honum, hvern haska er þeir hofðu att [ok þolat[2] langan tima. Þa mælti postolinn: „Ef þer vilit trua a drottin Jesum Kristum son guðs, er með helgum anda rikir einn guð i þrenningu, þa munu þer frialsaz[3] með hans fulltingi af þessarri ofsokn dioflanna.“ En þeir kaulluðu sva segiandi: „Aullum hlutum, þeim sem þu predikar, munum wer trua, ok þinum boðorðum villium wer giarna hlyða, til þess at wer verðim leystir or þessum vandræðum.“ En heilagr Andreas gerði guði þackir firir þeirra tru ok bauð diọflunum at koma firir sik i augliti[4] allz borgarlyðs. Ok þegar komu þar .vij. dioflar i liking storra hunda. Þa sneriz heilagr Andreas til lyðsins segiandi: „Sie her eru nu diọflar, þeir sem[5] yðr hafva ofsott allt her til. Nu ef þer truit, ath ek megi þeim bioða i nafni drottins Jesu Kristz, at þeir hverfi brott fra yðr, þa iattið þat firir mer.“ En allr lyðr kallaði sem eins munni talandi: „Trui mer wer senniliga Jesum Kristum vera son guðs lifanda, þann sem þu predikar.“ Þa bauð heilagr Andreas dioflunum sva segiandi: „Fari þer i þurra [iọrð ok þa staði, sem eingi[6] groðr ma upp vaxa, ok gerit eingum manni mein. Ok eigi komi þer i þa staði[7], sem nafn drottins Jesu Kristz hefwir verit [a kallat[8], þar til er þer við takit yðr verðugar pislir i eilifum elldi.“ Ok at postolanum þessa hluti talanda hurfu dioflarnir brott af augliti nærstandandi manna með mikilli ylingu ok grenian, ok [frelsaðiz sva borgarlyðr[9] af ọllum haska. En heilagr Andreas postoli skirði lyðinn ok skipaði þeim byskup Celestinum at nafni, vitran mann ok agiætan, sa er varðveitti ok fullgerði með hæstu goðfysi þau boðorð, sem hann hafði með[10] tekið af sinum lærifọður.

7. [11]Fra Niceaborg for heilagr Andreas til siofar ok ætlaði at sigla yfir haf, þat er kallað er Hellispontus. Þetta haf skilr .ii. þriðiunga heimsins Asiam ok Europam[12], þviat firir norðan er Grikland, en firir sunnan Asia hin meiri. Þetta haf gerir enda a miðiarðarsionum með sinum botni i hinni miklu Sviþioð. I þenna

[1] borgarlydr *B* [2] [at þola *B.* [3] frelsazt *B.* [4] augsyn *B.* [5] er *B.* [6] [stadi, þar sem eingi avoxtr eda *B.* [7] med ollu *tilf. B.* [8] [og allt *B.* [9] [frelsadi so heilagr Andreas borgarlydinn *B.* [10] *saal. B*; ut *A.* [11] Af ferðum Andree *Overskr. A.* [12] Europam *B.*

botn fellr ofvan af Sviþioð hin mikla æ, er heitir Tanais eðr Taqvil, ok gerir þetta vatnfall þar umskifti æ fyrr saugðum heimsins þriðiungum. Nu sem Andreas postoli stigr a skip með sinum maunnum, ætluðu þeir at sigla til Miklagarðz, er i þann tima var kǫllut Bizancium[1]. Ok er þeir voru komnir [i sialft meginhafit[2], þa gerði at þeim æði storm veðrs með storum bylgium ok siofarfalli, ok tok at kefia undir þeim skipit með afollum, ok þotti ǫllum ser raðinn bani. Ok er þeir biðu þann veg haska dauðans, bað heilagr Andreas firir þeim til drottins bioðandi storminum af at lietta ok bylgium siofarins at lægiaz. Hvat er þegar varð eftir hans boði, ok varð hit hægazta logn[3] a sionum ok hit bliðazta kyrviðri[4]. Ok sva leystir or ǫllum haska sigldu þeir glaðir ok katir til Bizancium borgar lofandi guð ok hinn heilaga Andream hans postola.

8. Ok er signaðr Andreas hafði dvaliz i Miklagarði, sem honum þotti fallit, sneri hann sinni ferð til þeirra rikia i Griklandi, sem Tracias eru kǫllut. Ok er hann gieck leiðar sinnar um dag með sinum lærisveinum, sa þeir um langt mikinn fiǫlda vapnaðra manna moti ser fara með brugðnum sverðum, [spiot ok skiolldu[5] i sinum haundum berandi. Ok þegar þeir nalguðuz, þa villdu þeir á þá ráða; ok er þat sa heilagr Andreas postoli, þa gerði hann krossmark i moti þeim sva segiandi: „Bið ek, drottinn, at falli uvinrinn forstiori þessarra manna, sa er þa eggiar þessa hluti at gera, skelfiz þeir af guðligum krafti ok geri þeir ecki mein væntandi monnum i þer.“ Ok þegar[6] postolinn hafði sva talað, birtiz eingill drottins með mikilli birti ok liosi farandi firir þeim moti þessum hermonnum, takandi þeira brugðin sverð ok spiot sva dasamliga, ath allir hermenn fiellu þegar til iarðar firir guðligum krafti, ok postolinn[7] framm yfir þa með sinum faurunautum. En eingill drottins hvarf brott af[8] þeira augliti með miklu liosi, en hermenn allir kostuðu fra ser sinum sverðum ok vapnum ok runnu sva vapnlausir til postolans frammfallandi honum til fota, vegsamandi ok dyrkandi guðligt stormerki [með allri goðfysi[9].

9. Heilagr Andreas postoli for siðan til þeirrar borgar er Pervitum heitir[10]. I þessarri borg bygðu tveir bræðr, ok atti annarr þeirra .ij. sonu, en annarr .ij. dætr. Þeir bræðr voru harðla rikir at auðæfum ok hinir gǫfguztu at kyni umframm alla[11] sina samborgarmenn. Ok einn tima talar sva annarr þeirra til

1 Brencium *B.* 2 [a sialft hafsmegnit *B.* 3 vedr *B.* 4 logn *B.* 5 [spiotum og skiolldum *B.* 6 er *tilf* *B.* 7 foru *B.* 8 fra *B.* 9 [*mgl.* *B.* 10 er nefnd *B.* 11 adra *tilf.* *B.*

sins broður: „Sie her, segir hann, við erum nu[1] rikir ath auðæfum ok fiarhlutum, ok er eingi sa af ockrum samborgarmonnum, er makliga samteingiz ockru afkvæmi. [Nu kom þu, ok gerum samfelag ockar i millum, bæði þat er gozi til heyrir ok sva maunnum[2]. Synir minir taki dætr þinar ser til eiginkvenna, ok samteingium með þessum hætti ockarn rikdóm.“ Þessi raðagerð likaði vel broður hans, ok gerðu sáttmal með ser staðfestandi [þessa samkvæmd með tilheyriligum heimanfylgium, hverium[3] hinir ungu menn skylldu við taka þa þegar i sitt hlutskifti. En at akveðnum bruðhlaupsdegi þa vitraðiz fyrr saugðum bræðrum drottinn vaarr[4] i syn sva segiandi til þeirra: „Eigi skulu þit samteingia sonu yckra ok dætr, þar til er kemr til yðvar minn postoli, sa er Andreas heitir, þviat hann mun yðr syna, hvat yðr byriar[5] gera.“ Eftir þetta hvarf drottinn fra þeim at syn. En þeir baru saman með ser þessa vitran. Nu[6] var firirbuin bruðhvilu[7] skemma ok boðsmenn samankallaðir, ok allr bruðkaupligr viðbunaðr[8] var til reiðu, ok allt eins biðu þeir postolans. Ok a hinum þriðia degi þaðan fra kom Andreas til borgarinnar. Ok er þeir sa hann, fǫgnuðu þeir honum með mikilli gleði, ok geingu i moti honum með kertum ok koronum, ok fiellu honum til fota sva segiandi: „Ver hǫfum biðat[9] þinnar tilkvamu með ugg ok otta, heilagr guðs postoli, at þu skylldir oss kunnigt gera þat er vær skulum gera, þviat oss var þat vitrað af guði þinum, at vær skylldim þer hlyða ok eigi samteingia vara sonu ok dætr, fyrr en þu kiæmir at boða oss hialparvegh.“ Asiana hins heilaga Andree var þa sva biort ok skinandi sem sol, sva at allir dasaumuðu ok dyrkuðu guð. Þa talar postolinn til þeirra: „Ei skulu þer, synir minir, bleckia sialfa yðr, ok ei vili þer [svikia þessa[10] ungu menn með uleyfiligu sambandi, a hverium er birtaz mun siðarr riettlætis avoxtr, helldr geri þer iðran [firir þat er þer misgerðut[11] við guð[12], at þer villdut með hiuskap samteingia sva naskyllda menn at frændsemi. En eigi fyrirsmam wer i þessum orðum lauglígan hiuskap, þviat hann er eigi forðandiz, með þvi at guð hefwir boðit fra upphafi heims, at karlmaðr skylldi samlagaz konu, helldr firirdæmum wer baunnut frændsemisspell ok ulofaða hordoma.“ En er postolinn talaði þessa hluti, komuz við feðgin hinna ungu

1 miog *B.* 2 [*mgl. B.* 3 [þetta samband med tilheyriligre heimanfylgiu, hveria *B.* 4 vorn Jesum Kristum(!) *B.* 5 at *tilf. B.* 6 Sem nu *B.* 7 brudlaups *B.* 8 *tilf. B.* 9 bedit *B.* 10 [gipta þessa hina *B.* 11 [*mgl. B.* 12 *Her er udskaaret et Blad i B.*

manna með mikilli iðran ok saugðu sva: „Biðium wer þik, herra, at þu biðir firir oss til guðs þins, at hann likni oss, þviat wer gerðum synd ovitandi.“ En sva sem hinir ungu menn sá yfirlit postolans skina sva biart sem sol eðr guðs eingill, þa mæltu þau við hann: „Mikil ok haıðla skiær er kenning þin, heilagr guðs vin, ok vissu wer eigi þvilika hluti ·fyrr. Senniliga kennumz wer nu við, ath wer hǫfvum misgert moti guði þinum.“ Þa mælti postolinn: „Varðveiti þer an saurgan þa hluti, sem þer heyrðut af minum munni, at drottinn sie með yðr, ok ath þer skilit(!) taka verkkaup yðvars starfs i eilifu lifi, þat er stendr með eingri endalykt.“ Siðan skirði postolinn þetta folk allt ok siðaði i sannri tru gefandi þeim sina blezan, ok skildiz sva við þau.

10. At þessum hlutum giǫrfum ferðaðiz heilagr Andreas til Pervitum borgar Tracie rikis, ok fann hann þar kaupskip, þat er ætlaði at sigla til Macedoniam. Þa birtiz postolanum guðs eingill ok bauð honum a þat skip upp stiga ok kynna þeim sannan guð. Ok sva giǫrði hann, at hann predikaði þeim a skipinu guðs orð, þar til at styrimaðr ok allir þeir, sem með honum voru, truðu a drottin varn Jesum Kristum ok vóru skirðir af postolanum, ok gerði sæll Andreas guði margfalldar þackir firir sina milldi ok miskunn, sa sem iafnvel æ sio sem landi gefr maunnunum ath heyra ok skilia sina predikan, hvar firir þeir trua á eingetinn son almattigs guðs.

11. I þeirri borg a Griklandi, er Thessalonica heitir, var nǫckurr ungr maðr Exuus at nafni, harðla rikr ok gaufugr bæði at ætt ok auðæfum. Hann leyndiz brott fra fauður ok moður at þeim ovitandum ok sækti á fund hins heilaga Andree postola frammfallandi honum til fota, biðiandi ok sva mælandi: „Biðr ek þik, blezaðr guðs postoli, at þu synir mer sannleiks gautu, þviat ek viðkennumz, at þu ert senniligha þionostumaðr þess, er þik sendi til varra heraða.“ En heilagr Andreas varð þessu feginn ok predikaði honum drottin varn Jesum Kristum, ok truði hann þegar á guð fylgiandi postolanum, ecki hirðandi um sin feðgin ok einga ahyggiu berandi firir sinum auðæfum. En er faðir ok moðir sauknuðu hans, þá leituðu þau hans viða, ok um siðir heyrðu þau sagt, at hann myndi vera með Andrea postola i þeirri borg, er Philippis heitir. Siðan foru þau þagat berandi með ser dyrgripi ok mikil auðæfi, ok ætluðu þau með fiegiofum at skilia son sinn fra postolanum. En hann villdi eigi at helldr við hann skiliaz, ok mælti sva til sinna feðgina: „Giæfi guð, ath þit ættið þessi auðæfi til

þess, at þit viðkendiz skapara heimsins, sa sem sannr guð er, at þit mættið sva frialsa salur yckrar af koma munandi reiði." Hinn heilagi Andreas steig niðr ur lopthusi nǫckuru, þvi sem hann var i, ok predikaði þeim guðs orð. En er þau villdu ecki til þess hlyða, þa fór postolinn aftr til sveinsins ok byrgði dyrr á husinu, þar sem hann var inni. Siðan kǫlluðu feðgin sveinsins saman með ser mikinn mannfiǫlda ok ætluðu at brenna inni son sinn i þvi sama husi, ok saugðu sva: „Firirfariz sveinn þessi illum dauða, er hafnar ok hatar sin feðgin." Siðan baru þeir elld at husinu ok lǫgðu i næfrar ok spónu ok aðrar elldkveykiur, þær sem elld-næmaztar vóru, ok toku at brenna husit. Ok þa er loginn stoð i lopt upp, tok hinn ungi maðr eitt litið vatzker, þat er ampull heitir, sva talandi: „Heyrþu, drottinn Jesu Kriste, bæn mina, i hvers valldi er allar hofutskepnunnar(!) saman standa ok þeira nattura! þu vǫkvar þurra hluti, en þurkar vata hluti, þu kiælir elldliga hluti, en kveykir upp kolnaða hluti; slauck þu elld þenna með þinum almætti, ath þinir menn sliofiz eigi ne slokni fra þinum astarhita, helldr upptendriz[1] þeir ok hitni til sannrar truar." Ok þetta segiandi dreifði hann vatninu ur ampullanum[2] niðr i balit[3] ok sloknaði þegar i stað [allr þessi elldr[4] sva giorsamliga, sem hann[5] hefði alldri kveyktr werit. Ok er hans feðgin sa þat, mæltu þau: „Sie her undr ok fadæmi, hversu fiǫlkunnigr ockarr son er vorðinn." Eftir þat settu þau stiga við loftið ok ætluðu sva [at-gaungu veita með vapnaða menn ok drepa þa[6] með sverðum. En drottinn blindaði augu þeirra, sva at þeir sa eigi [gradur stiganna[7] ok fiellu iafnframm ofvan, sem þeir ætluðu[8] upp at stiga. Ok er þeir stoðu i þessum illvirkium, þa tekr til orða einn af borgar-maunnum, sa hiet Lisimacus[9] sva segiandi: „Heyrit, heimskir menn! til hvers starfi þer þessa hluti með þarflausu erfiði? Siai þer ei, at drottinn berz firir þessum maunnum moti yðr? Liettið[10] af þessi heimsku, at eigi verði þer slegnir með himneskri reiði." Ok [við þessi hans orð[11] komuz þeir allir miǫk við [af sinu hiarta[12] ok mæltu sva: „At visu er sa sannr guð, er þessir menn dyrka, hvern wer hofum[13] ofsótt með varum illgerðum." Ok er þeir tǫluðu þetta, með þvi at þa var vorðit myrkt af nott, þa skein hit biart-

1 *Her beg. atter B.* 2 amplanum *B.* 3 elldinn *B.* 4 [allt þetta bal *B.* 5 *saal. ogsaa B.* 6 [at þeim at ganga vopnadir og drepa postulann *B.* 7 [at ganga upp stigana *B.* 8 dirfduzt *B.* 9 Licimacus *B.* 10 Latit *B* 11 [af honum þessa hluti talanda *B.* 12 [i sinum hiortum *B.* 13 *tilf. B.*

azta lios yfir þeim, ok af þessu liosi lukuz upp augu þeira allra, er aðr voru blindir vorðnir, sem fyrr sagði. Siðan stigu þeir upp til postolans ok fundu hann veranda á bæn, ok fiellu þegar til fota honum[1] kallandi ok segiandi: „Biðium wer þik, herra, at þu biðir firir oss þrælum þinum, þviat wer hofum verit[2] blektir af þungri villu ok [sieð ei[3] hit sanna.“ En sva var mikil þeira viðkomning ok hiartalig iðran, at fyrr sagðr Lisimacus undraði sva segiandi: „Senniliga er Jesus Kristr son guðs lifanda, þann er predikar[4] heilagr Andreas hans[5] þionostumaðr.“ Eftir þat reisti postolinn þa upp ok styrkti þa i heilagri tru ok kristiligu siðferði. En faðir ok moðir hins unga manz voru sva hǫrð ok grimm i [sinum hiortum[6], at þau villdu vist eigi trua guðligum almætti, þott þau sæi þvilik stortakn, helldr firirlietu þau son sinn með miklu hatri aftr farandi til sinnar fostriarðar. Ok alla þa eign ok arf, er sveinninn atti eftir þeirra dag, gafu þau upp uskylldum monnum með opinberum handsaulum ok þeim skilmala, at þeirra son skylldi alldri þar af fa einn[7] minzta penning. En eftir fimtigi daga liðna fra þessu do þau bæði með skiotum dauða á augabragði einnar stundar. En er borgarmenn urðu þess visir, þa varðveittu þeir uskaudd aull auðæfi hins unga manz, þviat þeir elskuðu hann sakir sins goðleika ok hofsemi, ok [tok hann[8] upp alla sina fǫðurleifð[9] ok eignaðiz alla þa hluti, er feðgin hans hǫfðu átt. En eigi at helldr skildi[10] hann við Andream postola. En hann gaf ok veitti leigur ok avǫxtu iarðanna i[11] nauðsyniar ok olmosur fatækra manna[12], utlendra ok hertekinna ok annarra þurfandi manna.

12. Eftir þessa hluti bað hinn ungi maðr Exuus Andream postola, at þeir skylldi ferðaz baðir til Thesalonicam borgar, i hverri hann atti fyrr saugð auðæfi. Ok er þeir komu þar, þa saufnuðuz saman allir[13] frændr ok vinir [ok faugnuðu honum[14] með mikilli gleði. Ok [allir samankomandi[15] i einn stað a nǫckuru fǫgru leikmoti predikaði hinn ungi Exuus sinum borgarmaunnum guðs eyrindi, sva at hinn heilagi Andreas þagði hia[, dasamandi þa vitzku ok speki[16], er guð hafði honum gefit. En borgarlyðrinn kallaði sva segiandi: „Gior þu heilan son Carpiani vars borgarmanz[17], þviat hann hefwir harðla leingi legit i þungri sott, ok

1 fram a golfit *tilf. B.* 2 *tilf. B.* 3 [hofum eigi sed *B.* 4 bodar *B.* 5 guds *B.* 6 [sinu hiarta *B.* 7 enn *tilf. B.* 8 [gafu honum *B* 9 ur almenningu *tilf. B.* 10 skildizt *B.* 11 *saal. B*; ⁊ *A.* 12 og *tilf. B.* 13 allr borgarlydr *B.* 14 [hins unga manz, og er þeir sau hann, faugnudu þeir *B.* 15 [saman komnum aullum *B.* 16 [dasemd þeiri *B.* 17 samborgarmanz *B.*

munum wer þa trua a Jesum, þann er þu predikar.“ Þa svaraði Andreas: „Eingi hlutr er guði umattuligr[1]. En til þess at þer truit a hann, þa leiðit [hinn unga mann[2] firir vart auglit, ok mun Jesus Kristr græða hann af allri sott.“ Þa for faðir [hins siuka sveins[3] til sins herbergis ok sagði syni sinum: „I dag munt þu heill verða, minn elskuligi son Climathe.“ Sva hiet hann. Sveinninn mælti: „Nu sannaz draumr minn, faðir, þviat ek sa i syn þenna mann, er mik mun græða.“ Ok þessa hluti talandi klæddiz hann skiotliga sinum klæðum [ok reis upp þegar ur reckiunni ok rann með sva skiotri ferð, at[4] faðir hans ok moðir gatu eigi fylgt honum, fallandi til fota postolanum gerandi honum margfalldar þackir firir veitta heilsugiọf. En allr lyðr undraði[5] ok dásamaði þetta stortakn[6], er þeir sa þann ganga, er a þrim vetrum ok tuttughu hafði alldri mátt or reckiu risa, ok lofuðu þeir ok dyrkuðu af ollu hiarta almatkan guð sva segiandi: „Eingi er likr þeim guði sem Andreas predikar.“

13. Einn bondi rikr af fyrr saugðum borgarlyð[7] atti son diọfuloðan. Þessi maðr bað heilagan Andream postola sva segiandi: „Biðr ek þik, guðs maðr, at þu gerir heilan son minn, þviat hann er kvaldr[8] af diọfli.“ Ok eftir þetta vissi uhreinn andi sik myndu vera brott rekinn fra sveininum. Sveik hann hann[9] ok teygði hann i einn leyniligan kofa, ok heingdi hann sik þar i snauru, ok snaraði uvinrinn með þessum hætti ur honum salina. En er faðir hans kom heim, fann hann son sinn dauðan, ok tok hann[10] at grata þessi hin aumligu tilfelli talandi sva til sinna vina ok þionostumanna: „Berit lik sonar mins ut a þann[11] vọll, sem allr lyðr er saman kominn, þviat ek treystir ok truir, at þessi hinn nykomni gestr, er predikar sannan guð, mun mega[12] uppreisa minn son.“ Siðan gerðu þionostumenn sem bondinn mælti, ok settu niðr likit firir fætr postolanum segiandi honum, hversu sveinninn hafði kyrktr verit af diọfli. Þa mælti faðir sveinsins: „Truir ek, heilagr faðir[13], at minn son mun mega af dauða risa firir þinar bænir ok verðleika.“ Þa sneriz heilagr Andreas til folksins sva segiandi: „Heyrit allir lyðir þessar[14] borgar! Hvat mun yðr stoða, þa er þer siait þessa hluti verða, er þer vilit eigi a guð

1 omatugr *B.* 2 [hingat hinn siuka svein *B.* 3 [hans *B.* 4 [risandi þegar i stad upp ur reck(i)unni, rennande med svo skiotri ras til þess plaz er Andreas postuli predikade, svo *B.* 5 undradizt *B.* 6 stormerki *B.* 7 borgarmonnum *B.* 8 illa halldenn *B.* 9 sveininn *B.* 10 miog *tilf.* *B.* 11 þenna *B.* 12 til lifs *tilf.* *B.* 13 guds postuli *B.* 14 thesalonicensis *B.*

trua?" Þeir svǫruðu: „Efaz þu eigi i þvi, guðs maðr, at ver skulum allir a þinn guð trua, ef þu lifgar þenna dauða svein." Ok [eftir þessa hluti talaða[1] mælti postolinn til hins dauða: „Ris upp, hinn ungi maðr[2], i nafni vars herra Jesu Kristz." Ok þegar lifnaði hann ok reis upp alheill lofandi guð ok hinn heilaga Andream postola. En allr lyðr tok at ottaz mikilleika taknsins kallandi ok sva segiandi: „Þǫrf vinnr oss þetta til sannrar truar, ok truum wer nu allir [þeim guði, er þu predikar[3]. Siðan leiddu þeir postolann heim til herbergis með kveiktum[4] kertum ok lysandum skriðliosum, þviat nattartimi var kominn, innleiðandi hann i borgina með miklum[5] fagnaði, ok þar dvaldiz postolinn þria daga, lærandi þa ok semiandi til algiorrar truar vars herra Jesu Kristi.

14. A einhverium degi þa er heilagr Andreas postoli geck leiðar sinnar með sinum lærisveinum, bar sva til, at einn blindr maðr kom i moti þeim kallandi ok sva mælandi: „Heyr, Andrea guðs postoli! Veit ek, at þu mátt gefa mer syn mina, en eigi vil ek fyrri taka syn, en þu byðr þeim sem þer fylgia, at þeir fai mer fie nockut, af hveriu ek megi fa mer nogliga mat ok klæði." Postolinn svarar: „Þetta er eigi manz raudd, er þessi mælir, helldr fianda, er eigi villdi, at guðs takn syndiz á honum[6], at hann tæki sina syn." Siðan lagði hann hendr sinar yfir augu hins blinda manz, ok tok hann þegar syn sina lofandi guð. En er hann var klæddr herfilighum klæðum[7], mælti Andreas: „Takið brott af honum þessi hin saurgu klæði ok gefit honum nyian klæðnat." Siðan afklæddu þeir hann. Þa mælti Andreas, at hann skylldi taka slikt sem hann þurfti. Ok at alklæðnaði teknum for þessi maðr fra fundi postolans til sins heimilis lofandi ok dyrkandi guð ok hinn sæla Andream postola.

15. [8]I þeirri borg, er Philippis er kollut, var sa maðr er Medias hiet, harðla rikr at fie, grimmr ok harðbrystr. Son þessa rika mannz la siukr með miklum vanmætti. Hann for á fund heilags Andree postola sva segiandi: „Heyrþu[9] guðs maðr! bið ek, at þu gerir heilan son minn, þviat hann er miǫk vanmegn at ǫllum likama." Ok er hann mælti þetta miǫk gratandi, þa þerði postolinn kinnr hans ok augu af tarum ok grati sakir sins huggæðis, er hann matti ecki aumt sia, huggandi hann ok bliðkandi

1 [þeim þvilika hluti talandum *B.* 2 sveinn *B.* 3 [a þann gud, er predikar heilagr A. guds þionustumadr *B.* 4 *tilf. B.* 5 pris ok *tilf. B.* 6 þessum manni *B.* 7 tautrum *B.* 8 Af rikum manni *Overskr. A.* 9 Heyrande mik *B.*

með sinni hendi ok mælti: „[Styrkz þu[1], son minn, ok huggaz ok tru a guð, ok mun fyllaz þinn goðr vili.“ Siðan tok hann[2] i haund honum ok for[3] til borgarinnar Philippis, ok er þeir geingu inn i borgarhlið, rann i moti þeim einn gamall maðr biðiandi með tarum hinn heilaga Andream veita ser hialp [ok sonum hans[4] tveimr, hveria [fyrr nefndr[5] Medias hafði halldit langan tima i myrkvastofu ok fiotrum firir nǫckura mikla afgerð með sva harðri pinu, at fiellu sar a likami þeirra ok [funaði holldit[6]. Þa sneriz Andreas postoli til Mediam bonda sva segiandi: „Heyr, maðr, segir hann, þu biðr, at græðiz son þinn, en þu helldr i myrkvastofu ok baundum þa menn, er funa upp kvikir. Nu ef þu vill, ath guð heyri bænir þinar, þa leys þu fyrr fiotur af veslugum maunnum, til þess at son þinn leysiz af sinum krankdomi, þviat ek sie, at illzka su, sem[7] þu fremr, gerir talman minum bænum.“ Þa fiell Medias til fota postolanum kyssandi þa[8] sva talandi: „Ek skal senniliga leysa þessa .ii. menn or myrkvastofu ok aðra .vii, af hverium þu heyrðir ecki[9] sagt, til þess at son minn fai sina heilsu.“ Þa bauð hann, at þessir allir væri [leystir ok[10] leiddir firir postolann, ok sva var gert. En heilagr Andreas lagði sinar hendr yfir þa ok hreinsaði[11] sar þeirra ok gaf þeim fulla heilsu eftir þria daga liðna, leysandi þa sva or allri anauð[12], gefandi þeim frelsi, ok foru þeir brott lofandi guð ok sælan Andream. En á auðrum degi eftir þessa hluti gieck Andreas til hins siuka sveins[13] sva segiandi: „I nafni drottins Jesu Kristz, þess er mik sendi higat at lækna þinn siukleik, riss upp heill or þinni sæng.“ Siðan tok postolinn i haund honum[2] ok reisti hann upp, ok þegar a sȧumu[14] stundu varð hann alheill[15] lofandi guð firir veitta velgerninga. En hann[16] hiet Philomedis ok hafði legit i kaur mattlaus .ii. vetr ok tuttugu. Þa tok allr lyðr at kalla sva segiandi: „Græð þu ok vara siuka menn, hinn agiæti guðs vin.“ En er hann[17] heyrði akall lyðsins, mælti hann vid Philomedem[18]: „Far þu til herbergia siukra manna ok bioð þeim upp risa i nafni vars herra Jesu Kristz, i hvers krafti þu ert heill

1 [Styrkstu *B.* 2 *tilf. B.* 3 foru *B.* 4 [sonum sinum *B.* 5 [þessi same *B.* 6 [funudu so þeira holld *B.* 7 er *B.* 8 og *tilf. B.* 9 fra *tilf. B.* 10 [*tilf. B.* 11 sva *tilf. B.* 12 og prisund *tilf. B.* 13 þar sem hann la i reckiunne *tilf. B.* 14 samri *B.* 15 heill gangandi og *B.* 16 þessi enn ungi madr *B.* 17 postulinn *B* 18 sveininn Philopendem *B.*

vorðinn.“ Siðan[1] for hinn ungi[2] madr um hus og herbergi siukra manna kallandi a nafn Jesu Kristz, og urdu allir heilir sinna sotta, med hverium krankleika sem hverr var halldinn, og trudi allr borgarlydr æ gud, og færdu postulanum dyrligar giafir bidiande hann kenna sier enn framar gudlig bodord. Enn postulinn predikadi þeim sannan gud, en ongvar þeira giafir þiggiandi, og urdu þeir skiott algiorvir i kristiligri tru.

16. Einnhverr audigr madr at fiarhlutum en fatekr at tru var i þeim herodum, er Andreas postuli kenndi kenningar, hann hafdi fiolda þionustumanna med sier. Einn var sa hans þionustumadr, er honum var miklu kærri en adrir, en sa var egifskr at kyne, hann tok ridusott so harda, at hann andadizt nær æ hinne somu stundu. Hans lanardrottinn harmadi miog dauda sveinsins, farandi til fundar vit Andream postula, þviat hann heyrdi marga dasamliga hluti af honum sagda. Hann fiell til fota postulanum og mælti med tarum: „Þvi treystir ek, guds madr, at þu matt gera alla hluti þa er þu villt. Sveinn minn, sa er ek unna mikit, er nu daudr, og bid ek, at þu farer til hus mins og gefer lif sveinenum.“ En er postulinn heyrdi þetta, þa for hann til hans herbergis, og var þar firir mikill mannfioldi. Þa taldi Andreas postuli leinge tru firir þeim, at þeir tæki heilsu andar sinnar. Eptir þat snerizt postulinn til bænar, þar sem likit la, og mælti: „Eg segi þier, sveinn, ris upp þu i nafni drottins Jesu Kristz og statt upp heill.“ Þa reis sveinnenn þegar af dauda alheill, og selldi Andreas postuli hann sinum lanardrottne. Þa toku aller tru, þeir er þar voru vit stadder, ok skirduzt i nafni fodur og sonar og heilax anda og lofudu gud og hinn heilaga Andream postula.

17. Sidan for heilagr Andreas postuli til þeirar borgar, er Nichomedia heitir, og er hann nalgadizt borgarhliden, þa foru menn ut i moti honum ur borgum(!) med lik eins ungs manz. Þar var og i for med þeim fadir og modir sveinsins med mycklum harme, so at fadir var studdr og upphalldinn af hondum sinna manna megandi varla giora likfylgiu sins sonar. Enn modir hrum af elli reytti sig at lyktum lokum(!) kveinkande og so segiandi: „Vei mier vesælli, er minn alldr skal allt vera framleiddr a þann tima, at eg skal þann vitbunat ok þa bidstund hafa mins dauda at pinazt nu þegar af dauda sonar mins, og eru sligt þung aurlog.“

1 Ok at aullum lyd dasamandum *B.* 2 *Her mgl. 2 Blade i A, der ere udfyldte efter B.*

Og er þau kolludu gratandi þessa hluti og þessum lika fylgiande likinu, kom til heilagr Andreas postuli heyrandi þeira harm, og huggadi þeira sut sem margra annarra og mælti: „Bid ek, at þier segit mier, hversu at barzt um liflat þessa unga manz, er hann for so skiott fram af þessu lifi.“ Fadir hans og modir mattu aungu svara sakir harms og trega, en þionustumenn svara og sogdu, at (er) þessi hinn ungi madr hafdi verit staddr einn saman i nockuru litlu husi, komu at honum ovartt .vii. hundar storir, og redu þegar a hann og rifu hann i sundr og bitu til bana, og do hann af þessum harmkvælum. Og er heilagr Andreas postuli heyrdi þetta, andvarpadi hann hatt og rendi augum til himens so mælandi med tarum: „Þat veit ek at sonnu, drottinn minn, at dioflar hafa um hann setit, þeir hinir somu sem ek burtt rak ur Nicea borg, og honum bana veitt. Enn nu bidr ek þik, hinn godgiarne Jesus, at þu reiser hann af dauda, at eigi fagni motstadligr ovin allz mannkyns af hans dauda.“ Sidan mælti hann vit faudur sveinsins: „Hvad muntu gefa mier, ef ek giore heilan son þinn?“ Hann svarar: „Ecki hefi ek dyrligra til at gefa þier en son minn sialfan, ef hann ris upp af dauda til lifs af þinu bodordi.“ Þa retti heilagr Andreas postuli hendr sinar til himna og bad til guds a þessa lund og mælti: „Bidr ek þik, almattigr gud drottinn minn, at aptr hverfi aund þessa sveins til sins likama, at af hans upprisu snuizt hann og margir adrir til þin at firirlatnum skurgodum, og verdi hans lifgiof til andarheilsu aullum villtum monnum, at eigi verdi* . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

du** ok mæltu: „Mikill er guð Jesus Kristus, sa er Andreas boðar. Þa toku feðgin sveinsins margar giafir ok gersimar ok gafu syni sinum. En hann færði þær allar postolanum, hveriar Andreas postoli villdi með eingu moti þiggia, helldr skirði hann þann lyð allan, er i þeirri borg var, með fullri tru ok iatningu heilagrar þrenningar. En svein þenna hafði Andreas með ser til Macedoniam borgar kennandi honum hialpsamligan froðleik, ok gerðiz hann lærisveinn postolans.

18. Þa er heilagr Andreas postoli for veg sinn með siofarstraundu með mǫrgum lærisveinum sinum, þa barz sva at, at siorrinn kastaði upp firir fætr þeim liki einu klæðlausu með ǫllu. Postolinn varð glaðr við þenna atburð ok mælti: „Þat byriar at reisa þenna mann af dauða, at ver vitim, hvershattar maðr þessi

* *Her er en Lacune i B; jvfr. ovenfor S.* $332^{20}$-$332^{25}$. ** *Her beg. atter A.*

hefir verit, eðr hveria hluti uvin mannkynsins hefir moti honum framit.“ Siðan fiell heilagr Andreas til bænar ok bað til guðs. Eftir þat tok hann i haund hinum andaða ok lypti honum upp, ok lifnaði hann þegar. En er hann hafði eingi klæði, þa gaf Andreas honum kyrtil sinn ok mælti: „Seg þu mer tilstǫðu ferðar þinnar ok alla atburði.“ Hann svarar: „Eingu mun ek þik leyna, hvat manna sem þu ert. Ek heiti Philopator, ok er ek son Sostrati gaufugs manz ǫr Macedonia borg. Ek hafði nyliga komit af Italia heim til fauður mins. En er ek var heim kominn, heyrði ek sagt fra kenningum þeim nyium, er eingi hafði fyrr heyrt þvilikar, þar með heyrði ek sagt fra storum iarteignum ok heilsugiǫfum siukra manna, er nǫckurr ukunnr lærifaðir gerði, sa er sik taldi vera lærisvein hins sanna guðs. En er ek heyrði sagða fra honum þessa hluti, fystumz ek hann at finna, þviat ek ætlaði, at hann myndi sialfr guð vera. En þa er ek sigldi með faurunautum minum, þa gerði at oss siohrið mikla með stormi ok storum bylgium, sva at skipinu kastaði undir oss ok hvelfdi, ok druknuðu wer allir fiorir tighir manna. En þess villdi ek nu æskia, at uppkastaði likum þeirra allra, er mer fylgdu, ok væri þeir ok lifgaðir af þer sem ek.“ En er hann hafði þetta mælt, þa horfði hann a postolann ok hugði, at þar myndi kominn sa sami guðs maðr, er hann hafði leita farit; hann fiell þa til fota postolanum ok mælti: „Veit ek at saunnu, at þu ert þionostumaðr hins hæsta guðs. Nu bið ek þik firir minum kumpanum, at þeir lifni af þinum verðleikum ok megi kenna sannan guð skapara sinn, þann er þu predikar.“ Þa tok heilagr Andreas fylldr af heilugum anda ath boða honum staðfastliga sanna tru. Hinn ungi maðr undraði miǫk kenning hans. Siðan hiellt postolinn haundum til himins ok mælti: „Bið ek þik, drottinn minn, at þu synir mer lik þessarra manna allra, er tynduz með Philopatore, at þeir kenni þik sannan guð.“ En er hann hafði þetta mælt, þa sa þeir þegar lik allra þeirra manna, er tyndz hǫfðu, einu minnr en .xl. kasta upp her ok hvar a landit. Þa tok hinn ungi maðr at grata, ok allir þeir sem við voru staddir, ok fiellu til fota postolanum, biðiandi at hann giæfi lif ǫllum þessum maunnum i guðs nafni. Philopator mælti þa: „Faðir minn sendi mik higat með miklum fiarhlut sakir goðs vilia fandi mer alla nauðsynliga hluti til ferðar. En ef hann spyrr misfarar minar, þa mun hann lasta guð þinn ok hafna kenningu þinni. En ei villdi ek, at sva vyrði.“ En er þeir grietu allir, þa bað postolinn, at þeir skylldi saman safna likunum,

þviat þeim hafði dreift upp kastað. Ok at þeim saman komnum i einn stað mælti Andreas við Philopatorem: „Hvern vill þu fyrstan láta uppreisa?“ Hann svaraði: „Gnaram fostbroður minn.“ Þa fiell Andreas a kne ok hiellt haundum til himna ok bað leingi með tarum til guðs ok mælti: „Heyrðu, Jesu hinn goðgiarni guð! Reis upp þu þenna hinn dauða, er fostraðr hefir verit með Philopatore, at hann við kenniz þina dyrð ok lofiz nafn þitt af ǫllum lyðum.“ Þa reis Gnara upp þegar, ok undruðuz allir þessa iarteign, er við voru staddir. Eftir þat steypti postolinn framm sinum bænum með tarum firir sierhveriu liki hinna dauðu ok mælti: „Bið ek þik, drottinn Jesu Kriste, at þessir menn allir risi upp af dauða, er druknat hafa i siofardiupi.“ Siðan bauð hann, at lærisveinar hans tæki i haund serhverium hinum dauða ok mælti sva: „Lifgi þik Jesus Kristus son guðs lifanda.“ Ok er þeir gerðu sva, þa lifnuðu allir þessir átian ok .xx., ok dyrkuðu sannan guð ok mæltu: „Einn er guð drottinn, ok eingi er þer likr.“ Siðan voru þeir allir skirðir af Andrea. Eftir þat beiddi Philopator postolann at fara til Macedoniam ok kristna fauður hans ok allan lyð þeirrar borgar, hvat er heilagr Andreas gerði, eftir þvi sem hann var beðinn, ok lofuðu allir lyðir allzvaldanda guð, þeir sem heyrðu sva dasamligar iarteignir.

19. Þessu næst segir latinubokin, at hinn heilagi Andreas postoli ok astvin drottins kom til þeirar borgar i Achaia heraði, er Patras heitir. I þeirri borg var iarl, sa er Egeas hiet, hann hafði firir litlu þat riki tekið eftir þann iarl, er þar hafði andaz, er Lisbius hiet. En er Andreas postoli var i borgina kominn, þa geck til hans kona nǫckur, su er Effidima hiet, hon var kristin ok hafði tekið tru af predikan Sosie, er einn var af Kristz lærisveinum. Hun fiell til fota postolanum ok mælti: „Heyrþu Andrea postoli! Fru min Maximilla iarls kona biðr, at þu komir til hennar, þviat hun hefir riðusott mikla, sva at hun er nærr at bana komin. En hun villdi giarna heyra kenning þina. En iarlinn bondi hennar stendr firir reckiunni gratandi með brugðnu sverði, þviat þegar hun andaz, ætlar hann at leggia sik i gegnum.“ Siðan geck Effidima firir postolanum til herbergis, er fruin la i. En er hann sa iarlinn hallda a brugðnu sverði, þa mælti hann við hann: „Ger þu þer ecki illt, iarl, helldr varðveit þu sverð þitt i sliðrum, þviat koma mun su tið, er þu munt við oss deila ok moti beriaz.“ En iarl skildi eigi, hvat postolinn sagði, ok gaf honum rúm at ganga til reckiunnar. Þa fiell postolinn til bænar ok tok i haund

Maximille, ok þegar sveittiz hon aull, ok siðan varð hon alheil. Postolinn bauð þa, at henni skylldi gefa fæzlu. En iarlinn færði honum hundrat silfrs. En Andreas villdi eigi til sia ne þiggia. Siðan for iarlinn brott or borginni eyrinda sinna. En Maximilla tok tru ok skirn af Andrea, ok unni hon bratt mikit guði, ok tok hon at hallda hreinlifi ok þiona guði alla æfi siðan, meðan hun lifði. En sa er setta hefir piningarsaugu sæls Andree postola, byriar prologum með þessum orðum.

20. Kennimenn ok klerkar allra kirkna ok borga Achaielandz gera ǫllum kristnum maunnum, þeim sem byggia um allan heim i austri ok vestri, i suðri ok norðri i Kristz nafni skipaðir, kunniga pisl ok liflat hins heilaga Andree postola, hvat er wer sam varum augum. Friðr sie yðr ǫllum, er truit á einn guð i algiǫrri þrenningu, sannan guð fauður ugetinn ok usyniligan, ok a eingetinn son hans drottin varn Jesum Kristum, sa er pindr var firir hialp ok heilsu allrar veralldar, ok á helgan anda af hvarumtveggia frammfaranda feðr ok syni, huggara ok lysara allrar almenniligrar kristni, ok þenna fauður truum wer almatkan, sá er gat af ser sannan son eingetinn. Vær truum ok sannan guð helgan anda af feðr ok syni frammfaranda. Ok þessar þriar personas dyrkum wer einn guð i þrenningu ok þrennan i einingu, uskiptiligan ok oumræðiligan i einni undirstǫðu, en þrennr i personis. Þessa tru namum wer af heilugum Andrea postola drottins vars herra Jesu Kristz, þviat wer sam pisl hans ok heyrðum kenningar hans, ok firir þvi megu wer sannliga fra segia, sva sem wer skulum firir yðr skyra i fylgianda efni.

21. Heilagr Andreas postoli kristnaði allan lyð i borginni Patras, siðan hann hafði grædda Maximillam af riðusott, sem fyrr segir. En eftir þat for hann um aull heruð Achaie predikandi firir lyðnum guðs orð, gerandi miklar ok margar iarteignir i nafni vars herra Jesu Kristz, ok sneyri hvern dag mǫrgum flockum fra skurðgoða villu til truar ok miskunnar lifanda guðs; dauðum gaf hann lif en blindum sion, ok rak diǫfla fra oðum maunnum, hreinsaði hann likþra, heyrn gaf hann daufum, en mal mallausum, græðandi allar sottir eigi með grasadryckium eðr iarnaskurð, ok eigi með nǫckurum likamligum lækningum, helldr með orði einu saman ok krafti heilags anda. Ok þa er þessu hafði frammfarit um tima, þoldu blotbyskupar eigi, er þeir sa hversdagliga niðrbrot sinnar villu, niðrfall ok auðn sins fiarafla, er þeir toku firir sina þionostugerð við skurðgoðin. Þa skutu þeir saman fie miklu

ok gafu iarlinum Egee, er fyrr var nefndr, ok mæltu við hann: „Siðan er Andreas postoli kom til landz þessa, lætr hann eingan mann hallda laug konunga varra ne landzriett ok eigi færa fornir guðunum, þviat hann eyðir alla þeirra gaufgan. Firir þvi gefum wer þer fie þetta, til þess at þu hneckir honum ok lata(!) hann ei umæddan undan ganga pislum ok dauða.“ En þott iarlinn hefði sieð ok heyrt takn ok iarteignir, þær er Andreas postoli gerði, þa er hann græddi Maximillam konu hans, ok margar aðrar, með þvi at hon hafnaði, siðan er hun tok skirn, samfaurum við hann, ok þo mest sakir fiegirni ok illzku sinnar, þá tok hann við fie þessu, ok bað hann handtaka Andream postola sina þiona ok leiða firir domstol sinn.

22. Eftir þetta for Egeas til borgarinnar Patras ok tok at nauðga kristna menn til skurðgoða villu ok fornfæringa við guðin. En Andreas efldi kristinn dominn, hvar sem hann for. Ok er hann frietti til gerða iarlsins, þa gieck hann i mot honum ok mælti: „Þat byriar þer, iarl, með þvi at þu ert domandi manna, at kennaz við þinn domara, þann sem a himni er, ok gaufga sannan guð, þa er þu kennir hann, ok snua hug þinum fra skurðgoða villu, þviat þau eru eigi guð helldr diǫflar.“ Egeas mælti: „Ert þu Andreas, sa er niðr brytr hof goða varra ok teygir menn til þeirar nybreytni drambsamligs atrunaðar, er Romaborgar hofðingiar buðu með aullu at eyða?“ Andreas svaraði: „Ek er sa er boðar sannleiks orð drottins vars Jesu Kristz, at menn hverfi fra skurðgoðum manna haundum(!) ok dyrki sannan guð ok lifanda, þann sem skapaði alla hluti, at þeir frialsiz fra eilifum dauða, þviat sialfr sannleikrinn Jesus Kristr mun þeim fulltingh veita, er trua vilia saunnu.“ Egeas mælti: „Hvat er hit sanna?“ Heilagr Andreas svaraði: „Sannleikr allr er aa himni, þaðan sem upp rennr lios, þat er brott rekr aull villumyrkr. En þer megit eigi sia liosit, þviat þer ætlið tre ok steina guð vera. En Romaborgar hǫfðingiar vissu ei enn, at sannr guðs son, sa er kom til hialpar ǫllu mannkyni, sagði likneski þessi eigi guð vera helldr hina verstu diǫfla ok uvini allz mannkyns, þa er þess fysa hvern mann, at guð reiðiz þeim. Ok þa er guð styggiz við mennina, snyz hann fra þeim ok vill ei heyra bænir þeirra, ok verða þeir þa herteknir af diǫfli, sviknir ok spottaðir, allt þar til er þeir fara út af sinum likamum sekir ok nǫktir* . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

* *Her mangler et Blad i A; jvf. ovenfor S. 337[8]-338[10].*

Andir spilltuz þa er hinn fyrsti maðr leiddi dauða yfir mannkynit firir girndartrie, ok firir þvi var nauðsynligt þvi sama mannkyni, at sa hinn sami dauði, sem inn hafði geingit firir girndartrie, væri brott tekinn firir pislartre. En firir þvi at hinn fyrsti maðr var skapaðr ur hreinni iǫrðu, sa er leiddi syndina yfir heiminn firir boðorða brot, þa var nauðsynligt, at fra hreinni meyiu fæddiz sannr maðr, firir hvern er son guðs, sa er skapat hafði fyrsta mann, endrbætti mannkynit til[1] eilifs lifs, þess er hann hafði tapað firir Adam ok Evo, ok með krosstrenu ræki hann brott girndartreið. Ok þa er hann [rietti ut hendr sinar æ krossinum[2] firir oftekiufullar hendr varar, þa tok hann gallbeiska fæzlu firir [bannaða fæðu girndartres[3], ok tok hann á sik dauða varn, at hann gæfi oss[4] udauðleik sinn." Egeas mælti: „Þessi orð matt þu segia þeim, er þer trua. En ef þu [vill eigi gera minn vilia[5] at færa fornir goðum almatkum, þa mun ek lata festa þik æ kross, þann er þu lofar." Heilagr Andreas svaraði: „Einum saunnum ok almatkum guði fornfæri ek hvern dagh, eigi reykelsisreyk ne kiǫt beliandi griðunga[6] ne hafra bloð, helldr ufleckat lamb á altari hins heilaga kross. En er allr lyðr rietttruaðra[7] manna hefir etið holld ok druckit bloð þessa lambs, þa er þat sama lamb alheillt ok lifanda, þat er sæft var, ok er þat þo sannliga sæft ok[8] holld þess etið ok bloð druckit af lyðnum, allt eins er þat senniliga heillt ok uskatt, ufleckat ok lifanda, sva sem ek sagði." Egeas mælti: „Hversu ma þetta verða?" Andreas svaraði: „Ef þu vill vita, hversu þetta ma verða, þa giorðz þu lærisveinn hins sanna, at þu megir nema þat er þu spyrr." Egeas mælti: „Ek mun heimta með pislum af þer kynning þessa hlutar." Andreas svaraði: „Undra ek þik hygginn mann fallit hafa i sva mikla heimsku, at þu ætlar þik með ognum eðr kvǫlum heimta munu af mer kynning guðligra stormerkia. Heyrðir þu takn krossins ok heyrðir þu stormerki fornarinnar, ok ef þu truir Jesum Kristum son guðs vera sannan guð ok sannan mann, þann er krossfestr var af Gyðingum, þa mun ek segia þer, með hverium hætti lamb ma lifa heillt ok uskatt[9] i riki sinu, þat er sæft er ok etið." Egeas mælti: „Hversu ma lamb lifa heillt i riki sinu, með þvi at þat sie drepit ok af ǫllum lyð upp neytt, sem þu segir?" Andreas svaraði: „Ef þu truir af ǫllu hiarta, þa mattu þat vita.

1 *Her beg. atter B.* 2 [heck a krossinum, retti hann ut sinar hendr hreinar *B.* 3 [sæta fædu bannads tres *B.* 4 *tilf. B.* 5 [lætr eigi at mer *B.* 6 gradunga *B.* 7 riettruandi *B.* 8 senniliga *tilf. B.* 9 oskadad *B.*

En ef þu truir eigi, þa verðr þu þess alldri viss.“ Þa reiddiz iarlinn ok liet setia postolann i myrkvastofu ok mælti: „A morgin skal ek hann ath fullu reyna.“

23. Þa er heilagr Andreas var byrgðr i myrkvastofu, þa kom fiǫldi heraðslyðs[1] til hans, ok villdu drepa Egeam iarl en briota upp myrkvastofuna ok leysa postolann. En sæll Andreas taldi firir þeim með þessum orðum: „Eigi skulu þer, bræðr minir, snua friði vars herra Jesu Kristz i diǫfuliga styriǫlld, þviat drottinn syndi oss alla þolinmæði, þa er hann var til pislar selldr[2], eigi kallaði hann ne þrætti, ok eigi nǫckurr heyrði raudd hans æ strætum. Hafi þer hlioð ok hægan frið, ok talmit eigi mina pisl, helldr veri þer bunir sva sem [guðs kappar[3] at standaz ognir ok pislir með uskelfdum hug, ok stigit yfir likamligar pislir firir sanna þolinmæði. Ef ognir ok pislir eru hræðiligar, þa eru þær hræðiligar er sva byriaz upp, at eingan hafa endann, þviat mannligr otti er likr reyk, rennr upp skiott ok eyðiz þegar. Þessa heims pislir eru annattveggia liettar ok litlar, ok ma auðvelliga standaz, en ef þær eru þungar [ok usigranligar[4], þa liða bratt ok tekr brott lifit; en annars heims pislir eru eilifar, þar er æ kvol ok kveinkan[5], sut ok gratr án enda, til þessarra pisla óttaz Egeas iarl eigi at fara. Veri þer helldr bunir til þess at koma til eilifra fagnaða firir stundligar pislir, þar er iafnan megi þer fagna, iafnan blomgaz, iafnan rikia með guði at eilifu.“ Þessa hluti ok þessum lika taldi Andreas postoli firir lyðnum alla nott i gegnum styrkiandi þa sva i guðs ast ok otta allt til lysingar.

24. A ǫðrum degi miok snemma sendi Egeas iarl sina þiona bioðandi þeim at leiða Andream firir sinn domstol. Ok er hann var þar kominn, mælti Egeas við hann: „Þat ætlaði ek, at þu myndir á þessi nott hafa kallat hug þinn brott fra heimsku þinni ok fra lofi Kristz þins, at þu megir hafa lifs fagnat með oss, þviat heimskligt er at vilia sialfkrafi[6] fara til pislar krossins ok senda sialfan sik i elld ok loga ok haðuligan dauða.“ Heilagr Andreas svaraði: „Hafa mætti ek fagnað með þer, ef þu tryðir Kristi ok hafnaðir [fágan skurðgoða[7], þviat Kristr sendi mik til þessarra heraða at safna honum til handa mǫrgum lyð.“ Egeas mælti: „Firir þvi skyllda ek þik til gaufgunar við goðin, at þeir lyðir, sem þu hefir svikit, firirlati [þarflausa kenning þina[8] ok færi þegar

1 hieradslyda *B.* 2 leiddr *B.* 3 [gud skapari *B.* 4 [*mgl. B.* 5 kveinan *B.* 6 sialfviliandi *B.* 7 [skurgodin *B.* 8 [þarfleysu kenninga þinna *B.*

fornir goðunum, þviat eingi er su borg i ǫllu Achaialandi, at eigi sie eydd hof goðanna ok niðrbrotin. Nu átt þu at endrbæta gaufgan goðanna, at þau megi sættaz við þik, en þu sier staðfastr ì varri vináttu. En ef þu gerir ei sva, þa mun ek lata pina þik mǫrgum pislum ok siðan festa þik æ kross, þann er þu lofar.“ Andreas svarar: „Heyrþu dauða son ok elldibrandr [buinn til[1] eilifs bruna! Heyrþu mik þionostumann[2] ok postola drottins Jesu Kristz! Hingat til hefir ek miukliga mælt við þik um sanna tru, at þu mættir verða viðtakari skynsemdar ok verndari sannleiks, hafnandi hegomligum skurðgoðum, en dyrka sannan guð, þann sem[3] a himni er. En allz þu staðfestiz i þinni sviviròligri villu, harðnandi sva i þinni utru, at þu hyggr mik munu hræðaz ognir þinar, þa haf frammi allar [þær pislir, sem[4] þu hefir mer ætlað, þviat þvi þægari verð ek guði konungi minum, sem ek staundumz[5] fleiri pislir firir hans nafni.“ Þa liet Egeas þenia heilagan Andream milli tveggia tria ok binda ok beria með[6] svipum. Ok þa er kveliarar hofðu gert honum .vij. lotur með mikilli grimd, þa liet iarlinn hann ofvan taka ok leiða firir sik, ok mælti: „Hlyð þu mer, Andrea, ok rað sialfum þer heilt, at ei sie leingr þinu bloði ut steypt. En ef þu gerir eigi sva, þa mun ek þik lata deyia æ pislartrie krossins.“ Andreas svaraði: „Ek er þionostumaðr kross Jesu Kristz, ok skal ek þvi framarr æskia sigrmark[7] krossins en hræðaz[8]. En þu munt mega forðaz eilifar kvalir, þær sem[3] þer eru firirbunar, ef þu truir á Jesum Krist, siðan þu hefir reynt staðfesti mina, þviat ek hræðumz af þinum dauða, en ek sturlumz eigi af pisl minni, þviat hon[9] er eigi leingri en eins dags, tveggia eðr þriggia, en þin pisl ma eigi endaz eftir þushundrat vetra. Þvi lát þu af at auka þer kvalir ok kynda þer [eilifan elld[10].“ Egeas mælti: „Hverf þu brott af heimsku þessarri ok spill ei firir þeim, er aðr lifa vel.“ Andreas svaraði: „Drottinn minn Jesus Kristr bauð mer ath lata eigi af at boða staðfastliga hans orð ok syna villtum maunnum sanna iðran.“ Egeas mælti: „Heit þu mer þvi at lata af þessi þarfleysu ok drambsamligri kenningu, elligar mun ek lata drepa þik illum dauða.“ Andreas svaraði: „Eigi at eins er ek buinn til bana, helldr ok at þola allzkyns pislir, fyrr en ek lata af guðligum kenningum.“ Þá reiddiz Egeas ok bauð ath krossfesta skylldi

1 [*mgl. B.* 2 guds *tilf. B.* 3 er *B.* 4 [pislir þinar, þær er *B.* 5 stend *B.* 6 storum *tilf. B.* 7 sigrmargs(!) *B.* 8 eigi *tilf. B.* 9 min pisl *B.* 10 [sialfum eilifan loga *B.*

heilagan Andream [sva firirsegiandi kveliarum[1], at þeir skylldi binda hendr hans ok fætr aa krossinum ok þenia hann ut sva sem i stagli, en negla hann eigi, sva at hann dæi skiott, helldr at hann pindiz langri kvǫl.

25. En er kveliarar[2] leiddu sælan Andream til krossfestingar, þa safnaðiz saman margr lyðr kallandi ok sva segiandi: „Hvat gerði þessi hinn riettlati vinr guðs ok manna til þess, at hann sie [til krossfestingar leiddr[3]." En heilagr Andreas bað lyðinn, at eigi skylldi þeir talma pisl hans, ok for hann glaðr ok fagnandi til pisla eigi afliettandi guðs kenningum. En er hann[4] kom til þess staðar sem krossinn var firirbuinn, ok hann sa [til hans um langt[5], þa kallaði hann með mikilli rauddu sva segiandi: „Heill þu kross, sem[6] helgaðr ert af Kristz likama ok skryddr af hans limum sva sem gimsteinum[7], þu stendr leingi ok hviliz sva sem mæddr biðandi min, ok veit ek þik firir vist af þvi fagna, ok fer ek firir þvi[8] fagnandi til þin, þviat ek kenni þinn leyndan hlut, firir hveria sauk þu biðr min; tak þu við mer, hvern þu girniz, þviat ek fann fysiliga þina asionu, þviat ek sie þann fagnat i þer, sem[6] mer er firirheitinn af guði. Heyr þu, heilagr kross, tak þu við mer litillatum[9] firir guðs skylld, ok sent mik til drottins Jesum Kristum. Aðr en varr herra stigi upp aa þik, þa hafðir þu hræðzlu af iarðligum maunnum, en nu eignaz þu himneska ast af riett-truaðum maunnum, ok framarr ǫllum aheitum tekr þu við mer, þviat þu veitz, hversu mikla fagnaði þu hefir i þer ok hversu haleitar giafir [mer eru[10] firirbunar. Auruggr ok fagnandi kemr ek til þin, til þess at þu takir glaðr við mer lærisveini þess, er hieck á þer, þviat ek var iafnan unnandi þer, ok ek fystumz þik at faðma. Heyr þu, hinn goði kross, er tekið hefir alla fegrð ok pryði af limum drottins, leingi hefir mik fyst til þin, ok þik hefir ek athugasamliga[11] elskat ok an aflati þin leitað, ok nu um siðir þik með heitum hug fundit firirbuinn, tak þu mik fra maunnum, ok giallt mik meistara minum, at firir þik taki hann við mer, er mik leysti aa þer." En er hann [mælti þetta[12], afklæddiz hann ok selldi kveliarum klæði sin. En þeir [geingu til ok festu hann aa krossinn ok[13] bundu með reipum hendr hans ok fætr[14], ok allan likam hans þaundu þeir, sva sem þeim hafði boðit verit. En .xx. þusundir manna stoðu hia krossinum, ok var i þeira[15] liði broðir

1 [og sagdi kvolurum *B.* 2 kvalarar*B.* 3 [krossfestr *B.* 4 heilagr Andreas *B.* 5 [krossinn *B.* 6 er *B.* 7 gimsteinn *B.* 8 þinar sakir *B.* 9 *mgl. B.* 10 [*tilf. B.* 11 sannliga *B.* 12 [hafdi þetta mælt *B.* 13 [*mgl. B.* 14 og gengu til og reistu krossinn *tilf. B.* 15 þessu *B.*

Egee, sa er Stratokles hiet. En hann kallaði með ǫllum lyð, ok tauldu rangan dom, þann er heilagr guðs vin var pindr. En sæll Andreas postoli styrkti[1] lyðinn ok hiǫrtu riettruaðra manna eggiandi alla til þolinmæði, kennandi þeim þat, at litils eru verðar þessa heims pislir til samvirðingar við eilifa amban haleitra himinrikis fagnaða.

26. Eftir þetta for allr lyðr með kalli miklu til husa iarlsins[2] sva segiandi: „Heyr iarl, hvert er þetta doms atkvæði? Illa dæmdir þu, grimman urskurð gaft þu, rangir eru domar þinir. Hvat gerði þessi maðr illt, hvat gerði hann rangliga? Sturlaz ok skelfiz oll borg vár, allir wer munum deyia. Glata þu eigi borg varri, er nu er aull i ugleði. Veit þu oss riettlatan mann, giallt þu oss helgan mann, drep þu eigi guðs vin[3] heilagan ok raðvandan, pryddan goðum siðum, goðan lærifauður, milldan, hogværan, skynsemdar fullan; eigi skylldi hann þessa hluti þola. helldr lat þu oss taka hann af krossinum, þviat hann hefir nu .ij. daga a honum[4] verit ok predikat[5] oss sannleiks gautu ok nauðsynliga hluti, ok fæðir[6] hann hiortu vár með sinum kenningum. Gefþu oss helgan mann, at ver lifim, leystu skirlifan mann, ok mun allt vart [folk ok[7] fostrland vera i friði. Gef þu upp vitran mann, ok munu ǫll heruð Achaielandz [wera i friði með sinu folki[8]." Egeas dvaldi ath hlyða lyðnum ok villdi eigi leysa postolann af krossinum. Þa reiddiz lyðrinn og villdi[9] vega iarlinn. En [hann hræddiz[10] þa ok hiet ath leysa Andream upprisandi [ǫr sinu sæti[11] ok for með lyðnum.

27. En er heilagr Andreas sa Egeam, mælti hann til hans: „Til hvers komt þu higat[, Egea? Ef þu vill[12] trua a Krist, þa mun[13] þer upplukaz miskunnargata[14], sva sem ek hiet þer; en ef þu kemr til þess eins[15] at leysa mik, þa mun ek vist eigi mega niðr setiaz af þessum krossi, meðan ek er lifandi i likama, þviat ek sie nu konung minn, ok nu lyt ek honum, ok nu stend ek i hans augliti. En ek harma þina vesolld, þviat buinn biðr þin eilifr dauði. Renn þu nu, vesæll[16] maðr, meðan þu matt, at eigi takir þu þa at vilia, er þu matt eigi." Þa geingu kveliarar[17] til, ok mattu með eingu moti snerta krossinn með sinum haundum.

1 þa *tilf.* B 2 allir samt kallandi og *tilf.* B. 3 astvin B. 4 krossi B. 5 firir *tilf.* B. 6 sedr B. 7 [*mgl.* B 8 [myskunn fa B. 9 villdu B. 10 [Egeas ottadizt B. 11 [af stolinum B. 12 [nema þu vilir B. 13 firir *tilf.* B. 14 myskunnardyr B. 15 hingat B. 16 vesall B. 17 kvalarar B.

Siðan foru til aðrir at oðrum at leysa postolann[1], ok mattu eingir[2], þviat hendr þeirra ok armleggir skulfu ok stirðnuðu[3]. Þa kallaði sæll Andreas á guð með mikilli raudd sva segiandi: „Lat þu mik eigi þionostumann þinn, drottinn Jesu Kriste, leystan verða, þar sem firir þitt nafn hangir ek á krossinum. Lat þu eigi, drottinn, mik [atferðaz milli likamligra[4] manna, þviat ek staðfestumz nu i þinum leyndum hlutum. Lat þu mik eigi, drottinn, lægðan verða af[5] dauðligum manni, með þvi at firir kross þinn kenda ek mikilleika þinnar dyrðar, helldr tak þu við mer, meistari minn Jesu Kriste, sa er ek elskaði, hvern ek sa ok ek kenda, þer helld ek, ok þik girnumz ek at sia ok með þer at vera. Tak þu við mer, herra Jesu Kriste goði[6] lærifaðir, ok lat mik eigi leystan verða af þessum krossi, aðr en þu tekr aund mina til þin.“ En er hann hafði þetta mælt, þa kom lios mikit yfir hann af himni sva sem ellding at ǫllum asiandum, ok skein umhverfis hann með sva mikilli birti, at eingi mannlig augu mattu sia postolann firir liosinu. En er þetta hit mikla lios hafði yfir honum verit miǫk sva halfa stund dags, þa andaðiz heilagr Andreas postoli ok for til guðs með liosinu brott hverfandi fra þeirra augum. En Maximilla hin gaufgazta fru[7], su er elskaði hreinlifi ok heilagleik, tok með allri vegsemd likama postolans af krossi, smyriandi með dyrðligum[8] smyrslum, ok grof siðan i sæmiligum[9] stað. En Egeas iarl var gripinn af diǫfli á veg, aðr[10] hann kiæmi[11] til herbergia sinna, ok var kvaldr af uhreinum anda i augliti allz lyðs, ok do þar braðum dauða. En broðir hans[12] Stratocles fylgdi [likama Andree[13] forðandiz alla hneyking. Ok er hann sa þessa hluti, sem gerðuz, þa villdi hann ecki nyta ser af ǫllu[14] gozi Egee broður sins ok mælti: „Firirfariz[15] allt þat er þu attir, Egea, en mer vinnr[16] þaurf einn drottinn minn Jesus Kristr, þann er ek viðkendiz[17] firir Andream hans postola.“ En sva mikil ogn ok hræzla gerðiz yfir ǫllum otruaðum maunnum, at eingin var eftir i borginni ne i aullu Achaia[18], sa er eigi tryði á guð græðara varn Jesum Krist, sa er ǫllum vill hialpa ok leiða til sannleiks kynningar ok sinnar miskunnar, honum sie vegr ok dyrð, sæmd ok æra per eterna secula, amen.

1 af krossinum *tilf.* *B.* 2 eigi *B.* 3 piprudu, er til gengu hann at leysa *B.* 4 [ferdazt hedan af midal heilagra *B.* 5 Egea *tilf.* *B.* 6 godr *B.* 7 kona *B.* 8 dyrligum *B.* 9 hinum sæmiligasta *B.* 10 en *tilf.* *B.* 11 heim *tilf.* *B.* 12 Egee *B.* 13 [like postulans *B.* 14 fe og *tilf.* *B.* 15 med þier *tilf.* *B.* 16 alla *tilf.* *B.* 17 vidkennizt *B.* 18 lande *tilf.* *B.*

28. En siðan er hin raðvanda fru Maximilla hafði [iarða latið[1] likam signaðs[2] Andree postola i virðuligu[3] leiði, sem fyrr segir, þa vegsamaði hun siðan legstaðinn geymandi hans með allri sæmd ok virðing, sem hun kunni framaz, boðandi[4] þær iarteignir, er drottinn Jesus gerði i þeim stað firir verðleika sins kiæra postola, biðiandi an aflati þenna hinn sælazta guðs astvin, at hann virðiz at vera hennar minnigr[5] firir guði i sinum bænum. En sva dasamlig takn verða við hans legstað, ath þat[6] færr eingi tunga talið, ok ei er þat undarligt, þviat sva er skrifvat, at or hans steinþro flytr fram himnamiǫl likt hinu biartazta hveiti, ok þar með rennr framm hit skiærazta[7] viðsmiǫr ur þvi sama leiði. Ok[8] af þessum stórtaknum mega bygðarmenn þeirra heraða marka, hvilik arferð [vera mun[9] hver missari frá ǫðrum i [nalægum sveitum[10], þviat sum missari synaz þessi takn unógligarr framm fliota, ok gefr iǫrðin þa minna avǫxt af ser ok [verðr litil arferð[11], en þa er nogliga flytr viðsmiorit eðr himnamiǫlit ǫr leiðinu, þa gefr iǫrðin avoxt nogan af ser, ok er þa mikit ar um aull[12] herut. Ok sva er sagt, at stundum veitiz þetta takn sva nogliga, at viðsmiǫrit[13] flioti allt framm a miðt kirkiugolfit[14], þeirar er giǫr var yfir hans leiði honum til dyrðar ok gǫfganar ok vigð guði ok hinum heilaga Andree postola.

Nu er yfir farit saugu hins signaða Andree skyndiliga, eftir þvi sem wer haufum á bokum fundit fra lifi hans ok iarteignum. Ok þott eigi sie hans saga her leingri[15] rituð, þa verða þar iafnan allzkyns takn allt til þessa dags, sem hann hvilir at likama, ok hvervitna annars staðar um viðerni veralldarinnar af bænum ok verðleikum[16] hins agiæta Andree postola sva mǫrg, at eingi maðr ma þau tina eðr lesa aa einum degi. Sækium nu aa þessum [timum ok[17] ǫllum ǫðrum einkannliga þenna[18] blezaða guðs postola Andream at trausti ok arnaðarorði, ok biðium þess, at hann þiggi oss til handa af guði alla þa hluti, er hann sier at wer þurfum mest[19] at þiggia bæði þessa heims ok annars. Fysumz nu, goðir menn, af ǫllu hiarta[20] lofa ok dyrka, virða ok vegsama hinn sæla Andream postola á hans hatiðardeghi, sva sem wer kunnum

1 [iardat *B.* 2 hins heilaga *B.* 3 hinu virduligazta *B.* 4 og let skrifa *B.* 5 minnugr *B.* 6 þau *B.* 7 skirasta *B.* 8 þar *tilf. B.* 9 [muni verda *B.* 10 [þeim herodum og so vida annarstadar um heimenn *B.* 11 [er þa litit arferdi *B.* 12 lond og *tilf. B.* 13 þetta hit helga vidsmior *B.* 14 kirkiugolf *B.* 15 lengr *B.* 16 þessa *tilf B.* 17 [degi og tima og a *B.* 18 enn *tilf. B.* 19 af honum *tilf. B.* 20 at *tilf. B.*

framaz oss til friðar ok farsælu, [at hann arne oss af guðe drottne vorum Jesu Kristo þat, sem oss er nauðsynligazt firir sal ok lif [1] en almatkùm guði drotni varum Jesu Kristo til lofs ok dyrðar, þeim er með feðr ok heilugum anda lifir ok rikir einn guð i þrenningu um allar [veralldir verallda [2].

---

*Af byskupi einum.*

Byskup einn merkiligr maðr sat i borg nǫckurri, þott wer hafim eigi fundit með eignarnafni, hverr sa staðr var. Hann var i mǫrgum hlutum merkiligr maðr ok frabærilig persona, guðhræddr maðr ok olmosugiarn. Þat er af honum greint milli annars hans siðferðis, ath næst heilagri guðs moður tignaði hann Andream postola framm yfir aðra guðs vini, hiellt hann hans messudag hit hæsta festum i kirkiunni, en hit rikazta hof i sinni haull með dyran kost. Nu berr sva til i nǫckurum árgang riett upp a hatiðisdagh sialfs Andree, sem herra byskup er i kirkiu kominn ok ætlar skryðaz til messu, at ein faugr fylgd kemr ath kirkiunni, er þar iungfru ein formaðr. Geingr hon þegar firir byskupinn, fellr á knie ok heilsar upp a hann miǫk hæferskliga, hneigir sik at honum diarfliga, sem hann sat firir, ok segiz vilia gera iatning sina firir honum sialfum æ sva dyran dag. Byskupp ferr undan, segiz hafa skipat penitenciarium kirkiunni at heyra skriftamal, leysa ok binda með guðs miskunn sva framarliga, sem sialfr hann siti yfir, ok þvi visar hann henni af ser, sva ok firir þa skynsemd, at messutimi var kominn. Hun fylgir uppteknu, segiz við eingan skriftaz skulu at sinni utan við sialfan hann, felr ok upp a hann alla abyrgð, ef hon andaz uskriftuð, „eðr hvat, sagði hun, syniz þer riettviss ok viliugr at hialpa þurfandum, ef þer skipit yðr sva uskaplikan sialfum guði, sem spamaðrinn sagði af honum: Respexit in orationem humilium et non sprevit precem eorum.“ Þat segir sva: leit guð bænir riettlatra, ok eigi hafnaði hann orð þeirra. Hvat leingra, þar til þrystir hon byskupi með kloksamligum greinum ok miukum malum, at hun hefir sitt mal. Vinnr hon sva sitt verk með yfirbæriligri snilld ok alitligri undirstauðu, at byskupsins hugr hnigr nǫckut sva firir eftir manz natturu, ok þvi byðr hann henni i boð sitt um daginn. Sem guðs embætti er fagrliga endat, geingr byskup i hall sina, skipar hann fruinni sæmiligan sess, er þar eftir vana agiæt veitzla með dryck ok dyran kost.

[1] [*tilf. B.* [2] [alldir veralldar Amen *B. Den følgende Legende mangler i B.*

Nu sem sa liðr daginn ok menn geraz vel reiknaðir, verðr sva undarliga moti vana, at allt þetta samsæti ryfz brott af hollinni, sva at um siðir verðr eigi fleira eftir en byskupinn ok fruin ok einn borðklerkr, er hiellt keri firir þeim. Ok sem þann veg fatt er um byskupinn, yrkir hann á fruna til gleði. En þar kemr at moti skreyttr malshattr ok sva greinilig annsvǫr, ath byskupinn verðr aulteiti af. Þvi skipar hann henni upp á aðra haund ser miǫk nærri. Risa þa upp ath nyiu gamanræður með sva mikilli snilld ok seim varranna, sem Salomon segir, at byskupinn er naliga buinn til herleiðzlu Ok þat sier milldr drottinn með bæn hins millda Andree. Er þvi næst klappat á dyrnar ok kraft inngaungu, þviat byskup hafði latið lykia hallina, siðan leikrinn tok ath vaxa. Þessi bangar sva aurugliga, ath hann þyckiz firir vist eyrindi eiga. Þvi byðr byskupinn klerkinum at afloka hurðina. Fruin talar þa: „Minn herra, sagði hun, giǫrit ei sva bratt um, at þessi gangi inn, fyrr en þer vitið hverr hann er. Ek veit ei hvat þvi velldr, at margir hefiaz til uvinattu við mik, ok eigi þycki mer uvænt, at her sie kominn nǫckurr af þeim. En sakir þess at þer leiddut mik inn i yðvart boð, truir ek, at þer vilit mer eingi kaullz eðr unaðir gera lata á sva agiætri hatið.“ Byskup svarar: „Þat er sannliga várr vili, at þu hafir her naðir, en oðrum kosti er þat eigi vani várr at streingia dyrr á varum herbergium einkannliga firir þurfandum, þviat eigi vitum (ver) her inni, hverr at kemr, kann ok vera at boðsmenn varir krefi inngaungu.“ „Nei, segir fruin, ecki er þat til, en þetta má skiott profa, ef ukunnr maðr er, at setia honum eina spurning litla, þviat þar firir kenni ek hann bratt.“ Byskup svarar: „Þu skalt raða þessu, en ecki er þat ástundan min at þyngia ukunna menn með spurningum, eðr hvers skal spyria?“ „Þess, sagði hun, hveria skepnu guð hafi æzta gert af lægstu efni.“ Með sva fallit eyrindi ferr klerkrinn, lykr upp dyrr ok sier þar mann uti i pilagrimsbuningi. Ok þegar spyrr peregrinus, hvart byskup siti þar inni. Klerkrinn segir sva vera. Peregrinus segiz hafa skyllt eyrindi á hans fund. Klerkr segir, at þat mun bratt verða „Hvi skal þar dvol á vera, segir peregrinus, ek hugði, at á þenna dag eftir goðri frægð myndi byskupinn buinn at heyra fatæka menn.“ Klerkr segir, at ei var dvolin meiri, en hann leysti eina spurning, er honum var sett. „Sett, sagði hann peregrinus, er mer spurning ein; hverr heyrði slikt af eins byskups herbergi, at fatækir pilagrimar skulu spurningum mæta. Er ok seint satt at frietta, þviat i dag hugði ek her firir fǫðurliga milldi

en einga nyiung, eðr hver er spurniug?“ Klerkr segir sem fyrr var skrifvat. Peregrinus hugsar sem vitr madr ok svarar siðan: „Hver er æðri skepna en maðr, eðr hvert er efni lægra en iarðar leirr.“ Klerkinum finz um þessa urlausn ok lofar mio̧k. Peregrinus segir þa: „Ef þer vel likar, þa mun ek hafa orlofit.“ Klerkr segiz aðr vilia finna byskup ok kvez vænta, at þa sie allt til reiðu. Sva gerir hann, vikr aftr ok segir byskupinum spaklig annsvo̧r. Byskup verðr glaðr við ok biðr i guðs nafni, at hann lati inn sem fliotaz þann blezaða mann. Fruin segir: „Herra minn, sagði hon, farit eigi of fliott, ek þykiz enn eigi glaugt vita, hvart hann er vin minn eðr uvin. En ef hann leysir aðra grein, þa mun ek skilit fa.“ Byskup segir, ath þessi hlutr er mio̧k ufagr at mæða meinlausan mann, „en þo munt þu enn raða verða, eðr*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

## *Tillæg.***

### *Af byskupi ok puka.*

Byskupp einn merkiligr madr sat i borg nockorre innan Italie, þott ver hafim eigi (fundit) med eignarnafni, hverr sa stadr var. Hann var i morgum lutum nytsamligr ok frægileg persona, gudhræddr ok godfuss til heilagrar kirkiu ok fatækra manna. Þat er af honum greint millem annars sidferdiss, at næst heilagri guds modur tignade hann ok virdi Andream postola umfram adra guds vini, hellt hann hans messudag summum festum i hofudkirkiunni, enn hit hæsta hof i sinni hall med rikum sendingum ok voldum personum bo̧di af kirkiunni ok curia. Nu berr sva till a nokkurn ærgang rett upp a hatidisdag sealfs Andree, sem herra byskup er i kirkiu kominn no̧rr þridiu tid dags ok hugsar skrydaz till hamessu, at ein fogr fylgd kemr at kirkiunni. Er þar iungfru ein formadr fyrir. Gengr hon þegar inn i musterit med sinn skara ok þvilikt sem beinan veg fram fyrir byskupinn, fellr a kne ok heilsar upp a hann bo̧de med hefersku lætbragde ok fogru ordtake. Þar med hneigir hun sik at honum dearflega,

* *Her ender A.* ** *Den ved Lacunen i A mangelfulde Legende meddeles her fuldstændig efter en anden Membran.*

sem hann sat fyrir, ok segiz vilia gera iatning sina fyrir honum sealfum æ sva dyran dag. Byskup for undan, segiz hafa skipat penitencialem kirkiunnar at heyra skriptamæl, leysa ok binda med guds miskunn sva framarla sem sealfr siti yfir, ok þvi visar hann henne af ser ok fyrir þa skynsemi, at messutimi var kominn. Hon fylgir uppteknu, segiz vidr engan skripta skulu at sinni utan vidr hann sealfan, felr ok upp a hann alla abyrgd, ef hon andaz uskriptud, sidan hann syniar sva miukri bęn, „edr hvat syniz þer, sagde hon, rettviss ok viliugr at healpa þurfandum, ef þer skipit sva uskapligan(!) sealfum gude, sem spamadrinn sagde af honum: Respexit in oracionem humilium et non sprevit precem eorum, leit gud bęn litillæatra ok eigi hafnade hann ord þeira.“ Hvat er þetta leingra, þar til þrystir hon byskupi med kloksamlegum greinum ok miukum mælum, at hon hefer sitt mæl. Vinnr hon sva sitt mæl med[1] yfirberri snilld ok alitlegre undirstodu, at byskupsins hugr hnigr nockut eftir mannz natturu, ok þvi bydr hann henne i bod sitt um daginn, ædr þau skilia. Sem guds embętti er fagrlega fyllt, gengr herra byskup i hall sina, skipar fruinni sęmilegan sess. Er þar eftir vana hin agiętazsta veitzla.

Enn er æ lidr daginn, sem menn eru vel reiknadir med vęnan kost ok vin, verdr sva undarlega moti vana, at allt þetta samsęti ryfz brott af hallinni, sva at um sidir verdr eigi fleira folk eftir enn byskupinn, fruin ok einn bordklerkr, sem helldr kere fyrir byskupinum. Ok sem þa menn fęttiz um byskupinn, yrkir hann a fruna til glede, enn þar kemr i moti skreyttr mælshættr ok sva greinilegr mælshættr ok andsvor, at byskupinn verdr olteiti. Af þvi kallar hann hana brott af þvi, sem fyrr hafde hon, ok skipar henne upp a adra hond ser miok nęrre. Risa þa upp at nyiu gamanrędur med sva mikilli snilld ok seim varranna, sem Salamon segir, at byskupinn er nælega til buinn herleidzlu, ok þat ser milldr drottinn med bęn hins heilaga Andree. Er þvi nęst klappat ok krafit inngonghu, þviat byskup hafde lætit lykia hallina, sidan leikrinn tok at vaxa. Þesse bangar sva urogglega, at hann þikkiz fyrir vist erende eiga. Þvi bydr byskup klerkinum at afloka hurdina. Fruin talar þa: „Minn herra, sagde hon, gerit eigi brætt um, at þesse gangi inn, fyrr en þer med vitzsku profit, hverr hann er; ek veit eigi, hvat þvi velldr, at margir hefiazst til (u)vinættu vidr mik, ok kann vera, at her se kominn einn af þeim. Enn sakir þess at þer leiddut mik i ydart bod, true ek, at

[1] ok *Cd.*

þer vilit mer eigi kallz edr unædir gera læta a sva agiętri hætid ok ydarn hinn æzsta veitzludagh. Byskup svarar: „Þat er sannlega værr vili, at þu hafir her nædir, enn odrum kosti er þat eigi vani værr at streingia dyrr fyrir þurfandum, þviat eigi vitum ver her inni, hverr uti er. Villdem ver einna sizst, at a þenna dag oss henti þat miskunnarleysi, at sa fęri angradr i brott med toma hand, sem olmusunnar þęttiz þyrfa.“ Hon svarar: „Þetta mæ sva profa.“ Byskup spyrr, hveria raun skal þar til leggia. Hon seger: „Hann skal fæ eina litla spurning, þviat þar fyrir kenni ek hann brætt.“ Byskup svarade: „Fyrir þina bęn skalltu ræda þessu, enn ekki er þat min astundan at þyngia fatękian mann med spurningum, edr hvers skal spyria?“ „Þess, sagde hon, hveria skepnu gud hefir hęsta gort af lęgzstu efni.“ Med sva fallit erende ferr klerkrinn, lykr upp dyrum ok serr þar einn mann uti i pilagrimskledum. Ok þegar sem (þeir) finnaz, spyrr peregrinus, hvart herra byskup siti þar inni. Klerkr seger sva vera. Peregrinus segizst hafa sky(ll)t erendi a hans fund. Klerkr seger, at þat man skiott geraz. „Hvi skal þat dvala, seger peregrinus, ek hugde, at a þenna dag eftir godri fręgd myndi byskupinn buinn at heyra fatękia.“ Klerkr segir, at þa var eigi dvolin meiri, en hann leysti eina spurning, er honum var sett. „Sett, sagde hann peregrinus, er mer spurning ein. Hverr heyrdi slikt af eins byskups herbergi, at fætękir pilagrimar skulu spurningum męta? Er ok seint satt at fretta, þviat i dag trude ek her fyrir fodurlega millde en enga nyiung, edr hver er spurning?“ Klerkr greinir sem fyrr var skrifat. Peregrinus (hugsar), sem vitr madr er vanr, ok svarar sidan: „Hverr er ędre skepna en madr, hvert er lęgri(!) efni en iardar leir.“ Klerkinum finnz um þessa urlausn ok lofar miok. Peregrinus segir þa: „Ef þer vel likar, þa man ek hafa orlofit.“ Klerkr segiz adr vilia finna byskup ok vęnta, at þa se allt til reidu. Sva giorir hann, vikr aptr ok segir byskupinum spaklig andsvor. Byskup verdr gladr ok bidr i guðs nafni, at hann læti inn sem skiotaz þann goda mann. Fruin sagdę: „Herra minn, sagde hon, farit eigi of fliott, enn þikkiz ek eigi gloght vita, hverr hann er, vin minn edr uvin. Enn ef hann leysir adra grein vel, þa man ek skilt fæ.“ Byskup segir, at þesse lutr se miok ufagr at męda meinlausan mann, „enn þo mantu enn rada, edr hvers skal nu spyria?“ „Þess, segir hon, hveria iord hann veit ęzsta.“ Ferr klerkr sinn annat ok lykr upp dyrum. Er þar peregrinus fyrir ok spyrr þegar: „Man nu gefit

orlofit,“ segir hann. Klerkr segir, at stendr moti. Peregrinus svarar: „Hver nyiungh man nu handla byskup þenna, edr hvat hindrar nu til?“ Klerkr segir, at honum er sett spurning ǫnnur. Peregrinus brosir þa ok męler: „Eigi þikki mer þo lett fyrir, edr (hver) spurning er nu uppbrotin?“ Klerkr segir, at su er, „hveria iord þu villt hęsta kalla.“ Peregrinus svarar: „Þesse er spurning mikils verd, ok hon er loflegrar undirstodu, þott ek muni fatt um tala, enn þat predikar oll almennilegh kristni, at lifande sun guds tok sannan likam daudlegrar ok duptlegrar nætturu i hreinum kvide iungfru Marie, þenna bar hann, i þessum predikade hann, i þessum pindiz hann, i þessum reis hann upp nu dyrkadum ok odaudlegum, i þessum steig (hann til himins), ok i þessum sitr hann til hęgri handar gude fedr konungr allra verallda. Kalla ek nu leysta qvestionem mer setta, man ek nu skulu orlof hafa.“ Klerkr svarade gratande, at þat þorir hann eigi, fyrr en hann finnr byskup. Skilia þeir, ok spyrr byskup nu fyrr, hve leyst vęri spurning. Klerkr segir, hve yfirbęrilega hon var skyrd. Sem byskup hefir þat heyrt, talar hann: „Læt inn i stad, seger hann, þat blezada lif.“ Fruin hoggr enn i moti, segir sik nu allt skilia, hverr uti stendr, ef spurning er en þridia. Byskup angraz miok af þessu umfangi ok sagde þetta geraz at ser naudgum, en spyrr þo, hvat nu skal til fa. Hon segir, at nu skal spyria, hve langt hann segir vera millem himins ok helvitis nidri. Sem klerkr hefir fram borit fyrir peregrinum þa þridiu spurning, svarar hann sva: „Ek leysti tvęr greinir, er til min komu, þviat þęr tok ek badar af kvide heilagrar kristni, enn þessa grein kann ek eigi leysa, en þo man ek giora veg fyrir, hvert byskupinn skal vikia ser, ef honum er forvitni a þessu. Spyri hann fiandann, þann er sitr i hasętinu hea honum, þviat þenna veg for hann, þa er hann fell i dramb ok steyptiz af hęd himinrikiss i dyflizu helvitiss.“ Klerkinum þikkir nu hardna rędan, berr þo einardlega erindit inn fyrir byskupinn. Enn er uvinrinn, sa er leyndizst i formi konunnar, heyrer sik uppsagdan, steyptizst hann þar bolvadr nidr i murinn, sem hann var kominn. Byskupinn þat litande riss upp i stad będe hreddr ok feginn, ok gengr nu sealfr til dyranna. Er þar engi madr nu synilega uti. Þvi skilr byskupinn, at miskunn guds ok gięzla hins heilaga Andree hefir set ræd hans, ok fellr framm til bęnar þakkandi hinum hęsta gudi ok hans postola, hversu mikla millde ok fagrlega asea þeir hofdu honum veitt, þviat æn efa truer hann, at sa peregrinus, sem uti

stod, (var) sealfr Andress sendr honum til healpar. Var nu eigi langt at bida, adr bodsfolkit mintiz, hverr fagnadr inni var, þoat med leyndre uvinarins umsyslu vęre þat fyrr brott horfit. Birtir saga þesse, hversu kristnum manne er þat naudsynlegt at taka nockurn helgan mann ser til fulltings, at sa blezade vin guds veriande mannzins lif bede her ok i annarre verolld

---

## III.

*Her hefz upp Andreas saga postola.*

Heilagr guðs postoli Andreas var þrim sinnum kallaðr af drotni Jesu. I fyrstu kallaði hann ꜳ hann til kunnleika ok kenninga sins heilaga nafns með þeim hætti, at einn dag bar sva til, at Johannes baptista sa, hvar Jesus gekk, ok talaði við Andream lærisvein sinn ok annan hans kompan: „Sea þu her guðs son, þann er fyrir sakir skiærleika ma likiaz við flekklaust lamb. Seait her þann, er tekr syndir af heiminum.“ Ok þegar gekk Andreas ok annarr lærisveinn Johannis til herbergis Jesu, ok bað hann þa þar velkomna ok með ser vera, ok voru þeir allan þann dag með honum. Sem Andreas fann Simon broþur sinn, sagði hann honum af Jesu. Foru siðan baðir bræðr at finna hann. Tok Jesus vel við þeim ok sagði þeim mórg stormerki. Siþan foru þeir til iðnar sinnar ok reru ꜳ fiski eptir siðveniu. Annan tima kallaði Jesus þa bræðr til sins heimolleika ꜳ einum degi, (þa er) kom mikill flokkr at sea Jesum, þar sem hann geck fram með seo þeim, er liggr til Galilea heraðs. Ok sem folkit undraði hann, sa hann, hvar þeir Simon ok Andreas satu ꜳ fiski. Þa kallaði hann ꜳ þa ok bað þa at landi róa. Þeir gerðu sva. Siþan ste hann ꜳ bátinn til þeira, ok er þeir hôfðu hlaðit bátinn með fiskum, þa kallaði Jesus Jacobum ok Johannem sono Zebedei, þar sem þeir voru ꜳ fiski ꜳ auðru skipi, ok talaði við þa. En þeir sneru með honum heim til herbergis, ok foru heim siþan. Þriðia tima kallaði hann þa Simonem ok Andream til sinnar dagligrar þionostu, þa er hann gekk annan tima ꜳ þeiri sômu strondu, satu þeir enn áá fiski, ok bað þa til sín koma ok ser fylgia, iatandi þeim,

at sva volldugir skylldu þeir vera at leiða folkit til himinrikis, sem þeir voru aðr til fiskibragða. Ok þegar sem þeir heyrðu hans orð, fyrirletu þeir alla sina eigu ok fylgðu honum iafnan siþan, ok áttu alldri iarðligh auðæfi. At lokinni pinu vars herra Jesu Kristz ok upprisu af dauða ok uppstigning til himna, var hinn blezaði guðs postoli Andreas með auðrum hans lærisveinum ok hans signaðri moþur æ hvitasunnudegi, þa er hinn helgi andi kom yfir þau aull saman ok lysti þeira hiðrtu til allrar vitzku ok upptendraði[1] guþliga speki með þeim, gerandi þeim dirfð ok malsnilld með ðruggum vilia at[2] predika hinn krossfesta Jesum vera sannan guð ok sannan mann. Ok sem Simon Petrus broþir Andree sæ þat, er Gyðingar fyrirsmáðu þær hialpsamligar kenningar, er lærisveinar Jesu báru fram, veitandi þeim þar i moti harþar huðstrokur ok myrkvastofur undir dauðans viðlaugu fyrirbioðandi þeim at predika Jesum Kristum, þa kallaði hann saman sina kompana, ok sem ðllum þeim samþykti, hvat þeir skylldu opinberliga predika, þa skildu þeir[3], i sinn lut heims hverr þeira farandi með guðs forsea, (ok) i yztu endimerkr veralldarinnar (er) þat kunnigt vorþit, hvilikan ævðxt þeir færðu sinum lausnara, þar sem almenniligh kristni truir æ hann af þeira fortðlum.

2. [4]Hinn heilagi Andreas guðs postoli boðaði guðs orð i þvi konungsriki, er Licia heitir, en Matheus guþspiallamaðr talði tru fyrir folki i þvi heraði, er Borgundia heitir. En formenn landzins villdu með ðngu moti trua honum, ok toku hann ok stungu ut augu hans ok settu hann siþan bundinn i myrkvastofu, ok ætluðu at drepa hann eptir fæ daga. A þeim sama tima kom guðs engill til Andream postola ok bauð honum at fara til Borgundiam at frelsa Matheum postola or bðndum ok myrkvastofu. Andreas postoli svaraði ok sagði sik þvi siðr veg kunna til Borgundiam, at hann kveðz eigi vita, hvar þat herat var. Engillinn bað hann fara til siofar, ok sagði, at hann mundi sea þar eitt skip, þat sem hans farkostr skylldi vera. Andreas gerði sem engillinn bauð, for til siovar ok fann skip. Ok sem hann var buinn, hellt hann fra landi, ok með guðs forsea tok hann land fæm dðgum siðarr, ok varð viss af landzmðnnum, at hann var kominn til Borgundiam. For hann siþan til þeirar borgar, sem Matheus var inni. Ok sem hann at kom myrkvastofunni, þa laukz hun upp þegar fyrir honum. En er Andreas postoli sæ Matheum postola sva hðrmuliga halldinn, þa gret hann ækafliga ok bað til guðs, at hann skylldi miskunna

1 upptendrandi *Cd.* 2 ok *Cd.* 3 ok *tilf. Cd.* 4 Predicatio *Overskr.*

sinum postola ok þionostumanni. Ok þegar i stað gaf hann honum bæði augu sin heil, ok aull bönd spruttu af honum. Gerðu þeir postolarnir baðir þackir guði ok gengu ut af myrkvastofunni. Siþan gerðu þeir þat rað baðir samt, at Matheus skylldi fara til Antiochiam. Ok sem hann var brottu, taldi Andreas tru fyrir mönnum i Borgundiam. Þa urðu þeir ækafliga reiðir, ok toku Andream postola ok bundu hendr hans ok fætr ok drogu hann um stræti borgarinnar, sva at bloð rann af öllum hans likama. Ok meþan hann var i þessi pinu, þa bað hann fyrir þeim, er hann kvölðu, ok lysti guð allra þeira hiörtu til rettrar truar, ok var allr lyðr borgarinnar skirðr i nafni Jesu Kristz fyrir predikan Andree postola. Ok sem hann hafði kent þeim kristiliga tru ok skipat þar byskupa ok presta, sem nauðsynligt var, for hann i Antiochiam. Þar sem hinn helgi Andreas postoli þolði margar pislir fyrir guðs nafn, sem fyrr var sagt, þa er eigi truligt, at hann hafi sva litils verðleiks verit fyrir guði, at hann mætti eigi aptr fæa sina heilsu með sinum blezuðum bænum. En þat er ollum auðsynt, at guþ villdi einkannliga virþing sinum vin Andree postola i þessu stortakni.

3. Einn ungr maðr tiginn af tiguligri ætt ok auðæfum heyrði giarna fortölur Andree postola, ok var opt i hans herbergi. En frændum hans mislikaði þat, ok baðu hann ecki hlyða æ fortölur postolans, en sa hinn ungi maðr gaf öngan gaum at þeira orðum. Ok sem hann var einn dag i herbergi með postolanum ok heyrði hans kenningar eptir siðveniu, komu þangat frændr hans reiði fullir ok villdu drepa postolann, er hann var staddr einn i lopthusi. En er þeir mattu eigi inn komaz, baðu þeir hinn unga mann ut ganga til sin. En hann kveðz með öngu moti vilia skilia við Andream postola. En frændr hans urðu sva galnir, at þeir lögðu elld i herbergit. Ok sem loganum laust upp um allt husit, þa tok hinn ungi maðr eina fautu fulla með vatni ok kastaði fram fyrir elldinn, sva at þegar sloknaði. Ok sem frændr unga mannz sa þetta, sögðu þeir, at hann væri vorðinn galldramaðr, ok settu nu stiga við loptið, at þeir skylldo sva upp komaz. Ok er þeir voru bunir til þess, urðu þeir blindir allir, sva at þeir sa eigi stigann. Einn af þeim, er þar voru staddir, sa þessa luti ok talaði sva til þeira: „Þer, heimskir menn, erfiðiz at þarfleysu, seait þer eigi, at guð geymir þessarra manna fyrir yðr; latit af yðvarri iðn, at eigi komi guðs reiði yfir yðr.“ Margir af þeim, er sa þessi stormerki, truðu æ guð ok voru skirþir af Andrea postola.

En þeir, er þetta illvirki hôfðu gert ok villdu eigi retta tru taka, do skiott innan færra daga.

4. [1]Husfru eins manndrapara varð kviðug af samvistu við bonda sinn, ok er natturligr timi hennar barngetnaþar kom, tok hun harða sótt, ok kallaði til sin systur sina ok mællti við hana: „Bið fyrir mer hina helguztu gyðiu vara Dyanam, at hun lini minn krankleika.“ Nu for hun þar til, sem upp var sett likneski Dyane, ok fell fram fyrir hana litillatliga ok bað hana auðmiukliga gefa systur sinni heilsu. En i þvi sama skurðgoði svaraði diôfull henni: „Fyrir hvi kallar þu æ mik, þar sem ek ma ôngva hialp veita þer? Far helldr til Andream postola ok bið hann hialpa systur þinni.“ Hun for ok fram kom til postolans ok bað hann veita systur sinni nôckura hialp. Postolinn for þegar, ok sem hann kom til hinnar siuku konu, talaði hann til hennar: „At rettum guðs domi þolir þu þessa pinu þviat þu hugðir skurðgoð blind ok dauf mega hialpa þer. En ef þu truir æ guð ok iðraz synda þinna, þa mun ek gefa þer heilsu þina. En fyrir sakir illgerða þinna ok bonda þins, skalltu dauðt barn fæða.“ Þessi kona truði æ guð, sem postolinn bauð henni, ok fekk heilsu sina, en skilþiz sva við getnat sinn sem hann sagði fyrir.

5. [2]Nicholas het einn gamall maðr, er kom til Andream postola ok mællti við hann: „Ek hefir lifvat nær .lxx. vetra ok nær allan minn alldr likamsmunut fullgert ok legit i saurlifnaði. Einn tima tok ek guðspiallabok i hond mer, biðiandi til guðs, at hann veitti mer þat, at eigi spilltumz ek optarr i fullifi. En af þvi at vónda siðvenia var mer sem nauðsynlig til likams heilsu, þa leið skamt þaðan, aðr su lostasemi tendraðiz með mer, ok gaf ek ôngan gaum at guþspiallabok ne minni bæn, er ek fram hafði i guðs augliti. For ek til pútnahuss. Ok sem ek þar kom, mællti ein puta við mik þegar: Ut þu, hinn gamli maðr, ok ver eigi sva diarfr, at þu komir nær mer, þviat þu ert guðs engill, ok miôk undarligt er þitt yfirbragð. Ek varð óttafyllr við orð putunnar, ok kom mer i hug þat, er ek bar guþspiallabok með mer. For ek þegar æ brott ok til þin. Nu bið ek þik, guðs postoli, at þu samsættir mik við guð.“ Sem hinn heilagi Andreas hafði heyrt iatning Nicholai, bað hann til guðs með tárum fyrir honum allt fra .iii.ðia tima dags ok til nóns. Ok sem hann upp reis, villdi hann hvarki eta ne drecka, ok sagði sva: „Fasta skal ek þar til er guð birtir mer, hvart hann vill hialpa þessum gamla manni eða

1 Af husfru eins (!) *Overskr.* 2 Af einum ungum manni *Overskr.*

eigi.“ Ok þegar er hann hafði fastat .v. daga, þa kom raudd af himni yfir hann sva mælandi: „Auðlaz hefir þu, Andreas, þat, er þu baðt fyrir gamla Nicholao; en sva sem þu fastaþir fyrir hans skylld, sva skal hann ok sialfr fasta ser til synda lausnar.“ Siþan bauð Andreas postoli Nicholao at fasta .v. manaði við brauð ok vatn. En hann gerði alla luti, sem postolinn bauð honum, ok þionaði guði með goðfysi, ok litlu siðarr andaðiz Nicholaus. Eptir þat kom eingill guðs til Andream postola ok sagði honum, at guþ hafði gefit Nicholao himinriki fyrir hans bæn.

6. [1]Einn kristinn ungr maðr kom til fundar við Andream postola ok bað hann heyra sina nauðsyn. Postolinn geck með honum fra auðrum monnum, ok sem þeir voru .ij. samt, sagði hinn ungi maðr: „Moþir min hefir tapat við mik moþurligri ast; sakir þess at henni syniz ek sva fagr, þa lystir hana til min, ok biðr mik leggiaz með ser, en ek villdi þat með öngu moti. Þar fyrir varð hun mer reið ok hropaði mik fyrir domanda ok sagði honum, at ek villdi sva fyrirdæmðan glæp gera með henni, ok er nu stefnudagr kominn, er domarinn hefir æ kveðit, at þetta mal skal profat vera fyrir honum. En hvat sem moþir min segir, þa mun ek fyrri þegia, en bera nöckura luti æ moþur mina, ok þvi bið ek þik, guðs postoli, at þu hialpir mer sva, at eigi deyia ek fyrir þessa ælygi.“ Nu sem ungi maðr var til stefnu kallaðr, fylgði honum Andreas postoli. Sem þeir komu fyrir domarann, var moþir hans þar fyrir ok hropaði hann fyrir fyrr nefnda uhæfu. Domarinn spurði sveininn, ef þat væri satt, er hun sagði. Ungi maðr svaraði öngu. Þa mællti hinn helgi Andreas postoli við moþur hans: „Þu hin grimma kona, hvi skammaz þu þin eigi at biðia syni þinum dauða fyrir þina eiginliga illzku?“ Þa sneriz hun til domarans ok mællti: „Vit þat, herra minn, at siþan son minn hlyddi fortölum þessa mannz, þa hefir hann iafnan staðfastr verit i sinni illzku til min.“ En domarinn hugði þat satt vera, er hun sagði, ok bauð sinum mönnum at taka sveininn ok binda i einum bikuðum seck ok kasta honum framm i eina diupa æ, en Andream postola bað hann setia i myrkvastofu, meþan hann hugsaði honum pinu til dauða. Sem Andreas postoli heyrði þetta, fell hann æ kne ok bað til guðs. Þa kom ogurligr landskialpti ok reiþarþrumur ok elldingar, ok fellu allir til iarþar. En þa vándu konu slo elldingh, sva at hennar beið ecki eptir utan ausku. En domarinn ok allir aðrir baðu postolann hialpa ser. Hann bað

[1] Af einum ungum manni *Overskr.*

fyrir þeim til guðs, ok leið siþan su ógn af. Siþan tok domarinn skirn ok retta tru af Andrea postola, ok allt folk, er við var þenna atburð, lofaði guð fyrir predikan Andree postola.

7. I þann tima er heilagr Andreas postoli var i borg þeiri, er Villea het, sôgðu menn honum, at æ veginum, er til læ borgarinnar, leynduz .vij. diôflar, þeir sem drapu umfarandi menn. Postolinn for með borgarmônnum æ þann sama vegh, ok bauð diôflum at syna sik. En þeir komu fram fyrir folkit, ok sa allir þa i hunda æseonum. Siþan bauð hann þeim at fara brott ok gera ôngum manni mein. En þeir hurfu þegar æ brott. Sem borgarmenn sa þetta stormerki, hlyddu þeir fortôlum postolans ok toku skirn ok retta tru. Eptir þetta for Andreas postoli brott or Villeaborg. Ok sem hann kom til annarrar borgar ok gekk at hliðinu, þa mætti hann liki eins ungs mannz, er til graptar var borinn. Spurði hann þa er með foru, með hverium hætti hann hefði dáit. En honum var sagt, at .vij. hundar hefði komit i herbergit til ens unga mannz ok drepit hann þar. Sem postolinn heyrði þetta, varð hann hryggr miok ok hellt hôndum til himins sva talandi með tárum: „Veit ek, drottinn, at hundar þessir, er sveininn hafa drepit, ero þeir .vij. diôflar, er ek rak brott or Villeaborg.“ Siþan kallaði hann æ fauþur sveinsins ok spurði, ef hann villdi gefa honum sveininn, ef hann reisti hann af dauða. Faþir ens unga mannz svaraði: „Ecki er þat i heiminum, at mer se kiærra en son minn, ok ef guð gefr honum lif fyrir þinar sakir, þa mun ek hann sialfan gefa þer til þionostumannz.“ Sem postolinn heyrði þetta, fell hann allr til iarþar oc bað til guðs, at hann skylldi gera sinn almátt opinberan fyrir folkinu, er þar var við staðt. Ok at lyktaðri sinni bæn tok hann i hônd sveininum ok reisti hann upp lifanda i nafni Jesu Kristz. En allr lyðr, er þetta stormerki sa, lofaði guþ ok hinn sæla Andream. Þessi hinn ungi maðr gerðiz lærisveinn postolans ok fylgði honum iafnan siþan.

8. Þa er Andreas postoli geck nærri sea með môrgum auðrum, þa sea þeir, at liki var uppkastat i fiôruna fyrir fętr postolanum. Þa fagnaði Andreas drottni sialfum ok mællti: „Þat villdi ek, at sea maðr risi upp ok segði af ferðum sinum.“ Nu biðr hann fyrir honum, at hann skylldi lifna, ok tekr i hônd honum ok reisti upp hinn dauða. Ok þa lifnaði hann þegar. Hann var naukðr, þa gaf postolinn honum kyrtil sinn ok mællti: „Seg þu oss atburð um liflát þitt.“ Hann svaraði: „Ecki mun ek leyna þik, maðr, hverr sem þu ert. Ek em systurson husfreyiu

einnar, þeirar er fyrir skômmu kom af Lungbarðalandi. En þa er ek kom til fostriarða minna, heyrða ek nyian sið boðaðan, þann sem enginn maðr hafði fyrr heyrt, ok var mer sagt, at einn guðs lærisveinn gerði marga menn heila, þa er aðr voru siukir, ok margar iartegnir heyrða ek, at hann gerði, ok stormerki. Ok er ek heyrða þessa luti sagða, þa villda ek giarna sea þann, er slikir lutir voru fra sagðir, þviat ek ætlaða ecki annat, en guþ sialfr mundi gera slika luti. Ok þa er (ek) siglða með felôgum minum, kom at oss hrið mikil, ok varð mikill siovargangr, sva at allir tynduz, þeir er aa skipinu voru. Makara væri, at þa ræki upp sem mik, ok væri uppreistir sem ek." Ok er hann hafði þetta mællt, þa hugsaði hann, at hann mundi tala við sialfan postola guðs, ok fellr til fóta honum ok mællti: „Sannliga veit ek, at þu ert guðs þionn. Nu bið ek þik, lavarðr minn, at þu biðir, at þessa menn reki til landz, er tynzt hafa, ok láti almattigr guþ þa lifna, til þess at þeir kenni sannan guþ skapara sinn, þann er þu boþar." Þa var Andreas postoli fylldr af helgum anda ok kendi honum heilagar kenningar. Nu dasamaði hann kenningar hans ok mælsku, ok nu retti heilagr Andreas hendr til himins ok mællti: „Ek bið þik, drottinn minn, at þu latir uppkasta likum þeira manna, er tynz hafa með þessum manni, til þess at þeir mætti kenna skapara sinn." Ok er hann hafði þetta mællt, þa rekr þar .xix. ok .xx.(!) lik at landi, ok tok hann at grata af fagnaði, ok fell til fota postolanum, ok bað, at hann reisti þa af dauða. En sea maðr het Philopator. (Hann mællti): „Faþir minn sendi oss hingat með miklum fiarlut, er honum var ecki um guþ þinn ok kenningar yðrar, en hvegi sem þat er, þa munu ver þvi um trua, sem þu segir." En allir þeir, er hia voru, felldu tár. Nu ræddi postolinn við þa, at þeir samnaði saman likunum, þeim er upp voru rekin. Ok er saman voru borin likin i einn stað, þa spurði Andreas Philopator: „Hvern villtu at ek reisa upp fyrst?" Hann svaraði: „Þat vil ek, at þu reisir upp Gnaram frænda minn." Þa fell heilagr Andreas aa kne ok hellt hôndum til himins ok bað lengi með tárum: „Heyrðu, hinn goði Jesus Kristr, reis þu upp hinn dauða fostra Philopatoris, at hann kenni dyrð þina, ok mikli nafn þitt." En Gnaras sprettr upp þegar. En allir þeir er við voru, lofuðu guð ok hinn heilaga Andream postola. Siþan ferr postolinn til serhvers liks ok biðr guð almatkan ollum þeim lífs, ok mællti sva: „Ek bið þik, drottinn Jesus Kristr, at þessir risi upp, er her liggia dauðir." Ok nu mællti Andreas við þa, er

hann hafði uppreista: „Farit þit nu til felaga yckarra ok mælit sva yfir hverium hinum dauða: Drottinn Jesus Kristr sonr guðs lifanda reisi þik upp.“ Þeir gerðu sva, ok mælltu slik orð yfir hveriu likinu, sem postolinn hafði kent þeim. Ok risu upp allir, þeir sem dauðir hôfðu verit, einum manni miðr en .xx., ok lofuðu allir guð ok hinn sæla Andream postola, ok mællto sva: „Engi er likr þer, drottinn.“

9. Heilagr Andreas postoli predikaði kristiliga tru i Achaya heraði, ok skirði þar allan lyð i nafni Jesu Kristz, ok husfru Egee iarls tok retta tru. Ok sem hann hafði vigþar þar kirkiur ok kennimenn, þa nalgaðiz sa timi, er guþ villdi ômbuna honum sina þionostu ok veita honum himneskan fagnat. I þann tima hôfðu Romveriar skipat yfir Achayam þann hôfðingia, er Egeas het, hans kona het Maximilla. En er Egeas varð þess viss, at kona hans var kristin vorþin, varð hann reiðr ôllum kristnum mônnum, ok for skyndiliga til borgar þeirar, er Patras het, ok hvar sem hann fann kristna menn, nauðgaði hann þa til blota. En er Andreas varð varr við þessi tiþindi, þa for hann til iarlsins ok mællti við hann: „Þer byriaði, iarl, at kenna domara þinn, þann sem æ himnum er, þar sem með hans miskunn ertu domari manna æ iorðu. Ok siþan þu hefir kent þinn sannan domara, þa skalltu dyrðka hann ok iðraz þess, er þu hefvir dyrðkat diôfla skurðgoð.“ Þa spurði Egeas: „Ertu sa Andreas, er predikar þessa villu, er romverskir hôfþingiar bioða at eyða skuli með ôllu?“ Andreas svaraði: „Romverskir hôfþingiar skildu enn eigi, at guðs son kom hingat i verôlld til þess at hialpa ôllu mannkyni, ok syndi hann með berum orðum ok iartegnum ok sagði i skurðgoðum vera diôfla, þeim er heiðnir menn dyrðka, ok þeir uhreinir andar eggia[1] menn til þess at dyrka sik, at guþ verði þeim reiðr fyrir þat, ok siþan hann snyz fra þeim, vill hann ok eigi heyra, þa er þeir ero herteknir af diôflum ok ero spottaþir af honum (!), þar til er þeira salur ero utdregnar af likamanum ôngva luti með ser hafandi utan syndir.“ Egeas svaraði: „Þa er Jesus yðvarr predikaði þvilikan hegoma, var hann krossfestr.“ Andreas mællti: „Krossins pinu tok Jesus Kristr sialfviliandi æ sik oss til lifs ok lausnar, en eigi fyrir sakir nôckurra illgerða.“ Þa spurði Egeas postolann: „Með hverium hætti færr þu þat sannat, at hann hafi sealfraði þolat krossins pinu, þar sem sealfr hann var selldr af sinum lærisveini ok hôndlaðr af Gyþingum ok krossfestr af riddorum Pilati iarls.“

1 eiga *Cd.*

Þa hóf heilagr Andreas postoli sina ræðu ok syndi iarlinum með skynsemd, at Jesus Kristr var at vilia sinum pindr, ok sagði sva: „Þa er ek var með meistara minum Jesu, sagði hann fyrir lærisveinum sinum piningh sina ok mællti sva: „Ver skulum fara til Jorsalaborgar, ok mun mannz sonr selldr vera hôfðingium kennimanna, ok munu þeir dæma hann til dauða ok fa siþan i valld heiðinna þioða, at þeir spotti hann, huðstryki ok krossfesti, ok siþan mun hann æ .iij.ia degi risa upp af dauða. Ok sem Petrus broþir minn heyrði þetta, bað hann Jesum sva skipa, at hann þylði eigi slik harðinde. En Jesus svaraði honum styggliga, ok sagði hann eigi skilia guðs vilia þar um. Ok annan tima sagði hann oss, at hann hafði valld til at skilia sina sal við likamann ok samtengia þau annan tima ok lifa siþan at eilifu. Sva sagði hann ok opinberliga, at Judas einn af hans lærisveinum mundi selia hann. Ok sem Judas hafði þessi drottinssvik fullgert, þaa vissi Jesus, hvern stað hann hafði æ keyþit, til þess at Gyþingar skylldo handtaka hann, ok for hann þegar þangat sialfviliandi ok beið þeira þar, er hann drógu til pinu.“ Sem postolinn hafði þessa luti sagt, ok sagði sik sialfan hafa verit hia þessu ôllu, þa sagði(!) hann þat til, at mikit væri stormerki krossins. En er Egeas heyrði þessi orð Andree postola, svaraði hann: „Hversu ma þat segia takn ne stormerki, helldr kvôl ok pinu, ok ef þu vill eigi lyða minu boði, þa skalltu profa æ sialfum þer stormerki krossins.“ Andreas svaraði: „Ef ek hræðumz pinu krossins, þa munda ek eigi predika dyrð krossins. En þvi vil ek þik heyra lаta dyrð krossins, at sva mætti til bera, at þu tryðir ok viðkendiz ok hialpaðiz með hans heilagleik. Ero ok margar skynsemþir, hversu nauðsynligt ok viðrkvæmiligt stormerki lausnarinnar er. I fyrstu sakir þess, at forfaþir varr Adam braut sva guðs boðorð, at hann æt epli af þvi tre, er guþ bannaði honum, þa var viðrkvæmiligt, at meyiar sonrinn, sa er Adam ok hans afspringi leysti fra eilifum dauða, veri sem epli upphengðr æ pinu krossins; sva var viðrkvæmiligt, at sva sem hinn fyrsti maðr var af uspilltri iorðu skapaðr, sva væri oc guðs son af skiærri meyiu fæddr, þa er hann kom i heim þenna at endrbæta alla luti. Ok sva sem gamli Adam retti sinar hendr ok tok þat epli, er honum var bannat, sva retti varr nyi Adam Jesus Kristr sinar hendr negldar æ kross oss til frelsis. Fyrri Adam æt sama epli með miklum lystugleika, en Jesus varr drakk beiskt eitr æ krossinum hangandi. Sva var ok nauðsynligt, at þar sem guþ villdi gera manninn

odauðligan at lifa eilifliga með sialfum ser at eilifu, þa tok guþ varr dauðligan[1] likam æ sik. En ef guþ hefði eigi dauðligr maðr gerz, þa mættim ver sea, at ver vęrim alldri odauðligir.“ Þa mællti Egeas: „Þilikan hegoma mun þer ecki stoða at tala fyrir mer, hlyð þu helldr raði minu, ok fær fornir almatkum goðum várum.“ Andreas svaraði: „Almatkum guði fornfæri ek dagliga flecklaust lamb, ok siþan kristit folk hefir etit þat sama lamb, þa er þat allt at einu lifanda ok uskatt sem aðr.“ Egeas spurði, hversu þetta mætti vera. Postolinn svaraði: „Ef þu vill geraz Kristz lærisveinn, þa skal ek segia þer hans stormerki, elligar ertu eigi verðr at vita þar nóckut af.“

10. Sem Egeas hafði heyrt sva fagrar fortólur Andree postola, varð hann ækafliga reiðr ok mællti sva til hans: „Af þvi at mer synaz orð þin hegomlig, þa skal ek með pinum krefia af þer, at þu synir skynsamliga þinar fortólur sannar vera.“ Siþan bauð iarlinn, at postolann skylldi setia i myrkvastofu. En sem annarr dagr kom, þa var Andreas postoli leiddr af myrkvastofunni fyrir domstol iarlsins. Þæ bauð Egeas honum af nyiu at færa fornir skurðgoðum sva segiandi: „Vit þu þat sannliga, Andreas, at ek skal lata þik festa æ þann sama kross, er þu lofar, nema þu gerir, sem ek byð.“ En er Egeas hafði mórgum kvólum ognat postolanum, þa svaraði hann hófsamliga sva talandi: „Hugleið þu, þræll, allzkyns pinu, ok skalltu mik buinn finna at þola þær allar i nafni Jesu Kristz, þviat ek trui mik þvi kiærra vera ok þægiligra minum konungi, sem ek þoli fleiri pinur fyrir hans nafni.“ Sem iarlinn heyrði þessi svór postolans, þa anefndi hann einn mann ok .xx. af sinum mónnum til þess at huðstrykia Andream postola. Ok er þat var gert, þa bauð hann þeim enum sómum mónnum at krossfesta postolann með þeim hętti, at þeir skylldu binda hann æ krossinn ok staga með reipum allan hans likam, ok sva skylldi hann langa pinu þola til dauða. En er hinn helgi Andreas var leiddr til krossins, þa varð mikit samlaup folksins kallanda (ok) sva segianda: „Þessi rettlatr maðr er saklauss fyrirdæmdr.“ En postolinn bað folkit, at eigi skylldi þat talma pining hans. Nu sem hinn helgi Andreas sa langt fra ser, hvar krossinn var uppreistr, þa heilsaði hann honum sva segiandi: „Heill ser þu, hinn heilagi kross, er heilagr er af Kristz likam ok pryddr af hans limum sva sem með gimsteinum, þviat aðr en drottinn varr steig upp æ þik, þa fylgði þer veralldlig hræðzla, en nu hefir

[1] odauðligan *Cd.*

þu tekit himneskan elskuga sakir heilagrar fystar, ok af þvi kemr ek nu ôruggr til þin ok fagnandi, ok sva tak þu mik með gleði, lærisvein þess, er heck æ þer, þviat iafnan elskaða ek þik. Heyr þu, hinn goði kross, sa er tokt frægð af limum drottins, lengi hefi ek girnz til þin, ok hiartaliga elska ek þik. Tak nu við mer, ok skil mik brott fra þessa heims mônnum, ok gialld mik meistara minum, at fyrir þvi taki sa við mer, er mik leysti æ þer hangandi.“ Ok sem postolinn hafði sva sagt, afklæddi hann sik ok feck i hendr, er hann skylldi pina, ok siþan hengðu þeir hann æ krossinn, ok bundu með reipum allan hans likam, sem þeim var boðit. Hinn helgi Andreas hefir tva daga verit lifandi með þess hattar pinu æ krossinum, ok voru þar hia staddir tvau þushundrat kristinna manna, þeir sem heyrðu hans predikan allan þann tima. En mikill mannfiôlði for til husa iarlsins, ok ógnuðu honum dauða ok sôgðu sva: „Fyrir hvat skal maðr guðs meinlauss, hógværr ok milldr þola þvilika pinu? Ok ef þu, iarl, lætr hann eigi ofan taka af krossinum, þa skulu ver drepa þik.“ Egeas varð hræddr við þetta orð, reis upp ok for með þeim, ok ætluðu(!) at taka postolann niðr af krossinum. En er Andreas sa iarlinn, mællti hann: „Fyrir hvi komtu hingat, Egeas? Ef þu vill iðraz misverka þinna ok trua æ guþ, þa skalltu miskunn fa af honum, en ef þu kemr til þess at leysa mik af krossinum, þa skallt þu vita þat, at alldri stig ek lifandi niðr af honum, þviat nu se ek konung minn, þann er min biðr.“ Ok sem folkit til leitaði at leysa postolann, stirðnuðu hendr þeira ok armleggir skulfu, sva at engi matti nær koma hans heilaga likama.

11. Hinn helgi Augustinus segir sva i bok þeiri, er hann saman gerði af sannri iðran, at hinn sæli Andreas postoli, sem hann sa folkit grata sina pinu, bað hann til guðs sva segiandi: „Heyr þu, drottinn minn, ek bið þik, at þu latir mik eigi lifanda niðr stiga af krossinum, þviat nu er timi til, at þu bioþir iorðunni at geyma minn likama, þviat sva lengi hefi ek borit hann, ok hann volkat ok erfiðaz fyrir honum, siþan hann var mer æ hendi folginn, at [nu lystir[1] mik með þinum vilia at verða frials af honum ok hans þunga buningi. Nu endrminnumz ek, drottinn minn, hversu hann var mer þunganarfullr ok uhægr at bera, latr ok ofmetnaþarfullr at temia til goðs, ostyrkr móti yfirkomandi freistni. Veitz þu, drottinn, hversu opt minn kranki likami villdi mik fra draga sætleik þinnar elsku, at opt unaðaði hann

1 [þu leystir *Cd.*

mik af kyrrleik minnar elskuligu hvilldar með harmi hiartaligrar æhyggiu. Kunnigt er þer, hinn goðgiarnazti faþir, hversu lengi min sal hefir i striði staþit moti sinum likam ok sigrat iafnan með þinni hialp. Ok þvi beiðumz ek af milldum ok rettvisum domara, at eigi bioþir þu mer at bera hann lengr. Tak aptr nu af mer þat goðz, er þu bauðt mer at geyma, ok fa iorðunni i valld minn likam, þar til er hann skal upprisa ok ômbun (taka) sins erfiðis af þer, ok veit eilifan fagnat, lausnari minn Jesus Kristr, er með feðr ok helgum̄ anda lifir ok rikir æn enda.“ Sem hinn helgi Andreas hafði þetta sagt, þa kom yfir hann lios af himni með mikilli birti, ok skein halfa stund dags, sva at folkit, er nær stoð, matti varla móti sea. Ok sem þat sama lios leið til himins, gaf guðs postoli upp sina sal ok for með fagnaði til himinrikis.

12. [1]Maximilla kona Egee iarls tok likama postolans af krossinum ok gerði hans utferð sæmiliga ok grof hann miôk vegsamliga. En fyrr en Egeas kom heim til sins heimilis, varð hann diôfuloðr ok kvaldiz herfiliga ok do þegar at æasiándum þeim ollum, er nær hôfðu verit pining postolans. Sva segiz, at af grof Andree postola flytr manna, þvilikt at sea sem oleum, með hinum sætazta ilm. Merkia landzmenn þar af árferð. Þa berr iorðin meira ævôxt, er fyrr nefndir lutir gefaz gnogligarr, en þa minna, er þeir faaz litilligarr þar af. Var þessi iartegn saunn, meðan likami Andree postola læ i þeim stað, er hann var grafinn. En nu siþan [hann var[2] fluttr til Miklagarðz, þa er ecki ritat af þvi, hvart þat helldz eða eigi, at þessar guðs giafar flyti fram af hans likam.

13. Einn siðsamr byskup vegsamaði hinn sæla Andream postola með einkannligri elsku millim annarra guðs vina sva hiartaliga, at ôll sin giætzkuverk sagðiz hann gera guði til tignar ok hinum sæla Andree postola til virðingar. En sem hinn forni fiandi sæ þenna hinn goða byskup breyta með heilagleika, ôfundaði hann hinn vóndi ok sina sviksamliga slægð frammi hafði, takandi æ sik einnar vęnnar iungfru æasionu. Þessi kona for til byskups ok kom til hans hallar, ok sem hun fann hans þionostumenn, teði hun þeim sitt eyrendi ok sagðiz vilia iata fyrir byskupi sinar syndir leyniliga. Sem þeir sôgðu byskupi hennar orð, bauð hann, at hun skylldi iata syndir sinar fyrir þeim, sem hann hafði fengit fullt valld til þess. Nu sôgðu byskupsmenn henni, en hun neitaði þvi ok sagðiz ôngum manni birta skulu sina leynda luti

1 Af Maximilla conu E. *Overskr.* 2 [var hann *Cd.*

nema honum sialfum. Sem byskupinu heyrði þat, bað hann, at hun skylldi til hans koma. Ok er þau voro tvau samt, hof hun sva sina ræðu: „Ek bið þik, herra minn, at þu miskunnir mer, þviat ek em ein iungfru ung at alldri, gôfugh at ætt, af konungligu kyni komin, sæmiliga ok lystugliga uppfędd i minni barnæsku, en nu em ek her komin ein saman ok utlendzk i fatækum bunaði. At sônnu var faðir minn miok volldugr i sinu riki, ok sem hann villdi gipta mik einum mikils hattar manni, villda ek þat með ôngu moti samþyckia, ok sagða ek mik hafa heitit guði, at spilla alldri minum meydómi með karlmannligri samvistu. En er faþir minn villdi þraungva mer þar til ok ógnaði mer likamligum pinum, ef ek villda eigi hans vilia gera, þa leyndumz ek i brott um nótt, ollum monnum þat ovitandum, þviat helldr kaus ek at lifa fatækliga en briota mina tru. Nu sem ek heyrða sagt fra yðrum heilagleik, þa flyði ek til yðvar væntandi, at yðart huggiæði mundi sampinaz minni vesold ok sva fyrir sea, at ek mætti her guði þiona frialsliga með kyrleik hreinnar samvitzku hlutlaus af ollum unaðum." Sem byskup hafði heyrt hennar orð, undraði hann sva mikinu astarhita i hennar briost kominn vera heilags lifnaðar með mikilli malsnilld, ok sva sem hann hugleiddi hennar volldugleik ok sva hennar fagra likama, svaraði hann sva: „Vertu ôrugg, dottir min, þviat drottinn mun veita þer sina miskunn i þessi verolld, en annars heims eilifa dyrð með sialfum ser, þviat sakir astar hans hefir þu upp gefit frændr ok fee ok þitt fostrland með, allri veralldligri sælu hefir þu karlmannliga hafnat, ok þvi skalltu mik buinn finna at gera þinn vilia, ok seg sialf, hvern stað þu vill velia i minu byskupsdæmi þer til bygðar, at þu megir eptir fyst fullgera guðliga þionosto. En af þvi at timanum liðr, þa skalltu eta með mer i dag." Jungfru svaraði: „Bioð mer eigi þat, faðir minn, þviat vera kann, at vándir menn virði þer þat til ufrægþar, en þa verðr auðruvis en ek villdi, ef þu fær nôckurn vanheiðr af mer." Byskup svaraði henni: „Ver skulum sitia fleiri saman en vit tvau ein, ok þvi ma þat með ôngu moti ill grunsemð með sônnu segiaz." Siþan gengu þau til borðz, ok skipaði byskup sva, at hvart þeira sat i mot auðru yfir borðinu, en annat folk sat tveggia vegna ut i fra þeim. Byskup leit optliga til iungfruinnar ok undraði fegrð hennar. Ok sem hans auga var lystugt til hennar æsynar, þa klôcknaði hans hiąrta til slioligs(!) sambandz með henni at hafa. Af þessu skildi fiandinn, hvat tiðt var með honum, ok let eigi sein at ser at særa hans

hug, aukandi fegrð meirr ok meirr. Ok sem byskupinn hafði staðt gert með ser, at hann skylldi leggiaz með iungfruinni, þegar hann fær ser viðrkvæmiligan stað til, þa kom til herbergis einn utlendr maðr fatækr ok kvaddi ser ækafliga inngôngu með hôggum ok háreysti, en durverþir villdu eigi upp lata fyrir honum. Ok sem hann skok hurðina, talaði byskup til iungfruinnar ok spurði hana, ef hun villdi, at sa okunni maðr gengi inn. Hun svaraði: „Berit upp fyrir hann eina þunga spurning, ok ef hann leysir hana vel, þa ma hann inn ganga, elligar er hann eigi verðr at koma i yðra hôll.“ Ollum er við voru þotti þetta goðr orskurðr vera, ok leituðu með ser, hverr til fallinn væri at tala með utlendzka mann. Ok sem engi var þess buinn, mællti byskup: „Ver seam ôngvan betr til fallinn at tala af varri hendi en yðr, þviat ollum er þat auðsieð, at yðr vantar hvarki vitzku ne malsnilld, ok þvi biðium ver yðr, at þer giorit sva.“ Hun mællti þa: „Spyrit hann, hvat guð hefir þess giort i litlum lut, at merkiligaz se.“ Sem hinn utlendzki heyrði þessa spurningh, svaraði hann: „Sva mikill mannfiolði sem verit hefir fra upphafi heims, ok sva margir sem fæðazt munu til enda veralldar, þa finnaz ôngvir þeir .ii., at likar æsionur hafi at ollum lutum.“ En allir, er heyrðu hans andsvôr, sôgðu þau hin hæstu vera. Jungfru sagði: „Ver skulum spyria hann fleiri luta, at ver verðim vis, ef hann er vitr maðr. Spyr hann, hvar i hverium stað iorðin er hæri en himinninn.“ Sem hinn utlenzki heyrði þessa spurningh, svaraði hann: „Drottinn Jesus Kristr takandi á sik mannligan likam, let pinaz ôllu mannkyni til lausnar, ok eptir pining sina ok upprisu af dauða steig hann upp yfir alla himna sannr guð ok sannr maðr með þeim sama likama, sem hann tok i sinum guþdomi i kviði sinnar blezaðrar moþur Marie, ok vit þat sannliga, at þar sem guðs likami er, þar er iorðin hverium himni hærre.“ Sem þessi andsvor heyrðuz, lofuðu allir hans vitzku ok sônnuðu hans orskurð. Jungfru svaraði: „Hina .iii ia spurningh miok diupa ok torvellda at leysa skal ek gera honum, ok ef hann leysir hana vel, þa er hann at sônnu verðr at eta með byskupi. Spyrit hann nu, hversu langt er milli himins ok helvitis.“ Hinn utlendzki maðr svaraði: „Far aptr til þess, er þik sendi til min, ok spyr hann vandliga af þessum lut, þviat hann veit þat meirr giôrr en ek, ok þat ma hann sialfr segia þer, þviat hann mællti þat rum, er til helvitis er, ok vitið þat sannliga, at su fagra iungfru er eigi kona, helldr hinn versti diôfull.“ En er sendimaðr heyrði þetta, óttaðiz hann

ok sagði ôllum, er i voro herberginu, þessi svör. Sem allir undruðuz hans sôgn, þa hvarf fiandinn brott fra þeira ôgliti. En byskupinn hugleiddi, hvert hans hiarta hafði verit, ok hvarf aptr til sinnar samvitzku æsakandi sialfan sik, ok bað guð með tarum fyrirgefa ser sinn misverka, ok sendi þegar i stað sina þionostumenn, at þeir skylldu hinn utlendzka mann inn leiða, en hann fannz hvergi. Eptir þetta kallaði byskup saman allan borgarlyð ok sagði opinberliga þenna atburð, ok bauð þeim at fasta þann dag ok biðia, at guð virðiz at birta þeim, hverr hinn utlendzki maðr hefði verit, er hann hafði frelsat af sva miklum saluhaska. A þeiri sômu nott var byskupi vitrað, at hinn helgi Andreas postoli hafði synt sik i fatækum ok i utlendzkum buningi, ok kom þar til þess at frelsa byskup af fianda svikum. En byskup þackaði guði ok hinum sæla Andree postola, hversu miskunnsamliga við hann var gert, ok elskaði hann siþan með einkannligri virþing alla tima.

14. Þat er sagt, at i borg nôckurri var einn formaðr, sa er rangliga tok undir sik akr, þann er gefinn hafði verit Andree postola. En er byskup, sa er i var staðnum, heyrði þat, bað hann hinn sæla Andream postola hefna honum, er honum gerði rangt, ok þegar i stað tok sa riðusott. Siþan bað hann byskupinn biþia fyrir ser til guðs ok iataði honum at giallda honum aptr akrinn. Ok er byskupinn vissi þat, for hann til kirkiu Andree postola, þeirar er akrinn var fra tekinn, ok braut alla lampa kirkiunnar ok sagði sva: „Her skal alldri lios tendraz, fyrr en drottinn hefir refst ranglæti sins ovinar, ok kirkian hefir sitt goðs aptr fengit.“ Ok þegar i stað tok formaðrinn hina sômu riðusott, sem hann hafði fyrr haft, ok sendi menn til byskups, bað hann enn biðia fyrir ser til guðs ok iataði þat, at hann skylldi aptr leggia akrinn Andree postola, ok leggia annan akr iafngoþan til kirkiu hans. En er sendimenn komu til byskups, sôgðu þeir honum bæn formannzins, en byskup svaraði þeim: „Ek hefi iafnan beþit til guþs, ok nu hefir hann heyrt mina bæn.“ Eptir þat let formaðrinn bera sik til byskups, oc bað hann biðia fyrir ser. Siþan bað hann fyrir (honum). Ok sem byskupinn geck i kirkiu hins helga Andree postola, ok sa hinn kranki maðr, er fyrr var fra sagt, skylldi inn ganga i kirkiuna, dó hann, ok eptir andlát hans var akr hins helga Andree aptr lokinn ok hans kirkiu var sinn skaði aptr golldinn.

Þessar iartegnir ok pislarsaugu hins sæla Andree ritaðu prestar ok diaknar i Asia, þeir sem sialfir sæ hans verk ok heyrðu hans predikan. Skulu ver biðia, at sea hinn sæli Andreas guðs postoli biði almátkan guðs son, at hann veiti oss frið ok fagnat þessa heims, en annars heims leiði hann oss með sialfum ser inn i himinrikis fagnat, þar er hann lifir ok rikir einn guð i þrenningu per omnia secula seculorum. Amen.

## IV.

Andreas postoli guds, er ver holdum i dag messudag, var fæddr i borg þeirri er Beþsaida heitir. Han var Joans sonr oc broþir Petrs postola. Han þyddisc i fyrsto Johanem baptistam oc gerdizst hans lærisvein oc beid sva cns ædra meistara[1] oc lana(r)-drotins. Oc var han þa med Joani baptista, er han syndi drotin varn med sinni hendi oc sagdi þar vera lamb guþs. En er Andreas heyrdi þessi ord Joans baptiste, þa sagdi han Petro broþor sinom til drotins vars, oc konnodosc þeir þa þegar vid han, en qvomo þa til fylgdar vid han, er han kalladi þa bada senn bredr af einom fiskibati til sins foroneytis. En fylgþo þeir honum þadan i fra i sifello, medan han var i þessom heimi, oc var su greien(!) a med þeim bredrom, at Petrus var mestr formelandi þeirra allra, en engi var þeirra diarfari of alt þat er manraun var i en Andreas. Oc þa er lidin var pislartid drotins vars oc hans uprisa oc upstigning til himna, ok han hafdi midlat astgiof heilags anda sinom postolom, þa voro þeim brat synd forlog sin, þau er guð hafdi þeim hugat, a hvert þicdland hverr þeirra skyldi fara kenningar at kenna, oc kom þat a lut Andreas postola at fara um Gricland oc um Akaia velldi.

Oc er þeir skildoz postolanir a Jorsalalandi, þa for Andreas fyrst of Griclandz eiar(!) oc kendi þar kenningar i fyrsto oc sneri

1 neistara *Cd.*

morgum monnum til rettrar truar. Han kom sidan til borgar þei(r)ar agetrar er Mirmiclonia(!) heitir, oc voro þar þau tidendi, at þangat hafdi komit Matheus postole oc gudspiallamadr oc villdi kenna þeim retta tru. En þeir toko han oc leko hart oc bordo oc settu han i myrqvastofo sidan, oc sat han þar, þa er Andreas kom i borgina. En er Andreas verdr (varr) vid, hver tidendi þar voro, þa fer hann þegar til stovonar oc braut hana upp oc leddi(!) a braut postolann, oc badodz þeir fyrir postolannir. Sidan tok Matheus syn sina, er han hafdi adr blindadr verit, oc vard han heill allra meidinga, þeirra er (han) hafdi af þeim tekit borgarmonnum. For han sidan til Blalandz oc kendi þar tru þvi landzfolki, er þar var, oc tok þar pining fyrir guþs nafn. En Andreas tok þar fyrst kennigar(!) at kenna, oc af ollu saman iartegnom hans oc kennigum toc sa borgarlydr allr retta tru, adr han færi þadan. Þa er Andreas for um Griclandz eyar, þa gerdi han allzkyns iartegnir, gaf sion blindum, heyrn daufum, rak diofla fra odom monnum, en resti(!) dauda menn til lifs.

Oc er han com i þau herod er Achaia[1] heita at bokmali oc a vara tungu er kallat Engilsnes, þa somnodoz saman þar blotmanna hofdingar(!) oc baro ogrynni fiar undir iarl heidin þan er Egeas het, oc sogþo sva: „Fra þvi er Andreas kom hingat i þessi herod, þa hefir eyz miok goda atrunadr, fyrir þvi at han banar þat miok, en margir trua hans ordum oc hafna ollum varom bodum.“ Jarlin toc vid feno oc baud sidan, at han skyldi leida i syn viþ han, oc for iarlin i borg, þa er Patras heitir, oc naudgadi monnum til blota. En honum rann i mot Andreas postole oc melti þegar vid hann fyri diarfliga: „Þat hæfir, ef þu ert domari manna her a iardriki, at þu kannizd vid domara þin, þan er a himnom er, oc mattir þu grena(!) þan gud er a himnom er, er sadr gud er, fra þeim godom, er flærdsamlig ero oc eigi ero son gud.“ Egeas mælti: „Ert þu sa Andreas, er nidr (brytr) hof goda vara oc tevgir(!) menn til þess at brio(ta) a bac Rumveria vilia oc fornar venior, þær er her hafa lengi hofdingar bodit?“ Andreas svaradi: „Ek em sa er bodar ord sanleicsins siafls(!) oc drotin Jesum Crist, at men hverfi a braut fra skurdgoda bloti oc kenist vid sana(n) gud oc lifanda, þan er alla luti hefir skapat oc os hefir frelsta fra eilifom dauda, oc mon þeim sanleicrin at fultingi verda, er a han truir.“ Egeas melti: „Hvat er sanleicrin?“ Andreas svaradi: „Sanleicrin er a himni, þar renr lios þat up, er

[1] haia *Cd.*

a braut recr flærdar myrkur, en er seð eigi þat lios, er tre eda steina ętlid guð vera. En er þu gazt vid Rumveria hofdingia, þa hafa þeir enn eigi vid kanazc, at guds sonr hafi hingat i heim komit, sa er þat kenndi, at skurdgod þau et(!) er trued a ero dioflar en eigi gud oc ovinir alz mankyns, oc kenna þat sinom atrunadarmonnum, er gud stygviz vid oc snyz fra, oc vil þeim eigi lyda, oc þa er gud snyz fra þeim, þa verda þæir herfengner af dioflinum, oc leicr han þa alt þar til er þer(!) fara af heiminum sekir oc oc necþir, hafa ecki med ser nema synder einar.“ Egeas melti: „Spurt hefi[1] ek gerla, þa er Jesum(!) vdar(!) melti slica hegoma oc þarflausor, þa crosfestu þeir han.“ Andreas melti: „Til þess ste drotin ofan af sino velldi oc toc a sic mandom, til þess at han mæti i sinom mandomi oc piningo þan leysa, er fyrst hafdi tynz fyr sina ohlydni, oc var han at sialfvilia sinom pindr ein fyr alla, at han teki af ollom qvalar i sinni piningo.“ Egeas melti: „Ef han tok af ollom qvalar, hvi þyckia þeir allir pislar verdir, er han dyrka?“ Andreas melti: „Undromc ek þat um sva vitran man, er þu skallt þat eigi skilia, at ver erom fusir pislir at taca oc lif at lata fyr guds sacar. En þvi sætir þat, at ver vitom annat lif vera sat oc eilift, ok fysomc ver af þvi til þes lifs en qvidom ecki lif at lata, oc ef þu villt vita tacn oc stormerki heilags cros oc af hvi skaparin valdi ser at sialfvilia heldr þa pining en adra, at deyia a crosinom[2].“ Egeas melti: „Hvi fer þu med slico at kalla han at sialfvilia pindan hafa verit, þars han var seldr af lerisveini sinom oc haldin af Gydingum oc crosfestr af ridderum Pilati iarls, eptir þvi sem Gydingar beiddo.“ Andreas svaradi: „Þvi sagda ec sva, at han veri at sialfvilia sinom pindr, at ek var þar med honom, er han var seldr, sem þu segir, af sinom lærisveini. En fyr en han sialfr veri crosfestr oc seldr, þa sagþi han os adr fyrir, at einn af vari sveit mundi han selia, eigi oc sidr sagdi han fyr pining sina oc upriso. En Petr brodir min bad, at eigi skyldi sva verda, en drottin svaradi honum stygliga oc bad han fra ser fara, ef han skildi eigi þa hluti, er guds voro. Oc sagdi þvi framar, at han lezc mat til hafa bædi nidr at legia ond sina oc sva up at taca hana En er ver urdum allir rygvir vid þessa rædu, þa sagdi han berliga, at sa mundi han selia, er þa toc braudskifo af hans [hendi, ok var sva sem hann sagði, sem von var, ok mattu þaðan af marka, at hann vissi gọrla fyrir ok villdi eigi undan hneigiaz.“ Egeas mælti:

1 hafi *Cd.* 2 *Eftersætningen mangler.*

„Undromz ek þik sva vitran mann oltinn i sva mikla heimsko, at[1] þu truir ne ein man mundo sialfraða vera crosfestan.“ Andreas melti: „Þu vill þer eicki(!) skiliasc þat er a mot er þinom villia(!); en þer mundi þyckia a adra leið, ef þu vissir stormerki crossins slic sem ero.“ Egeas melti: „Mer synist qvol en eigi stormerki.“ Andreas melti: „Su qvol hefir komit til leidretto ollo mankyni, ef þu vill þvi þolinmodliga lyda oc lata þer þat skiliast sem sat er.“ Egeas melti: „Þolinmodliga mon ec lyda, en ef þu lydir eigi mer, þa mundu sialfr fyrir meta stormerkiom crossins, þeim er þu lofar.“ Andreas svaradi: „Ec munda eigi boda dyrd crossins, ef ec ottodumc piningina hans.“ Egeas melti: „Ørelict mal er þitt oc diarfli(c)t, kallar þat dyrd er qvol er, oc ottasc eigi dauda sem adrir menn.“ Andreas melti: „Engi er þat dirfd, þot ec hrædomk eigi daudan, af þvi at dyrligr er retlatra manna daudi, en en versti syndogra manna daudi. En ek vilda, at þu lyddir oc tryddir(!) þvi, at eingetin guds sonr let p(i)nasc til endrbætingar andar þinar.“ Egeas melti: „Þat þarf at endrbæta, er adr hefir faritz, en hverso hefir ond min farizc, at hon þyrfi at endrbætasc.“ Andreas melti: „Ec ma þat segia þer, hverso ondin ma[2] endr bætast fyrir stormerki crosins. En fyrsti madr er skapadr var tok daudan af treno fyr ondverdo, er han at af þvi bannat epli, oc vard af þvi þan daudan at sløcqva a pislartreno. Oc sva sem en fyrsti madr var skapadr af iordinni hreini oc fleclaussi, sa er daudan toc af girndartreno[3], þa var sa getin oc af skiri meyio oc fleclaussi, er hendr sinar retti fra ser a pislartreno oc frelsti sva mennena fra eilifom dauda til eilifs lifs, oc sva sem Adam bergdi sætlec bann(a)ds eplis, sva toc oc guds sonr beiskan dryk a crosinum, at alz hatr sløcdi han varn dauda med sinom odaudleic.“ Egeas melti: „Þessi ord mattu þeim boda, er þvi vilia trua, er þu kennir, en ef þu vill eigi mer samþyckiaz oc færa fornir godum varum almatkum, þa mun ek lata þik festa a crosin þan er þu lofar.“ Andreas melti: „Ek mun fornir færa almatkum gudi, sa er sadr gud er oc lifandi, eigi mon ek honom færa griþunga hold ne hafra blod, heldr mon ec færa hvern dag fleclaust lamb a altari heilags cros. Oc þa er þes holdz neytir allir(!) lydr oc drecr þess blod, þa er þat eptir hellt(!) oc lifanda a himni.“ Egeas melti: „Hverso ma þetta vera?“ Andreas melti: „Þat ma ek þer greniliga(!) segia oc sva at þer ma vel skiliazc, ef þu vill hans lærisvein gerazc.“ Egeas melti: „Eg

[1] [*med en anden Haand.* [2] ena *Cd.* [3] giradartreno *Cd.*

mon med qvolom at þer heimta þessa frasogn" Andreas melti: „Undromc ec þic sva vitran man hrata i sva mikla heimsko, at þu munir mik til nacqvas(!) naudga. Þu heyrdir nu stormerki crosins oc sva tacn fornarinar, oc ef þu truir Crist guds son vera, þan er crosfestr var af Gydingum, oc truer han sannan vera gud, þa megum ver segia þer, med hveriom hætti þetta ma vera, at lambit se sæft oc eitit(!) oc megi þa vera eptir þat heilt oc fleclaust oc lifanda i riki sino a himni." Egeas melti: „Hverso ma lamb riki hafa, þat er adr er sæft oc etid af ollom lyd?" Andreas melti: „Þat mattu þegar skilia, ef þu villt trua af ollo hiarta þino, en ef þu vill eigi trua, þa mattu þess aldregi viss verda." Þa reiddisc Egeas oc baud at byrgia han natlangt oc qvaz a morgon skyldu reyna han fram(a)r, en þar til hafdi verit.

En er postolen var byrgdr i myrqvastovoni, þa dref(!) þangat allr heradslydr, oc villdo drepa iarlin en taca postolan 'or stofone. Oc er Andreas vard þess varr, þa stodvadi han [þa oc[1] melti: „Eigi skolod er snua hvild drotins mins Jesus Cristz i diofoligan ofrid, af þvi at þa er drotin var seldr, þa syndi han i ollom lutum þolinmædi, eigi kalladi han a strętum uti ne þræti. Nu hafid her hliod at oc verit fridsamir oc talmid eigi pining mina, heldr buid er ydr sva sem kappar guds oc verit bunir at taca[2] sialfir piningar fyr guds sacar, af þvi at su ein er qvolin ug(ga)nndi, er engan hefir endan, en manlig ogn er sem reykr se, fyr lokit en finni. Ero þessa heims ognir avallt anat hvart linar oc letbærar, oc ma þer þa audveliga bera, en ef þęr ero þungar þa taca þær brat ondina fra manne. En þeir sarleicar, er eilif(i)r ero med ser, hafa hversdagligan grat oc syting oc endalausar qvalar, til þessara ottasc[3] nu eigi Egeas at koma. Nu verit heldr bunir, brædr minir, til v(era)ldligra pininga, at er megid fyr þer koma til eilifra fagnada, þar er monod avalt i gleði oc eilifom bloma vera rikendr med gudi." Þa er Andreas hafdi alla not fyr þeim talid oc etiat(!) þa til þolinmædi oc styrct þa i retri tru alt unz lios dagr var[4].

En um dagin sendi Egeas eptir Andream oc let han leida fyr dæmistol sinn oc melti: „Til þess ætla ec, at þu munir i not vitkaz hafa oc munir lata af lofi Cristz þins oc vilia nu niota fagnada þa(!) med os, þvi at storheimslict er fysasc til crosfestingar eda i eldi at brenna." Andreas svaradi: „Ec ma hafa med þer fagnadi, ef þu vil a Crist trua oc hverfa fra villu, þvi at Cristr sendi mic til þess hingat, at ec snudgada honom margan lyd i

1 [þat *Cd.* 2 tata *Cd.* 3 ottosc *Cd.* 4 *Eftersætningen mangler.*

þeso landi.“ Egeas melti: „Fyr þvi skyldi ec þic til at blota, at þeir er fyr þic ero taldir(!) fyrlati sina villo oc hegoma oc færi þeir fornir godum varom. Nu er engi borg su i ollu Achaia, er eigi se eyd oll hof oc nidr brotin; nu matu þa vera i vari vingan, ef þu leitar þessa luti[1] at leidretta oc sæfir sva reidi godana, er nu ero adr reið ordin. En ef þu vil eigi þenna cost, þa mundo mæta morgom qvolom, oc (a) lesti skal þic festa a crosin, þan er þu lofar.“ Andreas melti: „H(e)yr sonr daudans oc eldkveyka fyrirbuen eilifom elldum, vit tu mik þion drotens oc postola Jesus Cristz! Ec hefi melt m(i)ucliga vid þic her til oc teygt þic sva til retra(r) truar, oc at þu hafnadir goda bloti[2] oc dyrkir þan gud er a himno(m) er. En ef þu stadfestir heimsko þina oc orad, þa mon ec eigi ottasc ognir þinar oc heitan, hvat sem þer synisc fram at hafa, þviat ec mon þvi þægeligri minom konungi vera, sem ec þoli meira hardretti fyrir hans sacar.“ Þa vard Egeas reidr mioc oc let han þenia[3] postolan milli tria tvegia oc fect(!) siav[4] virdinga menn at beria hann med svipum, en sidan var han leidr fyr iarlin oc melti han sidan: „Hlyd mer, Andrea, oc tac þat rad er þic frelsi fra uthelingo blods þins, en ef þu vill eigi sva, þa mun ec lata veita þer leflat(!) a crosinom“ Andre(a)s svaradi: „En em ec þærll(!) cros Cristz, oc eski ec mer heldr sigrs a crossinom en ec ottomc han. En þu mont bida eilifar qvalar, þær er þu mont eigi fordast i enni somu tru, ef þu vill þa heldr trua en adr, en ec hrellomc af gloton þini en eigi af piningu mini. Piningu(!) min mon eigi vera lengri en ein dag eda tva eda þria, en þin pining er þa eigi nęr enda, er margar þusundir ara ero lidnar. Nu þarf tu eigi af þvi at heitaz, at þu eycr þinar qvalar i þvi en eigi minar.“ Jarlin melti: „Hverf af heimsko þinni oc hird eigi þeim afleidis at snua, er adr vilia vel lifa.“ Andreas melti: „Sva b(a)ud drotin min mer Jesus Cristr, at ec skylda aldergi(!) af lata hans ord at boda oc snua (a) sanna idron (þeim), er adr fara villir ens reta.“ Egeas melti: „Heit þu mer at hverfa af kenning þini, en ella mon ec þic lata af lifi taca.“ Andreas melti: „Eigi at eins em ec buin alata(!) heldr oc at bera allar þær qvalar, er vdr(!) keimr(!) i hug mer a hendr at leigia(!).“ Þa vard iarlin reidr mioc oc baud sinom monum at crosfesta Andream med þeim hetti at binda han med reipom a crosinu oc þennia han sem i stagli, þotti þa qvalin(!) leingri en han veri negldr a crosin.

1 lutt *Cd.* 2 bolti *Cd.* 3 þeima *Cd.* 4 *eller* han.

Oc þa er han var leidr til crosfestingar, þa þusti at fioldi manna med kalli myclo oc acafa oc melto: „Hvat gerdi sia en retlati madr oc guds astvinr, er han er til cros leidr.“ Andreas bad at þeir skyldo eigi talma pining hans, for han gladr oc fagnandi oc let aldregi af sani(!) keiningo(!). En er[1] han kom þar er han sa of langa leid crosin up reistan, þa qvaddi han crosin oc melti: „Heill o(c) sæll, heill heilagr cros, er helgadr ert af licama Cristz oc prydr af hans limom sem af dyrstom gimsteinom, lengi hefir þu nu hvildzc oc min bedit, oc vittu mic en fusasta til þin vera, þvi geng ec til fus at ec keni l(e)ynda luti þina, oc ec veit, of hveria soc þu ert upreistr. Tac þu þan er til þin girnisc, ec em giarn at fina þina grein, se ec med þer þa luti, er mer ero fyrir heitnir. Tac þu, heilagr cros, litillatan fyr gudi, oc fær mic til drotins Jesus Cristz. Þu hafdir med þer iardligan otta adr drotin stigi up a þic, en nu hefir þu odladzc himnesca ost, oc em ec af þvi fus, at þu takir mic til þin,' þvi at þat er vitat af truøndom oc unondom, hve micla fagnadi þu hefir med þer, oc hve miclar giafar þu hefir bunar. Orædr oc fagnandi kem (ec) til þin, tac þu mic oc med blidom lærisveini þes, er adr hec a þer, þvi at ec var avalt þin unandi oc fus þic at fadma, þu en godi cros, er toct fegrd oc prydi af limom drotins, langæliga girniligr oc æsciligr, an aflati hefi ec þin leitat med mikilli fyst, tac þu m(i)c nu fra monum oc gialt m(i)c meistara minom, at sa taki mic fyrir þic, er mic leysti fyrir þic.“ En er Andreas hafdi þetta mælt, þa lagdi han clædi sin af ser oc gaf þeim er han pindo. Þa gengo þeir at oc hofo han up a crosin oc þondo reipo(m) allan licama hans, eptir þvi sem þeim var bodit. Þangat sotti at manfioldi mikill, eigi færa en tuttogo þusundir mana, oc var i þvi lidi brodir Egee, sa er het Stracocles. Þeir foro allir med calli miclo oc sogdo postolan at rongom domi pindan vera. En heilagr Andreas styrcþi hiorto þera oc sagdi hve mi(c)lar eilifar ombonar(!) kan(!) fyr tidlingar(!) piningar.

I þvi bili hverfr a braut þadan allr lydrin oc fer til husa iarls med hareysti miklo oc melto: „Hvart er þetta rad þin, oc rangir ero domar þinir. Hvat gerdi þessi madr rangt æda hveriar sacar ero honom at gefa? Nu mon tynaz oll var borg, oc monom ver allir farazc. Glatadu eigi borg vari oc veit oss retlatan man oc gialtdu os helgan man. Vegþu eigi þan, er bædi er kær gudi oc monum, helgan oc skirlifan, pryddan at sidleti, godan kennara,

[1] en *Cd.*

mildan oc hogveran, skyran oc skynsaman. Eigi skal han þessa pining lengr þola, han hefir nu tva daga a crosi hangit oc lætr han en eigi af got at kenna oc sedia os sinom malom helgom. Gef þu oṣ helgan man, at ver megim lifa; leysto ofan spekingin, at vart land megi miskun odlasc. Egeas d(v)alði oc villdi eigi postolan ofan leysa. Þa knudiz at allr lydrin oc villdo drepa iarl. Han vard þa hredr mioc oc sprat up af dæmistoli sinom oc for med þeim ofan at leysa postolan. En er Andreas sa han af crosinom, þa melti han: „Til hvers comtu hingat til var Egeas? Ef þu vil en vid canasc, þa mon þer en upluk(a)sc licnar gata, sem ec het þer, en ef þu komt til þess eins hingat at leysa mic ofan, þa mon eigi þat verda þit erendi, aldregi kem ec lifs af þessum crosi, þvi at ec se nu konung min, oc nu lyt ec honom oc stend ek i hans augliti, en harma ec þina vesold, er þin bidir(!) buin eilif qvol oc gloton. Ren þu vesall, medan þu matt, at eigi vilir þu þa vid leita, er þu mat eigi.“ Þa gengo men at crosinum adrir at odrum, oc villdo ofan leysa postolan oc mattu eigi, af þvi at toc or aflit allt or hondum þeim, er þeir retto up til. Þa calladi Andreas hat a crosinom oc melti: „Lattu mic eigi leysa, drotin Jesus Cristr, þion þin af þessum crossi, er ec hangi a fyr þit nafn, lattu mic eigi nu drotin i anat sin vefiasc i iardligom alıygiom, er ec em aviti ordin nu leyndra luta þina, lattu mic eigi leystan verda af þessom enom vanda mane Egea, er ec hefi nu kendan mikilleic þin fyr cros þin helgan. Tac þu mic nu, meistari min Jesus Cristr; þan hefi ec seen oc kendan oc elskadan, þan lit ec oc girnomc af hiarta ollo, oc med þeim em ec i sifello. Tac þu mic nu, drotin Jesus Cristr, en godi meistari, oc lat mic eigi fyr af crosinom leysa, en þu hefir adr tekit anda min.“ En er han hafdi þetta melt, þa com lios yfir crosin af himni, sva sem elding veri, oc sva biart, at engi mæti i gegn sia, oc var þat næ(r) halfri tid dags. Oc er liosit leid af, þa var postolen andadr oc hafdi han med þvi liosi til guds farit.

En er postolinn var af crosinom tekin, þa vard til ein gofog husfreyia, er Maximilla het, at lata grafa licama hans, oc var ridit a einom(!) dyrligstom smyrlum(!), oc fylgdi helgum domi hans til grafar allr cristin lydr, sa er i borgini var, oc var þar at ollo vandadr umbunadr, sva sem fong voro a. En Egeas var gripin af diofli oc do fyr en han qvemi heim til husa sina, oc sa allir hans dauda vesæligan. Oc er brodir hans Strazocles sa þessi tidende, þa vildi han engan lut eignasc, þan er Egeas hafdi att, oc melti

sva: „Farisc allir lutir med þer, Egeas, þeir er þu hefir att, en mer mono vel endasc kenningar þær er Andreas hefir kendar, oc mon ec þær leita at hafa.“ En eptir pining postolans oc dauda Egeas, vard sva mikill otti, at þar var engi villomadr ne heidingi, sa er eigi hefdi retta tru, oc lofodo allir gud oc dyrkodo hans postola, er þeir þago þa iarteinir af hans arnon, eptir þvi sem þa er han var lifandi, toco sion blindir en heyrn daufir, gaungo haltir, en heilso licþrair. Oc þa er guds cristni toc at eflasc mioc i Rumaborg, þa var gert þadan eptir helgum domi Andreas postola oc þangat flutr med mikilli dyrd, oc er han nu þar dyrkadr sem enir hasto(!) guds postolar an enda. amen.

## JONS SAGA POSTOLA.

### I.

1. Johannes postoli kom snemma til fylgðar með drottni varum Jesu Kristo. Johannes var broðir Jacobi postola, Zebedeus hét faðir hans, en Maria moðir, ok var hon Salome dottir, en Anna var hennar moðir ok sva Mariu drottningar. Drottinn kallaði þa Johannem ok Jacobum brøðr a enum sama degi til sinnar fylgðar sem þa Petrum ok Andream, ok letu þeir brøðr foður sinn ok farkostinn ok fylgðu drottni varum i sifellu i mikilli sømd ok virðingu af honum. Kallaði hann þa brøðr nokkurum sinnum með Petro til sva mikils trunaðar ok haleitra virðinga, sem oðrum var engum slikt veitt hans lærisveinum. Sva segir hinn helgi Mattheus postoli ok guðspiallamaðr, at drottinn kallaði þa með ser eitthvert sinn, Petrum, Johannem ok Jacobum, ok leiddi þa a eitt fjall, ok syndi hann þeim sik i annarri mynd, en þeir hofðu hann fyrr sénn: andlit hans var sva biart sem sol, en klæði hvit sem snior. Ok þa vitruðuz þeir Moyses ok Elias, ok toluðu þeir við drottin. Þa mællti Petr við drottin: „Her

er oss gott at vera, ok gerum her þriar tialdbuðir, þer eina, Moysi eina ok Elie eina.“ En er Petr mællti sva, þa kom yfir þa sky liost ok rodd af himni, er sva mællti: „Sa er sonr minn elskaðr, hlyði þer honum, hann er mer þoknanligr.“ En þeir postolarnir fellu til iarðar felmsfullir. En Jesus tok a þeim ok bað þa eigi hrædda vera. En er þeir hofu upp augu sin, þa sa þeir engan mann nema drottin Jesum einn saman. Ok er þeir stigu niðr af fiallinu, þa bauð drottinn Jesus þeim, at engum skylldi þeir segia þa sion, fyrr en hann væri af dauða risinn.

En þvi meirr sem dro at pining drottins vars, þa fylgði Johannes honum, sem þeir er fastast gerðu honum fylgia, ok spurði hann einn með meira trausti en aðrir sialfan guðs son þess, er þeim var ôllum mikils vert at vita. Ok at siðasta matborði, þvi er hann hafði með sinum postolum, aðr hann leti pinaz, þa hafði hann fyrir þeim margar røður, þær er þeir fengu af miklar sorgir ok ahyggiur; ok segir fra þeim morgum lutum gorr en aðrir guðspiallamenn hinn helgi Johannes postoli i sinu guðspialli. Ok er þar var komit røðum vars drottins, at hann sagði postolum sinum berum orðum, at einn af þeim mundi selia hann, þa gerðuz þeir hryggir við; þviat allir vissu sik sykna um þetta vera, nema sa er gerði, en i annan stað vissu þeir ok truðu, ok þat mundi allt eptir gangaz, er hann sagði þeim fyrir.

En meðan þeir røddu slika luti, þa var enum sæla Joani postola logð su virðing til handa, at hann var sofnaðr yfir briosti sialfs guðs sonar, ok hlaut hann þa sva mikla speki af sialfum spektarbrunninum drottni varum Jesu Kristo. Ok sva sem vattaz i heilagri ritningu hans, at hann hefir umfram komiz aðra mennina i sinum skilningi ok nærr flogit guðdominum hinum hæsta i sinu guðspialli, en naliga se vit til annarra manna skilningu at at koma; ok sva sem aðr var hann gnøgðr af morgum mannkostum, þa kom þo mikit við siðan, sva sem honum væri nu at gnogu byrlat i hans hit helgasta briost af sialfum spektarbrunninum, er guðs son sialfr er, allt þat er honum ok oðrum af hans munni, hvar sem heiminn byggia, mætti at mest hialp ok miskunn verða bæði þessa heims ok annars. Petr postoli bendi hinum helga Jon postola, at hann spyrði drottin, hverr hann mundi selia; þviat hann vissi, at Jesus unni honum mest, ok drottinn mundi honum sizt synia at lata hann vita þat, er hann forvitnaðiz. Ok þa spurði hann drottin varn: „Drottinn, hverr mun þik selia?“ Drottinn svaraði honum: „Þeim mun ek nu fa i hendr brauð, þat er ek

hefi aðr drepit í drykkiarker." Ok eptir þat seldi drottinn brauðit i hendr Juda, er kallaðr er Iscariot, sa er seldi drottin varn. Ok eptir matmalit um nottina, þa er hann var a bøn sinni, þa let hann þa enn nærr ser vera en aðra postola, Petrum, Jacobum ok Johannem brøðrna, sva sem segir Mattheus i guðspialli sinu.

En er varr drottinn var til piningar leiddr, þa var Jon einn eptir, er allir aðrir voru orðnir honum fraskila hans lærisveinar. Ok er drottinn varr var a kross festr, þa stoðu þessir astmenn hans hia krossinum, Maria sialf drottning moðir hans, ok þessi hans haleiti astvinr ok frændi Jon postoli, ok moðursystir drottins Maria Cleophas dottir ok Maria Magdalena. Ok er drottinn varr hafði set moður sina, þa sagði hann: „Se herna, moðir, her er son þinn." Siðan mællti hann við lærisveininn: „Se herna sonr, her er moðir þin." Ok fra þeiri tið upp tok hinn sæli Jon postoli hana i sina varðveizlu. Hvar heyrðum ver, goðir menn, haleitari dyrð, en þessum hinum helga manni var veitt af sialfum Jesu, at vera settr sonr hans moður, ok matti með rettu guðs lofi kalla hana moður sina.

2. En at liðinni piningunni ok greptri drottins, ok sialfr upprisudagr kom yfir, þa urðu þau fagnaðartiðendi, sem sialfr Jon postoli segir i guðspialli sinu. At liðnum þeim dogum þa vitraðiz drottinn Jesus Kristr postolum sinum, þar sem þeir voru byrgðir fyrir sakir ræzlu við Gyðinga, ok sannaði þa siðan fyrir þeim upprisu sina ok syndi þeim hendr sinar ok siðu, ok urðu þeir forkunnar fegnir. Siðan bles hann a þa, ok gaf þeim helgan anda ok þar með valld at fyrirgefa syndir ollum monnum, þeim er þess væri makligir, en þeim skylldi eigi fyrirgefaz, er þeir villdu at sva væri. Þat skulum ver hugleiða, at tvisvar sinnum er akveðin astgiof heilags anda við postola drottins, þetta hit fyrsta sinn, sem nu heyrðuð er, eptir upprisu drottins, er hann var nu sialfr syniliga hia þeim, en oðru sinni, er þeim var send astgiof heilags anda a hvitsunnudegi eptir uppstigning drottins, sva sem hann hafði sialfr heitit fyrir uppstigning sina. Þessi tvenn heilags anda astgiof merkir þau tvenn astar boðorð, er oss eru skylldust boðin at hallda af almattkum guði, en þat er at unna almattkum guði um alla luti fram, en elska naung varn, þat eru allir kristnir menn, sem sialfa oss. Skal su heilags anda giof, er a iorðunni er gefin, merkia elsku naungsins, er af iorðunni er skapaðr, en su astgiof heilags anda, er af himnum var send, skal merkia elsku almattigs guðs, þess er i himnum er. En fyrir þvi var heilags

anda astgiof fyrr gefin af sialfum guðs syni a iorðunni en siðan send af himnum, at ver megum sva at eins at komaz með fullu at elska almattkan guð, at ver unnim fyrir guðs sakir naungum varum kristnum monnum, þeim er ver siam hversdagliga fyrir augum oss. Sva segir hinn helgi Jon postoli i pistola sinum: Sa er eigi elskar broður sinn, þann er hann ser, hversu ma hann elska guð, þann er hann ser eigi. Þat megum ver skilia, goðir menn, at ver fam eigi unnat guði eptir makligleikum slikri elsku, sem hann unni oss, þa er hann sendi eingetinn son sinn til piningar fyrir varar sakir, nema nokkur hellzt i þvi at ver gerim guðs boðorð ok elskim naung varn, allra hellzt þann er oss þøtti annars verðari fra oss en elskunnar. Þviat þa er þat auðsýnt, at ver gerum þat þa fyrir guðs sakir, ef ver elskum þann manninn, er ella væri eigi þeirar elsku fra oss verðr. En þat er allt saman ast við guð, at gera þat er hann byðr oss, en þeir eru allir likligstir til at þiggia mesta miskunn af almattkum guði, er mest miskunna þeim, er miskunnar þurfa, ok gera þat fyrir astar sakir við guð meirr en orðlofs mannanna.

3. Sva segir Johannes postoli, at Thomas postoli var eigi við staddr þessa vitran, ok svaraði oðrum postolum, þa er þeir sogðu honum upprisu drottins, at hann mundi eigi trua, at hann væri upprisinn, nema hann sæi nagla stað i hans hondum ok fotum ok þreifaði um siðu hans, þar sem hann hafði særðr verit. En eptir atta daga voru postolarnir enn allir saman staddir, ok nu var Thomas með þeim. Þa kom drottinn til þeira ok mællti þa af einvirðingu við Thomam postola ok bað hann þa at þreifa um hendr sinar ok føtr ok um siðu sina, ok vera þaðan af trufastan en eigi otruaðan. En Thomas svaraði: „Drottinn minn ertu ok guð minn.“ Nu var i tortrygð Thomas enn sannari raun upprisu drottins, ok umþreifingu postolans ok iatningu, þar með otruleiks myrkr af sniðit þeira manna hiortum, er ella mundu efa um upprisu drottins, at hon væri eigi sva vandliga rannsokuð, at hann var með somum likama upprisinn bæði guð ok maðr.

4. Eptir þessi tiðendi spurði hinn sæli Jon postoli fra þeiri vitran, er drottinn varr syndiz lærisveinum sinum, þa er þeir voru a sæ ronir, þann er kallaðr er Mare Tiberiadis. Þar voru þeir saman siau, Petrus postoli ok Thomas postoli ok þeir brøðr Jon postoli, er nu segium ver fra, ok Jacobus, ok Nathaniel, ok tveir aðrir af lærisveinum drottins. Þeir mattu eigi fiska, fyrr en drottinn Jesus vitraðiz þeim ok stoð a strondunni, ok spurði,

hvart þeir hefði nokkut matarligt. En þeir sogðu, at þat var eigi. En hann svaraði: Lati þer net yðart a høgra veg fra skipinu, ok munu þer þa finna fiska. Þeir gerðu sva, ok þa mattu þeir eigi draga net fyrir fiolda fiska. Þa tekr til orða sa lærisveinn, er Jesus unni mest – en þa er iafnan, sem hinn helgi Jon postoli se nefndr, er sva er at kveðit – ok mællti við Petrum: „Drottinn er.“ Ok er Petr heyrði þetta, þa gyrðir hann sik kyrtli sinum ok stigr fyrir borð, en aðrir lærisveinar komu a skipinu ok fluttu net þeira til landz fullt af fiskum, en Petr dro net þeira til landz ok fiskana. Eptir þat bað drottinn þa fara at mataz, ok gaf þeim at eta brauð ok fisk. En er þeir voru mettir, þa mællti drottinn við Petrum ok spurði hann eptir þrysvar sinnum, hvart hann ynni honum. Ok hvert sinn með spurningunni þa fal hann honum a hendi gæzlu guðligrar hiarðar. Ok er Petrus hafði þrysvar iatat sik undir guðliga elsku, þa merkir drottinn fyrir honum, hvilikan dauða hann mundi þola fyrir guðs nafni. Ok eptir þat mællti hann sva við hann: „Fylgðu mer.“ Þa snyz Petrus ok leit þann lærisvein, er drottinn unni mest, sa enn sami er sofnaði yfir briost drottni at hinu efsta matborði, ok sa spurði drottin, hverr hann mundi selia. En er Petr ser þenna lærisvein, mælir hann við Jesum: „Drottinn, hvat skal sia herna?“ Drottinn svaraði honum: „Ef ek vil hann vera lata, unz ek kem sialfr, hvat kemr þat til þin? fylg þu mer.“

Þessi røða for i milli lærisveinanna, ok toku þeir sva við, at Johannes mundi eigi deyia. En drottinn sialfr sagði eigi sva, at hann skylldi eigi deyia, helldr at hann skylldi biða hans sialfs, unz hann kømi at vitia hans. Ok þat varð, sem at ván var, at fagrliga mundi ent þat við hann af sialfum drottni, sem siðarr mun enn verða fra sagt. Su er grein a gior um þessa hina haleitu guðs postola Petrum ok Johannem, at Petr hafi mest unt guði allra hans postola, en drottinn sialfr hafi Joni postola mest unt allra þeira fyrir sakir þess hins helga skirlifis, er hann hafði umfram hvern annan.

5. Eptir pining drottins ok hans upprisu ok uppstigning til himna, ok hann hafði helgan anda sendan lærisveinum sinum, þa gengu þeir fyrstir a berhogg kenningar at kenna Petrus ok Johannes, ok gerðu þeir baðir margar iartegnir, ok toku þeir i mot af Gyðingum marga bardaga ok voru iafnan i myrkvastofum møddir; en þeir fognuðu þvi ollu, er þeir toku ok þoldu i mannraunum ok piningum fyrir astar sakir við guð almattkan. En eptir þat er

postolar hofðu skipat guðs kristni a Gyðingalandi, eptir þvi sem fong voru a, þa skipuðu þeir Jacobo postola broður drottins yfir kristnina ok settu hann byskup yfir Jorsalaborg, ok logðu þeir hendr yfir hofuð honum, Petrus postoli fyrst at upphafi, ok þar siðan með honum Jacobus ok Johannes brøðr. Ok þaðan af er skynsemi til þess tekin, at engan byskup skal sva vigia, at færi byskupar se við en þrir, erkibyskup, sa er vigir, ok aðrir tveir byskupar með honum, þeir er styði þat hit haleita embætti.

En eptir þat er postolar hofðu skipaz af heilags anda tilvisan, a hvert þioðland hverr þeira skylldi fara kenningar at kenna, þa for hinn helgi Johannes postoli ok guðspiallamaðr a Asialand, ok kendi þar kenningar ok sneri þar miklum mannfiolda til almattigs guðs með fogrum iartegnum, gaf sion blindum ok heyrn daufum, ok reisti upp dauða menn til lifs.

I þann tima hafði riki tekit yfir heiminum sa keisari, er Domicianus er nefndr. Hann veitti mikinn ofrið kristnum monnum, ok var sa ofriðr næstr eptir þann, er Nero hinn vandi keisari hafði reistan. Domicianus keisari var sa hinn ovinsælasti við alla alþyðu, þviat hann var grimmr maðr, otrur ok fegiarn ok vanstilltr miok um flesta luti: meirr hlyddu menn honum ok þionuðu fyrir ræzlu sakir en astuðar. Hann sendi þau boð um riki sitt, at alla kristna menn skylldi pina eða drepa, þa er eigi villdi neita kristni eða blota skurðgoðum. Ok er þessi ofriðr gekk yfir, var hinn sæli Johannes postoli ok guðspiallamaðr staddr i borg þeiri, er kolluð er Effesus, ok þar var hann handtekinn gorr af iarli einum, ok leitat þess við hann eptir boðorði keisara, at hann mundi neita guði ok lata af kenningum þeim, er hann førði fram. Hinn helgi Johannes postoli svarar sva þessu mali: „Morgum hlutum meirr byriar mer at hlyða guði en mǫnnum. Nu fyrir þa sok mun ek eigi neita drottni minum Jesu Kristo, ok alldri mun ek af lata at boða hans hit haleitasta nafn, þar til er ek hefi fyllda at guðs vilia mina lifdaga ok þa hina helgu þionostu guðs, er mer er til handa huguð ok selld af almattkum guði.“ Við orð þessi postolans varð iarlinn akafa reiðr ok bauð at taka postolann ok varðveita með grimmum varðhǫlldum. En i annan stað lætr hann rita bref, þat er sva mællti ok hann sendi Domiciano keisara, ok stoðu þessi orð a þvi brefi:

Hinum milldasta keisara ok sinum drottni Domiciano sendir iarl Effesiorum kveðiu. Ver vilium kynna yðarri hinni hæstu dyrð, at hingat a Asia er kominn einn maðr af kyni ebreskra

manna, sa er Johannes heitir, hann boðar folkinu at trua a Jesum Kristum hinn krossfesta, ok þat sannar hann, at Jesus er guðs son lifanda. Allan atrunað goða varra, þeira er ver hyggium, at alldri mætti sigruð verða, þa onytir hann, ok þau hin gôfugligu hof, er naliga hafa alla æfi staðit, þa brytr hann niðr. Er þessi hinn fiolkungi galldramaðr gagnstaðligr yðru boðorði, ok hefir nu af sinni fiolkyngi ok velum ok boðum snuit mestum luta borgarlyðsins i Effesoborg til dyrkanar við hinn krossfesta mann hinn dauða. Nu fyrir þa sok at ver hofum mikit astriki a oðauðligum goðum ok berum þar fyrir mikla umvandan, þa buðum ver at leiða hann fyrir vara domstola, ok logðum stund a með bliðum orðum ok striðum at minna hann a at neita guði sinum Jesu Kristo eptir yðru boðorði, ok leti af at boða nafn hans en førði þvilikar fornir almattkum goðum varum. En er ver mattum með engum hætti þessu til leiðar koma við hann, þa letum ver rita bref þessi ok sendum siðan yðru konungligu velldi, at hvatki er yðarri mikilmennzku likar at gera af þessum hinum olyðna manni, er fyrr var nefndr, þa latið yðr soma at gera oss þat i kunnleika, þoat ver sém lagir hia yðr. Lifit heilir.

En iafnskiott sem Domicianus keisari hafði lesit brefit, þa var hann akafliga oðr ok bauð iarlinum, at hann skylldi leiða Joan postola fiotraðan til Romaborgar. En þat voru lôg þeira, at þeim manni skylldi engum biðia lifs eða lima, er i Romaborg væri fiotraðr leiddr. Ok er þetta boðorð keisara kemr fyrir iarlinn, þa lætr hann taka hinn sæla Joan postola ok setia i iarn ok flytr hann sialfr til Romaborgar.

En þa er þeir koma þar, þa segir iarl Domiciano keisara kvamu Johannis. En hinn grimmasti keisari Domicianus byðr sva iarlinum, at hann skyli Joan postola ok guðspiallamann beria með svipum ok skera af honum harit allt, sva at ollum monnum mætti hann sem ovirðuligastr þikkia. Eptir þat skylldi hann lata setia hann i ketil kvikan, fullan af (vellanda) viðsmiôrvi, ok skylldi hann sva lata lif sitt, ok kvað a stað, hvar þetta skylldi gera, fyrir utan lið þat a Romaborg, er Porta Latina er kallat. Ok bauð hann, at oll sveit Romaborgar olldunga skylldi við vera stodd þessi tiðendi. Eptir þat let iarlinn domstol bua ser i akveðnum stað, ok siðan let hann þangat leiða hinn sæla Joan postola, ok bauð at føra hann or klæðunum ok beria hann með svipum ok klippa af honum harit allt. Kveliarar gerðu sem þeim var boðit. Eptir þetta var gort eptir boðorði hins grimmasta

keisara Domiciani, ok var hinn sæli Joan postoli ok guðspiallamaðr settr i vellanda viðsmiðr at hiaverondum ollum Romaborgar olldungum. Ok var honum su vist. sva høg, sem hann væri i laugu hofliga heittri; ok segir heilog bok, at hann kømi iafnskirr þaðan ok heill or vellanda viðsmiðrvi, sem hann var skirr ok reinn fra ollu saurlifi. Þessi hinn dyrligi atburðr varð pridie nonas Maii. Þann dag eru siðan tiðir gỏrvar hinum sæla Joani postola ok guðspiallamanni. En til merkia ok eilifrar minningar hins sæla Joans postola ok guðspiallamannz um þenna hinn postoliga sigr, þa letu kristnir menn kirkiu gera i þeim stað, sem þessir atburðir gerðuz, ok er þannug mikil for kristinna manna, ok margr maðr fær þar mikla bot ok fro sinna meina fyrir miskunn almattigs guðs en arnaðarorð hins sæla Joans postola ok guðspiallamannz. Eptir þessi stortiðendi villdi iarlinn giarna lata Joan postola ok guðspiallamann i frelsi a braut fara, ef hann þørði fyrir keisaranum.

Ok er Domicianus vissi, at hann matti eigi a þa leið veita liflat hinum sæla Joani postola ok guðspiallamanni, sem hann hafði ætlat, þa bauð hann þat, at hann skylldi flytia i eyðiey, þa er Pathmos heitir, ok hugði, at hann skylldi þar svellta i hel, ok bannaði þar ollum monnum honum biỏrg at veita. En guð veitti honum sva mikla likn, at hann syndi honum leynda luti, bæði þa er a himni eru ok a iorðu, ok marga doma sina. En a hinu sama ari, sem Joan var i Pathmos, toku Romveriar Domicianum af lifi með mikilli ovinsælld ok odømum, at þeir attu þing i borginni eptir liflat hans ok dømdu þat a þingi, at þat skylldi allt vera leyft, er hann hefði bannat, en þat bannat allt, er hann hafði leyft. Voru ok a braut reknir allir frændr ok vinir Domiciani, en þeir voru allir sømdir, er hann fordømdi.

En af þessum ollum saman atburðum voru menn sendir eptir Joani postola, ok þar sem hann hafði dømdr verit af Domiciano til utlegðar ok liflatz, þa var hann nu aptr fluttr til Effesoborgar með virðingu ok vegsemd, sem vera atti. Borgarlyðr allr, karlar ok konur, runnu a mot postolanum með miklum fagnaði ok kolluðu: „Blezaðr er sa er kemr i nafni drottins.“ En er postolinn gekk i borgina, þa var borit i mot honum lik husfreyiu þeirar, er Drusiana het, er verit hafði vinkona postolans mikil, meðan hon lifði. Liki hennar fylgðu fatøkir menn margir, ekkiur ok utlendir menn, foðurlausir ok frændlausir, ok gretu miok ok mælltu: „Heilagr Joan postoli, her førum ver þer Drusianam, er avallt

lyddi þinum aminningum; hon føddi oss ok klæddi ok þionaði með reinlifi ok i litillæti ok girndiz mest þinnar aptrkvamu, ok þotti ser enskis at vant, ef hon næði þik at sia.“ Þa bauð postolinn, at niðr skylldi setia bararnar, ok bauð at leysa skylldi likit, ok kallaði þa siðan ok mællti: „Drottinn Jesus Kristr vekr þik, Drusiana; ris upp þu ok statt a føtr þina, ok hverf aptr til hus þins, ok bu mer veizlu i husi þinu.“ Hon reis upp ok laut postolanum, ok þotti ollum likara þvi, sem Drusiana væri af svefni vakin helldr en af dauða reist. Þa kallaði allr lyðrinn naliga um þriar stundir dags ok mælltu: Einn er guð, sa er Johannes boðar, einn er hann ok sannr drottinn Jesus Kristr.

6. Þa er hinn sæli Joan postoli ok guðspiallamaðr kom aptr or utlegð heim til Effesoborgar, eptir þvi sem nu er fra sagt, þa var Nerva orðinn keisari, ok at hans boði var hinn sæli Jon braut fluttr or Pathmos, ok sva allir aðrir menn, þeir er Domicianus keisari hafði i utlegð latið fara, þa voru þeir aptr fluttir. En er hinn sæli Johannes rendi augum nokkut yfir kristni almattigs guðs, þa er hann hafði aðr sialfr setta ok samda, aðr hann væri i braut rekinn or Asia, þa þotti mikit skioplaz hafa fyrir sakir villumanna, þeira er þar hofðu mikinn yfirgang haft, meðan hann hafði a brottu verit, ok nu vill hann þat fyrst allra hluta endrbøta, er þeir hofðu brotið, ok sva haleitligt rað i moti setia, ef slikir lutir kynni optarr moti at beraz, at sizt mætti heilagri guðs kristni at meini verða, ok menninir mætti einfalldastir verða i heilagri tru guði til dyrðar en sialfum ser til eilifrar nytsemdar. Hann hefr upp guðspiall sitt, þat er hann orti sialfr ok ritaði með sva haleitri heilags anda gipt, at hann hefir miklu nærr komiz at røða um eilifan guðdom almattigs guðs en hverr annarra manna, ok þann hinn haleitasta getnað guðs sonar, er hann var getinn af almatkum guði feðr sinum fyrir allar tiðir. Ok er upphaf þess guðspiallz: In principio erat verbum. Endir guðspiallzins er ok akafa haleitr, ok sva hvert orðit þar i milli. Þessu hinu sama guðspialli fylgia margar aðrar haleitar ritningar, þo at guðspiallit beri af ollum oðrum, ok eru hans pistolar lesnir um alla guðs kristni, ok byr þar enn i mikil nytsemd ollum þeim monnum, er ser vilia þat i nyt føra með miskunn almattigs guðs.

7. Hinn helgi Joan postoli kendi iðuliga kenningar, ok þar með gerði hann fagrligar iarteignir optliga, þo at ver munim fár segia af mǫrgum, ok kemr fafrøði var til þess en eigi vilialeysa. Sa atburðr varð um dag, at einn hǫfuðspekingr, sa er Kraton er

nefndr, hafði haft uppi a torgi þess hattar mal um þessa heims hófnun, at hann hafði eggiat brøðr tva at selia foðurleifð sina, en kaupa með gimsteina, en briota þa siðan i augliti allrar alþyðu. Ok er sveinarnir gerðu þetta, bar sva til, at þar kom at farandi hinn sæli Johannes postoli, ok kallar til sin Kraton speking ok mællti við hann: „Heimsklig er su heimshafnan, er lofuð er af monnum en fordømd at rettum domi almattigs guðs. Ok sva sem su lækning er hégomlig ok onyt, er eigi batnar meinanna við eða sottarinnar, sva ok hit sama er su hegomlig kenning, er hvarki gerir, at hon bøtir siðu mannzins ne grøðir sar andanna. Minn meistari drottinn Jesus Kristr lærði sva einn ungan mann, þann er girndiz at komaz til lifs eileifs, ok mællti við hann þessum orðum: „ef hann villdi algorr maðr vera, skylldi hann selia alla eigu sina ok gefa fatøkum monnum, en þar i mot skylldi hann van eiga eilifs fiarlutar i himinrikis dyrð ok þar með lifs eilifs, er engan hefir enda.“ Kraton spekingr mællti: „Agirni grandar morgum manni, er hennar avoxtr berliga brotinn i þessu a milli manna. En ef almattigr guð er sannliga þinn meistari, sva sem þu segir, ok vili hann, at verð þessarra gimsteina se helldr gefit fatøkum monnum, þa lattu verða grødda gimsteinana, ok þat sama, sem ek hefi geri latið til manna lofs, þa lattu verða til dyrðar þess hins sama guðs, er þu kallar meistara þinn.“

Þa samnar hinn sæli Joan postoli saman gimsteinabrotunum ok leggr i hendr ser, ok hefr upp hendr sinar til himins ok mællti: „Heyrðu, drottinn Jesus Kristr, þeim er ekki er omattuligt, sa er endrbøtir brotinn heiminn fyrir girndartreit fyrir tre heilags kross, trufostum monnum þinum (til) hialpar; sa hinn sami drottinn, er augun gaf þeim, er blindr var borinn, ok þat sama eðli augnanna, sem honum hafði aðr neitað verit eptir likamligu eðli, þat gaftu honum aptr; sa hinn sami drottinn, sem aptr kallaðir til lifs Lazarum, þann mann er aðr hafði fiora daga i leiði legit, ok grøddir allan siukleika ok allar sottir með þinum hinum mattkasta krapti, verð þu nu við minu akalli yfir þessa hina dyrligu steina, er þeir hafa brotið til manna lofs, er eigi vissu avòxt olmusugerðar; heyrðu nu, drottinn, endrbøttu steina þessa fyrir hendr engla þinna, at verð þeira megi snuaz til hialpar þeim, er þurfa eru, ok sem flestir truaðir menn megi koma til þin, almattigr guð faðir, sa er eigi hefir getinn verit! fyrir eingetinn son þinn drottin varn Jesum Krist ok helgan anda, lysara ok helgara allrar kristninnar.“ Ok er allir truaðir menn, þeir er

hia postolanum voru, hofðu svarat ok sagt amen, þa voru sva samanfest gimsteinabrotin, at alldri sa, at þeir hefði brotnir verit. Þa fell Kraton spekingr, ok þeir hinir ungu menn ok allir lærisveinar hans, til fota postolanum, ok toku retta tru ok voru allir skirðir. Siðan tok Kraton at boða tru berliga a drottin varn Jesum Krist. Eptir þetta selldu þeir brøðrnir gimsteinana ok gafu verðit fatøkum monnum, ok þa tok otalligr lyðr ok fioldi truaðra manna iafnan at fylgia hinum sæla Joani postola.

8. Eptir þetta gerðu ok aðrir gôfgir menn i Ephesoborg eptir dømum þeira brøðra, ok selldu alla eigu sina ok gafu verðit fatøkum mônnum, en fylgðu sialfir postolanum, hvargi er hann for of borgir ok boðaði guðs ørendi. Sva barsk at eitthvert sinn, þa er þeir gengu inn i borg, þa er Pergamus heitir, þa sa þeir þræla sina skrydda með silkiklæðum ok ganga fram skinendr i þessa heims dyrð. En er sva barz at, þa urðu þeir brøðr lostnir af diôfulligri ôr ok urðu hryggvir miok ok hôrmuðu, at þeir baru einn môttul ok voru fatøkir, en þeir sa þræla sina forkunnar vel buna. En hinn sæli Joan postoli skilr bratt þess konar harma, er þeir hôfðu, ok mællti þa: „Ek skil gløgt, at þið hafit skipt hugum ok yfirlitum, fyrir þvi at þit fylgðut kenningu mins drottins Jesu Kristz ok gafut alla luti fatøkum mônnum, þa er þit attuð. Nu ef þit vilit taka til ykkar þa hluti, er þit attut i gulli ok silfri ok dyrligum steinum, ok endrbøta sva skaða þann, er þit þikkiz fengit hafa, þa føri þit mer retta vôndu bundna saman i kerfi.“ Ok er þeir hôfðu sva gert, þa kallaði postolinn a nafn drottins, ok urðu þa vendirnir at gulli. Eptir þetta mællti postolinn við þa: „Førið mer smasteina af sævarstrôndu.“ Ok er þeir hofðu sva gôrt, þa kallaði postolinn a almattigt nafn drottins, ok snuaz steinar þessir i gimsteina. Þa mællti postolinn við þa brøðr: „Fari þit nu .vii. hina næstu daga til gullsmiða ok gimsteinamanna, ok latið reyna, hvart þetta se satt gull ok sannir gimsteinar; komit siðan aptr til min, ok segit mer, hve reyniz.“ Eptir þetta foru þeir brøðr, eptir þvi sem postolinn hafði fyrir mællt, ok at .vii. dôgum liðnum komu þeir aptr til postolans ok sogðu sva: „Drottinn, segia þeir, við hôfum komit til allra gullsmiða, ok sôgðu allir okkr eitt til, at þeir hefði alldri set iafngott gull; við fundum ok þa menn, er gløgt kunna gimsteina at sia, ok sogðu þeir ok allir eitt, at þeir hefði ok þessa steina bezta sena.“ Þa svarar hinn helgi Joan postoli: „Farit nu ok leysit aptr til yðar iarðir þær, er þit hafit við himneskum fagnaði selldar, þviat þið hafit nu glatat þeim fagnaðar ômbunum,

er ykkr voru hugðar i himneskum fagnaði. Kaupit nu silkiklæði ok skinit um stundar sakir sem rosur, en er þær rotna, er ilmr þeira (er) sem mest(r), þa falla þær enn braðliga. Þit andvôrpuðut, er þit sað þræla ykkra auðga orðna en ykkr fatøka, ok syttuð þvi; verit nu blomgaðir, unz þit bliknit, verit nu auðgir stundliga, en at eilifu fatøkir. Hvat syniz yðr nu þa? Ma eigi hônd almattig guðs sva gera, at þrælar verði auðgir ok skini i mikilli dyrð? Þa þraut hefir almattigr guð sett ôndum manna, at þeir er fyrir guðs sakir vilia eigi stundlig auðøfi hafa, þa skulu þeir trua, at þar fyrir skulu þeir hafa eilif auðøfi.

Meistari varr sagði oss sva fra einum auðgum manni: sa kræstiz vandliga hvern dag, ok hvern dag bioz hann við gull ok purpura, en fyrir dyrum hans la einn þurfamaðr, sa er Lazarus er nefndr, sa girndiz miok til at eta mola, þa er felli af diski hins auðga mannz, ok villdi engi gefa honum; en hundar komu til ok sleiktu sar hans. Sva barz at, at þeir ônduðuz baðir a einum degi. Lazarus þessi hinn fatøki var fluttr i faðm Abrahams, en hinn auðgi maðr var grafinn i helviti. Siðan hefr hann upp augu sin, þar sem hann var i kvolum staddr, ok leit hann Lazarum sitia langt fra ser i faðmi Abrahams. Siðan kallar hann hatt ok mællti: „Faðir Abraham, miskunna mer ok send Lazarum, at hann drepi hinum minzta hlut fingrar sins i vatn ok lati koma i munn mer, at ek mætta køla tungu mina, þvi at ek kveliumz i loga þessum.“ Abraham svaraði honum ok mællti: „Minnztu, sonr, at þu tokt goða luti aðr i lifi þinu, ok Lazarus slikt hit sama illa luti; en nu er hann huggaðr, ok þu ert kvaldr. En i þessum ollum lutum þa er sva mikit forað ok stirt var a milli, at sa ma eigi hingat koma, ok engi heðan þangat fara.“ Þa svaraði hinn auðgi maðr: „Ek atta fim brøðr, þvi bið ek, at Lazarus eða nôkkurr maðr, sa er af yðr se sendr, vari þa við, at eigi komi þeir i þenna kvalastað.“ Abraham svaraði: „Þeir hafa Moysen ok aðra spamennina, hlyði þeir þeim.“ Eptir þetta mællti enn hinn auðgi maðr: „Eigi munu þeir trua, drottinn, nema nokkurr maðr risi upp af dauða, sa er þeim segir, hvat titt er.“ Abraham sagði: „Ef þeir trua eigi Moyse ok spamônnunum, þa munu þeir eigi trua þeim, er af dauða riss.“

Allar þessar røður styrkti drottinn varr ok meistari með iartegnakrôptum. Ok þa er hann var spurðr af monnum, þeim er heyrðu hans kenningar: Hverr kom hingat til þess þaðan at segia þetta, sva at ver megim trua þvi? Drottinn sagði: Berit hingat

til min þa hina dauðu menn, er þer hafit til. Eptir þat baru þeir til hans þria likami dauðra manna, ok reisti hann þa upp alla til lifs, sva sem hann vekti þa af svefni, ok sonnuðu þeir þa alla luti, er hann sagði. En hvat skal ek segia ykkr fra drottni minum, með þvi at enn eru þeir her menninir við staddir, er ek hefi reist af dauða i nafni hans sialfs, sva at þit hafit við verit. Seð hafið it, at ek hefi i hans nafni grødda kararmenn ok reinsat likðra, gefit sion blindum en rekit diôfla fra oðum mônnum. Þessi auðøfi megu þeir menn eigi hafa, er elska þessa heims auðøfi. Muna megu þit þat, at þa er sialfir þit gengut til siukra manna ok lôgðut hendr a ok kolluðut a nafn drottins Jesu Kristz, þa urðu þeir heilir. Þit rakut diofla fra oðum monnum ok gafut sion blindum. Se herna! bratt er þessi miskunn nu fra ykkr tekin, ok eru þit nu bratt orðnir vesælir menn, er aðr vorut styrkir ok miklir. Ok sva mikill otti var sialfum diôflunum at ykkr, at með ykkru boði urðu þeir lausa at lata þa menn, er þeir hôfðu aðr i sinu valldi hafða; en nu munu þit ottaz alla diofla, þviat sa hverr er elskar fiarlut, sa er þræll Mammona. Mammona þat er diôfuls nafn, sa er ræðr fyrir rangri agirni ok drottnar þeim monnum, er þenna heim elska. En þeir sialfir er elska heiminn ok safna saman miklum auðøfum, þa eignaz þeir eigi at helldr auðøfin, helldr ma hinn veg rettiligarr at kveða, at þau eignaz þa. Nu með þvi at engi maðr hefir meirr en einn maga sialfr, en þo vilia þeir varðveita sva mikinn mat, at þar af mætti fylla þusund manna kviðu, ok engi maðr er meirr en einn likami, ok hafa þo margir sva mikla klæðagnott, at vel mætti einn maðr klæða þusund manna. En þvi þurfti þess sizt, at eigi veit sa, er slikt dregr saman, hverium til handa hann varðveitir. Sva mælir heilagr andi fyrir munn Davids konungs: Hegomliga ræliz margr maðrinn. Ok enn mælir hann lengra fram: sa er samandregr fiarlut ok veit eigi, hverium til handa hann safnar saman. Nakta hefir moðir oss fødda alla i heiminn, bæði þurfum ver þegar klæðnað ok mat ok drykk; en hvatki er ver hôfum, meðan ver lifum, þa skal iôrðin við nôktum taka varum likômum, þviat þeir hafa af berri iorð skapaðir verit. Oll himnesk auðøfi hafa i þessum heimi iafnt auðgir ok fatøkir, fyrst solar lios ok tungls ok annarra himintungla; allir hafa iafnhôrð veðr ok goð, iafnheimil er kirkia fatøkum sem rikum, iafnheimil skirn ok fyrirgefning allra synda, ok smurning heilagrar krismu, ok heilôg berging holdz ok bloðs drottins vars Jesu Kristz, ok eigi er firr heilags anda gipt fatøkum en auðgum,

þviat almattigr guð er harðla iafnlyndr i sinni tilskipan, en dømir eigi eptir þessa heims metnaði, helldr eptir sônnum verðleikum, ok eigi ma annan veg niota þessarra guðs giafa auðgir en fatøkir. Vesæll er sa maðr, er þat vill varðveita meira en þarf, með þvi at hann ma um sinn fiarlut alldri ôruggr vera, helldr at hann ma eigi stundum niota með fagnaði sialfr þess, er hann þurfti at hafa, tekr hann riðusott eða onnur mikil ohøgindi a likama sinum; þa ma hann eigi matar neyta, eigi ma hann drekka með fagnaði, ok er þa sem agirni mannzins se mint a, hvat hon hefir gort; þviat þat er hon hefir nott ok dag ahyggiu fyrir borit ok enga tið latið varðveizlulaust, veit hann eigi, hverr hafa skal, en sialfr ma þa eigi miok vera um sik oruggr. Nu gengr mart at solu þessa heims mônnunum: þiofar megu eigi briota hus þeira, iarðir þeira eru fagrliga fagaðar, gengr vel plogr þeira, ok ætla at hafa onnur misseri meira sað, en þeir hafa fyrr haft, ekki giallda skatta; þeir lata reisa hia torgum storar buðir, fullar af kaupskap, ok ætla ollum mikit at vinna, skipa ollu til snuðar; mykia með bliðmælum reiði ser meiri manna, en þa er þeim misbioða hinir minni menn, þa skal taka af þeim hvern penning; þeir reiðaz hveriu orði, er aðrir mæla, en stilla sialfir litt orðum sinum, ok ef nôkkurr mælir til iafns við þa, þa megu þeir þat varla bera; ollu samþykkiaz þeir, þvi er likamanum þykkir blitt vera; rita stundum fe sitt ok bliða þar a huginn; stundum skal leika, en stundum tefla, ok varaz hvarki at saurga sik ne aðra i munuðlifi; ok eptir þetta fara þeir af heiminum með braðum bana neykðir með ollu, bera ekki með ser nema syndir sinar, ok skulu þeir þa fyrir þeira sakir þola eilifar piningar.“

Þa er hinn helgi Joan postoli hafði þetta mællt, þa var borit hia þeim lik eins ungs mannz. Moðirin fylgði likinu, ok hafði mist aðr buanda sins. Sa hinn ungi maðr hafði kvangaz fyrir manaði, ok var þar með likinu su kona hin sama. Ok fellu ôll til fota postolanum með miklum grati ok baðu hann i guðs nafni, at sva sem hann reisti Drusianam til lifs, sva baðu þeir hann reisa upp þenna mann af dauða. Sa maðr var syrneskr at kyni ok hafði heitit Stacteus. Sva var mikill gratr allra manna, ⌈at sialfr Joan postoli matti eigi vatni hallda. Siðan leggz hann til bønar ok baðz ˌfyrir lengi með tarum; eptir þat reis hann af bøn sinni, retti upp baðar hendr sinar ok baðz lengi hlioðliga fyrir. Ok er hann hafði þetta þrysvar gert, þa bað hann at leysa likit. Siðan mællti hann: „Heyrðu, hinn ungi maðr ok hinn

syrneski Stacteus, þu vart ofmiok gefinn likamligri ast, fyrir þvi mistir þu sva skiott andar þinnar. Heyr þu, hinn ungi maðr, sa er eigi vissir skapara þinn ok eigi ser þu hialpara mannanna, eigi vissir þu sannan vin þinn; nu fyrir sakir þinnar ovizku hittir þu a hinn versta andskota. Mòrgum bønum ok tarum hefi ek framhellt i augliti drottins mins fyrir þinar sakir, til þess at þu mættir verða fra dauða leystr. Ok nu ris þu upp, ok boða þessum tveim brøðrum Attico ok Eugenio, hversu mikla dyrð þeir hafa latið, ok hve mikla pining þeir eiga fyrir hòndum.“ Þa reis Stacteus upp i augliti postolans ok dyrkaði hann, ok siðan mællti hann til þeira brøðranna, ok tok at avita þa miok ok mællti þessum orðum: „Ek sa engla ykkra, þa er ykkr hofðu ætlaðir verit af guði til varðveizlu, ok gretu þeir miok; en i oðrum stað sa ek aru diôfulsins, ok fògnuðu þeir miok glatan ykkarri. Ek sa riki þat, er ykkr var fyrirbuit, ok þau hin haleitu herbergi, er ykkr voru til handa huguð ok gòr af skinandi gimsteinum; þau voru full af eilifu liosi, full af eilifum krasum ok eilifri skemtan. Slika luti hafi þit fyrirlatna, en fengit ykkr þa staði i moti, er fullir eru af myrkrum, fullir af drekum ok gnistondum logum, fullir af kvòlum ok ollum oumrøðiligum piningum, fullir af otta, fullir af òskurligri ogn. En þit hafit fyrirlatið þa staði, er fullir eru af òllum blomum, þeim er alldri kunnu at fyrnaz, af allzkonar fògrum ròddum, ok tekit þar a moti þa staði, sem eilifr gratr er ok ylun bæði nætr ok daga. Engi er ykkr annarr a gorr, en biðia postola drottins, at sva sem hann reisti mik upp til lifs fra dauða, sva reisi hann ykkr upp fra andar dauða, ok nòfn, þau er nu eru af skafin lifsbok, mætti þangat enn aptr leiðaz með guðs miskunn.“ Eptir þat falla þeir til fota postolanum Atticus ok Eugenius ok |Stacteus, er af dauða var reistr, ok með þeim allr lyðrinn, ok baðu postola guðs, at hann bæði þeim miskunnar við almattkan guð. Enn sæli Joan postoli gaf þeim þau svor, at þeir brøðrnir skylldu syna guði iðrun sina þriatigi daga, ok bæði ser miskunnar af guði, ok þat með at gullvendirnir mætti aptr snuaz til sinnar natturu auðgætligri, sem þeir hòfðu aðr verit. Eptir þat er liðnir voru .xxx. daga, þa voru eigi steinarnir aptr komnir til sinnar natturu. Þa komu þeir aptr Atticus ok Eugenius til postolans ok mælltu við hann: „Avallt hefir þu miskunn kenda, drottinn, ok avallt likn boðaða, þu bautt sva, at maðr skylldi manni vægia, ok ef almattigr guð vill, at maðr vægi manni, sva miklu meirr mun almattigr guð vægia mònnunum. Hneyktir erum við i synd okkarri, ok þat

sama sem við girndumz með augunum, hôfum við nu gratið með augunum. Biðium við þik nu, drottinn, biðium við þik nu, postoli drottins, at þa hina somu likn, er þu hefir iafnan fyrirheitið i orðunum, syn þu nu i verkunum." Ok er þeir nu iðruðuz ok gretu miok, ok allir þeir er við voru staddir, þa mællti hinn sæli Joan postoli: „Drottinn guð várr hefir sva mællt, at hann vill eigi syndugs mannz dauða, helldr vill hann, at hann snuiz aleiðis ok lifi. Ok þa er drottinn Jesus kendi oss kenningar ok røddi um þa menn, er gerðu sanna iðran sinna andmarka, þa mællti hann sva: Vist segi ek yðr, at mikill fagnaðr er guðs englum af þeim manni, er snyz fra syndum sinum til sannrar iðranar, en meiri fagnaðr er þeim at einum þessum manni, helldr en af niu mônnum ok niutigum, þeim er eigi þurfa at biðia. Nu vil ek yðr vita lata, at varr drottinn hefir þegit iðrun þessa manna." Ok eptir þat snyz hann til þeira brøðranna ok mællti við þa: „Fari þit nu ok berit nu aptr vonduna til skogar, þaðan sem þit tokut fyrir ôndverðu, þviat nu eru þeir aptr snunir til sinnar natturu; berit aptr ok steinana, þviat nu eru þeir slikir sem fyrr." Ok er þetta var allt gort, sem postolinn bauð, toku þeir brøðrnir Atticus ok Eugenius alla slika miskunn, sem þeir hôfðu fyrr haft af heilags anda gipt, sva at þeir raku diofla fra oðum monnum, en gafu syn blindum ok heilsu siukum, ok allzkonar krapta gerði almattigr guð fyrir þeira arnaðarorð.

9. Sva hefir sagt byskup, sa er Eusebius heitir, i bok þeiri, er kôlluð er Ecclesiastica Historia, at þa er hinn helgi Joan postoli ok guðspiallamaðr var aptr kominn or eynni Pathmos til Effesoborgar eptir dauða Domiciani, þa var hann þess beðinn, sem hann gerði, at fara sem viðazt um heruð ok borgir at boða orð guðs ok semia kristni almattigs guðs, vigia kirkiur eða lata reisa i þeim stôðum, sem eigi voru aðr. Hann setti ok kennimenn til varðveizlu kirkiunnar eða kristninnar, bæði byskupa ok presta ok aðra lærða menn, a þann pall hvern, at vigslunum fylgði, eða stað, sem honum var aðr af helgum anda til visat. En er hann var kominn til einhverrar borgar ok hafði þar tiðir veittar ok alla þa luti, er til guðligrar þionostu komu, þa sa hann þar einn ungan mann vænan ok mikinn vexti, sterkan at afli en harðla oraðinn i skapsmunum. Siðan mællti hinn sæli Joan postoli við byskup, þann er skômmu aðr hafði vigðr verit: „Þenna hinn unga mann fel ek þer a hendi at guðs vitni ok allra heilagra, at þu gætir hans forkunnar vandliga." Byskup tekr við manninum ok heitr

þvi postolanum, at hann skal alla hluti eptir þvi sva gera, sem hann bauð. Postolinn minnir hann a miok opt, at hann skyli gæta vandliga, en hann heitr honum hinu sama avallt. Ok eptir þat ferr postolinn a braut ok aptr til Effeso. Ok er hann var i brautu, leiðir byskup þenna mann hinn unga i sialfs sins herbergi; hann sitr longum a tali við hann ok telr fyrir honum helga tru, fær honum allra luta vel, þeira sem hann þyrfti at hafa, ok er hann bliðr við hann, ok eptir þat skirir hann hann ok veitir honum alla þionostu helga. Ok er hann hafði þetta allt at gort, er honum þotti skylldast vera, þa let hann þenna hinn unga mann fara nockuru sialfraðara. En er nockurar stundir liðu, þa slær þessi hinn ungi maðr ser lausum við um vel flesta hluti, þa er syndum sættu, ok aflar ser sveitar þeira manna, er galausastir voru ok helldr østu hann en stilltu um allt, þat er illa samdi, ok hans iafnalldrar voru. Leggiaz nu allir saman i drykkiur ok i saurlifi þvi næst, ok a nottum sitia þeir um herbergi manna ok taka at stela. Ok eigi þikkiaz þessir menn sva miklu mega a leið koma, þvi er illt er, sem þa lystir til, fyrr en þeir reðuz i braut fra oðrum monnum ok ut a merkr ok skoga, ok gerðuz hinir mestu illvirkiar, ok var þessi hinn ungi maðr foringi þeira til allra illverka. Kom honum þat i hug stundum, at þetta semdi illa, ok varð honum þat eigi til meiri hialpar, en þa tok hann at ǫrvilnaz með ollu. Lagði hann þat þa fyrir sik at gera sem verst verk, en hugði, at þa mundi ekki stoða aptr at hverfa.

En er miok lengi hafði þannug fram farið, þa kemr hinn sæli Joan postoli ok guðspiallamaðr at bøn manna til þessar borgar hinnar somu. Ok er hann hafði skipat þeim hlutum ǫllum, er til kristninnar komu, þa mælir hann við byskup þann, er fyrr var getið: „Þat er nu rað, byskup, at þu selir framm þann lut, er ek sellda þer til varðveizlu næstum, er ek var her i þessi borg, at vitni guðs ok heilagrar kristni. Byskup varð ottafenginn við þessi orð hans ok ætlaði, at hann mundi heimta at honum fiarlut nockurn, þann er hann þottiz eigi hafa við tekit, hyggr at fyrir ser, at þat var ekki Jons at fara með neina flærð ne lygi, at þat eitt mun hann heimta, er rett mun vera; hyggr at fyrir ser, ok eigi ma hann finna at helldr. Slær þa a hann þǫgn ok kann engu svara. Þa mælir hinn sæli Joan postoli berara við hann: „Þann hinn unga mann heimti ek at þer, er ek fal þer a hendi, at þu skylldir abyrgz hafa at guðs vitni ok þeirar kristni, er þu ert yfir settr.“ Þa svarar byskup ok grætr miok: „Dauðr er

hann, drottinn.“ Postolinn svarar: „Hvener andaðiz hann, eða hvat varð honum at bana?“ Byskup svaraði: „Guði er hann dauðr ok ollum goðum monnum, þviat hann er orðinn hinn versti maðr; lagðiz fyrst i saurlifi allzkonar, en a lesti gerðiz hann illvirki, ok nu liggr hann uti a fialli nokkuru, ok mikil illvirkiasveit með honum.“ Þa er hinn sæli Joan postoli heyrði þessi orð, þa fekk honum sva mikils, at hann slitr klæði af ser ok mællti til byskups: „Goðan varðveizlumann fekk ek, þar er þu vart, eða hversu gættir þu broður okkars. Bui mer nu hest ok fai mer leiðtoga at leita hans.“

Eptir þat sprettr hann upp ok ut or kirkiunni, ok stigr þegar a bak ok riðr sysliga, kemr þar farandi, sem illvirkiarnir voru fyrir. Þeir taka hann þegar hondum, en hann vill allz ecki flyia. Þa segir hann þeim ørendi sitt: „Hofðingia yðarn vil ek finna, þvi at þat er mitt ørendi.“ Siðan er sent eptir honum. Ok er hann er miok i nand kominn, þa kennir hann hinn sæla Joan postola ok vill þegar flyia undan. Postolinn gefr þa litinn gaum at miklum alldri, stigr a hestinn ok hleypir eptir honum ok kallar af miklu afli: „Hvi flyr þu, son minn, foður þinn gamlan? Hvi flyr þu vapnaðr maðr ok ungr vapnlausan mann ok gamlan? Hvi forðaz þu þann, er Kristr hefir sendan til hialpar þer. Hræztu eigi, vesall maðr, hefir þu enn nokkura van, þviat ek skal giallda guði skynsemi fyrir þik, buinn skal ek at deyia fyrir þinar sakir, sva sem Kristr do fyrir varar. Nem þu staðar nu, son minn, þvi at mina ond mun ek i veð leggia fyrir salu þina, til þess at þu megir hialpaz. En þu trui þvi fastliga, at Kristr hefir sendan mik.“ Ok er postolinn hafði þetta mællt, þa nam illvirkinn staðar ok tok sanna iðran allra sinna gløpa, ok gret þat þa beiskliga, er hann hafði aðr afleitliga misgert. Ok eptir þat fellr hann til fota postolanum ok biðr ser hialpar ok miskunnar. Postolinn var þa af baki stiginn með oumrøðiligu litillæti, ok þa fellr hann til fota illvirkianum. Ok er þeir voru baðir uppstaðnir, þa ser postolinn, at hinn ungi maðr vill fela hina høgri hond sina. Postolinn skilr, hvi þat gegnir, ok mundi hann þar með margs mannz saklausu bloði ut hafa hellt með þeiri somu hendi. Tekr siðan til handarinnar, ok dregr at ser ok kysti, ok mællti siðan við hann: „Verðu styrkr nu, son minn, ek skal biðia fyrir þer an aflati ok iafnan fasta með þer, øðlaz muntu likn af almattkum guði.“ Siðan fara þeir aptr til borgarinnar, ok skilz eigi hinn sæli Joan postoli fyrr við þenna mann, en hann hafði

leiddan hann i kirkiu ok i fullt samlag kristinna manna, ok gaf siðan a honum eitt hit fagrligsta dømi ollum syndugum monnum, þeim er sannliga vilia iðraz sinna synda. Þessi maðr lifði siðan vel ok skynsamliga alla sina æfi, ok varð hann mikill guðs vinr fyrir arnaðarorð hins helga Joans postola.

10. Þa er sva var komit, at mestr luti liðs i Effeso ok naliga allr lyðr um allar borgir ok heroð i Asia dyrkuðu hinn sæla Joan postola, ok boðoðu hans dyrð, en truðu a almattkan guð, þa sofnuðuz saman aller blotmenn, þeir er i Effeso voru, ok buðu sva mikinn ofrið hinum sæla Joani postola, at þeir toku hann hondum ok drogu hann til hofs þess, er þeir hofðu eignað Gefion, ok villdu þar neyða hann til blota. Þa mælir hinn sæli Joan postoli: „Ek mun nu gera yðr iafnaðarkost; ek mun leiða yðr til kirkiu drottins mins Jesu Kristi, ok siðan kalli þer a nafn Gefionar ok biðit hana fella ofan kirkiuna, ok ef hon gerir þat, þa mun ek samþykkiaz við yðr. En ef þer megit eigi þetta gera oll saman, þa mun ek kalla a nafn drottins mins Jesus Kristz ok biðia hann fella ofan allt hofit ok briota skurðgoðit allt i sundr, þetta er þer dyrkit. Ok ef þetta verðr allt, eptir þvi sem ek mæli, þa mun þat synaz sannligt at fyrirlata þenna hinn hegomliga atrunað við Gefion, ef hon er þa sigruð ok i sundr brotin af drottni minum, ok þa skulu þer vilia hverfa eptir mer ok trua allir a einn guð.“ En þa er postolinn hafði þetta mællt, fagnaði allr lyðrinn, ok þott þeir væri nokkurir, er i moti villdu mæla, þa var þat þo mestr hluti manna, er þessu samþyktuz. Þa mællti hinn sæli Joan postoli við lyðinn, at allir menn skylldi ut ganga or hofinu ok vera hvar fiarri. Ok er allir menn hôfðu sva gort, sem postolinn bauð, þa mælir postolinn biartri rôddu, sva at allir menn heyrðu: „Drottinn minn Jesu Kriste, ek bið þik, at þu briotir niðr hofit þetta með ollum þeim skurðgoðum, sem i þvi eru, sva at engum manni verði mein at, en menn megi at sônnu þvi trua ok vita, at þetta hof Gefionar ok skurðgoð hefir diofull bygt en eigi guð.“ Ok iafnskiott sem postolinn hafði þetta mællt, þa brotnaði allt senn hofit ok þau ôll skurðgoð, er i þvi voru, ok siðan varð þat allt at dupti einu. Þenna dag sneruz til truar .xii. þusundir manna heiðinna, ok voru þa hvarki talin bôrn ne konur. Ok siðan tok lyðrinn at kalla: „Einn er guð sannr guð, þann er dyrkar Johannes.“

Ok er þessi tiðendi ser byskup, sa er Aristodimus er nefndr, sa hafði yfirmaðr verit allra blota, þa verðr hann fullr af hinum versta anda ok hinum illgiarnasta ok vekr ofrið i moti Joani

postola. Ok er postolinn ser þetta, þa mællti hann. „Segðu mer, Aristodime, hvat ek skal þess gera, at ek mega taka reiði þessa hina miklu or skapi þer?“ Aristodimus svaraði: „Ef þu villt, at ek trua a guð þinn, þa mun ek gefa þer eitr at drekka, ok þa er þu hefir drukkit, ok deyr þu eigi skiott af eitrinu eptir þann drykk, þa þikki mer þat at sonnu sia mega, at sa er drottinn guð, er þu dyrkar.“ Hinn sæli Johannes svaraði: „Þoat þu gefir mer eitr at drekka, en ek kalla a nafn drottins mins Jesu Kristz, þa mun ekki eitrit mer granda mega.“ Þa mællti Aristodimus: „Þat skulum ver fyrst at gera, at þu skallt sia, at aðrir drekka, ok deyia, þegar þeir hafa drukkit eitrit.“ Eptir þat for Aristodimus til fundar við iarl, þann er yfir borginni var, ok bað hann fa ser tva menn, þa er aðr voru til hoggs ætlaðir fyrir sakir gløpa sinna. Ok eptir þat setr hann þa a mitt manna motit hia postolanum i augliti allz lyðsins, ok let þa drekka eitrit; ok iafnskiott sem þeir hofðu drukkit, fellu þeir dauðir niðr baðir. Eptir þat mælir Aristodimus: „Hlyð þu mer, Johannes, ger annathvart skiott, hverf fra þeiri kenningu, er þu hefir ǫllum lyð með snuit fra goðum varum, eða tak her nu við eitri, ok drekk sem skiotast, til þess at þu synir guð þinn almattkan vera, ef þu ert alheill eptir, þa er þu hefir drukkit.“ Þa gekk hinn sæli Joan postoli fram hia þeim, er dauðir voru, ok tekr oskialfandi við eitrinu. Siðan gerði hann krossmark yfir kerinu ok mællti sva: „Heyr þu, drottinn minn ok guð, faðir drottins mins Jesu Kristz, með þess orði eru himnar styrktir, undir þann eru allir hlutir orpnir, til þess luta allir hlutir, ok undir þann lytr allr mattr; ok þa er ver kollum a þitt hit helgasta nafn oss til fulltings, þa verðr hvert eitt kvikendi aflima, ok hver naðra ok dreki, alldri er hon sva grimm, at hon verði eigi allt afl sitt at lata; fyrir þinu helgasta nafni sloknar scorpio, sigraz regulus, spalangus ma eigi illt gera a moti þinum vilia, ok oll onnur eitrkvikendi, maðkar, ok hvart sem þat er ferføtt kvikendi eða skriðkvikendi, allt þat er dauðamark nokkut i byr ok fylgir, þa sloknar allt, ef þat er þinn vili; heyr þu, drottinn minn, ok lat þat verða mer at engu meini, helldr gef þu nu þessum mǫnnum ǫllum, er her eru við staddir, rettsyni til at sia þa hluti, er þeim skiptir miklu mali, ok þau eyru, er hlyði þinum boðorðum, ok þat hiarta, er skilia megi mikilleik dyrðar þinnar.“ En er postolinn hefir þetta mællt, þa gerir hann krossmark yfir munni ser ok drekkr af gorvallt. Ok er hann hafði drukkit, þa mællti hann:

„Þess bið ek enn, drottinn, at þeir hinir somu menn, er mik hafa þenna drykk drekka latið, snuiz til þin ok oðliz af þer hialp ok miskunn.“ Eptir þat horfir allr lyðr a hinn sæla Joan postola um þriar tiðir dags, ok alldri sa þeir hann roðna ne blikna eða annan veg bregðaz i sinu yfirbragði, helldr var hit sama bliðligr ok glaðligr ok þekkiligr i ollu yfirbragði. Eptir þat kallaði lyðrinn allr ok mællti sva: „Einn er sannr guð, þann er dyrkar Johannes.“

Aristodimus villdi enn eigi trua, en lyðrinn tok at asaka hann. Siðan snyz hann til postolans ok mællti við hann: „Enn er eptir efi nokkurr i skapi minu; ef þu reisir upp til lifs þa menn, er aðr eru dauðir af eitrinu, þa mun hugskot mitt hreinsaz af ǫllum efa.“ En er lyðrinn heyrir þessi orð Aristodimi, þa risu allir i moti honum ok mælltu sva: „Ver munum brenna þik kvikan i elldi ok allt hyski þit, ef þu þorir at møða postola guðs lengr i þessu mali.“ Hinn sæli Joan ser, at þa horfir enn til hins mesta ofriðar, biðr hann ser hlioðs ok mællti, sva at allir heyrðu: „Sa er hinn fyrsti af guðligum krǫptum, ok er oss skylldliga boðinn eptir at likia, at hafa þolinmøði i frammi; en þat er þolinmøði, at þola heimsku ok motgerðir ovitra manna fyrir guðs sakir. Nu með þvi at Aristodimus hellzt enn i otru sinni, þa skulum ver leita at leysa otruleiksknuta hans, þa er hann er með bundinn, ok þo at seint verði, þa skulum ver sva gert fa, at hann skal kannaz við skapara sinn. Eigi mun ek af lata, fyrr en sar hans eru með ǫllu groin; mun ek gera sem aðrir læknar, þeir er siukan mann hafa með hǫndum, þann er miok er þurfi lækningar, ok þvi meiri stund sem þeir hafa a lagt, þvi meira þikkir þeim skipta, at þat komi vel at halldi, er þeir hafa til lagt, ok verði maðrinn heill. Slikt hit sama er hann nu; ef Aristodimo vinnr eigi þorf þat, er aðr er at gort, þa skulum ver leita annars raðs, ok vita, ef þat megi helldr duga.“

Eptir þat kallar hann til sin Aristodimum, ok gaf honum kyrtil sinn, en stoð sialfr eptir i mǫtlinum. Þa mællti Aristidimus við postolann: „Hvat skal mer kyrtill þinn?“ Postolinn svaraði: „Hann skal syna þik sialfum þer, hversu hneykiligr þu ert, ok hverf þu braut siðan fra otruleik þinum.“ Aristodimus svarar: „Hversu mun kyrtill þinn þat gera mega, at ek mega hverfa braut fra otruleik minum.“ Hinn sæli Joan postoli svarar: „Far þu nu ok legg hann yfir lik þeira manna hinna dauðu, er eitrit drukku, ok mæl þessum orðum: Postoli drottins mins Jesu

Kristz sendi mik til yðar, til þess at þer risit nu upp af dauða i nafni þess hins sama guðs, ok allir menn viti ok við þat kanniz, at bæði þionar lif ok dauði sinum drottni Jesu Kristo.“ Ok er Aristodimus hafði þetta gert, þa risu þeir þegar upp heilir. En er Aristodimus ser þat, lytr hann hinum sæla Joani postola, ok ferr siðan skyndiliga til fundar við iarlinn ok kallar harri rôddu: „Hlyð þu mer, herra iarl; veit ek, at þu matt muna þat, at ek hefi optliga eggiat yðr til reiði mikillar i moti hinum sæla Joani postola, ok marga luti illa hefi ek við hann gorva. Nu skômmumz ek þess allz, ok uggi ek mer nu reiði hans, þviat hann er guð ok leyniz undir mannligri asionu; þviat ek gaf honum eitr at drekka, ok eigi at eins var hann alheill fyrir þa sok, helldr gerði hann þvi framarr, at þeir menn, er eitrit hofðu drukkit ok dauðir voru, þa risu þeir upp til lifs, þa er ek lagða minum hôndum kyrtil hans a þa; ok eru þeir nu sva heilir, at alldri er dauðamark a þeim.“ Jarlinn mællti: „Hvat villtu nu þa at við gerim?“ Aristodimus svaraði: „Við skulum fara baðir ok falla til fota postolanum ok biðia okkr liknar, ok gera siðan hvat er hann byðr okkr.“ Eptir þat foru þeir baðir saman ok fellu til fota postolanum ok baðu ser liknar. Postolinn tok við þeim með miklum fagnaði ok þakkaði almattkum guði margfalldliga miskunn sina, ok eptir þat bauð hann þeim at fasta eina viku ok iðraz annmarka sinna. En er su vika var liðin, þa skirði hinn sæli Joan postoli iarlinn ok Aristodimum ok allt frændlið þeira ok tengdamenn ok þionostumenn. Eptir þat brutu þeir ôll skurðgoð, er þeir hôfðu at varðveita, ok gerðu kirkiu til dyrðar hinum sæla Joani postola, ok var hann i þeiri hinni somu kirkiu numinn til himna, með þvi moti sem nu munum ver segia.

*11.* Þa er hinn helgi Johannes hafði lifat i þessum heimi niu vetr ok niutugu vetra, þa vitraðiz honum sialfr drottinn varr með lærisveinum sinum, ok mællti við hann: „Kom þu til min, hinn ynniligasti minn astvin, þviat nu er su tið komin, er þu skallt niota eilifrar sælu i samkundu minni með brøðrum þinum.“ Hinn sæli Johannes reis upp þegar ok villdi fara. Drottinn mællti þa enn við hann: „Drottinsdag þann, er kemr eptir fim daga ok halldin er minning upprisu minnar, þa skalltu koma til min.“ Ok er drottinn hafði þetta mællt, þa hvarf hann fra honum at syn upp til himna. En þa er hinn næsti drottinsdagr kom, þa safnaz (menn) til fundar við hinn sæla Joan postola til þeirar kirkiu, er i hans nafni hafði smiðuð verit; kom þar margr lyðr.

Ok fra hinu fyrsta hanagali ok til dagmala þa veitir hann monnum helga þionostugerð guðs ok þar með fagrligt formæli ok astsamligt. Ok eptir þat mælir hann þessum orðum: „Brøðr minir ok systr ok samþrælar ok samerfingiar ok hluttakarar drottins vars eilifs! Kenniz þer við drottin varn Jesum Kristum, hversu mikla krapta ok hversu mikil stormerki ok vingiafir með heilagri kenningu hann hefir ser latið soma at veita yðr fyrir mik. Verit nu staðfastir ok þrarækir i þessum boðorðum, þviat nu hefir minn drottinn latið ser soma at kalla mik af þessum heimi.“ En er postoli guðs hafði slika hluti mællt, þa let hann grof grafa hia alltarinu ferskeytta ok bera ut molldina alla or kirkiunni, ok siðan stigr sialfr Joan postoli ofan i grofina ok rettir upp hendr ok mællti sva: „Laðaðr kem ek til þin, drottinn minn Jesus Kristr, þviat þu lætr þer soma at laða mik til þinna krasa; veiztu, at af ollu hiarta minu girnumz ek til þin. Sa ek andlit þitt, ok var mer, sem ek væra af dauða reistr ok hefða ek aðr i leiði legit. Ilmr þinn hefir vekraðar upp með mer eilifar girndir. Rodd þin er full af hunangligum søtleik, ok viðrmæli þitt samvirðiligt engla malum. Hversu geysi opt sem ek hefi beðit þik, at ek skyllda til þin koma, þa svaraðir þu mer: bið þu enn, til þess at þu megir leysa þann lyð, er a mik vill trua. Þu hefir varðveittan likama minn af allri saurgan ok leysta ond mina ok alldri fyrirlatit mik, þa er ek for i utlegð ok ek hvarf aptr þaðan. Þu hefir þer latit soma at setia mer i munn orð sialfs sannleiks þins, ok latit mik muna vitni at bera krapta þinna, ok hefi ek rituð þau hin somu verk, er ek hefi set augum minum, ok þau orð, er ek hefi heyrt af þinum munni með minum eyrum. Nu fel ek þer a hendi sonu þina, er heilog kristni sonn mær ok moðir hefir borit ok endrgetit fyrir vatn ok helgan anda. Tak þu mik nu, drottinn, at ek mega vera með brøðrum minum, er þu komt sialfr ok laðaðir mik. Luk þu upp fyrir mer, drottinn, þviat ek tek nu at knyia a dyr eilifs lifs, sva at myrkra hofðingiar komi ekki mer i mot, ok ofmetnaðar fotr komi ekki mer i nand, ok engi hond komi su við mik, er þer er fiarlæg; helldr tak þu mik, drottinn, eptir þinu orði ok leið mik i samkundu krasa þinna, þar sem kræsaz með þer allir vinir þinir, þviat þu ert Kristr ok sonr guðs lifanda, þu hefir holpit heiminum eptir boðorði foður þins, sa er per lætr soma at gefa oss helgan anda, ok þu gerðir oss luttakara af heilags anda miskunn þinna boðorða. Fyrir þann sama helga anda gerum ver þer þakkir um endalausar alldir allda.“

Allr lyðrinn studdi mal postolans ok sagði Amen. Þa kom lios mikit yfir postolann, sva at engi matti i gegn sia, ok hellzt þat um halfa tið dags. En eptir halfa tið dags var til grafarinnar farit, ok fannz ekki vætta nema himnamiðl, ok verða siðan i þeim sama stað allzkonar iartegnir, ok fa menn þar bot meina sinna fyrir arnaðarorð hins sæla Joans postola. Likami hins sæla Joans postola hefir alldri fundinn verit, ok er þat a enskis mannz viti, hvart hann hefir þegar með likama upp verit numinn a þeim hinum sama degi, eða hefir guð varðveitt likama hans til upprisu. Þat segia helgar bøkr, at bæði hafi þau andaz af þessum heimi hin dyrliga drottning himins ok iarðar, hin sæla Maria moðir drottins, ok hinn helgi Joan postoli; en um likama kunnum ver eigi at røða, en því truum ver, at beggia þeira likami se miklu helgari, en neinum manni se lofat hendr eða vitorð a at hafa.

12. Nu hofum ver yfirfarit hit liosasta um nokkura atburði, þa er ver hofum i bokum lesit um hinn sæla Joan postola ok guðspiallamann. Ok þo at her um muni miklir frøðimenn margra hluta sakna, þeira er litlu væri oskylldara i frasogn at føra, en þessir er nu hofum ver sagða, þa væntum ver þo um þa menn alla, er þessa frasogu festa með athuga ok hafa gorsamliga i minni, at þar af megi þeir ser kaupa marga goða hluti með ast ok elsku við almatkan guð ok þenna hans hinn haleita astvin enn sæla Johannem postola. Er oss þat nu ok oll nauðsyn, goðir menn, at felaz a hendi þessum gôfugliga guðs postola, þar sem almattigr guð drottinn varr Jesus Kristr, sonr guðs lifanda, fal honum a hendi hina helgustu mey Mariu moður sina, er hann unni sialfr um alla menn aðra fram. Biðium nu þar með af ollum hug þenna hinn dyrliga guðs astvin Johannem, at þar er honum varð auðit skirra lifs ok hreinna en hverium annarra karlmanna, at hann styrki oss með sinu arnaðarorði til betra lifs ok skirra, en ver hofum hingat til haft. En fyrir þat sama astriki, sem almattigr guð unni honum umfram aðra postola, þa styrki hann oss til sannrar astar við almatkan guð, ok at ver faim yfirbot allra varra misgerða við sialfan hann, ok at ver mættim vera með sannri iðran ok hialpsamligum viðrbunaði vars andlatz teknir til paradisar hvilldar, þa er ver skiliumz við þetta lif. En sva sem almattigr guð kom sialfr at vitia þessa sins astvinar, ok laðaði hann með ser til eilifra fagnaða, sva lati hann ser ok soma, þa er hann kemr a hinum efsta domi at døma um allt

mannkyn, ok postolarnir at døma með honum, at laða oll oss til eilifrar samvistu með sialfum ser ok ollum helgum monnum per omnia secula seculorum. Amen.

---

### *Fragment A.*

*1**

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

guði en maunnum. Nu fyṙ þa sauk mun æk æigi næita drottne minum Jesu Kristo, ok alldrege mun æk af lata at boða hans hit haleitasta nafn, þar til er ek hefi fyllda at guðs vilia mina lifdaga ok þa hina helgu þionostu guðs, er mer er til handa huguð ok selld af almattkum guðe.“ Við orð þesse postolans varð iarllinn akafa ræiðr ok bauð at taka postolann ok var(ð)væita með grimmum varðhaulldum. En i annan stað lætr hann rita bræf, þat er sva mællte, ok hann sende Domiciano keisara, ok stoðu þessi orð a þvi bræfi:

Hinum milldasta keisara ok sinum drottne Domiciano sendir iarll Effesiorum kveðio. Ver vilium kynna yðarri hinni hæsto dyrð, at hingat a Asia er kominn æinn maðr af kyni ebreskra manna, sa er Johannes heitir, hann boðar folkinu at trua a Jesum Kristum hinn krossfesta, ok þat sannar hann, at Jesus [er sannr guðs] son lifanda. Allan atrunað goða varra, þæira er ver hyggium at alldrege mætti sigroð verða, þa unytir hann, ok þau hin gaufugligo hof, er naliga hafa alla ævi staðit, þa brytr hann niðr. Er þesse hinn fiolkunge galldramaðr gagnstaðligr yðro boðorði, ok hefir nu af sinne fiaulkynge ok velum ok boðum snuit mestum luta borgarlyðsins i Effesoborg til dyrkanar við hinn krossfesta mann hinn dauða. Nu fyrir þa sauk at ver haufum mikit astrike á udauðligum goðum ok berum þar fyrir mikla umvandan, þa buðum ver at læiða hann fyr vara domstola ok laugðum stund a með bliðum orðum ok striðum at minna hann á at næita guðe sinum Jesu Kristo eptir yðro boðorði, ok leti af at boða nafn hans, en førðe þvilikar fornir almattkum goðom varum. En er ver mattum með engum hætti þesso til leiðar koma við hann, þa letum ver rita bref þessi ok sendum siðan yðro konungligo

* *Jvf. ovenfor S. 417[20]-421[2].*

velldi, at hvatke er yðarri mikilmennzko likar at gera af þessum hinum ulyðna manne, er fyr var nefndr, þa latið yðr soma at gera oss þat i kunnlæika, þo at ver seem lagir hia yðr. Lifið hæiler.

En iafnskiott sem Domicianus keisari hafði lesit brefit, þa var hann akafliga oðr ok bauð iarllinum, at hann skylldi læiða J(o)an postola fiøtraðan til Romaborgar. En þat voru laug þæira, at þæim manne skyllde engum biðia lifs eða lima, er i Romaborg væri fiotraðr læiddr. Ok er þetta boðorð keisara kemr fyrir iarllenn, þa lætr hann taka hinn sæla Joan postola ok setia i iarnn, ok flytr hann sialfur til Romaborgar.

En þa er þeir koma þar, þa segir iarll Domiciano keisara kvamo Johannis. En hinn grimmasti keisari Domicianus byðr sva iarllenum, at hann skyle Joan postola ok guðzspiallamaun beria með svipum ok skiera af honum harið allt, sva at aullum maunnum mætti hann sem uvirðuligastr þikcia. Eptir þat skyllde hann lata setia hann i ketil kvikan fullan af viðsmiørve, ok skyllde hann sva lata lif sitt, ok kvað a stað um, hvar þetta skyllde gera, fyrir utan lið þat a Romaborg, er porta latina er kallat, [Ok bauð hann, at au]ll svæit Romaborgar auldunga skyllde við vera staudd þessi tiðendi. [Eptir þat let] iarlinn domstol bua ser i akveðnum stað ok siðan [let hann þangat læiða] hinn sæla Joan postola, ok bauð at føra hann or klęðunum ok beria hann með svipum ok klippa af honum harit allt. Kveliarar gerðu, sem þæ(i)m var boðit. Eptir þetta var gort eptir boðorði hins grimmasta keisara Domiciani, ok var hinn sæli Joan postole ok guzspiallamaðr settr i vellanda viðsmiør at hia veraundum aullum Romaborgar aulldungum. Ok var honum su vist sva hég, sem hann væri i laugu haufliga(!) hæittri. Ok segir heilog bok, at hann kømi iafnskirr þaðan ok hæill or vellanda viðsmiørve, sem hann var skirr ok ræinn fra ollu saurlife. Þessi hinn dyrlige atburðr varð pridie nonas Maii. Þann (dag) ero siðan tiðir gôrvar hinum sæla Joani postola ok guðzspiallamanne. En til merkia ok æilifrar minningar hins sæla Joans postola ok guzspiallamannz um þenna hinn postoliga sigr, þa leto kristnir menn kirkio gera i þe(i)m stað, sem þessir atburðir gerðoz, ok er þannog mikil før kristinna manna, ok margr maðr fær þar mikla bot ok fro sinna mæina fyr miskunn almattigs guðs en arnaðarorð hins sæla Joans postola ok guzspiallamannz. Eptir þessi stortiðendi villde iarllinn giarna lata Joan postola ok guzspiallamann i frelsi a braut fara, ef hann þørði fyr kæ(i)saranum.

Ok er Domicianus visse, at hann matti æigi a þa læið væita liflat hinom sæla Joani postola ok guzspiallamanne, sem hann hafði ættlað, þa bauð hann þat, at hann skylldi flytia i eyðiey, þa er Pathmos hæitir, ok hugði, at hann skyllde þar svellta i hel, ok bannaði þar aullum maunnum honum biørg at væita. En guð væitti honum sva mikla likn, at hann syndi honum leynda lute, bæði þa er a himne ero ok a iorðu, ok marga doma sina. En a hino sama are, sem Joan var i Pathmos, toku Romveriar Domicianum af lifi með mikille uvinsælld ok odømum, at þeir attu þing i borginne eptir liflat hans ok dømðu þat a þingi, at þat skyllde allt vera leyft, er hann hefðe bannat, en þat bannat allt, er hann hafðe leyft. Voru ok a braut reknir allir frændr ok vinir Domiciani, en þeir voru allir sømðir, er hann fordømðe.

En af þessom aullum saman atburðum voru menn sendir eptir Joani postola, ok þar sem hann hafði dømdr verit af Domiciano til utlegðar ok liflaz, þa var hann nu aptr fluttr til Effesoborgar með virðingo ok vegsemð, sem vera atte. Borgarlyðr allr karlar ok konur runnu a mot postolanum með miklum fagnaði [ok kolluðu]: „Blezaðr er sa er kiømr i nafne drottins.“ En er postolinn g[eck i borgina], þa var borit i mot honum lik husfreyio þæirar, er Drusiana het, er verit hafði vinkona postolans mikil, meðan hon lifði. Like hennar fylgðu fatøkir menn margir, ekkior ok utlendir menn, fauðurlausir ok frændlausir, ok greto miok ok mællto: „Heilagr Joan postoli, her førum ver þer Drusianam, er avallt lydde þinum aminningum; hon fødde oss ok klæddi ok þionaði með ræinlife ok i litilleti, ok girndiz mest þinnar aptrkvamo, ok þotti ser enskiss at vant, ef hon næði þik at sia. Þa bauð postolinn, at niðr skylldi setia bararnar ok bauð at leysa skyllde likit, ok kallaði þa siðan ok mællte: „Drottinn Jesus Kristr vekr þik, Drusiana, ris upp þu ok statt a fœtr þina, ok hverf aptr til hus þins ok bu mer væ(i)zlu i husi þino.“ Hon ræis upp ok laut postolanum, ok þotti aullum likara þvi, sem Drusiana væri af svefni vakin helldr en af dauða ræist. Þa kallaði lyðrinn naliga um þriar stundir dags ok mællto: Æirnn(!) er gut(!) sa er Johannes boðar, æirnn(!) er hann ok sannr drottinn Jesus Kristr.

(6.) Þa er hinn sæili(!) Joan postole ok guzspiallamaðr kom aptr ur utlegð heim til Effesoborgar, eptir sem nu er fra sagt, þa var Nerva orðin keisari, ok at hans boði var hinn sæli Jon braut fluttr or Pathmos, ok sva allir aðrir menn, þæir er Domicianus ke(i)sari hafði i utlegð latið fara, þa voru þeir aptr fluttir.

En er hinn sæli Johannes renndi augum nokkut yfir kristne almattigs guðs, þa er hann hafði aðr sialfr sett ok samða, aðr hann væri i brautt rekinn or Asia, þo(!) þotti honum mikit skioplaz hafa fyrir sakir villomanna, þeira er þar haufðu mikinn yfirgang haft, meðan hann hafði a bruttu verit, ok nu vill hann þat fyrst allra hluta endrbøta, er þeir haufðu brotið, ok sva halæitlikt rað i‿moti at setia, ef slikir lutir kynne optarr mote at beraz, at sizt mætte hæilagri guðs kristne at mæine verða, ok menninir mætte æinfalldastir verða i hæilagri tru guðe til dyrðar en sialfum ser til æilifrar nytsemðar. Hann hæfr upp guzspiall sitt, þat er hann orti sialfr ok ritaði með sva hælæitri(!) hæilags anda gipt, at hann hefir miklo nærr komiz at røða um æilifan guðdom almattigs guðs en hverr annarra manna, ok þann hinn hælæitasta(!) getnað guðs sonar, er hann var getinn af almatkum guðe fæð(r) sinum fyr allar tiðir. Ok er upphaf þess guzspiallz: In principio erat verbum. Endir guzspiallsins er ok akafa halæitr, ok sva hvert orðit þar i mille. Þesso hino sama guzspialle fylgia margar aðrar halæitar ritningar, þo at guðspiallit beri af aullum auðrum, ok ero hans pistolar lesnir um alla guðs kristne, ok byr þar enn i mikil nytsemð aullum þæim maunnum, er ser vilia þat i nyt føra með miskunn almattigs guðs.

(7). Hinn helgi Joan postoli kendi iðuliga kenningar, ok þar með gerði hann fagrligar iarteignir optliga, þo at ver munem fár segia af maurgum, ok kemr fafrøði var til þess en æigi vilialeysa. Sa atburðr varð um dag, at æinn haufuðspekingr, sa er Kraton er nefndr, hafði haft uppe a torge þess hattar mal um þessa heims haufnon . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

## 2*.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . fagnaðr er þæim at æinum þessom manne, helldr en af nio maunnum ok niotugum, þæim ær æigi þurfa at biðia. Nu vil ek yðr vita lata, at varr drottinn hefir þegit iðrun þessa manna." Ok eptir þat snyz hann til þeira brøðranna ok mællte við þa: „Fari þit nu ok berit nu aptr vaundauna(!) til skogar, þaðan sem þit tokut fyr aundverðu, þvi at nu ero þeir aptr snunir til sinnar naturu; berit aptr ok stæinana, þviat nu ero þeir slikir sem fyrr." Ok er þetta var allt at gort, sem postolinn bauð, þa toko þeir brøð(r)nir Atticus ok Eugenius alla slika miscunn, sem þeir haufðu fyrr haft

* *Jvf. ovenfor S.* $427^{12}$-$430^{28}$.

at hann scylldi gefa þurfamannom alla eigo sina, ef hann villdi algor vera, oc mundi hann þa eignasc a himnom eilift lif.“ Craton spekingr męlti: „Her liggr nybrotinn i manna augliti ávoxtr męnzcrar ágirni. En ef lęrifaþir þinn er saþr guþ, oc vil hann at þurfamonnom se fe gefit, þa gorþu heila gimsteinana, oc gor þat til dyrþar lęrifauþor þins, er ec gorþa til ma[nna] lofs.“ Þa samnaþi Johannes gimsteinabrotum i hendr ser oc hof up augo sin til himins oc melti: „Drottinn Jesus Cristr, er endrbettir heim þenna fyr crosstre, er spiltisc fyr girnþartre, oc lauct up augo þess, er blindr var borinn, oc callaþir Lazarum til lifs, er .iiii. daga hafþi i grof verit, oc greddir þu alla siuca meþ orðicrafstz(!) þins, endrbętt þu nu fyr hendr engils þins þessa gimsteina, er þeir bruto til fręgþar mannanna, er egi cunno crapt ǫlmosogęþis, at verþ þ[eir]a veitisc valǫþom i miskonnarverki til lofs oc dyrþar nafns þins oc til ny(t)semi allrar cristni.“ En er hann hafþi þetta męlt, þa voro gimsteinar sva heilir, at eingi brestr var a þeim. Þa tok Craton spekingr tru oc þessir hinir ungo menn, er gimsteina brutu, oc allir lerisveinar hans, oc varþ hann enn mesti kennandi rettrar tru.

En varo aþrir tveir bręþr ungir oc auþgir i Effesoborg, þeir er eptir þessa manna dǿmum lifþo oc gavo alla eigo sina fatękiom monnom oc fylgþo postola guþs, er hann for of borgir at boþa orþ guþs oc helgar kenningar. En er þeir komo of dag til borgar þeirar, er Pergamus heitir, þa sa þeir þa menn i silkiklęþom, er verit hǫfþo þrelar þeirra, þa urþo bręþr lostnir fianda aur oc oglǫddosc, er þeir sa sic i herviligom clęþom en þręla i silkiklęþom[1]

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

yckr oc flęlþo(!) fra oþom monnom fyr yckrar bęnir, þviat sa er girnisc auþsins, hann er þionn auþar sins en egi eigandi; þviat þa er einn maþr dregr samann morþ fiar, at vinnazc mętti at ǿrno þusond manna til fǿzlo oc til clęþnaþar, þa varþveitir hann meþ ahiggio(!) þat, er hann ma egi sialfr viþ sig niota, oc veit hann þeygi, hveriom hann sparir þat Nǿcþir vorom ver bornir i heim þenna, þurfendr cleþa oc matar, oc scolo vér nokþir í iorþ fara. En allir eigom ver saman himnesc aúþęvi. Jafnheimillt er auþgom sem snauþom scin solar oc tungls, regn oc goþviþri, kirkio inganga oc synþa laúsn, scirn oc holtekia drottins, oc aull miscunn oc veizla. Allra þessa giafa neytir[2] fatekr sem auþigr. En sa er

1 *Her mangler et Blad.* 2 *Først skrevet* neitir, *men rettet af selve Afskriveren.*

of sęll, er fłęira girnisc en hann þarf, þviat hann ma egi auruggr þess niota, er hann þarf, þvi e[f hann] verþr siukr eþa sar, þa ma hann egi niota unand[i a]tz ne drykciar eþa cleþa. En þat scolo vita ágiarnir menn, at þeim megu ecki stoþa auþęvi, þau er ligia fyrir oc gera sorg oc sút oc sótt þeim, er þau varþveita meþ mikilli ahyggio dag oc nott viþ þiofom oc viþ eldi oc viþ scauþom En er þeir starfa í þeiri ahyggio at draga saman auþ sem mestann af saukom oc vęlom[1] oc cauþom raungom oc af morgom fcbraugþom, þa verþa þeir brátt teknir af heimi oc hafa þa ekci meþ sér nema synþir einar."

En er postolinn hafþi þett[a me]lt, þa var þangat borit lik eckio sonar no[cco]rs, þess er fyr .xxx.m daga hafþi aþr qvangazk. Moþir hans ok kona fylgþo likino oc fiolþi annarra manna, oc greto allir oc fello til fota postolanom oc baþo hann up reisa þenna enn unga mann af dauþa, sva sem hann reisti Drusianam. Heilagr Johannes felldi tár, er hann sa marga grata, oc fell á kne oc var lengi a bęn, siþan stoþ hann up oc hellt hǫndom til himins oc baþ lengi fyr enom andaþa. En er hann gerþi þat þrysvar, þa lét hann leysa likit oc melti: „Þu en ungi dréngr, er Stacteus heitir, er fyrir þer sakar var lostinn af fianda, at þu kunnir egi scapera þinn, oc tyndir[2] ondo þinni, þviat þu lifþir eptir munoþom licams þins, lengi hefi ec beþit drottinn minn fyrir þer, at þu losnir fra daúþa bondom oc segir þessom tveim bróþrom Attico oc Eugenio, hverri dyrþ þeir tyndo eþa hvert viti þeir mono taka." Þa reis up Stacteus oc laut postol[anom] oc tok at ávita þa Atticum oc Eugenium, oc melti: „Sa ek var[þha]lzengla ycra hryggva, en áru andscotans fagna falli ykcro. Sa ec gulligar gimsteínom settar hallir, or ykr varo bunar á himni fullar silfr[s] oc lios, friþar oc fagnaþar, unaþs oc krasa, en þeim tyndo þit, oc hafiþ eignasc þa stadi, er fullir ero af drekom oc deynanda loga, hrezlo oc hryggleix, dauns oc sottar; þar er of daga oc of nętr gratr oc scamsamlict op oc tauna gniston. Ecki eigoþ it annat til nema at biþia postolann, at hann reisi up andir ykcrar af cilífom dauþa til heilso, sva sem hann reisti mik af likams dauþa til lifs, þviat naufn ykcr ero scafin af líf[s] bok." En er Stacteus hafþi þe[tta m]ęllt, þa fell hann til fota postolanom meþ aullom lyþ oc enom ungom brǫþrom Attico oc Eugenio, oc baþo hann biþia fyrir þeim til guþs. En Johannes bauþ þeim xxx. daga iþron oc baþ þa þess mest biþia a þeiri stundo, at vendirnir,

1 svęlom *Cd.* 2 *Först skrevet* tindir.

er at gulli varo orþnir, oc steinarnir, er at gimsteinom varo orþnir, at þeir snęrisc aptr i ęþli sitt. En er liþnir varo .xxx. daga, þa hofþo egi gullvendirnir ne gimsteinarnir snuisc i ǫþli sitt. Þa como brøþr oc melto viþ postolann: „Avallt sendir þu misconn oc licn oc baút, at maþr scyldi manni licna oc varkynna, sva sem hverr villdi ser at guþ misconnaþi eþa licnaþi. En vit scaumomsc nu synþar ockarar oc iþromsc nu meþ grataundom augom þess, er vit rendom með gi(r)nþaraugom til veralligra hluta. Af þvi biþiom ver þic, heilagr postoli guþs, at þu synir i verkom misconn þa er þ[u het]st ávallt i orþom." En er bręþr iþroþosc synþa[r s]innar oc alþyþa[1] baþ fyrir þeim, þa melti Johannes viþ lyþinn: „Drottinn guþ varr melti fyr spamanninn: eigi vil ec dauþa syndux, manz, helldr at hann leiþrettisc oc lifi. Sva męlti lerifaþir var Jesus Cristr viþ oss: satt sęgi ek yþr, meiri faugnoþor(!) er englom guþs yfir einom manni syngom(!), er iþron gorir oc lętr af synþom, en yfir .xxx ix. þeira, er egi misgørþo. Af þvi scolo þer þat vita, at drottinn minn mon þiggia iþron b[rǫþ]ra." Þa melti heilagr Johannes viþ Atticum oc Eugenium: „Fariþ nu oc beriþ vaundo aptr til scogar, þaþan er it tokoþ þa, þviat nu mon snuasc til ęþlis sins tveggia hvart gimsteinar [oc gull[2]." En er þeir gorþo sem postolinn bauþ, þa toko þeir alla misconn, þa er þeir haufþo tynt, oc rako diofla fra oþom monnom, sem fyr haufþo þeir gort.

En er allr borgarlyþr oc landherr vegsamaþi helgan Johannem, þa drogo blotmenn lid saman a mot honom oc leiddo hann til hofs Gefionar gyþio sinnar oc villdo neyþa hann til blota. Postolinn melti þa: „Ec mon leiþa yþr til kirkio drottins mins Jesu Cristi, oc calliþ er a nafn Gefionar yþvarrar oc latiþ er falla ofan kirkiona i nafni hennar, oc mon ec lata at yþr. En ef er megiþ þat egi, þa mon ec calla a nafn drottins mins Jesu Cristi oc láta ofan falla hof yþvart oc scurþgoþ, [oc] mon yþr siolfom þat synasc rét at fyrláta þa [vi]llo, er niþr hefir brotizsc, oc snuisc til guþs mins." En er mestr hluti lyþs varþ iaqveþr þessa mals, þa fysti Johannes lyþinn at fara langt fra hofino. En er lyþr gecc fra hofino, þa callaþi hann mikilli rauddo oc melti: „Þig biþ ek, drottinn Jesus Cristus, at þu latir niþr falla hof þetta meþ aullom scur(þ)goþom, þeim er inni ero, sva at aungom manni verþi at meini, oc at allr sia lyþr viti, at þetta likneski Gefionar er diofolict en egi guþlict." En er postolinn hafþi þetta

1 *Først skrevet* alþiþa. 2 *saaledes rettet:* at grioti *Cd.*

melt, þa hrunþi hofit meþ ollom scurþgoþom, þeim er inni varo, sva at aungom manni [varþ] at meini, oc varþ sem molld, su er fikr(!) í vindi. Þa callaþi allr lyþr oc melti: „Einn er sannr guþ, sa er Johannes boþar.“ A þeim degi toku tru .xii. þusundir karlla at otaulþom konom oc baurnom.

Þa fylldisc Aristodimus hofþingi ens grimmasta hugar oc samnaþi her miklom oc vacþi þa stiryold(!), en lyþr heiþinna manna biosc til orrosto a mót cristnom lyþ. Þa melti heilagr Johannes: „Segþu mer, Aristodime, hvat scal ec þess gøra, er ek taka reiþi or hug þinom?“ Aristodimus svaraþi: „Ef þu vil, at ec trua guþi þinom, þa mon ec gefa þer eitr at drecka, oc er vist, at mikill er guþ cristinna manna, ef du deyr égi af ęítrino.“ Johannes melti: „Þat mon mer egi granda, ef ek calla á nafn drottins mins.“ Aristodimus melti: „Fyrst scall þu sia þa, er drecka eitrit oc deyia þegar, oc mun þu þa hręþasc drykcinn.“ Johannes svaraþi: „Sagþa ec þer aþann, vestu buinn at trua á drottinn minn Jesum Cristum, ef ec staundomc eitrit.“ Þa for Aristodimus til iarls, oc hafþi þaþann .ii. bandingia, þa er til draps varo dęmþir fyr glępi sina, oc lét þa drecka eitrit i augliti postolans fyr aullom lyþ, oc fello þeir þegar niþr dauþir. Þa melti Aristodimus: „Hlyþ þu mer, Johannes, oc lát af kenningo þessi, er þu spenr allar þioþir fra blotom, eþa ella drek þu eitr þetta, oc syn guþ þinn almátkan vera, ef þu mát heill vera eptir drykcinn.“ Þa tok Johannes viþ dryckiarkerino óhreddr oc gerþi crossmark yfir oc melti: „Drottinn guþ faþir drottins mins Jesu Cristi, sa er allri scepno styrir, oc allir hlutir þiona oc allir mettir hręþasc, af þess nafni sevasc haugormr, oc flær dreki, oc kyrrisc padda, oc stauþvasc oll eitrkycqvendi, oc slocnar allt afl dauþferandi grasa, á þic collom ver til fulltings, slokþu eitr þetta oc allann scaþsamligan mátt, þann er þat hefir í ser, oc gef þu i augliti þino ollom, þeim er her standa, syn at sia et rętta, oc eyro at heyra, oc hiarta at scilia mikilleic þinn, at þeir snuisc oc finni heilso anda sinna.“ En er hann hafþi þetta męlt, þa signdi hann sic oc drack or allt, þat er i kerino var. Lyþrinn stoþ oc horfþi a hann .iii. dagstundir. En er þeir sa hann egi scialfa ne lit bregþa, þa colloþo allir oc melto: „Einn er guþ sa er Johannes boþar.“ Aristodimus mátti þeygi trua, oc melti hann viþ postolann: „En er eptir ifi i hug minom, en sa mon a braut losasc, ef þu lętr lifna i nafni Cristz þins þa er eitrbolgnir liggia nu her.“ Lyþrinn melti meþ reiþi i gegn honom oc letosc brenna

mundo hann i eldi, ef hann legþi naukqveriar þrautir framar fyr postolann. En er Johannes sa magnasc alþyþo[1] rom, þa baþ hann ser hlioþs oc melti: „Su er en ǫzta eptirgliking guþligra crapta, at ver sem þolinmoþir oc standimsc vel freistni otruaþra manna. Ef Aristodimus hellzk enn i otru sinni, þa scolom ver leysa rexna tortrigþar(!) hans oc lata egi af, aþr hann kennir scapera sinn. Sva sem lecnar gøra viþ vanheila menn oc leita annarar lęcningar, ef aunnor stoþar egi, sva scolom ver oc grøþa þenna mann meþ þvi raþi, er enn es egi gort, ef hann er egi grøddr. Gørom annat taknn þa til lekningar honom." Þa for postolinn or kyrtli sinom oc selldi Aristodimo, en hann stoþ i mautli sinom eptir. Aristodimus spurþi: „Til hvers selldir þu mer kyrtil þinn?" Johannes svaraþi: „at þu scamisc ótru þinnar." Aristodimus spurþi: „Hverso ma kyrtil(l) þinn taka iva af hiarta mino?" Johannes svaraþi: „Far þu oc leg kyrtillinn(!) yfir ena dauþo oc mel sva: postoli drottins Jesu Cristi sendi mik til ykcar, at it risiþ up i nafni guþs, at allir viti, at lyf(!) oc dauþi þionar drottni Jesu Cristo." En er Aristodimus gørþi sva, þa riso upp þeir er dauþir varo, oc lifþo lengi siþan. En er Aristodimus sa þessi tiþenndi, þa rann hann scyndiliga til iarls oc melti viþ hann: „Hlyþu mer, iarll; þat munt þu muna, at ec vacþa opt reiþi þina i gegn Johanni oc gørþa ec honom morg oscil. En ec uggi, at ec taka guþs reiþi fyrir þat, þvit(!) hann er sialfr guþ oc leynisc i manz ásia; hann dracc ęitr, oc sakaþi hann ecki, hann gaf lif þeim er do af eitrino, sva at ec lagþac kyrtil hans yfir þa, oc lifa þeir nu oc hafa engi dauþamaurk a ser." Jarl spurþi: „Hvat vil þu, at vit gørim?" Aristodimus svaraþi: „Faurum viþ oc faullom til fota honom oc biþiom ockr lienar, oc gerom siþann þat er hann byþr okr." En er þeir gørþo sva, þa tok Johannes viþ þeim oc bauþ þeim .vii. daga fausto i rauko(!), oc varo þeir siþann scirþir, oc aull hiu þeira oc frendr oc magar oc vinir, oc brutu scurþgoþ aull oc reisto upp kirkio micla til vegs postolanom, oc var hann i þeiri kirkio upnuminn til himins.

Þa er heilagr Johannes var vętri miþr en tiręþr at alldri, þa vittraþisc honom drottinn Jesus Cristus meþ lęrisveinom sinom oc melti viþ hann: „Com þu til min, þviat nu er su tiþ, at þu fagnir meþ breþrom þinom at minni samcundo." Þa reis Johannes up oc villdi fara þegar, en drottin melti viþ hann: „En nęsta drottinsdag scalt tu coma til min." En er en nésti drottinsdagr com,

1 *Først skrevet* alþiþo.

þa varþ fiolmenni mikit i kirkio þeirri, er smiþoþ var til vegs Johanni postola, oc talþi hann fyr lyþnom allt fra ǫndverþom morni oc til dagmala, oc melti: „Ér samerfingiar oc brǫþr oc hluttakendr rikis guþs! minnizc hvilikar iarteinir oc kenningar drottinn Jesus Cristus veitti yþr fyr mic, oc halldiþ ér þeim fast boþorþom, ef drottinn callar mic nu þegar or heimi.“ En er Johannes hafþi męsso sungit, þa lęt hann grafa ser grauf fersceytta hia altari oc fęra ut molld or kirkio, oc ste hann i grofna siþann oc hellt hondom til himna oc melti: „Laþaþr kem ek til fagnaþar þins, drottinn Jesus Cristi, þviat þu lezt þęr soma at laþa mik til þinna crasa, þviat þu vissir mic fusann til þín af aullo hiarta. Sa ek anlit þit oc endrlifnaþa ec, ilmr þinn vakti fysi mina. Oftt baþ ec þic, at ec scyllda til þin coma, en þu batt mic biþa oc samna truanda lyþ. Þu varþveittir likama minn fra allri saurgon oc leistir(!) aund mina oc fyrlezt mik egi, þa er ec var í utlegþ, oc settir þu orþ þin i munni minom, oc reit ec verk þin, þau er ec sa augom minom, oc orþ þau er ec heyrþa ór þinom munni. En nu fel ec þer á hendi sono þina, þa er heilog cristni endrgat fyr vatnn oc helgan anda. Tac þu mik, at ec sia meþ breþrom minom, þeim er þu komt at laþa. Luk up þu fyr mer lifs durum, at egi renni á mót mer myrkra hǫfþingiar, helldr leiþu mic til þinna crasa, þa er meþ þer fagna allir vinir þinir, þviat þu ert Cristr son guþs livanda, er greddi heim þenna oc leystir oss af boþorþom þinom fyr en helga anda, fyr þann gørom ver þer þackir fyr oendiligar alldir allda.“ En er allir svaroþo oc qvoþo amenn, þa kom lios sva mikit yfir postolan vist eina stund dags, at engi mátti i gegn of sia. En þa er af leiþ liosit, þa var grǫfinn full himnamiols, oc hellzk su iartein allt til þessa dags, oc verþa þar margar iarteinir, oc leisasc(!) margir or háska oc sóttom oc gęta benir, þeir er þangat coma meþ tru rettri. Nu varþveiti oss guþ almattigr, sa er lifir oc rikir meþ feþr oc helgum anda of alldir allda. Amen.

## IV.

*Her byriar litlu Jons sogu postola ok guðspiallamannz.*

I þann tima heimstoðu, er sialf rettlætiss solin lukt i likam, drottinn vaarr Jesus Cristus, birti Jorsalariki meðr sinni naveru syniligr maðr ok sannr guð miðil manna, vattar sa meistari, er Petrus Damianus heitir, at Johannes, er siðan varð postoli ok æztr ewangelista vars herra, fæddiz i þeiri halfu Jorsalalandz, er Galilea heitir, ok i þeiri borg er Bethsaida kallaz. Faðir hans het Zebedeus, rettviss maðr ok fatækr at femunum. Moðir hans var sva burðug, at sialf hifnakongsins moðir Maria var hennar systir meðr sama nafni Maria. Er þa liosi biartara, hvert kynferdi tignar þenna Johannem i frændsemi sialfs græðarans. Ok þvi liktiz hann i uppvegsti frænda sinum herra Jesu fátækr at goðzi veralldar, litillatr ok famalugr. Zebedeus var fiskimadr, ok þvi var Johannes son hans meðr honum i somu iðn, at þar la undir dagligt viðværi. Sami Petrus greinir, at su var oreign þeira feðga, at ei fenguz verðaurar at kosta lin til netianna, ok þvi varð oft at endrbæta ofreyndan mauskva. Lucas ewangelista segir, at ecki boknam lagði Johannes firir sik a náms alldri, ok þvi sotti hann hvarki þing ne malstefnur, at maðrinn var bæði einfalldr ok ufrodr, sva at bokin likir (hans) hlioðlifi þeim fiskum, er hann dro sialfr at borði. Sem her stendr, vikr meistari malinu ok segir sva: Eigi er, segir hann, tomt at greina uppvogst, oreign ok atferð þessa Johannis, þviat þaðan skínn biartara, hvaðan leiddi þa spektardyrð, er siðar oðlaðiz hann i guðs liosi upp ifir alla karlmenn natturuliga byriaða, sem siðar mun getið verða meðr guðs vilia. Sva vikia bækr til, at af bruðar faðmi hafi varr herra kallat Johannem frænda sinn til fylgdar ok postoligrar tignar, ok þvi varð hann makligr einsligri ast af sælum guðs syni, at hann skein maðr hreinni en nockurr af þeim heilaga safnaði, er græðara várum þionaði. Gofugliga skein a skirdagskvelld virðingarhæð ok verðleikr sæls Johannis með þremr forvænum frumtignum. Su fremst ok fyrst, er hann hvilldiz ifir sialft hifnakongsins briost undir bordinu. Su onnur, at af þeim lifsbrunni drack hann þann lifanda seim ok sætleik hifneskrar læringar, sem siðan for ok flaut i allar ættir heimskringlunnar. Su var þriðia frumtign, at þann angr ok otta, er fylldi hiortu postolanna allra, hof hinn sæli Johannes i frið ok fagnat firir þann frabæran kærleik, er hann hafði odlaz medr sialfan son guds ifir allan safnat postolanna. Virðu-

ligr herra Leo pafi magnus greinir fagrliga i sinni bok, hvaðan upp reis angr ok otti postolanna, eigi af sektar samvitzku, sem hann váttar, at verða seliarar vars herra Jesu, helldr af þeiri undirstoðu, at siðan græðari várr hafdi birt meðr sinum ordum, at einnhverr af þeira safnaði myndi geraz i þa guds reidi at selia hann með verði, ottadiz hverr i sinu briosti velltanda hiol veykrar mannzins natturu, at meinlaus forhugsan mun þvi minnr profaz til heilagrar stadfestu en forsagnar framkæmd hifneskrar vitzku, er rikti meðr briosti herra Jesu. Ok i sva striðan pungt, sem nu stendr ifir þeirri maltið, er vegsamanda, hvaðan likn ok lietta leiddi inn til postolanna. Blezadr herra Petr postoli, sem hann ser tignarrum guds mannz Johannis ifir lausnarans briost, gerir hann eitthvert signum volldugum guðs manni þeim sama sælum Johanni, at firir sinn kærleik muni hann vissu fa, hverr eignaz mun þann eymdarhlut at selia saklaust lif herra Jesu undir pisl ok plagur bolvaðra Juða. Blezadr Johannes dvelr ok eigi at gleðia brædr sina, þviat varr drottinn Jesus birtir honum meðr fyrstu spurning, hvar sia siukdomr hafi heimili. Her næst er æ litanda, meðr þvi at virðuligr herra Petr postoli helldr firir hofðingiadom þyðing eða merking allra postolanna, er su tign ok frami miklu lofi maklig er blezaðr Johannes oðladiz i þeiri máltið, at verða coadiutor æzta mannz a ollu iorðriki(!), er skipaðiz með himinrikis lyklinum sialfum, allt at binda ok leysa. Ok ef sva birtiz siðarr i þessu mali, at sami Johannes verðr coaðiutor þess annars postolans, sem berr æzta krunu rettvisi ok rauksemdar með allri guðs kristni, reisiz þvi hærra i lopt upp hans haleita virðing. En siaim nu þessu næst i litilli dvol settra greina, hverri dyrðartign auðgaz virðuligr herra Johannes, þa er hann stoð undir krossinum, oc hann giorðiz vicarius vars drottins, tilæskingarson hifnakongsins moður, oc sva með nockurum hætti broðir lifanda guðs sonar. En hverr mun þat orði greina, hversu guðs maðr sæll Johannes fremdi þat signaða umboð at geyma, gleðia oc þiona virðuligri guðs getara allt i hennar endadag þessa veralldar lifs, þar til son hennar hifnakongr bauð henni heim, laðandi[1] . . . . . . . . . . . . . . . . . . . bar enn. Orlofi þer at ek seti yðr eina spurning.“ Herra pafinn segiz luta undir oll hans orð. Byskup talar: „Segit mer at þvi, hvart herra Petr postoli forfaðir yðvarr misgiorði nockut i sinu lifi?“ Herra pafinn svarar: „Heilagr Petrus misgiorði harðla miok, ok

1 *Her mangle 4 Blade.*

bætti sik haleitliga með beiskum tarum i miskunn Jesu Cristi." Byskup spyrr: „Hvat misgiorði hinn heilagi Petrus?" Herra pafinn svarar: „Hann neittaði varn herra Jesum Cristum." Byskup spyrr: „Hvart neittaði hann herra Jesum um sinn eða optarr?" Herra pafinn svarar: „Hann neittaði þrim sinnum a einn dag." Byskup spyrr: „Hverr heyrði iatning hans eða hverr lagði honum skriftir?" Sem her er komit mali, færr herra pafinn orðfall. Þar firir megnaz byskupinn i sinni roksemd ok tekr sva til orðz: „Þvi setti engi maðr a iordriki(!) sik sva hafan at heyra iatning eða hirting veita sogðum Petro, at hann var skipaðr af sialfum guðs syni ollum monnum æðri, ok þvi skipaðiz hann sialfr i doms hasæti ifir sitt misfelli; geri þer ok sva, heilagr faðir, berit brott af yðr sut ok saran trega, ok setiz upp i domstol sem postoligr herra ok dæmit sialfr yðra sok." Herra pafinn lætr ser at kenning verða skakandi brott af ser allan angr, sem fremst matti hann, byriandi sententiam upp a sialfan sik i þenna skilning: „Sa er orskurðr minn, sagði hann, at i minni herfiligri glæpsku hefir ek wnnit sva mikla uhæfu, sem steypt i svelg helvitis alla þa guðs kristni, er mer var a hendi folgin. Hvat mundi limrinn kunna utan likiaz hofðinu? Þvi gengr heðan framm annarr orskurdr várr, at engi maðr dirfiz a iarðriki hærri stéttar eða lægri at veita minum likam kristiligan groft, hvat sem mer verðr at bana." Firir þenna sva striðan orskurð herra pafans fellu tar þvi framarr af margs mannz briosti. Hvat lengra, en herra pafinn með fyrr nefndri sinni fylgd riðr aftr i Rom meðr ollum flyti, gengr inn firir Dioclecianum keisara, sem hann sitr ifir borð, ok talar sva: „Vær Marcellinus pafi, sagdi hann, er nu her kominn, engi fágari bannsettra skurðgoða, helldr faðir ok forstiori guðs hiarðar, þo at umakligr." Þessu heyrðu byðr an dvol Dioclecianus, at herra pafinn með prestum sinum leiðiz ut af borgarmur, allir undir hálshogg. Liggr hann sva umylldr undir berum hifni um þria togu daga, ok þo með þeiri guðs blezan, at engi meinsemd af iorðu eða lofti grandar hans likama. Innan þeira þriatigi daga verðr kiorinn til pafadoms lofsamligr maðr sira Marcellus. Ok fylldum sva morgum dogum birtiz blezaðr Petr postoli Marcello electo sva talandi: „Broðir Marcelle, sagði hann, hvar firir lystir þina goðfysi at lata liggia minn likam undir berum hifni sva lengi?" Marcellus svarar postolanum: „Herra minn sæti, segir haun, hvat hofum ver meiri virðingar, en veitiz þinum helgazta likama með tignargroft ok þionostu?" Blezaðr Petrus svarar: „Likamr minn

i Marcellino pafa broður minum segi ek at enn liggr uti umylldr.“ Marcellus svarar: „Hverr mundi þora, heilagr faðir, at leggia honum graftrar hond meðr orskurðar ogn, er hann diktaði sialfr i sinodo ut a Pul?“ Heilagr Petrus svarar: „Kemr þer ei til minnis, broðir Marcelle, þat er sagði várr herra Jesus Cristus, at hverr er sik lægir, mun upp hefiaz? Hveria minkan matti hinn æzti byskup ser til lægðar ok litilætiss meiri inn leiða, en þessi framdi upp a sialfan sik, at firirbioða ser veitaz allan kristiligan groft, sem lesaz mun æfinliga með guðs kristni honum til lofs, ok þvi skolu nu framkæmaz meðr honum grædarans ord, at hann hefiz upp af sinni lægð, þviat ek byðr þer at veita honum hina tignuztu graftrar þionostu rétt hia sialfum mer.“ Eftir sva talat endar virðuligr Petrus sitt eyrendi. En Marcellus fyllir i alla stadi boðordit með guðs lofi ok heilagrar kirkiu fagnaði. Lyktar sva þenna æfentum, ok þvi er heðan aftr at vænda til stólpa heilags Gregorij, þviat þadan gengum ver áðr framm i guds nafni.

2. Sem lesin var dæmisaga virðuligs herra Marcellini pafa, kollum ver heyrandum monnum upploknar dyrr, at renna augum til synar innan mustaris heilagrar kristni, hverr manna sik framdi sva hugdiarfan at leggia framferð virðuligs herra Petri postola undir atfyndli eda fulltekna umvandan, ok enn þvi framarr, ef sva finnz, at hann letrsetti ok let beraz innan um kristnina þat er hann kallaði ufagrt. Til þessa hlutar, er sva finnz faheyrðr lesinn, ma leiða signaðan psalmistam David kong, þa er hann segir, at guð er dasamligr i sinum helgum monnum. Sælum Gregorio pafa finnz ok mikit til þessa hlutar i sinni skyring ifir nefnda bok Ezechielem, at sva fallit bland skilldi ganga inn i blezat broðerni sialfra postolanna Petri ok Pauli, en þat er þeirar undirstoðu, sem hann greinir, at sva sem postolar voru dreifðir til ymisra landa með predikanar embætti, greinir hann, at herra Petr postoli var sva miukr ok eftirlatr Judum innanlandz ok utan, at hann villdi samþyckia umsnidningar þionostu, þott þeir gangi til gudspialligrar kenningar vars herra Jesu Cristi. En þann tima sem heilagr Paulus predikari vorðinn* fregnar þat af frammferd Petri, liggur(!) honum ei med ollu, helldur suo sem þeir mætazt i borg Anntiocia geingr hann framm firir Petrum medur afklæddre einord, segir ath þat stanndi aungvann veg, ath holldligtt logmal blanndi sik upp i nytt testamenntum grædara vors herra Jesu Cristi, ok einkannliga su

* *Her begynder et Blad i Codex, der senere er indsat i Bogen og skrevet med en Haand fra Slutningen af det 16de Aarhundrede.*

þiod lagin til eptirlætis, sem omakliguzt var firir þann pislargrat er hun vann upp æ saklaust lif gudz sonar sialfs. Þessa somu sina einord ok atyrði, er hann veitte sælum Petro j nefndri borg Anthiocia, setr hann upp æ pistil sinn, at hvor megi lesa, ef vill. Ok þvi kemr sa sami kvittur firir Petrum postola, sem adr er ritat, ok hversu hann skipar þa sinne lund med fagætri fridsemi, vilium vier þess verdugliga minnazt, er fyrr var lesit, ath .ij. postolar gudz Petrus ok Paulus stodu svo sem til becgia(!) handa siðugum gudz astvin Johanni postola. Hvat er rettara sagt, enn sæll Johannis stod j millum þeira ei likamliga helldr andliga med seimi ok signadri giæzku hunangligra orda til fridsemdar þeira brodernis, med þeim hætti sem byskup lyti honum j eyra hvorttveggia. Vier megum hier suo segia ath sem Petrus med hogverd ok litillætis þolinmædi gefr hann þvilik ord: Kunnigt sie ydr, fadir, hvad ek setta j minn epistula med hinum æstu greinum, ath gud er astin, þvi stanndit medur hogværd an allri hræring, þott þier lesit einardlig ord hins heilaga Pauli, þviat j giord hvorstveggiu er rettiliga þydd gudz elska med ydr til þess ath draga sem flesta til drottins Jesu Cristi j daudanz punct med sælum Paulo brodr þinum, j þa grein ath afleggia forna setning enn elska nya myskunn med aullu hiarta. Ath sælum Paulo hneigir hann sig valinn gudz vin sem svo talannde: Minniz þier, heilagr fadir, þott vannlæti gudz riki sæki framarla med ydr, at allir vier forum miog hnoggvannde j morgum hlutum, sem ek setti i minn epistula, ok þvi geymit hogværd til allra manna, sem meinlausir eru af lestinum, þott þeim siaizt yfir med einfellde ok elsku naungzins. Nu er at vikia aptur til heilagx Petrs, hversu hann verndar sinni vizku til hinz himneska litelætis eptir aminning Johannis. Þat fyrst ath hann leggr lærisveina undir harda avitan, ef nockr viki umlestris(!) orda a personu Pauli firir þat ef þeir kalla meistara sinum j moti, þat fylgir meira ath jnnj sialfs sinz pistola er svo skrifat ut j kristnina setr hann klerkdom ok visku sæls Pauli suo tignarsamlig ord:* Kennum vær yðr ok lærum, hvar sem ufroðir menn reikandi af rettum veg afvirða hans heilagar ritningar, sialfum ser til tapanar. Sem her er komit segir sæll Gregorius til kristninnar: Virðanda er bræðrum kirkiunnar, i hverri hugskotzheð þessi guðs astvin hafði skipat sína stauðu. Hann las annars ritning með ávitanargrein samsetta til sialfs sins, en lagði þar i mot þau vegsemdarorð, sem æfinliga munu lesaz i kristninni. Hver var su hogværð

* *Her ender det senere indskudte Blad.*

ok hugarhvílld, hvert afl eða hugsanarmykt með þeim manni, er sva giorði. Ei kallar hann til minnis i þenna pungt, at af lausnara várum Jesu Cristo var hann fyrstr kallaðr i postoliga tign, hia ser leiðir hann nu ok, hversu hann þa forðum af sælum guds syni sialfa lyklana hins hifneska rikis, ok hversu allt a hifni ok iorðu mundi laust ok bundit eftir hans boði Eigi réiknar hann nu til nálægðar þa frumtign, er hann geck forðum ifir sioinn sialfan. Liða lætr hann ok hia ser, hversu kararmenn runnu framm af reckium sinum efldir i ollum liðum, þegar hann bauð i nafni Jesu. Eigi minniz hann ok til miklanar sialfum ser, hversu skuggi hans likama græddi siuka með guðs krafti. Eigi leiðir hann ok firir sin augu þat hifneska valld, er hann drap liugandi hion Annaniam ok Saphiram með roksemdarorði. Liða lætr hann ok, hversu lif ok dauði þionaði hans villd með boði almattigs guðs Jesu Cristi. Nu sem vær heyrum, segir guðs maðr Gregorius, sva mikla dyrðarhæð guðs astvina til litillætis ok mannkosta, at þeirra port risi þvi hærra til himins, hvat segir ek þa sálugr ok mer likir, er golfit merkium undir þvi porti, nema biðia guð miskunnar ok með kennaz várt þolleysi, at ef (vær) mætum einu meinyrði, leggium vær fiorfallt eða framarr aftr i moti, en signaðr herra hofðingi kristninnar virði meira litillæti ok friðsemdar þolinmæði en allar sinar frumtignir. Her næst ma vel segia, at herra Gregorius pafi bar sammyndat blóm sinni veru ok blezaðum vana, þat er at vera hinn æzti byskup ok stólpi kris(t)ninnar með háreist port hifneskrar upplitningar, en lægir sik iafnframm gólfi likan, ok samlagaz sva með litillætis dyrð einfaulldum safnaði kirkiunnar sona. Þessum sæmdarorðum til hans settum, heyri menn, hvat hann segir af postolum guðs i þenna skilning: Ástvinir beggia postolanna Petri ok Pauli, segir hann, leituðu ymissan útveg at eyða allri misgrein þeira miðil. Fylg(i)arar Pauli segia i forteknu orði, at þat hefir hann alldri hent, at notera Petrum postola medr einu atmæli i sinum epistola, helldr annan mann nockurn sama eignarnafns. Þessir birta framarr vilia sinn ok fylgi en bokfræði, segir fadir Gregorius, þviat i sama pistli lysir Paulus án efa, at hann atyrðir sialfan Petrum postola, þa er hann setr sva: Sa sami guð er vann með Petro i postoladóm umsniðins fólks, sa sami vann með mer sina gæzku miðil heidins fólks. Fylgismenn virðuligs Petri hafa með kappsamri lund þa umleitan, at þann epistolam, er helldr lofsemdarorð ifir læring ok vitru heilags Pauli, hafi Petr postoli alldri giort. En her i mot rennr sæll Petrus

sva biart sem lios halldandi, með þvi skínanda vætti, at i sama epistola greinir hann transfigurationem græðara várs herra Jesu a fialli Thabór, ok hversu foðurlig rodd af hifni hliodandi kom ifir þa, sem ewangelium váttar. Hofum ver nu, segir guds maðr Gregorius, með faam klausum hoglyndi heilags Petri minning giort, ok þvi skal nu þessu næst vikia til hógværis virðuligs Pauli, þviat hans blezaða briost var sva auðgat predikanar roksemd, at hann þyrmdi engum manni, ok ei helldr, sem greindiz, sialfum Petro, en sinum undirmonnum tiaði hann þa hogværð, sem birtiz harðla frabær, þa er hann predicaði Chorinthis, at hann sneyri þa fra heiðnum dómi ok veitti þeim lifs brauð. En þeir firir sina singirnd ok hardbrysti letn hann hungra innan borgar af matleysi, sva at honum sendiz kostr af Macedonia, at hann mætti lifa. Ok ei þvi helldr felldi hann sitt heilagt embætti, ok ei for eitt orð til hefndar af hans munni um sva morg ar, sem hann var Corinthis. En til þess, segir sæll Gregorius, at þeir iðraðiz ok giorði betr til annars predikara guds eyrendiss, en þeir giorðu til hans, skrifar hann þeim til með miukaztum orðum, sem hann snerti þeira handveg ok harðbrysti til lækidoms ok meiri myktar, en fyrr hofðu þeir. Nu eru þetta sem smadropar af tracteran virðuligs Gregorij, er hann setr af þvisa efni; settum vær firir þa skynsemi þo at i stuttu mali þessar klausur her inn, at þrir æztu merkismenn hifnakongs i nafni heilagrar þrenningar eignaðiz minningargrein i bækling þessum. Ok þvi munum ver her upp gefa i guds nafni ok vikia til frasagnar gofugligs Johannis postola, þar sem fyrr gafz upp, at hann gengr til sins hlutskiptis austr i Asiam minni.

3. Þann tima með guðs fulltingi er ynniligr Johannes tekr til avaxtar planteran Pauli postola, ma vel til hans tala orð Ysaie spamannz: Litill brunnr, segir hann, vógs i mikla moðu. Af litlum brunni heilags Johannis var heima greint i Galilea hversu þraungr var. En nu váttar riki austr i Asia, hversu lifanda vatn geingr fiogurra vegna út i allar ættir af hans munni, iartegnum ok lifi, þa er hann skirir, skipar ok skiptir viðerni kristninnar i sex byskupsdæmi ok hinn sionda archistolinn i hofuðstað landzins, er Effesus heitir; ok hversu biartr var þessi blezaðr vingarðs fágari hifnakongsins færr engin maðr letrum lukt, þviat i haleitum guðs krafti, er honum fylgdi, syndiz náliga sigrut mannz nattura. En i ávinning, at hann vyrði fadir margra sona i dyrð eilifri, var hann sva miukr ok varkunnigr i aðra grein veykum manni, at þar firir

birtiz hann biartr ok blezaðr huggari ok hit mætazta eftirdæmi. Ok sakir þess at sa er kraftrinn næst gudi, at sterkr samtempriz veykum, vilium vær fyrst setia með frasogn þat lof virduligs Johannis, er at lytr sva follnum skilning i guðs nafni.

4. Blezadr herra sæll Johannes dasamligr i sinum hugarkrafti gaf þat eftirdæmi guds þionostumonnum at lina stundum sitt erfiði ok hverfa sva nyrr aptr i guðligt embætti, at lofligt umskifti geri friðar efling natturunni. Hvert dyrðarverk hann blezaðr syndi með þeima hætti, at optliga sem hann sat i somu borg, hefir hann hia ser fagran hana hvitan at lit sem til léttis ok skemtanar. Var þetta morgum heyrinkunnikt, þviat guðs maðr er lioss i þessum leik. Hvat er fregn miðil annarra einn fuglari fatækr at fee en vel itækr um skynsemdir, maðr harðla kænn við boga at afla ser ok sinu folki viðværis. Forvitni berr hann mikla i briosti, hveria grein herra Johannes muni gefa firir hanaleikinn, þviat honum syniz sva háfum stétt ok heilagum engi onnur iðn heyrilig utan bæn ok studéran. Heðan hefir hann sik a nalæga mork við stað, er þa sitr i signadr Johannes, ok gefr upp iðiu sina þegar at liðanda degi, þviat nu er hann raðinn i at hanamálit skal eigi lengr undan dragaz. Framm gengr hann i staðinn, ok hofliga frettiz firir um herbergi guds mannz, biðr orlofs til inngongu ok fær þegar an allri dvol. Boga sinn ok orvamęli hefir hann með ser i fylgd, setz niðr annan veg moti postolanum ok skytr flatan bogann undir fætr sér a golfit. Sitr um stund ok seer, at nu rétt samtíðar leikr sæll Johannes við hanann eftir vana. Fuglari fylliz þvi framarr hugrenningum ok talar sva: „Herra, segir hann, þat er eyrendi mitt a yðvarn fund at heyra skynsemd, ef þér vilit gefa, hvar firir yðr likar at leika við þat litla kreatyr, sem nu sér ek, þviat yðr athofn truiz af morgum æ til andligs ávagstar en i enga lausung.“ Guds maðr sér i moti honum með hugleiðing, hversu heyriligaz væri svaranda sva follnum manni, ok tekr sva til orðz: „Vin minn, segir hann, hvers hattar maðr ert þu, er mik spyrr þessa?“ Fuglari svaraði: „Ek er fatækr maðr aflandi mér ok mínu folki dagligrar hialpar meðr handa erfidi.“ Heilagr Johannes segir þa brosandi til hans: „Hvers háttar iðn er þer kæruzt at hialpa með liðinu?“ Fuglarinn svaraði: „Se,“ sagði hann, ok retti hondina til bogans a golfinu, „her er minn afli ok atvinna.“ Sæll Johannes spurði: „Ert þu kænn maðr við boga?“ Fuglarinn svaraði: „Sialldan hæddi fugl boga minn.“ Postolinn segir: „Tak upp bogann ok sýn mer!“ Sem þat er gort

talar eun guðs maðr: „Ek sér, at boginn er vel veiðimannligr. En hvi er streingrinn sva linr, sem lauss leiki?“ Fuglarinn svaraði: „Þat ma, herra, eigi annan veg vera.“ Guðs maðr segir: „Skyr þat enn framarr firir oss, hvi streingrinn þarf umskiftis.“ Fuglarinn svaraði: „Þvi ma streingrinn eigi þarnaz umvænding, at hann berr eigi somu raun sifellda; boginn beiðir ok lika vegð sem broðir hans, þviat hann er bendr þvi skarpari, sem hann hviliz aðr i linan streingsins.“ Blezaðr maðr drottins brosir þa sva talandi: „Nu syniz mér, son minn, sem með þinni athofn ok iðn hafir þu sialfr leyst þat, er þu spurðir oss. Lat mina veyka nátturu skiliaz firir boga þinn, þviat mundanglig vægð eflir mannzins hugskot til goðra verka eftir hvilld lofliga tekna.“ Sem veiðimaðr heyrir skynsemd af blezaðum munni sva biarta ok astrika, fellr hann framm undir blezan með ollu miuklæti ok vændir aftr i veg til sinna hluta.

5. Sæll Johannes sitr oftaz ok heimolligaz i hofutborg Effeso, þess i miðil er hann visitérar kristnina siaandi stiorn ok ráðvendi byskupanna, lif ok siðu sérhverra stétta ut ifra, upprætandi með postoligri rauksemd villur ok uveniur allar, sem fremst var honum mattulikt Sva smiðaði þessi gofugligr herra biarta kristni af grundvelli virðuligs Pauli, veitandi ungum ok ellra, korlum ok kvendi, heilum ok kraunkum þann hialpardryck hverium, sem hans hifneskr meistaradomr sa vænstan til heilsu eilifrar. Ok þvi sva at hofðingi friðarins ok hofut astarinnar drottinn várr Jesus Cristus var medr honum samvinnandi til allra godra hluta. Sva starfar heilagr i guðs vingarði, þar til er vargr kemr ok gripr hirdinn en dreifir hiorðina. Þessi vargr er sialfr fiandinn vándr ok svikafullr, er firir sina handgengna vini unáðar sælan elskara drottins medr ofsókn, angr ok utlegd. En fyrr en þat mal se byriat, er hugleiðanda vitrum manni, at heiðinn domr varð diup-rettr i þvilikum stórrikium. Leiðiz her sialf Roma til dæmis, er um allan pafadom heilags Petrs postola helt innan staðar auflugan styrk ok bolfaðan, sva at reið um siðir sialfum Petro i krossfesting. Sama dæmi sækir Asiam, sem sidar mun greina.

6. I þann tima er austrhalfan fagnar i lifi ok liosi virduligs Johannis, sem nu greindiz, helldr keisaradóm i sialfri Roma Domicianus, son Vespasiani en bróðir Titi, er wnnu medr iarni ok bruna bolfaða Jorsalaborg, er pindi sialfan son guds. Þessi Domicianus afkyniaz forliga fra Tito broður sinum, þviat hann byðr um allt Romveria valld, at skurðgoða villa fágiz, en vars herra tru fóttroðiz ok hennar predikarar grimmliga piniz. Þessi eitrlig

illzka með afarkostum geisar fiogurra vegna út i hvert riki, ok þvi finnr hun Asiam sem onnur lond. Er þa eigi langt, aðr valldzmaðr Effesiborgar, er a latinu kallaz proconsul, ríss upp meðr vandlæti goðanna, hefir heilagan Johannem a stefnu, bioðanði honum af hálfu keisarans at kunna sín hóf ok heria eigi a sæmd ok siðveniur hofðingia, sem hann vill forðaz reiði ok afoll veralldar rikis. En kappi Kristz stendr með ollu úbeygðr, segiz meirr munu hlýða guði en monnum, at flytia ok frægia vars drottins dyrð, frials firir hverium manni um alla sina daga. Firir sva fallit annsvar guðs ástvinar grimmiz proconsul sva geystr, at hann gripr Johannem til iarns, en skrifar bref til Roms ok flytr hans mál, sem her stendr ritat.

Sinum milldazta herra volldugum Domiciano keisara sendir Effesinus proconsul kæra kveðiu með skylldugri hlýðni. Yðvarri tign se vel kunnigt, at sa ebreskr maðr, er Jon heitir, predikar i Asia Jesum Cristum hinn krossfesta, segir hann vera sannan guð ok son guðs lifanda. En fagan goða varra smár hann i ollum sinum orðum ok verkum, segir þat ecki vera utan villu, er vær forum með. Hann brytr at velli þau virðulig mustari, sem efilduz með veralldar rikdomi, bolar ok brennir guðin sialf, upprætir lunndinn, ok hvat er hann kann i hermd ok hatri hrærir þessi ebreus baðum hondum mót yðvarri villd ok varum atrunaði. Nu sem lýsiz af þessu framferði, verðr yðr liost, hversu galldramaðr ok villumeistari rangturnar login ok alla setning með sinni fordæðu, þviat nalægt allan borgarlýð Effesinum dregr hann undir orðslægðir ok dyrkan við þann dauda mann. Nu sakir þess at vandlæti guðanna lifir með skylldu i várri stiorn ok hiarta, buðum ver þenna ebreum firir várn dómstol, ognandi með afarkost undir yðru tignarnafni ok útgefnu boðorði, at predikan hins krossfesta dirfðiz hann engum manni framarr at orðfleyta. En þar i gegn mættum vær sva ubeygðri þriózku af hans ofbelldi ok andsvorum, sem þer ok ver værim engiss verðir. Ok tiáðum vær yðvarri tign þessi letr, at þer várum stétt audsynit, h[vat um] greindan [Jon] skal framm fara. Valete.

7. Sem þessi bref beraz i Rom firir Domicianum keisara, blæss ei seint hoggormr helvitis þat bolfaða briost meðr sva eitrblondnum boðum ok brefum aftr i Asiam til proconsulem, at hann færi fiotraðan a skip fanginn Johannem framm til Romam undir þann orskurð, sem honum diktaz firir sinar frammferðir. Sva geriz, sem brefin frammkoma, at astvin Jesu Cristi er fanginn i

fiotrum út a skip, er gengr til Romam, fylgir honum sialfr proconsul með morgu liði. Sem þeir koma i Róm, ok Domiciano bannsettum verðr þat flutt firir orðsending proconsulis, at Johannes fangi krununnar er þa nalægr at þola dóm, vill keisarinn hvárngan þeira sia ne heyra, utan helldr i bolfan sinni ok bræði bydr hann proconsuli at leiða Johannem firir þat borgarport, er latina kallaz, afklæddan, hyddan ok afhærðan með fullri háðung, náverandi sialfri aulldungasveit rómverskri. Þar eftir stendr sva boðit, at eyrendreki várs drottins steytiz lifandi niðr i viðsmior vellanda. Þetta boð sva bolfat Domiciani framinkæmir proconsul, sem var i hans fórðzi fremst ok sialfræði. En þat var herra Jesu Cristi hifnakongs (vili), er annan veg geck ut, en þeir Domicianus hugðu, þa er gofugligr guðs kappi sæll ok blezaðr Johannes for framm af ketlinum smurðr en hvergi brunninn. Hiti vellandi vinnr honum lof ok dyrð eilifa, sem váttar su kirkia, er stendr i Rom firir aðr nefnt port latinam. En þo at drottinn allrar dyrðar rétti sina hægri hond til hifneskra stormerkia ifir sinum blezaðum frænda ok astrikum postola, sem biart berr vitni um i aðra grein messudagr sa, er kristnin helldr a várit eftir festum Sancte Crucis i sigrmark sancti Johannis, brę̈ðiz ei þvi helldr harðýðgi bolfaðs Domiciani keisara, helldr leggr hann nu astvin Jesu Cristi undir útlegðarkvol til eyiar þeirar, er Pathmos heitir, at hann samreikniz þar þeim, er fordæmdir vóru undir griotvinnu nott ok dag. En þessa pinu sem aðra fyrr vændir drottinn hifneskr i sina dyrð ok sæmd Johannis, þviat greind eyiarvist vinnr guðs kristni þa tign, er lifir til heims enda. Hann kom þar postoli guðs sonar. En nu auðgaz hann sva mikit i utlegðinni, at með postoligri tign verðr hann spamaðr i nyia testamento. Nyia testamentum byriaz af degi Johannis baptiste, en lyktaz með efzsta degi verালldar. Dyrð heilagra hinn haleiti Jesus birtir þat meðr þessum útlaga sælum Johannes, sem signaðr Davið kongr syngr i sinni bok, at faðir hifneskr er leiðtogi rétvisra ei firirlatandi nockurn þeira, er honum vel þiona, helldr gleðiandi ok geymandi hvern þvi framarr, sem hann er meirr þurfandi. Virðuligr vin drottins blezaðr Johannes þiggr i Pathmos sva frumtignaða ástgiof a einn drottinsdag, at sialfr skapariun herra Jesus Cristus kallar hans andarsýn til himinrikiss dyrðar tiáandi hans hugskotz fegrð sina leynda hluti ok hin haleituztu stórmerki. Ifir þa andarsýn ok birting eilifliga blezaða semr sæll Johannes eina bók, er kallaz Apocalipsis. Su bók berr sva blezaðan faðm, sem skyrir meistari Joachim, at hun hondlar

sex heimsalldra, þat er at skilia veralldarstaða oll af degi Adam til enda. Sva mikil dýrð virðuligs Johannis birtiz i þeiri bók, sem sialfr skrifar hann heim i Asiam, at firir upploknar dyrr himinrikiss hafi hann skærliga greint hirðsveitir heilagra, hvat er ei þarf undran leiða, þótt sva biartr verðleikr sæi guðs valda menn, er framm gengu lífliga braut blezaðra guðs boðorða En þat ma synaz frabært i greindri bok, at Johannes skildi þa figuru ok skrifaði, sem merkti hann sialfan, þat er aurn sa er stoð i lofgiordum hia sialfu guðdomsins hasæti. Ok hvat þyðir sva dasamligt takn utan einvalld hifnakongs, er alla hluti sérr nalæga, þo dagr veralldar se seinni með sinni framrás. Sannliga sýnir þessi arnar figura þa virðing, er guðs maðr sæll Johannes þiggr enn framleiðis, sem sagt mun verða; þviat astgiafir hifnakongs veitaz þessum manni meðr frumtignaðum rikdóm. Þvi er skrifanda þessu næst, hversu várr drottinn kallar hann heim af útlegð, þviat haleitr hirðir herra Jesus sérr, at kristnin i Asia þarf nu meirr en fyrrum, at sæll guðs maðr styði hana, sakir þess at þrir forrennarar Anticristi hafa hlaupiz i erfð hins krossfesta, sem vargar i sauða dún at fragripnum hirðinum. Fyrsti sa dauðasonrinn heitir Marcion, annarr Cherinthus, þriði Ebron með bannsettum kompanum, er liugandi fliuga meðr þat fals, at guðs son væri engi, aðr Maria mær varð getandi. Þvi geriz guds sáudum hungrandi nauðsyn, at sa leiðiz heim, er lægia kann ok lemia sva bolfaða guðlastan. En með hverium hætti eða tildrætti guðs maðr vændir heim til Asiam, stendr sva skrifat.

8. Domicianus keisari rikti fimtan aar, vann hann þat i efsta sinum argang at ofsækia signaðan Johannem bæði til elldz ok utlegðar. Þvi safnaz at honum illir hlutir sva gnógliga til elldzbruna helvitis, at hann likiz hinum verstum monnum tveimr, er heita Heródes Askalonita ok Nero, er drap guds astvini ok merkismenn Petrum ok Paulum. Þat eru fotspor Herodis, er Domicianus elskar hardla miok at hata ok hrinda i ymissan dauða allan þann ættlegg, er hann fann nakvæman i frændsemd vars græðara Jesu Cristi. Skal þeim su sok ríða til tions ok tapanar, at tigit kyn sva volldugs ok virðuligs kongs hefi engan þeira til veralldar rikis. Nerónem fágar Domicianus i guðrækum girndum ok taumalausum lifnaði. Her með svelltr hann i þeiri fiarágirnd, at innan sialfrar Rómam drap hann ok dreifði til utlegðar burðuga menn, at kongsgarðr mætti gleypa goðzin. Þvi æpir fordæming upp a hans bolfat lif með reiði guðs ok manna, sva at sialfr sena-

tus i Rom ríss upp i mót honum ok drepr hann i sinum glæpum. Do hann sva svivirðliga, sem hann lifði haðuliga. Her með er Romverium sva hatrligt allt hans lif, at þeir logtaka með villd ok valldi virduligs keisara, er nu var nytekinn Nerfa at nafni, at allir hlutir i frammferð Domiciani skolu deyia með honum, hvert riki valld eða sæmd sem hann hafði serhverium veitt, nærr eða firr, skal allt i unytt falla. Hvat ok er hann hefir pint með rani ok rangindi, afarkost ok utlegðum, skal aftr skipaz sérhverium með fullri rettarbót sæmdar fiár ok frelsis. Eru boð ok bref gior með rennarum viðs vegar ut i rikin, at sva geymiz hver grein, sem nu var tiáð. Heðan leiðir, at astvin lifanda guðs sæll ok signaðr postoli Johannes, nu spámaðr vorðinn, þiggr sitt frelsi ok heimferðarleyfi. En áðr hann lyfti sinni ferð til Asiam, lystir á at líta með stuttu mali, hversu frammkæmiz með sælum Johanne ritningarorð, at hverr madr er gudi þvi nalægri, sem hann meirr þrongiz af þessum heimi. Þat sýnir eyiarvist guds vinar i Pathmos, sem sialfr hann vattar i upphafi sinnar bekr Apochalipsis, at Jesus Cristus himinrikis kongr birtiz honum skrýddr ok skinandi með sva haleitri dyrð, at daudlig nattura Johannis matti ei standaz, helldr fell hann framm til iarðar sem daudr maðr, aðr græðari várr sannr guð lagdi sina helguztu hond ifir hans hofut sva talandi: „Vik ifra þer allan ótta, ok set með letri, hvat er þer birtiz i minu liosi.“ Her eftir at upploknum sialfum hifninum segir honum græðarinn Jesus: „Stig allt upp higat,“ segir hann. Nu sér vitr lesandi maðr, at þessar tvær frumtignir eru miok biartar, hond ok heimboð hifnakongs. Her fylgir þat fleira i hifnasýn Johannis, at þa er einn guds engill hafði sýnt honum forkunnlig stormerki, ok sæll Johannes villdi frammfallinn þacka honum þar firir, talar sva engillinn: „Geym at þinni giorð, segir hann, sambræðr erum mið.“ Nu þo at allt iardlikt hafi lágan stétt hia hifneskum giofum þessa Johannis, er til minnis leiðanda, hveria frægð ok astuð hann hafði miðil allra goðra manna, hvarfirir skrifuðu til hans einkannligir formenn kristninnar fogr bref bæði samharms ok hugganar. Hvar af vær vilium minnaz i fliotu máli þess letrs, er honum sendir einn guðs vin Dionisius at nafni bæði astrikr ok i andanum vel skygn, hann talar sva: Ek lágr þionn Dionisius heilsar þik, heilug sál, þviat þu ert bæði sannr ok sæll guðs astvin, elskuligr ok girniligr, sætr, hreinn ok astsamligr. Sva hefir min hugleiðing, at þér, virðuligr faðir, munit aftr vænda eftir tima rás i Asialand, ok skenkia enn sem fyrr morgum lyð lifanda vín af blezaðum brunni

hins goða Jesu meistara þins, drottins várs ok dyrðarkongs. Her með látum vær luta til virdingar voldum astvin drottins, at blezaðr herra nyvorðinn Nerfa keisari sendir sina villdarmenn honum i mót allt til eyiar Pathmos. Þessir bera guðs manni blíða kveðiu keisa:aus boðnir i alla mýkt ok þionkan, ferð ok fylgd landz ok lagar, allt heim i hofutborg Effesum. Blezaðr Johannes þackar meistara sinum herra Jesu alla þessa gleði, giof ok gudligar veitzlur. Sva vændir hann signadr brott or Patmós með vegligu foruneyti heim i eiginskola Effesum. Þat setr heilug ritning, at vinr drottins kom heim til erchistolsins Effesum a þriðia dag iola með þeim fagnaði allrar guds hiarðar, at langan veg ut af staðnum runuu fylkingar sem i guðs tilkvamu syngiandi hátt ok morgu sinni sama lof, sem veittiz varum lausnara a palmadag i siðurstu Jorsalareið, þat er Benedictus qui venit in nomine domini. Sva norrænat: Blezaðr er sa maðr er kemr i nafni drottins.

9. Heyrðum vær lofgiorðir, þær er Effesinus erchistoll veitti guðs manni signaðum Johanni i hans heimkvamu ok at verðugu, þviat rett sama dagh synir hann sik vera þann blezaða mann, er kemr i drottins nafni, þa er lif ok dauði þionar hans bæn tvefalliga meðr vars herra villd ok boði. Meistari Miletus váttar þat sama satt vera, sem i dagh stendr skrifat bæði i songbokum ok fornum kveðskap, at i greindri processione hafi signaðr Johannes reist af dauða husfru Drusianam ok setit samdægris ifir hennar bord i góðum fagnaði audligrar miskunnar. Varð þat þvi frægara verk, sem fleiri voru váttar, ok þvi mátti heyraz mikill hliómr margmennis þann dag út um þriar stundir, at sa einn er sannr guðdrottinn, sem virðuligr Johannes postoli predikar. Sva segir ágætr herra Alexandrinus erchibyskup Clemens at nafni, at bratt sem signaðr Johannes var heim kominn, visiterar hann þa kristni, sem fyrr aflaði hann sinum guði, með postoligri roksemd ok heilagri predikan, þviat nu sérr biartr ok blezaðr hirðir sinna sauða, hver kirkiunnar nauðsyn krefr ok kallar framarr en fyrr. Einkannliga verðr hann beðinn, at firir sina ifirreið muni hann upp ræta þat eitrat illgresi, sem fyrr nefndir forrennarar Anticristi hofðu helvitzkir varpat i heilagt hveitiflúr kirkiunnar. Ok áðr guds maðr hræriz i veg, vilium ver setia einn æventyr i skilning þar um, meðr hvilikum hugarkrafti hann myndi niðra villunni. Policarpus het einn af lærisveinum Johannis postola, er siðar varð Smirnensis byskup. Hann vattar i sinu letri, at uvinrinn Cherinthus villumaðr var sva udæmis diarfr, at hann flyði eigi Effesum, þott sialfr Jo-

hannes sæti innan staðar, sem i þvi lysiz, sem her fylgir til vættis. Lásum ver fyrr, hvert varkyndar kyn sæll Johannes veitti kristninni, þa er hann lek með hananum forðum. En nu i aðra grein skrifar Policarpus byskup fyrr nefndr, at meistari hans postoli guðs vandiz a vísum timum at taka dagbað til þess at þva sik. Þvi gengr sva til frasagnar um dag, sem guds madr er i badferð ok kemr innfarandi i stofuna, sér hann at uvoru vándan villuþion Cherinthum inni firir i baðinu. Hvarfirir várs drottins vin er i seinlæti · með engum hætti hondlaðr, helldr sva fliotr út af husinu, sem vandlætið bar hann braðazt, með sva felldum orðum: „Brott heðan, segir hann, at guðs réiði grípi oss eigi með braðan slag firir nockura samveru Cherinthi villumannz."

10. Greindr æfintyr skal standa firir fulla skyring, hversu sterkliga virduligr Johannes eyddi villureykium bolfaðra orma brott af kristni Asiana með sætum sunnanvindi heilags anda, er honum fylgdi ok frammkæmdi til allra goðra hluta. En hverr mun skyrt fa þa birti ok blezaða nytsemd alla samt, er hann vann kristnum dominum i þessarri visiteran, hversu hann hirti logbrotin en lęknaði mannkostinn, dro fra lýti en leiddi a lifsgotu, efldi almenningstru, en lægði stygðir, formeraði sannan frið, en lærði ufróðan, reisti kirkiur eða pryddi reistar, með þessum ok oðrum privilegijs, ok hvat hans tign með trausti hifnakongs vann i ser greindu upphelldi ok endrbæting guðs rettar, ma sa einn virða, er alla hluti gefr vel skilia, hversu foðurliga milldi ok miukan lófa hann blezaðr felldi til i hverium stad at draga dauðamyrkr fra augum andarinnar ok leiða til lios eilifrar guds miskunnar, sem skilrikr vattr mun enn syna framarr flestum dæmum, aðr uti er frasognin. En nu þessu næst er a litanda miðil annarra lofgiorða virðuligs herra Johannis, hversu með predikanarembætti hann hefir framm gengit i styrktarkrafti heilags anda ulikr hverium dauðligum manni; þviat allt af timum drottinligrar piningar, upprisu ok uppstigningar allt i andalykt Domiciani, predicaði hann guðs orð án ollu letri ok bokafulltingi, eigi minnr en um sextigi ára ok fimm, allt. þar til hann var i útlegð rekinn. En þar sem nu er mali komit, ma val inn leiða þa ritning, at morgu sinni sækir sama mót goðr vili græðarans ok illvili mannz, sem framaz ifir oll dæmi birtiz i pinu lausnara vars. Synt er, at ofundin ebréska negldi hans hendr ok fætr upp a krossinn, en su sama krossfesting með guðligum astarhug til sinnar skepnu gaf ollum trulyndum eilifa samkundu.

11. Likt dæmi, sem nu var inn leitt af vars drottins pinu, ma rettliga dreifa heðan framm til kristninnar i Asia með þessarri glosu. Þar hlupu inn limir fiandans i formannzlausa kristnina, er með sinu falsi settu stundligt upphaf eilifum guðs syni. En i mot þessu myrkri bar drottinn lifandi sva fagrt lios af hifni, at ei kann dimmaz framm til doms. Ok nu til framkæmdar, hvat i þessum timum hafa gera formenn kirkiunnar, utan hugleiða tva hluti mislika, þat er grand er geck af munni guds uvina, sem fyrr var tiað, en i aðra grein geislandi birti ok bokargiorð gofugligs Johannis af hifnasyn i Pathmós. Hedan gefr þeim háfan skilning hinn heilagi andi, at sami lifs verðleikr guði sva nakvæmr laðar sætliga uvordna frumtign til umliðinnar. Sva efliz þetta mal i disponeran hifnakongs, at fremstr Effesinus erchibyskup, þar með lydbyskupar sama rikis, ok enn her til sendibref ok miukar bænir af ymisum halfum, at guds astvin sæll Johannes geri sermonem moti þessarri villu, er fyrr greindiz, at hann auðsyni varn herra Jesum Cristum sameilifan guði fedr i haleitum guðdomi æ rikianda, sva at þessi hans komponéran samsettri i lof ok dyrð sialfrar dyrdar guddomsins verndi kristnina ok varðveiti sterkliga i truar sannleik, hverr váði eða villa sem inn kann koma i siðarrum timum henni til striðs ok unáða. Her meðr tiáz sælum Johanni þriu verk þriggia guðspiallamanna Mathęi, Marci ok Luce. Segia byskupar, at i þessum þremr virdiz þeim gnógliga skrifat af manndomi várs drottins ok af þeim hlutum, er hann vann firir mann, en hifneskr guðdomr hans sýniz þeim minnr með lofgiorðum bodaðr, en krefr nauðsyn ok nytsemd kristninnar. En þo at bænarstaðr þessi væri virðuligr ok storum nytsamligr, er guðs madr Johannes eigi fliotr i iattyrði, þviat hans haleit vitra sérr giorr en aðrir, hversu verkit var hátt ok hifneskt. Firir þa grein aðra var hann seinn, at þat var sem lundlagt vars drottins postolum, at elska meirr hugarkraft en letrgiorðir, þviat bokin var su einkanliga biort, er þeir blezaðir baru framm til synis i sinu lifi. Her ma til greinar leiða signaðan Paulum postola, er kominn or skola paradisi sialfrar leifði eigi meiri bokagiorð kristninni en nockut compendium sinna sendibréfa. Honum liktuz aðrir af skola vars herra. Ok ei þvi siðr kemr þar máli með guðs vilia, at signaðr Johannes gefr sik eftirlátan flutningi lærðra manna, ok með þeiri atferð i augliti guðs, sem bazt mátti honum sama, at hann segiz þetta verk a engan veg annan upp byria, utan firir renni bæði vokur ok bindendi, at guðs milldi se honum samvinnandi. Sem þetta hefir allt iattað andlig gleði

til frammkvæmdar, hefir guðs maðr þat upphaf, at letr þriggia guðspiallamanna tekr hann undir athygli, ok finnz honom sva til, at allra þeira verk eru loflig með liosi sannleiksins. Ok iamfram sérr hann, at umrás þeira er einkannliga fliot i fyrstum verkum græðara várs, sem hann byriaði predikan lifsins, þviat þann argang er sæll baptista Johannes var innkastaðr eða halshogginn, sýnaz þeir setia upphaf sinnar letrgiorðar.

12. Allri heimskringlu, er firir font ok heilaga tru lifir ok leitar eilifðar krunu, er kunnigt vordit, hversu biartr Johannes guðs maðr hof sitt helgazta ewangelium in theologia, þa er sagði hann: Jn principio erat verbum. Af þessu ritningarupphafi sva háfu ok hifnesku feck hann at verðugu þat tignarnafn bęði með Grecis ok Latinis at heita theologus, þviat þessi einn af fiorum ewangelistis hóf i sialfum hifninum sinn frammburð. Hann skildi þria guðspiallamenn hafa biart boðat holldligan higatburd vars herra, ok þvi vikr hann fra iorðu til hifnarikis gnogliga gæddr ok dryckiaðr i miskunnargleði heilags anda. Sva mikit efni gefr Augustinus Ypponiensis upp i sæmd hins signaða Johannis, at hann hefði þvilikt upprásar lios a engan veg odlaz utan uppnuminn ifir oll englafylki, sem utallig lof annarra heilagra feðra ollum megum til þiona ok þionandi lúta. Sva til orðz at taka, sem eftir stund liðna vændir heilagr Johannes til iarðrikis, ok tekr til letrs þann árgang, er firir rann innsetning Johannis baptiste, ok þvi skrifar einn Johannes várr blezaðr sogumaðr ok sæll af bruðkaupum in Chana Galilee. Her ma nu líta moðuna fiorðu paradisi með lifligri dogg til eflingar ok avaxtar allri guds kristni, her birtiz fagrt miðdegi, þa er solin skinn i hæsta hioli, þa er hifneska dyrð vars drottins pryðiz ordum Johannis. Her ma kennaz hunangligr[1] ilmr harðla ynniligr til briostz ok bergingar iorðneskri(!) kristni, þa er sætleikr sialfra englanna ilmar af munni Johannis a vorr ok hiarta valdra manna. Her ma sia annan leonem hia velldissæti udauðligs Salomonis. Hvat hlioðar her unefndr leo utan Ave Maria? Hvat rómar várr leo nema verbum caro? Her er nu þat arnar form, er fyrr greindiz i hifnasýn virðuligs Johannis, þviat sa fugl beinir hærra flug en nockurr annarr. Þvi stendr hann vel i glósu Johannis, er i upplitningarhæð eilifrar dyrdar bar sik nálægara sialfri sól guðdomsins en nockurr hofutfaðir eda heilagr maðr, er upplypti andligt auga til hifneskra hluta. See, hvern ávoxt hefir privilegium sæls Johannis. Lit ꝏ, hvat aflar hans meydomr ok skirlifi. Se,

1 hugnangligr *Cd.*

hvat hann drack af briostfostum brunni hins blezaða Jesu i siðarsta snædingi. Sæl er su elli, er þvilika erfð leifði kristninni, blezut er su sála, er græðarans orðfelli hiellt i minni sva vakrliga ut um sextigi ára, at engi folnan fell æ, helldr oll merkiligri ok skýrri en dauðleikr mannz megi virða. Þvi stendr ewangelium Johannis siðarr en onnur þriu a hverri bok, at þat giorðiz siðarst i frammrás timauna, sem nu var greint. Blezat ok biart var þessa mannz lif, sem avoxtr vattar, þviat um alla sina daga liktiz hann æztum guðs astvinum. Litillæti lofligt, er grundvollr kallaz ok lim allra mannkosta, hellt hann ubrigðiligt með eftirdæmi virðuligs herra David kongs. Hlyðni guðs boðorða með sælum Abrahe hofutfoður en þolinmæði með dyrðligum Jób spamanni hafði þessi guðs elskari. Þvi var honum eftir ordum sæls Gregorii pafa skepna guðs almáttigs eftirlát ok hlyðin, at hann gaf sik fyrr sialfan undir sanna guðs hlyðni með ond ok likam, hvat skinn liosi biartara i þessum miraculis.

13. Bræðr tveir fullrikir menn i Effeso villdu heimi hafna. En hver þar er regla til, var þeim ukunnikt, þviat i raðagiorð leiða þeir eigi Johannem postola, helldr heiðinn speking, er Craton het. Gefr hann tillogu samlika sinni tru, at þeir umvænda godzin i dyrustu gimsteina ok briota með hegomadyrð þa somu sundr i onytt a fiolmennu torgi. En hversu herra Joni theologo likar þessi heims hafnan, þann tið hann kemr framm a motið, tekr heiðinn Craton rett a sinar berar brynn með makligri ávitan, hversu hann heimskaði bæði sik ok adra, þar til at spekingr byðr þann veg at lúta Jesu hinum krossfestá með tru retta, ef Johannes i hans nafni endrbætir brotna gimsteina. Ok þann utveg tekr giarna hialpari salnanna, þviat at bæn giorri eru gimsteinar heilir, en Craton skirðr með allan sinn skara. Af þessu dyrdarverki syngr sva sælum Johanni heilug kirkia: Cratonem philosophum traxit ab ydolatria de stulto mundi contemptu ad virtutum studia.

14. Enn er lesit ab(!) oðrum tveim bræðrum, er lofliga með rauksemd sæls Johannis dreifðu sin goðz til guds lima, nu fatækir i fylgd ok visitéran sins andligs foður, aðr fiandlig aur helvitzkrar ofundar grefr þeira briost i borg Pergamo, sem þeir sia i veralldar mekt sina fyrri þionostumenn, hvat ei færr leynz firir sælum Johanne. Þvi tekr hann orðum þeira vesolld, ok færr eigi bata wnnit sva griotligum hiortum, sem uvinrinn hafdi smogit. Ok sakir þess at nu rikir enn heimrinn með þeim, byðr þeim guðs maðr bera til sin fiorugriot ok skogarhris, hvat hann hvartveggia

i guðs nafni umvændir, snýr vond i valit gull, en griot i gimsteina, at sálugir bræðr taki þetta firir andlig auðæfi, ef þeim syniz kiorligt; ok þeir herfangnir voru bunir at hlaupa fram a foraðit, áðr milldr guð firir meðalgongu sæls Johannis litr þa með sva dyrðligum hætti, at maðr af dauða reistr firir astúð ynniligs Johannis, Stacteus eignarnafni, boðar þeim or oðrum heimi sina glatan eilifa, nema þeir heyri ok hlýði voldum guðs vin, er þeim kennir lifs gotu. Meðr þessum hætti ok arnan herra Johannis vænda þeir af villistig til sannrar idranar ok endrgialldz lifanda guði. Ifir þessarri hlyðni skepnunnar, er her veittiz sælum Johanni, syngr sva kirkia: Saxa gemmas, aurum virgas sua per imperia mutavit et reformavit in naturam propriam.

15. Sagt var fyrr i þessu mali, hversu i storlondum hafði heiðinn domr háfa rót með grimmd ok guðrækri villu, þott predikarar sannleiksins drægi margan af valldi Pharaonis. Ok þat sama profar sæll Johannes ewangelista a sialfum ser. Sva lengi sem hann hafði adr predicat i Asia, þa er hann nu ei þvi siðr sem herfanginn ok dreginn af heiðingium framm til hofs hofutgyðiu þeirar, er Diana kallaz. Her skal postolinn kúgaz undir dauðakvol til hnefallz ok fornar Diane. En hann dvelr fornfæring, byðr helldr heiðingium með hogværð, at hvarir profi sinn guð; gerir þeim kost at kalla sina Dianam ifir musteri sins herra Jesu ok fella þat, ef þeir mega, til grundvallar. En ef þeir fordiarfaz, segiz hann munu profa, hversu herbergi dimmrar Diane bregðr vid blezat nafn Jesu Cristi. Ok þvi samþyktu af ollum muginum, at Jon skal fyrr profa sitt akall, biðr hann þa sem sina vini, at þeir rymi út af hofinu. Var su bæn guði viliug, þviat ei seinna en Johannes gerir enda sins akallz til vars herra, hrynr sva hofit niðr sem i einn léttan dupta iardarinnar firir sterkum stormi. Þetta dyrdarverk eflir sva haleitliga vars drottins hond, at sama dag snuaz til rettrar truar fimm þushundrat folks. Fagnar þa guðs ástvin miklum saluafla. Ok þo stendr eftir hundheiðinn hofutbyskup Effesiborgar, er Aristodimus hét, ok með honum iarlinn af keisarans halfu, þviat kristni guðs kendi þess, at lofligr Nerva nefndr fordum vard ei langlifr. Reiðiz nu Aristodimus byskup sva forliga firir hofsbrotið moti sælum Johanni, at nu er allt til arasar buit, sem herhlaup se innan staðar. Gofugligr Johannes likiz þa sem oftarr sælum Job i þolinmæði, rennandi framm i mot rasanda byskupi sva talandi: „Hvat mun ek þess giort fá, Aristodime, at þer hægiz um hiarta, þviat nu sé ek þik miok reiðan.“ Byskup

svaraði: „Til friðgiorðar midil ockar liggr engi annarr vegr, en þu dreckir eitr dauðlikt, ok halld heilu lifi i nafni meistara þins Jesu.“ Signaðr Johannes iattar þegar sva harðstinnum heiðingians utveg. Byskup segir þa: „Fyrr skalt þu sia þinum augum, hvat þeir taka, er eitrið drecka.“ Biðr ut siðan af iarlinum tva fordæmda menn undir eitrdryckinn, er án dvol deyia baðir. Ok þo stendr astvin drottins uhrærðr i sinu iattyrði, takandi bikar byrlaðan með eitrið sialft ut af byskups hendi ok dreckr með sigrmarki heilags kross af i einu, stendr siðan biartr ok ubrugðinn um sva margar dagstundir, þar til mikill rómr með samri rodd ríss upp i muginum, at einn er sannr guðdrottinn blezadr, sa er Johannes predicar. En þo at Aristodimus byskup heyri margan eitt ok hit sama hlioða, vill hann eigi þvi helldr at bordi ganga, utan krefr nu i endaliga truar efling, at herra Johannes reisi þa til lifs, er þar lagu dauðir. Sæll guds maðr svarar: „Gack til sialfr þessa verks, tak mottulinn af herdum mer, ok legg ifir likamina.“ An dvol, sem byskup hefir fyllt postolans bod, endrlifna þeir hardla gladir, er adr voru eitrdrepnir. Þarf nu eigi langt um, at firir þessi tvo frægdarverk virduligs Johannis frialsaðiz allr lydr Effesinus af myrkrum Egiptalandz, þat ær at skilia af villu fiandans, sva at herra Jon leiddi þa lifs gotu um rauða haf a firirheitziorð, þat er skirnarport til himinrikis. Logdu siðan þessir tveir menn, byskup ok iarlinn, sva mikla ast til herra Johannem, at þeir elfdu þat agæta musteri honum til lofs, er tima siðarr laðaði guds elskara framm i heimboð ok samkundu hifnakongs. En nu heðan skal vikia frasogn til þeirar milldi ok eftirsoknar, er þessi gofuligr guðs riddari sæll Johannes veitir einum hlaupingia, er rann or herbuðum hifnakongs framm a forat ok villistíga, þviat sva fellt eftirdæmi ma einkannligan ilm kristinna manna hiortum inn bera, at elska sva haleitan miskunnar foður, þa er heyriz, hversu hann dregr villtan vesling af kvolum ok kverkum helvitis, leiðandi aftr i faðm ok fagnat heilagrar guðs kristni.

16. Clemens erchibyskup Alexandrinus fyrr nefndr váttar, at i visiteran sinni kemr sæll Johannes i borg einhveria at miklum hatiðisdegi. Sækir þagat fiolmenni bæði sakir dags ok at sæma signadan guds mann. Ok i sva mikilli fiold sér Johannes einn ungan mann sva vænan i natturugiofum likamans, at honum finnz til bædi mikit at þacka gudi ok harma iamframm, þviat hann skilr firir heilagan anda, at hiartat var ulikt likamsformi fogru, er hann bar firir utan. Hedan leiðir þau biortu miskunnarorð, er

hann vikr at byskupinum, er litlu vigð[i hann til so]mu domkirkiu: „Undir guðs vitni ok heilagrar kirkiu, er þer styrit, felum ver yðr a hendi þann unga mann, at þer geymit hann i lifs veg ok gialldit oss hann með andar avexti, sem ver komum her næst með guds vilia.“ Oftar en um sinn repeterar herra Johannes þessor ord, aðr hann riðr af garði. Þvi hlydir byskupinn giarna takandi þann væna mann með bliðu ok bestzta(!) kosti sinnar olværðar. Ok sem hann skilr at unga manni likar val, leitar hann eftir hogliga um tru ok siðferdi mannzins, ok profaz sva til, at trufesti finnz eigi með honum. Byskup telr þa firir honum tru kristinna manna, þar til hann samþyckir heilagri skirn ok iattar guðs boðorðum. Ok er hann hefir numit fræði sin með góðum siðum, sem syniz, linar byskup athalldztaum til um nockurn mun, at hann hafi frialsan gang a garðinum, þviat hann treystir i stormerki skirnarinnar, at boðorð vars herra muni eigi i klungr kastaz hafa. En þat mál profaz minnr val en hann hugði, þviat eigi seinna en ungi maðr finnr, at vardhalldit rymiz, leggr hann klokskap i mót, at eigi skal hann fliott kippa beislinu en hafa þo sitt mal, áðr lykr. Ferr þvi fram eftir tima, at hann legz i kað ok náttdryckiur með suck ok saurlifi, sem lifit beiðir, en fleira illt þvi næst i nattstuldum með sinum iafnaulldrum, nu vorðinn stórr ok sterkr maðr ok hlaðinn atgiorfi, þo at hann neytti h[eimsklig]a ser veittra giafa. Þviat þessu næst geriz hann sem hestr eða mull með gapanda gin, sva at hvergi ma nærr honum koma, drecktr um sidir i orvæntis forat, grimmr ok graðugr i bloð ok bana kristinna manna, sva at til rans ok guðs reiðisverka hleypz hann brott af byskupsgarði út i fiall fiarri bygðum með sinum bolfaðum bræðrum, þiofum ok manndraparum, nu vorðinn þeira meistari til allzkyndis glępa, sem fyrr voru hans leiðtogar til smærri hluta. Nu er greint, hvert umboð byskup hefir framit eftir orðum ok ástrikum vilia Johannis. Liða nu timar, þar til guðs maðr Johannes visiterar kristnina. Ok er hann nalægiz þessa borg, ma enn val sva segia, at allr lyðr fagnar i hans kvamu, þviat foðurlig astuð með honum ubrigðilig bar ollum likn ok lækidom i hverskyns nauðsynium. Leiðiz vars herra vin með hatiðligri processione af byskupinum i borgina. Ok sem herra Johannes hefir skipat þeim kirkiunnar eyrendum, er þagat lutu eða lagiz hofðu, sérr hann til byskupsins hia ser ok segir sva: „Timi er nalægr, at þer fram leiðit þat sama, er guð ok ver þer i valld gáfum næstu várri visiteran.“ En byskupinn er sva einkannliga fraleiddr sialfum ser, at ei færr hann

hann endrminnz, hvar þessi postolans ord heima eiga. Ok þvi flýgr hugsan til hiartans, þoat eigi væri fogr, hvart fiarheimtu nockura muni herra Jon inn leiða. En hardla brátt varpar þeiri hugleiðing ifra honum, þviat ollum lyð var kunnigt með eiginni raun, hvar agirni oll herra Johannis var i komin, þat er at afla salir sem flestar guði til hægri handar at efsta domi. Her eftir þagnar byskupinn, aðr herra Jon talar sva: „Sál brodurins með andar avexti ydr a hendi fólgna, en eigi tæripenga krefium ver, at þer sýnit oss.“ Byskupinn svarar þa gratandi: „Ho, ho, herra minn sæti, hann er longu dauðr.“ Meðr hveriu kyni giorðiz hans liflat,“ segir guðs maðr. Byskupinn segir: „Guði lifanda er hann longu dauðr, sa utileguvargr rans ok manndrapa er grimaztr ma finnaz miðil manna.“ En er guðs maðr heyrir sva hormuligt orð, angraz hans lif meðr grátligri sút, ok talar sva: „Ek þóttiz hafa format lifs gotu manninum undir yðra hond; en nu dugir engan veg, at sva standi.“ An dvol býðr vin drottins, at skiotr ok leidsogn se til reiðu framm til fiallzins, er ránsmenn hallda með sinum glæpum. I stað hefir hann sik a hest sva fliótr ok færr sem uminnigr mikils alldrs. Sva vill herra Clemens segia, at þessi guðs riddari hafdi eigi meira fylgi til motz við sva margt ok mikit illmenni en einn leidtoga framm i veg, ok þvi sva, at allt hans traust var með einum gudi.

17. Nu sem herra Johannes kemr i fiallit framm, er uti vakr vorðr spellvirkia a hveriu gatnamóti, ok þvi er Johannes þegar umkringdr af sonum ranglætis ok naliga fanginn af hestinum. Hann blezaðr talar þa: „Hvat uskylldugt áfáng geri þer? með ydr á ek ecki eyrendi, utan kallit mer formann ydvarn, til hans er ek sendr.“ Ok án dvol með þess valld, er skepnan hlydir, gera vándir þetta sendiboð. Ok sem látro heyrir þa, rís hann hart ok herklædiz til handa ok fota, sem i stríd skili(!) hann ganga. En sva framt sem hann berr nidr i nalægd med riddara þenna, er kominn var, kennir hann þegar guðs mann, ok bregðr sva við, sem eigi var vani dagligr godra manna, at meðr flugskiotum flotta tekr hann a rás, sem fætr mattu mest skrefa. Astvin drottins slær þa til rásar hestinn, sem framast eru fong á, ok kallar með þessu ordfelli: „Son minn, son minn, hvi flýr þu ok firriz fodur þinn? hvi rennr þu herfærr ok heill undan mer olldruðum manni ok vapnlausum?“ Sem þeir hafa reýnt skeíð eda tvo, dregr hart saman, þviat hestr var fimr, en flottamaðr feitr ok herklæddr, hvarfirir eyrendreki drottins semr ser onnur ord enn sætari: „Son minn

sæti, ottaz eigi, þviat enn hefir þu lifs ván. Sé, son minn, ek mun giallda guði minum skynsemd firir þína sál, ok ef drottinn minn vill þat krefia, skal ek feginn likamsdauða þola firir þik, sva sem drottinn þoldi firir vára sok, ok mina sal mun ek gefa firir þitt lif. Þvi veit mer bæn mina, at þu gefir stað, tru mer, at drottinn sendi mik.“ Meðr þessi siðuztu orð stendr spellvirkinn sem herfanginn varpandi framm a vollinn sverðinu ok sérhverium herfórum, sva at berr með einum kyrtli stendr hann, er guðs maðr kemr til. Ok iafnbrátt sem herra Johannes ste niðr af hestinum, fellr latro framm a vollinn firir fætr honum með þeim grát ok andvorpum, at vel mátti hann skiraz i annat sinn með miskunn ok ablæstri heilags anda. En hverr mun greint fá gleði guðligs þaklætiss, er fylldi briost hins signaða Johannis, sem hann litr siukan sáuðinn flaktan með sárum grata sina glæpi með ángr ok tárum. En er guðs maðr sitr ifir honum gratanda, sérr hann með sinni vitzku, at maðrinn piniz einkanliga af þeiri sekt, er hondin hægri hefir wnnit með ran ok banord saklausra, þviat þenna lim felr hann ok firrir guðs vinar augum, sem mest færr hann. Lofsamligr læknir sálnanna þolir þetta með engum hætti, nema helldr fellr framm a iorðina iafnsitt latrone, takandi með afli astrikis þa somu sektarhond undir koss ok þann kærleik, at þann sama lim segir hann nu þegar vorðinn biartan ok blezaðan firir tar ok tiguliga idran. Sva mikla milldi fremr drottinn eilifrar dyrðar i þessu mali, at gofugligr hirðir herra Johannes leiðir þenna mann aftr i faðm ok fagnat heilagrar guðs kristni, stendr i bæn, bindendi ok iðran dag ok nátt með honum, þar til at endrgolldinn guði gefr hann sælan son a briost biartri moður sinni.

18. Lasum ver um tima lif ok skinandi iartegnir tiguligs herra Johannis ewangeliste, ok mun þer synaz sem skilrikir váttar se frammleiddir firir asianu kristni guðs, hversu dýrmætan skola hann oðlaðiz fordum heima i Jorsalalandi. Ok þótt ver settim hans skóla nafni einfallda tolu, ma hann rettligar kallaz fimmgreindr i rettri roksemd ok heilagri glósu. Frumtignaðr var sa skoli, er hann þæ ifir blezad briost sialfum guds syni, þviat þessum likiz engi dauðligr maðr utan ein modir drottins, þa er hon bar hann ser i kviði. Annan skola hafdi herra Johannes sameiginn oðrum postolum undir læring ok meistaradómi lausnara vars Jesu Cristi firir pinsl ok eftir upprisudýrð hans fram til uppstigningar. En siðan sat blezaðr þann skola, sem æztr var allra ok guði næstr ifir allt iarðriki, sa var undir læring lysandi guðs modur

af þeim stormerkium, sem hun ein en eingi daudligr maðr a iorðu matti vita sem liosaz vitni, boðan Gabrielis i luktu herbergi. En þótt heilug ritning seti þenna signaðan firir nockura grein sameiginn skola ollum guðs postolum at heyra kenning ukunnra stormerkia af blezuðum vorrum virduligrar Marie drotningar, helldr þo allteins drottins umboðsmaðr ok valdr vikarius heilagr Johannes ifirbær-iliga tign i ollum heimolleik með haleitri drotning himins ok iarðar i kenningum, þionkau ok fylgd, sem krunaðr kongr hifnarikis varr herra Jesus Cristus skipaði a krossinum miðil annarra greina, er skrifadar standa i hans· táknsamligu testamento. Ok at elskulig frændsemd sancte Marie drottning skini þvi framarr i dyrðarlof heilags Johannis, vilium ver setia .ij. letr, er at lúta sva felldu efni.

Jgnatius het maðr i Jorsalalandi, at kenningarnafni neophitus, þat er rettskilt sa maðr, er nýrr eða ungr ma kallaz i guðdrottins tru, þviat sæll Johannes hafði firir litlu lært hans fylgd ok sialfan hann til truar vars herra Jesu Cristi. Þessi maðr Ignatius, er ver nefndum, var sva tiginn firir meðalgaungu andaligs fedrs sins Johannis postola, at virdulig drottning Maria kendi hann vel giorla. Heðan leidir þat efni, at sagðr Jgnatius skrifar eitt litið sendibref með sinni salu nauðsyn til várrar fru, hvat er sva norręnaz.

Yðr kærri Kristz moður Maria talar sva sannr vin Ignatius. Sem yðrum voldum stétt er val kunnigt firir tilæskingarson yðvarn Johannem postola, er ek einn neophitus vorðinn með hans kenningum. En þott frændi þinn ok ynniligr geymari skeinkti mer ok minum kompanum neophitis fogr firirheit meðr miskunn ser veittri, gaf hann mer veg yðr at sækia til styrks ok hugganar, ok þat er heyriligt, min fru, at lærisveinn sonar ydvars styðiz með yðra hond framm a lifs veg. Ek iattar, at af þinum elskuligum Jesu heyrði min ustyrkt sva stóra hluti, at mitt hiarta bar ei án ótta. En þat er ollum kunnigt, hvern heimolleik ok samvitand leyndra hluta þer hofðut með Jesu, at þat geck framarr ollum giofum ok frumtignum annarra manna, ok þvi girniz ek með ollum hug at þiggia milldi ok miuka lækning ydvars signaða moðernis. Miskunn guðs virdulig rikir með yðr. Undir þa somu gefz ek sem kriupandi meðr bræðrum minum, at ver allir samt eflimz af þer, firir þik ok með þer eilifliga. Amen.

Mot sva greindri littera neophiti ritar sæl ok signut jungfru sancta Maria annat bref með þvi ordfelli, sem henni er kært vorðit ok hana leiddi forðum til drotningardæmis ifir allri skepnu. Þat bref er sva or latinu fært.

Samlærðum manni ok elskuligum Ignatio heilsar lág ok litil ambatt Jesu Cristi. Hvat er þin kristilig gódfyst nam ok heyrði af minum herra Jesu firir Johannem minn elskuligan, er allt logleitt, rett ok roksamligt. Legg allar samt þær greinir undir ubeygðan godvilia þins hiarta með ilmanda ávexti goðra verka. Hallt með styrktaranda firirheit þitt með teknum kristnum dómi, samtemprandi fogru firirheiti bæði lif ok siðferði. Koma mun ek með Joni minum at vitia þin ok bræðr þer lika. Upptendran með tru lofligri styrki þina lifsbraut, at þu striðir karlmannliga ok óttiz enga ofsoknar dirfd guðs úvina. Hlifiz andi þinn gæddr i guðs miskunn, at hann fagni sæll ok signaðr i sinum hialpara um veralldir án ennda. Amen.

Nu sem bréf várrar fru berr sik til, er án efasemd halldanda firir hennar iattyrði, at þau Johannes bædi samt hafa vitiað Ignatium. En hvárt honum gafz út þat sama symbolum, er herra Johannes componeradi með boði várrar fru, eða veittiz þat oðrum fyrr eða siðarr, hofum ver letrliga eigi fundit. Symbolum er truar form, ok byriar sva i latinu tungu: Unus deus pater verbi viventis. Er nu liosi biartara i þvilikum letrum, hversu ilmandi ástúð rikt hefir með hiortum várrar drottningar ok virðuligs Johannis, sem enn siðarr nærr enda þessa mals mun getið verða. En nu eftir dvol Jorsalarikis vikim aftr i Asiam til brefa herra Johannis, ok siaim með fáam orðum, hvat honum var kærazt ut at tæra sinum andaligum sonum. Hvat finnz með kristninni sva iðuligt i pislum sæls Johannis sem elskan ufolsut til guðs ok mannz Þar af talar hann sva eilifliga blezaðr i einum stað: Þvi bræðr minir, skrifar ek til yðvar, segir hann, at þer forðiz syndina. En ef nokkurr hefir misgiort, lifgiz hann sem fliotaz ok aftr vændi til sættar við guð, þviat tiguligan tulk hofum ver oðlaz með likri nátturu firir varum syndum, sa er græðari varr rettlatr Jesus Cristus liknin sialf, eigi at eins ifir varum logbrotum helldr allrar heimsbygðar. Nu er synt oss þat virdingar kyn at kenna varn sannan skapara, ef ver girnumz þat, er hann vill at ver fremim, en þat er einkannliga kærleikr af hiarta til guðs ok manna. Guð er ástin, ok sa maðr er stadfestiz með ástinni, hann er með sialfum guði, ok guð með honum. Heðan skýriz, at sa maðr er lyginn, er unna segiz gudi, en hann hefir at hatri brodur sinn samkristinn mann. Hversu ma þat geraz, at hann unni usyniligum gudi, ef hann hatar nanginn firir augum ser. Þat er vars drottins boðorð ok vili, at fylgiz ok fadmiz i sama hiarta tvifolld elska bæði guðs ok

kristinna manna. Nu sem heyrdiz lif herra Johannis, munt þu sanna, at þat kysti kærliga kenning munnzins, þat váttar spellvirkinn ok fiorir villtir bræðr, þat Craton philosophus, fiogur þushundrat ok byskup Aristodimus með allri kristni Asiana, ok sva tigið herbergi hafði elskan i hiarta Johannis allt fram i lifs enda, sem synir ritning með ævintýr.

19. Þa er signaðr ástvin drottins var sva mæddr með miklum alldri, at lærisveinar þurftu at styðia hans blezaðan likam i framgongu til dómkirkiunnar i Effeso, hellt stadarfólkit vakran vorð, nærr sa blezaðr þeira faðir var i veg buinn af sinu oratorio. Skipaz siðan lyðrinn i sundrgreinda flocka tva vega með strætinu, at hneigia, siá ok signan þiggia sva gofugligs herra, sem hverr ok einn hugdi sik helgaz af. Var sva nu komit, at ganga guds mannz mátti eigi lengi dveliaz gegnt hverri forsveitinni, ok þvi gefr hann ollum eitt ok sama fliott ok fagrt læringarorð, sva fellt: Diligite alterutrum, diligite alterutrum. Þat er norrænat: Elskiz ydvar i miðil. Nu með þvi at þetta geck sva titt hit sama, spyria lærisveinar sælan Johannem: „Hvi syniz yðr, heilagr fadir, at tala sva opt hit sama?“ Hann svarar: „Synir, ef þetta er halldit, þa er allt i frið þegit.“

20. Heyrdum ver, hversu herra Johannes ewangelista veitti orliga astrikis auðæfi til beggia handa i sinum patriarchadómi, ok þvi stendr val, at meistari Petrus Damianus, er nefndiz i upphafi sogunnar, svari þessu capitulo, ok segi oss kristnum monnum, hvat vær erum honum skylldugir aftr i gegn. Hann tekr sva til ordz: Þat er auðsyn vaar skyllda at elska þann af ollu megni, er sialfr græðarinn unni heitazt allra sinna postola ok næst sinni haleitri mæðr Marie. Sva ok í aðra grein erum ver kristnir menn honum hardla skylldbundnir firir þann frabæran frialsleik, at thesaúr þann tiginn ok hifneskan, er einvalldzkongr allrar skepnu veitti honum i malagiof, tærði hann oss ok dreifdi um veralldar viðerni með stormerkisfullu hlutskifti. Hvat er þat i kroftum eda manndýrðum, at þessi guðs virktavin þarniz með frumtignadri sęmd ifir aðra menn? Hann er postoli firir pislargiorð, ewangelista firir ewangelium, spámaðr nyia testamenti firir bok Apochalipsin, piningarvattr drottins var hann ok virduligr, þvi haleitari, sem hann var lengr með guðs skipan luktr i likam með bindendi, vokum ok bænum langt ifir alldr ok tima serhverra guðs postola, þviat þessi hifnakongs elskari leiddi sina lifdaga ut ifir ellifu keisara, er sva heita, Augustus, Tiberius, Gaius, Claudius, Nero, Galba, Otto,

Vespasianus, Titus, Domicianus, Nerva. Næstr eftir Nervam rikti Traianus, hinn tólfti at tolu. A hans timum geraz þau tiðendi austr i Asia, sem greinir meistari Hireneus, sva til ordz takandi: Eftir marga agætismenn frammliðna sitr einn valiðr maðr austr i Asia sem erfingi allra þeira, þessi er sa sem drottinn Jesus elskaði, bæði samt postoli ok guðspiallamaðr, Johannes eignarnafni, styrandi með mikilli roksemd þa kristni, sem i þeim halfum efldiz firir hans embætti ok biarta góðfýsi. Hans virduligum verkum ok sætum setningum mega allir byskupar i Asia, prestar ok klerkar, vitni bera, er sa signaðan Johannem sva langlifan, at hann styrði sina kristni allt framm a tima Traiani. I oðrum stad segir enn sami meistari: Su kris(t)ni sem stendr er(!) i Asia, grundvalladiz firir virðuligan Paulum, en uppreistiz firir signaðan Johannem, er hana stiornadi allt a daga Traiani.

21. Þa er liðit var fra upphafi veralldar fimm þushundrat hundrat niu tigir ok niu áar, en fra higatburð græðara vars Jesu Cristi hundrat tirætt, er sva lidit dogum drottins ástvinar, er ver hofum nefnt um tima, at hifnakongr herra Jesus hefir disponerat at veita honum heimbod i eilifa samkundu, mæddum af milldri elli ok morgum sveita i guds vingarði. Þvi minniz meistari allra valdra manna, hver ord hann valdi forðum þessum Johanni litlu eftir upprisu sina, sva talandi til virðuligs herra Petrum postola: Sva vil ek hann vera láta, þar til ek kemr, segir drottinn. Þessi ord lausnara vars eru sva skýrð, sem hann segði: Eigi mun ek senda engiligan eða hifneskan kraft móti Joni frænda minum, helldr mun ek rett firir sialfan mik laða hann til eilifra fagnaða. Nu eru timar sva leiddir, at framkvæmd eflir fagnaðinn, þa er sialfr eiliíðar kongr drottinn Jesus birtiz sinum elskuligum frænda Johanni meðr ilm ok unaðsemd elskuligrar ok hifneskrar bliðu fylgianda foruneyti postola sinna, sva talandi til Johannem med sætri rodd, framarri en englarnir megi veita: Kæri minn, kom til min, þviat timi er kominn, at þu gleðiz i minu faðmlagi með bræðrum þinum. En hverr megi boða fagnat Johannis i þessum dyrðarorðum drottins Jesu, ríss upp i stað ok ætlar til heimbods. Græðarinn talar þa i annat sinn: Eftir fimm daga stendr upprisutid min, a hverri þu munt til min koma. Liðr várr herra sva til hifna. Eru þessi græðarans orð með þeiri glósu, sem greinir su bok, er heitir Rationale Officiorum, at þessi upprisutið drottins var sa sunnudagr, er stendr octavo kalendas Julij. Þat bar saman i þessum argang, at a þann sunnudag stoð fæðingartið sæls Johannis baptiste, sem getið mun verða

enn i oðrum stað. Merkilikt er guðs sonar verk, at kalla þann tið aurninn háfleygan upp i himin haleitrar dyrðar, sem kallaz aundvegi arsins ok solin gengr hæst i krafti sinum.

Nu sem kemr firirheitin tið, sækir guds ástvin þat vegli(g)sta mustari Effesine borgar, er reistiz undir hans nafni fordum, sem greint var. Þann signaðan dag sinnar heimferðar syngr hann sialfr messu ok þionostar almennings fólk, bæði með guds likam ok lífligri predikan. Ok nærri endalykt sins sæta sermonis víkr hann einkannligum astarorðum at sinum andaligum bornum sva segiandi: „Heyrit, bræðr minir ok samþrælar, hlutakarar ok samerfingiar i riki guðs, geymit at vel ok kenniz með, hversu hiartaliga þer erut skylldbundnir at þacka sonnum guði firir þær ástgiafir ok iartegnir, er hann veitti yðr her til firir mik. Þvi standit ubrigdiliga i hans blezan ok bodordum. Vitið, minir sælu synir, at þessi aminning til ydvar mun min efsta her a iordu, þviat Jesus Cristus meistari minn virdiz at kalla mik brott af þessu lifi.“ En með þessum orðum, er astvin guðs firir sagði sina framfor, er hugleiðanda, hver tar ok trega sa lydr myndi bera, er lif ok læring hafdi þegit af þeim haleitazta fodur, er allr flaut i milldi ok miskunn með várkynd ok sampinu, hvat er hvern kunni standa til andar ok likama. Ok þott fagnanda væri helldr en gratanda af hans eilifdar krúnu, bar harmr hiortun ofrafli(!), sva at lækir taranna sloktu naliga lifanda lios i lampa truarinnar.

22. Nu medr þvi at drottinn heilagr andi hafði synt sinu herbergi allan hatt þessa stormerkis, bauð guðs maðr firir hatidina, at a hægra veg hins vegligsta alltaris i hofutkirkiunni sialfri væri upptekit marmaragolfit, ok i þat sama uppbrot bauð hann geraz ferhyrnda grof, sva at allr iarðarduftinn var af mustarinu brott borinn. Er nu sva liðinn með hifneskri skipan dagstiminn, at i nefnda grof stigr niðr elskari vars herra lyptandi sinar hendr til hifnakongsins heyrnar sva segiandi: „Heyr þu, drottinn Jesu Criste! þackir geri ek þinni milldi, þviat þu virdiz mer at bioda heim i fagnat þinnar eilifrar náveru, vitandi at ek fystiz med ollu hiarta þik at sia. Seé, drottinn minn, nu kemr ek boðinn til þinnar sællar samkundu. Ek sa asionu þina, minn blezaðr herra, ok varð ek þegar sva glaðr sem reistr til lifs fra dauða, ilmr þinn vakti með mer eilifar girndir þinnar asyndar. Þin rodd er hunangfliotandi, full með sætleiks dyrð, frabærilig engla natturu i hifneskri unaðsemd. Þu veitz, minn sæti herra, at ek bað þik morgu sinni, at ek myndi til þin koma. En biort elska þin svaradi mer, at

firir salunauðsyn þins lyds væri enn biðanda. Þackir geri ek þer eilifum gudi minum, þviat þu vardveittir minn likam hreinan fra allri spilling, ok lýstir iafnan mina ond, engan tima firirlatandi mitt lif, helldr gudliga gleðiandi sva i utlegð sem heima. Lof se þer sonnum gudi minum, þviat þu skipaðir blezat ord þins sannleiks dyrðarfullz i munni minum, birtandi nalægum ok ukomnum tima þin stormerki firir mik þion þinn, þa er ek skrifaði þau verk, er ek sa, ok þau signut ord, er ek heyrði framfarandi af þinum mætazta munni. Nu vil ek þer a hendi fela, drottinn minn, alla þa sonu, er heilug kristni mær ok sonn moðir fæddi þer firir vatn ok endrgat firir heilagan anda. Nu, herra minn hifneskr, Jesu Criste, tak mik til þinnar dyrðar, at ek se með brædrum minum, i hverra fylgd þu birtiz mer ok laðaðir með blezaðri þinni astúð. Luk upp þu, drottinn minn, lifs port firir mer, þviat nu knyrr ek. Gæt min, sæti herra minn, at myrkra grimd renni eigi mer i mót með sinn drambsemisfót, helldr leiðiz ek með þinu fagnaðarfullu firirheiti til samkundu þinnar hifneskrar naveru, hvar fagna með þer allir vinir þinir án enda. Þu ert Cristus son guds lifanda, er með boði þins haleita foður hialpaðir heiminn veitandi oss heilagan anda, at vær skilldim sameigna læring framm flytia til þinna biartra ok blezaðra boðorða, firir þann sama heilagan anda gerum ver þer þackir, lof ok dyrd eilifum gudi um uendaligar veralldir verallda." Medr þvilikri endalykt stendr gofuglig bæn hifnakongsins astvinar, ok þvi svarar gratandi lydr um alla kirkiuna með amen. En þvi næst birtiz þat fyrst af hifneskum drottins stormerkium, at ifir postolann skinn sva fagrt lios, at engi dauðligr maðr mátti bera. Ok sem su hifneska birti leið af eftir liðna halfa dagstund, fylgdi þegar annat oumræðiligt guds verk, at postlinn saaz eigi, en grofin full með drifhvitu hifnamioli, er þar getz eftir sogn mikla Augustini ubrigðiligt sem i friosamri iord allt til þessa dags. Þat fylgir meira i lof hifnakongs ok hins agæta Johannis, at su friosemd hialpar ok heilsu prýðir þat mánna, er fyllir grof virduligs Johannis postola, at þat ma engin daudligs manz tunga orðum skyra, ok er þat enkar viðkæmilikt, at signut móðan paradisi dreífiz víða með lifligum avexti.

23. Medr næsta capitulo lásum vær, hversu hifneskliga herra Johannes son Zebedéi for framm af stundligu lifi til eilifrar krunu með allzvolldugum guði, pryddr frumtignum framarr en skyraz megi daudligs mannz orðum. Postoli guds ok patriarcha, spamaðr, pinslarváttr ok hinn biartazti ewangelista náfrændi lausnarans i

heimligri kynslóð, en brodir andaligr firir umboðstign blezadrar fru Marie drotningar, tilæskingarson somu guðs getara ok vicarius vars græða(ra) i greindu embætti, þar með erfingi guðs sonar firir modurliga elsku ok miuka umhyggiu, her með valinn mær ok lærðr i guðs liosi framarr ollum kennifeðrum, heimolligr ástvin Jesu, lysanda lif firir hans augliti, biartr i briosti, hunangligr i ordi, hǽgr i þogn ok sonnu þolinmæði, astrikr ok goðgiarn, takandi með gloðu hiarta band ok bardaga, utlegð ok afarkosti firir ilmanda nafn Jesu Cristi, með pinslum ok fiotrum, rekstrum ok dyflizu, sambrodir litillatra, en uppréistr með vandlæti rettvísi moti dramb-somum ok uhlýðnum. Umæddr vann hann rettlæti, ok þvi hviliz hann i fialli fullrar sælu vel verðugr með samlagi drottins vars Jesu Cristi. Sannleikr rikti með honum, ok alldri um sinn fannz ein flerd með honum. Þvi er hans eilifðar yndi með einum guði, at hann girntiz hlutinn engan i likama, nema sia hifneska dyrð i heraði lifandi manna. Þa er ástvinr drottins firirlét myrkvastofu þessa heims, hafði hann niutigi áara ok niu likamligs alldrs, þat var a oðru ari fyrr nefndz Traiani keisara, drottni varum Jesu Cristo rikianda per omnia secula seculorum.

24. Greint var fyrr, hvilikan andlatzdag hin hifneska forsia valdi virduligum Johanni postola upp a burdartið Johannis baptiste. Heðan leiðir þat mæl, er stendr i nefndri bok Rationali Officiorum, at visdómsmenn ok meistarar génguz á með greinum fylgis ok rit-ninga, hvárr þessarra tveggia guds ástvina væri meirr frumtignadr, eda hvárr vęgia skilldi firir oðrum sakir hátiðarhalldz ok tiða-giorðar. Ok sva oflgaz þat efni með miklu megni, at tveir frægir meistarar til margra lista gera með ser sem endaligan stefnudag, at hvárr i sinni vitru skal þa undir dómara tiltekna fram bera in scriptis þær fremstu allegationes, er i lofgiord guds vina verda fundnar. Tekr nu i bidstund hvárr sitt diupazta studium, þviat villd ok vinátta var heit ok hugsandi i beggia briosti at vinna malit. Ok a næstu nótt stefnudeginum birtiz fagr madr i sýn þeim meistaranum, er fylgdi virðuligum sogumanni varum. Þessi er kom, syniz meistara nockot sva rióðr asiánu, sem honum forþyckiz eitthvert. Þvi byriar hann brátt ok nockut snart sitt eyrendi sva segiandi: Úþarft ok einkanligt starf hrærið þer, dauðligir menn, at setia þrætu ok fylgi ifir dyrð ok lofi heilagra manna, er hverr fagnar i annars liosi sem sialfs sins. Nakvæmra væri ydr ok skylld-ara at hugleiða sialfa yðr, hvat þer hafit mótgiorða eða mannkosta firir guðs augum. Er ok stórum diarfligt, ef þer dyliz a nockurn

hátt, hvern orskurð sialfr lausnarinn samdi, þa er hann sagði: Inter natos mulierum non surrexit maior Johanne baptista. Eftir sva talat hverfr sýnin. En meistari víkr veg til heilsuráðs, lægiz her firir allr aski(l)naðr, þviat kristnin truði her birtan litillatan ok brodurligan vilia virduligs herra Johannis ewangeliste, ok þvi skipudu kirkiunnar feðr, at messudagr sæls Johannis postola skilldi halldaz árliga a þriðia dag iola firir þrifallda grein skynsemdar: þa fyrstu, at þat er, sem sagt var, heimkvamudagr hans af utlegd til Effesum; þa aðra, at þat er kirkiudagr þess haleita musteris, er prýðiz með hans tiguligum legstað; su greín gengr þriðia, at formenn kirkiunnar villdu skipa signaðan Johannem sva forkunnliga, at guds piningarvattar standi honum til beggia handa, ok sva virðuligir sem eru tvennir frumvattar, einir firir laustn, en annarr eftir, at her faðmlagiz þrigreint pinslarvætti eftir heilagri bok, eitt með vilia ok fromdu verki, þat a virðuligr Stephanus, annat með sonnum astarhug an endaligri bloðsútheiling, þat eignaz gofugligr Johannes, þriðia með verki án allri forhugsan, þat er blezaðra barna. Sva hviliz haleitr herra Johannes ewangelista miðil roðinna guðs vina. En siaim nu her næst, hverr tignarmaðr i andaligum felagskap ok fylgi hviliz hia honum i hofutkirkiunni Asiana innan Effesum.

25. Policrates, er einn var af morgum erchibyskupum i Effeso, skrifar a þann hátt til virðuligs herra Victorem pafa i Róm, hann segir sva: Mikil liosker sloknuðu i Asia, þau er drottinn mun upp reisa i siðarsta degi sinnar tilkvámu, þa er hann birtiz i sinni dyrð ok leitar alla sina vini. I Effeso hviliz virðuligr herra Johannes, er i snæðing sat blezaðr upp ifir drottins briost, guðs kennimaðr, berandi byskupligt petallum, sannr pinslarváttr ok hinn biartazti lærifaðir, skinandi með iartegnablómi sva firir andlát sem i dagh, þviat firir hans mánna lifnar ok fagnar sva margt lif endrgolldit, at eigi má letri luka. Annarr maðr, segir erchibyskup, er guðs postoli Philippus, er firir guði birtiz með sinum tveim dætrum hardla fagrt lios i kristni Asiana. Er nu sýnt með letri Policratis erchibyskups, þat er vær settum til greinar, hveriu fylgi sæmiz signaðr Johannes ewangelista bæði a hifni ok her i heimi. Ok þvi er eigi undarligt, þótt þat komi framm um siðir i sogunni, at þessir tveir bræðr ok guðs kappar riða herskryddir framm i somu fylking. En hverium hershofðingia i kristninni veittiz sva máttug virðing at hafa þvilika fulltingsmenn, mun siðarr liós verða.

26. Theodosius er nefndr keisari kominn af kynlegg Traiani, er fyrr var greindr i þessu mali. Faðir hans er nefndr Honorius, hans synir wrðu tveir siðan frægir kongar, er hetu Archadius ok Honorius. En nu sem sagan byriaz, stýrir Theodosius Austrriki, en Valentinianus Vestrlond. Hafði þessháttar sundrgrein rikianna gengit inn i fyrstu, þa er Constantinus mikli tviskifti erfð ok sæmdarhęð miðil sona sinna, er hétu Constans ok Constantius. Nefndr Theodosius var i marga grein agætr maðr i sinu valldi, trulyndr ok tigins olmosugæðis, hamarr villumanna, en heilagrar forstoðu með vernd ok vilia postoligrar kristni. En þott hans lif væri lofligt firir marga hluti, er lesit ei þvi sidr, at þat geck inn til hans, sem greinir háleitr herra Gregorius pafi i fyrstu bok Dialogorum, at hofdingians hugr dreifðr i margri fiolskylldu bleckiz þvi braðara firir fals ok flutning illra manna, sem hann er vanmegnari firir marghàttat sundrskifti ymissrar ahyggiu. Ok hvar þetta efni framkæmdiz með keisaranum, vilium ver inn setia ok samtengia lofsgreinum gofugligs herra Johannis postola, þviat hans tilæskingarmodir virdulig drotning mær Maria eignaz eftir vana hasætisdyrð i malinu með sinu valldi. Sa maðr sezt ok til motz annan veg, sem bæði liktiz signaðum varum sogumanni firir eignarnafn ok fagran lifnat, sem lysaz mun i fylgiandi frasogn.

27. A dogum Theodosij var i Griklandi ungr maðr, Jon at nafni, fæddr i einum kastala, er þeir kalla Stórulis, honum var lagit kenningarnafn Damascénus. I skóla sat hann ungr at árum, en gamall i goðum siðum, maðr sva frabærr i fliotum skilningi, at innan tolfta ær sins alldrs hefir hann fagrliga umfarit allar .vij. hofutlistir liberales. Gengr sva þaðan framm i alldr ok agæta vitru, at ollum giofum ser logðum af guði víkr hann til hægri handar, kennidóm helldr hann til foðurligrar læringar með hvern er gott villdi nema. Vigslur tekr hann ok kennimannzdóm með þeiri þionostugiorð, at guds moðir hin milldazta Maria lagði til mikla vináttu, þviat messusong atti hon bæði handvísan ok ástrikan hia þeim guðs manni. Her með leggr sira Jon drotning varri þa elsku, at hann fórnar henni fogr dikt til heilagrar tiðagiorðar, bæði lofmesna ok óttusonga, sem siðan hefir kirkian halldit eftir hans daga. Nu sva kristiligr sem var nefndr lifnaðr sira Jóns, leggr hann til nockut, sem ei liðr langt, hafnandi heimsins bliðingar munkr vorðinn með bæn ok bindendi. Ok sva sem af barndómi hafði hann unnat mikit várri fru, tekr hann nu til sem nyliga henni tign at veita með alltaris offr ok hreinlifi biortu, ok þvi

munt þu sanna vilia, at þessi dyrðarmaðr hafði signaðan Johannem postola firir leiðtoga sem allir aðrir, er guðs moður lúta með hreinu lifi. Her með sæmiz brodir Jon i þann heiðr, at rikum monnum i landinu þótti hans skóli æztr ok sinum sonum nytsamligaztr, þviat hann lærdi eigi at eins fróðar bóklistir, helldr iafnvel sáluvænar manndyrdir. Heðan þróadiz sva frægð brodur Jóns, at eigi siðr fluttiz hans nafn firir sialfan Theodosium keisara, hversu þarfr hann var rikinu bæði firir bókfræði ok allz háttar heilræði þeim er hann sóttu i vandkvæði. Þvi fylliz með þessum guds vin orðtak heilags Pauli i þeim stað: Hverr sa maðr, segir hann, sem milldliga vill lifa, mun ofsókn þola. Heðan gengr sva til frasagnar um dag, sem broðir Jon létti sér i spazéran utan borgar með skólanum, at i uvart kringir um þa alla samt bolfat herhlaup Sarracenorum, sva at án minztu dvol gripaz þeir herfangnir framm i Serkland. Fellr sva til i hlutskifti herfangsins, at brodir Jon verðr hins rikazta mannz af þeim arma lýð. Ok þótt hann væri leiddr í útlegdarkvol, likiz hann enn i þeim hlut virðuligum Johanni ewangeliste nafna sinum, at gud drottinn linar utlegðina ok mýkir sva með miskunn sinni harðan hug i heiðnu briósti husbondans, at hann gefr sinum fanga rumara gang an ollu þrælsligu undirbroti, en nockurr þægi annarr af þeiri herleidzlu Þvi tekr brodir Jon sýslu sina með lesning ok goðlifi, með mýkt ok hófsemi sva virðuliga, at heiðinginn matti eigi þegiandi bera, þar til talar hann broður Joni með sva felldu efni: „Minn kæri, segir hann, ek hefir hugleitt sidferði þitt, ok hversu þu ert formentr framarr oðrum með klerkdóm ok malsnilld, songraudd ok letrgiorð. Nu, sem þu veítzt, a ek ungan son, er ek myndi æskia til þinnar hamingiu, at i greindum natturugiofum vyrdi hann þer sem likaztr, at ef vær missum þinnar náveru, a nockurn veg mætti þin minning með oss her innanlandz langsamliga lifa með þessum minum syni.“ Hvat er her lengra, brodir Jon tekr af fyrsta stafrofi þann ungan mann ok lærir hann sva gnógliga i sinum utlegðartima, at þar liktiz vándr maðr voldum meistara i allri list ok letrligri bókfræði sva framt, at sama kynfylgia sýndiz beggia þeira verk, dikt eða penni.

28. Nu er at vikia heim aftr i Grikland til Theodosium keisara, at sva sem hann færr sanna vissu, hvar brodir Jon er halldinn i Serklandi, gerir hann sitt valld ok greiðir með órskurdi upp ifir háls Sarraceni utan alla dvol, nema brodir Jon fari frials af hans herleiðzlu heim i sitt fóstrland. Sva gengr, at heiðinginn vill

giarnara láta brodur Jon en lífit. Ok þvi kemr sa guðs maðr heim i Grikland á fund keisarans, sem hann sitr i Constantinopolim, þat kollum ver Miklagarð. Herra keisarinn tekr hann með þeim fagnadi andar ok likama sem af dauða reistan til lifs, gefr honum þar með innan borgar klaustrareising með ollum ríkdóm ok rettarbót, er lifnaðinum heyrði til æfinligrar nytsemdar. Þar leggr keisarinn honum medr þann kęrleik, at hann vitiar margan dag munklifit til samręðu við broður Jon um rikisstiorn ok vandamál, þar til ofundin etr sitt háðuligt herbergi ok bruggar bana saklausri sál. Þessa grein eignaz daúðasourinn i Serklandi, er lęrðiz umakligr forðum af brodur Joni. Hann fregn farsæld ok virðing broður Jons, ok grimmiz sva eitrliga með helvítzkri ofund, at i diupsettri flęrð diktar hann honum dauðaráð með þeiri tilferð, at hann diktar eitt bref undir nafni brodur Jons, sem hann svíki land ok lif brott af herra keisaranum. Sem þat bolfat bref er buit, færr hann þat i foruneyti oðrum svikara ser likum, at innan keisarans hallar skal hann þvi upploknu niðr verpa, at þat tiaiz sem fyrst hirðinni til ofsóknar við brodur Jón. Þessi ræð fremiaz oll, sem egnd voru, rettlátum til krunu, en syni ranglætis til pinu. Ma þat inn leiðaz ok i þetta mæl, at fiandlig flęrð etz ok angraz af þeiri gætzsku, er sliofari finnz i kristninni, en brodir Jon leiddi framm i munklifi sínu, með offr ifir altari guds moður, með bęn ok biartri stiorn, er hann tiaði með tiguligu eftirdęmi sinum andligum sonum. Þvi skal hann únaðaz af sinu klaustri firir rógsbref undir pinu firir keisarans hasæti eftir skinandi forgongu gofugligs Johannis postola nafna sins, þviat settar þriar greinir, bref, pinsl ok kongs reiði afloglig samlikiz i beggia þeira lifi.

29. Nu er þessu nest bref fundit i kongs holl, uppbrotið ok vęgðarlaust firir sialfum honum ifirlesit. Þat bolfat fals berr þess háttar hlioð: Brodir Jon damascénus minnztr i munkalogum sendir siuum astvinum i Persidalandi kvediu með fremstu goðvilld til frelsis ok frama. Yðr se kunnigt, at hit vęnazta herfólk herra keisarans er út giort i fiarlęgar halfur, sva at Grecia liggr sem eydd ok upplęg, ef nockurr vill til hennar lita; þvi komit, framir menn, at fagr sigr er ydr handviss. Hrindit eigi fręgðinni, helldr fágit hennar asiánu, at ydr nofn ok virktir megi alldr boða. Valete. En hverr ma rita þann róm ok reiði, er hurrar innan hallar upp a meinleysi broður Jóns, at hann se úr volltinn hreinlifra manna tolu vándr svikari vorðinn sins herra keisarans. Kongrinn klædir sina leonsreiði með þogn ok vitzku, þar til innboðinn brodir Jón

ma nalegr heyra þau hermdarorð, er hann skal fáá. Herra keisarinn talar sva til hans i horðum anda breðinnar: „Se þik, svikarinn vándr, segir hann, hveria amban til velgiorða þu lagðir oss ok várum sonum, utlegð ok sviviršu meðr eilifu brigsli. Niðinglig sialfs þin hond ásakar þitt liota lif, sva at enga hneiging fær þu giort undan þinni háðung.“ Brodir Jon berr með hógværð sva harðan hvirfilvind, ok svarar sva brefinu ifirlesnu: „Eigi færr ek þat afsannat, segir hann, at þessi penni er samlikr minni hendi, en þo veit varr herra lifandi guð, at bref þetta er hvárki min sekt firir guði ne samvitand.“ En firir þetta andsvar broður Jons hægiz hvarki keisaranum ne hirðinni, segia með vanstilltu háreysti, at nu leggr svikarinn glęp ifir giorfa sviviršing, lygð ifir landrað, ok verndir ifir vándan hug, ok at dauðason finnz honum engi dáligri. Þessu nęst nefniz dómr ifir málit ok segiz upp siðan með þeiri vægð, at brodir Jon skal ei liftion hafa, sakir þess at hann reiknadiz um tima miðil herra keisarans vina, helldr skal hann þann liminn afleggia, er þeir segia glæpinn giort hafa. Þvi leggr brodir Jon eftir dominum saklausa hægri hond undir afhogg. Þar fylgir sva mikit grimdarkyn keisarans, at afhoggit byðr hann beraz fram i klaustrakirkiuna ok þar tiaz i hafum stað, þeim til háðs er borit hafði, eða ei siðr ollum lifnadi somu reglu, hvar er hann stædi. Sem brodir Jon færr gang af kongsgarði leitandi framm i kirkiu sina beinanda(!) veg firir miskunnarportið Mariam drotning, ok rett firir þat sama hennar alltari, sem hann hafdi oftaz henni messuembætti fagrliga flutt, sem hann kemr firir skriftina, afklædir hann með ollu handarsárit sem synandi drotninginni mein, með einkannligum heimolleik ok trausti sva talandi: „Sé, min fru, segir hann, amban varra verðleika. Se, þvilik er sæla þinna þræla. Hvi syndiz blezaðri miskunn þinni at gefa orlof þeim er mik plaguðu firir minar syndir? var ei su min hond afhoggin, er þer fórnfærði, ok su er skrifaði þina lofsonga? munu firir lifandum ok liðnum sva margar bænir freimiaz upp heðan, min sæta fru, sem þa daga er þessi hond með þinni blezan matti þinum sæta syni fórn færa?“ Þessu likt, sem nu var lesit, talar hann til skriftarinnar um nockura daga, þar til at a eina nátt, sem brodir Jon liggr mæddr af angri allz midil svefns ok voku, birtiz honum biort ok blezut drotning himinrikis einkanligum sętleiksorðum sva til hans talandi: „Hvat liðr þer nu, minn kęri þionn?“ Brodirinn kennir þegar, hver komin var, ok svarar: „Hó, min drotning sæt ok ynnilig! Ek spyr þik, hvar vart þu, þa er ek pindiz firir usannan áburð?

Lit, hin liufa drotning, fram i kirkiuna, sia hvar hondin hangir, eigi mer einum, helldr ok þer til vanvirðu.“ Guðs modir svarar þa: „Styrkz i drotni, son minn, sa er manninn skapaði af engu efni, er máttugr at endrgręða eínn liminn af þer brott sniðinn.“ Eftir þessi orð ser broðir Jon, at hon sialf sękir handarafhoggit fram i kirkiuna ok setr siðan viðr stubbann sva meistarliga i augabragdi, at hvárt kysti annat með ollu álgroit. En hvat er langt at gera af þeiri góðfýst ok tárfelldu þacklęti, er broðir Jon lagði drotninginni firir sva tignarsamliga velgiorð, eða hvilik var su lofmessa, er hann flutti sama dag henni til virðingar með ást af ilmandum mergium sins hiarta, eða hvat er segianda af þeiri iðran ok hormung, sem herra keisarinn bar með sinu hugskoti, sem hann fregn þessi tiðendi, þviat firir giord drotningar himinrikis sérr hann sitt verk falsat a villtum rettletisvegh. Þvi rennr hann idranargotu með signadum Davið kongi fram i klaustrit firir fętr brodur Joni sva sęfðr i tarum, sem sa maðr er með megni fysiz at forðaz grát ok pinur helvitis. En þann tima sem brodir Jon hefir þat aflat með sinum hiartteinum(!) eigi męðulaust, at herra keisarinn styrknar til guds miskunnar firir sva mikit afbrot, spyrr hann broður Jon, hvadan su hin faheyrða flęrð gekk inn, er hann felldi til sva haðuligrar motgiordar við guð. Broðir Jon kynnir honum þa hogvęrliga þann unga mann, er hann lęrði sér likan til allra greina ok giorða, sem hann var i útlegd. Ok sva skilz latinumæl þar við her með oss, at þat dauðaráð varð siðar alkunnigt af ofundar grunni. En upp heðan lagði Theodosius keisari þa elsku til brodur Jons, sem hiartat mátti veita sinum kęrazta feðr.

30. Eftir þessa hluti sagða vikr sér frasogn til Vestrlanda, hversu hryggilig uhęfa þar geriz, at tveir drottinssvikarar drepa sinn herra Valentinianum keisara, het annarr Eugenius at viðrnefni antigraphus, en annarr Arbogastes riddarahofðingi. Gripr nu Eugenius virðingarnafn sem at erfðum, þar til guð niðrar honum. En er Theodosius keisari spyrr sannliga þessi tiðendi, harmar hann sem góðr hofðingi sva afskapligan glęp, hversu tveir fyrr nefndir niðingar spilltu með fégiofum hofutvorð ok herbergissveina keisarans ok giorðu nattvig af lifi herra sins. Heðan leiðir, at herra Theodosius keisari gengr einkannliga til sins raðgiafa brodur Jons, hvart hann skal treysta sva vel sinum styrk at efla strid i Vestrlond moti sva horðum lyð. Brodir Jon veitir honum efalaust annsvar með spádómsgift, at hann skal oruggr ferðaz at lęgia guðs uvini, aðr hann skilz or þessu lifi eftir fá manaði liðna, vænir

at hann fai nockurn styrk, þann er eigi sérr hann dagleingis, segir hans testamentum bę̇ði heilagt ok hialpsamligt at setiaz murr firir husi Irraelis ok slá með rettlę̇ti logmálsins þa er sviviršu login, bę̇ði bę̇kr ok natturu, þa er þeir nídduz a herra sinum. Firir sva roksamliga brýning broður Jons byr herra keisarinn sinn styrk brott or Miklagarði til Vestrlanda gefandi sik ok sina fylgd undir bæn brodur Jons ok allra guds þiona i rikinu. Sva tekr hann með skipum Vestrlond ok helldr niosn af hernadi Eugenij vikings. Spyrðz honum þat af, at liðsmunr þeira mun verða stormikill, þviat landherrinn stendr oftaz þyckari fylking en skipalið. Ei þvi siðr helldr hann fram ferðinni, þviat traust hans er með sonnum guði, sem lysiz i þvi, at hann krypr iafnan i veginum undir bę̇nafullting godra manna með vokum ok benum sem olmosugiordum sialfs sins gódfýsi. Sva kemr vestr i Valland allr hans herr til moðu þeirar, er Frigidianus heitir. Þar setr hann herbuðir sinar a fagra eng, er liggr með ænni. Upp i þann háls nalægan herbuðum, er stendr firir ofan láglendit, var nockur kapella hreinlifismanna. Þagat sę̇kir Theodosius keisari til nattvoku. Ok moti degi sígr a hann hofgi. Hann sérr i þeim þunga girniliga sýn ser af gudi veitta. Hann þickiz staddr i þeim kapellukór, er nu greindiz, ok sia niðr a engina, at frammi firir herbuðunum sitia tveir alvę̇nir riddarar dubbaðir til handa ok fóta með sva dýran herskrúða, sem hann sáá engan aðr. Þeir bera gladél hardla gloandi, sitiandi sniohvita ok bryniaða vapnhesta. Annarr þeira biartra riddara talar tiginni rodd til keisarans a þenna skilning: „Heyr Theodósi, vik langt i fiarlę̇gð allan ótta brott fra þinu hiarta, dubba helldr kongliga báðar þinar hendr á nę̇sta dag er kemr, at með herneskiu oflugra vigmanna vegir þu frægan sigr; lát svelginn dauðans gleypa þa eggbitna, er i agirndarelldi hofu sinn dramlę̇tisfót upp i mót herra sinum; fagna miok i guds milldi, fullting ok frami ockarr brę̇dra er þer gefinn fram i strið. Vit án efa, at ek er Johannes ewangelista austan af Effeso, en broðir minn Philippus er sva i utreiðum með mer sem i legstad ok iarteignum heima i Asia.“ Eftir sva talat er sýnin brott endut.

31. Theodosius keisari þackar miukum ordum vitran þessa. Geck ok sva fram sem signadr Johannes sagði, at sama dag tokz orrosta með sva einkannligum hę̇tti, at þeir sem sigri var heitid firir hifneskan sendiboða, hopa naliga til flótta, þviat synir myrkranna voru bę̇ði sterkir ok kę̇nir til bardaga. En spurning ma inn renna með vitrum manni, hvi herra Johannes er sva tómlátr i

liðveitzlu þeiri, er sialfr iattaði hann keisaranum; þvi dvelr hann með rettri glósu, at várr herra vill veita Theodosio keisara sva mikla tign i þessu mali, at hann likiz virduligum hofutfeðr Abraham með þessu tilteknu dęmi. Várr drottinn hét Abraham sva miklu kynferði sem stiornutal himins, ok þo skilldi sva til falla um kvánfáng hans, at ubyria kona fell honum i faðm, aðr hann lagði guði miuklata bęn ok friosemd veittiz Sárre hans eiginkonu at geta Ysaac. Likt bęnaroffr vill varr drottinn þiggia i þessum stað af Theodosio keisara, aðr en fram kemr firirheit gofugligs Johannis postola, ok þat er verðugt, at þréllinn kriupi, aðr hann oðlaz stora hluti, at firirheit efliz með bęn ok bęn með firirheiti. Sem keisarinn sér, at hans fylkingar sturlaz i sinni stodu, víkr hann or orrostunni til bęnar framm a eitt biarg sva nalęgt, at herrinn mátti vel sia hann ok heyra. Hann hefr upp báðar hendr til guðs ok segir sva: „Heyr, heilagr faðir eilifr guð! þer er kunnigt, at i þessar halfur þottiz ek flytiaz firir þitt signaða nafn ok vandlęti laganna. Þvi biðr ek þitt blezaða einvalld, at þu litir eigi syndir minar helldr rettar bęnir heilagrar kristni þinnar, ok styrkir handlegg þinna manna til framgongu at niðra þinum úvinum, at þitt hifneska tignarnafn lofi hver tunga i eilifar veralldir verallda.“ En er hans eigit herfólk heyrir bęn þessa, treýsta þeir þvi framarr guds fulltingi. Þarf nu ok eigi at geta til, hvar Johannes postoli stendr at viginu, þviat hann tekr ser i hond úsyniliga skepnu drottins, þat er vindrinn i loftinu, ok striðir sva sterkliga með hennar afli, at eiginraun fa þar af kempur Eugenij; þviat hvat er þeir hoggva, kasta eða skiota, berr aftr i brot ok bana sialfum þeim, mega keisarans menn brytia ok bola baulfaða svikara, hvern eftir sinum vilia. Hreinsaz sva Vestrlond með dauða Eugenij at rikianda drotni várum Iesu Cristo um allar alldir. Amen.

32. Heilagr Augustinus er hinn fiorði doctor heiminum til lęringar ok drottins vars þionostu valdr ok vigðr. Hann var klerkr agętr með bóklist, ok þvi fellr honum sva virðuligt embætti með guðs vilia, at taka með tracteran ok skyring hina helguztu ritning i kristni guðs, þat er guðspiall heilags Johannis. Ok i tilbunaði þess verks hafa klerkar þvilika frasogn, at byskupinn leyfdi um stund sinu hiarta sva hafan hugsanargráda, hvart hann myndi eigi nęrr fa gengit guddómsliosinu i nockura grein, en sęll Johannes for firir i sinni upplitning. Ok er byskupinn leiðiz i þetta erfiði, er hann staddr i siotuni nockuru innan sins ættlandz vestr i Affrica, hvaðan sva geriz einn dag, sem hann spázérar einn samt

utan borgar með þvi hęsta studio, er diupr klerkdómr veitti honum, helldr hann litla grein, hvar hann gengr, áðr sandr á siofarstrondu verðr firir honum. Nu gefr hann stað, ef hlyda skal, ok sem hann ser um sik framm at sionum, lítr hann, hvar sitr einn smásveinn miok nęrri sionum. Herra byskup ser, at pilltr þessi hefir silfrspón i hegri hond með þeiri athofn, at hann berr sioinn með spéninum, æ sem tiðaz ma hann, upp i þa sandgrof, sem hann hefir giort firir ofan. En þat ferr eftir eðli nátturu, at siórrinn svelgr sva fliott undir sandinum hvat er þagat legz, at engan ser stad. Byskup ser æ um stund athofn þessa, hversu bernslig honum virðiz, ok talar sva: „Pilltr minn, hvi starfar þu i tómt?“ Sveinninn svaraði roskmannliga: „Hvi herra, segir hann, skal ek eigi þetta vinna?“ „Þvi, segir byskupinn, at þorsta siofarins fædir þu alldri, ok hvat er þu gefr grofinni, tekr siorrinn aftr undir sik, ok þvi er þetta alskostar umáttuligt.“ Pilltrinn svarar: „Ef þetta virðiz umoguligt, er ek legg firir mik, er þat morgum hlutum forligra, er þu setr fram firir þik. Þu dregr ifir þik þa dul, at þer muni veitaz su spekt, at nakvémaz framarr guds dyrd i þinum orðum, en samdi ok setti Johannes son Zebedei valdr af einvalldi hifnakongs umfram alla iorneska(!) menn at tala með leyndum ablęstri heilags anda giafar nérr guddomssins liosi en nockurr maðr i heimsins viderni. Tak ráð er ek gef þer, set þik lagan sem firir fétr Johannis ewangeliste, ok tractera hans blezut orð kristni guðs til nytsemdar en þer til sémdar.“ Eftir sva format rád hverfr pilltrinn. En heilagr Augustinus þackar guði með miuku framfalli vitian sina, vikiandi sinni ástundan ok iðn undir heilreði. Kallaz þat verk tractatus Augustini, er hann setti ifir ewangelium Johannis. Þvi lifir lysandi minning þessa guds astvinar með morgum hétti innan heilagrar kristni a iorðriki(!). Bæði fyrr ok siðarr i lofgiordum gofugligs guds vinar Johannis ewangeliste er til minnis leiðanda, með hverri tign ok trunaði, ast ok einfelldi hann fylgdi sinn meistara herra Jesum hifnakong ok hinn hęsta byskup, þa er hann striddi mot hervikinginum af Babilon, offrandi sinum feðr lifandi fórn firir lif ok utlausn sinna skepnubarna. Hverr af riddarum herra Jesu stoð annan veg undir merkinu til motz við moður liossins nema fagr ok frumtignaðr Johannes. Þvi sotti hann ser þar at verðugu mikla virðingarhęð, þa somu tiár hans likneski undir vars drottins krossi iafnfram várri fru. Þvi samdi heilug kristni baðum þeim samt somu bęn, er byriar O intemerata, at þeira dyrð faðmleggiz i ástúð við almattugan guð. Sva mikla

miskunn segir margr predikari fylgia þeiri signaðri bęn, at sa maðr, er hana less dagliga með góðum athuga, mun frialsaz af allri pinu eftir sitt andlát. Ok þat mun þer þickia samþykt fara sýn þeiri, er veittiz einum siðlatum kennimanni i útlondum með þvi formi sem her stendr.

33. A nattartið stendr frammi firir prestzins sęng einn ungr maðr vęnn at aliti a þat kynmot sem skolaklerkum er vanalikt. Hann talar a þenna skilning: Ek er sendr til þin, prestr minn, at bera þér hialpareyrendi af hálfu minnar sętu fru guðs moður ok heilags Johannis ewangeliste, er rettliga kallaz annar son hennar. Ek hefir meðferðar bęn eina, er þau vilia bęði at flytiz ok fręgiz um kristnina, þviat hon er fáм kunnig enn a þessum dogum. En með hverri miskunn bęn þessi stendr, er ek létr nu undir kodda þinn, sem mer er boðit, skal ek skýra þer með eiginni raun sialfs mins, at þar af lysiz verandum ok úkomnum, hvat þeim hęfir at gera. Ek var einn skolapilltr i þeiri borg, ok sem einn siðlátr guðs maðr sa mik leikinn ok athugalausan i mina saluhialp, tiaði hann morgu sinni lifs orð firir minum likamligum eyrum, ok þvi sva, at innri maðrinn með mer var eigi viliugr at vikia eftir hans fortolum. Hann skyrði mer, hverr heimrinn er, hvat hann svíkr alla sina trunaðarmenn, ok þvi bað hann mik sia hans uppegndar gilldrur ok flyia til hafnar inn i klaustr. En sva sem ek aumr maðr villdi þat hialpráð eigi heyra, let hann ei þvi helldr af at leita mina ond. Syndi hann mer þa bęn þessa ok bað mik sva miukliga sem milldrar vingiafar, at ek skilldi elska bénina ok lesa dagliga. Ok þetta feck um siðir hans blezut elska. Var þvi likt, sem sa guðs þionn vissi firir með spadómi alla mina gotu, þviat eftir viðtekning benarinnar lifða ek eigi lengr en fimtan daga. Giordu minar eskusyndir sva mikinn harm ond minni, at ferligir fiandr gripu mik sem herfánginn til kvala, aðr geisli guðspiallamanna gofugligr Johannes kom a veginn spyriandi þa, er mik drogu, hvi þeir dirfðiz at hertaka guðs moður þion ok þeira beggia. En þviat illgiarnir logðu gabb ok gys moti hans orðum, setr hann eyrendi annat, sva talandi til umilldra: Undir tignarvalldi virðuligrar guðs moður i himinriki firirbyð ek yðr at hréra fót or þessum sporum með salina, áðr ek gengr at hennar orskurð, hvarir her skolu meira raða. En þat færr ek þer eigi skyrt, segir sálin, hversu sa pungtr var fliotr, at blezaðr kom aftr berandi uhreinum ondum þann otta, at án efa skolu þeir męta guðs moður tilkvamu, nema þeir gefi liðugt upp i valld sęlum Joni þat herfáng er þeir

gripu Ok meðr þessum orðum wrðu fiandr sva piprir, sem nyfundnar pinslir vęri felldar ifir þa alla. Sva varð ek frials firir guðs miskunn. En ben sva blezut fręgiz firir þina hlyðni ok lif i biortu liosi drottins án enda. Eftir vitran þessa ser veit(t)a sótti prestrinn fiolmennan sinodum með byskupum ok abotum tiaandi þar skilrikan vátt, þat er þa somu cédulam, er hinn framfarni lagði undir koddann, sem aðr greindiz. Buðu siðan formenn kristninnar, at bęn su blezut ritaðiz fiogurra vegna með oftsamligri minning, ok nu i dag er sva vorðit, at hun er borin a hvert endiland heilagrar kristni, ok su er útallig fiold góðra manna, at þegar á ungum alldri veniaz at lesa hana dagliga, ok þar ma nefna til miðil annarra virðuligan mann Ethmundum, er siðan varð Cantuariensis erchibyskup i Englandi. Hann tok með oðrum þęgiligum verkum þegar á namsalldri at lesa O intemerata. Ok sakir annars fiolskylldis i skólanum er lesit, at einn dag leið honum or minni at geyma benarinnar, sva at fell firir honum, ok hvat lengra, en þegar nesta aftan, sem hann er sofnaðr i sęng sinni, gefz honum andarsyn, at herbergishurðin lyktz (upp), þar ganga inn þrir menn allir vęnir. Kennir Ethmundr klerkr þegar, at i miðiu gengr sęll Johannes ewangelista, hann er rioðr i asianu miog, hefir hann ok annat misþyktarmark, þat er stór palmastika reidd um augsl; með sva forligu ifirbragði, sem nu var greint, rennr hann snuðigt framm at sęnginni, sem i stað muni hann setia pálmastikuna með megni i hofut Ethmundi. En við þetta ógnarbragð verðr hann sva hreddr, at hann fleygir ser ór sęnginni með tarum framm a golfit firir fętr selum Joni. Ok þar kominn heyrir hann sina sekt með auðsynum hirtingarhlióm frammsagða a þenna hatt: Hver nytsemd, er þu framdir a nęsta dag, mun afsaka þik af sva mikilli vanręktarsynd, at þu gleymdir lofsemd minnar fru guds móður ok mina virðingarbęn. Nu leggia til malsins þeir tveir menn, er i fylgd voru með postolanum, at miskunn se veitandi ungum alldri, segia þar með, at hann muni betr gera framleiðis, kalla tár hans vátta sanna iðran. Drottins astvin sæll Johannes mýkiz nu með fogrum tillogum sva talandi: Meðr þessum hętti ferr þu likn, at þu geymir betr, en gleymir eigi. Með þessum orðum lyktaz synin. En Ethmundr vaknar sva fullr af tarum, at harmr hiartans bar vitni, hvat firir hann hafði borit.

34. Heyrðum ver, hversu heilagr Johannes ewangelista veitti udvalda hirting Ethmundo klerk firir eina gleymsku, hvat er birtiz i elskumark vars drottins, þviat vinum sinum venzt hann at veita

fliotar áminningar, ok þegar bętiz nybrotið, at engin vanrękt þróiz þeim i þunga. Her fylgir su elskugrein sęls Johannis til Ethmundum, at þessi valdr vin vars herra liktiz þeim fagrliga, er bruðarfaðminn flyði, sem upphafliga stendr i sogu þessi, ok með hveriu kyni þat verðr i viðrlikan mannkost, stendr sva skrifat i lifssogu sęls Ethmundar. Sem hann kom heim i England ór skola sunnan um sio, tekr hann ser til studium herbergi með eckiu einni miogh fêrikri. Hon atti dottur ugifta, væna iungfru, sitia þau Ethmundr bæði samt i maltiðum ifir borð. Ok sakir þess at hann var fagr maðr i asion ok ollum vexti, virðiz honom oftar en um sinn, sem iungfruin sia(i) kęrliga til hans a kvelldit, einkannliga þa er aul birtir briostið ok alla alvoru þar um. Þaðan leiðir sva til um aftantima nockurn, sem húsfruin er brott gengin, at męrin lykr upp leyni hiartans firir Ethmundi. En hann svarar sva til með heilagri undirhyggiu ok segir: „Geym at, sagði hann, at þenna trunat viti engi maðr með þer utan ek einn. En i morgin sem moðir þin er i bęiarsyslu, kom til min, ef þa er samt i hug, þviat þu veitz, at svefnherbergi vár eru nalęg i stauðu“ Sva segir hann blezaðr. En hon gefr honum þock firir. Liðr nottin. Ok timaliga sem Ethmundr hefir studerat um stund, er hurðin hogliga tekin, hann gengr til ok lykr upp. Er þar komin iungfru ok beiðir inngongu. Þat er veitt an dvol, at hon inn leiðiz af Ethmundi, ei til faðmlags ok bliðu, sem breyskum monnum er tiðt, helldr undir þann lima, at til bloðsins pláguð gengr hon ut af husinu. Blezut var su plága gefin i nafni guds iungfruinni sva nytsamlig, at upp þaðan fýsti hana hvarki til Ethmundar fadms ne nockurs karlmanz. Se þenna Ethmund fraberan ok biartan hreinlifissmann, gofugligan fylgiara virðuligs Johannis postola. Þessum guðs vin er eignat sva blezat verk i kristninni, at hann hafi diktat vers várrar fru guðs móður Gaude virgo mater Cristi með þeiri bęn, sem þar fylgir af hennar fimm greindum fagnaðum. Siaim ver nu þessu nęst annan enskan mann, er virðuliga þionaði blezaðum Joni postola.

35 Margir agętir menn i guðs kristni hafa kiorit sinum salum til fulltings virðuligan herra Johannem postola nest sialfri himinrikis drotning guðs moður Marie, halldandi hans arligt festum með allan heiðr ok kostnat rikum ok aureiga, hvat lesit stendr miðil annarra hluta af agetum herra Ethvarði Englandz kongi. Hann vegsamaði sęlan Johannem af ollum guds astvinum sem valinn ok vigðan ser ok sinu riki til fulltings ok forstiora, skipandi a hans hatið þriðia dag iola sva virðuliga veitzlu, at bæði gladdiz af guðs

giofum fullrikr ok fatękr. Miog lofar heilug bok þenna kong Ethvarðum, þviat bęði var hann stiornsamr ok astfolginn sinum landzlýð. Alldregin angraði hann guðs fatękan mann, ok engi for brott an huggan einhverri, er hann sotti. Hvat er vel auðsyniz þessu næst bęði til elsku sęls Johannis ok góðfysi olmosugęðis.

36. Sva bar til i nockurum árgang a þriðia dag iola, sem herra kongrinn gengr in processione um kirkiu leiddr virduliga af sialfum herra byskupinum, kemr rett a veginum einn ungr ok vęnn maðr mot honum, a þat form ok buning sem einn Jorsalafari. Hann vikr sem heimolliga ok miok kunnliga at sialfum herra konginum með þessum orðum: „Herra, segir hann, gefit mer nockut!“ Kongrinn svarar: „Minn kæri, lit á, hversu ver erum staddr, nu eru olmosupeningar eigi nærrhenndis.“ Pilagrimr flytr sik enn ok segir: „Ef þer finnit nockut handbęrt, i hveriu kyni sem er, þa gefit mer firir þess mannz nafn ok minning, er þer syngit i dag, ef þer elskit þann nockut.“ Sem kongrinn heyrir nakvęmlig orð, minniz hann þegar Johannis ewangeliste vinar sins, dregr án allri dvol fingrgullit af hendinni ok gefr honum með auðsynni gleði. Skilia þeir sva, at pilagrimr kallar gefit vel ok herraliga. En hvern utveg hann gerir firir gulli þvi er hann þaa, stendr sva skrifat.

Einn kynstor maðr i Englandi hafði herfanginn vorðit af Sarracénis heiðingium ok setið niu ær i utlegðarkvol með fiotri ok dyflizu, sárr af harmi ok hungri. Þessarri guðs olmosu birtiz herra Johannes ewangelista a nęstu nott eftir fund þeira Englandz kongs. Hann býðr hertekna manni tvo fogr eyrendi til Etvarðar kongs, þat fyrra, at kongrinn skal þess uduldr, at sialfr Johannes birtiz honum a sinn hatiðisdag, þat er annat eyrendit, at virðuligr Johannes vill resignera gullit, ok þvi tekr þat enski maðr, at hann beri með bliðri kveðiu Johannis· þat sama konginum. Er siðan fliott til frasagnar um ferðir enska mannz, sem hann hefir tekit sendiboð hins signaða Johannis, at i augabragði er hann frials or valldi umilldra ok heim kominn i England a sinn eiginn garð, kenndr af hýski ok husfru sinni. Tekr hann hvilld a sama dag, en ferdaz þegar annan nesta a kongsgarð, berandi skilrikt efni lofgiorðum sæls Johannis, frelsi sitt fra heiðnum dómi, en fingrgull herra Ethvardo kongi. Feck virðuligr ewangelista drottins maklig lof a þann dag, dasamaðiz ok kongsins gezka, profut i hifneskum kerleik heilags Johannis. En allan þann vitnisburð lagði Ethvardr

kongr undir sva ufalsat litilęti, at i dag skinn hann skrinsettr i Englandi.

37. Meðr einkannligum astvinum heilags Johannis megum ver vel nefna herra Jorund goðrar minningar niunda byskup at Hólum norðanlandz a Islandi. Johannis hatið i iolum var vigsludagr byskupsins, ok þvi sęmdi hann hatiðina með song ok skrúða forkunnar vęnum, sem framaz ma litinn verða i þvisa landi. Her með lagði hann hatiðinni hóf ok heimboð ifir hvern dag i árinu með dyrazta bordbunat ok allri olvęrð, er rikdomr kirkiunnar matti tęra. Her til samdi hann þa tign, at hann skipaði a prestastefnum ok bauð ifir allt sitt byskupdęmi, at i hveriu officio várrar fru sungnu eða lesnu skilldi segiaz minningarbęn sęls Johannis, sem siðan hefir halldiz. Leiddi byskupsins goðfysi þat setningarform af þeiri fręndsemd, er fyrr greindiz, hversu várr herra hifnakongr Jesus Cristus skipaði þau nakvęm sin i miðil a krossinum.

38. Skalldin letu ser ok girniligt synazt at sęma þenna guds astvin með þeiri list, er þeim veittiz af guði. Ma þar til nefna fremsta personu Nicholas fyrsta ok fremsta Þverar munklifis abota i Eyiafirði, er bęði var gęddr natturugiofum ok voldum mannkostum. Hann orti drapu sęlum Johanni, ok þar af lystir til minnis inn leiða sem eina þria puncta með þeim skilning, er signadum Johanni bera mesta tign, þat er su frumtignut elska, er hann oðlaðiz af sialfum syni guðs nęst virðuligri Marie drotning; þar af segir hann sva:

Unni allra manna
alskyrr ok mey dyrri
heilagr Kristr hins hęsta
hreinlifis þer einum.
valdi heims ok haulda
hauksniallr kongr allrar
sér til sýslu stiora
sárveginn þik fręgan.

Af somu elsku talar hann i oðrum stað, hvert innsigli sonr guðs lagdi til hennar i Pathmós, þa er hann segir sva:

Þeim unni guð geymi
guddoms er vel sómir
hreinum hifna synar
hirðar vist með Kristi.

Jon heyrðir þu orða
eilifs foður deili
hollr við oss ok allan
almátt sia knáttir.

I þriðia stad segir hann sva blezaðr af sama sętleik elskunnar:

Sialfr unni þer sinna
sniallr postola allra
sal deilandi solar
siklingr framaz miklu.
hatt gengr vegr sa er veitir
vagnbryggiu þer tiggi
Jon ert þu hreinstr und háfa
hiallborg skapaðr karla.

Annan mann til oðgiorðar signaðum Johanni nefnum ver Gamla kanunk austr i Þyckabe, hann orti drapu dyrligum Johanni, ok kvedr sva til astarlofs Jesu Cristi, er hann veitti sinum frenda:

Tignar fra ek þik upphaf eignaz
eigi mistir blezan Kristi
rað eflandi risnu pruðan
recka liðs af flęrðar hnecki.
Solar rannz at siklingr unni
seima briotr i þessum heimi
męrðar kęnn ok móður sinni
mętra lifs en aðrir gęti.

Af eitrligri grimd Domiciani keisara ok veitzlum várs drottins til Johannem i Pathmós segir hann sva:

Brigð komu þess brátt er hugði
baulfylldr kongr verða skylldu
harðla fliott þviat huggan veitti
hreggskríns iofurr fręnda sinum.
alla naði eirar stillis
ítr postoli dyrð at lita
humra naustz þa er hofðu flestir
hreinir þollar fréttir einar.

Af náveru hifneskrar Jerusalem i sęlu Johannis segir hann sva:

Systrungr hefir nu allt þat æstir
yta hilmis giftu flyti
solar vangs með sialfum deili
synda lauss i fullu yndi.
drottinn valdi drengia sętti
dyggra lif en menn of hyggi
alla hlaut af engla stilli
Jon postoli dyrð ok kosti.

Nærr enda drapunnar· setr broðir Gamli bęnarform til virðuligs Johannem, þat sama sem oss er ollum nauðsynligt, hann segir sva:

Haurðu lat mik hveriu firðan
hreinlifr faðir drottar meini
siðan mętti var of eyðaz
andar sar þvi er lionum grandar.
flotna villda ek fra þer alldri
friðgeymandi skiliðr verða
uggr er mer hvart þat mag þiggia
þessa gift er heimar skiftaz.

Nefnandi er þriði maðr Kolbeinn Tumason magr herra Guðmundar Holensis byskups virðuligs. Nefndr Kolbeinn eignaðiz hlut i skalldatolu einkannliga firir þat, hversu margt ok merkiligt hann orti signaðri guðs getara til tignar. Hann orti ok miðil annarra hluta sęmdarlof sęlum Johanni ewangeliste, þat er hann kallaði Jons visur, þviat verki sa er eigi stefsettr, en þo kvęði sva langt, at þat hefir .xl. eyrenda ok .vij umframm. I ondverðu briosti þess kvęðis setr hann þa dyrðarástuð, er guðs son veitti Johanni, ok hversu gudsriddarinn stóð i striði várs grędara undir krossinum, ok hveria tign hann oðlaðiz i umboði teknu at geyma drotning himinrikis; hann segir sva:

Angr fellir vartu ollum
einn postolum hreinni
heilags Kristz i hęstu
happskeytr fauruneyti.
Unni engum manni
iafnheitt friðar veitir
þyðr sem þer ok moður
þat er minniligt sinni.

Miðr geck þu einn en aðrir
auðlings fra piningu
svik bannandi sunnu
sniallr postolar allir.
þviat drengr i styr straungum
stott þu hia kvol drottins
blið ok bragnings moðir
byrstrandar gratandi.

Sialfr kallaði sęllar
sól knarri þik harri
son Marie sęrar
sundhyrs i kvol bundinn.
rað fal ręsir lyða
risnu kendr a hendi
diks aðr dauðann tęki
dagrennir þer hennar.

Kęnn leitz þu hag hreinnar
hofðingi drotningar
hafs meðan hyrþoll lifði
hugat bliðliga siðan.
Þer var hon sem harrar
hilldingr skipa villdi
yckr lofar ela þekiu
oll þioð i stað moður.

Nærr enda sins verks setr Ko(l)beinn þessa visu af guðligum veitzlum ok verðleikum sęls Johannis; hann segir sva:

Frami gengr hátt sa er hifna
herteitir þer veitir
snardeilandi solar
sundz a margar lundir.
hárr er a hvern veg meiri
hyrbioðr en kyn þioðar
allda garðz með orðum
yðra dyrð geti skýrða.

Eftir samanlesnar .xii. visur af verkan Nicholai, þar næst broður Gamla, ok nu siðazt Kolbani, gefizt sa skilningr heyrandum sogu

þessa, at tolffolld tala kyssir með rettri skyring lif ok algiorfi gofuligs Johannis. Standr nu nerri siðarsta capitulum, er sva byriar i guðs nafni:

39. Nu birtiz i bękling þessum, at vęr erum i fiarska fęddir fra legstað ok liomandum iartegnum ynniligs foður Johannis. Þviat ver, er lifum nalęgt undir norðanvert heimskautið, eigum langt at lita til erchistolsins Effesum, er stendr i austrhalfunni ok þeim þriðiungi veralldar, er heitir Asia. Þvi lyktaz frasogn i nafni lifanda guðs með þvi endimarki, at ver kriupum þer til fota, blezaðr herra Johannes ewangelista, biðiandi með vorrum ok hiarta, at sva sem þu minntiz forðum spellvirkians með foðurligri milldi ok hifneskri astuð, ok ei siðr enska manz i utlegðar anauð, sva leysir þu vart lif or þręldóm ok þyngan helvitis umsata ok leiðir a iorð valdra manna, hvar goðfusir ok guðhreddir gleðiaz með dyrð eilifri, sem þu skrifaðir i þinni bok Apochalipsi. Heyr þu oss þina þrela, valdr vin hifnakongs, liomandi gimsteinn i uppsmiði eilifrar Jerusalem, ok lampi lysandi i holl hifnarikis ok biartr geisli i hofuṭgulli skaparans, at þeir allir oðliz þitt fullting at eilifu, sem heyrt hafa þessi þin lof, ok hverr er less eðr letrið elskar þiggi af þinni hendi amban i eilifri gleði með lausnara varum Jesu Cristo ok heilagum anda samrikianda per omnia secula seculorum. Amen.

---

## JACOBS SAGA POSTOLA.

### I.

I dag holldum ver messudag Jacobo postola broður Johannis, i þa minning er hann tok pining fyrir guðs nafni ok sotti með piningarvætti ok sigri til himinrikis dyrðar ok eilifrar sælu. Jacobus var systrungr drottins at iarðligri frændsemi. Zebedeus het faðir hans, en Maria moðir, ok var hon Salome dottir, en Anna var hennar moðir ok sva Mariu drottningar. Drottinn kallaði þa Johannem ok Jacobum brøðr a enum sama degi til sinnar fylgðar sem þa Petrum ok Andream, ok letu þeir bæði foður sinn ok farkostinn með, ok fylgðu drottni varum i mikilli sømd ok virðingu

af honum; kallaði hann þa brøðr nokkurum sinnum með Petro til sva mikils trunaðar ok haleitra virðinga, sem engum var oðrum slikt veitt hans lærisveinum. Jacobus hafði kvangaðr verit, ok var kona hans ônduð, ok lifði hann eptir hana fagrligu bindanda lifi. Eptir piningartið guðs sonar ok hans upprisu ok uppstigning, ok eptir þat er postolar hofðu þegit gipt heilags anda, þa foru guðs postolar, eptir þvi sem hann hafði sialfr boðit þeim fyrir sina uppstigning, at þeir skylldu naliga um allan heiminn fara ok kenna hans kenningar allri skepnu. Segir sva Speculum Ecclesie, at Jacobus hafi farit a Hispanialand at kenna monnum retta tru. En þa er hann feck þvi eigi a leið komit fyrir sakir otruar þeira ok illzku, þa for Jacobus aptr til Gyðingalandz at styrkia tru með þeim lærisveinum, er þar voru. Jacobus for um allt Gyðingaland ok Samariavelldi, ok gekk inn i þinghus Gyðinga ok syndi þeim helgar ritningar, þær er a þeira bokum stoðu af drottni varum Jesu Kristo, vera þa fylldar ok framkomnar.

2. Jacobus postoli drottins vars Jesu Kristz, broðir Johannis evangeliste, for ok kendi tru a ôllu Gyðingalandi ok Samaria, en þat er land, ok gekk hann a þing ok samkomur Gyðinga, ok syndi þeim af helgum ritningum ok af spamannabokum ôll vitni, er þeir baru af drottni Jesu Kristo. En fiolkunnigr maðr, sa er Ermogenis het, sendi lærisvein sinn, sa het Filetus, ok nokkura Gyðinga með honum, at hann þreytti i gegn Jacobo postola ok sannaði þat i orðum sinum, at Jesus Kristr væri eigi sannr sonr guðs, sem Jacobus sagði. En Jacobus postoli eyddi með krapti heilags anda alla malkroka hans, ok syndi hann af dømum heilagra boka, at Jesus er sannr guðs son. Þa hvarf Filetus aptr til Ermogenis ok mællti við hann: „Þat skalltu vita, at Jacob, sa er kallaz þræll ok postoli Jesu Kristz ma alldri verða yfirstiginn, þviat ek sa hann i nafni drottins Jesu Kristz reka diofla fra oðum mônnum, ok gefa sion blindum ok heilsu likþram, en vinir minir letuz set hafa hann reisa menn af dauða Allar ritningar helgar man hann boklaust, ok synir þaðan af, at engi er annarr sannr guð, en sa er Gyðingar krossfestu. Lattu þer lika rað mitt, ok kom þu til til hans ok bið þer liknar af honum. En ef þu vill þat eigi gera, þa mun þer at engu duga fiolkyngi þin; ok þat skalltu vita, at ek mun aptr hverfa ok biðia, at ek verða hans lærisveinn.“ Þa fylldiz Ermogenis ôfundar, er hann heyrði þetta, ok batt hann Filetum, sva at hann matti sik hvergi hrøra, ok mællti við hann: „Siam, ef Jacob þinn kemr at leysa þik or bôndum þessum.“ Þa sendi

Filetus svein sinn til Jacobum. En er sa kom ok sagði þetta, þa sendi Jacobus sveitaduk sinn ok mællti: „Taki Filetus duk þenna ok mæli sva: drottinn Jesus Kristr reisir upp þa er falla ok leysir bundna.“ En sa for, er sendr var, ok selldi Fileto sveitadukinn. Þa losnaði hann or bòndum Ermogenis ok hlo at fiolkyngi hans ok rann til postolans. Þa reiddiz Ermogenis, er lærisveinn hans hlo at honum, ok vakti upp diofla ok sendi þa ok mællti: „Fari þer ok leiðit hingat Jacobum til min ok Filetum lærisvein minn, at ek hefnumz við þa, at eigi þori aðrir lærisveinar minir at hlæia at mer.“ En dioflarnir komu þar, er Jacobus var a bønum. Þa toku þeir at yla i lopti ok mælltu: „Jacob, postoli guðs, miskunna þu oss, þviat ver brennum fyrir tið bruna vars.“ Jacob mællti: „Til hvers komu þer hingat?“ Dioflarnir svara: „Ermogenis sendi oss, at ver leiddim þik til hans, ok sva Filetum; en þegar er ver komum hingat, þa batt oss engill guðs elldligum bondum, ok brennum ver.“ Jacobus mællti: „I nafni fòður ok sonar ok anda heilags leysi yðr engill guðs, ok fari þer aptr, ok leiðit Ermogenem hingat bundinn, ok meiðit hann at engu.“ Þa foru dioflar, ok bundu hendr Ermogenis a bak aptr með reipum, ok leiddu hann til Jacobum ok mælltu: „Þu sendir oss, er ver brunnum ok vorum kvaldir miok.“ Þa mællti Jacob við Ermogenem: „Þu hinn versti maðr, hvi treystiz þu at hafa trunað undir ovin mannanna, ok hugðir þu eigi at, hversu þu bazt at senda þer engla at granda mer. En ek let þa hina sòmu syna þer reiði sina.“ Þa kolluðu dioflarnir ok mælltu við Jacobum: „Gef oss leyfi i gegn honum, at ver megim hefna þinna meingerða ok varra kvala.“ Jacobus mællti: „Fyrir hvi taki þer eigi Filetum, er her stendr fyrir yðr?“ Dioflarnir mælltu: „Ver megum eigi þann taka, er i þinni varðveizlu er.“ Jacobus mællti við Filetum: „Su er kenning drottins mins Jesu Kristz, at hverr launi goðu illt, Ermogenis batt þik, en þu leys hann nu, ok lat hann fara i friði fra diofli.“ En er Filetus hafði leystan hann, þa stoð hann ok drap niðr hofði ok þorði hvergi at fara i braut. Jacobus mællti við hann: „Far þu nu frials, þangat er þu vill, þviat eigi er var kenning, at maðr snuiz nauðigr til truar.“ Ermogenis svarar: „Ek kenni reiði dioflanna, at þeir munu þegar drepa mik, er ek geng heðan, nema þu gefir mer nokkut þat, er ek mega hafa með mer.“ Jacobus mællti: „Taktu staf minn, ok farðu òruggr, þangat er þu vill.“ „Þa tok Ermogenis staf postolans ok for oruggr til hus sins. Þa tok hann kistur sinar ok lagði a

bak ser ok lærisveinum sinum, fullar fiolkyngisboka, ok kastaði niðr fyrir føtr postolanum ok villdi brenna þær i elldi. Jacobus mællti við hann: „Kasta þu grioti ok blyi i kisturnar, ok sokk þeim i sæ niðr, at eigi fai menn skaða af dauni þeira, er þær eru brendar.“ Ermogenis kom aptr, er hann hafði þat gert, ok fell til fota postolanum, ok bað ser liknar ok mællti: „Þu lausnari anda, tak þu iðran þess, er hingat til hefir andskoti verit ok amælandi þinn.“ Jacobus svaraði: „Ef þu førir guði sanna forn ok iðran, þa muntu sanna miskunn taka af honum.“ Ermogenis mællti: „Þat er at marki, at ek føri sanna iðran guði, at ek hefi nu a braut kastat ollum bokum minum, þeim er a var oll olofuð dirfð, ok hefi ek neitt allri fiolkyngi ovinarins.“ Jacobus svaraði: „Far þu til husa þeira manna, er þu hefir svikit, ok kalla þa aptr til guðs, er þu kallaðir fra guði; seg þat satt vera, er þu sagðir logit, en þat logit, er þu hafðir sannat; briot þu ok skurðgoð, þau er þu hafðir gofgat, ok otru þa alla, er þu hafðir fylgt; fe þat er þu eignaðiz af illu verki, veittu nu þat við goð verk; ok sva sem þu vart sonr diöfuls, þa er þu liktiz honum, sva ver þu nu sonr guðs ok likz honum, er hvern dag veitir goðgerninga sina overðum ok gefr føzlu omakligum. Ef guð var milldr við þik, þa er þu vart illr, þa mun hann vera miklu miskunnsamari við þik, ef þu lætr af at misgera.“ En er Jacobus hafði þetta mællt, þa gerðiz Ermogenes hlyðinn þessum hlutum ok varð algôrr i guðs ast, sva at hann matti margar iartegnir geta af guði, ok sneruz margir vinir hans ok lærisveinar allir ok margir aðrir til truar drottins vars Jesu Kristz af kenningum hans ok fyrirletu villu Gyðinga.

3. En er Gyðingar sa, at Jacobus hafði snuit þeim manni til truar, er þeir hugðu alldri mundu verða yfirstiginn, þa gafu þeir fe tveimr hundraðshofðingium, þeim er voru i Hierusalem, at þeir tøki Jacobum ok setti i bond; en annarr þeira het Lisias, en annarr Theokristus. Þeir kvôddu motz ok letu þangat leiða Jacobum ok døma um hann at lôgum þeira. En er hann var þangat leiddr, þa mælltu Gyðingar við hann: „Fyrir hvì truir þu a mann dauðan, þann er ver vitum allir, at krossfestr var með þiofum?“ En Jacobus fullr hins helga anda svaraði: Hlyði þer mer, brøðr, ok allir, er eruð synir Abrahe! Guð het þvi feðr varum Abrahe, at i hans kyni myndi allar þioðir þrifaz. En kyn hans er kallat fra Israel en eigi Ismael, þviat Ismael var þyborinn ok braut rekinn með møðr sinni fra allri erfð kyns Abrahe. En guð mællti við Abraham, at fra Ysaac myndi hans kyn eflaz. En Abraham var kallaðr vinr guðs, fyrr

en hann tøki skurðarskirn eða helldi þvattdaga, ok fyrr en hann vissi nokkur log guðs boðorða. En hann varð vinr guðs eigi af skurðarskirn, helldr af þvi at hann truði fyrirheiti guðs, at i hans kyni myndi allar þioðir þrifaz. En ef Abraham varð vinr guðs þvi, at hann truði guði, þa er ok vist, at sa er ovinr guðs, er eigi truir guði.“ Gyðingar mælltu: „Hverr er sa, er eigi truir guði?“ Jacobus svaraði: „Sa er eigi truir þvi, at i Abrahams kyni munu þrifaz allar þioðir. Sa truir eigi guði, er eigi truir þvi, er Moyses mællti: Guð mun senda yðr mikinn spamann, honum skulu þer hlyða, hvatki er hann byðr. En Ysaias sagði, með hverium hætti koma myndi fyrirheit guðs: mær mun son ala, kvað hann, ok mun kallaz nafn hans Emmanuel, en þat þyðiz guð með oss. Heyrit Hierusalem, kvað Hieremias, koma mun lausnari þinn, ok mun þat vera takn hans, at hann mun upp luka augu blindra ok gefa heyrn daufum, en lif dauðum með orði sinu. Sva mun hann koma sem sonr mannz, kvað Daniel, ok mun hann eignaz allt velldi. David mællti ok orðum sonar guðs: Drottinn mællti við mik, þu ert sonr minn. Guð mællti ok sva við David: Sa mun koma or þinu kyni, er ek mun setia yfir sess þinn. Um pisl hans mællti Ysaias: Sva er hann leiddr til pislar sem sauðr til skurðar. Daniel mællti ok orðum sonar guðs: Negldu þeir hendr minar ok føtr, ok stoðu ok sa a mik, ok skiptu með ser fötum minum ok logðu hluti yfir klæði min, ok gafu mer eitr at drekka, þa er mik þyrsti. David mællti um dauða hans: Likamr minn mun hvilaz i friði, þviat þu lætr eigi önd mina i helviti. En um upprisu hans mællti David orðum sonar við foður: Upp reis ek, ok em ek nu með þer, fyrir sut aumra ok vesolld valaðra mun ek upprisa, kvað drottinn. Davið mællti ok um uppstigning hans: Drottinn ste upp til himna i fognuð. En hann sitr til høgri handar guðs foður, sva sem David mællti við drottin minn: Sittu til høgri handar mer. Þar sagði ok Davið, at hann myndi koma með ogn elldz ok døma um heim þenna: Guð mun koma syniliga, ok mun eigi guð varr þegia, elldr mun brenna i augliti hans ok hrið ogurlig umhverfis hann. En þessir hlutir allir eru fylldir ok framkomnir i drottni varum Jesu Kristo, þeir er liðnir eru, ok munu fyllaz þeir, er enn eru okomnir fram. Sva sem Ysaias mællti: Upp munu risa dauðir, ok vakna þeir er i gröfum eru. En ef þer vilit vita, hvat þa mun verða, er dauðir menn risa upp, þa hlyði þer þvi, er David segiz hafa heyrt af guði: Guð mællti um sinn, kvað hann, þessa hluti tvenna heyrða ek, drottinn hefir velldi

ok þu guð miskunnar, þviat þu munt giallda hverium sem einum eptir verkum sinum. Af þvi geri hverr yðarr iðran, brøðr minir, at eigi taki þer giolld fyrir verk yður, er nokkurn hlut attut með þeim, er krossfestu þann, er allan heim leysti fra kvolum. Þviat hann lauk upp augu þess, er blindr var borinn, ok reið hann molldu ok hraka sinum i stað augnanna, ok gaf honom syn, ok syndi þat i þessu verki, at hann hafði sialfr skapat manninn or molldu. Þviat ver spurðum drottin varn Jesum Kristum: Hverr misgerði i kyni hans, at hann skylldi blindr vera borinn? En hann svaraði oss ok mællti: Eigi misgerði hann ne frændr hans, helldr at guðs verk syndiz a honum. En siðan er hann grøddi likþra, ok gaf syn blindum, ok rak diofla fra oðum mônnum, ok reisti upp dauða, þa kolluðu allir einni roddu ok toldu hann sekan ok dauða verðan. Þat sagði David fyrir ok mællti orðum guðs sonar: Þeir launuðu mer illu gott ok gulldu hatr fyrir elsku mina. Þat var ok fyrirsagt, at hann myndi selldr vera af lærisveinum sinum. Sa vellti mik, kvað David, er át brauð með mer ok ek truða. Þessa hluti alla sagði heilagr andi yðr fyrir munn spamannanna. En ef ver truum þvi eigi, þa megum ver eigi forðaz helvitis eilifar kvalir. Eða hvi munum ver forðaz pislir, ef ver erum otruir, þar er heiðnir menn trua orðum spamannanna, en ver truum eigi feðrum varum. Gratum ver ok þa, brøðr, gløpi vara, ok iðrumz með tarum þessa skamsamligra gløpa, at guð miskunnsamr þiggi iðrun vara, at eigi komi oss þau dømi, er at baruz ovinum guðs um Moyses daga, sem David mællti: iôrð opnaðiz ok gleypti Datan ok allt lið Abirons, elldr brann i þinghusi Gyðinga, ok brendi logi synduga menn."

En er Jacob hafði þetta mællt, þa veitti drottinn sva mikinn veg mali hans, at allir mælltu sem einum munni, þeir er heyrðu: „Misgort hofum ver, gefðu oss hialp ok seg oss, hvat ver skulum gera." Jacobus mællti við þa: „Eigi skulu þer ôrvilnaz, trui þer ok latið skiraz, ok munu yðr fyrirgefaz syndir yðrar." En margr lyðr Gyðinga tok tru Kristz af kenningu postolans.

Þa tok Abiathar Gyðinga byskup at fyllaz ofundar ok gerði hina mestu styriolld, ok keypti fyrir fe af einum yfirgyðingi, at sa tøki Jacobum postola ok leiddi bundinn til borgar Herodis konungs. En Herodes mællti, at hoggva skylldi postolann. En er hann var til hoggs leiddr, þa kallaði likþrar maðr a hann ok mællti: „Heilagr postoli drottins Jesu Kristz, leys þu mik af sott þeiri, er kvelr alla liðu mina." Jacobus svaraði: „I nafni

hins krossfesta drottins mins Jesu Kristz, ris þu upp heill, ok lofa guð grøðara þinn.“ Þa reis sa heill upp þegar ok rann ok lofaði nafn drottins Jesu Kristz. En sa yfirgyðingr, er til hǫggs leiddi Jacobum postola, het Josias, hann fell til fota postolanum ok mællti: „Ek bið þik, at þu gefir mer likn, ok ger mik hluttakara heilags nafns.“ Jacobus skildi, at hiarta hans var lyst af guði, ok mællti: „Truir þu þvi, at drottinn Jesus Kristr er sonr guðs lifanda, sa er Gyðingar krossfestu?“ Josias svaraði: „Su er trua min fra þessarri stundu, at hann er sonr guðs lifanda.“ Þa let Abiathar byskup taka Josiam ok mællti við hann: „Ef þu ferr eigi fra Jacobo ok bolvar nafn Jesu Kristz, þat er Jacobus boðar, þa munt þu vera hoggvinn með honum.“ Þa svaraði Josias: „Serþu bolvaðr ok allir dagar lifs þins, en nafn Jesu Kristz, þess er Jacobus boðar, se lofat um allar alldir.“ Þa let Abiathar beria hnefum i andlit honum, ok sendi bref Herodi, at hann væri hoggvinn með Jacobo. En er þeir komu til þess staðar, er þeir skylldu hoggnir vera, þa mællti Jacob við hoggvandann: „Førðu okkr vatn, fyrr en þu hoggvir okkr.“ Þa var þangat borinn sar fullr vatz. En Jacobus mællti við Josiam: „Truir þu i nafni drottins vars Jesu Kristz sonar guðs lifanda?“ Josias svaraði: „Trui ek.“ Þa hellti Jacobus vatni yfir hann ok mællti: „Gef þu mer friðarkoss.“ En siðan lagði Jacobus hendr sinar yfir hofuð honum ok gerði krossmark i enni honum. Josias varð þegar algorr i tru drottins ok þegar hoggvinn með Jacobo postola, ok gerðiz sannr piningarvattr, ok foru þeir baðir a einni stundu til drottins.

4. Þeir Ermogenis ok Filetus toku helgan dom postola guðs, at þvi er segir Speculum Ecclesie, ok førðu þa fyrst i Joppen a laun, ok eptir þetta stigu þeir a skip með helgan dom postolans. En er þeir voru a skip komnir, þa sofnuðu þeir, ok vǫknuðu eigi fyrr, en þeir voru komnir við Spanland, ok baru likama postolans af skipi ok logðu a stein einn, en hann braðnaði undir sem vax. Var þa sem i steinþro væri lagðr heilagr domrinn. Þar reð fyrir skamt fra kona ættstor, er Lupa het; hon var sva rik, at hon hafði mikinn hlut landraða, hon var heiðin sem hundr ok full upp otruar ok akefðar. Ermogenis sendi menn at forvitnaz, hvart hon villdi leysa grǫft postolans, ok þo at hon hefði omiukliga tekit hans kenningum lifanda, þa bað hann, at hon gerði nu virðing hans heilags doms, er guð hafði þangat visat. Ok er þeir komu þangat, þa let hon taka þa alla ok fiotra, ok sendi til handa konungi, at hann skylldi glata þeim. Konungr let setia þa i myrkva-

stofu ok biða þess liflatz, er hann hafði ætlat þeim, er þeir væri þaðan leiddir. En er konungrinn gekk til borða, þa kom engill guðs syniliga til myrkvastofunnar ok leiddi þa braut þaðan, sva at margir menn sa á. Ok er borðit var a braut farit, þa sendi konungr til myrkvastofunnar at leiða a braut bandingiana þaðan. Þeir fundu stofuna opna ok mennina a brautu, ok hurfu þeir aptr ok sogðu konungi sva komit. Hann sendi menn eptir þeim, ok var þeim bratt sagt, at þeir voru farnir yfir a þa, er fell i gegnum borgina, ok sottu þeir þangat eptir. En er þeir komu a bruna, þa brast bruin niðr, ok tynduz þeir allir i anni. En er konungrinn fra þessi tiðendi, þa varð hann ottafullr, ok let þa kalla aptr til sin með sætt ok friði, ok let skiraz, ok oll hirð hans. Þa hurfu þeir aptr til Lupam ok beiddu hana annat sinn graptar postolanum. Hon tok þa eigi ovænliga þeira mali, en var þo i illum hugum, af þvi at hon kunni hvarugi vel, þvi er þeir hofðu undan rekiz, en allra verst þvi, er konungr hafði tru tekit ok hans menn. Leitar hon ser þa nyra bragða, at hon mætti þeim tapa. Hon atti øxn i skogi otama, stora ok ygia, sva at engum var naliga i nand komanda. Þangat visaði hon þeim, er øxninir voru, ok bað þa beita fyrir vagn ok aka sva þangat i borgina með likama postolans. Þeir foru siðan eptir hennar tilvisan, ok er þeir sa øxnina oða ok østa i moti ser fara, þa gerðu þeir krossmark fyrir þeim, ok gengu þeir þa at fotum þeira sva høgir sem lomb; ok toku þeir þa siðan ok oku likama postolans i borgina rettan veg, ok foru hogliga. En er Lupa sa um langa leið þau tiðendi, þa bra henni miok við, ok sneri þa hug sinum aleiðis ok tok þa retta tru, ok gerðiz þa miuklynd ok høg, full truar ok gøzku, ok let hon holl sina vigia til kirkiu, þa er hon atti bezta, ok helga með guði hinum sæla Jacobo postola. Var hann i þeiri kirkiu leiddr, ok lagði hon þar til alla sina aleigu, at pryða þa kirkiu a alla vega, eptir þvi sem hon hafði framast fong a. Ermogenis var þar hinn fyrsti byskup, en Filetus eptir hann, ok allir vǫlduz þeir til hofuðstaða, er þangat hofðu farit með helgan dom postolans, ok urðu þar margar iartegnir i sifellu. Þangat toku menn at fara miok þa þegar af nalægum londum, þottuz fa fro meina þeir, er þess þurftu. Ok eigi þverr su virðing, er menn leggia til hinum sæla Jacobo postola enn þangat i sinni tilsokn, af þvi at nu er þangat sva mikil for, sem þa er mest hafði verit, ok er sa staðr nu sva dyrliga buinn, sem þeir er bezt eru bunir i heiminum, ok verða þar avallt iartegnir með ollu moti a siukum monnum.

Þat er sagt a bokum, at hinn sæli Jacobus postoli hafi þegit lif þeim manni til handa, er til hans villdi søkia ok sialfr hafði ser skaða gort. Sva segir Lucas guðspiallamaðr, at nærri paskum hafi verit dauðadagr Jacobus postola, en halldinn nu siðan hatiðliga sa dagr, er umbuningr var veittr hans helgum domi með iartegnum þeim mörgum, er þvi fylgðu. Þenna dag pryðir ok með guðs postola i sinu liflati hinn sæli ok hinn helgi Kristoforus guðs piningarvattr, er risi var at vexti, ok sva nokkut ok mattugr i taknum at sinu hofi, sem hann var vexti. Hann var fullr af helgum anda ok sneri mörgum þusundum manna til guðs, ok var hann eptir þat halldinn af heiðnum konungi ok i myrkvastofu møddr, iarnsvipum barðr, brendr með logum ok i ofni kvaldr, ok hlifði guð honum i ollum þessum mannraunum. Siðan var hann at skotspæni hafðr, en hoggvinn a lesti a þessum degi. En eptir hans liflat tok skirn með iartegnum konungr ok fyrirsogn Kristofori, ok allir hans menn, ok efldu þeir þaðan fra miok guðs kristni, er aðr hofðu hana miok lamda, ok þiggia menn nu hvervetna miskunn mikla af guði af arnan Kristofori, þeir er nu gera hans dyrð her i sinum lofsöngum. Biðium nu a þessum degi þessa hina agætu guðs kappa, at þeir arni oss við guð almatkan þess, at ver megim verða með þeim luttakarar eilifrar dyrðar i himinrikis sælu an enda. Amen.

---

*Fragment.*

*til husa þæira manna, ær þu hefir svikvit, ok kalla þa aptr til guðs, er þu kallaðer fra guði. Seg þat satt vera, ær þu sagðir logit, en þat logit, ær (þu) hafðir sannat. Briottu ok skurgoð(!) þau ær þu hafðir gaufgat, ok otru þa alla, ær þu hafðir fylgt; fe þat ær þu æignaðiz af illu verki, væittu nu þat við goð verk, ok sva sem þu vart sonr diöfuls, þa er þu liktis(!) honum, sva ver þu nu sonr guðs ok likz honum, er hværnn dag væitir goðgerninga sina overðum ok gefr føzlo umakligum. Ef guð var milldr við þik, þa ær þu vart illr, ok mön hann vera miklo miskunnsamari við þik, æf þu lætr af at misgera.“ En er Jacobus hafði þetta mællt, þa gerðiz Ermogenes hlyðinn þessum hlutum ok varð algørr i guðs ast, sva at hann

* *Jvf. ovenfor S. 516[18].*

matte margar iartegnir gæta af guði, ok sneruz margir vinir han(s) ok lærisvæinar allir ok margir aðrir til truar drottins Jesus Kristz af ken(n)ingum hans ok fyrlætu villo Gyðinga. Enn ær Gyðingar sa, at Jacobus hafði snuit þæim manne til truar, ær þeir hugðo alldregi mundo verða yfirstiginn, þa gafo þeir fe .ii. hundraðshöfðingiom, þæim ær voro i Hierusalem, at þæir tøke Jacobum ok setti i bönd. En annarr þæira het Lisias, en annarr Theokristus. Þeir kvöddo motz ok leto þangat læiða Jacobum ok døma um hann at lögum þæira. En ær hann var þangat læiddr, þa mællto Gyðingar við hann: „Fyr hvi truir þu a mann dauðan, þann ær ver vitum allir, at krossfestr var með þiofum“ En Jacobus fullr hins helga anda svaraði: „Hlyði þer mer, brøðr, ok allir er eroð synir Abrahe. Guð het þvi fæðr vorum Abrahe, at i hans kyne mynde allar þioðir þrifaz. En kyn hans ær kallar(!) fra Israel en æigi Ismael, þvi at Ismael var þyborinn ok braut rekin með møðr sinne fra allri erfð kyns Abrahe. En guð mællte við Abraham, at fra Ysaac mynde hans kyn æflaz. En Abraham var kallaðr vinr guðs, fyrr en hann tøke skurðarskirnn æða helldi þvattdaga, ok fyrr en hann visse nökkur lög guðs boðorða. En hann varð vinr guðs æigi af skurðarskirnn, helldr af þvi at hann truði fyrirheite guðs, at i hans kyne mynde allar þioðer þrifaz. Enn æf Abraham varð vinr guðs þvi, at hann truiðe(!) guðe, þa ær ok vist, at sa ær ovinr guðs, er æigi truer guðe.“ Gyðingar mællto: „Hverr ær sa er æigi truir guðe?“ Jacobus svaraðe: „Sa ær æigi truir þvi, at i Abrahams kyne muno þrifast allar þioðir. Sa truir æigi guðe, ær æigi truir þvi, ær Moyses mællte: Guð mön senda yðr mikinn spamann, honum skulo þer hlyða, hvatke ær hann byðr. En Ysaias sagði, með hveriom hætti koma mynde fyrirhæit guðs: Mær mön son ala, kvat hann, ok mön kallaz nafn hans Emmanuel, en þat þyþiz guð með oss. Hæyrið, Hierusalem, kvað Hieremias, koma maun lausnare þinn, ok mön þat vera takn hans, at hann mön upp luka augo blindra, ok gefa heyrnn daufum en lif dauðum með orði sino. Sva maun hann koma sem sonr mannz, kvað Daniel, ok man hann æignaz allt velldi. David mællte ok orðum sonar guðs: Drottinn mællte við mik, þu ært sonr minn. Guð mællte ok sva við David: Sa mön koma or þino kyni, ær æk mön setia yfir sess þinn. Of pisl hans mællte Ysaias: Sva ær hann læiddr til pislar sem sauðr til skurðar. Daniel mællte ok orðum sonar guðz: Negldo þeir hendr minar ok føtr, ok stoðu ok sa a mik, ok skipto með ser fötum minum ok laugðu hlute yfir kleði min, ok gafo mer æitr

at drekka, þa er mik þyrste. David mællte of dauða hans: Likamr minn man hvilaz i friðe, þvi at þu lætr æigi aund mina i helvite. En of uppriso hans mællte David orðum sonar við fauður: Upp ræis ek, ok em æk nu með þer. Fyrir sut aumra ok vesolld valaðra man æk upp risa, kvað drottinn. David mællte ok um uppstigning hans: Drottinn ste upp til himna i faugnuð. En hann sitr til høgri handar guðs fauður, sva sem David mællte við drottin minn: Sittu til høgri handar mer. Þar sagði ok David, at hann myndi koma með ogn ælldz ok døma of hæim þenna: Guð mȯn koma syneliga, ok mȯn æigi guð varr þegia, elldr mȯn brenna i auglite hans, ok hrið ogurlig umhverfiss hann. En þessir hlutir allir æro fylldir ok framkomnir i drottne vorum Jesu Kristo.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

*dyrliga buenn, sem þeir ær bæzt ero bunir i heiminom, ok verða þar avallt iartegnir með ollo moti a siukum mȯnnum. Þat ær sagt a bokum, at hinn sæli Jacobus postoli hafe þegit lif þæim manne til handa, ær til hans villde søkia ok sialfr hafði ser skaða [gort]. Sva segir Lucas guzspiallamaðr, at nære paskum hafi verit dauðadagr Jacobus postola, enn halldinn nu siðan hatiðliga sa dagr, er umbuningr var væ(i)ttr hans helgum dome með iartegnum þæim mȯrgum, ær þvi fylgðo. Þenna dag pryðir ok með guðs postola i sino liflate hinn sæli ok hinn helgi Kristoforus guðs piningarvattr, ær risi var at vexti, ok sva nokkut ok mattugr i taknum at sino hofi sem hann var væxte. Hann var fullr af helgom anda ok sneri mȯrgum þusundum manna til guðs, ok var hann æptir þat halldinn af hæiðnum konungi ok i myrkvastofu møddr, iarnsvipum barðr, brendr með logum ok i ofni kvalðr, ok hlifðe guð honum i ollum þessom mannraunum. Siðan var hann at skotspæni hafðr, enn hoggvinn a lesti a þessom degi. En æptir hans liflat tok skirnn með iartegnum konungr ok fyrirsȯgn Kristofori ok aller hans menn, ok efldo þeir þaðan fra miok guðs kristne, ær aðr hȯfðu hana miȯk lamða, ok þiggia menn nu hvervætna miskunn mikla af guði af arnan Kristifori, þeir er nu gera hans dyrð her i sinum lofsȯngum. Biðium nu a þessom degi þessa hina agęto guðs kappa, at þæir arne oss við guð almatkan þess, at ver megim verða með þæim luttakarar æilifrar dyrðar i himinrikis selo an enda. Amen.

* *Jvf. ovenfor S. 520*[38].

*Tillæg.*

*Passio sancti Jacobi apostoli.*

Jacobus postole [drottens vars Jesu Cristz broþer Johannis goþspiallamanz[1] hann fór oc kendi tru a øllu Gyþingalande oc Samaria, en þat er land, oc gek hann a þing oc samcomor Gyþinga, oc syndi þeim af helgom ritningom oc spamanna bocom øll vitne, þau er þeir boro of drotten[2] Jesum Cristum. En fiolcunnegr maþr, sa er Hermogenes hét, sendi lerisvein sinn, en sa hét Filetus, oc nøcqvera Gyþinga meþ honom, at hann þrætte i gegn Jacobo oc sannaþi þat í orþom sinom, at Jesus Cristus være eigi saþr sónr goþs, sem Jacobus postole sagþi. En Jacobus eyde meþ trausti heilax anda alla malkroca hans, oc syndi honom af domum heilagra[3] verca, at Jesus er saþr sonr goþs. Þa hvarf Filitus(!) aftr til Hermogenem oc melte viþ hann: „Þat scaltu vita, at Jacobus sa er callasc þræll oc postole Jesu Cristz hann má alldregi verþa ivirstigin, þviat ec sa hann i nafni drottnes[4] reka diofla fra oþom oc gefn syon(!) blindom en heilso licþrom. En viner miner letosc sét hafa hann reisa mann af dauþa. Allar ritningar helgar man hann boclaust, oc synir þaþan þat, at engi er annarr sonr goþs nema sa er Gyþingar crossfesto. Lattu þer líca raþ mitt, oc com þu til hans oc biþ þér licnar af honom; en ef þu vill eigi gera þat, þa mun þer at engo duga fiolcyngi þin. En þat scaltu oc vita, at ec mon aftr hverfa oc biþia, at ec mega verþa hans lerisveinn.“ Þa fyldesc Hermogenes øfundar, es hann heyrþi þetta, oc batt hann Filetum, svat hann mátti sic hvergi hrøra, oc melte viþ hann: „Siom vér nu, hvart Jacobus þinn come at leysa þic or bøndom þessom.“ Þa sendi Filetus svein sinn til Jacobum. En er sa com oc sagþi þetta, þa sendi Jacobus sveitaduc sinn Filito oc melte: „Tace Filetus duc þenna oc mele sva: Drottenn Jesus Cristr reisir up þa er falla oc leysir bundna.“ En þa er sa com oc selde Fileto sveitaduc, es sendr var, þa losnaþi Filetus ór bondom Hermogenis, oc hlo hann at fio(l)kynge hans oc rann til postolans. Þa reidesc Hermogenes, es lerisveinn hans hló at honom, oc vacþi up diofla oc sende þa oc melte: „Farit ér oc leiþet hingat Jacobum til min oc Filetum lerisvein minn, at ec hefnomc viþ þa, at eigi þori aþrer lerisveinar miner at hleia at mér.“ En dioflarner como þar es

1 [domini nostri Jesu Cristi frater Johannis evangeliste *Cd.* 2 dominum *Cd.* 3 sanctorum *Cd.* 4 domini.

Jacobus var a bønum oc toco at ýla i lofti os melto: „Jacobe postole goþs, miscunnaþo øss, þviat ver brennom þegar nú firir tiþ bruna várs.“ Jacobus melte viþ þa: „Til hvers como þer hingat?“ Dioflarner svoroþo: „Hermogenes sende øss, at ver leidem þic til hans oc sva Filetum. En þegar es ver comom hingat, þa batt ǫss engill goþs elldligom bǫndom oc iarnrekondom oc brennom vér.“ Jacobus melte: „I nafne føþor oc sonar oc heilax anda leýse yþr engill goþs, oc fariþ ér aftr, oc leiþet hingat Hermogenem bundenn, oc meiþit at engo hann.“ Þa foro dioflar oc bundo hendr Hermogenis a bac aftr meþ reipom oc leido hann til postolans oc melto: „Þu sender øss, þa er vér vorom brender oc qvalþer mioc.“ Þa melte Jacobus viþ Hermogenem: „Þu inn heimscasti maþr! fir hvi traystesc þu at hava trunoþ under ovin mannz, oc hugþer þu eigi at, hvern þu bat senda þer engla sina at granda mer. En ec lét þa eigi ná enn at syna þér reiþe sina.“ Þa colløþo dioflarner oc melto viþ Jacobum: „Gef þu øss leyfi i gegn honom, at ver hefnem þinnar meingerþar oc varra qvala.“ Jacobus svaraþe þeim: „Hvi tócoþ ér eigi Filetum, er hann stendr fyrir yþr?“ Dioflarner melto: „Vér megom eki þess taca, es i þinne varþveizlo er.“ Jacobus melte viþ Filetum: „Su er kenning [drottens mins[1] Jesu Cristz, at hverr launi goþo illt. Nu er Hermogenes batt þic, Filetus, en þu leys hann oc lat fara i friþi fra diofli.“ En er Filetus hafþi leystan hann, þa stóþ hann oc drap niþr høfþi oc þorþi eigi a braut at fara. Jacobus melte viþ hann: „Far þu frials þingat es þu vill, þviat eigi er þat or kenning, at maþr snuesc nauþegr til tru.“ Hermogenes melte: „Ec kann reiþe diofla, at þeir muno mic þegar drepa, es ec geng heþan, nema þu gefer til friþar nacqvat, þat er ec of hava meþ mér.“ Jacobus melte: „Tac þu staf minn oc haf meþ þér, oc far ohryggr þingat er þu vill.“ Þa tóc Hermogenes stafen postolans oc for til hus sins ohrødr. Þa toc hann oc lagþi a bac sér oc lerisveinum sinum kistor fullar fiolkyngesboca oc castaþe niþr fir fǫtr Jacobo oc vilde brenna þér i ellde.“ Jacobus melte viþ hann: „Casta þu heldr griote eþa blye i kistornar, oc sǫk þeim i sę niþr, at eigi fae menn scaþa af daune þeira[2], es þęr ero brendar.“ Hermogenes com aftr, es hann hafþi þat gert, ok fell til fóta postolanum oc baþ sér licnar oc melte: „Þu lausnere anda! Tac þu iþron þess, er hingat til hefer veret andscote þinn oc amęlande.“ Jacobus svaraþe: „Ef þu fører goþe sanna iþron, þa mundo sanna

[1] [domini mei *Cd.* [2] *synes senere rettet til* þeim.

miscunn af honom fa." Hermogenes svaraþe: „Þat er at marki, at ec føre sanna iþron goþe, at ec hefi nu a braut castat ǫllom bocom minom, þeim er a var oll olofut dirfþ, oc hefi ec neitt allri fiolcynge ovinarens." Jacobus svaraþe: „Far þu nu til husa þeira manna, er þu hever sviqvit oc calla þa aftr til goþs, es þu leider fra goþe, oc seg þat satt vera, er þu sagþer logit, en þat logit, es þu hafþer sannat. Brióttu oc scurþgoþ þau ǫll, er þu gǫfgaþer, oc otru þa alla es þu fylgþer. Fe þat er þu eignaþesc af illu verke, veittu nu þat viþ goþ verc. Oc sva sem þu vast sonr diof(o)ls, þa er þu glicþesc honom, sva vestu nú oc sonr goþs, oc glixtu þeim, er hvern dag veiter goþgiorninga sina overþom oc gefr fǫzlo (o)vinom sinom. Ef goþ var mildr viþ þic, þa er þu var(t) illr, oc mon hann nu miclo mildare viþ þic, er þu lętr af at vera illr oc þu tecr at þiona honom i goþom vercom." En er Jacobus hafþi þetta melt, þa gerþesc Hermogenes hlyþenn þessom hlutom øllom, oc varþ algerr í goþs ost, svat hann matte margar iarteiner geta at goþe, oc snerosc viner hans oc lerisveinar hans aller oc marger aþrer til tru Jesu Cristz af kenningom hans oc firlęto villo Gyþinga.

En er Gyþingar só, at Jacobus hafþi snuit þeim manne til tru, er þeir hugþu aldregi møndo verþa iferstigenn, þa gofo þeir fé .ii. hundraþshøfþingiom, þeim er voro i Jerusalem, at þeir tøki Jacobum oc sette i bønd. En annarr þeira hét Lisias, en annarr Þeocristus. Þa qvodo þeir moz oc leto þingat leiþa Jacobum oc døma umb hann at løgom þeira. En er hann var þingat leidr, þa melto Gyþingar viþ hann: Firer hvi truer þu a Jesum, mann þann er ver vitom aller at crossfestr var meþ þiofom?" En Jacobus fullr ens helga anda svaraþe þeim oc melte: „Hlyþet ér mer, brøþr,[1] oc aller þeir(!)er eroþ syner Abrahe." Þa hof Jacobus up tølo: „Goþ hét þvi Abrahe feþr orom, at í hans cyne mvnde allar þioþer þrivasc. En cyn hans es callat fra Israel en eigi fra Ismael, þviat Ismael var þyborinn oc braut rekinn meþ erfþ sinne fra øllo kyni Abrahe. En goþ melte viþ Abraham, at fra Isaac mønde hans cyn eflasc. En Abraham var callaþr vinr goþs, fyrr en hann tøke scurþarscirn eþa hann helde þvatdag, oc fyrr en hann visse nøkor løg goþs boþorþa. En hann varþ vinr goþs eigi af scurþarscirn, heldr af þvi at hann truþe firerheite goþs, at i hans cyne mønde þrivasc allar þioþer. En ef Abraham varþ vinr goþs þvi at hann truþi goþe, þa er oc vist, at sa er ovinr goþs,

[1] fratres *Cd.*

es eigi truer goþe.“ Gyþingar melto: „Hverr er sa es eigi truer goþe?“ Jacobus svaraþe: „Sa er eigi truer þvi, at i Abrahams cyne muno þrivasc allar þioþer; sa truer eigi goþe, es eigi truer þvi es Moises melte þetta: Goþ mon senda yþr mikenn spamann, honom scolot ér hlyþa sva sem mér, hvatki es hann byþr.. En Isaias sagþe, meþ hveriom hętte coma mønde þettá fiirheit: Męr mon qviþog verþa, qvaþ hann, oc mon ala son, oc mon callasc namn hans Jesus eþa Emmanuel, en þat þyþesc goþ meþ oss Heyrþo Jerusalem, qvaþ Jeremias, coma mun lausnere þinn, oc mon þat vera tacn hans, at hann mon upluca augo blindra oc gefa hey(r)n daufom oc qvekva dauþa til lifs meþ orþi sino. Sva mon hann coma sem sonr mannz, qvaþ Daniel, oc mon hann eignasc alt velde. David melte oc orþom sonar goþs: Drottenn[1] melte viþ mic, þu ert sonr minn. Goþ melte oc sva viþ David: Sa mun coma ór þino cyne, es ec mon setia iver sess þinn Isaias melte of pisl hans: Sva er hann leidr til pislar sem sauþr til scurþar. David melte oc orþom sonar: Negldo þeir føtr mina oc hendr minar, oc stoþo oc só a mic, oc scipto meþ ser fotom minom, oc laugþo hluti iver cleþi min, oc gofo mér eitr at dreca, þa er mic þyrsti. David melte svá of dauþa hans: Licamr minn mon hvilasc i friþi, þviat þu firerlętr eigi ond mina i helvite. En of upriso hans melte David orþom sonar viþ foþor: Up reis ec oc em ec nu meþ þér. Fyr sút aumra oc fyr vesolþ valaþra mun ec up risa qvaþ drottenn[1]. David melte oc of upstigning hans: Drottenn[1] ste up til himna meþ sigri i fagnoþ. En hann sitr til høgri handar goþs foþor, sva sem David melte viþ drotten[1] minn: Sittu til høgre handar mer. Þat sagþe oc David, at hann mønde coma meþ ógn elz at døma of heim þenna: Goþ mun syniliga coma, oc mon eigi goþ varr þegia, heldr mon hann døma of livendr oc dauþa, oc mon hans hriþ ogorleg umbhverfis hann. En þa es þesser hluter aller ero fylder oc framcomner i drotne vorom Jesum Cristum, þeir es liþner ero, oc muno fyllasc þeir er enn ero eigi framcomner, sva sem Isaias melte: Up muno risa dauþer oc vacna þeir es i grovom ero. En ef ér vilit vita, hvat þa mon verþa, es dauþer menn risa up, þa hlyþet ér en(n), qvaþ Jacobus, þvi, er David lezc heyrt hafa af goþe, þessa tvenna hluti: Goþ hever velde, drottenn, oc miscunn a(!) þu, þviat þu munt gialda hveriom sem einom efter vercom sinom. Af þvi gere hverr yþ-

1 dominus *Cd.*

varr iþron, brøþr[1] miner, at eigi takit ér giold firer verc yþor, er nøcqvern hlut ottoþ i meþ þeim, er crossfesto þann, er allan heim leysti fra qvolom, þviat hann lauc up augo þess, er blindr var borinn, oc reiþ hann moldo oc hraca sinom a staþ augnanna oc gaf honom syn, oc synde þat i þesso verke, at hann hafþi sialfr[2] scapaþa menn ór moldo, þviat ver spurþom drotten[3] Jesum Cristum, hverr misgert hafþi i kyni hans ens blinda, at hann scyldi blindr vera borinn, en hann svaraþi oc melte: Eigi misgerþi hann ne frændr hans, heldr til þess at goþs verc syndosc a honom. En siþan er hann græde licþra en gaf sýn blindom oc rac diofla fra oþom oc reiste up dauþa, þa cølloþo aller einne rødo, qvaþ Jacobus, oc tølþo hann sekian oc dauþa verþan. Þat sagþe oc David fyrer oc melte orþom sonar goþs: Þeir lønoþo illo gott, oc gulldo hatr firer elsco mina. Þat var firer sagt, at hann mønde seldr verþa af lerisveini sinom. Sa vęlti mic, qvaþ David, es át brauþ meþ mér oc ec truþa. Þessa hluti alla sagþe yþr heilagr ande firer munn spamanna. En ef vér truum eigi þvi, þa megom vér eigi forþasc eilifar qvalar. Eþa firer hvi munom ver pisler forþasc, ef vér erom otruer, þar er heiþner menn trua orþom spamanna, en ver truem eigi feþrom orom. Grotom vér oc þa brøþr[1], oc iþromsc meþ torom þessa scamsamligra gløpa, at goþ miscunsamr þigge iþron ora, at eigi come ivěr oss þau døme, es at borosc ovinom goþs of Moises daga. Sem David melte: Jorþ opnaþesc oc gleypti Daþan oc alt liþ Abirón. Eldr brann i þinghuse þeira, oc brenndi logi synþga menn.“

En er Jacobus postole hafþi þetta melt, þa veitte drottenn[4] sva mikenn veg male hans, at aller męlto eins munni, þeir er heyrþo: „Misgert hofom vér, gefþu oss hiolp, oc seg, hvat vér scolom gera.“ Jacobus melte viþ þa: „Eigi scolot er ørvilnasc, trueþ ér oc látez(!) scirasc, oc muno yþr firer gevasc synþer yþrar.“ En er margr Gyþinga lyþr tóc tru Cristz af kenningo postolans, þa tóc Abiathar Gyþinga byscop at fyllasc øfundar oc gerþi ena mesto styriold, oc caufti fe at einom ivergyþinge, at sa tøke Jacobum oc leide hann þingat bundenn til bøiar Herodes konongs. En Herodes melte, at høgva scylde postolann. En er hann var til høgs leidr, þa callaþi licþrar maþr a hann oc melte: “Heilagr postole Jesu Cristi, leystu mic af sótt þessi, er qvelr alla liþo mina.“ Jacobus svaraþe: „I namni ens crossfesta Jesus Cristz [drottens mins,[5] ristu up heill oc lofa græþera þinn.“ Þa reis sa,

[1] fratres *Cd.* [2] ipse *Cd.* [3] dominum *Cd.* [4] dominus *Cd.* [5] [domini mei *Cd.*

heill up þegar oc rann oc lovaþi namn drottens[1] Jesu Cristi. En sa ivergyþingr er til høggs leide Jacobum, sá hét Josias, hann fell til fota postolanom oc melte: „Ec biþ þic, at þu gever mer licn oc gører mic hluttacanda heilax namns.“ Jacobus scilþe, at hiarta hans var lyst af goþe oc melte: „Truer þu þvi at drottenn[2] Jesus Cristus es sonr goþs livanda, sà er Gyþingar crossfesto?“ Josias svaraþi: „Su er trua min alt fra þessi stundo, at hann es sonr goþs lifanda.“ Þa lét Abiaþar byscop taca Josias oc melte viþ hann: „Ef þu ferr eigi fra Jacobo oc vill eigi bolva namn Jesu Cristi, þa mundo høggvenn vera meþ honom.“ Josias svaraþe: „Serþu bolvaþr oc aller dagar lífs þíns. En namn Jesu Cristi, þess er Jacobus boþar, er lofat of allar alder.“ Þa let Abiaþar beria hnefom i andlit honom oc sende rit Herodi oc baþ þess, at hann være hoggvenn meþ Jacobo. En er þeir como til staþar þess, er þeir scyldo hǫggner vera, þa melte Jacobus viþ høggvandann: „Førþu ǫss vatn fyrr en þu høggver ocr.“ Þa var þingat borinn sár fullr vatz. En Jacobus melte viþ Josiam: „Truer þu i namni [drottens vars[3] Jesu Cristi sonar goþs lifanda?“ Josias svaraþi: „Trui ec.“ Þa helti Jacobus vatni iver hann oc melte viþ hann: „Gefþu mer nu friþarcoss.“ En siþan lagþi Jacobus hendr iver høfot honom oc gerþe crossmarc Cristi i enni honom. En Josias var algerr i tru [drottens vars[3] Jesu Cristi oc þegar høggvenn meþ Jacobo postola, oc gerþesc saþr piningarvattr goþs, oc foru þeir baþer a einne stundo til drottens[1], þess er vegr er oc dyrþ of allar allder alda.

---

## II.

### *Passio Jacobi apostoli.*

I dag holldum ver messudag Jacobo postola broður Jons guðspiallamannz i þa minning, er hann toc pisl firir guðs nafni oc sotti meþ piningarsigri til himinrikis dyrþar oc eilifrar sęlu. Jacobus var systrungr drottins at iarðlegri frændsemi, Zebedeus het faþir hans, en Maria moþir, oc var hon Salome dottir, en Anna

1 domini 2 dominus 3 [domini nostri

var hænnar moþir oc sva Mario drotningar. Drottinn callaþi þa brœþr Jacobum oc Johannem a hinum sama degi til sinnar fylgþar sem þa Petrum oc Andream. Letu þeir oc bæþi faþurinn oc farscostinn oc fylgþu drotni varum oc varo i mikilli sœmð oc virþingo af honum. Callaþi hann þa brœþr nocqveriom sinnum meþ Petro til sva mikils trunaðar oc heileitrar(!) virðingar, sem engom var aðrum slict veitt hans lerisveinum. Jacobus hafþi kvangaþr verit, oc var onduð kona hans, oc lifþi hann eptir hana siþan fagrligu bindandi livi. En eptir pining guþs sonar oc upriso hans oc upstigning til himna, oc eptir þat er postolar hofþu þegit gipt hins helga anda, þa foru postolarnir, eptir þvi sem hann hafþi þeim boþit firir sina upstigning, at þeir scylldu naliga um allan heim fara oc kenna hans kenningar allri skepno. Sva segir Speculum Ecclesie, at Jacobus havi farit a Hispanialand at kenna þar retta tru. Oc er hann feck þvi eigi a leið (comit) firir sakir utru þeira oc illzcu, þa for Jacobus aptr til Gyþingalandz at styrkia tru meþ þeim lærisveinum er þar varo. Jacobus for þa um allt Gyþingaland oc Samariavelldi, geck hann inn i þinghus Gyþinga oc syndi þeim spamanna ritningar helgar, þær er a þeira bocum stoðu, af drotni Jesu Cristo vera þa fylldar oc framcomnar.

Þar var þa fyrir fiolcunnigr maðr, sa er Ermogenes het, hann var i kerleicum miclum við Gyþinga. Hann sendi lærisvein sinn, er Philetus het, meþ yfirgyþingum at eyþa kenningar postolans, oc hann gerþi sem honum var boþit, sagþi hann þann eigi sannan guþs son vera, er Jacobus boðaþi. En Jacobus sannaþi sina kenning meþ trausti heilags anda, en eyddi hans villu. Hvarf þa Philetus aptr til Ermogenis oc mællti við hann: „Vita scallt þu þat, at þu mannt eigi mega sigrasc a Jacobo, er sic segir vera þion Jesus Cristz oc hans postola. Ec sa hann i nafni drottins reca diofla fra oðum monnum, geva sion blindum oc reinsa licþra; sogþu oc vinir minir mer þat, at þeir hofþu set hann roisa dauða menn til lifs. Recr hann allar ritningar til þess, at engi se annarr guþs sonr, en sa er Gyþingar crosfesto. Nu lyþ þu raþi minu oc far a fund hans oc sæzc viþ hann, þvi at þer man ecki annat stoþa, man ec oc aptr hverva til hans oc beiðaz, at ec verþa hans lærisveinn.“ Ermogenes varð þa reiðr miok oc batt sva fast Philetum, at hann matti engan lut rœra a ser oc mællti siþan: „Siam nu, ef Jacobus þinn leysi þic af þessum bondum.“ Philetus sendi þa svein sinn scyndiliga til Jacobus at segia honum, hvat titt var. Oc er hann com þar, þa seldi Jacobus honum i hond duk sinn

oc mællti: „Tac þu duk þenna oc sel honum, ok mæli hann sva: Drottinn ørðgar up bundna oc leysir fiotraþa.“ Oc er sveitaducr Jacobi com til Phileti oc hann toc viþ honum, þa losnuþo oll bond af honum, oc rann hann þa til Jacobus oc gambraþi yvir Ermogene oc hans illzscu. Ermogenes varþ þa reiþr mioc oc vacþi up diofla meþ fiolkyngi oc sendi þa til Jacobus oc mællti: „Farit þer nu oc leiðit hingat Jacobum oc Philetum svein minn, at ec hefna sva þessum, at eigi fysi annan slic firn til at taca.“ Oc er dioflarnir como þar at, er Jacobus var, þa tocu þeir at yla i loptino oc mællto sva: „Jacobe postole guþs, miscunna þu oss, þvi at ver brennum nu firir tið bruna vars.“ Jacobus mællti: „Firir hvi komu þer til min?“ Dioflarnir svoruþo: „Ermogenes sendi oss, at ver scylldim þek oc Philetum leiða til hans. En þegar er ver comum her, batt oss engill guþs elldlegum rekendum, oc qveliomc ver nu.“ Jacobus mællti: „I nafni foþur oc sonar oc anda heilags leysi ec yþr, at þer hvervit aptr til Ermogenis, oc leiþit hann til min bundinn, en gerit honum ecki mein.“ Þeir foru siþan oc bundo Ermogenem reipum hendr hans a bak aptr, oc leiddu hann firir postolann oc mællto: „Þu sendir oss til bruna oc kvala, oc ættim ver þer grimmo at giallda.“ Þa mællti Jacobus viþ Ermogenem: „Þu enn heimscasti maþr, nu mant þu sia, meþ hveriom þu hevir haft rað oc trunað, uvini allz mannkyns, oc sendir þu þa mer til meins oc hasca, er nu myndo þeir þic i helio hava, ef ec stœþvaða þa eigi“ Dioflarnir colluþu þa oc mællto: „Gefþu oss valld til, at ver hefnim bæþi þinna meingerþa oc varra bruna.“ Jacobus mællti: „Hvi taki þer hann nu eigi?“ Þeir svoruðu: „Megum ver at siþr honum granda, at ver megum eigi einn mol taca, þann er i gezlu þinni er.“ Jacobus mællti þa viþ Philetum: „Vit þu þa vera kenning drottins Jesus Cristz, at menn launi goðu illt. Hann batt þic, en þu leys hann nu; hann villdi þic geva a diovols valld, en þu lat hann fara frialsan af diofla valldi.“ Philetus leysti hann þa. En Ermogenes stoþ oc drap niþr hofþi. Jacobus mællti þa: „Far þu nu frials, hvert er þu vill, þvi at engum scal nauþga til at snuasc eptir varri kenningu.“ Ermogenes mællti: „Ec veit gerst reiði dioflanna; ef ec hevi eigi af þer traustit, þa mono þeir þegar vilia taca mic oc kvelia.“ Jacobus mællti: „Tac þu staf minn oc far þa oruggr.“ Hann gerþi þa sem hann bauð, oc for siþan heim til innis oc samnaði saman ollum galldrabocum sinom oc lagþi a herþar lærisveinum sinum, en sialfr tok hann sumar. Þeir costuþo þeim firir fœtr Jacobo postola, oc

gaf hann þær upp allar oc bauð at brenna þær i elldi. Jacobus mællti: „Eigi scal þær i elldi brenna, at menn fai bana eþa mein af reyk þeim er af verþr, helldr scal þeim sockva i sævar diup meþ miclum þunga.“ Oc er þvi var lokit, þa hvarf Ermogenes aptr oc fell til fota postolanum oc mællti: „Þu ert sannr frelsari andanna, tak [þann mann] i sætt iþranda sinna afgerþa, er þu hevir aðr micla scapraun af hafþa oc borit þolinmoþliga.“ Jacobus mællti: „Ef þu synir guþi sanna iþran, þa mont þu oðlasc sanna licn.“ Ermogenes mællti: „I þvi mant þu marca mina tru oc sanna iþran, at ec hevi eytt ollum minum bocum oc neytt(!) allum hinum fyrra minum atrunaþi.“ Postolinn mællti: „Far þu nu oc snu þeim aleiþis, er þu hevir aðr villta, seg þu nu þat satt vera, er þu sagþir fyrr logit, oc þat logit, er þu hafþir aðr sannat. Eyð þu ollum scurþgoþum oc blotscap, þeim er þu hevir her til a truat. Veit þu nu meþ goðvilia allt þat fe, er þu hevir aþr fengit meþ rangendum oc slœgþ. Oc sva sem þu vart sonr diofulsins, meþan þu licþisc honum i þinum verkom, þa gersc þu nu sva guðs sonr oc liksc honum heþan fra i þinum verkum. Veit nu gœþi þeim, er þer ero uþeckir, þu att þatt(!) guþi at launa, þvi at þa er þu vart honum illr, þa var hann þer goþr, en miclu mun hann þer nu betri, er þu tecr honum at þiona oc staðfestisc i goþum verkum.“ Oc er Jacobus hafþi þetta mællt, þa gerþi hann eptir þvi sem postolinn hafþi kent honum, oc toc Ermogenes skirn oc retta tru oc Philetus oc oll su sveit, er meþ þeim hafþi verit. Oc gerþisc Ermogenes sva algerr i sinni tru, at guþ let hann iartegnum skina.

En er Gyþingar verþa þessa varir, at Ermogenes var undan þeim spanþr oc fiolþi annarra manna, þa baro þeir fe undir tva hundraþshofþingia i Jorsalaborg, het annarr Lissicus en annarr Theocristus, oc tocu þeir postolann oc hofþu i sinni gezlu. Eptir þat var hann leiddr a þing Gyþinga, at hann vęri dœmþr at þeira logum, oc mællto yvirgyþingar viþ postolann: „Hvi boþar þu oss Jesum, þann mann er crosfestr var meþ illvirkiom?“ Jacobus mællti: „Hlyþit mer, brœþr allir, þeir er erot synir Abrahe. Guþ het þvi Abrahe, at hann myndi hans ætt lata erfþar niota. Abraham callaþi guð vin sinn, oc mest af þeiri tru, er hann hafþi til guþs umfram aðra menn“ Þa mællto Gyþingar: „Hverr myni eigi trua guþi?“ Jacobus svaraði: „Sa truir eigi guði, er eigi truir sem Abraham truþi, eþa guþs vinr Moises, oc sagþi hann sva i sinni boc: up mon guþ reisa spamann mikinn, lyþi þer þvi ollu

er hann byþr yþr. Um þenna enn sama spaþi Ysaias, hveriom hætti hann myndi coma: Mær man qviþug verþa oc son bera, oc er nafn hans guþ meþ oss. Hieremias segir sva: Coma mon lausnari i Jorsalaborg, oc man þat marc hans vera, hann mon luca up augu blindra manna, mon hann heyrn geva daufom, en vekia dauða menn til lifs meþ orþum einum. Ezechiel mællti sva: Coma man til þin, Jorsalaborg, konungr þinn litillatr, oc mon hann endrbœta þic. Daniel segir sva: Sva mon hann coma sem sonr manz, oc man hann oðlasc allt velldi oc hofþingscap. Daviþ mællti oc orðu(m) sonar guþs: Drottinn mællti við mic, sonr minn ert þu, i dag gat ec þic. En þetta mællti hann roddu foþur: Sialfr mon hann calla mic, faþir minn ert þu, en ec man setia hann allum konungom hæra. Oc siþan mællti guþ viþ Daviþ: Af metti qviþar þins er sa er ec man setia yfir sæti þitt. Um pining hans rœþir Ysaias sva: Hann man leiddr vera sem sauðr til scurþar. Davið segir sva um pining hans: Grovo þeir hendr minar oc fœtr oc tolþu bein min oll. Skiptu þeir cleþum minum oc logþu luti a, gavo þeir mer gall til fœzlu oc byrluþo mer olyfian, þa er mic þyrsti. En þetta mællti hann um dauða hans: Holld mitt mon i friþi hvilasc oc eigi mant þu firirlata ond mina i helviti . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . oc meþ þer vera. Oc enn i aðrum stað: Firir sakir ôreiga vesalþar oc syting(!) fatœcra mon ec up risa. Um upstigning hans mællti hann sva: Leiddi hann meþ ser tekit herfang upstigandi i hæþ. Oc enn i aðrom stað: Drottinn ste up meþ gleþi. Sva sagþi oc Anna moþir Samuel: Drottinn ste up til himna. Oc enn segir David sva: Sagþi drottinn drotni minum, sittu til hœgri handar mer*

* *Sagaen standser her midt i en Linie; den har altsaa været ufuldendt Haandskriftet.*

---

## III.*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

[Gefðu] Ermogenem i v[alld var]t, at ver megim reka harma þ[inna oc qvalà var]ra oc hefna þess er ver brunnum firir hans sakir." Jacobus postuli mællti: „[Firir h]vi taki þer eigi Filetum, þar er hann stendr iafnt firir yðr nu." D[io]flarnir svoruðu: „Hó, hó, vær megum eigi ne einn gripa, þann er i þinni varðveizlu er." Þa mællti Jacobus við Filetum: „Leystu nu Ermogenem, at hann viti, at þat er kenning drottins vars Jesus Cristz at giallda goðo illt; þviat hann batt þic, þvi giorðu hann frialsan af dioflum." Enn þa er Filetus hafði hann leystan, þa stoð hann hneckðr oc lutr oc locði af(!) hendr niðr. Þa mællti Jacobus postuli við hann: „Farðu nu frials hvert er þu vill, þviat þat er vár kenning, at engi snuizt nauðigr til tru." Ermogenes svaraði: „Ek kann reiði dioflanna, þeir munu þegar taka mic oc deyða með pislum ymisum, nema þu gefir mer nacqvat, þat er ec mega hafa með mer avallt." Jacobus mællti við hann: „Taktu farastaf minn oc far auruggr með hann." Þa tok Ermogenes stafinn oc for i huss sitt oc lagði a bak ser oc lærisveinum sinum kistur oc hirðslor, þær er fullar voro upp boka, oc bar hann til Jacobus postula oc villdi brenna þær i elldi. Þa mællti Jacobus við hann: „Haufgaðu hirdzlur þessar með grioti oc sauck þeim i siofar diup, at eigi qveli brunaþefr bokanna þa menn, er viltir eru af diofli." Enn þa er Ermogenes hafði þetta giort, þa for hann oc fell til fota postolanum oc mællti sva: „Heyrðu lausnari andanna, taktu nu iðranda mann, þann er þic aufundaði allt hingat til oc við þic var bacmalugr." Jacobus svaraði: „Ef þu færir sanna iðrun guði, þa muntu sanna likn fa af honum." Ermogenes mællti: „Sva mioc færi ec guði iðrun, at allar bæcr minar bær(!) ec a sæ ut oc sọckða með grioti, þær er villa var a, oc þar með neiti ek aullum illzkuiþrottum ovinarins." Þa mælti Jacobus við hann: „Farðu nu of hús oc heruð oc kalla þu aptr þa alla, er þu hefir aðr vilta, at þu gialldir þa drottni sinum, er þu toct a braut fra honum fyrr. Seg þu nu þeim þat vera skrauc, er þu sagðir fyrr satt, enn þat satt, er þu sagðir aðr lyli(!). Enn þu trui þat vera sk[urðg]oð, er þu gaufgaðir aðr, oc firirspa[r lygn]ar er þu ætlað[ir munu framf]ara, firir þat briottu þau i sundr; fe þat er þu tokt af illum v[elum ok il]lum verkum þinum veittu þat nu i goðum verkum, oc sva se[m þu vart] diofuls sonr i eptir-

* *Jvf. ovenfor S.* $515^{26}$--$517^{2}$.

glikingu hans, sva giorztu nu guðs[sonr] oc gior hans eptirglikink(!) oc goðra manna, oc sa er hversdagliga veitir kauplaust goðgiorninga. Þa mun guð þeim giallda firir þat allt siðarr hundraðfaulldum avexti. Nu ef guð var goðgiarn við þic, þa er þu vart illr við hann, sva myclu meiri gæzku mun hann þer veita, ef þu lætr af at gera a mot honum oc þionar honum i goðum siðum, sva at honum liki þat vel." Enn meðan heilagr Jacobus sagði þessa hluti oc þessum glika, þa hlyddi Ermogenes aullu því er hann sagði, oc varð hann algiorr i hræzslo oc i ast drottins Jesus Cristz, sva at drottinn varr veitti morg tacn oc iarteinir firir hans sakar. Enn er Gyðingar sa þenna sva mioc snuiz hafa, er þeir ætluðu auruggan i kyngi sinni vera mundu, at hann oc allir vinir hans, þeir er hann hafði aðr vilta, truðu a Jesum Crist firir kenningar Jacobus postula, þa baru þeir fe undir tva hundraðshofðingia, annan Lisiacem enn annan Theocristum, enn þeir voru þa i Jorsalaborg. Þeir toko Jacobum postula oc settu hann i varðhalld. Enn eptir þat var hann framleiddr til þingmotz með mikilli styriolld, oc villdu þeir heyra laugmal hans oc kenningar, oc mælto þeir við hann: „Til hvers boðar þu atrunuð(!) a Jesum, þann mann er ver vitum allir at krossfestr var a millum illvirkia tveggia." Þa mælti Jacobus fullr af helgum anda: „Heyri þer, bræðr oc synir Abrahams! Guð het feðr varum Abraham, at i kyni hans mundi allar þioðir arf taka. En Ismael er eigi með kyni Abrahams, helldr eru Gyðingar komnir fra Abraham, þviat Ismael var a braut rekinn með mæðr sinni Agar fra kynsmaunnum Abrahams, oc var sagt Abraham af guði, at fra Ysaac mundi auka ky(n)sloð Abrahams. Enn Abraham var vinr guðs kalla(ð)r fyrr enn hann tæki skurðarskirn oc fyrr en hann helldi þvattdaga oc fyrr en hann vissi ne eitt . . . . .
. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

# TVEGGJA POSTOLA SAGA JONS OK JACOBS.

---

### *Prologus.*

Friðr ok blezan drottins vars Jesu Kristz lifanda guðs sonar stigi niðr i ǒrleik sinnar [miuku miskunnar[1] yfir þeira manna hiǒrtu, sem góðfusliga girnaz heyra skrifaða luti fylgiandi frasagnar, hver er samanstendr i litlum part lifs ok[2] iartegna kiærra Kristz riddara ok gǒfugligra guðs postola Johannis ok Jacobi blezaðra bræðra, er sæmaz einslighum frumtignum meðal[3] hirðmanna himnakonungs, sem siðarr mun sagt[4] verða með guðs vilia. Byriaz þessi bæklingr i nafni heilagrar þrenningar ok allra himneskra krapta hafvandi þilikan prologum fyrir sinu briosti, sem her[5] ma heyra.

Miletus lágr þionn Jesu Kristz sendir virðuligum herra Laodicensi byskupi ok allri postoligri kristni þa kveðiu at koma til þeirar heilsu, sem samanstendr i drottni Jesu Kristo. Yðvarri heilsu[6] se[7] vel kunnigt, at sa maðr, er Leucius heitir, hefir framarligha skrifvat af kenningum ok kraptaverkum volldugs herra Johannis ewangeliste, æ þann hætt at af hans iartegnum hefvir hann marga luti ufalsliga fram borit, en af predicanarorði hans hefir hann suma[8] fullkomliga logit. Munum ver þat eina her greina, sem oss syniz hæst ganga móti postoligum grundvelli kristiligrar truar ok sǒnnum friði astarinnar; en þat er, at Leucius segir blezaðan Johannem lært hafa tvau upphauf, annat gott en annat illt, ok hafa[9] goðir lutir fram gengit af goðu upphafi, en illir af illu, hvat er heilog kristni guðs fyrirsmær[10] ok fóttreðr sem verstu villu ok hæstu uhæfu; þviat virðuligt hofuð þess[11] blezaða likama, er sæll Johannes hefvir formerat i guþspialligum sannleik, skinn liosi biartara, kallandi hátt ok hvellt um alla kristnina, at hann hefvir predikat eitt upphaf, i hveriu hann vattar guðs orð sannan guð með sǒnnum guði æn enda verit hafa, fyrir hvern er guð faþir skapaði alla luti syniliga ok usyniliga. Ok meðr þi at upphaf er eitt gott ok heilagt, verðr liost trulyndu hugskoti, at oll

1 [milldi *Fr.I.* 2 *tilf. B, Fr.I.* 3 midil *B, Fr.* 4 greint *B, Fr.* 5 nu *Fr.I.* 6 *saal. A og A²;* elsku *B, Fr.* 7 er *Fr.* 8 luti *tilf. B, Fr.* 9 *saal. A og A²;* hafi *B, Fr.* 10 forsmár *B.* 11 hins *tilf. B, Fr.*

skepna skôput af goðum skapara er goð i sinni natturu, ok [illir lutir ero[1] mannzins afbrot en eigi guðs skepna, sva sem birtiz með englinum ok manninum, þo at þeir villdi eigi varðveita sinn goðleika, var þat sialfra þeira hæð ok niðrrapan, en hvarki nattura ne guþlig skapan. Þvi pinir guð rettlatr ranglæti mannanna, at mótgerþir við hann er eigi mannlig nattura. Hann reiðiz rettliga hafnan ok motgerðum en eigi sinum handaverkum, þviat hvat er maðrinn hefir ôðlaz i sinni skapan, verðr honum til verðleiks ok sæmþar meðr sialfum guði, ef hann rettliga drottnar ok yfirbyðr rangar girndir i veyku holldi. Fyrr greindum Leucio samlagaz þeir menn, sem sva eru vansignaðir, at þeir bera sin lyti upp æ lausnarann, segiandi at guð hafi skapat með þeim efni syndanna, ok ella mætti þeir eigi misgera, dæmi[2] dragandi af fyrsta feðr Adam, er sinum glæp sneri upp æ sealfan guð sva segiandi: „Suu kona sem þu gaft mer til návistu, fekk mer [epli þat[3] er ek æt." Sva snaraði Adam upp æ skaparann sin afbrigði, sem hann þetta segði eptir orðum sæls Gregorii: Þu gaft mer efni til at misgera, þviat þu skapaþir konuna. Þessi illzkuviðr teygðiz siþan af þeiri gômlu rót alt hegat i verolldina æ vara tima ok vefz um mannkynit, sva at margir leggia synd yfir synd ok uhæfu yfir hofutglæp[4], æ þann hátt sem segir hinn sæli Gregorius, at margir iðraz þvi siðr glæpanna, at þeir vernda sinn ufagnat ok kalla vel vera; ok þa er þeim væri nauðsyn til at lægia sik fyrir guði ok segia: Ek misgerða, þa reisaz þeir móti guði ok hans ôrindrekum[5], er þeim segia: Þu misgerþir. Várkunn[6] væri æ við vándan mann, at hann verndaði sina illzku, ef þat[7] drægi hann undan guþligri[8] hefnd ok harðri pinu. En meðr þvi at hverr er æ þvi verri, sem meirr verndarr sin ranglæti, ok stendr þo[9] undir ogurligum guðs dómi, er okaupmannligt at þyngia meirr ok meirr sina byrði, þviat engin er sva stollz eða storr i allri verolld, at eigi se guð meiri, ok þat er hann fyrirbyðr ok æsakar i sinu lôgmali, vinnr ôngum veralldligum manni at afsaka með sinum hugþokka. Eigi mun mikit synaz þat, er Adam gerði, þott hann æti eitt[10] epli af einu tre, en þat var mikill glæpr[11], er hann æt epli[12] með boðorðabroti ok ulyðni við sannan guð. Þi er liost, at meðr þvilikum þunga stendr allt[13] afbrigði, sem þat dæmir eilif ok almattig guðs

1 [illr lutr er *B*, *Fr*. 2 dømi $A^2$. 3 [epli $A^2$; eplit *B*, *Fr*. 4 hôfudglæpi *B*, *Fr;* ohæfu *C*. 5 eyrendrekum *B*. 6 várkynd *B*. 7 su hans vernd *C*. 8 drottinligri *B*, *Fr*. 9 sem adr *tilf. B Fr*. 10 *mgl. B*, *Fr*. 11 gløpr $A^2$. 12 eplit *B*, *C*, *Fr.I*. 13 hvert *B*, *Fr*.

speki. Þær greinir, sem undir standa þessu mali, gera oss liosar virðuligir guðs postolar Johannes ok Jacobus. Leiðum ver reinleik Johannis fram i vitni, at maðr ma vel lifa her æ iarðriki, ef hann heptir rangar girndir fyrir guðs ástriki. Jacobum latum ver bera vitni, at eigi vinnr afsakan syndanna[1], sem finnaz man i enda þessa mals, at Jacobus verndar þa sôk sakir vinattu viðr annan mann, sem guð almattigr vill eigi sektarlaust[2] vera láta. En þvi[3] næst munum ver snua til efnis varri ræðu meðr þessum orðum fyrirfarandum[4], at ek vik minni æsionu til þin, almattigr guð, biðiandi þina[5] blezaða milldi, at þu teer[6] minni tungu til frasagnar[7], at þer scalfum megi vera til lofs ok dyrþar, þinum elskarum kiærum postolum til sæmþar ok virþingar, mer til nockurs lettis ok syndalausnar, ok ollum er heyra til hugganar ok [eilifrar hialpar.[8] Her meðr biðium ver þik, hinn kiærazti guðs elskhugi virðuligr[9] herra Johannes ewangelista, at þu framkvæmir[10] æ oss retta merking þins blezaða nafns, at sva sem þat þýðiz miskunn guðs, þa bið oss vægðar ok várkyndar af himnesku einvalldi, at þa luti sem ver skrifum af þinni dyrð, virðiz oss eigi til ofdirfðar helldr i goðan vilia. Einkannliga [ser þu ok nælægr varum bænum[11], hinn biartazti guðs riddari blezaðr Jacobe, þiggiandi með þinum herradomi þat, er af þer finnz skrifvat i þessu mali.

Nu meðr þvi at greindir guðs lærisveinar ero bræðr bæði i postoligrî tign ok likamligri[12] frændsemi, munum ver þeira lif iafnframm boða, i hverium[13] lutum er sva ma standa[14]. En þar sem skilr þeira lif ok iartegnagerð til frasagnar, munum ver æ þat fyrri[15] segia, sem fyrr hefir gôrz undir þeim hôfðingium, sem[16] nefndir verða, at settum þeim grundvelli, er upp helldr alla goða luti.[17]

1 fyrir gudi *tilf. C.* 2 sektarlausa *B, Fr.* 3 þessu *B, C, Fr.* 4 *saal. øvr.;* framfarandum *A.* 5 *Her ender 1ste Blad Fr. I.* 6 *saal. A, A²;* tæir *B, Fr.;* tærir *C.* 7 sva *tilf. B, C.* 8 [sannrar truar eflingar *C.* 9 *Her ender 1ste Blad Fr. II.* 10 framkæmir *B.* 11 [verttu oss ok vorum bænum nalægr *C.* 12 likams *B;* mannligri *C.* 13 hverigum *B;* hverium þeim *C.* 14 vel vera ok vidrkvæmiliga *C.* 15 fyrr *C.* 16 er *B.* 17 Vilium ver þvi, at hia honum uppbyriezt ok endizt þetta litid erfidi, honum ok hans himneska velldi til lofs ok dyrdar, en aullum guds utvôlldum til godra eptirdæma. Amen, amen. *tilf. C.*

*Her hefr upp sogu .ii. postola ok blezaðra bræðra Johannis ok Jacobi.*

Almattigr guð, milldr ok blezaðr skapari allra luta, sem hann sa mannkynit dauðt ok drepit i eitrligri ôfund diôfulligrar flærðar fyrir glæp ok ulyðni hins fyrsta fôður Adams[1], sem greint var i prologo[2], skipaði[3] þegar i heims upphafvi meðr sinu ubrigðiligu raði at hialpa heiminum, er nu var tyndr ok tapaðr, fyrirsegiandi hôggorminum, er svikit hafði fyrstu moður Evam, at þat freo[4] mundi um siðir upp renna af konunnar kviði, sem i[5] sinum krapti mundi þat prettvisa hôfuð hart lemia ok lômðu makligha niðra. Þij talaði varr herra sva, at hialp heimsins var þegar framkomin i hans guðdomligri speki, at hann mundi senda sitt [orð ok[6] græða siukdom mannkindarinnar, er oll lá drepin i lendum Adáms fyrir þann ulyðnisglæp, er hann steypti yfir sik ok allan sinn attboga. Þessu eingetnu guðs orði, sammáttugu fyrir allar veralldir sealfum guði, berr Johannes ewangelista biart vitni i sinu guðspialli, sem enn mun siðarr getit verða með guðs orlofi. Undir þetta guðs fyrirheit runnu margir timar[7], sva at liðu fullir .v.[8] heimsalldrar. Var æ þeim stora tima mikil vesold i heimi þessum, þviat fiandinn ruddiz fast um i verolldinni sva sem lausbeislaðr sakir þess mikla valldz ok herskapar, sem hann greip ser i hond fyrir fyrsta glæp[9]; þat til marks, at eigi var meirr i allri verolld en ein þioð með rettri tru; þessi þioð hafði nafn tekit af sinum forfôþur sonarsyni Abrahams ok var kallaðr Israels lyðr. Guð drottinn elskaði miok þetta folk, er eitt en ekki annat hafði kynning hans boðorða blezaðra, veitandi þeim margar ok miklar astgiafvir framarr en fra mætti[10] segia. En þo var þat hæst meðal [allra annarra[11] greina, at hann reisti upp meðal þeira ægiæta menn ok mikils verða fulla meðr gipt heilags anda, þau fagnaðartiðindi fyrirsegiandi ok i sinar bækr[12] setiandi, at almattigr son guþs i himinriki mundi koma æ iarðriki ok taka manndom af reinni meyio ok lata beraz af

1 Adam *B.* 2 þessa efnis *tilf. C.* 3 skipar hanu *B.* 4 frio *B.* 5 med *C.* 6 [holld þat eilifa ord at *C.* 7 veralldarinnar *tilf. B.* 8 fim *B.* 9 Adams ok Ewo *tilf. C.* 10 megi *B, C.* 11 [allra *A*[2], *B;* annara *C.* 12 bøkr *A*[2].

hennar ubrugðnum kviði siuku kyni Adams til heilsubotar, ok at þetta allt skylldi veitaz Jsraels lyð en ôngri þioð annarri. En sa sem giarna girniz heyra framburð spamanna, er mest gekk um tva heimsalldra, þriðia ok fiorða af Abraham til David konungs, hyggi þann tima vel at sôgunni, er blezaðr Jacobus postoli less þa[1] saman ok utskyrir meðr [fabæru vitni[2] fyrir Gyðinga lyð[3]. Aðrir af spamonnum voru sva gloandi i guðs fyrirheiti, at þeir kallaðu up i himininn sva sem moðir ok þrotnir af langri biðstund[4], hátt romandi meðr ymisligu orðtaki. [Greinir af þeim ôðrum diarfligarr Ysayas at nafni kallandi[5] meðr miklu[6] hæreysti: Makara[7] drottinn, segir hann, at þu rifir[8] i sundr himnana um siðir ok niðr stigir[9]. Sva hlioðaði flokkr spámanna fullr með andligri girnd at sia guð, en sa[10] þo eigi, þviat fyrirætlut ræs timanna var enn eigi utvoltin æ iarðriki.

*Numera(!) annorum*[11].

2. I þann tima sem liðin voru af heims upphafi .v.[12] þusundir ok .cc.[13] æra, litr[14] allzvalldandi guð milldr ok miskunnsamr yfir sonu mannanna, seandi[15] at af biôrtum áttboga vinar sins virðuligs Daviðs er upprunnin ein iungfru með Israels folki sva ægiæt ok ynnilig i sinum reinleika, sem engin var [borin i verolldinni[16]. Þessi blezut mær heitir Maria, full[17] meðr giptum heilags anda, fyrst hugsandi ok framiatandi at hallda engiligt lif æ iarðriki. Hun[18] var kyniut i moþurætt af Bethleem borg Juda, sitiandi sagðan tima með fauðurfrændum sinum i þeim stað Galileeheraðs æ Gyðingalandi, er Nazareth heitir, fôstnut goðum manni af husi Daviðs Joseph at nafni. Faðir hennar het Joachim, ok nu undir lok liðinn, moþir hennar het Anna, er giptiz i annan tima þeim manni, er Cleophas het. Þessa mey Mariam kyss himnakonungrinn af ollum dætrum Israelis[19] til þeirar virðingar at veita hans eingetnu liosi sky manndomsins, at usyniligr guð i sinni natturu megi samtempraðr[20] hennar holldi syniligr verða monnum æ iarðriki.

1 hann *C.* 2 [frabærri vitru (vizku *C*) *B*, *C.* 3 folki $A^2$, *B.* 4 vors drottins hingadkomu i heiminn *tilf.* *C.* 5 [Einn af þeim odrum diarfari Ysaias at nafni kallar *B*; greinir þetta hverium audrum diarfligar spamadrinn Esayas *C.* 6 þviliku *øvr.* 7 Betra *C.* 8 ryfir *C.* 9 hier *tilf.* *C.* 10 hann *tilf.* *C.* 11 capitulum *B*; um ara merking *C.* 12 fim *B.* 13 .ii. hundrat *B.* 14 leit *C.* 15 siaandi $A^2$; [siandi *B.* 16 [onnur fyrr borin þvilik i verolldina *C.* 17 *Her mangler 2 Blade i* $A^2$. 18 Hon *B.* 19 Iraelis *B.* 20 samteingiazt *C.*

Þvi er guðs engill Gabriel sendr til nefndrar iungfru i Nazareth boðandi henni meðr hialparkveðiu Ave Maria, hversu himneskan ævôxt ok blezaðan hun mundi getandi verða. Ok án dvôl sem iungfru Maria hefir upp lokit truarport ok[1] litillætis kallandi sik ambátt drottins, gengr rettlætissolin i þat mætazta musteri[2] klæðandi sina geisla meðr tekinni mannz natturu af hennar skiærazsta likama, sitiandi [.ix. manaði[3] fyrir hennar briosti sem volldugr[4] konungr i sinu hasæti, þar til er hann gengr ut af sinni hall[5] sannr guð ok sannr maðr varðveittri meydomsins dyrð i alla staði, fæddr æn sótt ok sút i Bethleem borg Juða fyrstu [natt iola[6] með ollum fagnaði sinnar mæðr[7] ok agiætum friði allrar veralldarinnar æ fertôgunda[8] ok oðru ære rikis Augusti keisara, helgandi hinn vi$^{ta}$[9] heimsalldr með sinni tilkvamu, takandi umskurþarskirn með Jesus nafni æ .viii.[10] [dag iola[11] eptir lôgmali Moysi. Viðrkvæmiliga kallaz várr herra Jesus, sem guðs[12] engill fyrir sagði, aðr hann væri getinn ì moður kviði, þviat i nafni Jesu ero .v. stafir fullir með skyring sannrar [truar ok[13] rôksemðar, er sva megu lysaz meðr fám orðum, at fyrsti stafr merkir gleði sytandi manna, annarr eilifð lifandi manna, þriði saðning hungrandi manna, iiij$^{di}$[14] fliotandi nægð[15] þurfandi manna, .v.$^{ti}$[16] heilsa siukra manna. Þetta blezaða nafn er yfir [oll nôfn[17], þviat i þessu einu hialpaz allir, hvert[18] varr herra fylldi[19] med vægð ok miskunn i verolldina, sannliga[20] sem linr læknir ok gôfugligr græðir[21] sinna sauða, takandi þegar i barndómi þvingan[22] ok utlegð fram i Egiptaland undan ufriði Herodis konungs Aschalonite, er þann tima hellt riki yfir Juðum undir Augusto cesare[23]. En eptir herfviligan dauða Herodis, er makligha kom æ [fertôghta ok .iiij.[24] ære Augusti cesaris, at rikianda Archilao yfir Judea eptir [fôður sinn[25], sækir Joseph ok hans signuð festarmær guðs moþir heim af utlegð Egiptalandz með sveininn Jesum til nefndrar borgar Nazareth. Wex varr herra þar upp, sem hann var i fyrstu boðaðr.

1 *mgl. B.* 2 mustari *B.* 3 [niu manudr *B.* 4 valldz *B.* — 5 holl *B*, haull *C.* 6 [iolanott *B.* 7 modur *C.* 8 fertuganda *B*, *C.* 9 setta *B.* 10 attanda *B*; atta *C.* 11 [degi *B.* 12 hans *B*; Gabriel *C.* 13 [*mgl. B.* 14 fiordi *B.* 15 gnægd *B.* 16 fimti *B.* 17 [ollum nofnum C. 18 hveria þyding fyrrgreinda sins blezada nafns *C.* 19 sannliga *tilf. B.* 20 *mgl. B.* 21 grædari *B.* 22 þyngan *B.* 23 keisara *C.* 24 [fertuganda ok sionda *B.* 25 [dag fodur sins *B.*

*Um afkvæmi Onnu.*[1]

3. Þessu næst er greinanda, hversu fyrr nefnd Anna var blezut ok einkannliga barnsæl. Hun ôðlaðiz at fæða Mariam guðs moður. Hon gat aðra dottur með Cleopha bonda[2] sinum fyrr nefndum, er hun vill enn Mariam heita láta, þviat þat nafn[3] hafði[4] henni harðla kiært vorþit[4]. Þa Mariam dottur sina giptir hon þeim manni, er Alpheus het, áttu þau Alpheus ok Maria Cleophe[6] .iiii. sonu, voru af þeim fiorum[7] .iij. postolar guðs, Jacobus, Simon ok Judas. Eptir andlat Cleophe giptiz Anna þeim manni þriðia tima, er Salome het, ok aa meðr honum þriðiu Mariam, er hun giptir [þeim goða manni, er Zebedeus heitir[8]. Zebedeus ok Maria Salome attu .ii. sonu Jacobum ok Johannem. Var Jacobus þeira ellri. Voxu þeir upp aa Gyðingalandi i Galilea, þegar aa unga alldri lyðnir fôður ok moþur ok aullum, er þeim villdu gott kenna, litillatir i hiarta, elskandi reinleik andar ok likama, sva tiguliga bornir, sem fyrri[9] var greint, at sealf himnakonungsins moþir var þeira moðursystir. Annan veg at telia atti Anna systur Esmeriam at nafni, hennar dottir var Elisabeth moþir Johannis [baptista, Zacharias het hans faðir.[9] Gefz her upp ættartala vina drottins.

*Um rikisskipti Augusti.*

4. Nu sem Augustus keisari hefir styrt Romaborgar riki .xl[11] aara ok .vj, gengr hann fram[12] um dauða dyrr, tekr þa riki Tiberius son hans ok keisaradom, er hann hafði átt með sinni fyrri fru, er het Libia. Ok er Tiberius cesar hefir rikt .xii. aar, ruglaz miok riki Juða, þviat keisarinn kippir þvi sundr i fiorar tetrarchias, skipar Jerusalem ok þann fiorþung landz, er þar liggr undir, ugiptumanninum[13] Poncio Pilato; annan fiorþung, þat er at skilia Galileam[13], Herodi, er kallaðr var Antipas, son[15] gamla Herodis. Hann[15] efldi .ii. borgir i sinu riki, aðra til sæmþar Tiberio cesare, en aðra[17] Libie moður hans, kallaði hann keisarans[18] borg Tiberiaden, er stendr aa siofarstrond maris Galilee, ok þvi nefniz optliga[19] mare Tiberiadis, at hann dregr nafn af borginni; fruinnar borg [kallaz Herodis[20] Libiaden[21], gor[22] til veralldligrar virðingar ok heimligs

1 Um Aunnu ok Mariam guds modur ok hennar adrar dætr *B.* 2 eiginbonda *B.* 3 *tilf. B, C.* 4 var *B.* 5 verit *C.* 6 *saal. B*; Alphei *A*; *mgl. C.* 7 *saal. B*; .iiii. *A*, *mgl. C.* 8 [godum manni Zebedeo at nafni *B.* 9 fyrr *B, C.* 10 [sonar Zacharie, er sidan var kalladr baptista *B.* 11 fioratigi *B.* 12 almenniligan veg *tilf. C.* 13 ogæfumanninum *C.* 14 skipar hann *tilf. C.* 15 syni *C.* 16 Þessi Herodes Antipas *C.* 17 til heidrs *tilf. C.* 18 *saal. B, C*; keisara *A.* 19 siorinn *tilf. C.* 20 [kallar Herodis *B.* 21 [heitir Libiades *C.* 22 ser *B.*

metnaðar. Þriðia part rikissins, þat er at skilia Ituriam ok Traconitidem, helldr Philippus broðir Herodis, hann reisti borg i norþanverðo riki Juða til sæmþar ok virðingar Tiberio cesare[1] ok kallaði hana Cesaream Philippi, sva sem i þann skilning, er Philippus efldi hana til virðingar cesare[2], ok þvi skylldi hun heiti taka af beggia þeira nöfnum. Hann[3] atti Herodiaden dottur Arethe konungs, hveria Herodes girntiz[4] sakir fullifis [at taka af broður ok gera[5] sina horkonu. Fiorða lut landzins helldr Lisanias, sem segir Lucas ewangelista.

*De Johanne baptista.*

5. A fimtanda ære rikis Tiberij, en fiorða Poncij Pilati, undir nefndum höfþingium i Gyþingalandi,[6] kemr hinn helgi andi yfir greindan Johannem son Zacharie i eyðimork, sva at hann predikar Judeis opinberliga vatzskirn[7] i synda fyrirgefningh, mætum skynsemðum æminnande, at þeir forðiz illgerðir en elski manndyrðir, þviat nalgaz himinriki[8]. Þvi drifr[9] til hans mikill mugr af ollum áttum at taka vatzskirn[10] i Jordan, miðil hverra kemr sealfr litillætisbrunnrinn[11], drottinn Jesus Kristr æ .xxx.da[12] ære sins alldrs þiggiandi skirn af blezaðum frænda sinum Johanne baptista æ .xiii.da dag iola. For þa drottinn varr Jesus i eyðimork at fasta, en siþan predika, en þo eigi til fullz opinberliga fyrr en hann [snaraði vatn[13] i vin æ næsta áre .xiii.[14] dag iola at bruðlaupi[15] i Chana Galilee Segia þat sumir menn, at Johannes son Zebedei hafi þar verit bruðgumi, ok at varr herra Jesus Kristr hafi kallat hann brott af bruðar faðmi Virðuligr herra Beda prestr segir æn efasemð[16] in expositione super ewangelium Sequere me, at sva finnz skrifat af sannorðum sagnamonnum, at drottinn Jesus Kristr hafi þann tima kallat Johannem frænda sinn til sin, sem hann hafði[17] ætlat at kvænaz, ok þvi yrði hann makligr [einkannligrar elsku ok astgiafa framarri[18] öðrum af sealfum guði, [at fyrir sagða[19] sina dygð væri hann reinari hverium manni, kosin[20] mær af skap-

1 keisara *B* 2 keisaranum *C.* 3 Þessi sami Philippus *C.* 4 brodir hans girniz *B.* 5 [ok gerir *B.* 6 *Her beg. 2det Blad Fr. 1.* 7 vatnskirn *B.* 8 segir hann *tilf. C.* 9 *saal. B, Fr.;* dreif *C;* drifu *A.* 10 skirn *B, Fr.* 11 riettlætisbrunnrinn *C.* 12 þritnganda *B.* 13 [hafdi snarat vatn *B, Fr.;* sneri vatni *C.* 14 þrettanda *B, Fr.* 15 brudkaupi *B, Fr.* 16 ifasemd *B, Fr.* 17 hafi *C.* 18 [einkannligri elsku ok astargiofum framar *B, Fr.* 19 [*saal. ovr.;* fyrir *A.* 20 kosinn *B, C.*

aranum, flekklauss ok grandvarr[1] æ verandi. Eigi syniz ok[2] þessum orðum virðuligs Bede motstaðlig vera su prosa, sem syngz i iolum octavo dag sæls Johannis. Þar segir sva millum[3] annarra sæmþarorða: Tu leve coniugis pectus et cetera. Þat þyðiz[4] sva: þu fyrirletz [sem litið vert festarkonu briosts[5] ok fylgðir guði, at þar fyrir gerðiz þu makligr at drekka lifanda vatn af lausnarans briosti. Nu er liost fyrir lesnar greinir, at signaðr Johannes hefir af bruðlaupi[6] kallaðr verit, en hvart þat hefir verit in Chana Galilee eða i oðrum stað, finnum ver eigi skrifat, en þat er vitanda, at varum herra Jesu Kristo var til boðit ok hans mæðr[7] þessa bruðlaups, ok þat annat, at Maria[8] let til sin koma, er vinit þraut at veitzlunni, ok tiaði[9] fyrir sinum eingetna syne. Synaz þessar baðar greinir [meðr ganga[10] orðum skilrikra manna; [þviat fyrri grein er, at sa háttr er bruðkaupanna[11], at sæmiligum frændum skal fyrst bioða; þat[12] onnur grein, at astriki frændsemi[13] er þat mestr kinnroði, ef nockut fall eða lyti verðr æ veitzlunni[14]; þat þriðia syniz eigi i mot[15], at engin ewangelista segir af þeima lut utan[16] Johannes einn. [Þat flytz[17] ok með fyrri grein, at Maria Magdalena hafi bruðr verit, en Saulus ǒndvegishaulldr[18] er siðan var[19] Paulus[20]. Nu segia feðr sonum sinum þvilika luti, ok gengr sva framm æ vara tima. En hvat sannleikrinn hefir[21], gefum ver [allt i guðs[22] valld, eigi diarfliga dæmandi[23], helldr til skemtanar framsetiandi. En fyrir vist þo at [Johannes hafi af várum herra kallaðr verit[24] af þessu bruðkaupi, fylgði hann honum eigi fyrri alvarligha, en Johannes baptista var innkastaðr[25] sem Matheus segir. Innsetningh Johannis varð at næstum paschum eptir bruðkaupit, fyrir þa sok at Herodes tetrarcha þolþi honum eigi retta umvandan þeirar hǒfutskemþar, sem fyrr var ritin, at hann horaðiz með broþurkonu sinni, ok fyrir þa sok let Johannes lifvit. En þvi gerðum[26] ver minningh guðligra stormerkia, þo at meðr

1 grandværr *B.* 2 frodum monnum *tilf. C.* 3 midil *B, Fr.* 4 þydir *B.* 5 [*saal. B, Fr.;* þina festarkvon *C;* festarkonu þina sem; litið virð *A.* 6 brudkaupi *B, Fr.* 7 blezadri modur *B;* ok lærisveinum *tilf. C.* 8 guds modir *tilf. B, C.* 9 svo vordit *tilf. C.* 10 [ganga med *C.* 11 [þvi fyrri grein, at sa er hattr *C;* Sa er hattr *Fr.* 12 þvi *C;* su *Fr.* 13 frændseminnar *C.* 14 [*mgl. B.* 15 standa fyrrum greinum *tilf. C.* 16 nema *Fr.* 17 fylgir *C.* 18 *saal. A og C;* ondvegismadr *B.* 19 postuli ok nefndizt *tilf. C.* 20 [*mgl. Fr.* 21 eignazt i greindum hlutum *C.* 22 [gudi i *B.* 23 utan *tilf. B, Fr.* 24 [varr herra (lausnari *Fr.*) hafi Johannem kallat *B, Fr.* 25 i myrkvastofu *tilf. C.* 26 gerum *B.*

stuttu mali, at oss virðiz timinn verða skyrri ok skilianligri, ef enn siðarr i bokinni er til þeira luta aptr vikit, sem nu hafa lesnir verit.

### *Af postola tolu*[1].

6. Nu sem varr herra fregn[2], at Johannes baptista[3] er innkastaðr frændi hans, lykr hann upp sinn blezaðan munn til predikanar embættis, þvi framarr takandi sinum meistaradomi marga lærisveina kenningarorðum til minninghar ok ollum eptirkomandum til eilifrar nytsemdar. Nôkkura af þeim[4] skipar hann ser næsta[5] sem sina raðgiafa ok fullkomligha[6] felagha giæðandi þa alla mikilli virþing meðr þvi nafni, at hann kallaði þa sina postola .xii.[7] at tôlu, þa er sva heita: fyrsti er Simon Petrus ok[8] Andreas broþir hans Jons synir af Chapharnaum, menn ægiætir ok mikils virðir, er viðr fyrstu lausnarans rôdd fyrirletu æ sio Galilee allt sitt goðz fylgiandi honum, [skipandi fiskimenn[9] i fagra predikan ok postoligt embætti; her næst ero .ii.[10] bræðr virðuligir synir Zebedei Jacobus ok Johannes, er tendraþir með astarhita fauþur [i himinriki[11] fyrirlietu sinn holldligan feðr[12] ok felagsmenn æ greindum sio Galilee, samtengþir sama dag fylgð ok foruneyti drottins vars sem blezaðir[13] bræðr Petrus ok Andreas; aðrir .viii.[14] ero þessir, Philippus ok Bartholomeus, Thomass ok Matheus, Jacobus Alphei ok Taddeus, Simon Chananeus, ok [siðarstr allra[15] Judas Scarioth, er selldi sinn lausnara[16]. Þessir auðlaðuz at sia þat er spamenn baðu[17] ok fyrirsôgdu, en sa þo eigi, þessum veittiz at heyra guðs orð ok næraz[18] af hans signaðri nalægð, predikandi[19] borgum ok heruðum himnariki, gerandi margar iartegnir i hans nafni. En meðr þvi at þann[20] tima leyniz illgresit samblandit[21] guðs ævexti, Judas Scarioth meðr[22] postoligum samnaði, syniz oss viðrkvæmiligra at tala þa fleirum sæmðarorðum [til allra samt .xii. postola, ef syniz[23], er heilags anda giôf er fram-

1 *saal. B*; capitulum *A*. 2 þat *tilf. B* 3 *tilf. övr.* 4 þessum *B*. 5 hit næsta sva *övr.* 6 fullkomna *övr.* 7 tolf *B, Fr.* 8 annarr *tilf. C.* 9 [skiptandi fiskveidi *B, Fr.*; hveria hann skipadi af fiskimonnum *C.* 10 adrir *B, Fr.* 11 [himinrikis *B, Fr.* 12 *saal. ogs. B.*; fodur *C.* 13 sælir *B, Fr.* 14 atta postolar *B, Fr.* 15 [allra sidaz *B* 16 lavard *övr.* 17 baduzt at sia *C.* 18 *saal. A, C.*; læraz *B, Fr.* 19 i *tilf. C.* 20 þenna *B, Fr.* 21 godum *tilf. C.* 22 samlaginn *C.* 23 [ef likar, til allra saman tolf postola *B, Fr.*

komin ok Mathias kosinn i þat skarð, er svikarinn Judas fell[1] brott or, at hann færi i stað sinn, þvi munum ver [optaz at þeim[2] vikia, sem byriaðu mali til heyra.

*Capitulum.*

7. Þat vattar virðuligr textus[3] heilagra guðspialla[4], at varr herra Jesus Cristus Maria sonr hefir lagit einkannligân kiærleik til .iii.[5] sinna postola Petrum[6], Jacobum ok Johannem, sem fyrir þat skinn liosi biartara, at þa er hann syndi sinn guðdom aa fialli Thabor, kaus hann þessa .iii. til foruneytis af ollum samnaði sinna lærisveina, at þeir væri vattar ok vitorðzmenn sva mikils trunaðar, sem hann fyrirbauð þeim at opinbera fyrir[7] nökkurum manni, fyrr en hann væri af dauða risinn En þo at þeir[8] .iii. væri sæmiliga virðir miðil annarra, helldr hinn sæli Petrus, [sem verolldin vattar[9], hofðingskap allra postola fyrir sina tru ok tiguligan frama, sva at guðs son het [honum at faa ok gefa valld ok lykil himinrikis meðr[10] virðing allra kristni[11], ok þat er vel verðugt, þviat heilug ritning segir, at Simon Petrus hafi meiri ast ok heitari haft til sins meistara en nockurr annarr lærisveina, [sva sem af annarri halfu er senniliga lesit, at drottinn varr Jesus Kristr elskaði meirr Johannem en nockorn annan sinna postola[12] fyrir þann blezaða reinleik ok hiartaligan[13] skiærleik, er hann hafði þegar[14] umfram aðra menn, sem fyrr var greint. Vattar ok þat sæll Johannes i sinu ewangelio, at hann hefir kiærr ok heimolligr verit Jesu, þviat hann kaus ser af ollum nöfnum [i sinum[15] framburði[16] at heita lærisveinn, sa er Jesus elskaði. Her synaz upp risa glaðligar[17] greinir tveggia spurninga. Su onnur, hvi varr herra villdi oðrum meira unna en þeim, er honum unni mest; su onnur, hvarr betri er ok helgari, sa er varn herra elskaði mest, eða sa er varr herra unni[18] mest, hvat er eigi þarnaz guðliga forsea[19] ok fagrligar greinir af honum fyrir

1 villtiz *Fr.* 2 [at sinni til þeira aptr *C.* 3 texti *C.* 4 *tilf. övr* þriggia *övr.* 6 *Her ender Fr 1.* 7 *mgl. B.* 8 þessir *B C.* 9 veit *B* ; [*mgl. C.* 10 [at gefa honum lyckil himinrikis med valldi ok *B.* 11 [at gefa honum himnarikis lyckla, þat er andligt valld at leysa ok binda *C* 12 [*tilf B* ; *mgl. A, C.* 13 hiartaliga *B.* 14 þegit *B.*; *mgl C.* 15 sialfs sins *B.* 16 [*mgl. C.* 17 gladliga *B* 18 elskadi *B.* 19 forsio *B.*

hugðar[1]. Skilianligt er fyrir þilikar rasir astarinnar, at greindir guðs postolar beri[2] æ ser einkannliga merking leyndra stormerkia, ok þat annat, at þessir .ii. se til þess kosnir af sialfum guði at þiggia einkanlig privilegia. Munum ver litit skrifa með stuttu mali af [þvilikum storefnum[3] ok þo siðarr i bokinni.

### *Johannes ferdazt um Gydingaland*[4].

8. Meðr sva haleitri ok heilagri hirðsveit, sem nu er greint, ferr sea hagazti[5] meistari drottinn Jesus um borgir ok bæi, herut ok halfur Jorsalalandz æ sem vitrazti veiðimaðr, sendandi sitt net til vægðar ok viðrhialpar, þar sem hann matti[6] flesta draga af diupi illzkunnar til sinnar miskunnar ok stôðugrar strandar eilifs fagnaðar. Margar astgiafir ok umælda [valgerninga tieði[7] hann[8] sinu folki Israel, fyrst [predikaði hann[9] salum þeira sik sialfan til friðar ok sælu æ verandi fagnaða, lysandi blinda menn þeira, reinsandi likþræ, lifgandi dauða, frelsandi diôfuloða meðal annarra utoluligra iartegna, er hann gerði i guðdomligum krapti sinna orða allan hatt eptir [sinni villd[10]. En i moti sva virðuligum verkum vikuz Gyðinga hôfðingiar allt annan veg, en nôckurr mundi hyggia kunna, [innandi fótspor margra[11] sinna forellra, er til þess hôfðu langan uvana at giallda môgl ok illmenzku i moti guðs ast ok sannri elsku, ok þvi verr tokz þeim til[12], sem þeim [la meira við[13], svá at alla þa virðing, sem guð veitti þeim framarr en oðrum þioðum i sinni tilkvámu hinni helgaztu, sneru þeir[14] ser i skômm ok eilifan áfallzdom, strengiandi sinar samvitzkur með ryðfullum[15] rekendum[16] drambvisrar ôfundar, sva at tigulig tru heilagra guðspialla hafði[17] þar ekki rum til vistar[18]. Sannleikrinn boðaði þeim biartan heilsuveg greinandi þa drambsemi ok hegomliga dyrð, er þeir i vôfðuz, æ marga lund, en þeir ætuz innan sem illar nôðrur æ þvi meirr með eitri grimdarinnar, sem hann las optarr saman þeira lyti ok bað þa til aflatz ok yfirbotar, þar til at [sneriz ut[19] i dauðligt hatr, sem siðarr bar raun æ. En þo at Juða hôfðingiar legði[20] kapp æ at

1 hugadar *C.* 2 bera *C.* 3 [þviliku storefni *B* 4 *Overskr.* *C.* 5 helgazti *B, C.* 6 mætti *C.* 7 [velgerninga tedi (veitti *C*) *B, C.* 8 blezadr *tilf. B.* 9 [predikandi *B.* 10 [sinum vilia *B.* 11 [fylgiandi fotsporum þeira *C.* 12 *tilf. B, C.* 13 [vardadi meira, at vel tækizt *C* 14 sialfum *tilf. C.* 15 rækum *C.* 16 *Her begynder atter A²*. 17 atti *B.* 18 ivistar *B.* 19 [þeir sneru ser ut vid hann *C.* 20 allt *tilf. C.*

byrgia fyrir ser allan[1] fagnat, fengu þeir eigi folgit himneska birti með dimmum fordrætti [sinnar[2] illzku ok[3] otru, helldr flaug ok fluttiz hvervetna frægð ok ægiæti vars herra. Þvi sotti til hans af ollum áttum mugr mannz, [fyrst innan landz at þiggia heilsugiafir ok heyra kenning hans, en hans nafn ok kraptauðig dyrð gekk siðan[4] ut i Syriam ok oll nalæg riki; þvi sottu eigi siðr heiðnir menn til heilsubotar, þviat varr herra græddi þa[5], ok þo fæa, sakir þess at enn var eigi kominn timi heiðinna þioða, ok þess annars at varr herra vill i moti sea, at Juðar megi eigi hans kenning þat finna, at hann gerði lôgbrot i of framri rækt [ok elsku heiðinna þioða[6], sem hann váttaði[7] optliga, at einkannliga var hann sendr til þeira sauða, er foruz[8] af husi Israel. En þo at brunnr giætzkunnar gerði alla luti vel, voru[9] griotlig hiortu margra Gyðinga, sva[10] at þeir hofðu i glennzi sina hofuðglæpi, en færðu i fleyming ok dáraskap drottinlig verk ok stormerki, sem lesit er af saurlifismanninum Herodi konungi, at þa er hann spurði verk várs herra, talar hann sva: „Her man[11] endrlifnaðr, sagði hann, Johannes baptista, er ek let drepa, ok man nu vera spaanyrr til iartegnagerða i annan tima". Her gefr skilia, at Herodes berr vitni sialfum ser um drap Johannis, er gerðiz áre siðarr, en hann var innkastaðr. Nu til neykingar[12] viðr þenna[13] bolvaðan konung ok[14] hans maka vilium ver setia nôckurn[15] æfvintyr þeiri grein til styrkingar, at heiðnir menn hôfðu betri tru ok meiri goðfysi til vars herra en sialfir Gyðingar; þvi vilium ver hann ok[16] giarna skrifa, at þat er þeim ok þeira niðingskap mest til svivirðingar.

## *Af Syrie*[17].

9. A þeim timum var einn agiætr konungr yfir Syria fyrir utan Eufraten Abbagarus at nafni. Hann sitr i þeiri borg, er

1 eilifan *C.* 2 *saal. C;* sannrar *A.* 3 [vandrar *B.* 4 [at þiggia af honum heilsugiafir ok heyra hans kenning, frægdezt hans blezada nafn ok krauptugar dygdir ei at eins þar innan landz, helldr ok iafnliga for hans signud frægd allt *C.* 5 heidna menn *C.* 6 [kenninga ok heilsugiafa vid heidna menn *C.* 7 sialfr *tilf. B, C.* 8 fyrirforust *C.* 9 sva *tilf. B, C.* 10 *mgl B, C.* 11 mun *B, C.* 12 ok verdugrar svivirdu *tilf. C.* 13 sva *B.* 14 adra *tilf B.*; alla *tilf. C.* 15 eiun $A^2$, *B*, eitt *C.* 16 fyrir adra grein *tilf. C.* 17 Af Abagaro konungi *C.*

Edissa[1] heitir, mikill ok máttugr i veralldligum styrk ok storum rikdomi, en veykr ok vanmáttugr i laungum [ok ulæknanligum[2] krankdomi. Þessi konungr heyrir haleita frægð af verkum þess unga mannz, er nu vex upp i Jorsalariki ok heitir Jesus at nafni, hvar fyrir hann þikkiz skilia, at nu man sa einn kominn i verolldina, at hans gamlan sinkdom man græða kunna, þott engin villdazti læknir i hans riki megi þat vinna. Ok sem hann hefir optliga giarna heyrt guðligt takn fyrir sannorða menn ok mikils verða, staðfestir hann með sinu raðuneyti at senda mann meðr brefum til[3] herra Jesum beiðandi með elsku sinnar likamsheilsu. Til þessarar ferðar kyss hann skynsaman mann, hófsaman ok skilvisan[4], Annaniam at nafni, fæandi honum þat bref, er hann skilrikliga várum herra fram berr, hvert uppbrotit ok yfvirlesit helldr þilikan skilning, sem her fylgir.

Abbagarus konungr, auðru nafni toparcha, son Eychanie borgar Edissane[5], sendir litillata kveðiu goðum græðara Jesu, er birtiz i halfum Jorsalarikis æ vórum[6] timum. Mer er flutt fyrir hlioðandi rödd miðilfarandi æru, hversu þin persona sæmiz margfölldu lofi mikillar dyrþar i fæbærum[7] krapti fyrr oheyrðra iartegna, sva at þu lifgar dauða, en lætr blinda sea, reinsar likþræ, en lætr halta ganga, rekr brott diöfla ok ureina anda, græðandi oll sottarkyn forn ok ny, eigi meðr skurð eðr bruna, eigi meðr grösum eðr beiskum dryckium, helldr með einu samt[8] afli þinna orða. Nu sem ek heyrða þvilika luti, skipaða ek [þinum stett .ij. utvegi i[9] minu hugskoti, annattveggia at þu ert guð ok steigt niðr af himnum til greindra stormerkia, ella ert þu son guðs harðla mattugr til [greindra ok[10] mikilla verka. Fyrir þvi bið ek þik þessa luti skrifandi, at þu virðiz til min at koma ok angriz eigi við mæðu langra vega, þess örendis at græða þa sótt, sem ek ber[11] uhægliga æ minum likama marga tima. Ok fyrir þa sauk at mer er senniliga flutt, at Gyðingar mögla i moti þer ok vilia þer umsatir veita, se þer kunnigt, at ek helldr litla borg ok þo sæmiliga, en hun vinnr okkr baðum þörf, ef þu vill undan leita æleitni Gyðinga.

Þvilikt er sendibref Abbagari konungs fullt með sannindum

1 Edessa *B*, *saal. ogsaa senere.* 2 [*saal.* $A^2$, *B*; ok uviknanligum *A*; [likams *C*. 3 virðuligs *tilf. øvr.* 4 skilrikan *B*. 5 Edessane *B*. 6 varum $A^2$ *B*. 7 *saal. A og* $A^2$; frabærum *B*, *C*. 8 saman *B*. 9 [þinni stiett tvo vegu *C*. 10 [mætra ok *C*; *mgl. B* 11 bar *B*; hefi borid *C*.

ok rettri tru, noglighа[1] giædt með miskunn ok rettlæti. Þvi ðôlaðiz hann sva mikla miskunn i moti, at græðarinn sialfr skrifaði honum annat bref með Annania sendimanni, hvert hann farsælliga fram berr i nefnda borg Edissam, tiandi sinum herra Abbagaro konungi. Nu meðr þi at þetta sendibref [vars herra[2] kallaz viða skrifat æ umerkiligum bokum ymissra leikmanna bæði rangt i sialfu ser ok sva i sinni pretituleran, syniz oss nytsamligt at setia hann[3] her sæmiliga[4] orð eptir orð i latinu, til þess at hans rett [ok skilvist samanhalldit[5] form megi her synaz ok utskrifaz heðan, ef nockurir beiðaz[6], þviat þar liggr mikit við, at synir kristninnar fági rettliga orð drottins sins ok færi þau eigi brott or efni, [þo at af annarri halfu se þess væntanda i guðs miskunn, at þat verði hverium gott[7], sem hann gorir með goðu[8]. Rubrica pistilsins er i þeiri grein lastandi, er[9] hun segir varn herra sent hafa Matheum til Abbagarum konungs með þetta sendibref, i auðrum stað finnz skrifat, at hann hafi sent Taddeum; hvat er bæði verðr tómt fyrir þa sôk, sem fyrr var skrifat, at Annanias syrus bar annat bref fram til Jorsala, en annat aptr i Edissam, hvert i ser helldr þvilict form drottinligrar raddar, sem her ma heyra.

*Epistola.*

Beatus qui credidisti in me, cum memet ipsum ipse non videris. Scriptum est enim de me, quia hij qui vident me, non credunt in me, et qui non vident[10] ipsi, credent in me et vivent. De eo autem quod scripsisti michi, ut veniam ad te, oportet me omnia, propter que missus[11], hic explere, et postea quam complevero, recipi me ad eum, a quo missus sum. Cum ergo adsumptus fuero, mittam tibi aliquem ex discipulis meis, ut curet omnem egritudinem tuam et vitam tibi atque hijs, qui tecum sunt, prestet.

Sva skrifaðan pistil drottins vars Jesu Kristz setr virðuligr herra Eusebius cesariensis byskup i sinni bok, er heitir Ecclesiastica Historia, hverr sva norrænaz, sem her ma heyra.

Sæll ert þu, er truðir æ mik, meðr þvi at eigi sátt þu sialfan mik; þviat af mer er skrifat, at þeir sem mik sia, munu eigi trua æ mik, ok þeir sem mik sea eigi, munu trua æ mik ok munu lifa.

1 gnogliga *B.* 2 [drottins vars $A^2$, *B.* 3 *saal. A*, $A^2$, *B;* vors herra pistil *C.* 4 senn liga *B*; greiniliga *C.* 5 [*mgl. B.* 6 girnaz *B.* 7 ad godu *C.* 8 [*mgl. B.* 9 at *B.* 10 me *tilf. B.* 11 *tilf. B, C.*

En [þat er[1] þu skrifaðir til min, at ek skylldi[2] koma til þin, byriar mer at fylla her alla luti, til hverra ek er sendr, ok siþan takaz aptr til þess, er mik sendi, sem ek hefir þat fyllt. Ok þann tima sem ek hefir aðr verit uppnuminn, mun ek senda þer nôckurn af minum lærisveinum, at [hann græði[3] alla þina sott ok veiti þer lif ok þeim, er með þer ero.

Her er endir sendibrefs vars herra Jesu Kristz samanstandanda með fôgru fyrirheiti, hvert fram kom æ sinni tið. Ok með þvi at þar er enn eigi komit sôgunni, latum ver þann luta biða, en segium helldr þa luti, er fyrri gerðuz, er fyrir runnu haleitri fylling heitinna stormerkia. Þvi skulum ver af Syria brott venda ok heim i Jorsalaborg[4] til várs herra.

*Um vors herra motstodumenn*[5].

10. Þessu næst er greinanda, at sva sem motstôðumenn ok guðs uvinir voru til hans harðir ok hatrsamir, voru hans frændr ok vinir einkannliga honum kiærir ok astrikir, allra fremst ok fyrst sæl ok blezut hans moðir iungfru Maria, er honum fylgði með allri dygð ok moðurligri astuð sva i gagnstaðligum sem i farsælligum lutum. Her með voru .ii.[6] systr hennar með sama nafni fylgiandi optliga drottins [fylgð ok[7] foruneyti, upphafliga fyrir skylld þess[8] haleita meistara sins frænda ok þar með fyrir moðurliga elsku við sina sono, er stoðu vel verðugir i postola tôlu. Hvaðan af sva geriz einn tima, sem varr herra er æ ferð til Jorsalaborgar, at Maria moþir Johannis ok Jacobi sona Zebedei gengr fyrir hann litillatliga, hafandi með ser sonu sina i fylgð baða, undir þeiri æsyn[9] [ok undirvorpning[10], sem hun villdi þiggia nockut, ok varr herra synandi sina miskunn[11] til konunnar, yrkir æ hennar ôrendi ok talar sva: „Hvat villt þu“, segir hann. Hon svarar: „Þat, herra, at þu heitir mer þvi, at þessir synir minir siti hit næsta þer i þinu riki, annarr til hægri handar, en annarr til vinstri.“ I þessarri bæn Marie ero .iiii. lutir merkiandi: þat fyrsta, hversu með miklum astarhita ok moðurligri dygð hun villdi sinum sonum sæmdar leita, þott hun væri eigi sva glôgg ok smasmugal[12]

1 [þar sem *C.* 2 skyllda *A*², *C.* 3 [*saal. C;* grædi *B;* græða *A*, *A*². 4 Jorsalaland *B*, *C* 5 *Overskr. C.* 6 tvær *B* 7 [*mgl. B* 8 hins *tilf. B* 9 asionu *øvr.* 10 [*mgl. B, C.* 11 blidu *B*, milldi *C.* 12 *saal. A*, *A*², *B;* smasmugul *C.*

hvat henni hæfði at biðia; þat annat er ok hugleiðanda, hversu þessi Maria var Jesu kiær ok heimollig, er hun skylldi þora þess at biðia, sem .ij. af Kristz kappasveit, er Ysidorus Ethimoligiarum kallar sonu hlioðandi reiðarþrumu ok stora risa i mikilleik ok styrkleik truarinnar, treystuz eigi fram at bera, en villdu þo giarna þiggia; þat þriðia gefr vel skilia, at bænarstaðr Marie rann upp af þeira undirlögum, þott þeir þegiandi frammi standi ok hafi moður sina at hlifskilldi; þat .iiii.[1] er vel virðanda, hversu postolar voru holldligir þenna tima, aðr þeir fengu gipt heilags anda, þviat nu giruaz þeir meðr heitri elsku metorð ok sæmdir, en siþan [fæga þeir i[2] fyrirlitning, brigzlum ok bardögum ok hverri veralldar[3] vanvirðing. Þat vattar Jesus i næstum andsvörum satt vera, at greindri bæn voru fleiri samraða[4] en ein saman husfru Zebedei, þviat hann vikr sinni ræðu til blezaðra .ii. bræðra sinna postola, er frammi standa, ok talar sva: „Eigi viti þer, segir hann, hvat yðr hæfir biðia.“ Ok enn talar hann meira: „Megi þit drekka þann drykk, sem ek man drecka?“ Ok er postolarnir, litt skoðandi diupleik orðanna[5] þann tima, sögðuz[6] þat fyrir vist gera mega, [segir drottinn varr[7] i annan tima: „Senniligha manu þit drekka minn drykk, en at sitia mer til hægri handar ok[8] vinstri er eigi mitt at gefa ykkr, helldr þeim sem þat er fyrirbuit af minum feðr.“ Drykkr þessi, er drottinn kallar sinn ok segiz drekka munu, merkir þa saru pinu, er hann tok meðr föður boði[9] fyrir varri hialp ok heilsu, hvern hann vattar sonu Zebedei drecka munu, þviat þeir ok allir aðrir, er pislarvætti þola fyrir rettlæti, samlagaz þeim pinslardrykk, er drottinn bergði æ krossinum helga. En með hverri skipan ok hætti hvarum þeira bræðra byrlaðiz pislardrykkr með guðs vilia, mun siðarr betr liost verða, sem lif þeira segiz lengra. En þat er Jesus sagði eigi sitt at veita nefndum bræðrum þau hasæti, sem þeir baðu, leiddi hann þau orð af mannz natturu, hvat er lysaz ma fyrir [þa litlu[10] glosu, sem hann [sagði sva[11]: þat er þit baðut son mannz gefa[12] ykkr[13] sæmð ok virðing andligra fagnaða, heyrir eigi þeim[14] tima, ok eigi stendr dauðligum manni þvilikt iata, þviat þeira dyrð er

1 fiorda *B.* 2 [fagna þeir i *B.* 3 [fagudu þeir fyrirlitning þolande med fagnadi hverskyns *C* 4 samradi *B.* 5 i *tilf.* *A*², *B.* 6 sögðu sik *øvr.* 7 [*saal. B;* drottinn varr segir *A*, *A*². 8 edr *B.* 9 *saal. øvr.;* bæði *A* 10 [þa litla *A*²; litla *B.* 11 [sva segdi *B.* 12 veita *øvr.* 13 i *tilf.* *B.* 14 þessum *B*, *C.*

su, sem einn odauðligr guð i heilagri þrenningu hefir skipat fyrir alla tima. Sva svarar elskubrunnrinn nu at sinni þeira bæn, fyrir þa[1] grein er[2] hann er sonr mannz litandi a diupliktt[3] form varrar natturu, skipandi allt at einu meðr sinu almatku einvalldi fyrir þa grein, er hann er guðs son, at þessa bæn tveggia bræðra Jacobi ok Johannis skal hann veita, þa er hann vill ok þann veg er hann vill, sva biart ok auðsyniliga, at ollum verði liost, er i koma verolldina, hversu goðr drottinn er nærri bænum[4] sinna þræla; hvers enn mun getit verða, aðr þetta verk tekr[5] sinn enda.

## *Capitulum.*

11. A atianda aare rikis Tiberij cesaris[6], sem drottinn Jesus hefir kent mikinn kulða af gamalli ôfund udyggra Gyðinga[7], flærð ok undirferli, umlestr ok aaleitni, svik ok umsatir, róg ok rasanda forz, sva illmannliga sem afskapliga, at þeir girntuz fullkomliga[8] hans dreyra, sér hann, sem ut ero gengin .iii. aar full ok .xxx.[9] timaligs alldrs, at fylldar ero rasir hans veralldligs vegar, ok hann byriaði[10] með fôðurligu[11] raði at framkvæma þat ôrendi, sem þegar i[12] upphafi var fyriræetlat af hans guðdomligri speki at hugga sem miukr faðir þær faaraðar ok mæddar sinar olmosur, sem satu i diupum[13] dauða ok dimmu heraði, þviat giarna vill siaa virðuligr[14] hirðir til þess þola [saar ok sutligan[15] dauða, at hans sauðir lengi dauðir megi þvi helldr lifa. Þessarri elsku finnz engin meiri, at hirðirrinn þyrmi eigi sialfs sins lifi. En hverr mun telia [mega eðr[16] kunna alla þa elsku, er hann veitti sinum bôrnum ok veykum astvinum i nalægum tima sinni[17] pinu, nærandi þa miukum stuðningum[18] ok styrkiande fôgrum fyrirheitum, til þess at hans piningarharmr skylldi þeim eigi of nærr ganga, veitandi þeim at skilnaði nyfundna list til sannrar astar ok eilifra fagnaða, þviat i siðarsta snæðingi, sem hann helldr aa skirdags kvelld meðr sinum postolum, þværr[19] ok þurkar fætr allra þeira drottinn ok meistari sinna lærisveina. En eptir þat klæðiz hann

1 *saal. øvr.;* þessa *A.* 2 at *B.* 3 *saal. A, A²;* duptligt *B;* dauſligt *C.* 4 *saal. øvr.;* bæn *A.* 5 taki *B.* 6 keisara *C.* 7 med *tilf. B;* sem *tilf. C* 8 fullkomit *A², B.* 9 þrirtigir *B.* 10 byriar þessu næst *B.* 11 foður *A², B;* fodur sins *C.* 12 heims *tilf. B.* 13 dôprum *B.* 14 virðuligi *A², B.* 15 [*saal. øvr.;* sott ok sárligan *A.* 16 [*mgl B* 17 sinnar C. 18 aminningum *B;* fortolum *C.* 19 hann *tilf. B.*

ok setz yfir borð, gerandi langan sermonem fyrir þeim ollum saman, ok meðal annarra luta talar hann sva með sárligu óttaboði sins likama: „Satt segir[1] ek yðr, at einn af yðr man selia mik.“ En þetta orð slo harmanliga hiortu postolanna, þviat þeir vissu eigi, til hvers hann talaði. · Ok þo at þeir kendi her um allir grandalausar sinar æhyggiur[2], utan sa er giorði, rædduz þeir[3] eigi þvi siðr velltiligt hiol veykrar natturu bæði fyrir sik ok aðra. Ok sem þann veg stendr, at guðs astvinir ero slegnir ugg ok otta [yfir sinni giptu ok meistarans dauða[4] meðr heitri girnd at vita, hvern þat uhæfuverk man henda, segir blezaðr varr sagnamaðr[5] Johannes ewangelista, at einn af lærisveinum Jesú hneigði sitt hôfut yfir hans blezãða briost ok hvilldiz yfir hans signaðum[6] faðmi. See her dyrðligan mann Johannem ewangelistam, er sva boðar sialfs sins hæstu virðing, at hann forðaz alla hræsni ok upphafning, hann berr fram sina dyrð undir þeiri æsionu ok litillætis varðveitzlu, sem hann tali[7] af[8] nôckurum ôðrum, sem til er lofligr vani heilagra feðra, at þa er þeir segia þat, er þeim til heyrir i lofi sinna ritninga, lika[9] þeir annars personu en eigi sina; þviat[10] [blezaðr Paulus segir ok vattar i sinum epistola talande sva af sinni dyrð, sem her ma heyra[11]: Veit ek mann hafa verit gripinn, segir hann, fyrir .xiiij. árum allt til ens þriðia himins, sem guði er kunnigt en eigi monnum[12], hvart i salinni eðr bæði samt i ônd ok likama. Sva sem Paulus gorir Johannes ewangelista skrifandi sitt lof undir annarligri æsynd, þviat rettligarr hefði honum til heyrt[13], ef hann hefði viliat sva segia: Ek var hneigiandi mitt hôfut ok likama i faðm Jesu, helldr kaus hann hitt[14] orðtak, sem fyrr var skrifat [meðr gefandi glosam sannliga[15] at engin megi við dyliaz, hverr af lærisveinum þessi var, segiandi at þenna elskaði Jesus[16]. Þat skal eigi sva skilia, at varr herra Jesus elskaði þenna einn af sinum lærisveinum, helldr þenna einn oðrum kærligarr ok heimolligarr sakir einkannligrar hans frum-

1 segi *B.* 2 samvizkur *B.* 3 serhverir *tilf. B.* 4 [af greindu ordtæki sins liufa lavardar ok meistara, fystust þeir *C.* 5 sôgumaðr *A²*, *B.* 6 *saal. A²*, *B.*; blezadum *A.* 7 ei af sier helldr *tilf. C.* 8 *Her mgl. et Blad i A².* 9 likia *B*; setia *C.* 10 hvat er *B.* 11 [sæll ok virduligr Pall postoli talar svo af sinni dyrd, sem her fylgir *C.* 12 mer *B*, *C.* 13 rettliga *B.* 13 svo vordit ordtæki *tilf. C.* 14 þat *B*, *C.* 15 [med gefandi sanna glosu *B*; gefandi sanna ok sæmiliga glosan *C.* 16 Sva audsynir æ Johannes sina persenu, at þenna elskadi Jesus *tilf. B.*

tignar, þviat hans skærleikr[1] gerði hann makligan hæri elsku en nóckurn annan. Utoluligh vitni heilagra ritninga vattar[2] þetta liosi biartara, at drottinn Jesus hefir guðliga elsku eigi at eins til sinna postola helldr[3] allra sinna okominna lima[4], sem hann sialfr synir i skilning þeira orða, er hann talar við sina lærisveina: Sva sem faðir elskaði mik, sva elskaða ek yðr. En þo elskaði hann Johannem framarr oðrum, þviat þessi óðlaðiz at neigiaz yfir meistara briost, eigi at eins i nálægt astarmark helldr i forspa okomins stormerkis. Þessi neiging Johannis yfir spektarbrunn[5] blezaðan faðm drottins sins berr fræga figuru þeirar hamingiu ok hófutgiptu, er honum kom siðan til handa i sinum endadógum, at almattigr hófutsmiðr kaus hann til þeirar virðingar af ollum monnum at skrifa hæri luti ok helgari af leyndum stormerkium tilheyrandi sialfum guðdominum, en nockurr fyndiz i heilagra feðra ritningum eðr matturligt[6] væri iarðneskum manni aðr eðr siðan frambera utan þeim[7] einum. Þvi se þin speki blezut, hinn goði Jesu, er sva skipaðir, at þann tima sem þer byrlaðiz pinslar-dryckr, byrlaðir þu þinum elskara vitzkudrykk af þeiri lifandi æði spekinnar, sem helldr ok i ser hefir allar hirðzlur vitrunnar. Sva giæðir þu, milldr konungr, mætan riddara stinnum malagiófum, veitandi honum þinn faðm til andaligrar[8] elsku ok yfirvættis[9] krunu, er fyrir þina ast neitaði forðum kvensligan faðm i likamligri návistu, at þvi fegra ok gleðiligra[10] yrði hans hugskotzauga til þinna leyndra luta, sem betr skygðiz æ gloð astarinnar skirt af allri moðu[11] bitra munhugða[12]. Þenna elskar þu ok þenna faðmar þu, hinn goði Jesu, i þeiri samkundu, sem aull angraz af þinni pinu, hvat er almennilig kristni helldr i minning æ dagliga meðr þinu boði, greinandi fæm orðum mikil tiðindi þeim sæla manni til sæmþar, er hun syngr þetta af: Walde honorandus est beatus Johannes, qui supra pectus domini in cena recubuit.

*Capitulum.*

12. Nu sem Simon Petrus fyrst af .xii. uppsitiandum postolum ser, hversu skipat er, at Johannes lytr at varum herra,

1 *saal. B, C;* kiærleikr *A* 2 *saal. A, C;* vatta *B.* 3 til *tilf. C.* 4 hluta *C.* 5 ok *tilf. B.* 6 *saal. B, C;* matulig *A.* 7 þessum *B;* honum *C.* 8 andligrar *B, C.* 9 blezadrar *tilf. C.* 10 gladara *B, C.* 11 meining *C.* 12 munugda *B;* munuda *C.*

gefr honum val[1] skilia, at þenna[2] byriar þess spyria, sem nu [girnaz allir[3] vita, hverr selia man þeira meistara, þott engin þeira treystiz [upp bera[4]. Sva i annarri grein veit Petrus til þess nogligans[5] vana, at sæll Johannes spurði með mestu trausti ok heimolleik varn herra þeira luta, sem þa forvitnaði at vita. Þvi helldr Simon Petrus sagðan hátt, gerandi nôckut mark sælum Johanni, eigi meðr róm eðr orðum helldr likams ræring, at hann skuli spyria sinn meistara, hverr hann muni selia. Ok er Johannes undirstendr vilia Simonis, spyrr hann Jesum ok þo lágliga: „Herra, hverr er sa, er þik man selia?" Ok drottinn Jesus svarar honum með litlum róm, sva at fáir heyrðu[6]: „Sa mun mik selia, sem tekr af minni hendi dôggvat[7] brauð, siðan ek hefir tilbuit". Ok eptir sva talat færr hann sama brauð Jude Schariothis. Ok iafnfram sem þat brauð gekk inn i kvið Jude, geck inn ok sealfr fiandinn i hans hugskot, eigi sem nykominn gestr, helldr sem heima alinn uvin, at sva sem i fyrri inngongu hafði hann ruggat[8] alla dygð Jude at eins i hugrenningum, skal hann i siðarri inngongu framleiða fular hugsanir i liotan ævôxt illra verka, hvar fyrir sva geriz i stað, at hann hefir sik uti af herberginu eigi nu sem annarligr[9] freistninni, helldr sem eigin diôfulsins i alla staði [fuss ok fliotr[10] til nyrra febragða at selia sinn meistara meðr niðingskap ok taka þar í moti penningha. A svikara Juda, er ut for til fiarafla en feck eilifan skaða, verðr liost eptir orðum sæls Augustini erkibyskups, at þat varðar meira, hvilikr maðrinn er, en hvat hann tekr. Jude var gefit brauð af borði Kristz, ok þegar gekk fiandinn i hans hiarta eptir þann bita, þviat goðir lutir meina ranglatum, sva sem illir gagna rettlatum. Dæmi svikarans Jude skyrir fyrri grein, en siðarri skal provaz með sônnu dęmi. Blezaþr Paulus talar af sinni personu: „Til þess, segir hann, at ek drambaði eigi af þeim birtingum, er guð veitti mer, er gefinn holldi minu andskotans engill til freistni ok bardaga, fyrir hveria sôk ek bað drottin þrysvar, at hann ræki þann engil fra mer, en í moti bænarorðum tok ek þilikt andsvar: Þôrf vinnr þer, Paule, miskunn min, þviat kraptr algeriz i siukdómi". Se her dæmi. Engill fiandans striddi æ Paulum, ok þar fyrir algerðiz postolans kraptr i Kristi, þviat hann tok val[11] illan lut, sva sem Judas tok illa goðan lut.

1 vel *B.* 2 *saal. A, B, C.* 3 [vilia allir giarnaz *B.* 4 [hann þess át fretta *C.* 5 optligan *B* 6 er upp satu *tilf. B, C.* 7 doggat *B.* 8 ok onadad *tilf. C.* 9 i *tilf. C.* 10 [*saal. B.;* fliotr *C;* full ok liotr *A.* 11 vel *B.*

*Capitulum.*

13. Eptir utferð Jude gorir drottinn Jesus sætan sermonem sinum postolum, er hann hafði fædt ok styrkt i þeim sama snæðingi meðr sinum dyrazta likama ok dreyra undir brauðs ok vins æsionu moti yfirkomanda stormi uheyrðra mannrauna, er þeim kom[1] skiott til handa fyrir þa ógn ok otta[2], er hręrðiz i mikilleik hans pininga. Ok meðr þvi at þessor[3] tiðindi geraz i sialfri Jorsalaborg, sem milldr guð villdi, gengr varr herra siðla til bænar upp i fiallit Oliveti meðr sinni fylgd ok fòruneyti. Hann tekr þa enn með heimolleik .iii. sina postola Petrum, Jacobum ok Johannem ser til foruneytis brott fra auðrum samnaði, at þessir .iii. se nalægir þeiri bæn, er hann gorir einsliga til sins blezaða fòður. Ok skiotliga eptir þat kemr þiofrinn Judas með miklum styrk af hendi haðuligra Gyðinga, er kolluðuz hòfðingiar lyðsins en voru niðingar ok niðrbrotzmenn rikissins. Þessir hòndla Jesum eptir forsògn falsarans Jude, binda hann [ok hòndla ok hallda hann sem fanginn[4] fram i garð Chaiphe kennimannz. Kemr nu hræðiligr ótti yfir Kristz vini ok lærisveina, sva at þeir flyia [hingat ok þingat[5], utan þeir .ii. Petrus ok Johannes fylgdu[6] honum fram i garðinn; hvat [er lengra um at gera[7], en himnarikissins astvin sæll Johannes skildiz við sinn meistara i òngri þraut, framfylgiandi sins herra merki sem goðr riddari ok dygðugr allt i siðarsta strið undir pinu krossins standandi, sem hann vattar i sinu guðspialli[8], annan veg hia krossinum, en blezut Maria moþir Jesus til hægri handar. Ok aðr[9] drottinn giæfi sinn anda, gorir hann nytt ok astsamligt elskuband miðil Mariam moþur sinnar ok Johannem postola frænda sins, skipandi at signut iungfru Maria skal vera Johanni[10] i moður stað, en Johannes iungfru Marie i sonar stað, hvat er hin hæsta speki gerði miok viðrkvæmiliga[11], at mærin skylldi meydominn varðveita. Hverr af iarðneskum monnum var sva til fallinn at geyma þann skiærazta meydóm, er guðs son bar til iarðrikis, sem sa er hreinztr[12] fannz allra karlmanna með vitnisburð guþligs astrikis? Hver ma meiri sæmd vera, en nu tiaðiz veitt vera[13] þeim guðs riddara, at guðs son milldr ok blezaðr skipaði[14] hann at[15] nòckurum hætti sinn samerfingia ok broður

1 komu *B.* 2 aga *B.* 3 þessi *B.* 4 [hallda sem fanginn *B.*; hallda sem sinn fanga *C.* 5 [hegat ok þagat *B.*; hingat ok þangat *C.* 6 fylgia *B, C.* 7 [lengra *C.* 8 *Her beg. atter A²*. 9 en *tilf. B.* 10 Johanne *B, C.* 11 vidrkæmiliga, *her og senere B.* 12 hreinastr *B, C.* 13 *mgl. A², B.* 14 *saal. övr.*; skapaði *A.* 15 með *övr.*

moðurligrar astar sva andligrar sem veralldligrar. Sva faðmaz lof þessa Johannis ok kyssiz sin i meðal. En meðan hann stendr undir merki sins herra, er nu striðir konungliga moti hôfðingium helvitis, er greinanda skaummu mali, hversu aðrir Kristz riddarar[1] standa i þeim ofriði, eðr hvilikan lut hverr eignar ser i þessum bardaga, er upp brast i moti rettum konungi meirr en saklausum, er nu hangir a krossinum.

### *Um fall Petrs ok hans idran, item um Pilatum ok Judam svikara*[2].

14. Fyrst er greinanda i framburði settra greina, at Simon Petrus hôfðingi postolanna hefir þrysvar neitat sinum[3] lavarð ok lausnara, en stendr nu i iðranargrati ok yfirbot i guðs ôgliti[4] endrbætandi sterkligha sinn krapt ok virðing þegar i annan tima, en aðrir postolar ok lęrisveinar voru með flotta dreifðir sva[5] sem sauþir hirðisslausir. I annarri grein miok ulikri þarf eigi[6] gera langmæli, þviat ôfund ok illzku[7] sialfra Gyðinga berr vitni krossins pina[8]. Dómr fyrr nefndz Pilati er ok kunnigr hverium manni, dictaðr með ueinarð[9] ok ranglæti. En þo at hann dæmdi illa ok ueinarðliga, er nôckut valld hafði af keisaranum yfir Jorsolum i þenna tima, er hinn fiandans limrinn meirr undrandi, er þess ôrendis for til Jorsala[10] or sinu riki, at samþykkia [ôllu illu[11], er verst var moti guði gert. Þessi [er dauðasonrinn[12] Herodes Antipas, er fyrrum drap Johannem baptistam sinu sverði, en nu sækir til þess langa vegu brott or sinu riki at drepa Jesum með svivirðligu samþykki. Þat aflaði fullr hroki fornra glæpa, at hvartveggi sekt fylgdi honum til helvitis, meinlauss dreyri predikarans ok saklaus pina lausnarans. Þessu næst er nefnandi niðingrinn Judas Scharioth[13], er selldi sinn lavarð fyrir [.xxx. penningha[14] sem vándr falsari ok drottins svikari, oðrum illr en sialfum ser verstr ok grimmaztr, þviat optliga hafði hann[15] stolit fe fatækra manna, þat[16] er varr herra fekk honum at geyma, en nu rænir hann sialfan sik liotu lifi kyrkiandi sinn bolvaðan barka með [stirðum knut ok[18] virgli snôrunnar [ok kastaðr ok

1 kappar *övr.* 2 *Overskr. C.* 3 sinn *övr.* 4 augliti *övr.* 5 *mgl. övr.* 6 at *tilf. B.* 7 *saal. B*; illzka *A*, *A*², *C.* 8 [pinu *C.* 9 *saal. A*, *A*², *C*; oeinord *B.* 10 heiman *tilf. B* 11 [þvi ollu *B* 12 [*saal. B*, *C*; dauða sonr *A*, *A*². 13 Scariotis *B.* 14 [þriatigi penga *B.* 15 haduliga *tilf. B.* 16 *mgl. B*, *C.* 17 [sterkum *C*; *mgl B.*

niðrsteyptr[1] i ôrvæntingar forat, þvi heitara sem hann fell hæra, þvi meirr loganda sem hann for niðr lengra. Sva fell þar gamallt illgresi i eilifan elld brott or guðs akri. Þvi skal þar við skilia, sem Judas er kominn i stað sinn, ok renna augum þessu næst fram til krossins, er ver aðr fra gengum, litandi þann akr drottins, sem[2] þar frævaz[3] i nyrri sæmd ok virðing ævaxtarins. Þessi ævôxtr i akri drottins er hinn sætazti guðs vin[4] Johannes, er karlmannliga fylgdi sinum konungi, hverr nu hefir utgefit sinn anda blezaðan, læknandi þann siukdóm a pinslartre, sem inn gekk i paradisum fyrir girndartre, heriandi nu til helvitis með afli guðdomsins, knyiandi lokur ok lasa helvitzkra herbuða með hvellum hamri sins almattigs anda, lemiandi diôfulsins hôfuð, sem [fyrir var heitit i heims upphafi[5], brott gripandi sem biartr sigrvegari alla sina menn af uvina valldi, leiðandi þa meðr styrkri hendi til eilifrar gleði, er nu var auðfær ok upplokin með hans piningar lukli[6].

*Um Christi upprisu*[7].

15. Þeim frægazta sigri, er drottinn Jesus vann i dauðans heraði, samtengir hann sina dyrð, þat er at skilia sanna dyrð upprisunnar æ .iii.$^{ia}$ degi eptir pinslina, birtandiz[8] sinum astvinum, er nu sátu i sut ok angri fyrir hans ryggiligan dauða, styrkiandi þeira hugskot til sannrar trulyndi meðr skyrum stormerkium sinnar[9] upprisu, etandi ok drekkandi meðr þeim, at þar fyrir legði æ flotta ôll ifasemd hverrar vantru sva nalægrar sem ukominnar[10] i verolldina. Sva huggar sia blezaðr herra nu enn at nyiu sina tilæskingarsonu verandi með þeim xl.[11] daga, skipandi enn sem fyrr sælan Petrum hôfðingia postolanna meðr algerri satt[12] þrennrar neitingar. En æ fertôgunda[13] deghi eptir pinslina stigr hann upp til himnarikis[14] af fialli Oliveti at æseandi sinni [blezaðu mæðr[15] ok .xi. postolum með auðrum lærisveinum aðr fyrirheitandi at senda þeim heilagan anda eptir fá daga liðna Þij foru lærisveinar aptr i Jerusalem, sem guð hafði boðit, ok biðu sva fyrirheitinna giafa. En i þeim .x.[16] dôgum sem[17] frestaðiz

1 [nidrsteyttr *B.* 2 er *B.* 3 friofaz *B.* 4 signadr *tilf. B* 5 [*saal övr.;* fyrr var heitit *A.* 6 lykli *B, C.* 7 *Overskr. C.* 8 *saal. B, C.;* birtandi *A*, $A^2$. 9 *saal. övr.;* sannrar *A.* 10 *saal. övr.;* ukominn er *A.* 11 fioratigi *B.* 12 sætt *B, C.* 13 fertuganda *övr.* 14 himinrikis *B.* 15 [blezadri modur *B, C.* 16 niu *B.* 17 er *B.*

heilags anda kváma, kallar Petrus saman bræðr tiandi þat skarð, er æ varð postolanna samnaði fyrir glæp svikara Jude; þvi segir hann nauðsynligt, at annarr se kosinn i fylling tôlunnar, sva at .iij. se skrifaðir[1] hverri hôfuðętt heimsins til predikanarembættis. Undir þenna kosning ero settir .ij. menn, het annarr Joseph iustus broþir .iii$^{a}$. postola sona Alphei, er fyrr voru nefndir, en annarr Mathias, var hvartveggi[2] tiltekinn or lærisveina tôlu Kristz. Settu þa postolar guþs luti með bænarorðum, ok fell lutr yfir Mathiam, at hann skylldi taka þa virðing, er Judas fell fra, ok reiknaz meðr .xii. postolum. Liðr nu sva fram til hvitasunnudags, er stendr hinn fimtôgundi[3] fra paskadegi.[4] Þann sama dag sendir faðir ok sonr [hinn heilagan anda[5] yfir allan samnat sinna postola ok lærisveina, er i einu herbergi satu allir sakir ottaboðs Gyðinga, .c.[6] ok .xx. bæði samt karlar ok konur, meðr sva miklum almætti ok fliotvirki, at þeir kunnu [ôllum tungum at tala[7], en óttaduz hvarki elld ne iarn ok ongvar pinslir illra manna, allir fullir meðr heilagleik ok heilsugiôfum [siukra manna[8]." Ok er þat eigi undarligt, þviat almattigr guð hefir .xii. af þeim skipat til þeirar virðingar fyrir allar veralldir at bera sitt nafn um heimsins viðerni. Ok þo at heilagr andi skenkti þessum ollum nóga[9] miskunn sins ôrleiks, sem hann villdi hverium veita til styrktar ok vitzku, ero allt eins frabæriligir Petrus, Jacobus ok Johannes, ok allir saman .xii. postolar, þviat þa kaus himinrikis faðir til þess at briota niðr diôfulsins riki her i heiminum ok frialsa[10] andirnar brott af hans valldi með sonnu predicanarorði. Þessir .xii. astvinir himnakonungsins, synir hôfutfeðra, erfingiar spámanna, forgôngumenn ok virðuligir hirðar drottinligrar hiarðar, auðlandiz sva mikla virþing, at þeira hliomr gekk ut i hvert riki ok þeira predikan snaraðiz [ut i[11] hvert iarþar skaut, þessir .xii. ero meistarar pislarvatta, leiðtogar iatara, varðhalldzmenn heilagra meyia, stiornarmenn kristninnar, lærisveinar sialfs guðs ok raðgiafar drottinligrar speki, hôfðingiar truarinnar, stolpar himinsins[12], endrbætarar heimsins, vegsamandi ok virðandi meðr hæstu sæmd ok hatiðarhalldi, þviat fyrir þa pryðiz allr heimr himneskri birti. Kollumz ver nu lokit

1 skipadir *C.* 2 þeira *tilf. B, C.* 3 fimtugandi *B, C;* fimtôgunda $A^2$. 4 fyrsta upprisudegi *B.* 5 [hinn helga anda sinn *B.* 6 hundrads(!) *B.* 7 [at tala allar tungur, er geingu umhverfis veraulldina med ymsum þiodum heimsens, tvær at taulu ens atta tigar *C.* 8 [vid siuka menn *C.* 9 gnoga *B*; i nog *C.* 10 *saal. B, C*; frialsandi $A^2$, frelsandi *A.* 11 [ut a *C;* fram aa *B*, $A^2$. 12 *saal. B;* heims *øvr.*

sonar: Ipse invocavit me, pater meus estu, [et ego primogenitum ponam illum excelsum pre regibus terre[1]; þat er sva at skilia: Hann sealfr mun[2] mik kalla ok segia, faðir minn ertu, þvi mun ek hann setia frumgetinn framarr virðuligan en alla konunga iarþarinnar. Sialfr guð talar enn sva til Daviðs i þriðia stað: De fructu ventris tui, hvat er sva norrænaz: Ek mun setia yfir sæti þitt, segir drottinn, af ævexti kviðar þins. Þilikar spasögur ok margar aðrar runnu fyrir tilkvamu drottins[3]. Þessu næst er skrifanda, hvat Jacobus berr fram af þeim forspam, er gengu fyrir pining hans, upprisu ok uppstigning ok annarri tilkvamu, at blezaðr postoli guðs hlifi alla þa luti meðr diupri vitzku, sem ver höfum skrifat[4], hvat er ver fyrir sögðum i fyrsta kapitulo bokarinnar[5], at geraz mundi fyrir virðuligan herra Jacobum postola i nalægð Judeorum.

*Capitulum.*

27. Af litillatri pinu drottins vars talar sva i spadomsanda hinn snialli Ysayas: Sicut ovis ad occisionem ductus est, hvat hefir þilikan skilning: Sva er hann leiddr sem sauðr til draps, segir spamaðrinn. Af sialfri krossfestinginni spár hinn sæli David: Foderunt manus meas et cet. Grofu þeir i gegnum, segir hann, hendr minar ok fætr, ok reiknaðu þeir öll min bein, ok skiptu ser til handa klæði min. Sami David segir enn her af i oðrum stað: Dederunt in escam meam fel. Gall gafu þeir[6], segir hann, i mina fæðu ok drykkiuðu minn þorsta með vinsyru. Af dauða hins krossfesta Jesu segir enn David: Caro mea requiescet in spe. I ván man hvilaz minn likami, segir hann, þviat þu, drottinn, munt eigi lata[7] sal mina i helviti. Af sinni upprisu talar guðs son fyrir munn Davids til sins blezaða feðr: Exsurgam et adhuc tecum sum. Ek man upprisa, segir varr herra. Ok enn i oðrum stað tiar hann nauðsyn sinnar upprisu: Propter miseriam inopum et cet. Af dauða mun ek risa, segir drottinn, fyrir vesold þurfandi manna ok sut fatækra. Af sęlli uppstigning drottins vars segir enn David salmaskalld: Ascendit deus in iubilacione. Meðr skemtan, segir hann, steigh guð til himna. Ok Anna moðir Samuelis spamannz segir sva heðan af: Drottinn steig upp i himna með miklum hliom. Mörg vitni onnur finnaz af uppstigning drottins vars Jesu Kristz,

1 [*tilf. B.* 2 a *tilf. B.* 3 vars Jesu Kristz *tilf. B.* 4 af upphafi *tilf. B.* 5 bækrinnar *B.* 6 þer *B.* 7 fyrirlata *B.*

segir hinn blezaði Jacobus postoli, at hann sitr tii hægri handar guði feðr i himinriki. Vattar þat David i sinni bok sva segiandi: Dixit dominus domino meo, drottinn sagði minum herra: Sit mer til hægri handar. Siðarri tilkvamu guðs at dæma lifendr ok dauða vattar sami psalmista: Deus manifeste veniet et cet. Guð mun auðsyniliga[1] koma, segir hann, ok guð varr mun eigi þegia, i augliti hans mun elldr brenna ok ôflug birð umhverfis[2] hann. Af upprisu dauðra manna i guðs tilkvamu talar Ysayas: Surgent mortui et cet. Upp munu risa dauðir menn, þeir sem i grofum ero, þviat guð allzvalldandi sitr þa i dómsæti neytandi miklu valldi, gialldandi serhverium [eptir sinum verðleikum.[3] Fyrir þi, bræðr, segir hinn sæli Jacobus, gerit iðran sem fyrst yðvarra verka, at þer flyit[4] þa hefnd ok pinu, sem[5] yðr verðr i guðs domi, ef þer iðriz eigi; [renni þeir[6] allir fyrstir ok fremstir til rettrar iðranar, er sinar samvitzkur vita þess valldar, at þeir gerðu eða gerandum samþyktu i krossfesting þess hins meinlausa, er allan heim frealsaði af pinuligum dauða. Þij siðr var hann krossfestr[7] makligr, at hann gerði yðrum lyð marga goða luti. Wer hans lærisveinar sam upp aa, at hann lauk upp þess mannz augu til skiærrar synar, er blindr var borinn. Ok til þess at hann profaði sik vera þann sama, er skapaði Adam af iarðar leiri, [blandaði hann[8] munnzins salivo með iarðar dupti riðandi yfir augnastaði blinda mannz. Ok meðr þvi at ver spurðum drottin varn Jesum Kristum, hvart þat var hans syndagialld sialfs eða feðgina hans, at hann skylldi blindr fæðaz, svaraði hann oss sva til, at hans [eða hans feðgina skulld volldi[9] eigi þessum blindleika, helldr var hann til þess, at aa honum skylldo auðsynaz guðs verk; þat er sva skilianda, at sa hôfutsmiðr, er skapaði manninn, birtiz nu auðsyniliga tilkominn, þviat hann skapaði skiæra syn yfir þau augu, sem alldri fyrr hôfðu lios auðlaz með sinni natturu. Sannliga[10] fylldiz aa minum blezaða meistara þat, er prophetinn skrifvaði, at honum mundi hatr ok illzka ômbunat [moti goðum verkum[11], þviat þann tima sem hann græddi kararmenn [ok krepta, reinsandi[12] likþræ, lysandi blinda, frealsandi[13] diôfuloða, lifgandi dauða, millum annarra otôluligra

1 augsyniliga *A*². 2 umbergis *B*. 3 [sin verk eptir makligleikum *B* 4 *saal. B;* fyllit *A*, *A*². 5 er *B*. 6 *saal. B;* rennit þer *A*, *A*². 7 krossfesting *B*. 8 [*saal. B;* blandaði (blandandi *A*) við *A*, *A*². 9 [synd eda hans fedgina volli *B*. 10 Senniliga *B*, *A*². 11 [fyrir god verk *B*. 12 [*saal. B*; krepta ok reinsaði *A*, *A*². 13 *saal. B;* frealsaði *A*, *A*².

iartegna, kǫlluðu allir moti honum samankomnir, at hann væri sekr dauða. Illa ômbunaði sa honum ok goða luti, er sat at hans borði, en selldi siðan sialfan hann við verði, sem David fyrir sa sva segiandi: Qui edebat panem meum. Sa er át mitt brauð, [môglaði lymsku ok[1] udygð i moti mer. Þessa luti alla sôgðu fyrir spamenn synir Abrahe, þviat hinn helgi andi talaði fyrir þeira munn. Ok ef ver truum eigi þeira orðum, hversu megum ver forðaz eilifar pinur. Vægðarlaust munu ver brenna, ef ver vilium eigi trua haufutfeðrum varum ok spámonnum, en utlendar þioðir taka[2] með fagnaði ok rettri tru spamanna raddir. Nauðsynligt er oss at mykia skapara varn með gratligum andvôrpum fyrir þa marga luti ok mikla, er ver gerðum i mot honum bæði með orðum ok verkum, at hann milldr drottinn taki iðran vara, sva at ver forðimz þat ilt, er ofbelldismenn i sinum glæpum ero makligir at taka.“ Sem hinn blezaði Jacobus postoli hefir þilika speki fram sett millum annarra luta með sætri giôf heilags anda, veitir guð i himinriki sva mikla miskunn hans orðum meðr sælli framkvæmð ok signaþri fliotvirki, at allir er æ voru þinginu kolluðu með einni rôddu: „Misgerðum ver, rangt gerðum ver. Gef þu oss lausn, hvat skulum ver gera?“ Heilagr Jacobus[3] postoli svaraði þeim sva ollum: „Bræðr, ottiz eigi, verit hugsterkir ok ôrvæntit eigi, truit æ guð ok skiriz i nafni foður ok sonar ok anda heilags, at allar yðrar syndir þvaiz af i þeim brunni, er sealfr drottinn varr Jesus Kristus helgaði til hialpar ok syndalausnar ollu mannkyni.“ Sva aflaði verkmaðr drottins[4] mikinn ævôxt æ einum degi, at allr sa lyðr, er þar var kominn, truði rett á Jesum Kristum ok skirðiz i hans nafni. Þvi munum ver láta Jacobum gleðiaz ok fagna i sva ægætum sigri salnanna, en hyggia at þessu næst, hvat fram ferr i riki Rómveria eðr meðr hôfðingium Jorsalalandz, at þi skilianligra verði, hvaðan leiðiz, er[5] blezaðr Jacobus postoli mætir skiotliga[6] sva [miklu valldi ok[7] ufriði, at hann lætr sitt lif meðr[8] ofsoknarsverði fyrir guðs nafni.

*Af Gaio capitulum.*

28. Tiberius keisari rikti .iiii.[9] ár eptir liðna[10] pining drottins vars. A hans siðarstum timum sat i Roma einn maðr i fiotrum

1 [margfalldadi lymsliga *B.* 2 taki *B.* 3 *Her beg. atter C.* 4 Jacobus postuli *tilf. C.* 5 ef *B.* 6 *tilf. B, C.* 7 [miklum vansa ok *B;* miklum *C.* 8 undir *C.* 9 fiogur *B, C.* 10 *mgl. B, C.*

kastaðr i myrkvastofu með keisarans boði, Herodes at nafni, kallaðr Agrippa, son Aristoboli sonar gamla Herodis. Hann var framazti maðr bæði af harðfengi ok vitzmunum ok hafði verit fyrr i Roma, en nu skemmztu kominn af Judea sakir hatrs ok hermdar við Herodem tetrarcham frænda sinn at fa nóckut valld yfir Juðum. En fyrir þa sauk er hann fanginn i Roma, at Tiberius cesar berr at honum, at hann hafi[1] æskt honum dauða með sinum orðum ok kosit til rikis [hinn bezta sinn vin[2] Gaium at nafni, er kallaðr var Galicula [sonr Germaniel[3]. Ok sem enn sitr Herodes inni, andaz Tiberius; tekr þa nefndr Gaius valld yfir Romverium gefandi liðugan gang vin sinum Herodi Agrippa[4] ok þar með konungskrunu yfir .ii. fiorþungum Jorsalalandz, er halldit hófðu Philippus ok Lisanias, nu baðir undir lok liðnir. Ok sem hann kemr heim i land [meðr sva mikilli sæmd[5], ófundar fyrr nefnd Herodiadis, at Agrippa hefir meira valld bæði i krununnar virðing ok viðerni landzins en hennar horkarl Herodes Antipas. Þvi dengir[6] hun Herodem at fara til Romam, hvat er Agrippa spyrr[7] skiotliga, skrifandi eitt bref leyniliga til Gaium keisara, segiandi at Herodes Antipas hefir odyggr verit[8] Romveria riki sakir sambandz við utlenda[9] hófðingia. Ok þetta profar Gaius satt vera fyrir klokliga eptirleitan við Herodem tetrarcham, sem hann kemr fram i Roman. Hvar fyrir cesar rekr hann i utlegð allt vestr i Span. Bar hann til utlegðar æ baki ser drap Johannis baptiste ok samþykki við Pilatum at pina Krist. Þvi do þar illr mannhundr makliga i verstu utlegð, aðr hann tæki gisting eilifra kvala. En þat ma undarligt synaz, sem til berr stundum, at glæpamenn ero settir til hirtingar glæpafullum, sem auðsyniliga birtiz æ nefndum Gaio keisara, með þvi at hann var sealfr sva bolvaðr son diófulligrar drambsemi, at hann let gera likneskiu eptir ser, at hon væri dyrkut[10] um allt riki Romveria, en var þo i[11] annarri halfu skipaðr hegndarhamarr[12] .ii. hinum mestum[13] guðs uvinum Herodi ok Pilato. Þviat þann tima sem geystuz i lopt upp glæpir Pilati, þrysti Gaius keisari sva hart at honum með romversku riki[14], at su bólvaða mannfyla ręnti sealfan sik herfiligu lifi leggiandi sik i gegnum með sealfs sins mæki. Varð sva

1 hefdi *B.* 2 [hans hinn mesta ovin *C.* 3 [*saal A, A², B; mgl. C.* 4 Agrippe *B.* 5 [*tilf. A², B.* 6 eggiar *C.* 7 fregn *B.* 8 keisaranum i *tilf. C.* 9 *saal. B*; l'da *A, A2*; *mgl. C.* 10 sem gud *tilf. B.* 11 af *B, C.* 12 hefndarhamarr *B*; hegndarmadr *C.* 13 verstum *B.* 14 valldi *B.*

með rettum domi, at[1] þat fula briost, er diktaði rangan dom fyrir hark ok hirtingarsverð Gyþinga, græfiz sialft i gegnum fyrir sinn beiskleika, at hrokut pina allt af grunni glæpanna fengi grimmligan enda[2] meðr skaumm ok skaða.

*Feck Klaudius valld yfir Gydinghum*[3].

29. Sem Herodes tetrarcha er af riki tekinn ok i utlegð haðuliga rekinn, veitir Gaius cesar Agrippe vin sinum þann fiorðung landz, er hann hafði halldit; var þat á iiii[4] áre rikis Agrippe yfir Juðum, er hann þa þriðia fiorðung landz af keisaranum. A þvi sama áre gorir hann sinn veg fram til Romam veitandi Gaio [cesare digran snæðing meðr utalligum kosti ok stimanis[5]. Ok sem Herodes dvelz enn i Roma, er Gaius drepinn með svikum sinna manna, hafði hann þa rikt eigi full iiii.[6] ær, ok do þvi verr ok svivirðligarr, sem hann drambaði framarr. Eptir hann verðr Claudius cesar, illr maðr ok ranglatr, meðr vitrligri fylgð ok framstoðu Herodis, hvar fyrir hann fekk sva mikla vinattu keisarans, at hann tok bliðt orlof heim til Jorsalalandz, sva at hann hafði þegit allt þat riki, er forðum hellt hans fôðurfaþir Herodes gamli. Taka Gyðingar með miklum fagnaði við honum, þviat hann hefir þau keisarans bref i sinni ferð, er aptr kalla hveria dyrkan við likneski[7] Gaij. Her með hugsar Herodes, at sva sem Juðar fagna i hans farsælðum, skal hann nôckut þat gera, sem[8] þeim megi bezt lika. En honum gaf sva skilia, at þeim muni eigi i oðrum hans giorðum meiri þôck, en hann kynfæri sik ok kvisti limu kristninnar, þa er trua æ Jesum ok truliga þiona honum. [Ok er illr ævôxtr hefir fram gengit opinberliga af vandri rót, Herodes af feðr sinum ok forellrum, ero Juðar eigi[9] þvi miukari viðreignar, sem birtaz mun i fylgianda kapitulo sôgunnar[10].

*Jacobus dubbadr til riddara af gudi*[11].

30. A þessum tima sem Herodes Agrippa er sva til rikis kominn, er i Juðea einn agiætr riddari konungs, er með sinum frama vinnr mörg storvirki. Hann riðr ut herklæddr til handa ok fota með serhverium herfórum, er villdaztar kunni at fæ, ok byriar dygð-

1 *Her beg. Fr.III*$^3$. 2 *saal. ovr.;* dauða *A.* 3 *Overskr. Fr.* 4 fiorda *B.* 5 [keisare(!) stinna veislu med storann kostnad og mickinn stimau *C.* 6 fiogur *B.* 7 likneskiu *A, B, Fr.* 8 er *Fr.* 9 *saal. A, A*$^2$*;* æ *Fr;* þeim mun *C.* 10 [*mgl. B.* 11 *Overskr. Fr.*

ugum riddara[1] i strið at hafa. Skiolld hefir hann sva sterkan, at engin uvina slagr eða skot megu[2] honum granda; hialm ôruggan fyrir hveriu hôggi yfirkomanda vaða; bryniu [hefir hann sva trausta, at ekki lag óttaz hann fyrir hennar dygð[3]; sverð [hefir hann[4] sva gott ok furðuliga bitrt, [at eigi verðr betra[5] borit; þar með brynhosur biartar ok boga vænan með glôðum aurvamæli; spora friða [matuliga samða berr hann[6] aa sinum fotum, hafandi furðuliga fimau hest[7], vanan sterku striði með vænazta bitli[8]. Þessi riddari er eigi Herodes[9], helldr [Jesu Kristi himnakonungs, virðuligr guðs vin[10] Jacobus postoli, er með greindum herfórum ok guðligum folkvapnum ryfr sterkliga otrufullar fylkingar haðuligra Gyðinga. En hversu mega þessi [vapn[11] herskruðans[12] heyra til framferðum Jacobi utan með þeiri atferð[13], sem her fylgir [skômmu mali[14]. Fyrst er ætlitanda, hvat riddarinn merkir eða hans fimr fararskioti. Meðr þvi at þetta, sem fyrr var greint, stendr saman með rettri skyring i einum manni, sva sem hinn blezaði Gregorius segir i þriðiu bok Dialogorum, at Axa dottir Caleph sitiandi[15] sinn asna merkir salina styrandi stirðum likama til goðra verka, sva þyðiz her [valdr riddari[16] virðulig sal Jacobi stiornandi meðr goðu taumalagi þat holld, er henni var undirgefit fyrir guðs milldi. Skiolldr hans er usigranlig trua fyrir hveriu fliuganda skeyti villumanna sva Gyþinga sem heiðinna manna. Hialmr hans er styrk van til himneskra luta, [ubeygilig hverium slag farsælligrar bliðu eðr gagnstaðligrar striðu[17]. Brynia hans er astarinnar algiorleikr til guðs ok manna, hlifandi hans hiarta fra ollu angri ser veittra meingerða, ok þar með uti byrgiandi hverskyns hatr sinna uvina, [veitandi bruðlaupsklæði fram i samkundu eilifra fagnaða, þviat æn þessum skruða ma þar engin koma[17]. Sverð hans er orð [lifanda guðs[18] gagnfærra hveriu bitrazta iarni til brottsniðningar lastanna. Biartar brynhosur ero hans fætr bunir til guðs boðorða ok umæddir at fara i borg af borg guðs ôrendi fram at bera. Bogi vænn ok bitr skeyti ero þær helguztu vitranir, sem hann sendi i hiôrtu trulyndra með predikanarorði sinu at samvinnanda helgum anda. Sporar samtengdir

1 dreing *B.* 2 ma *A*², *B*, *C*; mega *Fr.* 3 [altrausta *B.* 4 [*mgl. B.* 5 [sem bezt verdr *B.* 6 [*mgl. B.* 7 til reidar *tilf. Fr.* 8 beisle *C.* 9 Herodis *A*². 10 [virduligr himnakonungs kappi *B.* 11 nôfn *B.* 12 [vopn og herskrude *C.* 13 glosu *C.* 14 [*mgl. B*, *C.* 15 upp aa *tilf. C.* 16 [vakr riddari a vænum hesti *B.* 17 [*mgl. B.* 18 [heilagrar predikanar *C.*

hans fotum ero fôstur ok bindandi[1], er pindu hans likam, sem riddari slær sinn hest meðr sarsauka. Meðr þilikum fórum aflaði Jacobus sinum herra [mikinn soma ok margfalldan[2] með fręgum[3] ævexti salarinnar[4], sem eigi var laungu lesit, hversu hann sneri margan lyð til rettrar truar. Hvat er i þessum tima valldz ok rikis Herodis ôfundar geysi miok einn byskup af Gyðinga tru Abiathar at nafni. Þessi guðs uvin rærir allt ok or lagi færir vekiandi storm ok sturlan moti predikara sannleiksins, spillandi rað ok riki konungsins bæði með flutningi ok fegiofum, þviat friðrinn er hans uvin ok allr rettr ævôxtr salnanna er honum sottarauki. En með þvi at hann kallaz yfirbyskup þessa árs með Gyðingum ok hôfðingi kennimanna, segiz hann hafa með skylldu vandlæti laganna tiandi konunginum, at riki Juða mun skiott eyðaz ok at ôngu verða, ef menn Jesu Nazareni skulu her[5] upp ganga ok einir ollu raða; hvert er Herodes heyrir giarna, sakir þess at þar var fusum at fleygia til illra luta, þviat hans hugrenningar voru laungu bunar at laugaz i bloði kristinna manna.

### *Halshogg Jacobi*[6].

31. Nu sem konungr ok kennimenn ero samþyckir i þeiri guðs reiði ok grimmum illvilia at drekka meinlausan dreyra Jacobi postola, gorir byskup Abiathar eptir fornum sið Gyðinga, vill eigi spara sialfan sik til verstu[7] luta, en[8] vill iafnfram rettviss synaz ok i ôngum lut af lôgmalsins boðorðum vikia. Þvi hefir hann aðra fyrir ser bæði at gripa postolann ok undir dom at draga, reisandi verstu styriolld i þeim stað, er vinr drottins atferðaz, sva at hann var[9] fanginn ok haðuliga dreginn með boði byskupsins æ þann hatt, at einn ritmeistari Phariseorum Josias at nafni gengr at með nógum[10] styrk berandi einn streng yfir blezaðan hals vinar drottins vars, dragandi sva meðr þys ok afli undir dauðadom fram i garð Herodis konungs. Var þar skamt at biða illz orskurþar, sem i nog[11] var fyrir máttr ok megin illzkunnar. Þvi diktar Herodes dóms atkvæði, at Jacobus skal lata lif sitt undir manndrapara sverði. Ok er orskurðrinn opinberaz af konungsins holl, leiðiz astvinr vars herra ut af garðinum til þess staðar, sem hann skal halshôgginn vera. Er i þeiri ferð allra fyrstr

1 bindendi *B.* 2 [margfalldan soma *övr.* 3 sigri ok *tilf. B.* 4 salnanna *B, C.* 5 æ *B.* 6 *saal. B*; rettsnuning Josie *Fr.* 7 illra *B.* 8 *saal. B, C*; er *A, A²*, *Fr.* 9 er *B.* 10 gnogum *B.* 11 gnog *B.*

scriba Josias, er fyrr var nefndr. Ok rett æ þeim veg sem vinr drottins gengr fram til pinslarvættis, liggr einn salugr kararmaðr kallandi hátt æ postolann sva segiandi: „Blezaðr Jacobe postoli drottins Jesu Kristi, frealsa þu mik af þeim pinslum, er allir limir minir angraz af". Postolinn svarar: „I nafui drottins mins Jesu Kristi hins krossfesta, fyrir hvers tru ek leiðiz nu til halshôggs, ris upp þu i stað alheill ok bleza skapara þinn". Ok æn dvol sprettr hann upp heill ok katr, rennandi fram æ veginn fyrir postolann iatandi með miklum fagnaði blezat nafn drottins vars Jesu Kristi. Ok er Josias ser sva haleita iartegn, fellr hann fram æ iorðina meðr þvilikum orðum fyrir fætr postolans: „Biðr[1] ek þik, at þu gefir mer likn ok gerir mik luttakara heilags nafns". Hinn blezaði Jacobus skilr fyrir gipt heilags anda, at [hann er[2] vitiaðr af guði ok svarar honum sva: „Truir þu, at drottinn varr herra Jesus Kristus er sannr son lifanda guðs, sa er Gyðingar krossfestu?" Josias svarar: „Ek truir, at hann er son guðs lifanda, ok þessarri tru skal ek fylgia alla mina æfi". Ok þegar i stað sem Abiathar byskup fregn þat, at Josias hefir tru tekit, lætr hann gripa hann ok leiða fyrir sik ok talar sva: „Ef þu skilr eigi allan kompanaskap ok vinattu við Jacobum, ok þar með bolvar þu nafn[3] Jesu Kristi, muntu liotliga lata þinn hals". Josias svarar með snôrum orðum ok guðligu vandlæti: „Bôlvaðr ser þu, ok allir þinir guðar se bannsettir, en nafn drottins vars Jesu Kristz, þess er Jacobus postoli predikar[4], se blezut [um eilifar alldir[5]". Byskup þolir illa slik storyrði, þviat þolinmęðiskraptr [átti ekki rum[6] i hans briosti. Þvi biðr hann gripa Josiam ok sla honum[7] flautum æ iorðina, siðan lætr hann [at ganga sina þionanarmenn[8] at hefna þeira meingerða, er honum voru veittar[9], æ þann hátt at þeir[10] setia stor hnefahôgg æ þann munn ok varrar[11], sem sva hart hafði með[12] byskupinn talat. Eptir þat gort, sem likar, gerir Abiathar byskup sendiboð[13] til Herodem konungs, kunnigt gerandi, hversu Josias ritmeistari ferr með sinu mali. En af konungsins halfu koma þau andsvôr, sem Abiathar byskupi voru helldr með en i moti, at Josias skal lata sitt lif undir[14] sama sverði sem Jacobus postoli. Sva ero þeir leiddir baðir samt i þann stað, sem til var skipaðr, at þa skylldi hôggva. Ok er þeir fram koma,

1 Bið $A^2$, *Fr.* 2 [Josias er senniliga *B.* 3 nafni *B*, *C.* 4 bodar *Fr.* 5 [i eilifar veralldir *B.* 6 [hafdi ekki hus *B.* 7 *mgl. øvr.* 8 þionostumenn *Fr.* 9 gervar *Fr* 10 [*mgl B.* 11 varrir $A^2$. 12 vid *B.* 13 sendiboda fram *Fr.* 14 *saal. övr.*; með *A.*

talar blezaðr Jacobus sva við þann mann, er þeim skylldi bana[1]: „Fyrr en þu halshôggvir okkr, lat higat koma vatn.“ Ok sem þat var gort, at fata full með vatn var fram borin, spyrr Jacobus Josiam sva mælandi: „Truir þu[2] nafni drottins vars Jesu Kristz sonar guðs?“ Josias svarar: „Trui ek.“ Siþan skirði postolinn hann. Hann talar siðan: „Gef mer nu friðarkoss.“ Ok sem þeir hafa kystz sin i milli, leggr postolinn sinar blezaðu hendr yfir hôfut Josie ok signar hann, gerandi krossmark i enni honum. Ok sva algiorr i heilagri tru drottins Jesu Kristz oðlaz Josias fagrt pislarvætti a sômu stundo sem Jacobus postoli, takandi með honum sæla aumbun i eilifum fagnaði.

### *Likferd Jacobi postola.*[3]

32. Nærri þessum tiðindum voru lærisveinar virðuligs Jacobi postola þa[4] meirr i [leyndum[5] en opinberliga[6] sakir illzku ok ogna[7] Gyðinga. Sarligan[8] ok hôrmuligan ekka hôfðu[9] þeir allir her af, sem honum hôfðu fylgt, einkannliga hans lærisveinar, þviat nu sea þeir sinn mæta meistara dauðan liggia meðr dreyrugum svira. En fyrir þa sok at þeir skilia fyrir truarinnar styrk, at framfallinn i herbuðum himnakonungs tekr hann at lifa sælligar með sinum drotni sem goðr riddari sigrandi sina uvini, bera þeir saman rað sin at bera brott a nokkurn hatt þann heilaga likam, sva at eigi megi hann mæta grimdarfullum gerðum Herodis konungs eða bôlvaðra Gyðinga. Fyrir þessum raðagerðum er fremztr Ermogenes ok annarr Philetus, er fyrr voru nefndir, siðan með þeim .ii.[10] aðrir, allir með einum elldi uppkveyktir at hialpa postolans likam, þvi leyniliga, at þeir mattu eigi opinberliga, sakir þess at þa[11] lek allt sem i einum loga fyrir uppgang ok ofsoknir Gyðinga; sem a þvi ma marka, at fyrir sômu paska, sem Jacobus var halshôgginn, var Petrus postoli gripinn af Jorsolum ok innkastaðr i myrkvastofu með boði Herodis konungs, þviat sva sem hann skilr Juðum mikla þôck a þeim domi, er Jacobus fekk i[12] dauðans orskurði, vill hann framleiðis auka sin verk en minka eigi. Ok þvi skal þessu næst hôfðingi postolanna undir luta, ok senniliga drap Herodes signaðan Petrum með illvilia sinum ok fiandligu eptirlæti

1 *saal. A, A²;* bana veita *Fr., C;* at þeim vinna *B* 2 i *tilf. B.* 3 *Overskr. Fr.* 4 þo *B* 5 *saal. A, Fr.;* leynum *A², B.* 6 [leyndum stad en opinberum *C.* 7 gudrækra *tilf. B.* 8 harm *tilf. B.* 9 fengu *B* 10 fim(!) *B.* 11 nu *B.* 12 *tilf. B.*

við Gyðinga, þo at guð almattigr varðveitti sinn postola til meiri ok lengri nytsemdar kristninni, frialsandi hann af fiötrum ok valldi Herodis með styrkri[1] hendi, sem fulliga stendr skrifat i lifssögu sæls Petri. Munum ver þvi heðan aptr venda til likfylgiu sæls[2] Jacobi.

*Capitulum.*

33. Ermogenes ok hans kompanar taka leyniliga brott likam blezaðan sins ágiæta meistara, flytiandi norðr eptir riki Juða sem mest i fiarska við Jerusalem, er nu var ok hafði verit um tima sva sem öndvegi hatrs ok unaða.[3] Um siðir koma þeir fram i þa borg, er Joppen heitir. Su borg stendr nalæg norðr við hafit, ok þvi hugsa lærisveinar at setia likamann æ skip ok flytia til graptar i einnhvern leyniligan stað, sva at Gyðingar megi sina grimð eigi framarr leiða við postolann, þviat þeim syniz þolanligra, at astvin drottins liggi i leynum, þar til er guð almattigr gefr frið sinni kristni, helldr en hann se undir uvina valldi. Hvat er allt gerðiz með guðligri[4] forseo; þviat iafnfram sem þeir hafa stigit æ skip með helgan dominn látande[5] brott af Joppen, sendi guð [af Syon[6] þann þunga yfir hiörtu lęrisveina, at þeir sofna allir innbyrðis. Leiðir þa guðs engill skipit, sem honum likar, sva hart ok furðuliga snart, at þat for æ einni nátt langan veg i verolld umfram natturu, let[7] um kvelldit af Jorsalalandi en tok höfn um morgininn i vestanverðri Hyspania myklu i þeim luta rikisins, er heitir Galicia, nærri þeiri borg, er þann tima var kollut Fornahistria[8]. Sem skipit er komit i gott lægi ok blitt, vakna lærisveinar Jacobi, lita æ landzleg ok kenna skiotliga með guðs vilia, hvar þeir ero at komnir, þviat þeir lærisveinar, sem þagat höfðu farit forðum með sælum Jacobo, kenna giorla[9] serhveria luti. Gora nu allir saman guði lof ok hans mætazta vin fyrir alla þa miskunn ok stormerki, er skein yfir þeira ferðum; bera nu æ land heilagan dominn með andligri gleði ok sonnum fagnaði setiandi[10] niðr æ einn stein, er stoð nærri höfninni, þegar i fyrstu með haleitri ok himneskri iartein[11], þviat allir þeir sæ upp æ, at steinninn [lieði sin[12] ok linaðiz undan þeim blezaða þunga, sva sem hann væri krammr sniorr eða onnur vikianlig skepna.

1 sterkri *B.* 2 hins heilaga *A²*, *B*, *Fr.* 3 i mot drottne vorum Jesu Christo ok ollum hans vinum *tilf* *C.* 4 himneskri *B.* 5 leitandi *B*, *C.* 6 [*mgl.* *B.* 7 ut *tilf.* *B.* 8 hin forna Hirria *B*; til forna Hitria *C.* 9 greiniliga *B.* 10 *Her end.* *Fr.* *III³*. 11 iartegn *övr.* 12 [*saal* *A*, *A²*; ledi sin *B*; ledi sin til *C.*

*Capitulum de Lupe.*

34. Fyrir þeiri[1] rikissins halfu, sem fyrr var nefnd, ræðr ein fru veralldar[2] rik Lupa at nafni. Var henni þat nafn viðrkvæmiligt, þviat hun fylldi þat [i verki[3]. Vargynia þyðiz hennar nafn aa[4] norrænu, hvert er hon profar skiotliga [eiginligt heiti sins hiarta[5] fyrir þa grimð ok illvilia, sem hon setr upp i moti Jacobo postola. Sögðum ver fyrr i bokinni, at almattigr guð hugði[6] sælum Jacobo at vinna fullan ok fagran sigr in Hispaniis, ok þo eigi fyrr en onduðum. Hafði hann i þeim halfum forðum plantat sæði truarinnar, þat er nu var kallt vorþit ok með ollu frosit fyrir langa fraveru heilagrar döggvar[7], þat er at skilia skaðafullrar missu sællar[8] aaminningar. Þetta sama reynir aa ser virðuligt föruneyti sæls Jacobi, sem þeir profa landzlyðinn til nöckurs goðvilia. Nu ero eptir sumir hia helgum dominum, en sumir fara upp aa land at finna fruina ok aðra landzmenn at biðia graptarstaðar postolanum með sæmð ok virðing, ok at þeir skylldi nu taka meðr[9] fagnaði þess [hins sama[10] andaðs mannz likam ser sendan af guði, sem þeir villdo eigi heyra meðr fullri lyðni, meðan hann lifði. En þegar i stað sem hin grimma Lupa undirstendr[11] þeira orendi, styggiz hun við geysi miok, sem henni væri borin hin verstu tiðindi, lætr gripa alla sendimenn postolans ok skytr þeim brott af sinum garði, bioðandi at þeir se haðuliga reknir fram i rikit[12] undir sverð eþa öxi þess grimmazta konungs, er þar reð fyrir. Var þat snimma[13] dags, er þeir rekaz fram i staðinn. Gora þa sendimenn Lupe drottningar kunnigt fram aa konungsgarðinn[14], hvat þeir hafa meðferðar. Ok aan dvol sem konungrinn hefir heyrt þeira framburð, lætr hann gripa menn Jacobi alla samt i verstu fiötra ok myrkvastofu, segiandi at þegar sem drykkiuborð ero brottu, at[15] þann sama dag skulu þeir lifit lata með herfiligztum kvolum, er til finnaz þeim at veita. Ok er meinlausir guðs orindrekar ero sva leiknir, kemr heilagr engill guðs frealsandi þa brott af allri pinu [ok halldsemi[16] þeirar dyflizu, leiðandi liðuga, sva at margir staðarmenn saa upp aa, rett i þann tima er konungrinn sat yfir borðum ok ætlaði skiott at döggva sina fæðu með þeira bloði. Ok þessu næst sem konungs-

1 þessarri *B.* 2 veralldz *B.* 3 [i verkum *B;* ok satt gerdi med grimd ok illsku *C.* 4 i *B.* 5 [ser eiginligt *B.* 6 unni *B.* 7 döggar *B* 8 *saal. övr.*; heilagrar *A.* 9 andligum *tilf. B* 10 [*tilf. A*[2], *B.* 11 *saal. övr.;* heyrir *A.* 12 *saal. B, C;* rekit *A, A*[2]. 13 snemma *B, C.* 14 gard konungs *B.* 15 a *B.* 16 [*mgl B, C.*

borðin ero brottu, sendir hann sina menn til myrkvastofunnar at leiða bandingiana fyrir sik. Sendimenn koma skiott aptr með miklum fadæmum, segia læsta myrkvastofuna en bandingiana alla i brottu. Ferr þa fioldi manna at leita þeira eptir konungs boði yfir moðu, þa er fell hia borginni Ok sem þeir koma fram [a þa bru, er liggr[1] yfir moðuna, brestr hun niðr undir þeim með hræðiligum gny ok vaveifligum atburð, sva at þar fyrir drukna margir konungsmenn, en finna eigi flóttamenn. Viðr þessi undr[2] oll saman verðr konungr miok pipr ok hræddr, ok hirð hans oll, ok [byðr þa at nyiu at[3] leita hinna utlendu manna ok leiða með sæmð til sin, ef þeir fyndiz. Voru þeir þa þegar auðfundnir ok til konungsins með vegsemd leiddir. Greindu þeir fyrir konunginum allan hátt sinnar þarkvamu með skyrum framburði, birtandi þau stormerki er i þeira ferð urðu. Ok af þeira orðum með guðs miskunn tekr konungrinn retta tru ok heilaga skirn með au̇llum sinum her. Siþan fara lærisveinar Jacobi postola til fundar við Lupam, beiðandi at hun veiti þeim sæmiligan stað til at iarða postolann. En hun verðr miok rygg við þeira kvamu, þviat hon harmaði bæði þat, at[4] þeir hôfðu forðaz grimð ok æði konungsins, en þo þat meirr, at konungrinn meðr ollu sinu liði var snuinn til rettrar truar [ok af þeira orðum undirokaðr guðliga þionostu[5]. Hugsar hon nu með diupsettu raði at fyrirfara likam postolans ok þo sva klokliga, at helldr skulu sealfir lærisveinarnir synaz þat gera en hun. Þvi finnr hun þann utveg at gera gott yfirbragð illra hugrenninga ok synaz sæmð gera Jacobo postola, meðr þeiri grein at i hennar rikdomi voru margir[6] yxn skoggengnir, ygir ok utamir; þessa likir[7] fru Lupa, sem hun vili lia meðr goðvilia fyrir vagn moti helgum dominum Jacobi postola. Ok þo at lærisveinar fáe val[8] skilit, hvat henni gengr til slikra[9] gerða, treystaz þeir i guði ok gera krossmark moti yxnunum sva stormerkiliga, at þau ero i stað þreifanlig ok fyrir vagni leiðanligh[10], þar til er þeir koma fram til siofar, sva langt sem .iii. milur brott af staðnum, leggia þa heiligan dominn i vagninn ok leiða yxn til drattar. Ero þeir þa æn dvol allir sva tamir i sinni gôngu ok hofsamir, sem alla æfi sina hefði þeir vaniz fyrir arðri, eða enn helldr til þess tempraðir ok vandir i frabærum meistaradomi at dragha kyrt ok hægliga þann vagn, er i sitr hinn dyrazti hôfðingi. Sva lata postolans menn ganga

1 [*saal. øvr.*; yfir bru þa er laa *A.* 2 *saal øvr*; ord *A.* 3 bidr þa at nyiu *B.* 4 er *B.* 5 [*mgl. B.* 6 storir *tilf. B.* 7 *saal A, A²*; lætr *B, C.* 8 vel *B.* 9 sinna *B.* 10 leiditôm *B.*

yxnina sialfraða ok liðuga, sem þeir vilia, biðiandi almattigan guð, at hann kiosi sinum postola þann stað til graptar, sem honum likar. Sva ganga þessor[1] yxn allan hinn beinzta veg heim at staðnum Lupe drottningar ok siðan inn i garðinn, sem þeir væri leiddir af styrku fôruneyti, ok eigi gefa þeir fyrri[2] staðar, en þeir koma inn i sialfa fruinnar hôll með helgan dominn, þar sem hun sitr fyrir með sinu villdarliði. Er nu skamt [at biða[3], at heilagr domrinn brunar inn i hallina[4] með sinu foruneyti ok fylgd ok Lupa skiptiz i sauð af vargi, þviat hinn bezti meistari slær hana[5] með dyrkan ok dasemi þilikra stormerkia, sva at allan tima siðan var hon eigi siðr[6] full meinleysis ok miskunnarverka en aðr undirhyggiu ok margskyns[7] illvilia. Tok hun þa[8] fagnaþarfull við blezaþum likam sæls Jacobi postola, gefandi honum sina hall[9] ok sealfa sik með allri sinni eign til æfinligrar þionostu [ok upphelldis i þeiri virðing, er valinn postoli guðs auðlaðiz i þeim halfum með vilia sins drottins[10]. Var su hin agiæta hôll til[11] vigð at herbergia þann sæla likam ok kallaz musteri guðs ok hans postola, þviat Ermogenes með sinum forunautum leiddi þar meðr sæmiligri graptarþionostu sinn mæta meistara, takandi fyrstr byskupdom i þeiri borg, en siðan Philetus eptir hans dag. Voru þeir baðir agiætir menn i sinni stiorn ok valldi, aflandi mikinn aavôxt i vestrhalfunni með sinum kenningum ok kraptaverkum Jacobi. Eigi at eins voru þessir .ii. mikils virðir[12] af forunautum[13] Jacobi, helldr allir ok serhverir skipaðir formenn heilagrar kristni i ymissa staði [nytsamligir salunum til at fa himinriki[14]. Blomgaðiz vestrhalfan aa þessum timum gôfugliga fyrir þann mæta gimstein, er [niðr settizt i hennar halfum[15], geislandi umbergis með krôptum ok iartegnum, þar til at ranglætisþoku grimmra uvina dro sva þykt fyrir geislana, at þeir mattu eigi lysa, sem meðr guðs vilia mun enn siðarr sagt verða.

### *Regressum.*

35. Heyrðum ver meðr sannindum sagt af purpurligu[16] pinslarvætti ok virðuligum grepti heilags Jacobi, ok synaz her viðrkvæmiliga [.ii. ritningar at taulu val[17] fylldar[18] hvar i sinum stað, i fyrra

1 þessi *B.* 2 fyrr *B.* 3 [i milli *A²*; i midil *B*; þess i medal *C.* 4 hollina *B.* 5 hennar hiarta *B.* 6 minnr *øvr.* 7 allzkyns *B.* 8 nu *B.* 9 holl *B.* 10 [*mgl. B.* 11 þess *tilf. A².* 12 verdir *A²*, *B.* 13 fôruneyti *B.* 14 [*mgl. B.* 15 [þar nidr settiz *B.* 16 purpuraligu *B.* 17 vel *øvr.* 18 [ritningar vel fylldar tvær at tǫlu *B.*

at dauði heilagra manna er dyrðligr i drottins augliti[1], i siðarra at likamir heilagra ero grafnir i friði. En meðr þvi at forkunnligr lutr syniz optliga mætari ok ægiætari i sinni birti ok fagrligu formi, ef svartr lutr sem ulikaztr er hia borinn, skulum ver þessu næst aptr venda enn til Jorsalalandz ok sea, hversu geriz daligr dauði Herodis konungs Agrippe, er sitt bǫlvaða sverð let riða yfir postolans svira, at þvi framarr skini dauði sæls Jacobi, sem meirr dimmiz ok sortnar dauði Herodis konungs i sut ok grati, eptir þi sem David segir miok sundrlikt [ok i fyrra stað[2], at dauði syndugra manna er hinn versti.

*Capitulum.*

36. Þa er Herodes konungr hafði haft einvalld yfir ollu riki Juða .iii.[3] ár, kemr hann til þeirar borgar, er Cesarea heitir i hans riki. Þa borg hafði hans fauðurfaðir[4] gera latit ser til virþingar samtiða Augusto keisara, hvar fyrir hann dro nafn borgarinnar af keisaradominum ok kallaði Cesaream. Hun het aðr Pirgostratonis[5] ok stendr i þeiri halfu landzins, er Palestina heitir, eigi langt fra Joppen, er fyrr var nefnd. Ferr Herodes Agrippa til Cesaream i þenna tima með mikilli virðing ok veralldar metnaði, a þann hátt at [hlioð ok mikit kall gengr ut i rikit alla vega umbergis, at Herodes konungr[6] ætlar at veita Palestinis leika fagra i borg Cesarea til sæmdar [ok æru[7] Claudio keisara, þviat þa stoð nalægr sa dagr, er keisarinn i Róma hellt[8] mest[9] hóf. Hvar fyrir mikill lyðr[10] drifr til Cesaream af allri þeiri halfu, er þar liggr undir, ok einkannliga þeir sem rikaztir voru ok makligaztir at sea konunginn sialfan ok lita hans skemtanir. Ok sem kemr annarr dagr þeirar liðandi gleði, hefir konungrinn sik snemma uppi um morguninn með ollu sinu stormenni ok borgarlyð fram æ þat mot[11], sem fyrra dag var [skipat leikinum[12]. Aa þeim sama velli er settr mikill ok virðuligr konungsstoll, hvar yfir hann setz skryddr skinanda[13] klæði virðuliga vofnu[14] með [gull ok silfr[15]. Þat er rett i þann tima sem solin ryðr verolldina með sinum

1 *saal. ovr.;* ǫgliti *A.* 2 [þvi sem hann sagde i fyrra stad, þviat hier segir hann svo *C.* 3 þriu *B.* 4 Herodes *tilf.* $A^2$; Herodes gamli *B*, H. Ascalonita *C.* 5 Pirgastratonis *B, C.* 6 [hann *B.* 7 [*mgl. B.* 8 helldr $A^2$. 9 *saal. ovr;* mikit *A.* 10 ok margr *tilf. B.* 11 plass *C* 12 [*saal. B*; skipar leikinn (leikmenn $A^2$) *A*, $A^2$; leikrinn aa skipadr ok framinn eptir konungsins bode *C.* 13 *saal. B*; skinandi *A*, $A^2$. 14 *saal.* $A^2$, *B;* vofin *A.* 15 [gulli ok silfri *B.*

fyrstum geislum. Ok er þat gulliga klæði, sem konungrinn sitr i, tekr æ sik rioðandi birti af solinni, er þi likt sem lios[1] mætiz sin i milli, þviat birtinni briar af klæðinu, sem slai aptr i mot solinni, sva[2] at þeir menn, sem nærri[3] voru, fengu varla i gegn sieð[4]. Af þessu efni reisir hôfuðsmiðr hræsninnar sva diôfulligan dáraskap i þeira manna hiôrtum, er þar voru, at þeir hugðu þessa birti ut ganga af konungsins guðdomi, heimskandi sealfa sik sva sem blindir ok [verr en lutlausir[5] allrar skynsemdar[6]; þviat þann lioma, sem upp laust æ konungsins æseonu af briandi birti, er saman kom frammi fyrir honum, kunnu þeir eigi at skilia eptir heimligri natturu [veralldligrar skynsemþar[7], helldr kalla þeir með hafum raustum upp æ þann er æ stolinum sitr, biðiandi ser miskunnar ok farsælldar sva sem af guði, ok millum annarra luta tala þeir sva: „Allt her til óttaðumz ver þik[8] sem mann, en fra þessum tima iatum ver þik vera umfram mannliga natturu". Slikar uhæfuraddir heptir eigi Herodes konungr meðr nôckurri stiorn, ok eigi lætr hann ser meingerð i vera, [þvi at[9] honum veittiz bolvað ueinurð uleyfðrar sæmdar[10]. Hvar fyrir skamt liðr, aðr honum er skyrliga kent, hvat hann er, þviat þessu næst sierr[11] hann engil standanda ok yfirgnæfanda hans[12] hôfði; ok án dvol skilr hann, at þessi engill er kominn þess orendis at setia honum dauðasting i postolanna hefnd ok nyligrar drambsemi, at hann dro guðs lof undir sik ok samþykti þegiandi. Profaz þetta ok skiott fullkomin sannindi, þviat hann er sleginn þegar i stað með sva miklum blæstri [ok otruanligum harmi[13] i kviðinn, at hann þikkiz vita sinn enda kominn. Þvi snyz hann til vina sinna ok talar sva: „See her, segir hann, ek guð yðvarr skelfiz skiotliga ok[14] skylldaz at deyia, þviat guðligr kraptr æsakar falsligar sæmdir mer skômmu veittar. Ok ek, er nu kallaðiz af yðr odauðligr, gripz nu i dauða hermiliga framsteyttr. Takandi er sæ orskurðr, er guð skipaði, þviat ver lifðum lengi með sæmð ok fylldum nu [vara sælu[15], þviat her stendr hennar endir". Sem konungrinn hefir sva talat, verðr hann þegar i stað at bera heim til borgarinnar akafliga siukan [ok allan or lagi færðan[16]. En sva var hann undarliga vinsæll, at [karlar ok konur, ungir menn ok gamlir[17] gretu sárliga þessor[18] tiðindi,

1 liosin *B.* 2 skinanliga skært *tilf. B.* 3 nalægir $A^2$, *B.* 4 seed $A^2$; séd *B.* 5 *saal.* $A^2$; vitlausir *A.* 6 [skynsemdarlausir *B.* 7 [*mgl B.* 8 sva *tilf. B.* 9 [þo at *B.* 10 *saal. ovr*; girndar *A.* 11 ser $A^2$, *B.* 12 sinu *B.* 13 [ok þrota *B*; *mgl. C.* 14 til *tilf. B.* 15 [*saal. B*; varar sælur *A*, $A^2$. 16 [*mgl. B.* 17 [allir *B.* 18 þessi *B.*

flokkum rennandi fram at borginni, dreifandi sik eptir þeim[1] landskap niðr i dupt ok hárklæði, með sut ok grati biðiandi konunginum heilsu af guði. Sva stendr um .v. daga, at konungrinn kvelz i akafri pinu kviðarins, seandi niðr yfir folkit af þvi sama lopthusi, sem hann liggr i, hversu[2] allt er vesallt i angist ok akôfum harmi, hvar fyrir hann grætr eigi siðr en aðrir. Sva gengr hann aumr fram af stundligri sut [ok pinu[3] i eylifa[4] vesold æ fimtôgunda[5] ok fiorða ære sins alldrs. Þa hafði hann konungr verit .vii. ær, fiôgur undir Gaio, en .iii. undir Claudio, eptir þeim hætti sem fyrr var skrifvat.

Eptir dauða Herodis skipar Claudius cesar son hans yfir riki Juda, er Agrippa het, gefandi honum konungsnafn með ollu þvi valldi, er haft hafði faðir hans Hellt Agrippa þat riki [xx vi. ár[6], allt þar til at glæpir Gyðinga margir ok fornir eyddu landit undir þeim með sullt ok bardaga, sem siðarr mun getit verða[7].

*Siðarsti hlutr bokarinnar*[8].

37. A setta ære rikis Claudij cesaris skiptuz postolar[9] guðs[10] til ymissa[11] landa eptir þeiri[12] skipan, sem faþir himinrikis kaus hverium til handa. Blezaðr Petrus hôfðingi postolanna tok i sitt lutskipti Pontum, Galacium, Bithiniam, Capadociam ok aðrar nalægar halfur, en siðarst var hann sendr af guði i hôfutborg heimsins sealfa Romam, ok þar let hann með sælum sigri sitt blezaða lif undir Nerone cesare, er næstr[13] rikte eptir Claudium. A sama ære, stað ok degi undir sama hermanni niðingligum Nerone krunaðiz ok með pinslarvætti broþir Petri virðuligr Paulus postoli, er þegit hafði sva mikinn krapt[14] guðligrar[15] miskunnar til predicanarembættis, siþan hann snôriz, at rettliga ma til hans tala eptir orðum sæls Gregorij, at honum fylgi allr heimr æ domsdegi fram fyrir drottin. Millim annarra rikia ok storlanda, er hann hafði [sæð i til avaxtar guðs i himinriki, hafði hann predikat guðs ôrendi[16] austr i Asia minni. Var þar allt eins æ þessum timum[17] kristnin miok ung

1 þeira *B.* 2 *saal. B*; hverium *A*, *A*². 3 [*mgl. A*², *B.* 4 eilifa *B.* 5 fimtoganda *A*², *B.* 6 [tuttugu ár ok sex *B.* 7 Byriar her þridia lut sogunnar *tilf. B.* 8 *B har kun* capitulum *som Overskrift.* 9 almattigs *tilf. A*², *B.* 10 endaliga *tilf. B.* 11 ymissra *B.* 12 *tilf. B.* 13 næst *B.* 14 ôrleik *B.* 15 himneskrar *A*² *B.* 16 [predikat guds eyrendi, hafdi hann verit *B.* 17 tima *B.*

ok hvergi nærr fullkomin, þurfandi styrktarmannz, ef eigi skylldi með ollu hniga. Þessa iorð i austrhalfunni hlytr hinn kiærazti guðs elskugi gôfugligr Johannes postoli, er nu fyrirlætr Hierusalem sem allir aðrir; fyrir þa grein hina fyrstu, at hann hefir fyrir tima sent fram i fehirðzlur[1] himnarikis þann hinn gôfugliga gimstein, er hann tok forðum i sina geymslu með guðs boði, þviat sa haleiti herra sem honum fal æ hendi sina [moþur gimstein allra meyia[2], bauð henni heim i sealfs sins samkundo ok allra himneskra krapta; [gerandi hatiðliga processionem með skinandi flockum sinna borgarmanna, millim hverra stoð vel ok makliga Jacobus postoli sameıfingi orðinn[3] eilifra fagnaða fyrir þann pinslarpalm, er ver tiaðum hann tekit hafa. Leiddi hann sina moþursystur brott af goðri geymslu Johannis broþur sins i betri unaðsemd ok udauðleik himneskrar curie með sealfum guði æ rikiandi án endimarki[4]. Fyrir þa grein aðra ferr Johannes brott af Jerusalem, at algerr [miskunnartimi er miok nalægr[5] Asie minni, at hann geisli þar sem skiærr ok skinandi lampi með allzkyns blomi eylifrar sæmþar [guði til lofs ok hans heilagri kristni til endalaussar farsældar[4]. Fyrir þa þriðiu grein[6] firrizt Johannes Jorsalaborg, at hans blezaða nalægð muri eigi borgina eðr verndir[7] veiti með sinum bænum moti þeiri hefnd, sem nu nalgaz rettliga hennar sakbitna svira. Þvi kemr sa virktavin drottins austr i Asiam eptir guðligri skipan fagandi honum[8] himneskan akr [með ublekkiligum ristli[4] freosamra fyrirheita, endrsmiðandi hvervetna ok uppreisandi kristnina fyrst með ilmanda seim sinna predicanarorða, en þar næst með sva storum iartegnum ok heilagleiks verkum, [sem einum guði æ himnum ma fylliliga kunnigt vera; þviat þessi iarðligr maðr Johannes postoli[9] gekk sva fram i sinu embætti með sterkum ok haleitum guðs krapti, at naliga ma sigrut synaz mannlig nattura, en i annarri grein var hann sva miukr ok linr i sinu hiarta með várkynd ok elsku veykra manna, at þar fyrir mátti hann rettliga kallaz hinn haleitazti huggari ok hit mætazta eptirdæmi ollum þeim ok serhverium, er miskunnina þurftu at hafa[10], hvar af ver vilium segia einn æfintyr til styrkingar settra[11] greina.

1 fehirdzlu *B.* 2 [blezadu modur *B.* 3 *tilf.* $A^2$. 4 [*mgl. B.* 5 [timi er *B.* 6 sǫk *B.* 7 *saal. B;* verendir *A*; $A^2$. 8 *mgl. B.* 9 [at hann *B.* 10 þiggia *B.* 11 framsettra *B.*

*Capitulum.*

38. Blezaðr Johannes dasamligr i sinum hugarkrapti gaf þat eptirdæmi guðs þionostumonnum at lina stundum sitt erfiði ok hverfa sva nyrr aptr i guðligt embætti, at lofligt umskipti gori nað[1] ok frealsleik natturunni. Hvat er hann liosliga syndi með þeima hætti, at optliga sem hann sat æ sama stað, hefir hann hia ser til skemtanar einn hana hvitan miok fagran ok val[2] fiðraðan, leikandi ser við hann, gerandi þar af sinu hiarta gott ok mundangligt gaman. [Voru þessar[3] postolans gerðar margir menn visir, þvi at hann [falz at[4] þessu engan mann æ þeim timum sem hann villdi þat gera. Hvat er fregn millum annarra einn veiðimaðr fatækr at aurum en eigi lutlauss i skynsemdum. Hann aflaði ser matar ok husfrey[5] sinni ok bǒrnum[6] með þeiri list, at hann var manna kiænstr við boga, sva at nær misti hann alldri fugls. Honum þotti æfi sin goð, þvi at hann undi ser við mentan goða en sakaðiz ekki við fatæktina. Nu einn dag sem hann hefir uti verit til fuglveiða æ nalægum skogi viðr þann stað, sem Jon postoli sitr i, gefr hann upp sina syslu at æliðnum degi hafandi sik fram i staðinn með miklum skunda, þviat langan tima hefir hann borit mikla forvitni, hvat þvi muni vallda, er[7] hann heyrir senniliga flutt, at sva goðr maðr ok geðfastr, sem postolinn er, skuli fara með [nǒckurum leik eða lettis gamanbrogðum[8]. Nu sem hann kemr fram at postolans herbergium, biðr hann ser orlofs til inngǒngu, ok þat veitir skiotligha sa blezaði herra, er[7] fyrir sitr. Gengr þa veiðimaðr inn með þeima hætti, at hann helldr æ boga sinum ok ǒrvamæli[9], þviat hann vill eigi sin tol lata hendi fra[10] ganga; hneigir hann postolanum ok heilsar upp æ hann, setz siðan niðr ok slær[11] boganum flautum niðr á golfit fyrir[12] fætr ser; sitr sva þegiandi um stund ok litaz um. Er honum nu seon sǒgu rikri um þat, er hann forvitnaði, þviat rett i þenna tima hefir postolinn hia ser fuglinn þann væna til skemtanar. Hvar fyrir veiðimaðrinn fylliz nyium hugrenningum sinnar forvitni ok talar sva: „Herra, segir hann, þat er orindi mitt higat, at verða þess viss, sem mik hefir lengi forvitnat, hver skynsemð yðr[13] gangi til þess, at þer hafit hia yðr[14] þat litla creatyr, þar sem ek hugði, at þer mundit umæðiliga biðiaz fyrir natt[15] með degi.“ Sem hann

1 nadir *B.* 2 vel *øvr.* 3 [Verda þessarrar *B.* 4 [leyndi *B.* 5 husfreyio *B.* 6 þeira *tilf. B.* 7 sem $A^2$, *B.* 8 [nockorn leik eda letlig gamanbrǫgd *B.* 9 ǒrvameli *B.* 10 firir *B.* 11 skytr *övr.* 12 undir *øvr.* 13 *mgl. B.* 14 til leiks *tilf. B.* 15 nott *B.*

hefir sva[1] talat, sier postolinn bliðliga [til hans[2] þegiandi litinn punct sva sem hugleiðandi, hversu viðrkvæmiligaz væri veiðimanninum svaranda. Eptir þat talar hann sva: „Vinr minn, segir hann, hverr ertu, er mik spyrr þessa lutar?“ Hinn svarar: „Ek er einn fatækr maðr aflandi mer matar ok minum bórnum með handa erfiði.“ Postolinn svarar: „Hveria iðn leggr þu mest fyrir þik at hialpa bórnunum?“ Veiðimaðrinn svarar: „Se herna,“ segir hann, ok visar hendinni niðr til bogans, er la[3] æ golfinu, „her er minn afli ok atvinna, þenna boga bendir[4] ek dagliga með mórgum sveita.“ Postolinn svarar: „Ertu kiænn maðr við boga?“ Hann svarar: „Jæ, herra! Sialldan hefir fugl átt at hælaz[5] við boga minn.“ Postolinn mællti þa: „Tak upp [boga þinn[6] ok lát mik sea.“ Ok sem þat er gert, segir hann sva i annan tima: „Ek ser[7], at þat er vænn bogi ok veiðimannligr, en hvi er strengrinn sva linr, at hann hefir nærr ekki hallda[8].“ Fuglarinn svarar: „Herra, segir hann, þat er veiðimanna háttr at lina strenginum, i hvern tima er þeir gefa upp at skiota, þvi at eigi ma oðruvis vera.“ Postolinn svarar: „Gef mer þar grein til, hvi bogastrengrinn ma eigi iafnan standa með sama hætti“ Fuglarinn svarar: „Ef bogastrengrinn stæði iafnan sem harðaztr, stykki hann ok þyldi eigi. Boginn er ok i sinni grein nauðsyniaðr, at strengrinn liniz, þviat hann verðr uppbendr [þvi betr[9] ok skarpari[10], sem hann venz eigi i sama bug hveria stund fra[11] annarri“. [Postolinn svarar þa brosandi[12]: „Nu[13] hefir þu, broþir minn, sealfr leyst þa spurning, er þu fram settir mer i fyrstu. Lattu þinn bogastreng skiliaz fyrir mina natturu, at sva sem þu sagþir honom ofboðit verða iafnan harðr at vera, ma eigi mannlig nattura þvi orka at hallda æ iafnan sama striðleika. Sva ok sem bogi þinn er nybendr þvi órvari, sem hann hviliz betr i linan strengsins, er mannzins hugskot þvi betr tendrat i lystugleik goðra verka, sem þat mæðiz miðr[14] i sama þunga.“ Sem veiðimaðrinn hefir heyrt sva haleita skynsemi af postolans munni framborna ok þydda af sialfs sins orðum ok athófnum, fellr hann fram ok þackir gerir þeim agiæta guðs vin fyrir oll sin andsvór ok litillæti. Gengr siðan ut af herberginu með andligri gleði aptr til sinnar iðiu þiggiandi postolans blezan at skilnaði.

1 þetta *A²*; þann veg *B*. 2 [moti honum *A²*, *B*. 3 liggr *A²*, *B*. 4 bendi *B*. 5 hølaz *A²*. 6 [bogann *B*. 7 se *B*. 8 at hallda *B*, *C*. 9 [betri *B*. 10 [þeim mun betr *C*. 11 af *B*. 12 [Postoli drottins vars brosir þa litt þat ok talar sva *B*. 13 *Her beg. Fr.III⁴*. 14 siðr *A²*, *B*.

allra þeira valldzmanna, er hans boðorðum hlyða[1]. Hvar með blezaðr Johannes setr þegar aðra grein, segiandi at hans dauðasár er grætt, þviat Antikristus lætr sem hann risi af dauða eptir .iii. daga liðna, ok siðan mun hann fiandr lata bera sik i lopt upp, til þess at allir menn ætli hann munu upp stiga [til himna[2], ok þvi munu þeir lofa hann ok dyrka, sem Johannes segir in Apocalipsi, ok fyrr var fram sett, at aull iorð undrar[3] dyrit ok dyrkar drekann, er þvi gaf sva mikit valld, þviat allir menn vegsamandi Antikristum sem af dauða risinn, verða blindir, þviat þeir dyrkaðu drekann, þat er[4] diöfulinn sialfan, þa er þeir vegsama[5] dauðasoninn, sva sem i guðdomi upphafinn, þviat Antikristus er fiandans son eigi fyrir natturu helldr i eptirliking. Þann tima man heilug cristni ekki gera iartegnir, þaðan af mun hun fa mikinn kinnroða ok raun akafliga[6], þviat Antikristus man hvat gera eptir sinum vilia, hann mun lata tre blomgaz skiott ok skiotliga þorna, sioinn ruglaz ok skiotliga kyrraz. Natturur mun hann um snua i ymissar figurur ok umskipta, dauða menn mun hann uppreisa i augliti allra manna. Þaðan af segir hinn heilagi Gregorius: Hyggit at gerla[7] ok virðum[8] með sialfum oss, hversu mikil freistan þa man i hiarta kristinna manna vera, er pinslarvattr er kvalðr, ok sa sem kvelr, gerir ymisligar iartegnir. Af þessum hætti bleckingar Antikristi segir David: Jnsidiatur in abscondito qvasi leo in spelunca sua, þat er sva at skilia: hann umsitr i leyndum stað sva sem leo i sinum helli. Rettliga kallaz Antikristus sem leo i helli, þviat i honum er bæði styrkleiki framkvæmþar ok prettr bleckingar, merkiz fyrir leonem styrkleiki, en fyrir hellinn merkiz prettrinn. Meðr þriðia hætti man hann[9] bleckia folkit[10], þat er at skilia girniligum fegiöfum, þviat hann man eigi fe skorta at ausa brott til beggia handa, sakir þess at honum ero kunnig oll folgin fe, hvar sem liggia. Sva[11] gerir hann sina vini[12] mektuga ok veralldar rika [kallandi þeira sælu sanna[13]. Sva dregr hann [til sin[14] sterka hôfðingia ok mart annarra manna, er veralldar glysit elska, en verpa sinum vapnum ser [at baki[15] i guðligu striði ok bardaga. A .iiii.[16] hatt mun Antikristus upp risa moti kristninni [með snarpazta ufriþarsverði[17], nauðgandi þa með allzkyns kvolum[18], sem eigi verða blektir [með fyrr greindum .iii.

1 fylgia *B.* 2 [*tilf. B, C.* 3 undraz *B, C.* 4 at skilia *tilf. B.* 5 lofa *B.* 6 *mgl. B.* 7 segir hann *tilf. B.* 8 virdim *B.* 9 Antikristus *B.* 10 mannfolkit *B*; mannkynit *C.* 11 Þvi *B, C.* 12 menn *B, C.* 13 [*mgl. B, C.* 14 [*saal. C;* undir sik *B; mgl. A.* 15 [a bak *B.* 16 fiorda *B.* 17 [*mgl. B.* 18 pislum *B.*

hattum eðr til hans dregnir[1] orðslægðum, iartegnum eðr fegiôfum. Sva mikil pinsl ok ógn man þa yfir standa, sem alldri fyrr i heiminum, þviat Antikristus man grimmari vera en nôckurr uvin eðr ofsoknarmaðr fyrir honum. Hvat er sva skyrir hinn sæli Gregorius, at eigi finnr Antikristus nôckur þau pinslarkyn, at hinir fyrri hans limir ok ôrendrekar hafi eigi aðr fundit, [þviat bæði kunna þeir æ hals hôggva ok krossfesta, saga i sundr kvika ok með iarnkrokum i gegnum grafa, skogdyrum beita ok i diupar holur iarðarinnar kviksetia[2], af borgum[3] eðr biôrgum háfum til beinbrotz ok dauða fram steyta, i sio eðr vôtnum grimmliga drekkia, fundu þeir ok at brenna menn i graðugum loga alt til fôlska[4]. Nu þa, hvat finnr Antikristus þessu grimmara[5], nema þat er sialfr sannleikrinn vattar in ewangelio: Villukristar[6] ok villuspamenn munu upprisa, segir hann, ok gera[7] mikil takn, sva at valdir menn munu i villu leiðaz, ef þat ma verða. Þvi er ofsokn Antikristi frabær hverri annarri, at nu gera goðir menn iartegnir, þott þeir þoli illra manna ranglæti, en þann tima gorir sa taknin, sem drepr ok deyðir pinslarvattinn, en sa engin, sem þolir. Heðan af segir Johannes in Apocalipsi talandi með figuru af varum herra Jesu Kristo: Pedes eius similes auricalco sicut in camino ardenti, þat þyðiz sva: Fætr hans ero likir gulli rennanda i ofni brennanda. Fyrir fætr Kristz skal her skilia hans siðarstu limu[8], þat er hans valda menn i enda heimsins, er skiraz sem gull i ofni, þat er brennandi ofsokn Antikristi. Þviat sva sem nefndr ufriðr er hverium meiri ok matkari, sva ero pinslarvattar þann tima dyrðligri, sterkari ok staðfastari en [nôckurr hafi aðr verit i verolldinni[9]. Antikristus man frammi hafva aull kvalakyn, [þau sem nefnd ero, ok þau fleiri[10] sem finnaz mattu, akafligaz kveliandi cristna[11] menn i þeim halfum ok heruðum, sem at luta Jorsalaborg, er drottinn varr var krossfestr i. Ok sva sem glosa segir in[12] Apocalipsin Johannis, man su freistni eigi at eins ganga yfir nôckurar halfur, helldr mun hun geisandi[13] fara ok kvelia allan heim, þviat diôflar, sem nu ero bundnir, munu þa leystir verða. Val truaþir menn munu þann tima eigi orð predica, þviat þeir ero halldnir ok hafðir sva sem bannsettir. Þeim skal eigi selia nauðsynliga luti, ok engin sva diarfr, at af[14] þeim

1 [eda til hans dregnir med fyrr greindum þrimr hattum *B*. 2 kvika setia *C*. 3 borgarveggium *C*. 4 ausku *C*. 5 [*mgl. B*. 6 *saal. B, C*; villucristr *A*. 7 gefa storliga *B*. 8 limi *B, C*. 9 [nockorir fyrr *B*. 10 [*mgl. B*. 11 rettkristna *B*. 12 yfir *B*; super *C*. 13 geislandi *B*. 14 at *B*.

kaupi, nema sa, er falt lætr eitthvat, hafi mark Antikristi, annattveggia munnzins iatning eða [þat letr[1], at æ standi hans snilldarverk. Meðr greindum fiorum hattum man Antikristus svikia[2]. Illa menn mun hann draga fyrir glysligar fegiafir, goða menn fyrir pinslir, einfallda menn ok uvitra fyrir predican ok iartegnir. Hvaðan af signaðr Johannes segir in Apocalipsi: Cauda eius trahebat tertiam partem stellarum celi et misit eas in terram. Þat norænaz sva framlangt: Hali hans dro hinn þriðia lut af stiornum himinsins ok sendi þær æ iorð. Þessa figuru framsetta munu ver eigi framarr uppluka, [til marks um þat[3] at ver ætlum oss eigi þa hôfutdul at ganga i diupazta verk Johannis með nôckurri glosu, helldr skulum mer[4] æ lita, hvern enda hefir þat grimma strið, sem nu hefir verit af sagt [um rið[5].

*Capitulum.*

53. Helias ok Enoch munu predica Juðum[6], sva lengi sem Johannes setr in Apocalipsi, þat er [.m. daga .cc. lx. ok vi[7], þat ero samanlesit .iij. ær, sem drottinn varr Jesus Kristus predikaði. Þessir ero tvau[8] olivatre[9] smurð með helgum anda ok .ii. kertistikur með fôgru liosi eptirdæmis. A þessa[10] guðs vini mun Antikristus grimmaz sva miok um siðir, at hann mun drepa þa baða i Jerusalem, ok likamir þeira munu liggia æ stræti .iii. daga ok[11] nætr ok halfan dag, þviat engin mun þora at grafa þa[12] fyrir ótta Antikristi. En þeir sem þa drapu, munu vera harðla glaðir, þviat þa ero at velli lagþir þeira uvinir. Eptir .iii. daga liðna at hædegi ens fiorða munu þeir Enoch ok Helias upprisa, ok vegandar[13] þeira munu þilika rôdd heyra: Enoch ok Helias, stigit upp hegat! Ok i biôrtu skyi[14] munu þeir uppstiga til himna. Eptir framferð þeira til guðs mun Antikristus rikia eigi meirr en .xv. daga. En allz sem Johannes segir in Apocalipsi [xl. manaði ok .ii.[15], þat er samanlesit halft .iiii.[16] ær, hvat er miskunnsamliga gerði almattigr guð [meðr sinum almætti[17], at hann bannaði[18], at sva bolvaðr timi [væri lengr[19], at eigi fyrirfæriz allt folk[20] i ofsoknarbruna Antikristi.

1 [*saal. B, C;* hann lætr *A.* 2 menn *tilf. B.* 3 [þvi *B, C.* 4 ver *B.* 5 [*mgl B.* 6 sem fyrr var sagt *tilf. B* 7 [þusundrat daga tvo hundrat sextigir ok sex *B.* 8 *saal. C;* tvô *B; mgl. A.* 9 olifutre *B,* oliutrie *C.* 10 tva *tilf. B.* 11 .iii. *tilf B, C.* 12 þeira likami *B.* 13 *saal. A, B;* banamenn *C.* 14 sky *B.* 15 [fioratigi manada ok tva *B.* 16 fiorda *B.* 17 [*mgl. B.* 18 med sinum almætti *tilf. her B.* 19 [væri leingri *B;* standi leingr *C.* 20 holld *B.*

*Antechristur mun vera drepinn.*[1]

54. Antikristus mun vera drepinn i fiallinu Oliveti, sitiandi drambsamr i sinum[2] velldisstoli i þeim stað eðr nærri þeim, er guð steig[3] upp til himna. Ok þo at hann se [drektr niðr eðr drepinn[4], man drottinn eigi skiott koma til domsins, helldr man sva verða, sem segir in glosa super Danielem, at gefnir munu .xl.[5] daga ok fimm goðum monnum til naða en[6] rangsnunum til iðranar ok yfirbotar. En engin veit, hversu langr timi þaðan er til domsdags ok enda heimsins. Eptir dauða Antikristi munu hans menn ser konur fæa ok sva segia: „Þo at hôfðingi varr se dauðr, þa megum ver þo glaðir vera eigi þvi siðr.“ [Ok þa er þeir ero i sinum tignaði, mun koma yfir þa skiotr dauði vaveifliga[7]. Eptir liðna ofsokn Antikristi munu Gyðingar ok kristnir menn meðr iafnri sæmð[8] lifa ok samþyckir vera Mun þa guðs cristni i goðum friði hvilaz allt til enda veralldar, þviat Antikristo drepnum mun með ollu eyðaz diôfulsins flærð ok [allr grimmleiki[9].

*Capitulum.*

55. Þessi bardagi, er þeir munu hallda millum sin Antikristus ok Enoch ok Helias, er hinn xi.ti af þeim .xii. orrostum, er heilog ritning utskyrir at vorðit hafi[10] ok verða munu[11], aðr[12] varr herra Jesus Kristus leiþir inn sina bruði[13] almenniliga kristni i eilifan[14] fagnat. Hinn fyrsti bardagi var i himinrikis hôll millim hæsta keisara ok mesta vikings, þa er vikingrinn villdi fa ok gripa keisaravalldit ok verða likr hinum hæsta. I þessum bardaga samþyktiz drotningin, þat er engillig nattura, vikinginum ok [fyrirlet bruðgumann[15] en samtengðiz horkarlinum[16]. Ok fyrir þa sôk var bæði horkarlinn ok horkerlingin rekin i [myrkvastofu helvitligrar utlegþar at eilifu[17]. Af þessum hordómi segir Davið guði til lofs: Perdidisti omnem qui fornicatur abste. Annarr bardagi varð[18] undir risum millum sona guðs ok sona mannanna, þat er at skilia millum Abel ok Seth ok hans afkvæmis ok Kain ok hans [afkvæmis eðr[19] afspringis. Kallazt þeir synir guðs, sem af Seth ero komnir, en þeir synir manna, sem af Chayn ero komnir. I þessum bardaga

1 *Overskr. C.* 2 sinu sæti ok *B.* 3 ste *B.* 4 [drepinn ok nidr drektr *B.* 5 vera fiorir tigir *B.* 6 *saal. B, C;* ok *A* 7 [*tilf. B, C.* 8 sidsemd *B.* 9 [grimd *B.* 10 hafa *B* 11 mune *C.* 12 sanur brudgumi *tilf B.* 13 þat er *tilf. B.* 14 himinrikis *tilf. B.* 15 [*saal B, C*; fyrirlatnum bruðgumanum *A.* 16 *saal B, C*; horkarlinn *A.* 17 [eilifa utlegd helvitligrar myrkvastofu *B* 18 var *B*, C. 19 [*mgl B, C.*

fell Abel merkismaðr ok fekk sigr ok himneska koronu. Lyktaðiz þessi bardagi i Noa floði. Þriði bardagi var undir þeim er smiðaðu stôpulinn Babel millum frelsingia ok þræla. Þessi bardagi byriaðiz æ Cham ok Sém, ok endaðiz þa er tungnaskipti varð. Fiorða strið varð[1] undir hôfutfeðrum millum þeira manna, er toku umskurðar-skirn, ok þeira, sem eigi toku. Byriaðiz þessi bardagi af Abraham, en endadiz þa er Pharao konungr ok allr hans herr druknaði i hafinu rauða. Fimti bardagi var undir gefnu lôgmali millim guðs þionostumanna ok heiðingia. Þessi byriaðiz æ Josve[2], en endadiz undir hinum friðsama konungi Salomone. Setta strið var undir konungum ok spamonnum millum Gyðinga ok Babilonios. Þessi bardagi byriaðiz æ Roboam ok Jeroboam, en endaðiz undir hinum friðsama keisara Augusto. I þessum bardaga fellu formenn primitive ecclesie, þat ero spamenn, ok fengu sigr ok fagrliga koronu. Þessir .vi.[3] bardagar urðu aðr Cristr let beraz, en siðan aðrir .vi. Hinn fyrsti bardagi af þeim varð undir miskunnartima millum bruðgumans ok horkarlsins, þat er millum Cristz ok uvinarins. Þessi bardagi byriaðiz æ hinum illa Herodi ok saklausum sveinum, en endaðiz i blotskapar niðrbrotning ok uppkveyking guðspialligrar truar. I þessum bardaga frômdu þeir holmgôngu bruðguminn ok horkarlinn æ freadag[4] langa, þa er Kristr i gegnum lagði fiandann með krossins broddi ok batt andligum bôndum. Eptir þat[5] sendi hann sina riddara aptr[6] at kalla borgir ok bæi ok kastala, er vikingrinn hafði stolit, rænt ok eignaz með langri heíð; þat er at skilia, þa er herra Jesus greip sina menn af helvitzkum byrgium, sem fyrr var skrifat, en sendi sina postola at predica sitt orð i borgum ok bæium, kastolum ok kauptunum, [heruðum ok ôllum fiorum hôfuðáttum[7]. Annarr bardagi gerðiz millum kristinna manna ok heiðingia[8]. Þat strið byriaðiz af Nerone keisara ok Symone mago moti Petro postola ok Paulo postola broður hans i sialfri Roma, en endaðiz undir Constantino mikla keisara. I þessum bardaga fell merkismaðr ok frumvattr cristninnar hinn heilagi Stephanus ok allir hinir hæstu hennar hôfðingiar, þat ero guðs postolar ok hinir agiætuztu byskupar. Þeir fellu senniliga ok fengu sigr [frægiligan meðr hárri virðing ok[9] dyrþarkoronu. Þriði bardagi varð undir guðs iatarum milli cristiligrar truar ok Arrium prestz hins versta villumannz. Byriaðiz þetta strið i Alexandria æ Egiptalandi

1 var *B;* giaurdist *C.* 2 ok Amalech *tilf. B.* 3 sex *B.* 4 fostudaginn *B.* 5 þann sigr *B.* 6 *tilf. B, C.* 7 [um allar fiorar heimsins haufudættir *C;* *mgl. B.* 8 heidinna *B.* 9 [*mgl. B.*

milli Alexandrum erkibyskups ok Arrium, en endaðiz æ almenniligu þingi i Miklagarði. I þessarri orrostu barðiz einkar frægiligaz[1] Athanasius byskup Alexandrinus, siþan Jeronimus ok Augustinus, allir framir menn undir andligum herneskium, hverium viðrkvæmiliga samlagaz hinn blezaði Ambrosius, er [ôllu Italia[2] snôri til guðs fra villu Arrij. Hinn fiorði bardagi geriz nu dagliga milli cristinna manna goðra ok illra. Þessi bardagi byriaðiz æ Juða Scharioth ok Petro postola ok hefir staðit ok man standa millum ranglatra[3] ok rettlatra, millum siðsamra ok ribballda. Fimti bardagi mun sa verða, sem[4] fyrr var greindr millum Antikristum ok tveggia hertoga, bruþar guðs ok drotningar, þat er at skilia Helias ok Enoch, er kallazt hôfðingiar kristninnar, falla þeir i þvisa striði ok mikill fioldi goðra riddara með fôgrum sigri, sem fyrr var greint [i þessu mali[5]. Setti bardagi mun verða millum konungs eilifrar dyrþar ok konungs hins mikla ofbelldis, sva millum engla ok helvitzkra diôfla. Til þessa bardaga mun koma[6] himnakonungr af miklu borg Jerusalem meðr allan sinn her ok hirðsveitir utoluligra krapta, ok mun elldi skiota[7] iarðliga Babilonem ok brenna upp alla, þat er er at skilia heim þenna, er kallaz diôfulsins borg, ok hann mun hennar konung lægia ok undirleggia, þat er sialfan uvininn með ollum sinum monnum ok árum niðr steypa i diupuzta dyflizu brennanda elldz ok hins fulazta brennusteins. En sina bruði, þat er heilaga kristni, mun hann inn[8] leiða i bruðhvilu[9] eylifrar dyrþar [ok korona[10] meðr fagnaði himneskrar pryði.

*Capitulum.*

56. Þat kallaz vera endir heimsins[11], er várr herra[12] kemr at dæma heiminn. Þar af segir David: Ignis ante eum[13] precedet, [elldr mun fara fyrir honum segir hann[14]. Elldr þessi man vera sva mikill, at hann man hafa embætti .iiii.[15] ellda, þat er at skilia, at helvitiselldr man pina illa menn, hreinsanarelldr man brenna syndir af goðum monnum, iarðligr elldr mun uppbrenna[16] oll kvikvendi ok likami allra manna, þeira sem þa lifa, sva at þeir munu at osku verða, loptligr elldr mun reinsa hôfuðskepnur ok

1 frækiliga *B.* 2 [alla Italiam *B.* 3 manna *tilf. B.* 4 er *B.* 5 [*mgl. B.* 6 fara *B.* 7 i *tilf. B, C.* 8 *mgl. B, C.* 9 *saal. B, C*; bruðhirðzlu *A.* 10 [*saal. B*; ok koronu *A*; *mgl. C.* 11 þessa heims *B.* 12 Jesus Kristus *tilf. B.* 13 ipsum *B, C.* 14 [*tilf. C.* 15 fiogurra *B.* 16 uppeyda *B*; eyda *C.*

endrnyia. Fyrir þenna elld mun upp brenna aseona[1] iarðarinnar, sva at þessa heims figura man fyrirfaraz. Þessi elldr mun hafa upphaf, miðskeið ok enda: Upphaf, þviat hann man fyrirfara æseonu domarans, þa mun verða allt saman reinsan rettlatra, pining illra ok uppbrunning[2] allra likama; miðskeið, þviat þa skiott mun verða upprisa likamanna ok tilkvama domarans til domsins, ok þa mun brenna allr heimrinn umhverfis[3]; enda, þviat endaðum dominum þa[4] man elldrinn allr fylgia ok fullgera vilia ok orskurð domarans Ite maledicti in ignem eternum, þa mun elldrinn i vefia, draga ok steypa illa menn i helviti. Elldr þessi man reinsa .iiii. hôfutskepnur, iorð, vatn, lopt, elld; iorð, þviat af henni man brenna þungi ok dimma; vatn, þviat af þvi man brenna frost ok kulði; lopt, þviat af þvi man brenna allr myrkleiki; elld[5], þviat [hann man hreinsaz af ollum meinsômum[6] bruna. Himinn er hreinn, ok þvi mun hann ecki hreinsaz, helldr endrnyiaz, þat er at skilia, at hann mun af letta sinni ræs ok umrenningum[7], sva framt at hann mun kyrr standa ok staðfastr ok vera biartari en nu. Þa mun sol standa i austri, en tungl i vestri, þar sem þau voru skôput. Mun þa sol vera .vii. lutum biartari en nu, ok þa mun vera eylifr[8] dagr en engi nátt[9]. Þessi reinsan ok endrnyian mun eigi verða, meðan syndugir menn ero i heiminum, en þegar eptir dominn, sem þeir ero byrgðir i helviti. Mun iorðin verða sva slett, fôgr ok biort sem cristallus. Loptit mun verða miklu biartara ok reinna en nu, þviat þa mun eigi vera sky ne vindar, eigi regn eðr sniorr, eigi myrkr eðr þoka, eigi hagl ne ellding eða reiðarþrumur. Vatn ok elldr man ok hvartveggia reint, þviat vatnit man skiært vera[10] ok gagnsætt, en brott mun falla af þvi frost ok kuldi. Elldr mun ok i ser hafa [lios ok[11] birti, en [brott man guð senda af honum meinsamligan loga[12]. Þaðan af segir David: Vox domini intercedentis flammam ignis. Af þessum lutum birtiz, at himinn ok iorð mun um liða sva sem [mynd ok figura at veru[13] ok undirstôðu. Af allri hofutskepnu mun gersamliga[14] brott falla allt[15], þat er til meins er ok þvinganar[16], en þat mun allt vaxa ok aukaz, sem til gleði er ok fagnaþar. Ok[17] þvi segiaz allir lutir endrnyiaz i mannzins endrnyian, sem ritat er: Ecce nova facio omnia.

1 asiana *B.* 2 *saal. A, B;* brune *C.* 3 umhverfum *B.* 4 *mgl. B.* 5 elldr *B.* 6 [af honum mun brenna ok hreinsa allan meinsaman *B.* 7 umrenning *B.* 8 eilifr *B.* 9 nott *B.* 10 verda *B, C.* 11 [*tilf. B, C.* 12 [eingan bruna *B.* 13 [at mynd ok figuru *B.* 14 allt *B.* 15 *mgl. B.* 16 þynganar *B.* 17 Af *B, C.*

Þa er allr heimrinn reinsaz ok endrnyiaz, þa mun[1] goðr maðr oðlaz sva mikla dyrð ok birti, at hann mun skina i likama sem sol, er þa er .vii. lutum biartari en nu, ok i salinni verða[2] likr englum, sem ritat er, at Kristr man endrnyia fyrir helgan anda likama vars litillætis sammyndan likam[3] sinnar birti. Mun hann taka þa einkannligar .vij giafir i likam, sva at likaminn mun þa verða biartr, opinanligr, gagnfæriligr, skiotr, sterkr, heill ok langlifr. Hann mun verða biartr, þviat hann mun verða .vii. lutum biartari en sol; hann mun verða opinanligr, sva þo at honum væri kastat i brennanda helvitis elld, þa fengi hann þar af enga pinu ne bruna, sva sem .iii. saklausir sveinar voru sendir i brennanda ofn; hann mun verða gagnfæriligr, þviat dyrðligr likami mun i gegnum fara odyrðliga likami sva sem gler, stein eðr tre, ok þo uskoddum veranda[4] [hvarumtveggia likamanum[5]; hann mun verða skiotr, sem segir Augustinus, at hvar sem ǫndin vill, man þa þegar vera likaminn; hann mun ok verða styrkr, sva at hann man mega fæal biǫrg ok fioll or stað; hann man ok verða sva vel heill, at alldri mun hann verða krankr ne siukr, ok engis hattar særðr, [þo at hann se sleginn eðr hǫgginn, mun hann eigi sárt kenna, helldr en solar geisli[6]; hann man ok verða langlifr, þviat [af þeim, sem er guð eilifr faðir varr herra Jesus Kristus, mun hann sva lifgaðr ok honum eilifliga samtengðr[7], at hann man alldregi mega deyia. Sva mun ok goðr maðr taka i salinni margar giafir. Hann mun fa sva mikla [speki ok[8] vitzku, þa er hann serr sialfan guð, sva sem hann er, at hann mun vita ok skilia allt þat, sem hann þarf: vilia þat allt, sem guð vill, en þat eigi, sem hann vill eigi; hann mun þa ok vita hugrenningar annars, eptir þvi sem sa vill birta. Ast ok vinattu mun hann faa sva mikla, at hann mun vera elskaðr af guði sem son, en af englum sem broþir. Samþykki mun þar vera sva mikit, at engin mun gera moti annars vilia, mun hann sva gleðiaz af annars fagnaði sem sialfs sins. Sæmð ok virðing mun hann sva hafa af guði, at hann mun vera dyrkaðr af guðs englum. Naðir ok gleði mun hann hafa ok frið eilifan, þviat fiandr ok uvinir ero ǫngir. Aufund ok illzka er þar engin, fatækt, harmr ok hrygð er þar engin, helldr eilif gleði ok skemtan. Hinn mesti fagnaðr er þar i ollum lutum æ

1 skal *B.* 2 mun hann *B.* 3 likama *B.* 4 *mgl. B.* 5 [bæde sialfum sier og þeim likama, sem hann i gegnum fer *C.* 6 [*mgl. B.* 7 [hann mun sva lifgadr ok varum herra Jesu Kristo samteingdr *B.* 8 [*tilf. B.*

alla vega. Goþir menn fagna, er þeir sia allzvalldanda guð upp yfir sik ok hans sætu moþur[1]; þeir fagna, er þeir sea niðr undir sik nyian himin ok hans pryði; þeir fagna, er þeir sia sik vorðna sva dyrðliga ok fagnaðarsæla i sal ok likam; þeir fagna þvi, er þeir sea umhverfis sik af felagskap ok samlagi engla guðs ok heilagra manna. Þar man þickia heimska vitzka Salomonis, er var allra manna vitraztr; vanmattr styrkleikr Samsonis, er var allra manna styrkaztr; liotleikr fegrð Absalonis, er var allra manna friðaztr; fatækt riki Augusti keisara, er var manna rikaztr. Heilagra manna fagnaðr er sva mikill, at eigi ma mælaz, sva margfalldr, at eigi ma telia, sva nógr, at eigi ma eyðaz, sva dyrþarfullr, at eigi ma elldaz.

*Capitulum.*

57. Af þessum eilifa fagnaði, sem nu hefir greindr verit um rið, segir hinn blezaði Johannes postoli meðr diupum skygnleik i sinni bok Apocalipsi eigi minnr [ok liosligarr[2] en fyrr af ógn ok illzku Antikristi. Þvi at hann vattar sik hafa sieð hirðsveit[3] himnakonungs at upploknum durum hallarinnar, hvat er eigi þarf synaz undranarvert, þo at sva biartr verðleikr sæi valþa menn guðs i himinriki, þá sem fram hôfðu gengit i goðu lifi guðs boðorða ok lyktat sina daga með sælum enda, sva hverir, sem yfirvalldz drottinn kaus þeim til handa. En þat ma synaz einkannligt, at þessi Johannes, sem sat i utlegð, dauðligr maðr a iarðriki[4] enn verandi, þo at goðr væri, skylldi sik sialfan[5] sea i arnar liki standanda annan veg hia guðdomsins hasæti, sva at hann sông lof ok dyrð eilifum guði udauðligum fyrir[6] allar veralldir. Ok hvat hefir þetta at þyða utan guðligt valld ok ubrigðiligan almatt, at hans gôfugligar giorðir ok ægiætuztu[7] skipanir ero framkvæmþar i hans ôgliti[8], þo at eigi se framrunninn stundligr timi, at þær birtiz her æ iarðriki. Nu þa, hvat hefir þessi ôrn at merkia, er Johannes serr i spádoms anda sialfum ser til heyra, utan hôfutgiptu nôckura, sem honum mun enn skiott til handa bera, þo at hun se folgin fyrir veralldligum augum þann[9] tima, hvat ver skulum byria þessu næst meðr drottins vilia, seandi, sem nauðsyn beiðir, at astvin himnakonungsins kallaz heim af utlegð til betri naða, af Pathmos til greindrar Asiam, þviat nu hit fyrsta þarf kristnin

1 mædr *B.* 2 [*mgl. B.* 3 hirdsveitir *B*, C. 4 iordu *B.* 5 *tilf. B.* 6 yfir *B.* 7 agætar *B.* 8 augliti *B.* 9 þenna *B.*

hans nauðsynliga. [Þat fyrsta er sva skilianda, at[1] heilög cristni guðs þarf nu meirr en nöckurn tima fyrr, at blezaðr Johannes styði hana, sakir þess at .iij. fyrirrennarar Antikristi hafa laupit i erfð hins krossfesta austr i Asia sva sem i sauða dun at fragripnum hirðinum. Fyrsti af þeim dauðans sonum heitir Marcion, annarr Kerintus[2], þriði Ebion með oðrum lagsmonnum ok vándum kompanum, allir samt meirr en bannsettir i þeiri fleckan, sem þeir gerðu kenningum Johannis með falsaradomi ok fulum ætrunaði. Su var þeira kenningh, at þeir sögðu guðs son öngvan verit hafa, fyrr en Maria [guðs moþir[3] varð getandi. Þvi goriz hin hæsta nauðsyn, at guðs son i himinriki leiði sem skiotaz heim af utlegðinni þann, sem[4] niðr kann briota þeira[5] guðlastan, bæði framsetta honum til meingerþar ok allri hans hiorð til tions ok tapanar.

## *Af Domiciano*[6].

58. Domicianus keisari, er utlægði blezaðan Johannem, rikti .xiii.[7] ær, [þvi æ[8] hæðiligarr stiornandi sinu valldi, sem hann lifði lengr ok meirr dro at hans endadogum, sem i þvi ma fyrst[9] marka, at æ siðarsta áre sins rikis ofsækir hann Johannem postola, sem fyrr var skrifat, allt til utlegþar i Pathmos Her meðr likiz hann i sinum gerðum .ii. hinum verstum monnum Herodi Aschalonite ok hinum niðingliga Nerone. Herodi likiz hann i þeiri grein, at hann ottaz allan þann attboga, sem kominn er[10] fra David konungi, þviat hann vissi, at konungr Gyðinga var þeirar ættar, [ok þvi vill hann eyða þess hattar folki, at hvarki þeir, sem nu lifa, ne þeir, er fyrr höfðu komit i verolldina, megi reisaz til rikis moti honum ok svipta hann sæmdum[11]. Fyrir þa sauk lætr hann drepa til beggia handa allan þann lyð, sem fannz i kyni David, [þa alla fyrst ok fremst, sem honum þotti nöckurrar uppreistar at van fyrir rikdom eðr atgorvi[12]. Neroni liktiz hann i ofsokn ok illzku til almenniligrar guðs kristni, [ok þar með i ollum niðingskap ok fullifi, sem verst er lesit af Nerone[11]. Her með var hann sva solltinn i fiarægirnd[13], at hann drepr göfga menn ok agiæta i sialfri Roma, en utlægir suma fyrir utan rettindi [æu sauk ok allri skynsemi[11], takandi þeira godz i sinn garð, þar til at sva margfalldar hann yfir sialfan sik bæði guðs reiði ok manna, at honum

1 [þesse oıd eru svo skiliande at *C*; þvi at *B*. 2 *saal. B*; Caricius *A*. 3 [drottning *B*. 4 er *B*. 5 þa *B*. 6 *Overskr B*. 7 fimtan *B*. 8 [æ þvi verr ok *B*. 9 *mgl. B*. 10 var *B*. 11 [*mgl. B*. 12 [ok nockorrar uppreistar var at van *B*. 13 fiaragirni *B*.

þoliz með öngu moti. Þvi riss upp sealfr senatus i Roma i moti honum [at drepa[1] hann svivirðiligan i sinum glæpum. Her meðr er romverskum hôfðingium sva hugstæð hans illzka vorðin, at þeir gera lôgtekit [með valldi þess hins agiæta keisara, er nu var nyliga kominn[2], at allar þær giorþir betri ok verri, sem Domicianus hafði fram farit i sinu riki, skulu nu[3] unytar ok engu hæfar, a þann hatt at allar þær sæmþir, volld[4] ok riki, sem hann hefir skipat hverigum, skal nu i stað brott gripaz ok auðrum veitaz. Sva ok þeir allir, sem hann hefir ofsott [eðr i nockuru[2] utlægt eðr annarskostar illa við gort, skulu nu bót hafa sinna meingiorða, [bæði fe ok fullkomit frelsi, sem hvartveggia hôfðu aðr mist[2]. Yfir þessum skipanum ok rettarbótum eptir hinn bolvaða Domicianum sitr hinn ægiæti herra með rómversku raði nytekinn Nerva keisari. [Ero nu send[5] boð ok bref um allt rikit, at sva halldiz [serhveriar greinir, sem aðr var uppkastat[6]. Millum annarra luta, er [Nerva keisari byðr aptr kallaz til svivirðingar Domiciani vikings, er[2] herra Johannes postoli drottins vars Jesu Kristi frials ok liðugr gôrr af fyrr nefndri utlegð, þvi snyr hann signaðr heimleiðis[7] [sem til eiginligs skala[8] i Effesum. Ok sem hann er kominn i nalægð við borgina með sinu sæmiligu foruneyti, er honum fylgði allan veg af utlegðinni með keisarans boði, drifr ut af staðnum fram a veginn moti honum mikill fioldi[9] karla ok kvenna, allir [með einni gleði sem i guðs tilkvamu, allir hiartaliga[2] syngiandi með miklum fagnaði, sva segiandi [með miklum róm ok hareysti[2]: Benedictus qui venit in nomine domini, þat þyðiz sva, blezaðr se sa er kemr i nafni drottins.

*Capitulum.*

59. Meðr sva verðugri sæmð ok virðingu[10] gengr hinn blezaði Johannes inn i Effesum. Ok rett sem hann kemr i staðinn, er borit[11] annan veg fram um strætit [ein rik husfru nysalut Drusiana at nafni[12]. Þessi fru hafði verit alla gautu hinn bezti vin Johannis postola, [siðan hann kom i staðinn[13], fylgiandi hans kenningum [i goðum verkum, optliga sorgmoð af hans utlegð ok piningum[2], girnandiz hann at sea farsælliga sinum augum, fæð-

1 [ok drepr *B*; drepandi *C*. 2 [*mgl. B*. 3 vera *tilf. B*. 4 valld *B*. 5 [*saal. B, C;* Er nu sent *A*. 6 [hver grein, sem nu var sagt *B*. 7 sinni ferd *tilf. B*. 8 skola *B; [mgl C*. 9 mugr mannz *B, C*. 10 virduligri *B*. 11 borin *B*. 12 [lik einnar husfreyiu, er het Drusiana *C*. 13 [*mgl. B, C*.

andi fætæka menn ok huggandi fauðurlausa, eckiur ok þurfandi menn eptir hans haleitum boðorðum, þionandi honum sialfum optliga bæði með goðum kosti ok sonnum goðvilia. Hvat er skiotliga profaz i greindri likfylgiu, þviat tveim megin fram hia bôrunum laupa fatækir menn ok aumingiar[1], konur ok karlar, gratandi ok hátt kallandi ok sva segiandi, siþan [þeim er kunnigt vorþit[2], at Johannes postoli er sva nalægr, at hann ma heyra kallit [i kominn borgina ok seandi likfylgiuna: „See her, segia þeir, heyrþu, signaðr Johannes, hvat ver segium þer[3]. Her berum ver[4] Drusianam vinkonu þina, er oss nærði alla meðr sinni goðmenzku sakir lyðni þinna boðorða, þionandi guði með reinleika ok litillæti, girnandiz dagliga þik at sea af utlegð heim komanda, þat talandi með sut ok andvarpi: [Makara at ek sæi[5] minum augum postola guðs, fyrr en ek deyi[6]. Se hér nu þina sæmð, hinn sæli Johannes! Þu ert kominn i vara borg heim af utlegð með allra manna fagnaði, ok er nu Drusiana undir lok liðin, sva at hun ma eigi samgleðiaz þeim flockum, er nu renna i moti þer". Ok er blezaðr Johannes undirstendr fyrir þetta háreysti, hvat honum er geranda i þiliku efni, byðr hann, at bôrurnar[7] gefi stað[8]. Siþan gengr hann nærrmeirr ok [biðr likamann leysa[9] ok af sveipa. Eptir þat gert talar hann sva meðr biartri raust ok skiærri, at allir mattu heyra: „Drottinn minn Jesus Kristus vekr þik, Drusiana, ris upp þu a þina fætr, ok skunda heim til herbergia at buaz fyrir nôckut, þviat ek ætla hia þer at eta i dag". Ok þegar i stað sem Johannes hefir sva talat, sprettr Drusiana upp af bôrunum, sem hun væri af svefni vôkt, hiartaliga fagnandi postolanum meðr sinni[10] lotningh, en skundaði siðan sem mest til herbergis eptir hans boði at bua fyrir hans þarkvamu. En er lyðrinn ser sva haleita iartegn, kallar hann [upp i loptit æ meðr sômum orðum eigi minnr en .iii. stundir dags[11] sva segiandi: „Einn er drottinn, sa er Johannes boþar[12], sa er einn ok sannr drottinn varr Jesus Kristus".

*Capitulum.*

60. Sva segir ægiætr maðr Clemens erkibyskup af Alexandria, er margt hefir skrifat fagrt ok merkiliga[13] af baðum guðs post-

1 *saal. B*; kunningiar *A*; *mgl. C.* 2 [þeir vita *B.* 3 [:Heyrdu, hinn heilagi Johannes, segia þeir *B.* 4 dauda *tilf. B.* 5 [Ma vera at ek siae *C.* 6 *Fra* þat talandi með sut *hertil mgl. B.* 7 barirnar *B.* 8 ok se nidr settar *tilf. B.* 9 [bydr leysa likamann *B.* 10 einni *B*; litillatri *C.* 11 [med einni roddu *B.* 12 predikar *B.* 13 merkiligt *C.*

olum Johanne ok Jacobo broður hans, at skiotliga sem hinn heilagi Johannes var heim kominn[1] i Effesum, er hann beðinn at visitera kristnina ok endrbæta meðr haleitum kenningum þat, sem skriðnat[2] hafði i hans fraveru, eðr fyrir þa grein at hann skipi, hversu[3] reisaz[4] skulu guðs musteri, þau sem fullrikir[5] menn ok goðfusir vilia efla meðr sinum kosti, [eþa fyrir þa sauk at hann forsio veiti þeim kirkium, sem aðr voru reistar, at þær hafi sinn rett ok lögliga skipan[6], ok einkannliga er Johannes beðinn, at hann reki brott þat villumyrkr, sem fyrr greindir uvinir hafa drepsottliga[7] i blasit æseonu cristninnar. Hvat er hinn blezaði Johannes gorir giarna fyrir ast ok elsku sins meistara ok goðfusa bæn byskupa ok annarra siðugra manna, eigi afsakandi mikinn alldr eðr langa mæðu sinnar utlegþar, utan helldr sva glaðr i guði, sem hann væri æ þritögs alldri. I þessarri ferð gorir[8] Johannes sva mikla [nytsemð, upphelldi ok[6] endrbæting kristnum dominum, sem sa einn ma virða, er alla luti gefr val skilia. Hverr mun þat greina mega, hvilikan fagnat goþir menn auðlaðuz i tilkvamu sva mikils fauður, [eðr hvat hann efldi ok uppreisti guði til sæmþar með sinum hialpsamligum kenningum[6]. Nu sem hann er i visiteran aptr æ veg til Effesum, kemr hann til einnar borgar at nöckurum miklum hátiðisdegi, sækir þa þagat mikill ok margr lyðr af ymissum stauðum [bæði sakir hatiþarhalldzins ok at þiggia blezan hins agiæta Johannis[6]. Ok sem guðs þionosta er fagrliga fylld æ þann signaða dag, sier[9] postoli drottins vars Jesu Kristi [þar kominn millum annarra[6] einn ungan mann stórliga mikinn vexti ok vænan at[10] æliti. Ok iafnfram sem astvin drottins sier[9] greindar natturugiafir unga mannz, skilr hann fyrir[11] gipt heilags anda, at hiartat var hart ok uvikianligt at sva bunu til þess at þacka guði sva mikla veitzlu ok velgerninga með goðum verkum, sem hann hafði þegit af sinum skapara umfram aðra menn. Þvi litr hinn blezaði Johannes til byskupsins, er [fyrir litlu[12] hafði vigðr verit til þeirar cristni, ok segir sva: „Undir guðs vitni ok heilagrar kristni[13], er þer styrit, felum ver yðr æ hendi þenna unga mann, at þer geymit hans lif til goðs siðferðis ok gialldit mer[14] hann með andar ævexti, [æ þann tima sem[15] ver komum her næst með guðs vilia". Byskupinn lyðir giarna orðum ok boði sva mikils herra,

1 fra utlegd *tilf. B.* 2 ok afblomgazt *tilf. C.* 3 a hvern hatt *B.* 4 hreinsazt *C.* 5 *saal. B, C*; skilrikir *A.* 6 [*mgl. B.* 7 *saal. B, C*; drepsamliga *A.* 8 hinn sælazti fadir *tilf. B.* 9 ser *B.* 10 likams *tilf. B.* 11 innri *tilf. B.* 12 [skömmu *B.* 13 kirkio *B, C.* 14 oss *B.* 15 [þa er *B.*

takandi þann unga mann heim æ sinn garð ok i sitt[1] herbergi með allri vandvirkt ok goðfysi. Dvelż hinn blezaði Johannes i þeim sama stað nóckura stund, en byz siþan meðr sinu fóruneyti fram i veg til Effesum æminnandi byskupinn .ii.[2] sinnum ok optarr, aðr hann riðr af borginni, at hann geymi þann unga mann með styrkri staðfesti. Vendir þa virðuligr Johannes sinni ferð heim til erchistolsins[3] ok sitr þar.

### *Capitulum.*

61. Ellifu keisara hófum ver nefnt i þessarri saugu yfir Romveria valldi af fyrsta allt higat til,. Augustum, Tiberium, Gaium, Claudium, Neronem, Galbam, Octonem, Vespasianum, Titum, Domicianum, Nervam. Sa goði haufðingi, er siðarst var taldr[4], rikti eigi meirr en eitt ær, ok þo varla fullt, en aðrir serhverir sva lengi sem fyrr var greint i bokinni. A þessum timum andaðuz margir agiætir menn i kristninni bæði pindir ok sottdauðir. Fyrst postolarnir sialfir, pávarnir[5] ok erchibyskupar, hveria langt er at greina serhveria. Sva ok blezaðr frændabalkr vars herra Jesu Kristi var nu naliga allr undir lok liðinn, þviat Domicianus hafði til þess fullan vilia, sem fyrr var skrifat, at hann skylldi skammlifr verða, ok þo lifðu nóckurir með guðs vilia allt fram æ daga Traiani keisara; er næstr tok riki eptir Nerva[6]. Einkannliga vilium ver nefna[7] blezaðan herra Johannem postola ok Simonem Jorsala byskup son Cleophe, er fyrr var nefndr, næstr i valldi[8] eptir Jacobum broþur drottins i Jorsolum. Tok hann pinslarvættis koronu æ dógum Traiani keisara kvaldr ymisligum piningum[9] til dauða, sva karlmannliga þreytandi sem æ bezta alldri, en hafði .c. ára ok .xx. ser æ baki. Signaðr Johannes beið sva langan tima ok marga daga þeirar hvilldar ok hins haleita fagnaþar, sem hann verðskylldaði ser dagliga með iðn ok æstundan goðra verka, at hans kruna yrði þvi fegri [ok fremri[10], sem hann striddi lengr ok drengiligarr i hans[11] herbuðum her æ iarðriki, siðan aðrir guðs[12] postolar ok guðspiallamenn ero framgengnir til fagnaþar [at provaðri þolinmæði bæði veralldligra þvingana ok langs undandrattar þeira malagiafa, sem hans voru fyrir dygð ok drengiliga[13] þionostu[14]. Sva langa framras yfir timum Johannis vattar einn

1 sin *B.* 2 tveim *B.* 3 i Effesum *tilf. B.* 4 nefndr *B.* 5 pafar *B.* 6 Nervam *B.* 7 þar til *tilf. B.* 8 *saal. B, C;* velldi *A.* 9 pislum *B.* 10 [firir almatkum gudi *B.* 11 guds *C.* 12 *mgl. C.* 13 dagliga *C.* 14 [*mgl. B.*

ægiætr maðr Hireneus at nafni, sva skrifandi i sinni bok postolans minning, sem her stendr[1] i skômmu mali: Eptir marga framliðna, segir hann, ægiæta menn ok mikils verða, sitr einn maðr austr i Asia sva sem erfingi allra þeira, þessi er sa sem drottinn Jesus elskaði, bæði postoli ok guðspiallamaðr, Johannes at nafni, styrandi með mikilli rôksemð þeiri[2] cristni, sem i þeim halfum efldiz fyrir hans predicanarembætti ok haleita goðfysi. Hans virðuligum kenningum ok guðspialligum setningum megu allir [byskupar i Asia, prestar, klerkar, leikmenn[3] vitni bera, þeir er sæ Johannem ok heyrðu sva langlifan, at hann styrði sinni[4] cristni allt fram æ tima Traiani. Þessi orð setr Hireneus i annarri bok þess stora voluminis, er hann skrifar moti villumonnum, takandi vitnisburð sinu mali ok rettum framburði af þeim kenningum, er Johannes postoli tieði[5] sinni cristni. I þriðiu bok þess sama verks tekr sva til orðz hinn sami meistari: Su cristni, segir hann, sem er i Effeso ok hennar heraðum, grundvallaðiz senniliga fyrir Paulum en smiðaðiz fyrir Johannem, er henni[6] styrði ok vakrliga geymði allt æ tima Traiani. Sva segir Hireneus af rauksemdarvalldi ok [laungu lifi[7], postoligri tign ok guðspialligri virþing Johannis. Hvar fyrir oss er nauðsynligt at heyra þessu næst, hvat hinn gamli guðs riddari hefz at i sinni elli, ok hveria erfð hann leifir kristninni, aðr hann brott liðr með guðs boði, at þvi skiotara fáe hann tvifallda sæmð beggia nafna bæði kallaðr heðan af[8], sem verðugt er,[9] postoli guðs ok[10] ewangelista.

### *Capitulum.*

62. Sem fyrr var skrifat i bokinni, er [eigi lesit[11] af nockurum manni [i Asia[12], at sva hafi fram gengit i styrk ok krapti heilags anda sem þessi Johannes, þviat allt af tima drottinligrar piningar, upprisu ok uppstigningar allt fram æ[13] siðarsta daga Domiciani keisara predicaði hann guðs orð æn ollu fulltingi ritninga eðr bokligra lista, eigi minnr en .lx.[14] ára fram allt þar til, er hann var i utlegð rekinn. En nu sem hann er heim kominn, biðr fyrst erchibyskupinn i Effeso, þar næst naliga allir lyðbyskupar[15] i Asia,

1 skrifat *tilf. B.* 2 þa *B.* 3 [menn i Asia, lærdir ok leikir *B.* 4 sina *B.* 5 tedi *B.* 6 hana *B.* 7 [langlifi *C.* 8 ifra *B.* 9 virduligr *tilf. B.* 10 sva *tilf. B.* 11 [*saal. B., C;* lesit var *A.* 12 [*mgl. B.* 13 i *B, C.* 14 sextigi *B.* 15 liodbyskupar *B.*

[ok eigi siðr ganga her meðr til[1] sendibref ok miukar bænir ymissa[2] kirkna ok byskupstola, at hinn blezaði Johannes geri sermonem moti þeiri villu, sem[3] fyrr var greind, at Marcion ok hans kompanar[4] fram báru, i hverium hann auðsyni varn herra Jesum Kristum sameilifan sinum blezaða feðr i haleitum guðdomi; sva ok eigi siðr, at þessi hans framburðr samsettr[5] i dyrð ok lofi sialfs guðdomsins verndi cristnina ok varðveiti styrka i sannleikinum, hver villa eðr vaði sem upp kann renna æ siðarstum timum henni til striðs ok unaða. Her meðr tiaz hinum blezaða Johanni .iii. verk .iii.ia guðspiallamanna, þat er at skilia Mathei, Marci, Luce. Segia byskupar ok aðrir spakir menn, er frammi standa i þessarri bæn við sælan Johannem, at þeim syniz nógliga[6] skrifvat i .iii.[7] guðspiollum af manndomi vars herra ok af þeim lutum, sem[8] hann gerði fyrir monnum[9], en af hans eilifum guðdomi þickir þeim minna skrifvat en þórf vinni[10]. En þo at[11] bæn byskupa ok annarra manna væri miok nytsamlig, er hinn signaði Johannes helldr seinn en[12] fliotr til þessa verks, sakir þess at hann sier[13] giorla[14], hversu mikill er þeira bænarstaðr; fyrir þa aðra grein er hann eigi fliotr, at þat var lundlagit postolum guðs almattigs at vera biartir i ollum krauptum hugarins ok reinleika lifsins, ok því virðu þeir skreyttan malshatt storliga litils, at salin var meðr þeim fagrliga prydd i guðligum kroptum til miskunnar ok iartegnagerða, er þeim veittiz af varum herra. [Þvi treystuz þeir eigi i[15] æeggianarorðum mannligrar speki, helldr skipaðu þeir hæstu raudd drottinligrar predikanar i auðsyniligum kroptum heilags anda, veitandi ollum þeim sanna vitzku himnarikis meðr biortum geislum sinna orða[16]. Eigi voru þeir giarnir æ nysamþar bokagiorðir, fyrir þa grein sem fyrr var lesit, at predican þeira tæki engan styrk utan af sialfum[17] guði. Þetta birtiz satt vera i sælum Paulo postola, at sva diupr klerkr sem hann var umfram aþra menn, þa let hann eigi meira [verk eptir i ritningum liggia[18] en litla bok sinna brefa, ok mun þo skilianligt verða, at sa væri[19] froðr i sinu hiarta, sem kom i skola sialfrar paradisi ok heyrði þar leynda luti. Her eptir gerðu aðrir lærisveinar af skola drottins vars Jesu Kristi [, sva allir[20] .xii. postolar sem hinir lægri, gerandi[21]

1 [her med *B*; ok eigi sidr koma her til *C*. 2 ymissra *B*. 3 er *B*. 4 felagar *B*. 5 *saal. B;* sameylifr *A*. 6 gnogliga *B*. 7 þremr *B*. 8 er *B*. 9 mann *B*; manna augliti *C*. 10 vinnr *B*. 11 þessi *tilf. B* 12 nockut *tilf. B*. 13 sva *tilf. A*. 14 giorst *B*. 15 *mgl. C*. 16 [*mgl. B*. 17 einum *B*. 18 [eptir sig liggia i ritningum *B*. 19 var *B*. 20 *saal. C;* at *A*. 21 [*mgl. B*.

skamt ok skyrt, hvat þeir skrifuðu fyrir æminning heilags anda, þo at aðrir væri enn oðrum fremri[1] i þeiri miskunnargiöf, sem guð skipaði.

*Capitulum.*

63. Þessi hin agiæta skynsemi dvelr Johannem nǒckut at iataz undir bæn byskupanna, en þo kemr þar meðr guðs vilia, at hann samþyckir virðandi enn framaz i þessum lut sem i ǫllum ǒðrum sanna elsku guðs ok manna, þviat hann girniz hiartaliga sælan frið heilagrar cristni. En meðr þvi at i hans blezaða briosti er mikill hugr samtempraðr saunnu litillæti, hefir hann sik allan til himneskra luta fulltings biðiandi heilagan anda, svarandi þeim er frammi standa, at til þessa verks gengr hann ǒngvan veg, utan þeir vaki ok fasti allir saman, biðiandi almattigan guð, at honum veitiz sa framburðr, sem varum herra Jesu Kristo se lofligr ok hans heilagri cristni nytsamligr. [Ok er[2] allir iata þessu feginsamliga ok gera siþan meðr fremsta goðvilia, tekr hinn blezaði Johannes at rannsaka bækr .iii.[1a] guðspiallamanna ælitandi orð ok efni, smasmugliga skoðandi serhveria luti, ok finnz honum sva til, at allra þeira verk standa saman i hæsta sannleik. I[3] annarri halfu ser hann [ok iafnfram, at[4] þeira framburðr er miok stuttr, einkannliga i þeim lutum, er drottinn varr Jesus Kristus gorði a fyrsta tima, sva[5] sem hann tok at predica. Þviat .iii ewangelia[6] Mathei, Marci, Luce, synaz þa eina luti [hallda ok[7] fram bera i verkum vars herra, er gerðuz æ þij áre sem Johannes baptista var innkastaðr ok[8] halshǒgginn, hvat er val[9] birtiz fyrir þa grein, at allir þeir skrifa innsetning Johannis sva sem i upphafi þeira verka, er þeir fram bera af várum herra. Sem Mattheus vattar; þviat skiotliga sem hann hefir sagt af faustu várs herra um xl.[10] daga ok af freistni, er hann þoldi i eyðimork, setr hann þessa clausu: Jesus þat heyrandi, segir hann, at Johannes er gripinn, for brott af Judea ok kom i Galileam. Marcus segir ok þessu[11] likt sva til orðz takandi: Siþan Johannes er innkastaðr, kom Jesus i Galileam. [Þessu likt segir ok Lucas[12], þviat fyrr en hann tok[13] nǒckut at segia af verkum Jesu, talar hann sva: Herodes lagði þat við alla sina illa luti, er hann hafði aðr gert, at hann strengdi Jo-

1 *saal. B, C*; framarr *A.* 2 [*tilf. B.* 3 ok af *B.* 4 [at allra *B.* 5 *mgl. B.* 6 gudspioll *B.* 7 [*tilf. B, C.* 8 eda *B.* 9 vel *B.* 10 fioratigi *B.* 11 *saal B, C*; þessum *A.* 12 [Lucas er ok þessum likr *B.* 13 taki *B.*

hannem i myrkvastofu. Af þessum greinum sem nu hafa[1] lesnar verit, skilr hinn sæli Johannes, at þeir lutir ero fullkomliga þagðir, sem Jesus vann allan tima millim freistninnar[2] ok fram til þess er Johannes var innkastaðr. Ok meðr þvi at hann sier Matheum ok Lucam nógliga skrifat hafa af holldligum higatburd vars herra Jesu Kristi, þegir Johannes yfir þvisa efni, en byriar sitt guðspiall æ hans eilifum guðdómi, nogliga lærðr ok dryckiaðr með birting ok miskunnarvitian[3] heilags anda sva fabæriliga[4], at oll myrkr villumanna rekr hann brott meðr[5] liosi sannleiksins, sva byriandi: In principio erat verbum. Þvi kallaz hinn blezaði Johannes viðrkvæmiligarr theologus en nóckurr annarr, at almattigr guð varðveitti honum til handa hinn hæsta[6] lut, þat er at tala smasmugligarr af sialfum guðdominum en nóckurr annarr aðr eðr siðan dauðligra manna. Aðrir guðspiallamenn skrifva varn herra fæddan æ tima af sinni haleitu[7] moþur, en Johannes vattar i sinum framburði, at sami guðs son var þegar i upphafi sannr guð með eilifum guði. Ok hvat megum ver lengra her af tala, en þvilikr er allr sermo Johannis millum upphafs ok enda, sem sigrar hvert mannligt hugskot, ok engu veralldligu hiarta ma[8] veitaz sva mikil vitzka nema með[9] sætri giöf heilags anda, þviat eigi er eitt at telia, helldr fleira en oss fafroþum megi i hug koma, hver sæmð alla vega lytr ok þionar þessu guðspialli, hversu þat er skilrikt[10] ok greiniligt i ollum lutum, birtandi þat verolldinni, sem aðr vissi hon eigi, einkannliga þat, sem fyrr var sagt at .iii. guðspiallamenn hófðu yfir þagat. Skilysisliga skrifar einn Johannes bruðkaupit i Chana Galilee, birtandi at þat gorði Jesus i upphafi sinna iartegna at snua vatn[11] i vin. Þar með boðar hann aðra luti, er fyrr gerðuz en Johannes væri gripinn af Herodi, innan sva langs tima sem fyrr var skrifat i sógunni. Ok sialfr Johannes ewangelista birtir þat i auðrum stað, i hverium timum vars herra hann setr ritningina, þa er hann segir[12] sva: Enn var eigi Johannes settr i myrkvastofu, segir hann. Fyrir þessa grein skal hverr maðr geyma ok kalla .iiii. guþspioll i óngu sundr hlioða, þo at Johannes boði þau verk drottins vars, er gerðuz þann tima, sem aðrir guþspiallamenn letu um liða. Af þviliku ollu saman er til minnis leiðanda senniliga, hvat órninn hefir at merkia, er Johannes sa in Apocalipsi standa hia guðdomsins hæsæti.

1 *saal. B, C;* hefir *A.* 2 *saal. B;* freistarinnar *A.* 3 vitranarmiskunn *B.* 4 frabæriliga *B, C.* 5 opinberu *tilf. B.* 6 æzta *B* 7 haleitri *B.* 8 *saal. C;* matti *B;* mani *A.* 9 settri grein ok *tilf. B.* 10 *saal. B, C;* skirligt *A.* 11 vatni *B, C.* 12 talar *B.*

*Capitulum.*

64. Aurn hefir margar natturur[1] ok mikils verðar, merkia sumar gott, en sumar illt, sem hinn sæli Gregorius pavi fagrliga skyrir. En fyrir þa sauk at ôngvar hans natturur heyra þessu efni, utan þær sem[2] gott hafa þyða, munum ver þær einar i þessum stað til greinar fram setia. Aurn hefir þa natturu, at hann hefr [sinn flug[3] með beindum vængium myklu hæra en nôckurr fugl annarr, sva at hann flygr alt upp um sky. Ok sem hann er kominn i sva mikla hæð loptzins, er hann sva skygn niðr undir sik, at hann ser fisk i vatni ok hera lágt liggianda ꜵ iorðunni[4]. Her með er hann sva snarsynn[5] upp yfir sik móti geislum sólarinnar, at hann horfir rett hit [gegnzta ok hit[6] beinazta moti henni ok blõskrar ekki. Þessa sina list elskar hann sva miok, at ecki sitt afkvæmi rækir hann, þat er eigi hefir þessa giôf. Hvat er hann profar með þeima hætti, at þegar sem ungar kvenfuglsins ero nockut styrknaðir, [sva at þeir megi skefiur þola[7], gripr hann þa upp i klær[8] ser ok setr þa moti birti solarinnar, til raunar hvart þeir fáe sieð i moti henni, sva at þeir blauskri eigi. Nu þeir allir sem val[9] profaz, skulo hafa gott uppfæði ok fulla elsku i alla staði, en hinir kastaz brott senn[10] sem afkyniaðir ok til enskis fagnaþar likligir. Viðrkvæmiliga heyrir sælum Johanne ´arnar flugr hárr ok mikill allt yfir sky, þviat sa guðs astvin hof sitt hiarta upp yfir iorðina allt til himneskra luta með beindum vængium tvennrar elsku, þat er guðs ok manna, bæði skygn til neðri luta ok furðþliga snarr til himneskra luta; skygn ꜵ iorðina, þviat allar villur urðu hans augum liosar bæði nalægar ok ukomnar, sva at hann eyðir þær ok niðr brytr með merkiligum mannkostum[11] sins framburþar; snarr moti geislum solarinnar, þviat hann serr ok rannsakar eilifan guðdomsins almatt framarr ok haleitligarr en nôckut hugskot annat. Hvar fyrir Ezechiel spamaðr sa viðrkvæmiliga þegar i forna vitni þenna sama ôrn i andarsyn hia velldisstoli almattigs guðs, þviat einn Johannes af .iiii. guðspiallamonnum flygr með drottni varum Jesu Kristo sva sem til himins, sakir þess at hann skrifar flest af hans haleitum guðdomi, fyrir hvern er vurðu allir lutir syniligir ok usyniligir ꜵ himni ok iorðu. En aðrir ewangeliste ganga sva sem ꜵ iorðu með varum

1 *saal. B, C*; iartegnir *A.* 2 er *B.* 3 [sig *B.* 4 *saal. C;* iordu *B;* urðinni *A.* 5 skiarrsynn *B.* 6 [*mgl. B.* 7 [*mgl. C.* 8 klom *B.* 9 vel *B.* 10 sva *B; mgl. C.* 11 motkôstum *B, mgl. C.*

herra Jesu Kristo, þviat þeir skyrðu nógliga hans timalig verk ok veralldligan áttboga. See her, hvern ævôxt hefir privilegium Johannis! See hvat aflar hans meydómr ok skiærleiki! See hvat hann drakk af briostfostum brunni hins blezaða Jesu[1]. Sæl er su elli, er þvilika erfð leifði cristninni; blezut[2] er su sala, er sva hellt sterkliga i minni græðarans orð bæði mǫrg ok sundrlaus meirr en .lx[3] ára, at engi fǫlnan fell æ, utan oll skyrri ok merkiligri en[4] nǫckurr megi, sem vert er, til tala. Þvi stendr ewangelium Johannis iafnan siþarst i hverri bok .iiii.[5] guðspialla, at þat gerðiz siðarst i framrás timanna, sem fyrr er greint. En þo at þat standi sva, snarar þat hæra en nockut annat, þviat þess heimili er i himnum með sialfum guði. Þvi stendr Johannes val[6] i arnar mynd hia hinum hæsta velldisstoli, at hans augasialldr briaði[7] ekki moti biartazta guðdomi. Harðla val[6] stendr ok þat, at blezaðr Johannes eignaz suðrætt i rettri merking, þar er solin skinn i hioli himinsins, þviat þessi guðs elskugi birtir skiærliga, at eilif sol rettlætis rikir i valldi guðdomsins. Ewangelium Johannis er einn brunnr af þeim .iiii., er upp spretta i paradiso ok dauggva[8] allan skoginn með lystiligri framrás ok blomga iorðina til ymisligs ævaxtar. Senniliga dǫggvar vatn Johannis sialfa paradisum, þat er at skilia æsionu heilagrar cristni, er fagrliga blomgaz i hans kenningum með freosaumum elldi[9] valdra manna guðs i himinriki. Hunang drypr af orðum Johannis, þa er hann synir sætliga kirkiunni, hversu guðdomrinn rikir, er gleðr englana með ilm ok unaðsemd sinnar dyrðar, [með sæmð ok lofi eilifs fagnaðar[10]. Munum ver her upp gefa at tala framarr af guðspialli Johannis, þviat þat ofbyðr hverium skilningi at fæz þar langt i, hverrar sæmdar ok virðingar þat er fyrir allar sinar halfur, ok einkannliga er oss ofroðum monnum umattuligt at tala þar langt[11], hversu Johanni varð skamt i millum sæmðanna at dǫggva[12] iorðina með sætri skur sinna ritninga. Þvi munum ver aptr venda til sǫgu postolans, greinande þa luti fá af mǫrgum, er almattigr guð vann fyrir hans[13] verðleika með sinum almætti.

1 i sidazta snædingi *tilf. B.* 2 *saal B, C*; blezat *A.* 3 sextigi *B.* 4 *saal. B, C*; at *A.* 5 fiogurra *B.* 6 vel *B.* 7 briaadi *C.* 8 dǫgga *B.* 9 vidi *B.* 10 [*mgl. B.* 11 um *tilf. B*; af *C.* 12 riga(!) *B.* 13 lif ok *tilf. B.*

*Capitulum.*

65. Sem lesit er af hôfutborg heimsins sialfri Róma, at hinn sæli Petrus styrði þar langan tima heilagri kristni með pavadomi, ok var þo mikill luti borgarinar verr en hundheiðinn, sem af því ma skyraz marka, hversu Nero romverskr keisari styfði kristnina sinu hôfði drepandi Petrum ok Paulum, sem [marga ymissra stetta[1] ut ifra[2]. Lesit var ok, hversu hinn blezaði Jacobus styrði .xxx. æara sinum byskupdomi i Jorsolum, sva at Gyðingar voru þar innan borgar með sva[3] miklum styrk ok valldi, sem raun bar æ, at þeir drapu þann haleita guðs postola. Sama grein heyrir til Effeso austr i Asia, þar er hinn blezaði Johannes hefir smiðat fagra cristni af grundvelli Pauli, þo eigi sva framt, at hann hefði niðr brotit allan blotskap eðr villu þeirar borgar, sem skilianligt ma verða [sva i þeim stað sem hinum .ii. er ver nefndum aðr[4], at þar sem innan staþar ero margar þusundir manna [ymisligra stetta[5] ok rikdoms, valldz ok vilia, mun eigi verða eyðt eðr niðr brotit allt æ litlum tima, þat sem[6] aðr stoð með sva miklum veralldar bloma ok sterkum atrunaði villumanna, ok þat væri agiætaz allra luta. Þvi goriz sva, at hinn sæli herra Johannes postoli æ þvilict at hræra i sinni elli. Hann litr innan borgar ser til skapraunar glæsilig[7] hof, ok þar i skurðgoð með skipaðum þionostum til diôfla fáganar, en orkar eigi niðr at briota sakir ofreflis, er alla vega stendr i mot honum[8]. Fyrst i því, sem liosaz er, at keisaradomrinn var optarr snuinn moti guðs boðorðum en meðr, þviat eigi var Nero likligr, Domicianus eðr nu Traianus, at eyða blotum[9] i Effeso, helldr efla, hvat er þeir mattu, til motgerða við guð ok þann sælan[10] herra, sem þar hafði nu predicat langan tima, en innan staðar[11] var þat uvikianligaz, at baðir valldzmenn borgarinnar voru miklir uvinir sannleiksins, iarlinn Effesiorum af halfu keisarans, en blotbyskupinn[12] af hendi allra guðanna[13], er Aristodimus[14] heitir. Voro þeir iarl ok villubyskupinn til þess kiæraztir vinir at gôraz þann tima hinir grimmuztu guðs uvinir ok leggia kapp á, at kenning Johannis skal eigi framarr ganga um borgina. Rægði Aristodimus optliga Johannem fyrir iarlinum liugandi æ hann annat at ôðru, sakir þess at hann villdi

1 [*saal. B*; margar ymisligar stettir *A.* 2 [marga adra guds vini *C.* 3 *tilf. B, C.* 4 [*mgl. B.* 5 [ymisligrar stettar *B.* 6 er *B.* 7 *saal. B, C;* gleðilig *A.* 8 *mgl. B.* 9 blotskap *B. C.* 10 sæla *B.* 11 *tilf. B.* 12 i annan stad *tilf. B.* 13 godanna *B.* 14 Aristodemus, *her og senere B.*

postolann gera [sem mestan[1] uvin iarlsins, at þvi siðr heyrðiz hann æ nôckuru þingi til predikanar[2] embættis, sva at þar fyrir hallaðiz metnaðr guðanna. En þat er miok dasamligt, hversu almattigr guð varðveitir[3] sina kristni ok hennar formenn i þilikum stauðum, er fiandr gengu umhverfis[4] með gapanda munni at bita, hvat er þeir máttu. En heilôg kristni stoð æ þvi fegri með valldi ok vilia drottins[5] vars Jesu Kristi, sem hon þoldi meiri freistni með sannri staðfesti. Mikill partr þeirar[6] borgar var biartr ok þeckiligr guði, en stoð undir klokskap ok umsatum illra[7] manna, hvat er profaz mun i fylgiandi[8] lutum, [sva sem annat serhvert, þat er ver hôfum her uppkastat[9].

*Af brædrum tveim*[10].

66. I Effeso voro þann[11] tima tveir ungir bræðr storliga rikir eptir dag feðr sins ok[12] med allzkonar[13] godzsi veralldar audæfa. Ok sem þeir hafa i setz erfdina, gera þeir ræd med einom veralldar spekingi Kraton at nafni, hvat þeir skulo gera af sva miklo godzsi, segia ser þat i hug at hafna heimi ok eiga einga hluti. Craton spekingr gefr þeim þat ræd, ef þeir vilia heime hafna, at þeir skolu vennda sinne erfd i dyrozsto gimsteina, ok eptir þat giort skolo þeir koma fram a þat breidazsta torgh, er finnz i þeire borg, ok briota gimsteinana, sva at[14] allr lydr siai upp æ. Ok med þvi at hinir ungu menn hyggia Cratonem heilan i radagiordum[15], gera þeir, hvat er hann lagdi til, setiandi þa biortu steina [fram a motid[16] briotandi i sundr i smatt firir allra manna augum[17]. Þusti þar at margr lydr ok lofadi miok, hverso þessir ungu menn voro agiætir i sinni giord. Ok rett i þann tima sem Craton spekingr sitr a torgino[18] ok hefir latid þessa heims hafnan sva geraz eptir sino radi, kemr þar at fram Johannes ewangelista postoli drottins værs Jesu Kristi, spyriandi hvat þeir menn[19] hafi þar gera i sva miklum safnadi. Ok honum er þat[20] sakt, hvat tveir brædr hafa þar giort a þvi sama torgi med rædi ok yfirsyn Cratonis philosophi[21]. Ok er værs herra vin heyrir

1 [hinn mesta *B. C.* 2 *tilf. B. C.* 3 vardveitti *B.* 4 sva sem umbergis *B.* 5 *Her beg. Fr.IV*[1]. 6 greindrar *B, Fr.* 7 *saal. ovr.*; allra *A.* 8 fylgiandum *Fr.* 9 [*mgl. B.* 10 *Overskr. B.* 11 þenna *B.* 12 *Her mgl. et Blad i A, hvilket er udfyldt efter Fr., saa langt dette naar, og siden efter B.* 13 allzhattar *B.* 14 *tilf. B.* 15 radagerd *B.* 16 [*tilf. B.* 17 augliti *B.* 18 þinginu *B.* 19 *tilf. B, C; mgl. Fr.* 20 *mgl. B, C.* 21 spekings *B, C.*

þessa saugu, likar honum ei med ollu þvilik[1] heims hafnan, þviat hann skilr þegar, at mikit greinir æ ræd Cratonis ok þat bodord, er hann nam fordum i skola Jesu Kristi. Þvi kallar hann Cratonem til sin ok talar sva: „Su heims hafnan sem her hefvir giorst med þino rædi, er miok heimsk ok uvitrlig, þviat hun lofaz af monnum en er eingu hæf i guds domi, ok til þess at þu vid kenniz, hverso þin rædagiord er uheil, þa heyr hvat ek segi þer. Lit a, hverso hegomlig er su lækning, er grædir særit sva at i leyniz sottarkynit, ok þat sem dautt [er var[2] eigi brott snidit; sva er ok hver kenning aungu hæf, su er eigi grædir laustuna med heilo ok lærir siduna til avaxstar sælnanna. Minn agiæti meistare lærdi einn ungan mann, er fystiz til eilifs fagnadar, at ef hann villdi algiorr vera, skilldi hann selia[3] sina eign fasta ok lausa ok gefa fatækum verdit. Eptir sva giort munndi hann afla ser thesaur i himnom ok finna þat lif, sem eingan ennda hefir". Þessom ordom Johannis svarar Craton spekingr, þar sem hann sitr alla vega umkringdr mikilli fylgd sinna lærisveina: „Avoxstr ok efni mannligrar sinkgirni[4] var settr. ok brotinn i manna augliti, segir hann; en nu allt eins, ef gud er meistari þinn, sem þu segir optliga, ok vill hann þat gera lata, at fatækir menn taki þat godz, sem fullrikir menn firirlata, þa kunn at hafa betr en ek, ok enndrbæt gimsteinana aptr i sinn fyrra stett, gerandi þat honum til dyrdar, er ek snere[5] ut i ordlof mannligrar frægdar". Sem Craton hefvir sva talat, girniz Johannes enn sem fyrr hialp ok heilsu lydsins i heidr ok æro sins drottins, þvi bydr hann, at honum se feingin gimsteinabrotin, ok þau takandi helldr hann aull saman i sinni hendi lyptandi augu[6] upp til himins sva til guds bidiandi: „Heyr þu, drottinn Jesu Kriste, er enndrbættir þenna heim firir krossins tre, er adr var brotinn firir girndartre! þer er ecki umattuligt, þu gaft blinndum manni syn, er natturan neittadi adr alla birti augnanna; þer se lof sonnum gudi trulyndra manna, er aptr kalladir ferdagadan[7] Lazarum daudan ok grafinn, gefandi honum langt lif yfir iord; þer se lof ok dyrd, er græddir aull sottarkyn ok vanmattu med ordi þins almættiss. Vert þu nærri steinom þessom, er menn brutu til veralldar ordlofs uvitandi sannan avoxt rettrar olmosu. Endrbæt, drottinn, steina þessa firir henndr eingla þinna, til þess at þeir komi til þins rikis sem truanndi verda firir miskunn-

1 þessi *B.* 2 [var er *B, C.* 3 alla *tilf. B.* 4 singirni *B, C.* 5 snera *C.* 6 augum *B*; augu sin *C.* 7 *saal. Fr., B, C.*

arverk þat, er geraz mun i verdi þessarra gimsteina. Hvar firir þer se lof ugetnum fedr firir eingetinn son þinn drottin vaarn Jesum Kristum ok heilagan annda, er lysir ok helgar alla kristni almenniliga". Sem drottins elskari hefir sva talat ok hans blezsada fylgd hefir sakt amen, lykr hann upp sina hond ok synir gimsteinana Cratoni hinom spaka ok ollum lyd nær veranda sva heila ok aptrskipada, at einskis[1] kyns mark fannz a þeira formi, at nockorn tima hefdi þeir brotnir verit. Ok firir stormerki sva haleitrar iartegnar snyz Craton spekingr til hægri hanndar fallandi til fota sælum Johanne postola med þeim tveim ungum monnum, er fyrr voru greindir, ok med aullum sinom lærisveinum, truandi vel ok rettliga a drottin væmicro Jesum Kristum. Var Craton skiotliga skirdr med ollum sinom monnum[2], sva godfuss ok agiætr nu þegar i vandlæti astarinnar, at hann tok opinberliga aullum predica tru drottins værs Jesu Kristi, er hans ord villdo heyra. Sva ok þeir tveir brædr, sem attu sagda gimsteina, selldo þa firir mikla peninga, en gafu sidan allt fatækum maunnum med saunnum algiorleik eptir guds bodordi ok kenning hins blezsada Johannis. Firir þenna avoxt, er Craton spekingr var snuinn til guds, efldiz heilaug kristni storliga mikit i Effeso, þviat hann var af ollum kalladr[3] sem hinn visasti madr, ok þvi viko margir a rettan veg eptir hans fortaulum, sva at þar firir fylgdi sælum Johanni margr lydr i gudzspialligum kenningum.

Nærri þessum tima voru adrir .ii. ungir menn miog agiætir i borg Effesiorum, Atthicus ok Eugenius at nafni, veralldz[4] rikir at audæfum, er[5] med eptirdæmi þeira tveggia, er fyrr voru greindir, selldo alla sina eign meire ok minni ok gafu verdit utlendum monnum[6] med guds astriki, komo sidan til Johannem postola fullrikir i sannre tru ok agiætum sidum, sva at innan litils tima gera þeir allzskyns takn, grædandi siuka menn, frialsandi diofuloda en lysandi blinnda, verandi i fylgd ok fauruneyti [ens blezsada[7] Johannis, sem hann ferr at predika guds erinnde[8] i ymsa[9] stadi, vitiandi kristnina, er honum var a hendi folgin af sialfum gudi; þviat sia hinn haleiti veidimadr for þangat iafnan, sem hann skildi sik mest afla, sakir þess at hann hungradi oaflatliga[10] at leida sem flestar salir gudi til hannda. Þvi vard hans prydi mikil ok kruna vegsamligh [i himinrike[11].

1 einkis *B.* 2 kompannm *B, C.* 3 hafdr *B;* hafdr ok halldinn *C.* 4 *saal. ogsaa B;* veralldar *C.* 5 *saal. B;* en *Fr.;* hverier *C.* 6 pilagrimum *B.* 7 [hins sæla *B.* 8 ord *B, C.* 9 ymisliga *B.* 10 *saal. B, C;* vaveifliga *Fr.* 11 [*mgl. B.*

*Capitulum.*

67. Saugdum ver af framburdi Clementis Alexandrini, at enn hlezsade Johannes evangelista visiteradi skiotliga kristni i Asia, sem hann kom heim af utlegd, ok i þeire saumo ferd fal hann a henndi[1] þann frida mann einum byskupi, sem fyrr var greint i þessu mali. Hvat eigi er gleymanda, helldr greinanda, sem Johannes vitiar kristnina, hversu byskupinn hafi ræktad umbodit eda hvat hann hafi fram[2] bera, ok allt eins er þetta mal sva hyrianda, at segia fyrst, hversu for midil unga mannz ok byskupsins, at þvi skilianligra verdi, hvat fram ferr, sidan Johannes visiterar horgina ok krefr af hyskupi avaxtarins.

*Capitulum.*

68. Nu er þar til at taka, sem byskup tekr þann unga mann i sina vernd ok vardveizlu med allri elsku talandi optliga vid hann heimolliga, ok lætr hann iafnan vera i sinu herbergi rikt halldinn ok geymiliga eptir bodi Johannis postola. Ok þar kemr, sem byskup finnr, at hinum unga manni likar vel, at hann spyrr eptir tru hans ok sidferdi, ok profaz sva[3], at hann kann ecki i kristnum domi. Telr byskup þa firir honum[4], þar til at hann samþyckir heilagri skirn ok iattar guds bodordum. Ok er hyskup hefir kent honum frædi sin med godu sidferdi, ok hann skipaz vel dag fra degi sem hlydinn ok audradr sva rikum meistaradomi, ler byskups[5] tauminn nockot litt[6] i fyrstu, at hann hafi frialsan gang ok meira sialfrædi[7], þviat hann treystir i miskunn skirnarinnar, at hon muni gert hafa unga manni godar kenningar vel briostfastar, sva at eigi muni hann þeim [a bak[8] verpa. En er ungi madr [kennir þat[9], at honum er frialsari gangr[10] en fyrr, temprar hann þat klokliga med einshvers radi, at eigi skal hann skiott kippa taumalagi a sinu sidferdi, helldr, sem stundir lida, [draga til nockot, at þvi sidr megi þann gruna, sem hann skal vardveita[11]. Ok i þvilikum radagerdum er hann æ þvi [gilldari, sem hans alldr ok þroski er meiri[12], þar til at hann legz i gialifi ok nattdryckior med sinum iafnęlldrum, er[13] gerduz hans meistarar a

1 *Her ender Fr.; nu lægges B til Grund.* 2 at *tilf. C.* 3 til *tilf. C.* 4 kristiliga tru *tilf. C.* 5 honum *tilf. C.* 6 til linanar *tilf. C.* 7 en þar til hefir hann haft *tilf. C.* 8 [at baki ser *C.* 9 [finnr *C.* 10 gefinn *tilf. C.* 11 [munar hann til nockut litt, at þeir sem hann geyma megi þvi sidr gruna hans vilia ok alvoru *C.* 12 [diarfari, sem hann er elldri *C.* 13 nu *tilf. C.*

gǫtu svivirdligs lifnadar med leti hiartans[1]4 ok elsku lastanna. Ok sva kemr, at med þeim fiandans eyrendrekum fæz hann i morgu sucki ok sidaz i stuldum um nætr med þiofum[2], þar til at sva illir lutir ok omannligir[3] bida enn meira ofagnat, þviat sva sem hann er [hinn sterkazti madr vordinn reyndr at atgervi, firirlætr hann[4] allan veg rettan ok hleypr ut i forad med fliotri rás, sva at skiotliga er hann drektr i diupi lastanna, þviat ǫrvænting hefir gripit hann, ok medr þvi at hann gefr sitt hiarta brott fra allri idran, rettsnuning ok yfirbot, hirdir hann eigi at starfa lagt i litlum lutum, helldr selr hann sig i opinbera glatan, eigi þolandi, at nockorr se honum frægari i hverium glæp ok ofagnadi, þar[5] til er hann gorir þa sina lærisveina, sem aðr voru hans meistarar til illra luta. Nu er hann vorðinn þeira hǫfðingi ok vakr leiðtogi til manndrapa, ráns ok stulda, eflandi mikinn flock æ einum skogi, sva grimmr ok þyrstr i bloðit sem sialft skogdyrit. Nu er greint, hversu byskup er viðbuinn at giallda sælum Johanni retta skynsemð af þessum manni, ok þvi skulu ver þessu næst æ lita, hvar postoli drottins vars visiterar cristnina ok siðan fram fara til settra luta[6].

## *Capitulum.*

69. Þegar sem byskup þeirar borgar ok aðrir fremztu menn innan staþar spyria, at hinn blezaði Johannes visiterar i nalægð við borgina, fara þeir ut i moti honum meðr miklum[7] fagnaði laðandi hann meðr andligri gleði, leiðandi með sǫng ok skipaðri processione inn i staðinn; þviat hvar sem hann kom, fǫgnuðu sva sauðir guðs, sem þeir sæi sinn meira fagnat en orðum megi skyra, sakir þess at hann var fullr i ast ok elsku til allra manna, sem skiott mun profaz i þvi sem eptir ferr. Nu sem[8] Johannes postoli hefir dvalz[9] um rið ok skipat orindum kirkiunnar, sem honum likar, talar hann sva til staþarbyskupsins, [sva sem þeir sitia baþir samt æ einn dag[10]: „Komiun er timi, segir hann, at þer, herra byskup, latit fram þat, er Jesus Kristus ok ek falum yðr æ hendi forðum við[11] vitni þeirar kristni, er þer styrit.“ Ok

1 hugarins C. 2 liotum· þioflaunum C. 3 oskapligir C. 4 5 [fulluliga reyndr i algiorfi illzkunnar, ok þvilikt er at iafna, sem hann se vordinn hestr otaminn, svo odr ok ærr med gapanda munni, at hvergi ma i nand honum koma, hvar fyrir hann i burt varpar þvi beisli, sem sialfr gud lagdi honum i skirninni, svo flyr hann ok fyrirlætr C. 5 *Her beg. atter A.* 6 inntra C. 7 ollum B. 8 hinn sæli *tilf.* B. 9 dvaliz B. 10 [a einn dag, sem þeir sitia badir samt B. 11 undir B, C.

er byskup heyrir at[1] uvôru þvilik orð af munni postolans, ottaz hann eigi litt, sakir þess at honum er giôrsamliga or minni fallit, þat er geymslu unga mannz til heyrir, hvar fyrir honum kemr þat i hug, at Johannes muni utheimta fe nôckut, þat er hann þickiz eigi tekit hafa. En þegar af annarri halfvu, sem hann váttaði optliga siðan, rann su hugrenning þeiri i moti, at þat var umattuligt, at sva dyrðligr maðr falleraðiz hvarki fyrir uminni ne fiaragirni, at hann mundi heimta þat vissvitandi, er hann atti eigi. Ok fyrir þa sauk at byskup fær eigi[2] fundit, hvar til vikia orð postolans, en þickiz vita ifalaust, at þau ero rettlætisfull æ einnhvern hatt, sitr hann hugar sins fullr litillatliga ok kann engu svara, þviat sem vitr maðr skilr hann glôggliga, hversu við volldugan hann atti orðum at skipta, ok hversu mikit la við, at hann afsakaðiz eigi rangliga. Astvin drottins vars talar hogliga[3] til hans i annan tima: „Eigi krefium ver af yðr[4] gull eðr brent silfr, helldr þann unga mann ok sal broþur yðvars." En er byskup heyrir upplokna saukina, andvarpar hann sarliga ok talar með tárum ok trega sva til spurðra luta: „Herra minn, hann er dauðr." Blezaðr Johannes svarar[5] þa: „Nær andaðiz hann, eðr með hverium hætti let hann sitt lif?" Byskup svarar: „Hann er sannliga dauðr fra[6] guði, þviat hann flyði heðan fullr með hverskyns glæpum, þar til er[7] i siðarstu kaus hann ser hinn versta lut, sva at hann gerðiz spellvirki ok lagðiz ut i eitt fiall með miclum ualldarflocki sinna kompana, ok þar er hann enn i dag hôfðingi allra þeira til hvers illz, er þa lystir at gera." En sva framt sem hit haleita hiarta[8] Johannis tekr framburð byskupsins, leggr[9] hann af ser þat klæði, er hann sitr i, slændi sitt hôfut með mikilli sut, sem þar er landskapr til, sva talandi millum gratligra andvarpa fyrir sampining astarinnar: „Ek hugðiz þar skipa goðan geymara broðurins ônd, er ek selldi yðr hann i hônd, en nu er sva vorðit, sem eigi ma standa sva buit; þvi se hestr sôðlaðr þegar i stað mer til reiðar, ok þar með [fengnir leiðtogar[10] fram i fiallit". Ok þegar æn dvôl sem hestr er buinn, stigr sa blezaði herra honum æ bak, riðandi[11] hart ok skyndiliga þar til er hann kemr[12] i fiallit. Ok iafuskiott[13] er hann fanginn af þeim [sem vôrðinn[14] helldu fram æ veginn eptir boði haufðingians,

1 *saal. B, C*; af *A*. 2 a *tilf. B*. 3 hogværliga *B;* med elskunnar hogværd *C*. 4 segir hann *tilf. B*. 5 segir *B*. 6 sinum *B; mgl. C*. 7 at *B*. 8 hins miuka *tilf. B*. 9 bledr *B*. 10 [feinginn leidtogi *B*. 11 sidan *tilf. B*. 12 fram *tilf. B*. 13 þegar i stad *B*. 14 [er vord *B*.

er sitr i fiallinu. Lætr hinn sæli Johannes ser allvel lika, þott þeir hafi hendr aa honum, sva at hvarki gerir hann sik likligan til at veriaz ne flyia, utan helldr hefir hann frammi vitru sina ok nærfæri, framr ok fliotr i ôrendum sinum ok ôðrum lutum, fyrr en þeir hafi rænt hann hestinum, þviat hann skilr nu sakir elli, at honum hentar eigi[1] aa fæti at leika, ef skiotleikinn skal reyna. Ok sem hann sitr enn aa baki heill ok raustr með guðs vilia, talar hann hatt til spellvirkianna ok segir sva: „Hvat vilit þer mer?[2] Ekki aa ek ôrindi við yðr, utan [ek vil senda yðr mina sendiferð ok segia[3] hôfðingia yðrum, at ek hefir[4] sótt hegat aa hans fund ok vil[5] giarna sea hann". Ok spellvirkiarnir ero sva lyðnir með þess boði, er ollum lutum styrir, at þeir renna ok segia sinum herra, at riðandi maðr er kominn i þann stað ok vill giarna finna hann. Sôgðu spellvirkiar þvi sva ukunnliga fra manni [þeim sem[6] kominn var, at þeir kendu eigi Johannem postola.

*Leidretting spellvirkianna*[7].

70. Sem hôfðingi rans ok menndrapa heyrir þat af framburði sinna sveina, at maðr er kominn, saa er hann vill sea, riss hann upp skyndiliga ok herklæðiz til handa ok fóta. Var maðrinn bæði mikill vexti ok sæmiligr[8] at aaliti, rammr at afli ok hinn hermannligzti. Sva væpntr gengr hann fram veginn þar til at [um langt ser hann[9] mann aa hesti ok kennir þegar i stað einkannligt yfirbragð astvinar drottins vars. Þvi slærr yfir hann hræðzlu mikilli, þott bæði væri hann storr ok sterkr, sva at i stað leggr hann aa flotta miklu harðara, en hann sæi fyrir ser skipaða fylking hermanna. En er gamli faþir blezaðr Johannes ser þat, slærr hann [hestinn snarliga fram aa veginn[10], sem hann see ungr vorðinn i annat sinn, kallandi hatt, þegar sem hann kemr [nôckut nærri[11] þeim er flyr, ok segir sva til hans[12]: „Heyr þu son minn, hvi flyr þu [feðr þinn? hvi rennr þu[13] herklæddr undan mer gômlum ok vápnlausum?" Sem hinn sæli Johannes hefir sva kallat nôckurum sinnum, dregr saman með þeim, þviat hestrinn var val fimr ok fliotr, en maðrinn herklæddr ok storliga feitr, sva at honum dregr

1 *Her beg. Fr.IV*[a]. 2 segir hann *tilf. B, Fr.* 3 [þat at þer farit mina sendiferd ok segit *B, Fr.* 4 hefi *Fr.* 5 ek vil *B;* vil ek *Fr.* 6 [þessum er *B, Fr.* 7 *Overskr. B.* 8 vænn *Fr.* 9 [*saal. øvr.;* hann langt ser *A.* 10 [skiotliga hestinn med sporum, ridandi hvatliga eptir þeim sem undan flyr, svo *C.* 11 [nockorr nærri *Fr.;* nockut nær *B.* 12 [svo nær, at flottamadrinn ma heyra *C.* 13 [fodur þinn ok rennr *B.*

skiott um[1] rasina, hvar fyrir ôrindreki drottins semr ser ônnur orð enn haleitari ok meiri miskunn hafandi; [hann segir sva[2]: „Þu aumr maðr, ottaz eigi, þviat þu hefir enn lifs ván. See herna, segir hann, ek mun giallda skynsemi fyrir þik allzvalldanda guði, ok ef hann vill, skal ek feginn[3] þola dauða fyrir þik, sva sem drottinn þolþi dauða fyrir vara sauk, ok mina sal mun ek utgefa fyrir þitt lif. Þvi gor sva val, son minn sæli, at þu nem staðar[4] ok tru mer, at drottinn sendi mik hegat“. Viðr þessi orð hin siþurstu stendr spellvirkinn ok stirir i iorð sva sem gripinn af guði ok hôndlaðr brott af grimleik i goða raðagorð, kastandi þvi næst sverðinu, er hann hellt æ, langt i brott æ vôllinn, þar meðr serhveriar herfórur, sva at hann stendr vapnlauss. Ok sem vinr drottins vars kemr i nalęgð, stigr hann af baki fliotliga ok gengr fram at honum, þar sem hann stendr litillatliga æ vellinum. En þegar sem sterki maðr ser þat, kastar hann i sannleik ollu drambi ok metnaði langt i brott fra ser, rennandi fram i mot postolanum, framfallinn[5] æ iorðina fyrir hans fætr meðr sut ok hæreystum grati, með nogligum lækium táranna ok fremzta litillæti [sins likama, skirandi sik i brunni augnanna enn i annan tima[6]. Ok er hann hefir um stund sva frammi[7] legit, skoþar hinn sæli Johannes smasmugliga[7] oll hans orð ok giorðir, siaandi at sina hægri hônd felr hann með æhyggiu mikilli ok þorir eigi at syna þviliks mannz ôgliti[8]. Hvat er hinn [kiærazti herra[9] undirstendr, at mannzins samvitzka hræðizt geysiliga þau drap ok dreyra, sem su hægri hônd hefir utsteypt margan tima. Þvi setr hann sik af nyiu sva sem til vôrðzlu við almattigan guð styrkiandi þat með haleitum svardaga, at sva skal hann fylgia hans mali fyrir græðarans ôgliti[8], at hann fæi likn ok fyrirgefningh allra sinna andmarka meiri ok minni. Eptir sva talat fellr hinn sæli Johannes niðr æ vollinn iafnfram honum takandi með afli þa hægri hônd, er nu kallar hann reina fyrir grat ok iðran táranna; þessa kyssir hann ok kallar sæla vera, er auðlaðiz yfirbot sinna misverka, ok biðr sva guðs tilkvamu með [eilifra fagnaða ômbun ok gleði[10].

## *Capitulum.*

71. Þat veitir faðir allra miskunnsemða, drottinn varr Jesus Kristus, at hinn blezaði Johannes þiggr fagran ávoxt sinnar mæðu

1 *mgl. B, Fr.* 2 [*tilf. B, Fr.* 3 *tilf. øvr.* 4 *saal. øvr.;* stað *A.* 5 framfallandi *B, C.* 6 [*mgl. B.* 7 *mgl. B.* 8 augliti *øvr.* 9 [blezadi Johannes *B.* 10 [ômbun eilifra fagnada *B, Fr.*

ok mikils sveita, þviat þenna mann færr hann uppreist hafandi með ser heim til byskupsstolsins allan veghl, þaðan sem fyrr hafði hann brott laupiz. Ok sem þann veg er komit, lætr hinn sæli Johannes ser ecki annat skylldra[1] en ganga i skript[2] með honum bæði með voku ok fostum ok uaflatligu bænahalldi natt með degi, fyllandi sitt fyrirheit at giallda hann heilan guði. Her með leggr hann honum ymisligar hugganir ilmandi malsenda[3], þvilikt sem hann brott ræki með sinum yfirsaungum [ok bræddi[4] með sinum hondum hægt þann iokul ok linliga, sem syllt hafði þat hiarta hit auma. Ok eigi gefr hann upp fyrr, en hann gelldr þenna mann aptr i faðm heilagrar cristni sva val endrbættan ok alstyrkan, sem almattigum guði var mest til lofs ok [eilifrar pryði[5]. Sva veitti vin drottins ukomnum timum eptir sinn dag hæleit dæmi sannrar iðranar ok heilaga kenning nyrrar endrgetningar.

Væntir sa er þessa saugu diktaði i latinu guði til lofs ok sęlum Johanne, at hon muni[6] eigi at eins kynning gera sannra luta, helldr mun[7] hon leiða lesandi menn ok heyrandi til astar við guð ok sannrar elsku þess haleita herra Johannis postola, er sva sotti eptir syndugri sal henni at hialpa ok [af þvi foraði i brott leiða, sem hennar var fyrir mikinn samnat[8] storra[9] glępa. Senniliga er syndugum manni þvilikr faðir elskandi ok opt til minnis kallandi, [þviat vist er[10], at Johannes[11] postoli elldiz eigi brott fra miskunninni eðr kappi drengskaparins við hvern þann, er honum gerir nockut elskubragð.

## *Capitulum.*

72. Heyrðum ver, hversu Johannes hialpaði þeim unga manni, er villtz hafði brott fra guði. Þvi skulum ver segia[12] þessu næst, með hverri atferð hann frelsaði[13] tva menn af þeim dauða, sem þeira beið fyrir svikliga hafnan haleitra guðs boðorða, at enn birtiz i fylgiandi lutum, hversu vin drottins hefir [nógligt valld[14] ok vilia goðan. Fyrr var lesit, at .ii. rikir bræðr i Effeso sneruz til guðs með sva miklum algiorleik, at þeir gafu fatækum alla sina eign ok fylgðu sælum Johanni, sem hann for i syslu sina. Vilianliga fatækir[15], sem aðr var lesit, voru þeir postola guðs harðla

1 skylldara *B*, *Fr.* 2 skriptir *B*, *Fr.* 3 malsemda *B*, *Fr.* 4 [þidandi *C.* 5 [dyrdar *B.* 6 mun *Fr.* 7 muni *B.* 8 [brott leida af foradi *B.* 9 *saal. B*, *Fr*; sinna *A.* 10 [*saal. B*, *Fr.*; þvi er vist *A.* 11 Jon *B*, *Fr.* 12 setia *B*, *Fr.* 13 frialsar *B*, *Fr.* 14 [valld i nog *B*, *Fr.* 15 en i krôptum fullrikir *tilf. B*, *Fr.*

kiærir ok heimolligir, sakir þess at hann elskaði þa iafnan mest, sem almattigum guði þionaðu bezt. Nu berr sva til, sem hinn sæli Johannes kemr til fyrrnefndrar borgar Pergamum, þann tima sem hann visiterar, hafandi sagða bræðr i sinu foruneyti, ero innan borgar menn fullrikir ok storliga mektugir, i veralldligri[1] dyrð sva tilkomnir, at þeir voru[2] felausir ok forðum þionostusveinar þeira sômu bræðra, sem nu ero fatækir fyrir guðs ast ok fylgia Johanne postola. Ok er þeir[3] ganga pruðklæddir um staðinn, koma þeir þeim i augsyn, sem fyrr [hofðu verit[4] þeira meistaramenn. Hvar fyrir slægr diôfull setr sina ôr æ streng ok skytr i hiarta guðs riddarum angranarkolfi beiskrar ugleði, fyrir þat er þeir sea sina þræla skinandi með veralldar bloma val klædda en sialfa sik fatæka i einu klæði upp standa. Þessi fiandans ôr slær þa sva hart, at þegar er i brottu gleði hugskotzins ok bliða andlitzins, hvat er skiotliga finnr hinn haleiti[5] faðir Johannes, talandi sva til þeira meðr[6] andvarpan ok hôrmungar yfirbragði: „Ek serr[7], at yckarr hugr ok yfirbragð er umvent brott af fyrri staðfesti, fyrir þat er þit iðriz goðs verks, þit fylgðut kenningum[8] drottins vars Jesu Kristi ok fyrirletut alla luti. See, þetta mislikar yckr nu, ok þetta[9] er sauk til yckarrar ugleði. En þetta ma skiott aptr bætaz, ef yckr þickir þat mestu varða at hafa gull ok gimsteina[10]. Nu farit i skog ok berit til min byrðar yckrar af [rettum vôndum[11]". Ok er þeir hafa sva gort, kallar hinn sæli Johannes æ guðs nafn yfir vônduna, ok æn dvol snuaz þeir upp i gull. [Eptir þat gort[12] talar Johannes til þeira: „Berit enn[13] til min smasteina af siofar strondu". Ok er þeir hafa sva gôrt, kallar [vars herra vin hunangligt[14] nafn drottins sins ok snyr hriufa grasteina[15] upp i fagra gimsteina. Siþan talar hann sva til þeira aumu bræðra: „Farit nu[16] innan .vii. daga til gullsmiða ok gimsteinameistara profandi fyrir þeira vitzku ok meistarliga kunnaztu, hvart þetta gull ok gimsteinar er ufalsat". Eptir hans boði foru bræðr um .vii. daga, ok aptr komandi tala þeir sva: „Herra[17], vit kringðum allar buðir nalægra gullsmiða, ok sôgðu þeir allir þetta gull þvi helldr ufalsat, at engin þeira sagðiz æ sinum dôgum sieð hafa þvilikan[18] malm

1 veralldar *B*, *Fr.* 2 hofdu verit *B*, *Fr.* 3 þessir *B*, *C.* 4 *saal. øvr*; voru *A.* 5 blezsadi *Fr.* 6 *Her ender Fr.IV²*. 7 se *B.* 8 kenning *B.* 9 þessi *B.* 10 silfr ok dyrdliga steina *B*; silfr ok fagra gimsteina *C.* 11 [limvondum *C.* 12 [Sidan *B.* 13 nu *B.* 14 [hann *B* 15 griotsteina *B*, *C.* 16 segir hann *tilf. B.* 17 segia þeir *tilf. B.* 18 þesskyns *B.*

fyrr sva skiæran vera mega sem þenna; fundu vit ok þa villduztu meistara, er gimsteina kunnu vel greina, ok sôgðuz þeir alldri fyrr hafa sieð þvilika." Eptir [þenna vitnisburð, at gull ok gimsteinar er hvartveggia gott[1], talar hinn sæli Johannes til þeira: „Farit nu leið yckra ok leysit aptr þær iarðir, er þit selldut fyrir nafn drottins mins Jesus Cristz, þviat glatat hafit[2] nu þa ômbun, er þit eignaðuz aðr i himinriki. Kaupit nu klæði fôgr, [at þit[3] skinit um stund sem rosa[4], en fallit siðan i fôlnan sem su rosa, er litlu aðr synir sik hafa sætan ilm ok agiætan roða. Þit pinduz miok i farsældarfôr yckarra þræla, en syttut[5] yckr fatæka vorðna, blomgiz nu i augabragði ok berit væn klæði, at þit þornit siðarr. Verit nu rikir timaliga, at þit sieð fatækir eilifliga. I mikla uvitzku ero þit volltnir, þviat skipan almattigs guðs snuit þit yckr i ufagnat. Yckr væri æ litanda, hvart [guðs hendi[6] er eigi tilheyrligt, at gora þa rika, sem hann vill, ok hefia þa sômu[7] til meistaramanna, sem aðr voru lágir sveinar sinna herra. Þvi vill drottinn sva vera láta, at staðfesti rettlatra megi vel þreyta fyrir hans nafni, þa er þeir trua sik takandi[8] eilif auðæfi fyrir þau [stundligu auðæfi[9], er þeir hôfnuðu fyrir[10] hans astriki. Fyrir þessa sauk virða styrkir menn enskis vert, hvat fagrt syniz þessa heims, utan helldr forðaz þat allt sem elldinn sialfan, þviat þat leiðir uvaran til eilifs bruna.

Sem minn blezaði meistari sagði af einum manni rikum, er dagliga skartaði mikit klæddr guðvefiarpelli, hafandi matbunað skemtiligan ok vel pipraðan með dyrazta kosti, fyrir hvers durum[11] uti læ einn salugr maðr Lazarus at nafni, fullr með sarum ok krankdomi, girnandiz at seðia sitt hungr með þeim smápôrum, er fellu af borði rika mannz, en engi gaf honum. Siðan gerðiz sva, at [hinn riki maðr ok hinn fatæki Lazarus onduðuz baðir a einum degi, var þa[12] hinn fatæki Lazarus[13] fluttr i faðm Abrahe, en riki maðr drektr i loga helvitis, hvaðan af hann upplyptir sin augu siandi Lazarum i sagðri[14] hvilld Abrahe. Hvar fyrir hann kallar hárri rauddu sva talandi: Heyrþu faðir Abraham! miskunna mer ok send Lazarum, at hann vokvi[15] fremsta lut fingrs sins i vatni ok kiæli[16] tungu mina, þviat ek brennr[17] i þessum loga. Her til svarar Abraham: Ver minnigr, son[18], at þu tokt bliða

1 [þetta *B*. 2 hafi þit *B*. 3 [ok *B*, *C*. 4 rose *B*; roser *C*. 5 *saal*. *B*, *C*; sytit *A*. 6 [gudi *B*. 7 *tilf*. *B*, *C*. 8 taka *B*; faa *C*. 9 [stundlig *B*. 10 i *B*. 11 dyrum *B*. 12 [*tilf*. *B*. 13 var *tilf*. *A*. 14 *mgl* *B*. 15 vǫki *B*. 16 *Her beg. atter A*². 17 brenn *B*. 18 segir hann *tilf*. *B*.

luti [i lifi þinu, ok Lazarus laga luti[1], nu huggaz hann, en þu piniz. Sva er ok mikit forat[2] sett ok skipat milli vár, at hvarigir mega her til annarra fara. Riki maðr talar þa enn: Ek æ .v. bræðr[3] eptir i heiminum, ok bið ek þik, faþir Abraham, at þu sendir Lazarum at vara þa við, at þeir komi eigi i slika[4] pinu. Abraham svaraði: Bræðr þinir hafa heyrt[5] Moysen ok aðra spamenn, variz þeir þaðan af, ok se lyðnir þvi sem ritningar bioða. Riki maðr svarar[6] þa enn: Herra, þeir munu eigi trua nema[7] nôckurr risi af dauða. Abraham svarar: Ef þeir trua eigi Moysi ok spæmonnum, munu þeir eigi þvi helldr trua, þott nôckurr risi af dauða. Þvilika luti framsetta styrkti drottinn varr ok meistari með opinberum iartegnum, þviat þann tima sem hann sagði þetta, svôruðu honum nôckurir: Hverr kom higat or oðrum heimi, at ver seem skylldugir at trua þvi, sem þu segir? En varr herra svaraði sva til: Berit hingat dauða menn! Ok er þat var gert, let hann[8] vitni bera sinum orðum i[9] fullan sannleik.

En til hvers segir ek þessa luti af minum herra, þar sem her standa hia þeir, sem ek reista af dauða i hans nafni. Þer sæð upp æ, at ek gerði þetta, her með sæð þer, at ek græddi[10] kararmenn ok reinsaði[11] likþra. Ek gaf syn blindum ok frialsaði diôfuloða. Þessi auðæfi kraptanna ma engi sa hafa, er girniz stundligan rikdom heims þessa. Her með gengut þit sialfir inn til siukra manna ok græddut þa meðr ækalli hins blezaða nafns drottins vars Jesu Kristz, þit rakut brott diôfla oc lystut blinda. Nu er su miskunn ôll fra yckr horfin, ok sem þit vorut miklir ok sterkir, sva ero þit nu veykir ok veslugir. Yckr hrædduz diôflar sva miok um stund, at þeir flyðu fyrir yckr brott fra sinu herfangi, en nu er sva komit, at þit hræðiz diôflana. Elskari veralldligra penninga er þræll auðęfanna, ranglat elska ok ægirndarfull til penninga er af sialfum diôflinum, þviat hann er hôfðingi fyrir holldligum afla ok drotnar þeim ollum, er heiminn elska. Sealfir heimsins elskarar mega auðæfin engi freals eiga, helldr eignaz auðæfin þa sva sem þræla. Sa er hattr hins rika mannz at samna saman [mat ok dryck, at þôrf vinni[12] þushundrat[13] manna; hann hefir einn kvið, en ann ongum at niota; hann hefir ok einn likama, en hrokaðar[14] storar kistur með ymissum klæðum bæði skornum ok oskornum, sva at þôrf vinnr þushundrat manna; eigi veit hann,

1 [*tilf. B, C.* 2 forad *B.* 3 segir hann *tilf. B.* 4 þessa *B.* 5 *mgl. øvr.* 6 segir *B.* 7 utan *B.* 8 þa *tilf. B* 9 ok *B.* 10 grædda $A^2$. 11 reinsada $A^2$, *B.* 12 [sva mikinn mat ok dryck at þorf vinnr *B.* 13 þusund *C.* 14 *saal. B*; hroka skal *A*, $A^2$, *C.*

hver [su er ein gangveria, at hann megi niota, ok eigi er honum kunnigt, hverium til handa hann varðveitir[1]. Heðan af segir hinn heilagi andi fyrir spamanninn: Hegomliga ruglaz [þeir er rikdominn lesa ok vita eigi hverium þeir spara[2]. Nôktir komum ver æ þessa iorð af moður kviði þurfandi klæðnaðar, átz ok dryckiar, nôktir munum ver ok aptr snaraz i iorðina, sem ver gengum þaðan. Ok sva sem þetta er sameiginligt ollu mannkyni, sva veitiz ok [ollum rikdomi[3] heimsins[4] meðr sama hætti[5] birti solarinnar einn veg rikum ok fatækum, einn veg lios tunglsins ok annarra himintungla, einn veg loptzins skiærleiki ok regn yfir iorðina niðrfallandi[6]; her meðr er [hurð heilagrar kirkiu ok helgan skirnarbrunnzins sameigit ok fyrirgefning synda allra[7]. I þessum lutum gripr engin persona meira lut en guð vill skipa, einn veg fatækr sem fullrikr; þvi er, sem ek hefvir sagt, at sa er vesall[8] miok, sem framarr ægirniz en hann þarf, með þvi at optliga ma hann þess eigi niota, sem hann væri nauðsyniaðr til at hafa, sakir þess at eigi fæðaz siðr riður ok krankdomar i þess mannz kviði, er fullrikr heitir, hvarki hlifir honum likþræ ne blindleiki, ok allzkyns sottir hôndla hann sva sem fatækan. Rôpta[9] þa fehirðzlur af háfum hroka, en hann sealfan hungrar ok ma hvarki bita ne supa [þann tima[10]. Ok þvi siðr gera þa auðæfin honum gagn, at þat er honum mestr sottarauki, er til þeira veit, sakir þess at hann uggir vangeymslu æ godzinu, ok hvatvetna[11] muni skutlaz ok stolit i brott, en hann lasmærr[12] ok ma engis geyma[13]. Ok einnhvern[14] tima [af þessum[15], sem her greinaz, deyia þeir skiotliga með váveifligum dauða: þa er þeir geyma sitt hus sem sterkligaz fyrir þiofum ok ransmonnum, at eigi skuli nôckut granda godzinu; vellta þeir sialfir ut af, er minnz varir sva [i ymisligum athôfnum ok febrôgðum, fága nu keyptar iarþir ok eria[16] með sva

1 [*saal. A*, $A^2$; þau ero, sem hann skal niota mega, eda hverium hann vardveitir til handa *B*; þess skal niota eptir hans dag, og eigi er honum kunnigt, hverium til handa hann vardveitir siu audæfi *C*. 2 [hverr madr, er rikdominn less, ok veit eigi hverium hann sparir *B* 3 *saal. A*, $A^2$, *B*. 4 himinsins *B*. 5 [*mgl. C*. 6 nidrfallanda *B*, *C*. 7 *saal. A*, $A^2$; helgan skirnarbrunnzins ollum sameiginlig i fyrirgefning allra synda *C*; sameigin hurd heilagrar kirkio ok helgan skirnarbrunnzins, firirgefning synda ok offr heilags alltaris, einkannlig fæda drottins likama ok sætr dryckr hans blezada dreyra, miskuun grædarans, vitian drottins ok firirgefning synda *B*. 8 vesæll *B*. 9 Standa *B*. 10 [*mgl. B*, *C*. 11 hvetvetna $A^2$; hvetvitna *B*. 12 lasmeyrr *B*; lasinn *C*. 13 gæta *B*. 14 *saal. B*; i hvern *A*, $A^2$. 15 [*tüf. B*. 16 [þeir standa i ym. ath. ok febrǫgdum *B*,

miklu megni, at allt skal æ gangi vera með harki ok hlaupum, ópi ok unaðum, æ natt ok æ deghi; þa er þeir reikna landzkylldir[1] með klokskap[2] ok udygð, [eðr reisa breiðar buðir ok sterkar sinum fiám til varðveitzlu; þa er þeir reka kaupferðir, eða mykia vôlldin með fegiôfum, at fyrir þa smurning skuli þeir fa len nôckut, at þvi helldr megi þeir[3] kuga þann hinn fatæka; [þa er þeir fullgera sina reiði æ hverium er þeir mega, en þola með ôngu móti, ef nôckut gengr auðruvis en þeir vilia; þa er þeir[4] samþyckia bliding holldzins ok saurga aðra, enda ero sialfir saurgaþir [leikandi þar með ymisligt truff ok hegoma; hniga þeir skiott nôktir af þessarri vesôld niðr i[5] dauða, berandi með ser marga luti ok stora, ok ecki utan syndirnar, með hverium þeir taka maklig giolld eilifra kvala[6]".

*Reistr Stacteus af dauda.*

73. Þessi predicatio, sem nu hefir lesin verit um stund, berr skiært vitni sælum Johanni, hversu fasthalldr hann hefir verit i astinni, ok hversu seint hann let rakna hendr af guðs offri. Hvar fyrir almattig hônd honum er samvinnandi, at hann megi fylla sinn vilia i huggan-salnanna. Þvi skipar hinn hæsti guð, at iartegnir skulu til ganga þeim at hallda ok vel styra til goðra luta, sem sva ero harþir, at eigi verða með orðum linaðir, utan helldr bæði með stormerkium ok annars heims ognum. Rett i [þann tima sem predicatio Johannis stendr með þessum orðum, er siðarst voru skrifut i næsta capitulo[7], gôriz likfylgia i borginni Pergamo þann sama veg, sem hinn blezaði Johannes sitr nærri ok talar sin ôrendi. Þessi sem dauðr var borinn var einn eckiu son, Stacteus at nafni, þar innan borgar, maðr ungr at alldri. Hann hafði kvænz fyrir litlum tima, sva at eigi voru meirr liðnir þaðan i fra en .xxx.[8] daga. Lifði moþir hans eptir ok su nyia husfru. Var [þar gratr mikill, kall ok veinan, þvi at moþir sytti eingetinn son sinn, en husfru nyian bonda. Her með hafa þeir mikla likfylgiu, er oll skal grata[9] þeim til hugganar ok biðia þeirar bænar, sem hinn sæli Johannes verðr varr við skiott, [hver er, þat er at[10] allir i senn skiota niðr likaminum en fleygia ser fram

1 skylldir $A^2$; konungs skylldir *B* 2 prett *C*. 3 [aflandi valldanna at *B*. 4 [fullgerandi sina reidi a odrum en þolandi eingum. *B*. 5 [hnigandi sva bunir i skiotan *B*. 6 pisla *B*. 7 [þenna tima *B*. 8 þrirtigir *B*. 9 [þvi gratr mikill, kall ok veinau af þeim badum. Her med hafa þær mikla likfylgd gratandi *B*. 10 [þviat þessir *B*.

æ iorðina fyrir fætr postolanum biðiandi meðr sarligum styn ok tregafullum tárum, at i nafni drottins sins reisi hann þenna unga mann til lifs sem forðum Drusianam [sina husfru[1]. Sva mikill ok akafr var hörmungarþytr þessa folks, at hinn helgi Johannes komz við miok [ok matti sik eigi fyrir tárum tempra[1] framfallandi til bænar með grati. Ok [eptir langa stund riss hann upp af bæn ok stendr æ kniám rettandi baðar hendr til himins meðr hlioðri bæn, sva at engin heyrði nema guð einn. Ok[1] er hann hefir sva þrysvar gort[2] langa stund i hvert sinn, byðr hann afsveipa likit ok talar sva: „Heyr, ungi maðr Stactee, er fyrir ungar astir holldligrar girndar glataðir þitt lif! Heyr, ungi maðr, er eigi kendir skapara þinn ok [eigi vissir[1] græðara mannkynsins ok sannan vin! Þvi fell þitt lif með skiotu kalli, at fyrir þina uvitzku kom þer i moti grimmr uvin. Bæði tár ok bænir hefir ek fram steypt minum drotni, til þess at þu leysiz af þinu bandi ok risir af dauða, vattandi .ii. bræðrum Attico ok Eugenio, [hveriu þeir hafa tynt i eilifri dyrð[3] ok i hveria pinu þeir hafa runnit." Þegar sem postoli drottins hefir sva talat, riss ungi maðr skyndiliga æ fætr brott af börunum gangandi fyrir sælan Johannem, ok hneigir honom með knefalli talandi hatt ok skyrt, þat sem honum var boðit, vendandi ræðu sinni til .ii. bræðra sva segiandi, sem her ma heyra: „Þat skulu þit vita, at ek sa varðhalldzengla yckra miok gratandi, en fiandans engla sa ek fagnandi af yckarri glatan. Ek sæ þat riki, er yckr var fyrirbuit, hallir [reistar ok fagrliga samðar[4] með skinandum gimsteinum, fullar meðr fagnaði ok hverskyns gleði, [fullar meðr skemtanum ok eilifu liosi, fullar með liosi uendiligs fagnaþar ok ollum glaðningum[5], hvat er þit tyndut ok brott köstuðut, aflandi yckr myrka staði fulla [með drekum ok dynianda loga, fulla með kvolum ok uvirðanligum pinslum, fulla með skemð ok harmi, fulla með þröngingum ok ótta hræðiligum[6]. Þilikir kaupmenn ero þit, höfnuðut blom i borgum yckrum, er [alldri mega[7] þorna, þar með organa saung sætt hlioðanda, en tokut i moti þa dyflizu, er alldri hlemmir æ hlioði, utan [grætr ok sytir[8] nátt með degi. Nu er yckr engin annarr utvegr en biðia postola guðs með ollu miuklæti, at sva sem hann reisti mik til lifs af likams dauða, sva reisi hann yckr af andar dauða, þviat æn ifasemð skulu þit vita, at

1 [*mgl. B.* 2 med hliodri bæn *tilf. B.* 3 [hveria dyrð þeir hafa tynt *B* 4 [fagrliga reistar *B.* 5 [*mgl B.* 6 [kvolum ok dynianda loga, med allzkyns pislum ok hræðiligum harmi ok otta *B.* 7 [eigi megu *B.* 8 [*saal. øvr.;* gratr ok sytr *A.*

yckur nôfn ero nu af skafin lifsbok, ok þar koma þau eigi siðan, utan þit snuit til iðranar ok farit fram raðum Johannis postola i ollum lu'um, at hann kalli yckr aptr til guðs miskunnar.

*Capitulum.*

74. Ok er Stacteus hefir sva talat, kemr ótti mikill yfir fyrr nefnda bræðr, sva at þeir falla til fota sælum Johanni með ollu litillęti, ok með þeim sa ungi maðr, er af dauða var reistr, ok allr sa lyðr er þar var samankominn, miukliga[1] biðiandi, at hann miskunni þeira mali ok biði fyrir þeim til guðs. En hinn sæli faðir Johannes gefr þeim [andsvaur ollum saman, at þeir[2] skulu gora iðran um .xxx. dagha synandi guði enn i annan tima sitt hiarta brottsnuit af heimligum metnaði ok fiaræagirni, biðiandi staðfastliga, at greindir gullteinar sneriz aptr i rettliga[3] natturu, ok gimsteinar i þann stett, sem fyrr helldu þeir. Þessu boði lyða baðir bræðr, gerandi iðran um .xxx. daga, ok stendr enn rikdomr gullz ok gimsteina með heilu, sva at eigi umvendiz fyrir þeira bæn i tre eðr stein. Koma þeir sva fyrir postola drottins, at þeim þiekir mein at auðæfum, framfallnir með litillæti, ok segia sva: „Þu, hinn agiæti guðs vin, predieaðir iafnan likn ok lærðir miskunn, bioðandi at maðr skylldi manni fyrirlata við sik misgort; ok ef guð vill þat, at maðr se manni miskunnsamr, mun hann miklu framarr likna ok þyrma manninum, meðr þvi at hann er sialfr[4] guð. Iðrandi erum mið[5] at ockarri synd, ok þat, er við misgerðum með girndaraugum til heimsins, gratum við nu með tærstocknum augum til himinsins. Nu biðium við yðr, hinn virðuligi herra ok hinn agiæti postoli lifanda guðs, at sva sem þer predieaðut miskunn með orðum, sva synit þer hana nu með[6] verkum takandi oekr aptr i sætt ok þionostu við guð ok yðr.“ Þessum bænarorðum svarar hinn sæli Johannes með fagnaðarsælu viðbragði ok bliðu andliti, talandi til þeira allra, er nærri[7] standa, biðiandi fyrir þeim er frammi liggia; hann segir sva: „Drottinn várr Jesus Kristus talaði[8] þessum orðum, [þa er grein gerðiz af syndugum monnum[9]: Eigi vil ek dauða syndugs mannz[10], helldr vil ek framarr, at hann[11] lifi. Ok enn i annan tima, sem minn blezaði meistari lærði oss

1 miuklatliga *B*   2 [svôr, at brædr þessir *B*.   3 treliga *B*; sina *C*.   4 sanur *B*.   5 *saal.* *A*, $A^2$; vid *B*.   6 i $A^2$, *B*.   7 hia *B*.   8 *saal.* *C*; talaðir *A*, $A^2$, *B*.   9 [*mgl.* *B*.   10 sagdi hann *tilf.* *B*.   11 snuiz ok *tilf.* *B*.

af iðrandi[1] monnum, sagði hann sva: Ek segi yðr satt, at himinrikis englum er [mikill fagnaðr yfir einum syndugum manni, er brott snaraz fra sinum syndum, ok yfir honum er þeim meiri gleði[2] en yfir .ix. monnum ok .ix. tigum, er eigi misgorðu. Fyrir þij vil ek nu kunnigt gera, synir minir, at drottinn tok iðran þessarra bræðra." Eptir sva talat, snyr hann til Atticum ok Eugenium ok mælir sva: „Farit nu ok berit aptr i skog þa vôndu, sem þit þaðan bárut, ok i sama stað, þviat þeir ero nu aptr snunir i sina natturu; sva skulo þit ok bera þa steina til siofar, þviat þat er nu berg sem fyrr." En er opt nefndir bræðr hôfðu þessa luti fyllt eptir boði hins blezaða Johannis, þagu þeir aptr fylliliga þa miskunn, sem þeir hôfðu aðr glatat, gorandi hverkyns iartegnir i valldi ok vilia sins[3] drottins, er haleitliga sæmir sina vini bæði þessa heims ok i ôþru lifi.

*Capitulum.*

75. Fyrir þvilikan ævôxt ok margan annan sigraði Johannes margan svira miukan gerandi til litillætis ok þionostu sins græðara, naliga laðandi til eilifrar samkundu alla provinciam Asie, er undir lytr erchistolinn i Effeso, utan þar reis æ harðaz við, sem metnaðrinn var mestr fyrir[4], valldit hæst ok rikdomrinn sterkaztr, i hôfutborg rikissins sialfri Effeso. Þviat sva sem hun var hæri raddar en aðrir staðir i landinu, sva bar hun af um allan metnat, þann er[5] heiðnum domi til heyrir. Allra mest[6] var þar dyrkaðr sa fiandi, er þeir kolluðu Dyanam[7], atti su gyðia storliga mikit hof innan borgar, hagliga gort með storum kosti, sem trautt ma[8] telia. Þvi var folkit hart ok uvikianligt [i marga staði[9], at þeir hôfðu mikinn trunat[10] eptir sinu forellri æ sva fornum fiandans dáraskap. En þo veitir þat almattigr guð æ þessum timum, at hinn sæli faþir Johannes dregr marga brott af hirðsveitum Dyane, ok leiðir til goðs erfiðis i vingarð himnakonungs, þar til at sialft blotskaparmegnit þolir eigi ok reisir mikit framleypi ok samblastr ufriðar moti honum, sva at þeir hafa[11] hann fanginn ok ganga[12] fram til musteris Dyane þrongvandi undir afarkosti[13], at hann fornfæri skurðgoðinu, mykiandi þat[14] fra mikilli reiði, er lengi samnaðiz fyrir motgerðir margar ok storar, er þeir segia

1 idrandum *B*. 2 [meiri fagnadr ok gledi yfir einum manni, er idran gerir ok brott snaraz fra sinum syndum *B*. 3 *mgl* $A^2$, vars *B*. 4 *mgl. B*. 5 blotum ok *tilf. B*. 6 fremst *B* 7 Dianam *B*. 8 er at $A^2$. 9 [*mgl. B*. 10 aatrunad $A^2$, *B*. 11 gera *B*. 12 draga *B*. 13 afarkostum *B*. 14 *saal. B*; hann *A*, $A^2$.

hann viss, at i þann sama stað sem hann hefir dvaliz um rið, er kominn valldzmaðr af þvi riki, sem nu ætlar hann til, hvat er hann truir ser giptuliga falla til goðs fôruneytis. Þvi leitar hann ok finnr i staðinum þann sama herra, biðiandi sik i hans fylgð ok foruneyti fram æ þa iorð, sem hann vill (til) geraz. Jatar herrann þvi giarna, ok ferðaz siðan baðir samt, þar til at fiandinn þreifar um hiarta rika mannz, sva at hann ágirniz uheilliga alla kaupmannzins penninga. Ok meðr þij at hann skilr þat verk skiott ufrægiaz, ef kaupmaðr ferr liðugr, syniz honum nauðsynligt, at fiôtrar ok myrkvastofa geymi hann eigi siðr[1], þvi lætr hann gripa þann saklausa mann ok setia fiôtraðan i diupa dyflizu, er niðr geck i iorð undan[2] einum turn, æ þæ mynd sem fyrr var lesit af Bernardo. Her meðr setr hann[3] vakra varðhalldzmenn fyrir utan dyflizuna, at[4] ôngvan veg skylldi[5] hann mega brott komaz. Ok eigi at siðr, þo at rað ok riki[6], afl ok illmenzka gangi at utan[7] ollum megin, biðr kaupmaðr ser hiálpar nátt [með degi[8], einkannligha treystir hann æ[9] Jacobum postola næst almatkum guði; hvat er honum verðr eigi tómt, þviat hinn blezaði[10] Jacobus kemr til hans i myrkvastofuna neýtandi valldi miklu, [handsterkr miok eptir vana[11] at lemia fiôtrana, ok biðr kaupmann með ser fara rett i þann tima nætr, sem varðhalldzmenn hallda vôrð alla vega. Þvi vill postolinn þar hia sneiða, eigi fyrir þat at hann ottiz varðhalldit, helldr fyrir [þa sauk[12] at enn verði æðra stormerkit. Hann gengr fyrir upp i turninn, þar til er þeir[13] koma undir sealfan knappinn[14]. Verða þar i stað dyrr fyrir með boði Jacobi, en þa vill hann[15], at þessi stæði eigi[16] iafnhatt sem Bernardus, helldr skipar hann æ þa leið, at turninn hneigir sik allt til iarðar, i þa mynd sem eik rótfôst æ stofni beygði hæsta brum sinna lima niðr[17] til iarðarinnar. Hvar fyrir sva goriz, at kaupmaðr ma stiga oðrum fæti niðr or knappinum, þviat hans efzti lutr kysti æ[18] iorðina, en stoð niðri ok reistiz upp siðan, sem kaupmaðr

1 [Hann kom ser i fylgd ok foruneyti med þeim valldzmanni, sem var af þvi sama riki sem hann ætladi sina ferd til, ok fara sidan badir samt, þar til at riki madr agirniz med fiandans umstilli alla kaupmannzins penga. En þviat hann skilr, at hann mun skiott ofrægiaz, ef kaupmadr ferr lidugr *B.* 2 *Her beg. Fragm. III*[6]. 3 riki madr *B.* 4 aa *tilf. Fr., B.* 5 skal *B*; skuli *Fr.* 6 *saal. B, Fr.*; rikt *A.* 7 *mgl. B.* 8 [ok dag *B.* 9 sælan *tilf. B*; helga *Fr.* 10 herra *tilf. B, Fr.* 11 [*mgl. B.* 12 [þat *B.* 13 *Her begynder atter* $A^2$. 14 *Her ender B.* 15 eigi *tilf.* $A^2$, *Fr.* 16 *mgl.* $A^2$, *Fr.* 17 alt *Fr.* 18 *mgl.* $A^2$, *Fr.*

var brottu or honum. Þetta sea varðhalldzmenn, at bandinginn er utkominn, ok gefa eigi þij helldr guði lof, helldr leypr hverr fyrir annan fram ok ætla at gripa hann. En sva skilr með þeim i skômmu mali, at[1] þeir verða blindir ok leita aptr við sva huit. En kaupmaðr helldr fram sinni ferð, lofandi sannan gud ok sælau Jacobum, er honum hafði miskunn veitt i ollum lutum.

*Capitulum.*

108. Tveir riddarar voru miok missattir i Italia[2], sva at þar kemr þeira hatri, at hvarr ferr ut af sinni borg til bardaga auðrum i moti með fylktu liði. Ok sem þeir hafa bariz um rið furðuliga strangt, ok sem[3] skamt leið, hrestr flotti i annars fylkingu. Renna þa aðrir sem mest, en aðrir reka flottann sem akafligaz, millum hverra er undan laupa er einn riddari æ goðum hesti, seandi at hans uvinir sækia fast eptir honum. Ok þvi talar hann sva litandi upp i loptit: „Blezaðr Jacobe, frealsa þu mik ok minn hest af minna uvina valldi; ok ef þu gerir sva, gefr ek þer hestinn, þviat hann er beztr gripr i minni eign.“ Eptir sva talat riðr hann .vi. milur, sva at hans uvinir sækia hann ok geta engu sâri æ hann komit, sakir þess at Jacobus stendr milli þeira ok hefir skiolld æ lopti, sva at engin skot mega honum granda. Sva ferr hann liðugr af þeira valldi fram i Galiciam ok fram til hins sæla Jacobum, offrandi hestinn með miklum fagnaði, þakkande honum lifgiôf með sônnu litillæti.

*Miraculum.*

109. I halfu Galicie var einn bondi, er átti ubyria konu, sva at innan langs tima mattu þau ecki barn geta. Hvat er bondi angraðiz miok af, er utarfar skylldo taka hans godz, en borinn erfingi skal eigi fæz. Fyrir þessa sauk sækir hann fram til Jacobum, biðiandi litillatliga hans ægiætu tign, at hann mætti son geta með sinni husfru. Ok þat veitti guð drottinn fyrir meðalgôngu Jacobi, at þegar sem bondi kemr heim af pilagrimsferðinni, lykz upp kviðr konunnar, sva at hun verðr hafandi meðr sveinbarn. Gengr hun meðr ok fæðir siðan fagran svein, ok var kallaðr Jacobus, þviat hann var þeginn af guði fyrir bænir Jacobi. Ok sva sem hann er .xv. vetra, fara faðir hans ok moþir pilagrimsferð til Compostellam þess ôrendis at offra sveininn nafna sinum til æfin-

1 allir *tilf.* $A^2$, *Fr.* 2 Ytalia $A^2$. 3 er $A^2$, *Fr.*

ligrar þionostu. En þessarri ferð vendir Jacobus nôckut einkannliga, þviat pilltrinn tekr sott ok andaz æ miðium veginum. Gôriz hans andlát æ einum skogi, hvar undir tekr storliga vel, siðan faðir hans ok moþir æpa bæði af æsiligum harmi eptir sitt einberni. Sva lata þau, at kveðr i môrkinni, þar til er[1] moþir sveinsins rennir bæn sinni til Jacobum postola með háreysti, æ þann hatt sem her ma heyra: „Satt segir ek þer, Jacobe, at ek skal lata grafa mik kvika niðr hia sveininum, nema þu reisir hann af dauða.“ Eptir þetta er grôfin giôr ok sveinninn settr at fram ok rettr. Ok er minnz varir, kippiz hann við ok rifr af ser hvetvetna, þat er um hann var saumat, sprettr heill æ fætr boðandi greiniliga, hversu hinn sæli Jacobus bar hann i faðmi ser, bioðandi honum aptr at hverfa ok fara meðr feðr sinum ok moður, sem aðr var ætlat. Foru þau siðan lofandi guð almáttigan ok þann blezaða herra Jacobum postola, er yfir byðr Galiciam, en rikir i Compostella meðr mikilli dyrð ok guðs[2] lofi.

### *Miraculum.*

110. Þrir riddarar gera sina pilagrimsferð [til hins blezaða Jacobum[3] af þvi byskupsdæmi, er Laudunum heitir. I þeira ferð kemr ein salug kona biðiandi litillatliga, at einnhverr þeira bæri hennar seck fyrir ast ok elsku Jacobi postola, þviat hun sagðiz giarna vilia með þeim fara, en kveðz eigi orka at bera sin þing sakir langs vegar ok solar hita. Þetta veitir henni einn af .iij. kompanum, berandi seckinn þar til at eptir standa .xij. dagleiðir til Compostellam. En i þeim stað kemr fatækr maðr i þeira fôruneyti, tekr sami riddari honum fylgd veita ok fullting æa[4] veginum, sem aðr gengr undir seckinum. Hefir hann nu sva mikit erfiði bæði af byrðinni ok solar hita, gôngu dagligri ok fylgð við hinn fatęka, at hann sykiz af. Ok þo stendr hann karlmannliga sakir goðra hugrenninga, þviat hann reiknar sina samvitzku miok synduga ok þurfandi reinsanar i mæðu fyrir hinn fatæka[5]. Sva gorir hann [sina leið allan veg[6] i Compostellam, at hann stendr i goðum verkum til náunganna þolandi sinn krankdom val ok karlmannliga. En er hann kemr i musteri hins sæla Jacobi framfallinn til bænar, kôma[7] til hans aðrir pilagrimar hans kompanar, segiandi at kennimaðr er til reiðu at heyra hans skriptamal

1 at *Fr.* 2 *mgl.* $A^2$, *Fr.* 3 [i Compostella *Fr.* 4 i *Fr.* 5 mann *tilf.* *Fr.* 6 [sinn veg alla leið $A^2$, *Fr.* 7 ganga $A^2$, *Fr.*

ok gefa þeim siðan[1] corpus Cristi ollum saman, eptir þvi sem kirkian er vôn at gera við alla pilagrima. Moti þessum orðum bregðr miok undarligha, þviat riddarinn svarar ôngu ok eigi bendir hann, hafandi þau môrk æ sinum likam, sem hann se allr i .omegni ok leiddr at dauða, hvar fyrir hans kompanar verða miok óttafullir bæði fyrir hans andar lif ok likama, vakandi yfir honum .iii. daga ok biðandi hans andlatz, þar til er hann skytr upp ôndunni[2] mæðiliga sva segiandi: „Þackir almattigum guði ok sælum Jacobo postola, er mik frealsaði.“ Sem her stendr, spyria hans felagar, hvat hann segði. Hann svarar: „Þegar i fyrstu sem þer talaðut með mik af minni saluhialp, heyrða ek hvat þer sôgðut, ok villda ek[3] giarna svarat hafa, en ek mátti[4] eigi, sakir þess at diôflar flyktuz at mer [ok þrystu mer[5] ôllum megin sva hart, at ek matti hvarki tala ne benda. Þat var mer til hialpar, er samvitzkan læ i briostinu, sva at ek heyrði iafnan hvat þer sôgðut. Ok i þessu var ek staddr allan tima sva lengi[6] sem þer vitut, þar til er Jacobus postoli kom inn i kirkiuna rioðr ok reiðuligr, hann hafði skiolld fyrir ser ok spiot i hægri hendi. Ek kendi skiott[7], at skiolldr hans var sa seckr, er ek bar fyrir fatæku konu, en spiotit var stafr siuka mannz, er ek fylgði, sem ek her kom. Hann gengr hart ok snuðigt innar eptir kirkiunni, þar til sem ek var fanginn með uvina valldi, hafandi þegar stafinn æ lopti, beriandi þa fiandr er mik þrongðu, sva at sins vegar flyði hverr. Gaf hann mer siðan malit, at ek megi fá miskunn guðs. Nu kalli mer kennimann, þviat ek vil skriptaz, mun ek ok eigi lengi dveliaz i þessum heimi, siðan ek hefir iatning gort fyrir guði.“ Þetta sama ferr fram, at hann skriptaz skynsamliga ok byz[8] vandliga við sinum dauða. Ok sem hann er buinn sem bezt ma hann, liðr [su stund[9] er hann kallaz eigi brott. Ok i þvi gengr spæadomsandi inn i hans briost, hvar fyrir hann talar sva til eins riddara sins kompans, er með honum hafði farit af Galicia: „Vin minn, gef ek þer rað, þeona eigi lengr þeim sama herra, sem [þu hefir[10] lotit um rið, sakir þess at eigi ero goþar hans gorðir, þær er innan litils tima munu i hans hôfut stiga ok fa makligan dauða.“ Eptir sva talat andaz þessi pilagrimr. Ok sem hann er greptaðr eptir sið pilagrima, kompanar hans koma aptr i sitt land segiandi þeim herra, hvat pilagrimrinn hafði talat i Compostella, hvat hann tekr allt i glennzi

1 *tilf.* *A*², *Fr.* 2 ôndinni *A*². *Fr.* 3 *tilf.* *A*², *Fr.* 4 matta *Fr* 5 [*tilf.* *A*², *Fr.* 6 langan, *A*², *Fr.* 7 *Her ender Fr. III*⁶. 8 bydz *A*². 9 [stund su *A*². 10 [nu hefir þu *A*².

kallandi þat draum ómerkiligan. En þo leið skamt, aðr en hann finnr, hvart þat er draumr eðr sannindi, þviat litlu siðarr varð hann i striði laginn i gegnum með spioti. Fylltiz sva i honum, at pilagrimr Jacobi hafði rettan anda at segia fyrir ukomna luti.

*Miraculum.*

111. Einn borgarmaðr af þeim stað er Bartinona heitir, ferr langan veg pilagrimsferð[1] til hins blezaða Jacobum. Ok sem hann dvelz i Compostella, biðr hann optliga hins sama lutar Jacobum, at hann skuli eigi fanginn verða af sinum uvinum, sem hann ferr heimleiðis. Eptir þessa bæn[2] gerva, en enga aðra, snyr hann aptr aa veg. Ok sem hann kemr aa skipi til Sikileyiar, leggia at þeim Sarraceni ok gripa fremztan þenna pilagrim. Ok fra þessu er hann .xiij. sinnum selldr ok keyptr af heiðnum monnum ymizt aa torgi eðr i borgum. Hefir hann þat iafnan til hugganar, þa er hann er selldr, at þa er skipt um fiotrana við hann, takandi nyia en leggiandi forna. Var su miskunn þo eigi mikil. Nam þat hverr at auðrum at gera sem verst við hann, sva at i .xiijdu. salning hefir hann alla tvenna fiðtrana. Þvi snyr sia hinn aumi maðr sinu hugarfari til almattigs guðs ok hins blezaða Jacobum biðiandi þann guðs mann, at hann veiti honum hialp ok huggan aa nöckurn hátt. Ok eptir langar pinur birtiz Jacobus honum i myrkvastofunni sva mælandi: „Eigi þarftu at undraz, þo at margir lutir ok motstaðligir hafi þik mæðt[3] ok niðr brotit, sakir þess at þa er þu vart i minni kirkiu, baðt þu eigi fyrir sæl þinni, helldr beiddir þu stundligrar farsældar ok likamligrar heilsu. Þvi fellt þu makliga i uhamingiu, at þu settir þat hæst i þinum bænum[4], sem engis er vert hia þinni saluhialp. En nu meðr þvi at drottinn er miskunnsamr, sendi hann mik til þin, at ek veitti þer huggan.“ Ok eptir sva talat þreifar Jacobus um fiotrana ok rifr hvetvetna brott af honum, bioðandi at hann fari veg sinn frials ok liðugr. Ok er pilagrimrinn skilr, hversu þessi guðs iartegn er mikil, hugsar hann at hafa nöckurn vátt ok þrifr upp einn fioturstuf, hafandi ut af dyflizunni með ser. Sva undarligt er at segia af ferðum þessa mannz eigi nu siðr en aðr, at hann gengr opinberliga um borgir ok kastala Sarracenorum, sva at þeir sea upp aa; en ef nöckurr heiðingi rann aa[5] moti honum ok villdi gripa hann, varð skamt til atburða, þviat i stað sem hann bregðr fiðtrinum aa lopt ok skok at heiðingi(an)um,

1 *tilf.* $A^2$. 2 bøn $A^2$. 3 mødt $A^2$. 4 bønum $A^2$. 5 i $A^2$.

flyði hann sva fast undan[1], sem elldr brennandi væri honum boðinn. A þeim sama veg, sem pilagrimrinn ꜳ at fara til sins landz, ero morg ok skiæð kvikvendi, þviat bæði laupa at honum birnir ok leones, leopardi ok dracones, sem hann gengr uti um eyðimerkr, ok vilia svelgia honum, en ꜳn dvôl sem þau sꜳ fiôturinn, er postolinn hafði með hôndum haft, fara þau brott með hræðzlu mikilli. Ok þenna mann sa ek hallda ꜳ fiotrinum, segir sa er skrifat hefir sauguna.

*Miraculum.*

112. Annarr pilagrimr Brunus at nafni for til hins sæla Jacobum. Hann var af þeim stað, er Vizeliacum heitir En er hann vendir aptr ꜳ veg, þrytr hans penninga, sva at eigi ma hann kaupa ser til nauðsynia eitt hit minnzta, en hann skammaz at biðia ser olmosu. Hvar fyrir hann angraz miok ok gengr i ryggu skapi. Ok sem hann hefir fastat einn dag allt til nóns, en ꜳ þa engis matar ván, setz hann niðr ꜳ veginum undir tre eitt miukliga biðiandi sælan Jacobum nôckurrar ꜳsea. Ok litlu siðarr sigr yfir hann þungi, sva at hann sofnar. Syniz honum þa, sem hinn blezaði[2] Jacobus se þar kominn ok gefvi honum goðan snæðing at eta. Vaknar hann siðan katr ok glaðr, þviat hann sierr[3] skiotliga, hvar liggr hia haufði hans brauðleifr val bakaðr, hvern hann til sin tekr af guði sendan ok sælum Jacobo. Ok þat er greiniligt, at af þeim brauðleif snæðir[4] hann .xv. dagha tvimællt, ok er hann æ hinn sami eptir um morgininn, sem pilagrimr tekr i seckinn.

*Capitulum.*

113. Agiætr maðr herra iarlinn af stað heilags[5] Egidij for til Jacobum postola pilagrimsferð með ser hafandi broður sinn ok marga kompana. Ok er þeir koma fram i Compostellam, gengr iarlinn til þess mannz, er kirkiuna varðveitti, biðiandi at hann lofaði kompanum at vaka um nattina i kirkiunni. En meðr þij at þat er vani staðarins at lykia kirkiuna hvert kvelld eptir solarfall, vill kirkiugeymarinn eigi lofa[6], at pilagrimar vaki þar um nattina moti vana, hvat iarlinum er miok móti skapi. Ok sem siðla var vorðit, gengr hann til herbergis[7] saman kallandi alla pilagrima nærr .m. manna, biðiandi at hverr ok einn taki sitt offranarkerti

1 *tilf.* $A^2$. 2 sæli $A^2$. 3 ser $A^2$. 4 fædiz $A^2$. 5 hins sæla $A^2$. 6 veita $A^2$. 7 *Her ender* $A^2$.

ok fari allir samt til kirkiu Jacobi, profandi at hann vili lofa þeim at vera um nattina i kirkiunni. Sva gera þeir, at hverr tendrar sitt kerti, gangandi allir samt at læstu musterinu sva talandi: „Heyr þu, hinn sæli Jacobe! Ef þer likar i nóckuru vár ferð, þa gef oss til mark ok luk upp fyrir oss musterinu.“ Ok naliga fyrr en þeir hafi sva talat, kemr undir mikill hliomr, sva at flestir kiptuz við, þviat hurðirnar allar fiuka upp i senn, er fyrir voru rekendr ok læsar, hriotandi fram æ golfit her ok hvar. Er nu pilagrimum kostr at ganga inn ok vaka, sva val sem þeim likar, þviat bannar þeim engin maðr, siþan herra hussins orlofar.

*Capitulum.*

114. Byskup einn austan af Grecia Stephanus at nafni sækir heim hinn sæla Jacobum postola með fráþæru litillæti, sva at hann i Compostellam fram kemr sem einfalldr pilagrimr i fatæk-ligum buningi. Hann dvelz i staðnum um rið, hafandi litinn kofa æfastan kirkiunni, verandi þar æ bænum nátt með degi i guðs lofi. Sva berr til einn dag, sem hann sitr i kofanum, at pila-grimar margir ganga umbergis kirkiuna[1] biðiandi sva til Jacobum postola: „Heyr þu, sæll Jocobe, goðr riddari! frialsa þu oss af syndum varum.“ En er byskup heyrir þvilika bæn, ut af kofanum seandi, þann tima sem pilagrimar ero sva nalægir, at þeir mega hans orð heyra, talar hann sva: „Þer heimskir þorparar, kallit sælan Jacobum fiskimann en eigi riddara.“ A saumu nátt eptir[2], sem þetta hefir fram farit um daginn, birtiz blezaðr Jacobus Stephano byskupi, hann var skryddr skinandi herforum berandi biórt vapn, sva at liomaði brott af allt eitt ok solar geislum. Refði .ij. hefir hann i hendi, ok er maðrinn hinn þrifligzti, kall-andi þrysvar æ sama hátt til byskupsins sva mælandi: „Stephane guðs þionn! þu ert sa er bauð at kalla mik fiskimann en eigi riddara, þvi birtiz ek þer i þilikum bunaði, at þu gangir uduldr heðan i fra, at ek þiona minum guði sem goðr riddari. Ok til þess at þu truir enn styrkligarr, vil ek gera þer kunnigt, hvat refði þessi hafa at merkia, er ek helldr æ. Þvi ber ek þau, at ek ætla ferðaz til liðveitzlu viðr þann konung, er Fernardus heitir. Hann hefir setit með kristnum her .vij. ær i samt um sterkuztu borg heiðinna manna, er Columbus heitir, hvar fyrir nauðsyn gengr til, at ek slæi þau port, sem[3] dramba i sinum striðleika[4].

1 *Her beg. Fr. 111ʳ.* 2 *mgl. Fr.* 3 er *Fr.* 4 sterkleika *Fr.*

Meðr þessum vápnum skal ek mura Columbi niðr briota ok kristna menn inn leiða með fôgrum sigri, at þeir fáe alla borgina. Munum við nu skilia, en þer, herra, lifit i guðs friði.“ Sagði byskup vitran þessa, ok skiotliga spurðuz þau tiþindi oll framkomin, sem postolinn hafði sagt i vitraninni, at usigranligir murar Columbi borgar rôpuðu niðr undir storum hôggum usyniligrar guðs handar.

### *Miraculum.*

115. Tveir menn helldu strið millum sin, var annarr (iarl) af þeim stað er kallazt Fons Calvarie, en annarr riddari Vilhialmr at nafni. Þeira uvinattu urðu margar greinir, þar til er þeir beriaz sialfir. Verðr i þeira siðarstu orrostu fanginn riddarinn ok leiddr fyrir iarlinn, en hann byðr i stað, at hann se halshogginn. En er riddarinn hefir heyrt orskurðinn, rennir hann hug sinum til Jacobum postola Jons broþur, sva biðiandi sem her ma heyra: „Þu hinn blezaði Jacobe, er forðum þoldi halshaugg af sverði Herodis, frialsa þu mik af þvi sverði, er manndraparinn skekr yfir minu hôfði.“ Eptir sva talat fellr hann æ bæði kne lyptandi sinar hendr til himins, hafandi traust i guðligri miskunn ok hins heilaga Jacobi. Lætr manndraparinn riða sverðit rett æ miðian halsinn meðr aullu afli þrysvar, hvert sinn eptir annat. Ok er riddarinn iafnglaðr sem aðr, þviat sverðit kann eigi[1] bita, ok eigi hefir þat nôckurn þunga i sialfri ækvámunni, sva at þat mætti [helldr saka[2]. Ok sem þat er provat, at halsinn ma eigi vinnaz, kastar riddarinn sverðinu, en tekr kesiu eina ok leggr[3] framan i kvið riddaranum. En Jacobus sliofar þat eigi siðr, sva at ecki bitr æ, ok eigi kennir riddarinn, at við hann kiæmi. Ok er iarlinn[4] ser, at hann[5] bita eigi iarn, lætr hann kasta honum i þungt varðhalld, hvar hann sitr i fiôtrum kallandi æ sælan Jacobum i sinum nauðsynium. Ok snimma dags [syniz honum[6] postolinn i þvi sterka varðhalldi sva mælandi: „Her er ek nu, þviat þu kallaðir mik.“ En af tilkvamu postolans fylldiz husit allt með sva gôfugligum ilm ok sætleik, at þeir allir, sem þar voru, hugðu sik standa i paradiso, þviat hvartveggia var i nóg ilmrinn[7] angandi ok geislar hvervetna[8] skinandi. I þeiri sômu birti, sem ôngir fengu i moti sieð, [þeir sem vôrðinn helldu[9], gripr postolinn

1 ecki *Fr.* 2 [honum granda *Fr.* 3 .ij. hôndum *tilf. Fr.* 4 *saal. Fr*; riddarinn *A.* 5 þenna mann *Fr.* 6 [birtiz honum syniliga *Fr.* 7 ilmr *Fr.* 8 hvarvetna *Fr.* 9 [*mgl. Fr.*

[hann upp[1] leiðandi hann ut af husinu[2] allt at yzta porti kastalans. Ok þegar i stað lukaz upp grindrnar. Fara þeir sva baþir samt eina milu [brott af staðnum[3], sva at engin maðr for eptir þeim, sakir þess at varðhalldzmenn voru ufærir af þeiri skinblindi, er Jacobus gaf þeim með sinni birti. Þvi ser postolinn, at riddaranum er við engu hætt, ok gefr honum blezan at skilnaði. Kveyktiz sa riddari siðan til allrar elsku við Jacobum farandi með sônnu litillæti hans at vitia, boðandi þęr iartegnir sem hann hafði þegit fyrir verðleika þess agięta guðs vinar Jacobi postola.

*Verdr madr braddaudr fyrir helgibrot vid Jacobum*[4].

116. Þessu næst skal boða þær iarteinir[5] til lofs ok dyrðar Jacobo, er guðlig hefnd virðiz vinna aa þeim monnum, er hans hatiðisdag villdo sviviðra ok eigi heilagan hallda. I Hyspania var einn bondi við þann stað, er Rubellon heitir, hann for til at vinna þræls erfiði. Þat var i þeim kastala, er fyrr var nefndr. En er hann kemr i bað ok kennir hitann, fellr huðin niðr af hans baki allt af auxlum ofanverðum ok niðr til fotleggia. Laa þar huðin aa husveggium, en sa veslugi maðr do þegar i stað af þessarri pinu fyrir þetta lôgbrot ok guðs reiði, er hann hafði i fallit. Ottaðuz menn miok [þetta lôgbrot[6] ok letu ser annars viti at varnaði.

*Miraculum.*

117. I þeim kastala er Abimetum heitir, var sva veslug þioð, at hun villdi með ôngu moti hallda festum Jacobi heilagt, ok vinna allan dag upp fra morni, hvat er guðlig hefnd ômbunar þeim fullu. Þviat aa næstu nátt kemr elldr i kastalann ok brennir upp at kaulldum kolum. Vissi engin maðr, hvaðan saa elldr kom til, þvi er auðsynt, at himneskr hiti hefir fundit þann auma lyð. I þvi byskupsdæmi, er Bocentum heitir, var einn maðr Bernardus at nafni, hann villdi eigi þyrma hátiðisdegi sæls Jacobi, gerandi þat með sva miklu forzi, at allir menn i þvi sama þorpi letu aðrir heilagt, en hann ekr korni sinu allan dagh hafandi yxn fyrir storum vagni. I þvi sama erfiði hefir hann fyrir ser konur nôckurar, er honum voru nógu lyðnar. Ok sem hann hefir lengi i þessu starfat, kemr elldr af himni ok brennir yxnina, kornit ok vagninn niðr i dupt aa einu augabragði. Snertr hann[7] ok þær konur, er i voru verkinu, ok fengu þær lif, sakir þess at brunur

1 [riddarann *Fr.* 2 herberginu *Fr.* 3 [*mgl. Fr.* 4 *Overskr. Fr.*
5 iartegnir *Fr.* 6 [þenna atburð *Fr.* 7 *tilf. Fr.*

var nalægr, ok var þeim skotit i niðr. Annarr maðr het Berduinus, hann hafði sǫmu iðn a hátiðardegi Jacobi, ok urðu hans yxn steinblind aðr kvelld kvæmi. I þvi heraði er Mons Persolanum heitir var bakat brauð a nefnda hatið En er þat brauð var a borð borit, sveittiz þat bloði, en siþan var stangat með knifsoddi, rann þvi bloð[1] sem lifanda manni. Ero þvilikir lutir af guði vorðnir dasamligir miok fyrir várum augum.

*De Calixto papa capitulum*[2].

118. Sa blezaði herra Calistus pavi, er fyrr var nefndr ok þessa luti hefir saman lesit af dyrð ok lofi Jacobi, sem nu voru lesnir um rið, plantaði fyrstr þann lifnat, er Ordo Cisternensis[3] heitir. Þat claustr liggr undir moðurhus þat er Bonavallis heitir. Yfir þessum nyia lifnaði var fyrstr Johannes kyniaðr af Lugdunum, er siðan varð byskup Valentinus. Hans upphaf var[4] þilikt sem broþir Goffridus vattar i þeiri glosa, sem[5] hann setr yfir Apocalipsin Johannis, hann var af sama lifnaði, sva til orðz takandi þat er til heyrir nefndum Johanni[6]: Þa er fyrstu grundvellir vars lifnaþar mundo vera niðr samdir, var i kirkiu einn klerkr Johannes at nafni heyrandi goða frægð af greindum lifnaði, hvar af hann hugsar þegiandi at samlagaz várum samnaði. En eptir litinn tima liðinn kastar um þessi hugrenning, ok kemr aunnur, at hann skal leysa þa fyrirætlan með pilagrimsferð hins blezaða Jacobi Ok sem hann hefir þat gort með sannri goðfysi, kemr hann heim af laungum veg til frænda ok vina. En allir toku hans heimkvamu með miklum fagnaði. Ok fyrsta kvelld sitr hann skamma hrið ok skundar til naða, þviat hann var miok vegmoðr. Ok þegar sem hann er sofnaðr, birtiz honum guð drottinn várr herra Jesus Kristus meðr .ij. postolum sinum Petro ok Jacobo. Johannes sierr, at Petr postoli, er stendr til annarrar handar guði, helldr a einni bok, hvarfyrir lausnari varr talar sva til hans: „Petr, luk upp bokina ok les.“ Johannes klerkr sier, at su bok upplokin er skrifut gullstaufum ok hefir ǫngva luti i ser utan nǫfn þeira manna, er himinrikis dyrþar skulo eylifliga niota. Petrus byriar lestrinn eptir boði drottins ok less þar til, er stoð nafn Johannis. Ok sem þat er lesit, talar drottinn til postolans: „Skaf þat brott af, tak hann brott af bokinni, þviat hann het at goraz minn maðr ok hvarf siðan brott af þessi fyrirætlan.“ Ok

1 dreyri *Fr.* 2 *Overskr. Fr.* 3 Cistertiensis *Fr.* 4 varð *Fr.* 5 er *Fr.* 6 *Her ender Fr. III'.*

sem her er komit, gengr Jacobuş nærrmeirr sva segiandi męðr litillæti: „Herra, þessi er minn pilagrimr.“ Drottinn svarar: „Hvart er æðra, Jacobe, at vera samborgarmaðr minn eða pilagrimr þinn?“ Ok er Jacobus serr, at meira mun kosta en bæn eina saman, margfalldar hann miuklætit, sva segiandi með heitazta afli astarinnar til almattigs guðs: „Heyr þu, hinn milldazti drottinn minn! biðr ek, at þenna mann takir þu eigi af lifsbok, þviat ek gengr i borgan fyrir hann, at hann skal sin heit fullgera eptir þeiri beztu fyrirætlan, sem þer likaði.“ Várr drottinn svarar: „Nærr skal þat fram koma, er þu borgar?“ Postolinn svarar: „Innan .xv. daga skal þat vel byriat.“ Sem her er komit, vaknar Johannes með æsiligum ótta, fleygiandi ser fram or sænginni a bera iorðina gratandi geysiliga, sva segiandi millum annarra luta: „Blezaðr ser þu, Jacobe, er sva drengiliga fylgðir minu mali, vit ok fyrir vist, at þina borgan skal ek hallda ok þin heit skal ek eigi riufa.“ Ok eptir mikinn grat sofnar hann i annat sinn, ok þegar birtiz honum sama syn. Drottinn várr byðr enn Petro at lesa nôckut, ok þessi orð heyrir Johannes: Murenulas aureas faciemus tibi vermiculatas argento. Þessi orð eiga heima i bok hins visazta Salomonis, er heitir cantica canticorum, ok skyraz til gôfugligra (miskunnsemda) almáttigs guðs viðr þa menn alla, er rettlæti vinna ok hans boðorða vakrliga geyma. Fylldi Johannes a dvôl sitt fyrirheit ok kom i klaustr, fyrr en .xv. dagar væri liðnir, ok var hann fyrstr abóti Bonevallensis en siðan byskup, sem aðr var sagt, dyrðligr maðr ok agiætr, sva at bæði hans lif ok dauði birtiz með verðleik ok iartegnum. Af þessi sôgu er merkianda, hversu monnum er nauðsynligt at dyrka goðfusliga guðs astvini, at þeir biði fyrir þeim, er goðfusliga gera þeira minning a iarðriki. Þat er annat greinanda her framkomit, sem til visar i fyrsta prologo, at aungum gorir þann afsaka, sem guð asakar.

*Capitulum.*

119. Nærri sômu borg Lugduno var einn ungr maðr sutari at iðn. Faðir hans var andaðr, en moðir hans lifði, ok fæddi hann hana með sinum þrifnaði. Hann var arliga vanr at sækia heim hinn signaða Jacobum, geymdi hann ok langan tima þa dygð, at hann hellt sik reinan af kvenna návist, þar til at meðr umsát fiandans fellr hann af þeiri staðfesti sva uhittiliga, at á nęstu nátt, aðr hann byriar pilagrimsferðina um morgininn til Jacobum postola, fleckar hann sik með einni konu i likamligum losta. Ok eigi

þvi siðr byriar hann sina ferð um morgininn hafandi með ser .ij. kompana, hann hefir ok asna, at hann beri þing þeira. Ok sem þeir koma fram i veg, finna þeir einn fatækan mann, er fyrir hafði lagiz af vesolld, en villdi giarna feginn i Galiciam. Þenna pilagrim veslugan tekr ungi maðr i sina ferð fyrir skylld hins sæla Jacobi flytiandi hann æ sinum asna. Sva fara þeir þar til, at eina nátt þrifr fiandi til sinna flærða, ok birtiz þeim unga manni i svefni bliðligr i aseonu ok viðrmæli sva segiandi: „Kennir þu mik?“ Pilagrimr svarar ok segiz eigi kenna hann. Uvinrinn talar þa enn: „Ek er Jacobus postoli, hvern þu ert vanr heim at sækia æ hveriuære. Nu skalltu vita, at ek fagnaði miok þinu mali um stund, þviat ek vænti, at þu mundir æ val til min gera sem aðr. En nu fyrir skômmu hefir æ boriz fyrir þer, sakir þess at þu vart með konu rett aðr þu fort heiman, ok siðan þorðir þu at byria pilagrimsferð iðranarlauss ok uskriptaðr, sva sem guði ok mer mundi lika mega ferð þin. Eigi er sva, helldr skal hverr er fyrir mina skylld utlendiz, iata fyrst syndir sinar ok iðraz en koma sva til min.“ Eptir sva talat hverfr fiandi, en ungi maðr vaknar ottafullr af drauminum, hugsandi aptr at hverfa ok iata syndina, en byria siðan pilagrimsferð i annan tima. Ok eptir langa hugsan sofnar hann i annat sinn. Hvar fyrir honum birtiz sami fiandi með glaðligu yfirbragði, ok nu allt eins meðr ottabragði sva segiandi: „Meðr þvi, ungi maðr, at þu byriaðir i fyrstu uskriptaðr mina ferð, fellr mer nu ecki, þott þu faiz i aptr at hverfa; vil ek nu ok segia þer, at þin synd hefir sva ugiptuliga innkomit, at hun hefir ôngva lækning aðra, en þu sniðir brott af þer getnaðarlimuna. Nu ef þu gorir sva, kallar ek syndina bætta. En ef þu vill vera sæll ok reiknaz millum pinslarvatta, þa haf frammi karlmennzku ok drep þik sealfan.“ Eptir sva sagt hverfr fiandinn, en ungi maðr vaknar eigi við goðan draum, þviat hann er sva uvitr, at hann truði Jacobum postola þessa luti talat hafa. Þvi riss hann upp leyniliga millum sinna kompana æ þeiri sômu nátt ok þrifr einn talguknif, sniðandi af ser limuna, en siðan ristandi æ ser kviðinn, sva i stað hefir hann bana. Verða kompanar hans fyrst varir við, at hann er i fiôrbrotum, en bloð flytr alla vega. Risa upp ok bera lios til, seandi þa hôrmung, at þeira felagi er grimliga sęrðr ok drepinn. Þvi ottaz þeir miok, at manndrapit muni þeim eignat, siðan ôngvir menn hafa nalægir verit aðrir. Hvar fyrir þeir flyia brott fram æ veg Jacobi. Hinn fatæki maðr var eptir hia hinum andaða. Ok meðr þvi at hann

salugr er eigi grunsamligr i þessu verki, gerir hann sik diarfan ok segir staðarmonnum, hvat tala er. Vikiaz menn skiotliga við ok þo harmanliga i þilikum atburð. Er þa likaminn sveipaðr ok til kirkiu borinn, settr i garðinum fyrir durum kirkiunnar, þviat eigi matti inni standa fyrir bloðrás. Var hann ok fyrir þa grein þagat borinn ok millum kristinna manna til grafar buinn, at engin vissi hans liflat sva ækafliga liotligt vorðit hafa, helldr voru þeir i grunsemð hafðir, sem aðr haufðu hans kompanar verit. En er minnzt varir, lifnar hann ok reisiz upp æ bôrunum, vnnz allir menn nęrrverandi ottaz akafliga, sva at fyrir þeira hæreysti koma til aðrir mycklu fleiri, heyrandi þenna mann mæla ok greiniliga segia allt af sinum ferðum ok tilgang serhverra luta, ok sva sagði hann millum annarra luta: „Þa er ek hafði drepit mik, toko diôflar sal mina farandi með langan veg. Ok sem mið komum i nælægð við Romam, veitir hinn sæli Jacobus akafa eptirferð, spyriandi hvi uvinir drægi mik þann veg. En þeir voro sva harðir ok uvikianligir i sinni æstauðu mer til skaða, at postolinn byðr um siðir aullu malinu fram undir dóm eðr skipan signaðrar Marie guðs moður. Ok þat verða þeir fiandr at hallda þo at nauðgir. Komu ver þvi næst fram æ grænan voll biartan ok glaðligan, hvar er blezut drotningh fru Mária sat upp með fylgð ok samtali margra heilagra manna. Blezaðr Jacobus gengr fram þegar fyrir fruina kiærandi fast æ diôflana, hversu þeir hôfðu mik svikit með flærð ok falsi undir hans nafni. En uhreinir andar hallda moti, þar til er drotningin snubbar þa ok byðr þa þegia, setiandi æ orskurð, at ek skylldi aptr hverfa ok endrlifna i likama. Hvar fyrir Jacobus postoli tok mik styrkri hendi, skipandi mik aptr higat án dvôl, sva at ek lifnaði." En er staðarmenn heyrðo þessa luti, undraz þeir geysi miok seandi skyrar iartegnir serhverra luta: Maðrinn lifir, sárin gróin sva stormerkiliga, at slett var i stað greindra lima, utan ein bora til likams nauðsynia, en ôrr æ kviðinum, sva langt sem knifrinn hafði gengit. I þeim sama stað dvalðiz hann .iii. daga, þviat staþarmenn gerðu við hann astsamliga. Eptir þat vikr hann a veg lifgiafa sins, með sama hætti framfarandi sem fyrr með asna sinum ok þeim fatæka manni, þar til at kompanar hans koma farandi i mot honum af Compostella, ok verða þeir okveða við, er þeir sea hann lifanda. Segir hann þeim alla sina saugu, ok kemr þaðan fram i Compostellam, greinandi korsbræðrum allt með sannindum, snuandi heimleiðis meðr guðs lofi, boðandi iafnan

þenna lut guðs moður til sæmðar ok sælum Jacobo hverium er heyra villdi. Var þessi saga mikils virð af hinum vitruztum monnum, þviat hun hefir rettan skilning ok liosan vegh sinna greina, hversu fiandinn er flærða rikr ok prettottr, eðr hversu heilagir menn (eru) haleitir ok blezaðir i sinni einarð.

*Fines*(!) *miraculorum.*

120. Nu hefir verit lesit um stund, hvat Jacobus postoli vann forðum undir sik með þeim fræga riddaraskap, er hann fram hafði i Judea, sem fyrr er skrifat. Liost er i fyrstu, at hann hefir sigrat þat riki, er stendr fyrir ofan himnana, ok þar með hefir hann verðskylldat i sinum frama sva kiæra vinattu þess haleita konungs, er þar byðr yfir, at hann þiggr af velldinu, hvat er hann biðr æ iarðriki. Hefir hann undir sik lagt Galiciam ok alla Hyspaniam, þar meðr þionar honum aull vestrhalfan flockum farandi, kriupandi ok biðiandi, iafnan boðandi maðr manni, at Jacobus postoli Johannis broþir er hinn milldazti maðr i æheitum, astuðigr sinum pilagrimum ok hinn haleitazti huggari i ollum sinum nauðsynium, sem vel birtiz goðum eyrum i fyrirfarandum æfintyrum. En hvat munu ver tala i enda mals til hins sætazta hans broþur Johannem ewangelistam, utan fyrst iata vara sekt, at marga luti, er af honum finnaz, bæði samt i guðspiollum ok actibus apostolorum, hôfum ver eptir latit liggia sakir leti ok langmælis; hugsaðum ver ok i aðra grein, at solin þarf eigi vatta, þa(r) sem hun skinn sem biartaz yfir iorðina. Þviat ver skrifuðum, at Johannes merkir ôrn i suðri með hęsta solarkrapti fyrir þann framburð, er hann fram setti af sialfri rettlætissolinni eylifum guði, hvat hans orð birta kristnina hvern dag um verolldina, sva at æ lifir hans minningh i astrikum hugskotum, þa er heyriz In principio erat verbum. Þat finnz skrifat i þessu mali, at agiætr herra Augustinus Ypponensis hefir skyrt ewangelium Johannis. En meðr hverium æfintyrum þat byriaðiz eptir goðra manna saugn, vilium ver setia i þessum stað til sæmðar Johanni við enda sôgunnar.

*Principium miraculorum Johannis.*

121. Augustinus byskup er hinn .iiii. doctor heilagrar kirkiu, annarr Gregorius, Ambrosius, Jeronimus. Kallaz Augustinus hinn diupazti, Gregorius hinn nytsamligzti, Ambrosius hinn rauksamligzti, Jeronimus hinn nytsamligzti. Ok meðr þvi at ewangelium

Johannis gnæfir yfir ollum ritningum sem órn yfir óþrum fuglum, kyss almattigr guð hinn diupazta kénnifauður til sva hærrar þionostugórþar at rannsaka þau orð til rettrar skyringar, er saman standa i hæsta sannleik guðligrar virðingar. Ok sva sem Augustinus var klerkr geysi goðr, skoðar hann smasmugliga serhvert guðspiallzins orð grafandi sina samvitzku, hvart hann muni eigi nærr fa komiz guðdominum i nóckurum greinum, ef hann fæz i, en Jon karl hafði aðr fyrir gengit æ gamals alldri. Ok er þessi hugrenning staðfestiz i hans hiarta, studerar hann sva hart ok iðuliga, at optliga var hann sem blindr ok daufr til veralldligra skynsemða. Hvat er eigi er undranar vert i þvilikum haufutklerk, með þvi at einfalldir menn ero sva miok staðfastir i sinum hugrenningum, i skalldskap eðr óðrum greinum, vita laungum hvarki orð ne verk, hvat fram ferr hia þeim, ok eigi greina þeir, hvart þeir riða at þiðu vaði eðr goðum isi. Þvi helldr er þat skilianda með Augustino, er hit hæsta efni hafði i sinu briosti, en atti at fara i margar fehirðslur froðrar vitzku i eptirleitan sinnar skilningar. Hvar fyrir sva geriz einn dagh, at hann raðlauss uti reikar einn herbergi fyrirlátandi ok enga fylgðarmenn með ser hafandi, einvistir elskandi, sva sem klerkum er kært i þess hattar efni, at um siþir kemr hann æ siovar sand, ok nu reiknar hann hvat fyrir er, at eigi mun hæfa lengra at spazera fram langt, er hann skoþar sandinn. At hyggiandi hvar hann er kominn, sér hann, at nærri seonum sitr einn smasveinn, hann hefir silfrspón i hægri hendi ok eyss sionum æ sem tiðaz upp i þa grof, er hann hefir gort i sandinum. Ok er iafnan þat horfit, er þangat kemr i, fyrr en hann getr annat i látit. Erchibyskup sier æ þessa iðn, hversu bernslig er, ok talar sva til sveinsins: „Pilltr minn, segir hann, hvi fæz þu i þessu?“ En er sveinninn heyrir orð sva mikils herra, serr hann upp oc svarar roskinmannliga: „Ok hvi, herra, skal ek eigi i þessu faaz?“ „Þvi, segir erchibyskupinn, at þetta mattu alldri gera at fylla grófina, sakir þess at sandzins þorsta matt þu alldrigi slóckva, þviat hvat er þu gefr honum, tekr siorinn aptr undir sik, ok þvi er þetta umáttuligt.“ Pilltrinn svarar þa staðfastliga ok miok einarðliga: „Ef þat er umáttuligt, er ek ætla mer, þa er þo mórgum lutum umattuligra, er þu ætlar þer þa dul, at þer muni veitaz su speki, at þin orð gangi nærr guðdomsins liosi, en aðr hefir sett ok samit Johannes son Zebedei, ok til þess valdiz ok vigðiz af almattigum guði at tala makligarr af leyndum guðs stormerkium,

en nóckurum oðrum vęri veitt eðr lofat i allri heimsins kringlu. Þvi gef ek þer þat rað, ok haf þat, far til meðr litillæti ok lát þer þaurf vinna at skyra orð Johannis heilagri kristni til nytsemþar, en þer sialfum til þrifsemðar.“ Eptir sva talat hverfr sveinninn. En hinn sæli Augustinus fellr a kne ok þackar guði þessa vitran, glaðliga berandi þa hirting ok atyrði sem honum var veitt, hvart sem þat gerðiz fyrir guðs engil, eðr kom hinn sæli Johannes at asaka erkibyskup leiðandi hans hiarta i rettaztan veg. Tok sa blezaði herra siðan at skyra ewangelium Johannis meðr guðs boði, hvert er nu berz um alla cristni ok kallaz tractatus Augustini, hverr er lifir i minning Johannis, sem ver fyrr sógðum. Lifir ok hans minningh i þeim frægazta sigri, er fyrr var skrifat i bokinni, at hann sva sterkr kappi guðs stoð undir krossinum helga rett a sialfum pinslartima vars herra Jesu Kristi. Þvi er hans form ok likneskia sett ok samin hia þvi helgazta marki til motz við sanctam Mariam, at þetta sigrlof skal eigi niðr falla ok eigi æfinliga niðr hniga. Hvar til heilug kristni hefir samit eina bæn O intemerata sameiginliga til þeira beggia, er undir krossinum standa, Mariam ok Johannem. Su bæn er þvilikrar miskunnar sem skrifat finnz i Mariu iartegnum, at hun frealsaði salina af diófla hondum meðr atgóngu Johannis ok valldi signaðrar guðs moður. En hvern er þat fysir framarr vita, þa sendum ver at rannsaka iartegnabokina, þviat ver skundum nu til enda, sakir þess at aullum er kunnigt, þo at ver þagnim, hversu til mikils fagnaðar þeir eiga sea, sem goðfusliga dyrðka guðs moður Mariam ok sælan Johannem ewangelistam. Hefir signut Maria til þess hundratfaulldu fleira, en taulu megi a koma, at hun se lofut ok dyrkut næst guði sialfum. Johannes hefir mart til vinsælda við goða menn, einkannliga þa sógu er fyrr lasum ver, hversu miskunnsamliga hann sotti eptir spellvirkianum i fiallinu. Hvar af val gefr skilia, at eigi man hann þann fyrirláta, sem honum þionar með goðvilia. Þvi dyrka hann margir ok hafa dyrðkat ágiętir menn ok mikils verðir, kiosandi hann ser til fulltrua ok forstauðumannz af hirðsveitum himnakonungs næst blezaðri guðs moður, halldandi hans arligt festum meðr allri veitzlu ok virðingh við rika sem fatæka. Hvat er lesit finnz af agiætum herra Eadvardo konungi i Englandi, hann sæmdi Johannem með ollu viti ok konungligu valldi, setiandi a hans dagh hit hæsta hóf allrar goðmennzku, meðr sannri ast ok elsku sæmandi kirkiuna, gleðiandi klerkana, bliðandi rika en seðiandi fatæka.

*Capitulum.*

**122.** Miok lofar heilug ritning þenna konung Eddvardum in Anglia, þviat guðs miskunn var með honum, sva at allr lyðr óttaðiz hann sva sem konung, en elskuðu hann i annarri grein sem miukan broþur sakir þeirar astar ok bliðu, er hann veitti serhverium. Alldri um alldr stygði hann fatækan mann, ok engin for hugganarlauss er til hans kom, hvert er vel auðsyniz a þvi, sem eptir ferr bæði til vitnisburðar um elsku Johannis ok goðfysi olmusugæðis. Sva berr til a nóckuru ære .iij. dag iola, sem Eddvardus konungr berr krunu gangandi um kirkiu in processione með byskupi fyrir hamessu pryddr ollu konungligu skruði, kemr a moti honum rett a veginum einn vænn maðr ok val buinn a þann hátt sem pilagrimr af Jorsolum kominn. Hann gengr kunnliga at konunginum sva segiandi: „Gef mer nóckut.“ Konungrinn svarar: „Minn kiærazti, þu serr, hversu ver stóndum ok hófum eigi olmosu hia oss.“ Pilagrimrinn svarar: „Gefit mer nóckut fyrir þess heilags mannz skylld, er þer elskit, ef þer hafit nóckut til.“ En er konungrinn heyrir þessi orð, minniz hann Johannis vinar sins ok dregr fingrgullit af hendi ser ok gefr honum. Skilia þeir sva, at pilagrimr ferr glaðr i braut. Ok a næstu nátt birtiz heilagr Johannes einum enskum manni miok kynstorum, er .ix. ær hafði setit i fiótrum hertekinn i þioð Sarracenorum, þessum byðr Johannes, at hann skal fara til Eaddvardum Engla konungs ok segia honum, at Johannes ewangelista birtiz honum undir æseonu pilagrims a hatiðardegi sialfs sins. Ok til vitnisburðar skal enski maðr bera konungi þat gull er hann hafði gefit. Ok er Johannes hafði boðit með enska manni aull þau órendi sem honum likar, greiðir hann skiotliga veg fyrir honum, þviat allt er i senn i augabragði, at enski maðr hefir boðskapinn heyrt i utlegðinni, ok hann er heim kominn frials ok liðugr i sinar eignir a Englandi, kendr af kompanum ok sinni husfru, frændum sinum ok hyski, at hann er sa hinn sami. Biðr hann næsta dag nærandi sik með vist ok vini, þviat hann var aðr mæddr af matleysi, en ferr annan dag til konungsins curiam, boðandi honum ok hans villdarmonnum serhveria luti, er honum voro boðnir af sælum Johanni, gullit aptr skipandi herra konungsins hendi. Segir hann ok, hversu hinn sæli Johannes greip hann brott af þrældómi ok setti hann heim a England a einu augabragði. Hvert er heyrandi menn óttaz miók, kveiktir i liosi ok elsku þess guðs postola, sæmandi konungsins goðfysi, er þegar auðlaðiz sannan vitnisburð

af guði. Hvat er Eaddvardus konungr geymði sva millum annarra gripa i fehirðzlu litillætis, at hann er hinn ágætazti guðs vin birtr með iartegnum ok skrinlagðr i Englandi.

*Capitulum.*

123. Sva sem saga þessi byriaz, sva endaz hun i guðs nafni meðr þvi niðrlagi, at ver kriupum þer til fota, hinn blezaði Johannes ewangelista, biðiandi miukliga, at sva sem þu frealsaþir spellvirkiann af snôrum fiandans ok enska mann af veralldligu valldi Sarracenorum, sva leys þu oss af ollum haska andligum ok likamligum ok leið oss brott af þrældomi heims þessa til lifandi manna iarþar, hvar er valdir gleðiaz með guði i dyrð eylifri, sem þu skrifaðir i þinni bok Apocalipsi. Hneigium ver ok varum aseonum fyrir þinum fótsporum, hinn sæti herra Jacobe, litillatliga biðiandi, at sva sem þu fylgdir mali Johannis, at hans nafn stæði æ lifsbok ok leystir þinn pilagrim af diðfla valldi, sva flyt þu vart mal við almattigan guð, at eigi rapim ver or valdra manna tolu, helldr reiknumz ver millim þeira, er hann miskunnar, eylifliga hlifðir af valldi uvina fyrir postoliga rôksemd þinna bæna. Nu heyrit, baþir samt guðs astvinir blezaðir, þar sem þit erot vænir steinar i uppsmiði heilagrar Iherusalem ok .ij. liosker i hall himnarikis ok .ii. gimsteinar i hôfutgulli almattigs guðs eylifrar dyrþar, at þeir allir oðliz yckart fullting ok æsea, sem meðr goðfysi hafa heyrt eðr heyrandi ero þessa sôgu, ok hverr er less ok skrifar eðr sinn kost leggr til hana at skrifa, taki ômbun af yckr baðum, sva at þessa goðs ok allz annars, er þeir gera, nioti þeir i eilifum fagnaði meðr varum herra Jesu Kristo lifanda guðs syni, er með feðr ok helgum anda lifir ok rikir einn guð almattigr per omnia secula seculorum. Amen.

# THOMAS SAGA POSTOLA.

## I.

*Her hefz Thomas saga postola*[1].

1. Thomas postoli, er ôðru nafni er kallaðr Didimus, hann kom til borgar þeirar, er Cesarea[2] heitir. Þa vitraðiz honum drottinn ok mællti [við hann[3]: „Gundoforus Jndialandz konungr hefir sendan greifa sinn [til Syrlandz[4] at leita ser husasmiðs[5], en ek vil senda þik með honum.“ Thomas postoli svaraði: „Drottinn, sentu mik þangat sem þu villt [i annan stað[6] en til Indialandz.“ Drottinn mællti við hann: „Far þu, þviat ek em með þer ok skal[7] eigi fyrirlata þik. En er þu hefir førða mer Indialandz menn, þa muntu[8] koma til min með dyrð.“ Thomas svaraði: „Þu ert drottinn, en ek em þræll þinn, verði vili þinn.“ En þa gekk [Indialandz greifi með sinum mônnum[9] a torg, en hann het Abbanes. En drottinn syndiz honum ok mællti: „Hvat villtu kaupa, ungr maðr?“ Abbanes mællti: „Indialandz konungr sendi mik hingat at leita smiða ok[10] kaupa þræla, þa er hagir se [a husasmiði[11], þviat hann vill ser hôll gera lata.“ Drottinn mællti við hann: „Ek a þræl hagan[12], þann er ek sendi til borga, ok førir hann mer avôxt [syslu sinnar ok[13] erfiðis, en ek mun senda hann með þer, en þu lat hann koma til Indialandz[14].“ Abbanes varð feginn, er hann heyrði þetta, ok fell til fota honum. En drottinn kallaði Thomam ok selldi hann i hond Abbane. En er þeir stigu a skip, þa mællti Abbanes við Thomam: „Seg þu mer, ef þat er satt, at þu ert þræll þess, er selldi þik mer?“ Thomas svaraði: „Af þvi mællta ek ekki við[15], þa er hann selldi mik þer, at ek em þræll hans, ok geri ek eigi þat, er ek vil, helldr þat, er drottinn byðr. En ek em einn af otalligum þrælum hans, ok kunnum ver allir margar iþrottir, ok fôrum ver um borgir ok førum drottni varum allt, þat er ver oflum með erviði varu.“ Abbanes mællti: „Hvat kantu iþrotta?“ Thomas svaraði:

1 *Overskr. B.* 2 Cesaria *B.* 3 [*tilf. B.* 4 [*saal. B*; Abbanes *A.* 5 husasmiðar *B.* 6 [annan veg helldr *B.* 7 mun ek *B.* 8 skalltu *B.* 9 [Indiakonungs greifi fra skipi ok kom *B.* 10 eða *tilf. B.* 11 [at husasmið *B.* 12 truan mer *B.* 13 [*saal. B*; allrar syslu sins *A.* 14 min með veg *B.* 15 i mot *B.*

„Smiða[1] ek hus, þau er alldri fyrnaz, ok veggi, þa er alldri falla, [ok glugga[2], þa er alldri þrytr lios i husum. Ek geri [hasmiði þau er bera af øðrum[3], en smiði min hafa mikla fegrð utan, en meiri innan. Allt kann ek at gera, þat er smiða ma or steini eða tre. Ef þu selr mer lærisveina, þa mun ek læra þa sva, at þeir se iafnhagir sem ek.“ Abbanes mællti: „Mikill er sa maðr ok konungum betri, er slika præla hefir.“ Thomas svaraði: „Vel er þat mællt, þviat hann er einga[4] sonr konungs, ok ræðr faðir hans enu øzta riki, þar er alldri megu ovinir søkia, ok þar ma engi finnaz siukr ne valaðr.“ En er þetta viðrmæli þeira hafði nokkura stund verit, þa gaf þeim veðr i haf, ok sigldu þeir fullan byr siau daga, unz þeir komu til borgar þeirar, er Andropolis heitir.

En er þeir gengu af skipi, þa heyrðu þeir song ok hôrpuslatt[5] ok gleði mikla til borgarinnar. En þar var brullaup, ok gipti konungr sa [manni dottur sina, er þar reð fyrir[6]. En rennari for um borgina ok mællti, at allir skylldi koma til þess brullaups, auðgir ok fatøkir[7], tignir ok otignir, [innanlandz menn ok utlendir[8], ef sva villdi gera, at konungi likaði. Þa foru þeir Thomas ok Abbanes til brullaupsins, en menn undruðuz þa, þviat þeir voru utlendir ok ollum þar okunnir. Þa for ein mær ebresk ok kom fyrir hvern mann ok song fagrt i pipu ok skemti. En er hon kom fyrir Thomam, þa sa hon a hann lengi ok undraðiz, hvi[9] hann at eigi ne drakk, helldr sa hann avallt til himins. Þa skildi hon, at hann mundi ebreskr vera ok trua a himna guð, ok tok hon at syngia a ebreska tungu: Einn er guð ebreskra manna, sa er skop himin ok iorð ok sio. En er postolinn heyrði þat, þa minti hann hana a þat, at hon hefði þat[10] opt i munni. En sa maðr er drykk bar, avitaði postolann, at[11] hann at eigi ne drakk, ok drap hann hendi i andlit honum. Thomas mællti við hann: „Betra er þer at taka [hefnd her i heimi en[12] i øðrum heimi, þar er eilifar kvalir eru, en þer mun i þessum heimi golldit vera þat, er þu laust[13] mik saklausan, en hond þina munu hundar hingat bera þenna aptan.“ Þetta mællti postolinn [at ebresku mali[14], sva at engi matti skilia nema hin ebreska mær, er i

1 Geri *B.* 2 [*saal. B*; liosastiaka *A.* 3 [*saal. B*; þa smiði, er af beri ollum *A.* 4 *saal. B;* einka *A.* 5 harpslatt *B.* 6 [er þar var, dottur sina manni *B.* 7 oauðgir *B.* 8 [innlendzskir ok utlendzskir *B.* 9 er *B.* 10 þessi orð *B.* 11 er *B.* 12 [likn *B.* 13 slott *B.* 14 [aa ebresku *B.*

mun ec eigi at eins luta honum helldr oc blota hann. Enn með þvi at þinum guði verði mygt, þa er þat iafnmæli, at þu firirlatir villuna oc halldir sannleikinn.“ Konungr svaraði: „Oc skalltu enn þora at mæla iofnum orðum við mic? Nu mun ec lata af kippa tær þinar, ef þu lytr eigi solarguði.“ Thomas svaraði: „Se herna, ec gaufga eigi skurðgoðit; se herna, ec gaufga oc eigi malminn; se herna, ec gaufga eigi blotit. Enn ek gaufga drottin minn Jesum Cristum, i þess nafni byð ec þer, diofull, er byggvir i þessu likneski, at eigi særir þu ne einn mann, helldr briottu niðr malm scurðgoðsins.“ Þa brotnaði þat skurðgoð allt i sundr sem vax við elld. Þa emiuðu allir blotgoðar, enn sialfr blotbyskup hofsins bra sverði oc vegr postulann oc mællti þetta við: „Rec ec harma guðs mins.“ Konungrinn lagði a flotta oc sva Karicius. Siðan giorðizt styriolld akaflig, oc var þo meiri lyðr, sa er leitaði firir postulans sakar oc kallaði hatt, at sialfr byskupinn væri i elldi brendr kykr, sa er postula guðs vá. Enn heilagr domr Thomas postula var til kirkiu borinn með postuligri tign oc dyrligu lofi, oc var þar umbuit með dyrligum smyrslum, oc verða þar takn oc iarteinir i þeim stað, er hann var settr, þviat þar græðaz allar sottir. Siðan baðu Syrlendingar Alexandrum innverskan keisara, þa er hann kom með sigri af Serclandi at yfirstignum Artasercses konungi, þeir baðu þess, at hann sendi orð til Indialandz, oc væri heilagr domr Thomas færðr til Syrlandz, oc væri hann andaðr golldinn sinum borgarmaunnum. Enn nu var sva gert, at likami hans var færðr af Indialandi oc i borg þa er Edissa heitir, oc kvilir(!) hann i silfrscrini, þat et sama scrin hangir þar i kirkiu með silfrfestum. I þeiri borg ma engi villumaðr lifa oc engi Gyðingr, engi blotmaðr, heiðnir menn megu oc eigi heria þangat, siðan er Abbagarus konungr þeirar innar saumu borgar þa rit þat af sialfum græðaranum drottni varum Jesu Cristo, er hann reit sinni hendi sialfs. Þetta rit skal . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

---

## TVEGGIA POSTOLA SAGA PHILIPPUS OK JACOBS.

### I.

*Sagan fra Philippo postola.*

I dag hôlldum ver dyrliga hatið postolum Philippo ok Jacobo, i þa minning er þeir skilduz við þetta fallvallta lif ok sottu þa til himinrikis fagnaða, ok þagu þa eilifar ômbunir af almatkum guði fyrir sitt lif dyrligt ok sinn dauða fagran. Er sa dagr skylldr til einkum at hallda ollum guðs postolum, þviat sa verðr postoladagrinn optast næstr piningu vars drottins ok upprisu, ok verðr nu af þvi at hallda þeim af skylldu fagnaðartið, at þeir hôfðu litlu minni mannraun af piningu vars drottins en af sialfra sinna piningu eða dauða. Eigi berr ok af þvi saman hatið þeira ok liflatzdag postolanna Philippi ok Jacobi, at þeir væri asamt, aðr þeir skildu við þetta lif. En af þvi eru skammar frasagnir a bokum gôrvar fra hvarum þeira, at Jacobus var eigi lengi til raunar, en kominn þar at heimsvist, sem reynt var, at mest væri i kaf haldit allri guðs kristni ok heilagra manna dyrð, en Philippus var sva fiarlægr þeim mônnum, er heilagra manna sôgur hafa samsettar, ok er þvi fra honum fatt sagt.

Sva segia helgar ritningar, at Philippus var ættaðr af borg þeiri, er Bethsaida heitir, þeiri hinni sômu sem Petrus ok Andreas voru. Ok annan dag eptir, er þeir Petrus ok Andreas hofðu hit fyrsta sinn kannaz við drottin, þa kallaði hann Philippum til fylgðar með ser, ok fylgði hann honum siðan i sifellu. Ok af hans orðum kom ok til fylgðar með lærisveinum Natanael, er aðr var spekingr mikill ok drottinn mællti til lofligum orðum, hann kvað hann vera trulyndan ok flærðlausan. Philippus kallaz lioskers muðr, af þvi at hann var orðførr ok slettmall, ok sneri hann môrgum manni aleiðis ok mællti môrgum manni hughvarf af sinni gøzku ok orðføri, er aðr voru miok vanstilltir ok aftruaðir, ok lysti liknarbraut fyrir sinum undirmônnum bæði með kenningum ok dømum goðra verka[1], eptir þvi sem drottinn mællti sialfr: Lysi lios yðart fyrir monnum, at þeir siai verk yður goð ok dyrki fôður yðarn, þann er a himnum er. Su er mikil virðing þessa mannz Philippi, ef hann hefir hann fyrstan kallaðan til fôruneytis af engri ættlegð, ok var þat haleit virðing, at hann væri einn af ôllum fyrstr kosinn til þessa dyrliga embættis at fylgia sialfum guðs syni ok honum at þiona i sifellu.

1 manna *Cd.*

En eptir uppstigning drottins, þa er postolar hans dreifðuz til kenninga naliga um allan heim, þa for Philippus a þat land, er Scitia heitir, er af sumum monnum er kôlluð Sviþioð hin mikla, ok er hon kolluð hingat nalægst þeira landa, er postolarnir hafa kenningar sialfir kent. En þegar er postolinn kom þar, þa var hann tekinn af heiðnum monnum ok leiddr til Tys hofs, ok var hann nauðgaðr til at blota Tys likneski. Ok i þvi bili varð sa atburðr, at skreið undan umbuningi skurðgoðsins dreki mikill, ok drap þegar til dauðs son hofgoðans, er reykelsi bar fyrir skurðgoðit. Ok hann laust ok tva hôfðingia, þa er upphafsmenn voru at ofriði við postolann, ok þeira fylgðarmenn; margir fengu sott af blæstri drekans. En er þessi stortiðindi hofðu gorz, þa tok Philippus til orða ok mællti: „Ef þer vilit hlyða minum orðum, þa mun enn mikit um bøtaz, þott mikit se at orðit. Dreki, sa er yðr hefir lengi meinsamr verit, mun flyia a braut i nafni guðs mins.“ En allir baðu, at sva skylldi verða. Philippus postoli mællti: „Briotit niðr likneski þetta, er i Tys liki þikkir gort verit hafa, en reisit upp þar i staðinn kross drottins Jesus Kristz, er honum er sigrs ok piningar mark en hinu styrkasti stolpi varrar hialpar ok lausnar.“ En hinir siuku menn eggiuðu miok, at þat skylldi fram fara sem skiotast, ef þeir væri þa nôkkut nærr heilsu sinni en aðr. Ok var sva gert. Postolinn beiddi ser hlioðs, ok mællti siðan: „Ek byð þer, dreki, sa er her hefir lengi bygt i þessum stað til meins monnum, at þu farir a braut heðan i eyðimork, þar er engi er fôr manna ne fenaðar, ok verðir engum manni at meini siðan.“ Þa sa allir, er við voru, at ut for einn hræðiligr dreki ok sotti i eyðimork, ok varð siðan alldri at meini. En eptir þat reisti postolinn upp þa þria menn, er dauðir voru, en gaf þeim heilsu, er siukir voru.

En eptir þat sneruz þeir allir til rettrar truar, er aðr hôfðu ofrið boðit postolanum, ok iðruðuz þa þess, er þeir hofðu honum i mot mællt eða gort, ok hugðu hann guð vera ok villdu hann a þa leið dyrka. En hann sagði þeim, at annarr var sannr guð, sa er skapaði himin ok iôrð ok alla aðra skepnu, ok heimrinn hafði allr tapaz af synd hinna fyrstu manna, en guðs son let beraz hingat i heim fra Mariu meyiu, ok hann hafði pining tekit ok dauða, ok hann hafði upprisit af dauða ok stigit til himna, ok hann hafði sent þeim postolum sinum astgiof heilags anda, ok kunnu þeir siðan allar tungur at mæla, ok af þeiri gipt toku þeir iartegnir at gera allzhattar ok reisa menn af dauða. En þar eru

ek einn af þeim sendr hingat til yðar at kenna yðr retta tru.“ En allir þeir er við voru staddir, toku tru, ok voru þa skirðar margar þusundir manna. Philippus postoli for þa siðan um heroð ok borgir ok vigði byskupa, presta ok diakna, ok marga aðra klerka, ok let þar margar kirkiur reisa ok efla þar miok kristinn dom. Ok var hann þar .xx. ar kenningar at kenna, ok gerði allzkyns iartegnir, gaf syn blindum, en heyrn daufum, gôngu hôlltum, en hreinsun likþram, ok reisti dauða menn til lifs.

En at liðnum þessum stundum vitraði guð postola sinum, at hann hyrfi aptr i Asiam ok Affrikaland i hofuðborg þa er Hieropolis heitir. Þar geck yfir villa þeira manna, er Hebioniti voru kallaðir. Ok for postolinn þangat eptir guðs boði ok tilvisun, ok eyddi þeiri villu ok førði kristnina i lag, sem þa er bezt hafði verit. Þar voru i borginni døtr postolans tvær, helgar nunnur ok dyrligar, ok hafði hvartveggia þeira mikla meyiasveit með ser, þær er guði þionuðu i sifellu. En er postolinn var sva gamall, at hann hafði siau vetr ens niunda tigar, þa kallaði hann til sin klerka ok kennimenn ok byskupa þar nalægra borga, ok sagði þeim skammar mundu eptir lifstundir sinar, en bað þa gæta vandliga guðs boðorða ok sinna kenninga. Segia sva helgar bøkr, at þa kømi þar heiðnir menn með ofriði miklum ok hôndluðu postolann ok dømdu hann þegar til liflatz, ok var hann siðan krossfestr, ok gryttu þeir hann siðan a krossinum, ok for hann með þeim piningarsigri a þessum degi til almattigs guðs. En eptir þat toku kristnir menn likama postolans ok grofu með allri slikri dyrð, sem þeir hôfðu framast fông a. Ok þa er døtr hans onduðuz, þa voru þær hia honum grafnar, a sina hond hvar, ok veitir guð þar margfolld gøði fyrir dyrð sins postola ôllum þeim, er hann søkia at arnaðarorði með ast ok rettri tru til almattigs guðs; honum se dyrð ok valld um alldir allda Amen.

---

## *Saga Jacobs postola.*

Nu er enn skylldugt, goðir brøðr, at segia nôkkut fra þeim
enum dyrliga guðs postola ôðrum, er sa dagr er helgaðr með
guði, Jacobo postola, er einn er af naverondum drottins. Hann
53 var systrungr hans at iarðligri frændsemi, hans moðir var Maria,
systir Mariu drottningar, sammøðra við hana, ok var hon Cleophas

dottir ok broðurdottir Josephs fostra drottins. Alfeus var faðir hans, brøðr hans Jacobi voru þeir Simon ok Judas ok Joseph hinn rettlati. Jacobus þyðiz undirgrefill eða rotsetiari, ok hefir hann af þvi þat nafn, at i kenningum sinum grof hann syndir ok andmarka or briosti manna ok hiôrtum, en rotsetti i staðinn ast ok elsku til almattigs guðs með oðrum mannkostum.

En aðrir lærisveinar ok guðs postolar foru af Gyðingalandi, til þess þioðlandz hverr, sem guð hafði til vísat, en þat kom a hluta Jacobi at styra þeiri kristni, er at Jorsolum var, ok þotti þat ôllum torsott, fyrir þvi at þat var reynt, at þeir mundi fam þyrma Gyðingarnir, er þeir hôfðu lagt hendr a postolana ok þvi framarr a drottin sialfan, en hofðu synt sik i ôllum ofriði við postolana, meðan þeir voru allir saman. En sva var hann vinsæll ok hugþekkr alþyðunni, at hann var kallaðr enn rettlati Jacobus, ok var honum þat sannefni. Sva segia bøkr helgar, at Jacobus hafi olikr verit oðrum monnum at flestu, hann drakk alldri afengan drykk, hann at alldri slatr, ok alldri kom harknifr yfir hôfuð honum, hann hafði alldri laug eða bað, hann hafði alldri ullklæði, ne af oðrum vefium ger, hann vafði sik allan i einum linduki. Hann var naliga allar stundir i guðs musteri nætr ok daga. Hann einn kom i Sancta sanctorum, þar er allir voru enir helgustu hlutir varðveittir. Hann la longum flatr til iarðar i guðs musteri, ok bað sva fyrir lyðnum litillatliga. En hann fell a kne bæði hart ok opt, ok gerði sva hôrð knein ok kneskeliarnar sem a ulfallda, at horn þotti a vera, eða sva sem skeliar væri, ok var eptir sliku annat harðlifi hans. Margir voru aðrir villumenn i borginni en Gyðingar, ok komu þeir til postolans ok baðu hann skyra fyrir ser, hvat dura Jesus væri, er hann hafði sialfr haft i sinum kenningum. Sva segir Jon guðspiallamaðr, at drottinn hafi mællt við sina lærisveina: „Sônnu sannara segi ek yðr, at sa er eigi gengr inn um dyrr i sauðahus, helldr stigr hann annan annan veg upp, hann er þiofr ok illvirki; en sa er inn gengr um dyrr, er hirðir sauðanna.“ Ok nôkkuru siðarr segir drottinn i hinu sama guðspialli: „Ek em dyrnar, segir hann, ok ef nôkkurr gengr inn fyrir mik, hann mun heill verða, ok inn mun hann ganga, ok sva mun hann ut ganga ok goða haga finna.“ En Jacobus sagði þeim, at hann hafði sik sialfan sva kallat, ok dyrnar skulu iartegna þrenning almattigs guðs; þær eru einar, ok megu eigi dyrnar vera nema af þrim triam, tveim dyristôfum ok umdyri; er sva þrenning guðs, at hon er með þrennum greinum, ok er

hann þo einn guð; en þreskôlldrinn iartegnir tru vara, ok ma þa auðvelldliga i dyrnar ganga, ef þreskolldrinn helldr i sundr dyristôfunum; megum ver ok þvi at eins i himinrikis dyrr inn ganga, ef ver hôfum þrenningar tru retta.

En er Jacobus hafði þetta mællt, þa sneruz margir menn fra villu til rettrar truar af hans kenningum, ok nôkkurir af yfirgyðingum. Ok er yfirgyðingar urðu þessa varir, þa foru þeir til fundar við Jacobum ok mælltu við hann: „Ver biðium þik, enn bezti maðr ok hinn rettlatasti, at þu kennir mônnum tru retta ok segir fra Jesu, at menn viti þat it sanna, hvat titt er, af þvi at ver vilium þer allir hlyða ok þat hafa, sem þu byðr. Er her nu kominn mikill fioldi folks, bæði or nalægum borgum ok margir langt tilkomnir, en hatið mikil, ok høfir, at þu ser þar kominn, er þu siair alla, ok allir megi sia þik ok heyra þat, er þu mælir.“ Hofu þeir hann þa upp siðan a hialla þa hafa, er i musterinu voru. Ok tok hann þa til orða ok mællti við allan lyð, þann er við var: „Hlyðit mer ok hugleiðit þat, er ek mæli, Gyðinga lyðr fyrst at upphafi, ok allir þeir, er nu heyra mitt mal. Ek em nu kominn i hafan stað, ok skal ek nu bera vitni af Jesu hinum nadverska, er yfirgyðingar krossfestu ok sogðu hann fiôlkunnigan mann vera, en eigi guðs son. En hann var sannr guðs son, ok var fyrr getinn af feðr, en himinn ok iorð voru. Sa hinn sami tok manndom a sik ok let beraz maðr hingat i heim a varum dôgum af meyiar kviði ok af Davids ættrifi a dôgum Herodis konungs, en var krossfestr undir domi Pilati iarls. Hann reis upp af dauða a þriðia degi, ok gaf oss til þess velldi ok matt lærisveinum sinum, at gefa syn blindum monnum ok grøða allar sottir ok reisa dauða menn til lifs. Ok til þess at hann syndi oss sanna ok efalausa upprisu sina, fyrir þvi at hann hafði hin sômu orð upp fyrir oss eptir upprisu sina, sem hann hafði tiað fyrir upprisu sina ok pining, tok hann føzlu með oss ok syndi oss oll ôrr groin sara sinna, þeira er hann tok a krossinum. En er hann sagði oss, at hann mundi upp stiga til himna, ok er ver urðum við þat hryggir, þa bað hann oss eigi hrygga vera, skulu þer helldr fagna, sagði hann, þviat ek fer til fôður mins, ok mun ek senda yðr innan skamms bragðz enn helga anda. Ok vitruðuz þar tveir englar ok sôgðu oss, at hann ste upp til himna, ok hann mundi með þeim hætti koma til domsdags hingat i heim, sem þa skildiz hann við oss. En fam dôgum siðarr, þa er ver satum allir saman ok lærðum lyðinn, ok sôgðum þat, sem satt var,

at Jesus er sannr guðs son af guði getinn, þa kom hinn helgi andi yfir oss alla saman sva sem lios af himni ok gerði hiörtu var gloandi naliga af ast ok gipt heilags anda. Kunnum ver þa bæði at mæla ok at skilia a allar tungur."

En er Jacobus hafði þetta mællt, þa gengu yfirgyðingar ok mælltu: „Ver baðum þik, at þu skylldir eyða villu lyðsins um Jesum, en oss þykkir, sem þu hafir aukit miök i ummælum þinum." Jacobus svaraði þeim: „Ek tok a braut villuna, en synda ek hit sanna." Ok er þeir sa þat yfirgyðingar, at allir fögnuðu kenningu postolans ok truðu a Jesum, þa hliopu þeir at honum ok hrundu honum ofan. Ok var van, at hann mundi allr lemiaz, en hann kom standandi niðr, ok sakaði ekki, ok stoð hann siðan upprettr ok kendi kenning sina. Þa hliop at einn af yfirgyðingum i reiði mikilli ok øði ok greip upp þvattvifl eina mikla ok laust i höfuð postolanum, sva at þegar la heili a iorðu, ok for hann a þessum degi með piningarsigri til almattigs guðs En allr lyðr villdi hondla þa yfirgyðinga, er þessa ohæfu gerðu, en þeir flyðu. En trufastir menn grofu likama postolans með mikilli virðingu, ok veitir guð þar margar iartegnir, ok hvilir hann við sialfs guðs musteri; þeim enum sama guði se dyrð ok vegr um alldir allda. Amen.

---

## II.

*Her hefr upp sogu Philippi postola.*

Heilagr Philippus postole guds drottins vörs Jesus Cristz för eftir uppstigning hans til þess landz, er Scithia heitir, ok kendi þar kenningar ok retta tru .xx. vetr. Enn er hann var tekinn af heiðnum monnum ok leiddr til Tys hofs ok neyddr at blota, þa skreid dreki mikill undan syllustokki, þar sem Tys liknerski stöð yfir, ok drap hann son blotbyskups, þess er fyrir þvi bloti red, ok heradshofdingia .ii, þa er taka leto Philippum postola ok setia i bönd. Enn af blæstri drekans feingu allir sott, þeir (er) fyrir urðu. Þa mællti Philippus postole vid lyðinn: „Hlydit þer radum minum, ok munu þer taka heilsu, enn þessir

heilsu ok lif, sem dauðir ero, enn dreki sió mun flyia i nafni drottins mins.“ Þa svaradi lydrinn: „Segðu hvat vær skulum giðra.“ „Dragit þer ut skurgoðit þetta ok briotid, enn setid þar i stadinn cross drottins mins Jesus Cristz.“ Þa kaulludu þeir sem siukir voru: „Gef þu oss afl ok heilsu, ok munu vær briôta Ty þenna, sem vær hôfum blotad.“ Þa mællti postolin: „Ek byð þer, dreki, i nafni drottins mins Jesus Cristz, at farir þu i brutt ôr þessum stad, ok giôr aungum manni mein, ok far i eydimôrk, þar sem eingi er manna faur ne nytsemi.“ Þa flydi æ brutt inn grimmasti dreki, ok var hvergi siðan senn. En postolen reisti af dauda son blotbyskups ok .ii. hofdingia, þa er drekinn hafdi drepit, ok gaf hann aullum heilsu, þeim er sôtt hôfdu feingit af blæstri drekans. Þa idruduzt þeir, sem ofrid hôfdu giort moti postolanum, ok hugdu hann gud vera ok gaufgudu hann. En postolin sagdi þeim (fra drotni), hversu hann kom i þenna heim at biarga mannkyninu, ok hversu hann reis upp af dauða æ þridia degi ok ste sidan til himin(s)ins at æsianndum postolum sinum, ok hversu hann sendi þeim inn helga anda i elldligum tungum, sem hann het, ok gaf þeim mal allra tungna. „Enn ek em einn af þeim, sagdi postolinn, ok sendi hann mik hingat at gera yðr þess visa, at skurgôd þessi ero dioflar ok uvinir blôtmanna sin(n)a.“ En er postolinn hafdi mællt þetta, þa toku margar þusundir manna tru ok skirn. Enn Philippus postole vigdi byskupa ok presta ok adra kennimenn ok let kirkiur giôra. Enn sidan fôr hann til Asialandz, sem gud vitradi honum, i borg þa er Hieropolis heitir. Hann eyddi þar villu þeira manna, er þat sôgdu, at sonr mannz ok guds hefdi eigi tekit sannan likam af meyiu. Enn þar vôru .ii. detr Philippi enar helgustu meyiar, þær sem margar meyiar leiddu eptir ser til guds. Enn Philippus postole kalladi til sin byskupa ok presta ok diakna ur môrgum[1] borgum .vii. dôgum fyrir andlat sitt ok mællti vid þa: „Þessa .vii. daga veitti drottinn mer at vera i þessu[2] lifi. Vere þer minnigir kenningar drottins mins Jesus Cristz, ok standit upp hreinliga[3], enn hann man fylla heit sitt ok efla kristni sina.“ Enn er postolin hafði þetta mællt, þa fôr hann[4] til guds, er hann hafdi [.vii. vetr ins niunda[5] tigar. Enn er nôckurir vetr lidu þadan, þa aunduduzt dætr hans, ok voru grafnar hia honum, æ sina hônd honum hvar

1 *Her beg. Fr.* 2 þvisa *Fr.* 3 drengiliga *Fr.* 4 *saal. Fr.;* postolin *A.* 5 [*saal Fr.;* vetr ok siô ins .ix.unda *A.*

Enn þar getazt margir gôdgerningar af gudi aullum maunnum, þeim er trua a gud fôdr[1] ok son ok anda helgan.

---

### *De sancto Jacobo apostolo*[2].

Jacobus postole hafdi fôrrad þeirar kristni, sem at Jôrsôlum var. Enn Gydingar gerdu ofrid moti honum, ok toko þeir hann ok settu yfir ræfr musteris ok mælltu: „Vær bidium þik, inn rettlatasti madr, þvi at þu hefir þat ord[3] af aullôm, at eigi megi annarr þinn iafningi finnazt at rettlæti, af þvi tel þu fyrir [folkinu ok allri[4] alþydu, er her er komin til þin ok hatidardags þessa, eigi at eins ôr enum næstum borgum, helldr oc[5] ôr fiarlægum herôdum, at eigi villizt menn ok segi Jesum Nazarenum guds son vera.“ Þa kalladi Jacobus postole æ allan lyðinn med mikilli rôddo ok mællti: „Heyrid þer allir synir Israel! Til þess em ek settr i hafan stad, at ek bera vitne um Jesum Nazaræenum, þan er Gyðingar krossfestu ok sôgdu fiolkunnigan vera, enn hann er sannr sonr guds eingetinn af fedr fyrr enn [himininn væri ok iordin[6]. Hann tok manndom a sik æ vôrum[7] timum ok let berazt fra meyiu ôr kyne Davids, hann var borinn æ dôgum Herodis konungs ok pindr æ krossi undir Pontverskum Pilato iarle. Sia reis upp af dauda æ þridia degi ok gaf oss lærisveinum sinum matt i sino nafni at lysa blinda, græda siuka, reka brutt diôfla ok lifga dauda menn. Hann let oss at fullri ok sannri raun um koma sik af dauda hafa risit, er hann minti oss æ þa hluti alla, sem hann hafdi oss kent fyrir pining sina, sva át hann med oss, ok syndi hann æ hôndum sinum nagla spôr, sagdi hann oc[5], at hann mundi upp stiga til fedr[8] sins æ himna. Enn ver lærisveinar hans hrygdumzt af þvi, enn hann kvidiadi oss þat, ok sagdi: Fagnit þær, þviat ek fer til fôðr[9] mins, enn ek man senda ydr helgan anda huggara[10]. Ok eptir .xl. daga fra upprisu sinni at oss æasiôndum[11] steig hann til himins, ok er vær sæm [til himinsins[13], þa synduzt oss tveir einglar sva mælandi: „Jesus

1 fauðor *Fr.* 2 *Overskr. Fr.*, capitulum *A.* 3 vitne *Fr.* 4 [*mgl. Fr.* 5 *tilf. Fr.* 6 [himenn oc iorð væri *Fr.* 7 varom *Fr.* 8 fôðor *Fr.* 9 fauðor *Fr.* 10 *saal. Fr.*, hyggara *A.* 11 asiandom *Fr.* 12 [i himenenn *Fr.*

þessi, sem nu er uppnuminn yfir ydr, man sva koma, sem þer siait hann nu fara i himininn. En eigi eptir marga daga, þa er vær satum i einu husi ok kenndum kenningar fôlki, at Kristr væri sannr gud ok af gudi getinn, þa kom bradum yfir heilagr andi sva sem lios af himne ok ikynde [hiaurto vár oc lauc[1] upp fyrir oss allra þioða tungur, sva at sina tungu sialfra[2] mælltu ver vid hveria þioð um stormerki Kristz drottins vars sonar guds lifanda."

Þa gengu upp til postolans yfirgydingar ok mælltu: „Þess badum ver þik, at þu skylldir taka fra lydnum villuna um Jesum, enn þu iòkt[3] vid." Jacobus postole svarar þeim: „Ek tok brutt villu ok synda sannyndi." Enn er þeir sa, hvar komit var, at allir felldu goðan ok gladan hug til eyrendis postolans ok villdu trua æ Jesum, þa hrundu þeir honum ofan þadan ok allt æ iòrd. Enn hann kom standandi nidr ok osakadr, ok predickadi þa enn af nyiu. Þa tok einn yfirgydingr upp i ædi sinni þvatvifl ok færdi i hôfut postolanum, sva at þegar læ heilinn æ iordu. Ok er allir lydir þustu at ok villdu handtaka Gydinga, þa er þessa voru valldir, þa flydu þeir felms fullir. Enn allt folkit gerdi med veg ok virding leizlu postolans ok iorðudu hann þar hia musterinu, truandi æ son guds lifanda, þann er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir gud um allar alldir. Amen.

---

## BARTHOLOMEUS SAGA POSTOLA.

### I.

1. Messudag holldum ver i dag Bartholomeo postola i minning þeirar piningar ok hinnar agæztu sigrfarar, er hann for a þessum degi til himinrikis dyrðar með sarligum piningum. Eigi hôfum ver a bokum seð, hver hans iðn hefir verit, aðr drottinn kallaði hann til sins fôruneytis. Þat hafa nokkurir vitrir menn sagt, at Bartholomeus postoli hafi ættstørstr verit allra postola, hafi hann af þvi þat nafn haft, at hann hafi konungborinn verit.

1 [*saal. Fr.*; hiartu vòr ok laukzt *A.*   2 *saal. ogsaa Fr.*   3 iokt *Fr.*

Konungar hetu hverr eptir annan Tholomeus a Egiptalandi langa æfi, en Bar[1] þyðiz sonr a vara tungu; þvi kalla sumir menn, at a þessum degi se þat guðspiall lesit i messu, er postolar þrættu um þat, hverr þeira mestr væri. En drottinn segir sva: hversugi er hverr þeira var ættaðr, eða hveria iðn sem þeir hôfðu haft aðr, at su fylgð, er þeir fylgðu drottni, ok þau boðorð, er hann bauð þeim, ok su virðing, er hann veitti þeim um aðra menn fram, þat gerði þa alla iafna, ok engi matti þeira virðing onnur slik vera, sem su dyrð er hann veitti þeim. Margir hlutir þykkia þeir synz hafa i hans hattum, at hann hafi mikilmenni verit þegar at þessa heims virðingu, hann var styrkr maðr ok staðramr, fatpruðr ok fyrirleitinn, þrifsamr ok þrekmaðr mikill.

2. [2]Indialônd eru þriu: eitt er þat er liggr hia Blalandi, annat liggr hia Serklandi, en hit þriðia er við heimsenda, ok er þat hit yzta Indialand kallat a bokum. Ok þa er postolar skiptuz til landa, var a hit yzta Indialand sendr af guði heilagr Bartholomeus postoli. En er hann kom þangat, þa var þar blotað skurðgoð þat er het Astaroth. I skurðgoðinu var diôfull, sa er sagðiz grøða siuka menn, en þa eina grøddi hann, er hann meiddi; þviat Indialandz menn kunnu eigi sannan guð, ok urðu þeir af þvi tældir af osônnum guðum. En hinn lygni guð tælir sva þa, er eigi truðu eða kunnu sannan guð, at hann kastar a þa sottum ok meinum ok skôðum, ok gefr svôr or skurðgoðum, at þeir bloti honum; en þa syniz heimskum monnum sem hann grøði, þa er hann lætr af at meiða. En hann bergr engum, [helldr grandar hann[3], ok syniz þa biarga, er hann lætr af at granda. En er Bartholomeus postoli var þangat kominn, þa matti Astaroth engi svôr veita sinum monnum ok engum biarga, þeim er hann meiddi. En hofit var fullt siukra manna, þeira er um langan veg [voru þangat komnir[4]. En Astaroth matti [engi svôr veita[5] sinum monnum, þott þeir blotaði ok hellti ut bloði sinu, sem þeir voru vanir. Þa foru þeir til annarrar borgar, þar er var annarr diofull blotaðr, en sa het Berith; ok blotuðu menn þar ok spurðu, fyrir hvi Astaroth goð þeira svaraði þeim eigi. En Berith svaraði þeim ok mællti: „Guð yðarr er sva herfenginn ok bundinn elldligum[6] rekendum, at hann þorir eigi at mæla ne blasa, siðan er Bartholomeus postoli kom þangat.“ Blotmenn mælltu: „Hverr er sa Bartholomeus?“ Berith svaraði: „Vinr er hann almattigs

1 Bartholomeus *Cd.* 2 *Her begynder B.* 3 [*mgl. B.* 4 [hôfdu þangat leiddir verit *B.* 5 [aungu svara *B.* 6 baundum ok *tilf. B.*

guðs, ok kom hann hingat til þess at eyða [ôll blot þau[1] er a Indialandi eru.“ Blotmenn mælltu: „Seg þu oss [mark hans[2], at ver megim finna hann, þviat ver megum eigi kenna hann með morgum þusundum manna.“ Berith svaraði þeim: „Svartr er hann a hars lit, ok karr mikill i hari hans, rettnefiaðr er hann, ok eyrun hans eru huld hari hofuðs[3], siðskeggiaðr er hann, ok hæra nokkur i skeggi[4] hans; meðalmaðr er hann a vôxt, sva at hann ma hvarki þykkia har ne lagr; hvitan klæðnað hefir hann buinn purpura ok gimsteinum; sex vetr ok tuttugu hefir þat verit, at eigi saurguðuz klæði hans ne fyrnduz, ok slitna eigi klæði hans ne skuar[5] hans; hundrað sinnum a nott ok hundrað sinnum a degi fellr hann a kne[6] ok gôfgar guð sinn; rodd hans er sem ogurligt mothorn; englar guðs fara með honum ok lata hann eigi møðaz ne hungra; avallt er hann með hinum sama [hug, bliðr er hann iafnan[7] ok glaðr; allt veit hann ok ser fyrir, ok allra þioða tungur kann hann mæla ok skilia; ok þat sialft veit hann, er þer spyrit mik nu, en ek segi yðr fra honum, þviat englar guðs þiona honum ok segia honum alla luti. En ef þer leitit hans, þa munu þer þvi at eins finna hann, ef hann vill, en elligar eigi; en ef þer finnit hann, þa biði þer hann, at hann komi eigi hingat, at eigi geri guðs englar slikt at mer, sem þeir gerðu nu at vin minum Astaroth.“

3. Þagnaði diôfull, er hann hafði þetta mællt. En blotmenn hurfu aptr ok hugðu at buningi ok aliti hvers mannz utlendz, ok leituðu postolans .ii. daga ok fundu hann eigi. Siðan gerðiz þat, at einn diôfuloðr maðr kallaði ok mællti: „Guðs postoli Bartholomeus, brenna mik bønir þinar.“ Postolinn mællti: „Þegi þu, [ohreinn andi[8], ok far fra honum.“ Þa varð sa heill, er marga vetr hafði oðr verit. Þa var konunginum [sôgð heilsa[9] hins siuka mannz; en konungrinn het Polimius, hann atti dottur, þa er oð var. Þa sendi hann menn eptir postolanum, ok mællti hann siðan við hann: „Dottir min er illa halldin, en ek bið, at sva sem þu grøddir Seustium, er marga vetr hefir oðr verit, grøð[10] þu ok sva dottur mina.“ Postolinn reis upp ok for með honum. Ok er postolinn sa hana[11] bundna rekendum, þa [kallaði hann ok bað hana[12] leysa. En þionarnir svoruðu: „Hverr mun þora at retta hendr sinar til hennar, er hon bitr eða slitr allt, þat er

1 [blotum aullum þeim *B.* 2 [atferd hans ok yfirlit *B.* 3 hans *B.* 4 *saal. B*; hari *A.* 5 skor *B.* 6 knebed *B.* 7 [buningi ok einum hug, blidr er avallt hann *B.* 8 [fiandi *B.* 9 [sagt um heilsu *B.* 10 grædir *B.* 11 meyna *B.* 12 [bauð hann, at hana skylldi *B.*

[hon ma fa[1]. Postolinn mællti við þa: „Bundinn hefi ek ovin þann, er hana kvaldi; en þer hræðiz [enn hana[2]; fari þer ok leysit hana ok gefit henni mat, ok leiðit hana til min snemma a morgin." En þeir gerðu, sem postolinn bauð, ok matti diofull siðan alldri kvelia hana.

4. Þa let Polimius konungr klyfia ulvallda ok hesta gulli ok silfri, gimsteinum ok dyrligum klæðum, ok leitaði hann postolans ok matti eigi finna hann; ok var þa aptr borit feit[3] til hallar. En er nott þa leið ok lysti fyrir degi, þa syndiz postolinn konungi, er hann [la i kofa sinum inni[4] at loknum durum, ok mællti við hann: „Til hvers leitaðir þu min allan daginn með gull ok silfr ok gimsteina ok dyrlig klæði? Þessa giafa þikkiaz þeir þurfa, er iarðliga hluti elska, en ek girnumz enskis likamligs ne iarðligs. En þat vil ek, at þu vitir, at sonr guðs let beraz hingat i heim fra Mariu meyiu, ok gerðiz hann maðr i meyiar kviði. En er su hin helga mær hafði með ser guð, þann er skop himin ok iorð ok sio, ok allt þat er i milli er, þa tok hann manndom a guðdom sinn, ok hafði upphaf hurðar með monnum sa, er alldri hefir upphaf haft at guðdomi, helldr er hann sialfr allz[5] upphaf ok gefr upphaf allri skepnu syniligri ok osyniligri. En su mær het þvi heiti fyrst guði, at varðveita meydom sinn ospilltan ok giptaz eigi; en engi hafði [fyrr þetta heit guði ført, en su mær fyrst kvenna het þvi guði at hallda meydomi sinum[6]. Þetta nam hon eigi af dømum[7] manna ne orðum, helldr gerði hon þetta i eptirliking engla lifs fyrir ast guðs. Fyrir þvi vitraðiz henni at loknum durum Gabriel engill skinandi sem sol. En er hon hræddiz, þa mællti engillinn við hana: Eigi skalltu hræðaz, Maria, þviat þu munt son geta. Þa lagði hon niðr hræzlu ok mællti staðfastliga: Hversu ma þetta vera, þviat ek [ætla eigi manni at giptaz[8]. Engillinn svaraði: Fyrir þvi mun koma yfir þik andi heilagr, ok sa heilagr burðr, er þu berr, mun kallaz sonr guðs. En sa sonr guðs, þa er hann var her maðr með monnum, þa let hann þann dioful freista sin, er ste yfir hinn fyrsta mann ok vann teygðan til þess at eta alldin af tre þvi, er guð bannaði honum. En nu sva sem fiandinn mællti við hinn fyrsta mann, at hann æti, ok at hann, ok var af þvi a braut rekinn or paradis ok gorr utlægr i heim þenna, ok kom allt mannkyn fra honum, sva hit

1 [fyrir verdr ok hun ma na eda til taka *B.* 2 [hana enn *B.* 3 konungsins *tilf. B.* 4 [hvildi i klefa sinum *B.* 5 *mgl. B.* 6 [þetta heit fyrri gudi fært *B.* 7 annarra *tilf. B.* 8 [hefi eigi karllmann kennt *B.*

sama mællti fiandinn við guðs son, at hann gerði brauð or grioti ok steinum ok æti ok leti sik eigi hungra. Drottinn svaraði honum: Eigi lifir maðr við brauð eitt, helldr við öll orð guðs. Sa diöfull er ste yfir þann, er at, sa andskoti tyndi sigri sinum fyrir þann, er fastaði ok fyrirleit teygingar hans. Þviat þat var rett, at meyiar sonr stigi yfir þann, er fyrr hafði stigit yfir meyiar son." Þa svaraði Polimius konungr ok mællti: „Hversu sagðir þu moður guðs sonar mey vera, ef annarr var fyrr meyiar sonr?" Postolinn svaraði: „Þakkir geri ek guði þvi at þu hlyðir mer með athuga.

5. Hinn fyrsti maðr var skapaðr or iorðu, ok var af þvi iorðin moðir hans, en hon var mær, þa er hon var enn eigi saurguð af syndum manna ok eigi upplokin til graptar dauðra manna. En þat var rett, er ek sagða þer, at meyiar sonr stigi yfir þann, er fyrst ste yfir meyiar son ok vann hann væltan af sinni sløgð, at hann æti af bönnuðu tre ok yrði siðan a braut rekinn or paradisu ok uti byrgðr. En sa meyiar sonr let fiandann freista sin. Sløgð fiandans var su, at hann villdi fyrirfara þessum meyiar syni, en þorði eigi at freista hans, meðan hann sa eigi hungr a honum; þviat hann ætlaði þat vist fyrir ser, at Jesus væri guðs sonr, ef hann hungraði eigi eptir .xl. daga. En sva sem hann er sannr [sonr guðs[1], sva er hann ok[2] maðr, en þeir einir menn megu kenna hann, er með hreinum hug ok goðum verkum elska hann. En er fiandinn sa, at drottin hungraði eptir .xl. daga, þa þottiz hann vist vita, at hann var eigi guð, ok mællti við hann: „Fyrir hvi lætr þu þik hungra? mældu, at steinar þessir verði at brauði, ok et." En drottinn svaraði honum: „Heyr þu, andskoti, ef þu hefir af þvi velldi yfir mönnum, at faðir allz mannkyns Adam let at teygingum þinum ok hafnaði boðorðum guðs, þa mun ek varðveita log[3] guðs ok stiga yfir þik fastandi, ok reka þik fra þvi velldi, er þu eignaðiz fyrir synd þess er at." En er fiandinn fann sik yfirstiginn i þeiri freistni, þa syndi hann honum gull ok silfr ok alla heims dyrð, ok mællti við hann: „Þetta allt mun ek gefa þer, ef þu lytr mer." Drottinn svaraði honum: „Flyðu, fiandi, þviat sva er ritið: drottni þinum guði einum skalltu luta ok honum einum þiona." Enn var hin þriðia freistni[4] ofmetnaðar, su er andskotinn hof drottin upp a musteri hatt[5], ok bað hann ofan stiga, ef hann væri guðs son. En sa er um sinn hafði stigit yfir meyiar son, hann varð nu þrifalldliga[6] yfirstiginn af meyiar syni.

1 [gud *B.* 2 sannr *tilf. B.* 3 bodord *B.* 4 fiandans *tilf. B.* 5 *mgl. B.* 6 *saal. B*; þvi fastligar *A.*

[Ok sva sem þu ser, at konungr[1] stigr yfir ovin sinn[2] ok sendir riddara sina[3] ok liðsmenn i alla staði, þa er ovinr hans[4] hafði velldi yfir ok leggr sitt[5] mark ok eigu a allt, sva gerði ok Jesus Kristr, þa er hann ste yfir fiandann, at hann sendi oss i oll lond, at ver rekim a braut alla þiona dioful̄s, þa er byggia i hofum ok i skurðgoðum, en ver leysim menn or anauð þeira ok fra velldi þess, er yfir var stiginn. En af þvi fyrirlitum ver gull ok silfr, sva sem Kristr fyrirleit, at ver vilium þar auðgir vera, er hann hefir velldi eilift; þar verðr alldri sott ne ogleði, þar er eilifr fagnaðr ok sæla an enda ok eilift yndi. En er ek gekk inn i hof yðart, þa bundu englar [drottins mins[6], þess er mik sendi, dioful þann, er yðr svaraði or skurðgoðinu. En ef þu lætr skiraz ok tekr tru, þa mun ek sva gera, at þu munt sia hann, ok muntu þa vita, [hversu mikils goðs þu hefir mist[7]. Ok þeir allir, er siukir liggia i þessu hofi, heyrðu[8], með hverri sløgð diofullinn syniz grøða þa. Siðan er hann ste yfir hinn fyrsta mann, þa tok hann at hafa velldi yfir monnum, ok hefir hann yfir þeim monnum meira velldi, er fleira misgera, [en yfir þeim minna, er minna misgera ok færa[9]. Fiandinn sialfr gefr[10] monnum sottir af velum sinum ok eggiar menn at trua a [sik ok a[11] skurðgoð, til þess at hann hafi forrað anda þeira. En þa lætr hann af at meiða þa, er þeir kalla stokk eða stein guð sinn. Af[12] þvi ma sa diofull eigi svara blotmonnum sinum, er i þessu likneski var[13], at hann er bundinn ok yfirstiginn af mer. En ef þu villt[14] reyna, at þat er satt, er ek segi þer, þa mun ek bioða, at hann gangi or likneski sinu ok svari yðr." Konungr svaraði: „A morgun[15] snemma munu blotbyskupar bunir vera at blota, ok mun ek þar koma at sia undr þau[16], er þu segir.

6. En er annarr morgunn kom ok blotmenn blotuðu, þa kallaði diofullinn ok mællti: „Latið af, vesalir menn, at blota mik, at þer hafit eigi verra; bundinn em ek með eldligum rekendum af englum Jesus Kristz, þess er Gyðingar krossfestu ok hugðu hann [mann vera ok[17] halldaz i dauða; en hann heriaði a Hel drottning vara ok batt sialfan Heliar hofðingia elldligum rekendum, ok reis hann upp a þriðia degi af dauða, ok gaf mark kross sins

1 [Enn sva sem konungr sa er *B.* 2 *saal. B.*; þinn *A.* 3 *saal. B*; þina *A.* 4 *saal. B*; þinn *A.* 5 *saal. B;* þitt *A.* 6 [guds *B.* 7 [hve mikils þu hefir mist adr *B.* 8 þa muntu heyra *B.* 9 [*tilf. B.* 10 gerir *B.* 11 [*mgl. B.* 12 Ok *B.* 13 er *B.* 14 vill *B.* 15 morgin *B.* 16 þetta *B.* 17 [mundu *B.*

postolum sinum ok sendi þa i allar ættir[1] heims; ok er her nu einn kominn af þeim[2], ok hefir sa bundit mik. En ek bið yðr þess, at [hann lati mik fara til annars heraðs fyrir yðra bøn[3]. Bartholomeus mællti: „Segðu, ohreinn andi, hverr er sa, er grandaði þessum monnum ollum, er her liggia siukir?“ Diðfull svaraði: „Hôfðingi varr sendir oss at granda monnum, fyrst likomum þeira, meðan ver hofum eigi velldi yfir ondunum; en þa er þeir blota oss til heilsu likama sinna, þa latum ver af at meiða þeira likami, þviat þa hofum[4] ver velldi yfir ondum þeira; ok þa synumz ver grøða, er ver latum af at meiða, ok erum gofgaðir sem guð, en ver orum dioflar ok þionar þess, er hinn krossfesti [meyiar sonr[5] batt. En fra þeim degi er [postoli hans sa kom[6] hingat, þa kveliumz ek bundinn eldligum rekendum, ok mæli ek nu[ af þvi, at hann bauð[7] mer at mæla; þviat eigi mundi hofðingi varr sialfr [þora at[8] mæla, þott hann væri her.“ Bartholomeus mællti: „Fyrir hvi grøðir þu eigi þessa menn, er til þin eru komnir?“ Diofullinn svaraði: „Þa er ver meiðum likami þeira, þa latum ver halldaz [mein þeira[9], meðan ver megum eigi granda ôndunum.“ Postolinn mællti: „Hversu grandi þer ondunum?“ Diofullinn svaraði: „Þa er menn trua, at ver sem guð, ok blota oss, þa hverfr guð fra þeim, en ver snuum sottum [likamans til andanna[10].“ Þa mællti Bartholomeus við lyðinn: „Nu [megi þer sia[11], hvern þer hugðut guð vera ok grøða yðr; heyri þer nu, hverr hinn sanni guð er, skapari yðarr, sa er byggir a himnum en eigi i steinum [eða stokkum[5]. En ef þer vilit, at ek biðia fyrir yðr, ok[12] þessir allir taki heilsu, er siukir eru, þa leggi þer niðr skurðgoð þetta ok briotið, en ek mun helga hofit i Kristz nafni ok skira yðr Kristz skirn i þessu musteri.“ Þa bar allr lyðr reip ok festar a skurðgoðit at raði konungs, ok villdu draga þat ut or hofinu, ok mattu þeir hvergi hrøra þat or stað. Þa mællti postolinn við þa: „Leysi þer nu bondin oll af skurðgoðinu.“ En er þeir hofðu [leyst af þvi bondin oll[13], þa mællti postolinn við [diofulinn, er i skurðgoðinu var[14]: „Ef þu villt eigi, at ek senda þik i undirdiup[15], þa gakk þu brott or likneski þessu ok briot þat allt[16], ok far siðan i eyðimork, þangat

1 attir *B.* 2 þessum *B.* 3 [þer bidit hann, at hann lati mik fara til annars herads *B.* 4 tokum *B.* 5 [*mgl. B.* 6 [þu komt *B.* 7 [eigi af þvi, nema at þu bydr *B.* 8 [*tilf. B.* 9 [meiding *B.* 10 [þeira til likamanna ok andarinnar *B.* 11 [siaid þer *B.* 12 at *B.* 13 [sva gert *B.* 14 [ovininn *B.* 15 it nedsta *tilf. B.* 16 sialfr *B.*

er eigi fliuga[1] fuglar [ok eigi heyriz mal manna[2]. Þa gekk Astaroth[3] ut ok braut i sundr oll skurðgoð bæði meiri ok minni, er þar voru inni, ok tok hann af hofinu allan villufa[4], þann er þar var skrifaðr[5]. Þa tok allr lyðr at kalla[6] einni roddu: „Einn er almattigr guð, sa er Bartholomeus postoli[7] boðar.“ Þa hellt Bartholomeus postoli hôndum til himins ok mællti: „Guð Abraham, guð Ysaac, guð Jacob, þu er sendir til lausnar varrar eingetinn son þinn drottin varn Jesum Krist, at hann leysti oss með sinu bloði, þa er ver vorum[8] þrælar synda, ok gerði hann oss ser at sonum, þu ert [einn guð sannr[9], einn faðir ogetinn, [einn sonr eingetinn[10], Jesus Kristr drottinn varr, einn heilagr andi[11], lysari ok huggari anda varra, [einn guð oskiptiligr[10]. Drottinn varr gaf oss þat velldi i nafni sinu, at ver grøðim siuka ok gefim sion blindum ok rekim[12] diofla fra oðum monnum ok hreinsim[13] likþra ok gefim lif dauðum, ok ver getim þat allt af guði, er ver biðium i nafni Jesus Kristz; i hans nafni bið ek, at sia allr fioldi siukra manna verði heill, ok viti þat allir, at þu ert einn guð a himni ok a iôrðu ok a sæ, er endrbøttir heilsu allra fyrir sialfan drottin varn Jesum Kristum, fyrir þann [er þer[14] vegr ok dyrð um allar alldir.“ Allr lyðrinn svaraði ok kvað amen.

7. ℧. En þa vitraðiz engill guðs lioss sem sol, ok flaug hann i fiôgur horn hofsins ok reist með fingri sinum krossmark a fiorum hornsteinum ok mællti: „Þetta mællti guð, sa er mik sendi, at sva sem hann hreinsaði yðr af sottum yðrum, sva [hreinsaði hann[15] ok hof þetta af allri saurgan diofla, þviat postoli hans rak a braut fianda þann fra monnum, er her bygði [hof þetta[16]; en drottinn bauð mer, at ek synda hann yðr. En eigi skulu þer hræðaz, er þer siait hann, helldr geri þer með fingrun yðrum slikt mark i enni yðr, sem ek gerða a steinunum[17], ok munu flyia fra yðr allir illir lutir.“ Þa syndi hann þeim mikinn skugga hræðiligan hrafni svartara; nef hans var hvast ok skegg hans var sitt, har hans tok allt a føtr niðr; elldr brann or augum hans, en gneistar flugu or munni hans sem af gloanda iarni, en brennusteins logi rauk or nôsum hans; fiaðrar hans voru sva sem þyrnar[18], en

1 fliugi *B.* 2 [ne mal manna megi heyra *B.* 3 fiande *B.* 4 villufaa *B.* 5 aa skrifadr *B.* 6 mæla sem *B.* 7 gôfgar ok *tilf. B.* 8 [adr *tilf. B.* 9 [*saal. B;* faðir ok guð, einn ok hinn sami ok oskilligr *A.* 10 [*tilf. B.* 11 lausnari *tilf. A.* 12 rækim *B.* 13 hreinsadim *B.* 14 [sem þer er *B.* 15 [hreinsi þer *B.* 16 [adr *B.* 17 steininum *B.* 18 þornar *B.*

hendr hans voru bundnar a bak aptr með elldligum bôndum. Siðan mællti engill guðs við hann: „Þvi at þu hlyddir orðum postolans ok eyddir ôllum skurðgoðum, þeim er i hofinu voru, þa mun ek leysa þik, sem postolinn het þer. En þu far i eyðimork, [þar er[1] menn megu eigi vera, ok ver þu þar til domsdags[2].“ Þa flo hinn svarti andi or hofinu ut ylandi grimmri roddu ok hvarf siðan. En engill guðs flo [upp til himna[3], ok sa allir þat. Þa lagði konungr niðr koronu af hôfði ser ok purpuraklæði sin ok gerðiz lærisveinn postolans, ok tok hann skirn, ok kona hans ok synir hans tveir, ok oll hirð hans, ok allir þeir er þar hôfðu heilsu tekit, ok allir þeir er i hans velldi voru.

8. Þa sôfnuðuz saman blotbyskupar allra hofa ok foru til fundar við broður hans, er reð fyrir halfu Indialandi, en hann het Astriges, ok mælltu þeir við hann: „Broðir þinn geriz lærisveinn fiolkunnigs mannz, þess er ser eignar hof var ok brytr [oll goð[4] var.“ En þa er þeir hofðu þetta mællt gratandi, þa komu aðrir blotbyskupar ok sogðu hin somu dømi með grati. Þa reiddiz Astriges konungr ok sendi siðan þusund[5] manna með alvæpni með blotbyskupum, at þeir tøki postolann ok leiddi hann þangat bundinn, ef þeir mætti [finna hann[6]. En er þeir hofðu þat gort, þa mællti Astriges konungr við hann[7]: „Ertu sa er villtan hefir broður minn?“ Postolinn mællti: „Eigi villta ek hann, helldr leidda ek hann fra villu.“ Konungrinn mællti: „Ertu sa er brytr goð var?“ Postolinn mællti: „Ek gaf velldi dioflum, [þeim er i skurðgoðunum voru[8], at þeir bryti sialfir skurðgoð sin[9], en menninir hyrfi fra villu þeira ok tryði einum[10] guði, þeim er a himnum er.“ Konungr mællti: „Sva sem þu gerðir við broður minn, at hann fyrirleti goð sin ok tryði þinum guði, sva mun ek ok gera, at þu fyrirlatir guð þinn ok blotir þu[11] minum guði.“ Postolinn mællti: „Ek synda guð þann bundinn, er broðir þinn blotaði, ok ek gerða sva, at hann braut sialfr likneski sitt. Ef þu matt gera þat at minum guði, þa mattu gera sva, at ek blota guði þinum. En ef þu matt eigi þetta[12] gera at minum guði, en ek mega[11] briota ôll goð þin, þa er rett, at þu truir minum guði“ En er postolinn hafði þetta mællt, þa komu menn ok sogðu konunginum, at [Balldath guð hans[13] var ofan fallinn ok brotinn i smatt[14].

1 [þangat sem *B.* 2 domadags *B.* 3 [til himins *B.* 4 *saal. B;* niðr hof *A.* 5 þusundrat *B.* 6 [*tilf. B.* 7 postolann *B.* 8 [*mgl. B.* 9 þeir sem þar bygdu i þeim *tilf. B.* 10 sinum *B.* 11 *mgl. B.* 12 *tilf. B.* 13 [Baldaca gud þeira hann *B.* 14 sundr *B.*

Þa reiddiz konungr ok reif klæði af ser, ok let postola guðs beria stongum ok [fla kvikan en[1] hoggva siðan. Þa komu menn or tolf borgum með Polimio konungi, ok toku lik postolans með guðs lofi ok allri dyrð, ok gerðu honum kirkiu mikla ok vegliga, ok grofu þar likam postolans. En er .xxx. daga liðu þaðan, þa varð Astriges konungr gripinn af ohreinum anda, ok kom hann til leiðis postolans, ok allir blotbyskupar urðu oðir af dioflum[2] ok iattu heilagleik postolans, ok siðan[3] fellu þeir dauðir niðr [at leiði hans[4]. Þa varð otti mikill ok hræzla yfir heiðnum monnum, ok toku allir tru ok skirn af prestum þeim, er postolinn hafði vigða[5]. En at[6] vitrun guðs ok allra manna raði, lærðra ok olærðra, þa var Polimius tekinn til byskups, ok tok hann siðan at gera margar iartegnir i guðs nafni. Tuttugu vetr var Polimius byskup, ok var hann algorr i [goðum verkum[7], ok efldi Polimius miok kristinn dom ok alla goða siðu. Siðan for Polimius til guðs [i eilifa dyrð[1], þess er lifir ok rikir um allar alldir allda. Amen.

9. *Bartholomeus kendi kenningar a hinu yzta Indialandi, er liggr viðr heims enda. Hann var, sem fyrr er sagt, fleginn kvikr fyrir guðs nafni ok sva akafliga pindr, en siðan var hofuð af honum hoggvit eptir boðorði konungs þess er Astriges het. En heilagr domr Bartholomei postola er nu i Beniventh, en fyrr var hann i ey þeiri er Liparis heitir. En bratt eptir frafall Polimius byskups, varð þar yfirgangr mikill vandra manna ok otrufullra, ok logðu þeir oþægð a fegiafir ok virðingar, er menn gerðu til hins sæla Bartholomei postola, en virðu enskis þær iartegnir, er hann gerði a siukum monnum. Ok er þeir komu litlu a leið at slæfa hugi manna til astar við postolann, þa toku þeir þa øði ok orað, at þeir gerðu ork af tre ok letu þar i koma helgan dom postolans, ok skutu siðan a sio ut ollu saman, ok oðrum fiorum helgum domum pindra manna. Helga doma þessa rak um haf innan, ok for æ fyrir ork Bartholomei, unz hon kom við ey þa, er skamt er fra Sikiley, er Liparis heitir, ok var þar vitrat byskupi þeim helgum, er þar var ok Agathon het ok þar hafði atsetu. Ok vitiaði hann þessarra stormerkia, ok let hann siðan aðra helga doma, er komnir voru, flytia til annarra hofuðstaða, en let fiolda manna ganga i mot helgum domi postolans með kertum ok reykelsiskerum ok fogrum lofsongum, ok villdu

1 [*mgl. B.* 2 diofli *B.* 3 *tilf. B.* 4 [þar vid leidit *B.* 5 skirt ok vigt *B.* 6 af *B.* 7 [aullum hlutum *B.* * *Dette sidste Capitel findes ikke i B.*

flytia til kirkiu, ok mattu hvergi koma, ok sneriz þa fyrst fögnuðr i hryggleik, ok vissu menn þa eigi, hvat til skylldi taka. En guð er nær öllum þeim, er a hann kalla, ok gaf hann til gott rað, sem hann gerir avallt, er til hans er leitað með ast ok goðvilia. Taka þeir þa tvær kvigur ungar, hreinar ok fagrar, ok beittu fyrir orkina, er i var heilagr domr Bartholomei postola, ok rann hon þa eptir laus til kirkiunnar; ok var þa um buit með allri dyrð, ok urðu þar margar storar iartegnir: iarðelldr stoðvaði gang, er menn hofðu aðr mein af, ok toku menn þar heilsu siukir, hvatki er at meini var. Heilagr domr postolans var þar dyrkaðr um langa hrið, unz at þvi dro, er guð villdi hans helgan dom þangat flytia lata, er enn væri meiri hofuðstaðr, en þar sem aðr var hann. Þa er liðit var fra burð Kristz at aratolu .dccc. ok .viii. vetr hins fiorða tigar, þa komu Serkir ok heriuðu a eyna Liparis ok ræntu þar hvervetna, ok köstuðu serhveriu beini postolans. En er þeir voru a braut farnir, þa vitraðiz Bartholomeus postoli munki einum grikskum, er þar var kirkiuvörðr, ok mællti við hann: „Ris upp þu ok safna saman beinum minum, er nu eru dreifð viða.“ Munkrinn svaraði: „Hvi mun ek safna saman beinum þinum eða gera þer sømd, er þu villdir oss ekki fullting veita ne lyðs þins gæta, at eigi væri her hvervetna rænt ok ruplat?“ Postolinn mællti: „Mörg ar hefir þat verit, at guð hefir fyrir minar bønir vægt þessu folki meirr en at verðleik; en nu hefir þann vöxt tekit þeira illzka ok osomi, at nu er eigi fyrir þeim biðianda, ok vil ek nu segia mer af hendi þenna lyð. En þu ger, sem ek byð; kann vera, at þer viti vegs, ef þu gerir, sem ek mæli.“ Munkrinn svaraði: „Hversu ma ek finna bein þin, er ek veit eigi, hvar eru?“ Postolinn mællti: „Far þu ut i nott, þegar myrkt er, ok tak þu allt, þat er þu ser skina sem elldr; þat eru bein min.“ Munkrinn gerði, sem postolinn bauð, reis upp um nottina ok fann beinin, með þeim hætti sem postolinn hafði fyrir sagt. Varð hann feginn, ok varðveitti siðan i gulligu keri, ok for a braut þaðan með helgum dom postolans, ok nokkurir menn með honum, ok hittu þeir skip, þat er af Lunbardi var, ok reðuz til skips með þeim, ok foru þeir allir saman. En er þeir voru a leið komnir með helgan dom postolans, þa lögðu at þeim vikingar af Serkium, þeim er aðr ræntu i Liparis; su þioð het Saraceni, en ver kollum Serki. Ok er þeir komu sva miok i nand, at þeim þotti ser van engrar undankomu, er með helgan dominn foru, þa hetu þeir a postolann.

Ok gerði sva mikit myrkr, at vikingarnir sa þa hvergi, ok foru hinir frialsir, hvert sem þeir villdu, fyrir arnaðarorð hins sæla Bartholomei postola. Foru siðan ok urðu vel reiðfara, unz þeir komu i borg þa er Benivent heitir. Ok þegar er borgarmenn urðu varir við, at þar var kominn heilagr domr Bartholomei postola, þa gengu þeir i moti með fagnaði ok lofsongum ok bioggu vandliga um i haalltari hofuðkirkiu þeirar, er øzt var i borginni; ok er hann þar nu dyrkaðr, ok verða þar allzkyns iartegnir at hans helgum domi allt til þessa dags.

---

### *Fragment.*

Messodag holldum ver i dag Bartholomeo postola i minning þæirar piningar ok hinnar agæzto sigrfarar, ær hann for af(!) þessom degi til himinrikis dyrðar með sarligum piningum. Eigi hôfum ver a bokum seð, hver hans iðn hefir verit, aðr drottinn kallaði hann til sins føronæytis; þat hafa nôkkurir vitrir menn sagt, at Bartholomeus postole hafi ættstørstr verit allra postola, hafi hann af þvi þat nafn haft, at hann hafe konungborinn verit; konungar hæto hverr eptir annan Tholomeus a Egyptalande langa ævi, æn Bartholomeus þyðiz sonr a vara tungu. Þvi kalla sumir menn, at a þessum degi se þat guzspiall lesit i messo, ær postolar þrætto of þat, hverr þeirra mestr væri; æn drottinn segir sva: hversuge ær hverr þæira var ættaðr, æða hveria iðn sem þeir hofðo haft aðr, at su fylgð ær þæir fylgðu drottne, ok þau boðorð ær hann bauð þæim, ok su virðing ær hann væitte þæim of aðra menn framm, þat gerði þa alla iafna, ok ængi matte þæira virðing ônnor slik vera, sem su dyrð ær hann væitte þæim. Margir hlutir þykkia þæir synnz hafa i hans hattom, at hann hafe mikilmenni verit þegar at þessa hæims virðingo, hann var styrkr maðr ok staðramr, fatpruðr ok fyrirlæitinn, þrifsamr ok þrekmaðr mikill.

Indialônd æro þriu: æitt ær þat ær liggr hia Blalande, annat liggr hia Serklande, ænn hit þriþia ær við hæims ænða, ok ær þat hit yzta Indialand kallað a bokum. Ok þa ær postolar skiptoz til landa, var a hit yzsta Indialand sendr af guði hæilagr Barthol-

omeus postole. En ær hann kom þangat, þa var þar blotið skurðgoð þat ær het Astaroth. I skurðgoðino var diôfull, sa ær sagðiz grøða siuka menn, enn þa æina grøddi hann, ær hann mæiddi, þviat Indialannz menn kunnu æigi sannan guð ok vurðu þæir af þvi tølldir af osônnum guðum. En hinu lygne guð tælir sva þa, ær æigi truðu æða kunnu sannan guð, at hann kastar a þa sottum ok mæinum ok skôðum, ok gefr svôr or skurðgoðum, at þæir blote honum. En þa syniz hæimskum maunnum, sem hann grøðe þa, ær hann lætr af at mæiða. Æn hann bergr ængum, helldr grandar hann, ok syniz þa biarga, ær hann lætr af at granda. En ær Bartholomeus postole var þangat kominn, þa matte Astaroth ængi svôr væita sinum maunnum ok ængum biarga, þæim er hann mæiddi. En hofit var fullt siukra manna, þæira ær of langan veg voru þangat komnir. Æn Astaroth matte ængi svôr væita sinum maunnum . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

*bæði mæiri ok minni, þau er þar voro inne, ok tok hann af hofino allan villofa, þann ær þar var skrifaðr. Þa toko aller lyðir at kalla æinne roddo: „Æinn er almattigr guð, sa ær Bartholomeus postole boðar.“ Þa hellt Bartholomeus hôndum til himins ok mællte: „Guð Abraham, guð Ysaac, guð Jacob, þu er sendir til lausnar varrar æingetinn son þinu drottinn varn Jesum Krist, at hann læyste oss með sino bloði, þa ær ver vorum þrælar synða, ok gerði hann oss ser at sonum, þu ær ært faðir guð æ hinn same ok øskiligr(!), æinn faðir ogetinn, Jesus Kristus drottinn varr, æinn hæilagr ande, lausnare, lysari ok huggare anda varra. Drottinn varr gaf oss þat vælldi i nafni sino, at ver grøðim ok gefvin(!) sion blindum ok rekim diôfla fra oðum maunnum, ok hræinsim likðra, gefim lif dauðum, ok ver getim þat allt af guði, ær ver biðium i nafne Jesus Kristz. I hans nafne bið ek, at sia allr fiôlði siukra manna verði hæill, ok vite þat allir, at þu ært æinn guð a himne ok a iôrðu ok a sæ, ær endr bøtter hæilso allra fyr sialfann drottinn varn Jesum Kristum, fyr þann ær þer vegr ok dyrð of allar alldir.“ Allr lyðrinn svaraðe ok kvað amen. En þa vitraðiz engill guðs lioss sem sol, ok flaug hann i fiôgur horn[1] . . . . . . . . . ræist með fingre sinom krossmark a fiorum hornstæinum ok . . . . . . . . . . . . . . . . ær mik sendi, at sva sem hann hræinsaði yðr af sottum . . . . . . . . hræinsaði hann

* *Jvf. ovenfor S. 750²—751³⁰.* [1] *Dette og de følgende Huller er bevirket ved en Flenge i Pergamentet.*

ok hof þetta af allri saurgan diôfla, þviat postole . . . . . . . a brôt fianda þann fra maunnum, ær her bygðe hof þetta. En drottinn bauð mer, at æk synða hann yðr. Enn æigi skoluð ær hræðaz, er ær seð hann, helldr geri þær með fingrum yðrum slikt mark i enni yðr, sem ek gerða a stæinunum, ok muno fløgia[1] fra yðr allir illir lutir." Þa syndi hann þæim mikinn skugga hræðiligan hrafni svartara, næf hans var hvast ok skegg hans var sitt, har hans tok allt a føtr niðr; elldr brann or augum hans, en gnæistar flugo or munni hans sem af gloanda iarne, en brænnostæins loge rauk or nôsum hans; fiaðrar hans voro sva sem þyrnar, en hendr hans voro bundnar a bak aptr með elligum bôndum. Siðan mælte engill guðs við hann: „Þvi at þu hlyddir orðum postolans ok eyddir ôllum skurðgoðum, þæim er i hofino voro, þa mun ek læysa þik, sem postolenn het þer, en þu far i æyðimork, þar ær menn mega æigi vera, ok ver þu þar til domsdags." Þa flo hinn svarte ande or hofino ut ylandi grimmri roddo ok hvarf siðan. En engill guðs flo upp til himna, ok sa aller þat. Þa lagði konungr niðr corono af hôfði ser ok purpurakleði sin ok gerðizt lærisvæinn postolans, ok tok hann skirnn, ok kona hans ok synir hans tvæir, ok ôll hirð hans, ok aller þæir ær þar hôfðu hæilso tekit, ok aller þæir ær i hans velldi voro. Þa sômnoðuz[2] blotbyskupar saman allra hofa ok foro til fundar við broður hans, ær reð fyrir halfu Indialande, en hann het Astriges, ok mælto þeir við hann: „Broðir þinn gøriz lærisvæinn fiôlkunniss(!) manz, þess ær ser æignar hof var, ok brytr niðr ôll hof var." En þa ær þæir hôfðo þetta mællt gratandi, þa komu aðrir blotbyskupar[3] ok sô . . o hin sômo døme með grate. Þa ræiddiz Astriges . . . . . . . . . ðan þusund manna með alvæpni . . . . . . . . . . . . . nn ok læiddi hann þangat bundinn ef . . . . . . . . En er þæir hôfðo þat gørt, þa mællte Astriges konungr við hann . . . . . . ær villtan hefir brøður(!) minn?" Postolinn mællte: „Eigi villta ek hann, helldr læidda ek hann fra villo." Konungrinn mællte: „Ertu sa ær brytr goð var?" Postolinn mælte: „Ek gaf velldi diôflum, þæim ær i skurðgoðunum voro, at þæir bryte sialfir skurðgoð sin, en menniner hyrfe fra villo þæira ok tryðe æinum guði, þæim ær a himnum ær." Konungr mællte: „Sva sem þu gerðir við broður minn, at hann fyrirlæti goð sin ok tryði þinum guði, sva man

1 *Senere rettet til* flygia. 2 *Senere forandret til* sôfnnoðuz. 3 blotb'apar *Cd.*

æk ok gøra, at þu fyrirlater guð þinn ok bloter þu minum guði." Postolinn mællte: „Ek synda guð þann bundinn, er broðer . . . . .

---

## *Tillæg.*

### *Passio Bartholomei apostoli.*

Indialaund ero .iii. eitt þat er ligr hia Blalande, en annat liggr hia Serclande, en it þriþia er viþ heims enda. En a þetta Indialand var sendr af goþe sanctus Bartholomeus postole. En er hann com þangat, þa var hann þar øllom okuþr oc utlendr. A þvi lande var blotaþ scurþgoþ þat er hét Astaroþ. I þvi scurþgoþi var diofull sá es sagþesc græþa siuca menn, en þa eina græde hann, er hann meide ipse, þviat landzmenner cunno eigi sannan goþ, oc urþo þeir af þvi tęlder af osønnom goþe. En inn lygne goþ tęler sva þa, er eigi cunno enn sanna goþ, at hann castar a þá sóttom oc meinom oc scøþom, oc gefr svor ur scurþgoþom, at þeir blote honom. En þa synesc heimscom monnom sem hann græþe þa, er hann lętr af at meiþa þa. En hann bergr øngom heldr grandar hann, oc synesc þa biarga, er hann lętr af at meiþa. En er Bartholomeus var þangat comenn, þa matte Astaroþ engi svor veita, oc engom biarga þeim es hann meide. En hofit var fult siucra manna, þeira es of langan veg voro þangat leider. En Astaroþ matte eigi svara monnom sinom, þót þeir blotaþe oc helti út bloþe sino, sem þeir voro vaner. Þa foro þeir til annarrar borgar, þar er var annarr diofull blotenn, en sa het Beriþ, oc blotoþo þeir þar, oc spurþo firir hvi Astaroþ goþ þeira svaraþe þeim eigi. En Beriþ svaraþe oc melte: „Goþ yþvarr er sva herfengenn oc bundenn eligom(!) rekendom, at hann þorer eigi at męla ne at blasa, siþan es Bartholomeus postole com hingat." Blotmenn melto: „Hverr er sa Bartholomeus?" Beriþ svaraþi: „Vinr es hann almatex goþs, oc com til þess þangat[1] at eyþa øll blót, þau er a Indialande ero." Blotmenn melto: „Segþu ǫss marc hans, at ver megem kenna hann, þviat ver megom eigi kenna hann með morgom þusundum manna." Beriþ svaraþi: „Svartr er hann a hars lit, oc car i háre hans mikell, retnefiaþr es hann,

1 *Først skrevet* þingat, *men Afskriveren har selv rettet dette til* þangat *ved at sætte* a *over* i.

oc eyro hans hulþ háre høfut(!) hans. Siþsceggiaþr es hann, oc hęra necqer i hare hans, meþalmaþr at véxti, svát hann má hvartki þykia hór ne lagr, hvitan clęþnot(!) hefir hann buinn purpura oc gimsteinom. Sex vetr oc .xx. hevir þat verit, er eigi saurgóþosc clęþi hans ne fyrndosc, oc slitna eigi clęþi hans ne scquar hans. Hundrat sinnom a degi oc .c. sinnom a nótt fellr hann a knebet oc gøfgar goþ sinn. Rǫd hans er sem ogorlegt mothorn. Englar goþs fara meþ honom oc lata hann eigi møþasc ne hungra. Avalt er hann meþ enom sama hug, slict oc it sama hugbliþr avalt oc aldregi oglaþr. Alt sér hann oc alt veit hann fyrer, oc kann allra tungor mela oc scilia. Oc þat sialft veit hann, er ér spyriþ mic nú en ec segi yðr fra honom, þviat englar goþs þiona honom oc segia honom alla hluti. En ef ér leitiþ hans, þa muno þér þviat eins finna hann, ef hann vill þat, en ella eigi. En ef ér finnit hann, þa biþit ér, at hann come eigi hingat, at eigi gere englar goþs slict at mér, sem þeir gerþo ad Astaroþ vin minom." Þa þagnaþe diofullenn, er hann hafþi þetta melt. En blótmenn hurvo aftr oc hugþo at alite oc buningi hvers manz utlendz, oc leitoþo postolans .ii. daga oc fundo eigi. Siþan gerþesc þat, at .i. diofuloþr maþr callaþe oc melte: „Goþs postole, qvaþ hann, Bartholomeus, brenna mic bǫner þinar." Postolenn svaraþe: „Þegi þu, ohreinn ande, oc far fra honom," melte postolenn. Þa varþ sa heill, er marga vetr hafþi oþr veret. Þa var konong(en)om søgþ heilsa ens oþa manz. En hann hét Polimius, en hann átte dottor þa er oþ var. Þa sende hann menn efter postolanom oc melte viþ hann: „Dotter min er illa halden, en ec biþ þic, at sva sem þu græder Seustium, er marga vetr hafþi oþr verit, græþu sva oc dotor mina." Postolenn reis up oc for meþ honom. En er postolenn sa hana bundna rekondom(!), þa baþ hann hana leysa. En þrelarnir svoroþo: „Hverr mon þora at leysa hana, es hon bitr eþa slitr alt þat er hon ma taca." Postolenn melte viþ þa: „Bundenn hefi ec nú ovin þann, er meþ henne var oc hana qvalþe, en ér hręþezc enn hana. Fariþ ér oc leysit hana oc gefit henne mat, oc leiþit hana til mín snema a morgon." En þeir gerþo sem postolenn bauþ, oc mate diovoll aldregi qvelia hana siþan. Þa lét Polimius konongr clyfia hesta oc ulvalda golle oc silfre oc gimsteinom oc dyrligom clęþom, oc leitaþe postolans oc matte eigi finna hann, oc var þa aftr boriþ heim til hallar féet. En er nótt þa lidde oc lyste firer degi, þa syndesc postolenn konongenom, er hann hvilde i clefa sinom at locnom durom, oc

melte viþ hann: „Til hvers leitaþer þu mín of allan dag meþ gulle oc meþ silfre oc gimsteinom, oc meþ dyrligom clęþom? Þeira giafa þykiasc þeir þurva, er iarþliga hluti elsca. En ec girnomsc enskis licamlex ne iarþlex.“ Þa hóf postolenn up tølo: „En þat vil ec, at þu viter, at sonr goþs lét berasc fra meyio oc gerþesc maþr i meyiar qviþe. En er sú en helga męr hafþe meþ ser þann, er scop himen oc iorþ oc sé, oc alt þat er þar er a miþli, þa tóc hann manndom a godom sinn, oc hafþi uphaf burþar meþ monnom sa, er aldregi hefir uphaf at godome, heldr er hann ipse alt uphaf, oc gefr uphaf allre scepno syniligre oc osyniligre. En sia męr hét goþe fyrst þvi heite at varþveita meydom sinn ospiltan oc giftasc eigi manne, en engi hafþe þetta heit goþe fort, en sia męr er fyrst qvenna hét þvi goþe at halda meydome sinom. Þetta nam hon eigi af dǫmom manna ne orþom, heldr gerþi þat i eftergliking engla lifs firer óst goþs. Af þvi vitraþesc henne at locnom durom Gabriel engell scinande sem sol. En er hon hręđesc, þa melte engill viþ hana: „Eige scaltu hręþasc, Maria, þviat þu munn(!) sun geta.“ Þa lagþe hon niþr hręzlo oc melte staþfastliga: „Hverso ma þat vera, þviat ec ętlag eige manne at giftasc.“ Engillenn svaraþe: „Fyr þvi mon coma ande heilagr ifer þic, oc sa heilagr ande(!) er þu berr mon callasc sonr goþs. En siá sonr goþs, þa er hann var her meþ monnom, þa leit(!) hann þann dioful freista sin, er ifer ste of enn fyrsta mann oc vann tøgþan til þess at eta af tre þvi, es goþ bannaþi honom. En sva sem fiandenn melte viþ enn fyrsta mann, at hann ęte, oc át hann, oc var af þvi a braut rekinn yr paradiso oc ger utlagþr i heim þenna, oc com alt manncyn fra honom, sva it sama melte fiandenn viþ goþ(s) son, at hann gerþe brauþ or griote oc ęte, oc léti sic eigi hungra. Dominus svaraþe honom: „Eige liver maþr viþ brauþ .i. heldr viþ øll orþ goþs. Sa diofull er ste iver þann er át, hann tynde sigri sinom firer þann er fastaþe oc firerleit teygingar hans; þviat þat var rét, at meyiar sonr stigi iver þann, er fyrr hafþi stigit iver meyiar sonr(!).“ Þa svaraþe Polimius konongr: „Hverso sagþer þu moþor goþs sonar fyrsta mey vera, ef annarr var fyrr meyiar sonr?“ Postolenn svaraþe: „Þaker geri ec goþe, þviat þu hlyþer meþ athuga. En fyrsti maþr var scapaþr or iorþo, oc var af þvi iorþen męóþer(!) hans. En hon var męr, þa er hon var eige saurgot af synþom manna, oc eigi uploken til graftar dauþra manna. En þat var rét er ec sagþa, at meyiar sonr stigi ifer þann, es fyrr ste ifer

meyiar son oc vann vęltan hann af sløgþ sinne, at hann ęti af bǫnnoþo tre, oc urþo braut rekin or paradiso oc úte byrgþ. En sá meyiar sonr let fiandann freista sín. Sløgþ fiandans var su, at hann vilde firerfara þessom meyiar syne, en hann þorþi eigi at freista hans, meþan hann sá eigi hungr a honom, þviat hann ętlaþi þat vist firer sér, at Jesus vere goþs sonr, es hann hungraþi eigi efter .xl. daga. En sva sem hann es saþr sonr goþs, sva er(!) oc saþr maþr. En þeir einer mego kenna hann, es meþ hreinom hug oc goþom vercom elsca hann. En er fiandenn sa hann hungra efter .xl. daga, þa þottesc hann vist vita, at hann var eige goþ, oc melte viþ hann: „Firir hvi lętr þu þic hungra? Męlþu at steinar þesser verþi at brauþi oc et.“ En dominus svaraþi honom: „Heyrþu andscote! Ef þu hefir af þvi velde ifer monnom, at faþer allz manncyns Adamr lét at tøgingom þinom oc hafnaþe boþorþom goþs, þa mon ec varþveita løg goþs oc stíga ifer þic fastande, oc reka þic fra þvi velde, es þu eignaþisc firir synþ þess er át.“ En er fiandenn fann sic iferstiginn i þessi freistne, þa syndi hann honom goll oc silfr oc alla heims bygþ, oc melte viþ hann: „Þetta alt mun ec gefa þér, ef þu lytr mér.“ Dominus svaraþi: „Fløþu, fiandi, þviat sva er ritiþ, drótni goþe þinom einom scaltu luta oc honom einom þiona.“ Enn var in þriþia freistni ofmetnaþar, su er andscotenn hóf hann upp a mustere oc baþ hann ofan stiga, ef hann være goþs sonr. En sá er of sinn hafþi stigit ifer meyiar son, hann varþ nu þrefaldliga iferstiginn af meyiar sǫni. Oc sva sem konongr sá es stigr ifer ovin sinn oc sender riþera sina oc liþsmenn i alla staþe, þa er ovinr hans hafþi veldi ifer, oc leggr sítt sigrmarc oc sina eigo a alt, sva gerþi oc Jesus Cristus, þa er hann ste ifer fiandann, at hann sende oss i øll heroþ, at ver rekem a braut alla þiona diofuls, þa er byggva i hofom oc i scurþgoþom, at ver leysem menn*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

at þu .i. ert goþ a himne oc a iorþo oc a sę oc endr bøter heilso allra firer sialvan dominum nostrum Jesum Cristum, þann er þer er vegr oc dyrþ of allar alder.“ Lyþrenn alr svaraþi oc qvaþ amen. Þa risu þeir up heiler, es siuker hofþo verit. En þa vitraþesc engill goþs lioss sem sol, oc fló hann i fiogor horn hofsins oc reist meþ fingri sinom crossmarc a fiorom hornsteinom, oc melte: „Þetta melte goþ, sa er mic sende, at sva sem hann hreinsaþi yþr af sottom yþrom, sva hreinsaþi hann oc hof þetta af allre saurgon

* *Her mangler et Blad.*

diofla, þviat postole hans rac a braut fianda þann fra monnom, ér her bygþi. En hann bauþ mer, at ec synda hann yþr fyrr. En ér scolot eigi hrøþasc, es ér sét hann, heldr geriþ ér crossmarc meþ fingre yþrom slict i enni yþr, sem ec gerþa a steinom, oc muno fløia fra yþr aller iller hluter.“ Þa synde hann þeim mikinn sugga(!) oc hræþilegan hrafni[1] svartara; nef hans var hvast oc scegg hans sitt, hár hans tóc a fǫtr niþr alt, eldr brann or aúgom hans en gneistar flugo ór munni honom sva sem af gloanda iarne, oc brennosteins loge røc ór nǫsom hans, fiaþrar hans voro sva sem þornar, en hendr bunnar a bac aftr elligom rekendom. Oc melte engill goþs viþ hann: „Þvi at þu hlyder orþom postolans oc eyder øllom scurþgoþom þeim er i hofeno voro, þa mun ec leysa þic sem postolenn hét þer. En þu far i eyþimorç, þar er eigi mege menn vera, oc vestu þar til domsdags.“ Þa fló inn svarti ande or hofeno ut ylande oc øpande grimligri rødo oc hvarf allr. En engill goþs flo til himens, oc so þat aller. Þa lagþi konongr niþr corono af høfþi ser oc purpuraclęþi sin oc gerþesc lerisveinn postolans, oc toc hann scirn oc kona hans, oc syner hans .ii.,* oc hirþ hans ǫll, oc aller þeir es þar høfþo heilso tekit, oc þeir aller er i hans veldi voro. Þa sǫmnoþosc saman blotbyscopar alra hofa oc foro til fundar viþ bróþor konongs, þann er réþ firer holfo Indialandi. En hann het Astriges, oc męlto þeir viþ hann: „Frater tuus geresc discipulus fiolcunnigs manz þess er sér eignar hof ór oc brytr goþ ór.“ En þa es þeir høfþo þetta melt gratande, þa reidesc Astriges oc sende þusund manna meþ alvępne meþ blótbyscopom, at þeir tøki postolann oc leide þangat bundenn, ef þeir mętti finna hann. En þa er þeir hǫfþo þat gert, þa melte Astriges konongr: „Ertu sá er viltan hefir fratrem meum.“ Postolenn svaraþe: „Eigi vilta ec hann, heldr leida ec hann fra villo.“ Konongrenn melte: „Ertu sá er brytr goþ ór?“ Postolenn svaraþi: „Ec gaf velde diøflom þeim er i scurþgoþom voro, at þeir bryti sialver scurþgoþ sin, oc mennener hyrfi fra villo þeira oc tryþe goþe þeim es a himnom er.“ Konongrenn svaraþe: „Sva sem þu gerþer viþ fratrem meum, at hann firerlęit scurþgoþ sin oc truþe þinom goþe, sva mon ec oc gera, at þu firerlater goþ þinn oc bloter minn goþ.“

1 *Først skrevet* hvarni; *Skriveren har derpaa rettet det i een* rn *Figur sammenslyngede* rn *til* f, *siden skrevet Forkortningstegnet for* ra *over* v (*dog uden at udslette denne Bogstav*); *det er tydeligt, at han har villet skrive* hrafni.

Postolenn svaraþi: „Ec synda goþ þann bundenn, es frater tuus blotaþe, oc gerþa ec sva, at hann braut ipse licnesci sitt. En ef þu mát þat gera at minom goþe, þa mun ec luta þinom goþe. En ef þu mát eki gera at minom goþe, en ec mega briota øll goþ þín, þa er oc rét at þu truer minom goþe.“ En er postolenn hafþi þetta melt, þa como menn oc sǫgþo, at Baldáþ var fallenn ofan, goþ sa es Astriges truþi á, oc brotenn i smat. Þa reidesc konongrenn oc reif af sér clęþi oc lét postolann beria, oc siþan flogo þeir scinn af honom kycom oc hioggio(!) hann siþan. Þa como menn ór .xii. borgom meþ Polimio kononge oc toco líc postolans meþ goþs lofe oc allre dyrþ oc grofo þar licam hans. En er .xxx. daga liþo þaþan, þa varþ Astriges konongr gripen af diofle, þa er hann com til leiþes postolans, oc aller blotbyscopar urþo oþer af dioflom oc iótto heilagleic postolans oc fello niþr dauþer at leiþe hans. Þa var otte micill oc hræzla ifer ǫllom monnom, oc toco aller tru oc scirn af prestom þeim es Bartholomeus postole hafþi vigþa. En at vitron goþs oc at allra manna raþe lęrþra oc olerþra var Polimius tekenn til byscops, oc tóc hann at gera iarteiner i goþs nafni. .xx. vetr var hann byscop oc var algerr i ǫllom goþom hlutom oc eflde cristendom oc alla goþa siþo. En siþan fór hann til goþs þess er liver oc riker of allar allder allda. Amen.

---

## II.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

*allir scylldu bera reip oc festar a scurðgoðit, oc mattu þeir hvergi rœra. Þa mællti postolinn, at þeir scylldu leysa bond af scurðgoþino, oc þeir gerþu sva. Hann mællti við dioful þann, er bygþi i scurðguðino: „Ef þu vill eigi, at ec senda þic i hit nesta helvitis diup, þa gack þu ut ór þessu licneski oc briot þat allt i sundr oc far siþan i þa eyðistaði, er eigi se manna vistir ne fugla flaug oc eigi megi manz rodd heyra. Eptir þat geck hann ut, sem postolinn bauð, oc braut niþr oll scurðguþ, þau er i hovino varo, oc allt þat scraut oc scrivan, er firir þeirra sakir var gert. Þa colluþu allir einni roddu: „Einn er almattigr guð, sa er Bartholomeus

* *Jvfr. ovenfor S. 749[29].*

boþar." Bartholomeus hof þa up hendr sinar til guþs oc mællti: „Guð Abrahams, guð Ysaacs, guþ Jacobs, er sendir til varrar lausnar eingetinn son þinn drottin varn Jesum Crist, at hann leysti oss alla sinu banabloþi, er aðr varom þrelar synþarennar, oc gerþir oss þer at sonum, þu ert sannr guþ oc avallt enn sami, staðfastr oc uskiptiligr, einn guð ugetinn, einn sonr eingetinn drottinn Jesus Cristr, einn andi heilagr, lysari oc leittugi(!) anda varra, sa enn sami drottinn varr, er i sinu nafni gaf oss velldi til þess at geva siukum monnum heilsu oc sion blindum, hreinsa licþra, hressa kararmenn, reca diofla fra oþum monnum, en reisa dauða menn til lifs, oc mællti við oss, at ver myndim allt þiggia, þat er ver bæþim i hans nafni. I hans nafni bið ec nu, at allr fiolþi þeirra manna, er her ero siukir, taki heilsu sinna sotta, at allir megi þat vita, at þu ert einn guð a himni oc a iorþu oc a sio, oc endrbyr alla heilsu firir sialvan drottin varn Jesum Crist, firir þann er þer vegr oc dyrþ meþ helgum anda um udauðlegar veralldir." Þeir sogþu amen, er við varo. Þa vitraþisc engill guðs biartr sem sol meþ vengiom oc flaug i fiogur horn hofsins oc gerþi crossmarc meþ fingri sinum a ollum hornsteinum oc mællti: „Þetta mællti drottinn guþ, er mic sendi, at sva sem drottinn hefir grœdda yþr af allum siucleicum, sva man hann reinsa hof þetta af allum sauri. Oc þann enn sama, er i þessu scurðgoþi hevir bygt oc postolinn bauð i eyðistaþi at flyia fra manna vistum, scal ec nu yðr syna at boði drottins, at þer megit þa vita, hvern þer havið dyrcat. En eigi er vist, at þer megit standasc, nema þer gerit slict marc hverr i enni ser, sem ec gerþa a hornsteinum hofsins, oc munu allir illir lutir fra þeim hverva, er þat gera." Eptir þat geck ut or scurþgoþinu ogorlegr blamaþr biki svartari, harðlundlegr oc hvassnefiaðr, siðskeggiaðr oc svart skeggit oc illilict, harit svart oc sitt, sva at toc a tær honum, augun sem elldr væri i at sia, oc flugu gneistar or sem af vellanda iarni. Or munninum oc nausunum for ut sva sem brennusteins logi, oc honum varo vengir oc fiaðrar sva sem clungr oc þyrnar, hendr hans varo bundnar a bak aptr meþ iarnlegum bondum. Engillinn mællti þa: „Þvi at þu lyddir boþum postolans oc eyddir scurþgoþum i þessu husi, þa mun ec þic leysa, oc far þu þangat, er engar se manna vistir, oc verþu þar allt til domadags." Eptir þat leysti engillinn hann, oc flaug hann ut ylandi oc varþ alldrigi senn siþan. En engillinn flaug up til himins, sva at allir sa, þeir er við varo staddir. Conungrinn toc skirn, oc cona hans oc synir þeirra oc oll hirþ þeirra oc allir

þeir menn, er i hans riki varo. Eptir þat lagþi konungrinn niþr coronu sina oc purpuraclæþi oc fylgþi postolanum. Blotbiscupar sofnuþusc saman oc foru a fund broþur konungsins, er Astriges het, oc mællto við hann: „Broþir þinn gerðisc lærisveinn fiolkunnigs manz, þess er ser eignar hof var, en brytr niþr guþ var.“ Oc er þeir baro fram sin œrendi gratandi, þa como aðrir af aðrum borgum oc sogþu slica sogu gratandi. Astriges varþ þa reiðr mioc oc sendi þusund riddara meþ vapnum, at þeir scylldu leiða þangat postolann bundinn. Oc þeir gerþu sva. Konungr mællti viþ hann: „Ert þu sa maðr, er snerir afleiþis broþur minn?“ Postolinn mællti: „Eigi afleiþis, helldr aleiðis.“ Konungrinn mællti: „Ertu sa er briota lezt guþ var?“ Guþs postoli svaraþi: „Ec gaf velldi dioflum þeim cr i scurðguþum bygþu, at þeir scylldu þau meiþa oc briota, at þeir, er aþr truþu a þau, firirleti sina villu oc tryþi a sannan guþ almatkan, þann er a himnum er.“ Konungrinn mællti: „Sva sem þu lezt broþur minn firirlata guþ sinn oc trua þinum guþi, sva scal ec oc gera, at þu scallt lata guþ þinn oc trua minum guþi oc honum fornir fœra.“ Postolinn mællti: „Ec synda broþur þinum guþ sinn bundinn oc fiotraþan, er diofull var reyndar, oc bauð ec, at hann scylldi sialfr briota scurþguþ þat er hann hafþi i bygt. Nu ef þu matt gera slict við guþ minn, þa mon ec blota þinn guþ. En ef þu matt ecki gera at guþi minum, en ec matta læmia þinn guþ, þa er þat maclict, at þu truir minum guþi.“ Oc er þeir attu slict at rœþa, þa var honum sagt, at Baldaþ guþ hans var fallit af stalli sinum oc brotit allt i sundr. Konungrinn varþ þa sva reiþr við þessa frett, at hann reif af ser purpuraclæþin, oc bauþ hann at postolann scylldi beria stongum. Oc er sva var gert, þa villdi hann lata fla hann kvickan. Oc er þat var gert, þa matti þat udœmaverc eigi til lycta fœra firir sakir bloþrasar, þa var hann þar hoggvinn siþan. Eptir þat com Polimius konungr þar, oc meþ honum utal manna af þeim xii. borgum, er undir honum hofþu verit, oc baro i brot helgan licam postolans. En a hinum þrettuganda degi eptir andlat Bartholomeus postola varþ Astriges konungr diofuloðr, oc allir urþu oþir blotbiscuparnir, oc comu þeir allir saman til leiðis postolans oc fellu þar niþr dauþir allir. Eptir þat varþ sva mikill otti yfir allum [utru]monnum, at allir toco tru oc skirn heiðnir menn af prestum þeim, er Bartholomeus postoli hafþi vigþa. En af guþs tilskipan oc allra manna villd varþ Polimius konungr til biscups tekinn, oc at oscum manna geck hann undir þenna vanda,

oc var hann biscup fiora vetr oc .xx. oc sneri morgum monnum til rettrar truar oc var enn mesti mætismaðr i sinum biscupdomi oc atti þa unaðsvist at sœkia, er hann var kallaþr af þessa heims lifi. Hann var biscup yfir þeim luta Indialandz ens yzta er Attrabana heitir, oc varðveitti hann helgan dom Bartholomeus postola vel oc virþiliga, meþan hann lifði.

En bratt eptir frafall Polimij konungs oc biscups, var þar yvirgangr mikill vandra manna oc utrufullra, logþu þeir a uþecþ micla a fegiavar oc virþing, þa er menn gerþu til ens sæla Bartholomeus postola, en virðo enskis iartegnir þær, er hann gerþi i sifello i heilsugiofum við siuka menn. Oc er þeir comu litlu a leið at slæva hugi manna til atrunaðar oc astar viþ postolann, þa tocu þeir þa œþi oc uraþ firir sic at leggia, at þeir gerþu aurk af tre oc letu þar coma i helgan dom postolans oc scutu siþan a sæ ut allu saman oc aðrum fiorum helgum domum pindra manna. Helga doma þessa rac um haf innan, oc for iafnan fyrir aurk Bartholomeus, þar til er hon com viþ utey þa er Liparis heitir scamt fra Sikiley; þar var vitrat biscupi helgum er Agathon het, er þar hafþi atsetu, com hann þa siþan at vitia þessa stormerkia. Let hann þa aðra helga doma, þa er comnir varo, flytia til annarra hafuðstaða, en hann let fiolþa manna ganga i moti helgum domi postolans meþ kertum oc reykelsi oc fogrum lofsongum, oc villdu flytia helgan dom postolans til kirkiu oc mattu hvergi coma, oc sneriz þa fagnaðr þeira fyrst i rygþ, oc vissu menn þa eigi, hvat til raþs scylldi taca. En guþ er nær allum þeim, er a hann calla, oc gaf hann gott rað til, sem hann gerir avallt, ef til hans er leitat meþ ast oc goþvilia. Tocu þeir tvær ungar kvigur, reinar oc fagrar, oc beittu firir aurkina, er i var heilagr domr Bartholomeus postola, oc rann hon þa laus eptir þeim til kirkiu, oc var þa umbuit meþ allri dyrþ oc sœmð, sem menn hafþu framarst fong a. Oc urþu þa margar oc storar iartegnir: iarþelldr stoþvaþi gang sinn, er menn hofþu aðr mein af, oc tocu menn þar heilso, þeir er siukir varo, hvat sem þeim var at meini. Heilagr domr Bartholomeus var þar dyrcaðr langa riþ, til þess er guþ villdi hans helgan dom þangat flytia lata, er enn er meiri hafuðburþr at, en þar er aðr var hann. Þa er liþit var fra burþ Cristz at aratolu .viii. hundroþ vetra oc atta vetr ens fiorþa tigar, þa comu þar Serkir oc herioþu i eyna Liparis oc ræntu þar hvivetna oc costuðo serhveriu beini postolans. En er þeir varo a brot farnir, þa vitraþisc Bartholomeus postoli munki girzkum, er þar var kirkiu-

vorþr, oc mællti við hann: „Ris up þu oc safna saman beinum minum, er nu ero viþa dreifþ.“ Munkrinn svaraði: „Hvi muna ec saman safna beinum þinum eþa gera þer sœmð, er þu villdir oss ecki fulting veita oc eigi lyþs þessa geta, at eigi væri her hvivetna rænt oc ruplat.“ Postolinn svaraði: „Morg ar hevir þat verit, er guþ hefir firir minar bœnir vægt þessu folki framarr en at verþleic, en nu hevir þann voxt tekit þeirra illzka oc udaþir, at nu er eigi firir þeim biðianda, oc vil ec nu segia mer afhendan þenna lyð. En þu ger sem ec byþ, oc kann vera, at þer viti vel.“ Muncrinn mællti: „Hversu ma ec finna bein þin, er ec veit eigi, hvar von er.“ Postolinn mællti: „Far þu i nott, þa er myrct er, oc tac þat allt, er þu ser skina sva biart sem elld, þat ero bein min.“ Muncrinn gerþi sem postolinn bauð, reis up um nottina, oc fann beinin sva meþ hætti, sem hann hafþi fyrir sagt, oc varþ hann feginn oc varþveitti vandliga i einu dyrligu keri. Oc siþan for hann a brot meþ helgan dom postolans, oc einn maðr meþ honum, oc hittu þeir a skip þat, er Langbarþar varo a, oc reþusc þeir til foruneytis meþ þeim. Oc er þeir varo a leið comnir meþ helgan dom postolans, þa logþu at þeim vikingar af hinni somu þioð, sem aþr hofþu rænt i Lipari. Su þioð heitir Sarraceni, en ver kollum Serki. Oc er þeir komu sva miok i nand, at þeim þotti ser naliga engi van undankvamu, er meþ helgum dominum foru, þa hetu þeir a postolann. Oc eptir þat gørþi myrcr sva mikit, at vikingarnir sa þa hvergi. Foro þeir þa siþan frialsliga, hvert er þeir villdu, firir arnaþarorð Bartholomeus postola. Þeir urþu þa vel reiðfara oc komu i ageta borg þa er Benevent heitir. Oc þegar er borgarmenn urþu varir viþ, at þar var cominn heilagr domr ens helga Bartholomeus postola, þa gengu þeir i moti meþ frægþ oc fagnaði oc allri þeirri dyrþ, sem þeir hofþu framarst fong a, oc bioggu vandliga um helgan dom postolans hia altara hofuðkirkio þeirrar, er œzt var i borginni, oc er hinn sæli Bartholomeus þar dyrcaðr i sifellu, oc verþa þar allzscyns iarteignir at hans helgum domi allt til þessa dags. Nu er yfirfarin þessi saga, eptir þvi sem ver hofom framarst a bocum (fundit), oc mun hans dyrþ æ þvi meiri þyckia, sem gerr er vituþ, (oc) hans heilagleikr. Oc þurfom ver hann einkanliga at at hyllasc oc sœkia at arnaþarorþi, at hann arni oss viþ almatkan guþ hialpar oc miskunnar bæþi þessa heims oc annars.

---

# MATHIAS SAGA POSTOLA.

## I.

1. Mathias postoli guðs, er ver hölldum i dag hatið, kom snemma til fylgðar ok foruneytis með drotni varum, ok reðz þegar i þeira manna sveit, er litillatligast þionuðu guði ok hans postolum. Hann var einn af lærisveinum Kristz drottins, er taldir voru tveir hins atta tigar. En Mathias kallaz a ebreska tungu, en a latinu donatus, ok þyðir þat a vara tungu gøddr eða gefinn, ok kom þat hvervetna fram, at hann var gøddr hinu haleitasta tignarnafni, ok tok þar með gipt heilags anda ok þat hit agæta umboð almattigs guðs at boða hans erendi um allan heim sem aðrir postolar, hann var ok oss gefinn til hofðingia ok forstiora i stað Judas Skarioths, er drottin varn selldi við verði. En Lucas guðspiallamaðr segir fra þeim atburð, er Mathias kom til postolatignar ok samlags með öðrum postolum guðs i bok þeiri, er heitir Actus Apostolorum, en þat þyðir, sem bokin heiti verk eða syslur postolanna, ok hefr hann upp at segia fra þeim atburðum með þeim hætti: Eptir þat, segir hann, at drottinn hafði uppstigit til himna, voru guðs postolar i Jorsalaborg ok hans lærisveinar, ok var þat allz tolfrøtt hundrað þeira manna, er þar voru i sifellu i guðs þionostu nætr ok daga.

En allt þat er stort var at raða, meðan postolarnir voru allir saman, þa var Petrus postoli forstiori at þeim hlutum öllum, af því at guð hafði hann settan þeira hofðingia ok fengit honum i hendr himinrikis lykla, ok atti sa upphafsmaðr at vera at þessum kosningi, er øztr var at mannvirðingu. Petrus reis þa upp a milli þeira manna, er þar voru við staddir, ok mællti: „Brøðr, sagði hann, þat mun høfa at fylla ritning, þa er fyrir sagði heilagr andi fyrir munn Davids, þat sama sem nu er framkomit um Judam, er gerðiz leiðtogi þeira manna, er höndluðu Jesum, en var aðr með oss; kom þat ok til þeira lykta, sem þer vitit, sagði postolinn, at þa er Judas fannz at sinum gløp, ok hann sa drottin til kvala leiddan, þa bar hann aptr þat fe, er hann hafði tekit til dauða ok höfuðs drottni, ok eptir þat ørvilnaðiz hann ok hengði sik sialfr siðan, ok rifnaði kviðrinn ok hliopu or honum ut iðrin oll ok innyflin. En feit er Judas kastaði aptr i hendr Gyðingum, þat loguðu þeir til þess at kaupa með teig

þann, er lagðiz til graptar utlendra manna ok er kallaðr bloðsteigr allt til þessa dags. Hafði ok sva David fyrir sagt i psalltara, at einn mundi eyðaz með ôllu i sinni eign, ok mundi annarr taka hans byskupsdom. En mer lizt, segir postolinn, sem þat eitt muni høfa at velia þann mann til postola i staðinn Judas, er með oss hefir verit allar stundir, siðan er Johannis skirn tokz upp, ok vattr se drottins upprisu með oss ok uppstigningar til himna, ok sa megi ok ôll sônn vitni fram bera hervistar hans i þessum heimi, ok þenna hinn sama Jesum reisti guð af dauða a þriðia degi, ok syndi hann sik þa eigi ollum lyð, helldr oss, þa er ver atum ok drukkum með honum, siðan er hann reis upp af dauða, at ver skylldum efalausa vita mega hans upprisu."

En þar til hafði kennimannskapr at hlutfôllum farit, ok syndiz þeim postolunum, sem skylldugt væri at fylla þat boðorð guðs et forna, ok voru siðan tveir menn til hlutfalla kosnir af postolunum, annarr Joseph enn rettlati, er ôðru nafni var kallaðr Barsabas, en annarr var i þessum kosningi Mathias. Siðan baðuz þeir fyrir postolarnir ok mælltu sva: „Þu drottinn, er kunnigt er hvers mannz hiarta, syndu oss nu, hvarn þu villt velia af þessum tveimr mônnum til samlags varrar þionunar ok postoladoms i stað Judas, er oss varð fraskila ok nu er kominn i sitt rum." Siðan lôgðu þeir fram hlutina, ok fell hlutr yfir Mathiam, ok fylldi hann siðan postolatolu ok allt þeira embætti. En þessi kosningr er allr iartegnafullr, ok byr þar mart i, er mônnum er til nytsemi siðan, er gæta kunnu. Er þat fyrst i þvi mali, at postolatalan matti (eigi) sva standa, at væri ellifo, af þvi at tiu eru laga boðorð, ok er su tala avallt heilôg siðan, en ellefu tala iartegnir afbrigð guðs boðorða, en bæði hefir synz i hinu forna logmali ok enu nyia, at su tala mundi æ siðan naliga øzt vera um allar alldir.

2. Þat fe er drottinn var selldr með, for til andvirðis þeirar iarðar, er dauða menn skylldi grafa, ok var þat makligt, at þvi at hann hafði sellt lifit en tekit dauðann við, fyrirlatit lifandi manna iôrð ok tekit við eilifan dauða; ok þvi keypti hann eigi sialfr þessa iorð at ser lifanda, en aðrir keyptu með þessu verðinu, at þeir attu forrað þessarrar iarðar, er lifandi voru, en Judas eignaðiz hina dauðligu, eptir þvi sem segir sialfr drottinn i guðspiallinu hins rika mannz ok hins uarmvitka, at þa er hann do, var hann grafinn i helviti. En er Judas tok þann dauða, at hann hengdi sik, ok virgill, sa er at barka honum rann, gerði ørent[1]

1 ønd *Cd.*

hans et vesla lif, þa var þat sannligt, at sa barki væri til liflatz þrongdr með snôrunni, er su rodd hafði eptir runnit, er selldi drottin. Var ok þat makligt, at sa døi i loptinu a milli himins ok iarðar, er þann hafði svikit, er bæði er drottinn himins ok iarðar, engla ok manna, eptir þeim hætti sem fyrr do þeir drottinssvikarar Absalon ok Achitophel, er sviku David konung, ok þau iðr, er lengi hofðu þrutnat af þessum oraðum, hliopu ut i liflati þessa ens illa mannz Judas, eptir þvi sem Arrio for i sinum dauða. Var þat sem vert var, at við þa kømi glik hefnd fram, er annarr villdi fara manndominum, en annarr villdi eyða guðdominum, ok at þeir mætti tomir synaz at iðrunum ok ôllum innyflunum, er tomir voru at vitinu ok at allri gøzkunni. En þess er við getit i frasôgninni, at teigr sa er þeir keyptu til graptar utlendra manna, ok siðan kallaz bloðsteigr allt til þessa dags, þat synir postolinn i frasôgu umrøðunnar (i) piningarsôgunni sialfri, ok segir, þoat þeir hafi ebresku mællt hvarirtveggiu, þeir er i Jorsalaborg bygðu ok þeir er i Galilea voru, at sva var malit olikt, at hvara matti kenna fra ôðrum mennina at malinu einu saman. En þvi tok Petr i psalltara til døma um kosning Mathie, at þa ma virðaz, at guð hafi lengi fyrir set glôtun Jude ok utvalning Mathie. Ma ok nôkkut af þvi marka af þessum atkvæðum ens helga Davids, at eptir þat er hann segir, at annarr skylldi hans byskupsdom taka, ok er þat sa Mathias, en hann lagði a Judam eptir iafnmôrg bolvanarorð at tolu, sem peningar þeir voru, er Judas hafði i verð tekit, þa er hann selldi drottin, er þat auðsynt, hve miok þat hefir a hrinit su bolvan ok sa hinn harði formali, er i þeim psalmi stendr, ok sætti þat þvi, at hann var þess verðr; en hann hlynti sva fyrir spamaðrinn, at skylldi a þeim einum hrina, er sakir gerði til, ok skulum ver þvi nu fastliga trua siðan, at þessi bôlvan, er stendr i þessum psalmi, er Deus laudem meam er upphafit, eða aðrir sva harðir psalmar eða formalar, er i ritningum helgum standa, muni a þeim hrina, er sakir gera til, en hia þeim liða stormælin, er saklausir verða fyrir. En þess er við getit, at kennimannskaprinn skylldi at hlutfôllum fara i Moyses lôgum, ok villdu postolarnir þau fylla i þessum kosningi, ok ætluðu þetta endimark vera skylldu at eiga undir hlutum þat, er sva stort við lægi. En þat fylgði þessu mali, at þeir letu þat fylgia, er nu skal alldri niðr falla, helldr skal þat upphaf vera allz vanda, sem þeir gerðu postolarnir, at biðia guð miskunnar ok forsia um þat allt, er miklu varðar. Var sa hinn

siðasti hlutr allra kosninga, er Mathias hlaut postolatôlu. En þa tokz upp hinn nyi hattr kennimanna kosnings, er Stephanus var valdr til diakns ok sex aðrir at raði allra postola. En Petrus lagði a þa vixlur, ok var sva hans valld mikit, at þat nam oðlaz hverr af guði, sem hann kvað a, þa er hann lagði þeim hendr yfir hôfuð. Sa var byskup, er hann mællti sva fyrir, sa prestr, er hann kvað þat at, sa diakn, er hann villdi sva, ok með þeiri vigslu hverr, sem hann kvað a með heilags anda gipt.

3. En þat er ihuganda, goðir menn, hvat mest er i virt, er Mathias hlaut helldr postolatign en Joseph hinn rettlati. Engi hlutr var honum at finna, at eigi væri hann storvel fallinn tign at taka, helldr voru tveir hlutir til fundnir: sa annarr, at Joseph hafði meira manna lof, en Mathias var einkaðr til þess, at hann var allra manna litillatastr. Nu þa ma sia, goðir menn, hvat miok hinn vándi mun sekiaz af orðlofinu, ef þat stoð fyrir tign Josephs, ok var hann lofs fra ôllum verðr. En sva sem Mathias var pryddr morgum ôðrum mannkostum, þa er þo þat fra sagt, at litillætit hafi mest upphafit hann til ennar mestu tignar, ok sannaz þat þa, sem sialfr drottinn segir i guðspialli, at sa muni lægiaz, er sik hefr upp i metnað, en sa mun upphefiaz, er sik litillætir.

4. Eptir þat er Mathias tok postolatign, ok þeir hôfðu hann tekit i sitt samlag, þa kom hinn helgi andi yfir þa alla postolana, ok toku þeir allir iafna gipt ok iafnan styrk ok iafna gøzku ok atgervi af hans tilkomu a hvitasunnudegi; kendu þeir þa ok allir kenningar eptir þat, ok þoldu þeir þa allir mikit harðretti af Gyðingum, þeir voru barðir ok i myrkvastofu settir, ok gerðu þeir þa allzkyns iartegnir. En sva voru þeir grimmir Gyðingar, at fra þeim verðr skemst frasagan postolum ôllum, er þeir naðu hellzt hendr a at leggia Jacobus Johannis broðir tok fyrr liflat a Gyðingalandi, en postolarnir aðrir føri þaðan i brott; en annarr Jacobus, er þat tok a sik at bøn annarra postola forrað Jorsalakristni sialfrar, ok veittu þeir honum liflat Gyðingar. Mathias kendi þar helgar kenningar a Gyðingalandi, ok þar tok hann pining ok liflat fyrir guðs sakir, ok var hann grafinn af siðlatum mônnum, ok var þar lengi siðan dyrkaðr af guðs vinum.

5. En er þau fagnaðartiðindi voru orðin at Jorsolum, at þar var i lôg tekin almennilig kristni, ok undir valldi Constantini keisara ok Helenu moður hans la naliga oll heimsbygðin, var

þa Helena drottning i Jorsalaborg, ok var hon þa sva mikils orðin styrandi, var þa ok fundinn kross drottins vars ok umbuit. Þa þottiz hon skylld til at minnaz sinna frænda goðra ok gôfugra, er hon atti fyrir norðan fiall, i .sendingum virðiligum, ok þa er liðin voru fra burð Kristz þriu hundruð ok atta ar ens fimta tigar, þa sendi hon drottning Agricium patriarcham af Antiochia með helgum domum dyrðligum norðr um Mundiafioll i Frakkland, nagla or krossi drottins ok helgan dom Mathias postola. En Sylvester pavi let fylgia sina kveðiu þessum helgum domum ok sannindi, at þeir mætti efalausliga við taka þeiri astgiof, er þeim var send. Ok er heilagr domr postolans kom i Treverisborg, þa taka þeir við feginsamliga ok með slikri sømd allir, sem þeir mattu framast. En fyrir sakir ovirðingar ok ofriðar heiðinna manna þorðu þeir eigi at hafa miok a vitorði manna helgan dom Mathias postola, ok settu hann niðr utan borgar hia þeim helgum mônnum, er þar voru aðr dyrkaðir, Eucherio ok Valerio ok Materno, ok var postolinn settr undir haalltari i munklifi þvi, sem þar var reist, ok var hann þar lengi dyrkaðr eptir með soma. Ok er þaðan liðu enn nôkkurar stundir, þa gleymdiz su minning nokkut meirr en sømdi, ok vissu menn þa ogiorla um stundar sakir, hvat titt var um helgan dom postolans. En er guð villdi i annat sinn magnaz lata ok endrnyiaz tign ok soma sins postola oss til hialpar, þa var þat með þeim atburði, at þa er ofan var tekit fyrir fyrnsku sakir þat et gamla musteri, er þar hafði lengi staðit i þvi munklifi utan borgar, þa fannz þar heilagr domr Mathias postola með þeim sama umbuningi, sem hann hafði þar verit niðr settr undir alltarinu, ok þar með innsigli Sylvester pava til merkis, at þat var heilagr domr postolans. Þa var liðit fra burð Kristz, er sa umbuningr var upptekinn, þusund ok hundrað vetra ok atta ok .xx. vetr, ok a dôgum Honorij pava, er annarr var með þvi nafni, ok a dogum Lothari keisara, ok var þa sa erkibyskup yfir Treverisborg, er Manherus het, ok var su upptekning a fyrsta degi Septembris manaðar.

6. Su er iartegn fyrst sôgð eptir þessa upptekning Mathie, at maðr het Lambertus, hann var mylnuvorðr ok hafði bat at roa undir mylnurnar, hann atti son ungan at alldri, er Varnherus het. Sveinninn var kviklatr miok ok oforsiall, sem verðr opt ungmenni, en er Lambert atti opt erendi brott at fara til annarrar syslu, þa var sveinninn eptir a skipinu, ok for ovarliga ok steyptiz fyrir borð af batnum, ok druknaði hann. En er Lambert kom til

batzins ok fann eigi sveininn, þa hugði hann, sem var, at hann mundi tyndr vera, ok varð hann hryggr við sonar dauðann. Reikaði siðan hingat ok þangat upp ok niðr með anni, ok for hann með kalli miklu ok grati. Ok um siðir snyr hann aheitum til Mathiam postola ok mællti sva: „Heyrðu, hinn helgi Mathias, postoli drottins mins Jesu Kristz, ef þeir eru sannir hlutir, er oss eru sagðir fra þinni upptekningu, lattu þer soma at syna mer þina miskunn til guðs lofs, ok giallt mer einka son minn til lifs.“ Þa stoð þar fioldi manna ok beið þess, er at hendi villdi koma. En sa varð nær staddr þeira bøn, er bæði er skapari lifs ok dauða, sialfr drottinn, er sva er um ritit, at drottinn deyðir ok lifgar, leiðir til helvitis ok brott þaðan, er hann vill sva, sa hinn sami let ser soma at syna þeim monnum, er þar stoðu yfir liki sveinsins, er a land var kastat, ok baðu þeir honum lifs með tarum, hvat hann mundi gera vilia fyrir verðleik sins postola. En er þriar tiðir dags voru liðnar, fra þvi sveinninn druknaði ok likit rak a land, ok er þeir voru þrabønir við guðs postola lifs sveininum, þa let guð sina miskunn yfir skina fyrir dyrð sins postola Mathias: lifnaði sveinninn ok var heill ok hraustr, ok var hann siðan ok allt hans lið i guðs þionostu ok hins helga Mathie postola guðs.

7. Maðr het Leothfridus, hann tok fotarmein mikit, ok gerðiz a føtinum hol stort, ok fell or bæði bloð ok vagr, ok lek meinit við fimtan vetr, ok var hann orðinn fatøkr ok naliga ðrvasi at alldri, ok hafði hann lengi haltrat við staf. Kona hans ok vinir hofðu fluttan hann bæði i Meginsoborg ok i Kolne ok hofðu fe gefit til lækningar honum bæði kristnum monnum ok sva Gyðingum, ok mattu þeir honum eigi bot vinna. Þeir keyptu hvat sem þeir fengu af viðsmiori eða ððrum smyrslum, ok var hans mein þess verr, sem þar var optarr a borit. En a hinu sextanda ari meins hans þa lagðiz hann i rekkiu, ok matti ser þa naliga ekki sialfr um vinna, ok var hann þa at þroti kominn með ollu. Þa heyrði hann sagt fra upptekningu hins sæla Matthie postola ok iartegnum þeira, er til heilsu ser hetu, ok þegar er hann hafði heitit, þa þottiz hann fa fro a sinu meini, ok þaðan i fra bøttiz honum dag fra degi, unz hann varð alheill maðr, ok for siðan sialfr til þess staðar, er Mathias postoli hvilir, ok sagði mônnum þessa iartegn.

8. Sveinn einn frumvaxta lek ser uti hia oðrum sveinum samôlldrum sinum, en hann tok sva skiott mein mikit, at hann stirðnaði fyrst i hondunum, en eptir þat dro sinar hans allar

saman, sva at hælarnir lagu við þiohnappana ok eigi siðr iliarnar, en andlitit þrongðiz niðr milli knianna; armleggirnir voru sva blasnir ok þrutnir, at ogurligt var a at sia. Ok er frændr hans urðu varir sva mikilla ohøginda ok vabela, sem at honum voru komnir, þa urðu þeir hryggvir miok, ok toku ser gott rað ok hetu a hinn helga Mathiam postola ok førðu þangat sin heit, ok þa er þeir hofðu fyllt heit sin oll, þa var sveinninn heill meina sinna.

9. Acelin het maðr, en Edilburg het kona hans, ok attu þau son ungan þrevetran at alldri. En Edilburg atti at fara yfir a, er la hia bø þeim, er þau bygðu. En sveinninn rann eptir anni ok drap føti ok rauk ut a ana ok druknaði. En er þau feðgin hans sòknuðu sveinsins, þa leituðu þau hans, ok fundu rekit likit af anni a land, ok gretu þau akafliga, þviat þau hofðu mikit unt sveininum. Ok liðu þaðan eigi langar stundir, þa sneru þau aheiti ollu þar til er var Mathias postoli, at hann miskunnaði þeim ok arnaði lifs syni þeira við almatkan guð. En er þau hòfðu heitit, þa kom litr i andlit sveininum, ok þvi næst hrørðiz hann, en eptir þat lifnaði hann ok hof upp augu sin. Ok foru þau siðan með son sinn lifanda ok sottu heim helgan dom Mathias postola, ok lofuðu guð ok dyrkuðu enn helga Mathiam postola fyrir lif sonar sins, er þeim var veitt fyrir hans arnaðarorð.

10. Heinrikr het maðr einn riddari, er kom i Kolni þeira ørinda at søkia þangat rikra manna traust. En er hann hafði þar verit um stundar sakir, þa varð hann missattr við einn rikan mann er Gucelinus het. Ok er þat var af nòkkut sva, þa truði riddarinn honum vel, af þvi at hann hafði mart gert fyrir hann ok af honum haft. Þa sendi Gucelinus riddaranum orð, at hann skylldi koma i hus hans til nokkurrar raðagerðar, ok er hann kom þar, þa let Gucelin hòndla hann Heinrik riddara ok setia i fiòtur ok siðan i myrkvastofu, ok var þar byrgðr atian døgr, ok þoldi þar bæði hungr, kulda ok þorsta ok marga aðra þronging. Ok þa er hann tok at møðaz i þessum mannraunum, þa het hann a hinn sæla Mathiam postola, at hann legði honum til hialpar nòkkut, sva nauðuliga sem hann var staddr. Eptir þat rann a hann svefnhofgi, ok er hann vaknaði, þa fann hann, at fioturrinn þrongði eigi oðrum føtinum, ok tok hann til hendi sinni, ok var fotrinn lauss ok husit olæst, ok komz riddarinn a braut, ok batt upp fioturinn, ok for siðan a braut, unz hann kom i Treverisborg er postolinn hvilir, ok sagði þar þessa iartegn, ok var þar fiòturr-

inn uppfestr til synis, at hann beri vitni, at iartegn se sonn ok merkilig.

11. Einn kolneskr maðr fekk mein mikit ok oaflatanligt, ok la hann i rekkiu fimm manuði ok gerðiz naliga banvænn. En kona hans sat yfir honum hrygg, ok annat hans hyski. Ok er þeim þotti miok at honum liða, þa hetu þau fyrir honum a Mathiam postola til heilsubotar honum. Ok a enni somu stundu, sem þau hofðu heitit, varð hann alheill ok reis upp þegar or þeiri rekkiu, sem hann hafði siukr i legit, ok gekk þa sialfr siðan berføttr allt fra Kolni til Treverisborgar ok þakkaði guði heilsu sina, er hann hafði fengit, ok Mathie postola.

12. Kona het Gilla, en hon misti mals sins ok var lengi mallaus, ok var allz i leitat af læknum, þess er i hug matti koma, henni til heilsubotar, ok stoðaði ekki. En þa leitaði hon sialf raðs ok let gera tungu af silfri sem glikast sinni tungu, ok førði siðan þessa forn til Mathias postola kirkiu i Treverisborg, ok førði a haalltari, ok tok siðan mal sitt ok for gloð heim.

13. Sigrlod het kona, er sva var krept, at hælarnir lagu við þionappana; ok er hon het a enn helga Mathiam postola, þa tok hon þegar heilsu sina, ok for siþan til sinna heimkynna ok sva heil, sem þa er hon hafði bezt verit.

14. Nu er yfir farit, þo at með skǒmmu mali se, ok eigi sva skyrsamlega sem vera ætti, frasogn su, sem ver hofum a bokum einkannliga seð af Mathia postola. Ok þo at hon se eigi sva skynsamliga samið eða i frøði førð, sem postolinn sialfr hefir efni til sellt fyrir sakar sinnar dyrðar ok heilagleiks, þa velldr þvi meirr ukønska en illvili, þviat vandrøtt er um dyrð heilagra manna, er hon umfram alla vara skilning. En þat eitt er þo vart, goðir menn, at dyrka þa alla, eptir þvi sem ver hofum framast fong a, i lofsongum ok bønahalldi. Ok sva skylldir sem ver erum til, þar er aðrir eru helgir menn, þa erum ver þo miklu skylldari at virða postolana of alla menn aðra fram, þviat þeir ero stoðir ok stolpar undir alla guðs kristni ok fastlegarr settir en allir aðrir. Eru þeir ok mest styrandi ok raðandi með guði ok hans moður Mariu; er ok sva mikit samvelldi postolanna, at ver eigum þa alla at dyrka a hvers þeira hatið, þvi at þeir hofþu allir eitt hiarta ok eina ond. Morg er sia haleit virðing, er guð hefir sinum postolum veitt umfram þat sem ollum oðrum monnum, hann gaf þeim valld at leysa ok binda, ok þeir skulu með honum døma

a efsta dag um alla menn, ok þurfum ver þvi þeira ifalausa vinattu hia guði feðr, þeim enum sama guði feðr með syni ok helgum anda se vegr ok dyrð um alldir allda. Amen.

---

## II.

### *Electio Mathie.*

1. Sidan er drôttinn vôrr Jesus Cristr ste upp til himna at æsiôndum postolum sinum i fialli þvi er kallazt Mons Oliveti, þa hurfu postolarnir aptr i Hierusalem. Voru þar æ bænum allir saman med Marie modr Krizc(!) ok lærisveinum hans, enn þat var hundrat manna tolfrætt. Aa þeim dôgum stod Petr postole upp ok mælte vid brædr sina: „Þat byriar oss at fylla, brædr, er heilagr ande mælte fyrir munn David um Judam, er leidtogi var þeira sem toku Jesum. Enn hann var talidr med oss i postolalagi, til þess er hann tok verd ilzku sinnar ok hengdi sik ok sprack i sundr i midiu [1]. Enn sva er ritad i salmabok: Verdi aud bygd hans, ok taki annarr byskupsdom hans. Enn af þessum monnum, sem med oss eru, byriar at taka nockurn i stad hans upprisuvôtt Kristzt(!), þann er sed hafi takn hans, þau er hann gerdi, þa er hann var med oss, þar til er hann steig upp til himins.“ Þa settu þeir tva til hlutfalz, annan Joseph, er kalladr var enn rettlati, ok Mathiam, ok kolludu þeir æ gud ok mæltu: „Þu drottinn, er veiz allra hiortu, syndu, hvarr þessa tveggia þu vill at taki postoladom, þann er Judas villtizt fra ok for til sins stadar.“ Þa gerdu þeir hluti, ok kom upp hlutr Mathie, ok var hann sidan talidr med .xij. postolum enn .xij.“ Enn er postolar hôfdu tekit helgan anda, þa fôr Mathias um Gydingaland ok bodadi nafn Jesus Kristz ok gerdi margar iarteinir ok sneri morgum lyd fra villu, medan hann lifde.

2. A enum atta vetri ens .vi.ta tigar ens fiorda .c.[2] eptir hingatkômu [3] drôttins vars, þa er Helena drottning modir Constantini konungs hafdi tekit tru, mintizt hun frenda sinna ok

1 *Her begynder Fr.* 2 hundraðs *Fr.* 3 hingatkvamo *Fr.*

fostriardar. Enn hun var ættuð ur borg þeire, er Treveris heiter æ Fraklandi, ok sendi þangat af Indialandi helgan dom Mathie postola at radi Silvestri pafa. Enn er ofridr heidinna manna efldist æ Fraklandi, þa falu krisnir menn helga doma sina ok grofu langt i iord utan borgar undir allteri[1] þvi i kirkiu, er giðr var til dyrdar Mathie postola, ok var heilagr domr hans leyndr fyrir monnum marga vetr, þar til (er) gud vildi vitra fagnat fundningar hans. Enn þa fanzt heilagr domr hans folginn verit undir altari, ok gerdiz þa þegar iarteinir af postola guds. Enn þa var lidit .m. vetra ok .c. ok .vij. vetr ens þridia tigar fra burd Kristz, er Mathias fanz æ þeim degi, er upp hôfzt manudr sa, er September heitir.

3. Lanbertus het madr, er for um dag til syslu sinnar, ok let son sinn æ skipi, med(an) hann vann verk sitt. Enn hann vann, ok svein(n)inn kunni æigi at varazt vid haska, ok fell hann utan bôrdz ok druknadi, ok rak lik hans langt ofan eptir æ. Enn Lanbertus fann eigi sveinin. Þa kunne hann illa bædi glæp sinum ok orægtt enda dauda sveinsins, ok fôr hann med æanne klaukvandi ok leitade liksins ok fann æigi. Þa kom honum i hug funding Mathie postola, ok het hann æ Mathiam postola af aullu hiarta ok mælti: „Heilagr Mathias postole Kristz, ef þat er satt, sem oss er sagt fra funningu þinni, syndu mer þat vesôlum nu i dag fyrir miskunn þina til lofs gudi, ok gialltu mer son minn.“ Enn allir, þeir er spurdu harm hans, badu med tærum honum hugganar. Gud heyrdi bæn þeira ok syndi þeim krapt postolans. Sveinninn fanz rekinn daudr æ straundu, enn hafdi þriar stundir dags i vatni legit. Enn er gratande lydr bad fyrir honum, þa lifnadi hann af verdleikum heilags Mathie postola, ok var honum skirn gefin, ok þionadi gudi siþan at kirkiu postolans, meðan hann lifði.

4. [2]Leofredus het einn bôndi audigr, er .xv. vetr hafdi fotarmein, ok vægdi kalfa hans allan milli knes ok aukla. Enn at radi kônu sinnar ok vina var hann færdr læknum til Meginzuborgar bædi krisnum ok [heidnum ok[3] Gydingum. Enn honum vesnade vid allt, þat sem þeir gerdu at fæti hans, ok tok hann[4] þa at leiðazt likamliga[5] lækning ok treysti gudi þeim, er ma bæria [ok meida[3] ok greda. Aa enum .xvi.$^{da}$ vetri lagdiz thann i kaur mæddr bædi af sott ok elli, ok matti hann hvergi ur reckiu risa ne komazt æ þeim misserum, nema adrir bæri hann. Þa spurdi

1 *Ender Fr. 1ste Spalte.* 2 *Begynder Fr. 2den Spalte.* 3 [*mgl. Fr.* 4 *tilf. Fr.* 5 *saal. Fr.*; likamlig *A.*

hann funning[1] Mathie postola, ok styrktizt hann þegar i tru, ok het at gaufga helgan dom postolans med fornum, ef hann gefi honum heilsu til þess at komazt þangat. En þegar er hann hafdi þetta mællt, þa styrktizt hann, ok batnadi honum dag fra degi. Ok gerdi hann gudi þackir ok Mathie postola, ok for til kirkiu hans, þegar hann matti ganga, ok færdi þangat margar fornir gudi ok sagdi mörgum feginsögu fra endrbot heilsu sinnar.

5. Sveinn nockurr feck brada sott um dag, er hann var at leik med audru ungmenni, ok krepti hann allan saman, sva at hann matti æigi hefia höfuð af[2] kniam ne hæla fra þiom, ok hönd hans adra blæs upp allt fra auxl ofan. Allir undruduzt, er hann matti nockra stund lifa vit þetta mein. Fadir hans ok modir kunnu illa sott hans, þviat þau unnu honum mikit. Enn eptir .ij. manadi fregnudu þau iarteinir heilags Mathie postola, ok hetu þau þegar at færa sveininn med mörgum fornum til kirkiu hans. Enn er þau haufdu þetta mællt, þa sa gud milldi þeira, ok reis svein(n)inn upp þegar alheill, enn þau efndu heit sitt vid postolann.

6. Acelmus hét einn böndi, enn Adelburga het köna hans, þau biuggu nær bru einni. Kona þessi atti skyllda faur yfir aana ok let heima eptir son sinn þrevetran. Ok er hon for yfir bruna, þa rann sveinnin eptir modr sinni, þar til er hann kom aa midia bruna, þa drap hann fæti ok fell ut i ána ok druknadi þegar. Enn mödir hans kom heim ok fann æigi son sinn, þa för hun þegar at leita hans ok fann hann daudan aa straundu, ok gret hon sarliga dauda hans. Enn er hun gaadi raads, þa het hun aa Mathiam postola ok bad med taarum ser hugganar ok lifs syni sinum. Postolinn saa harm hennar, ok hof sveinninn upp augu sin ok leit i gegn modr sinni, ok reis sidan heill upp. Enn fadir hans ok modir sveinsins foru sidan til kirkiu Mathie postola ok gerdu þackir gudi ok sogdu siðan munkum ok kennimonnum fagnat sinn.

7. Heinrikr het einn riddari, er kom til Kolnisborgar ok sotti hald eins rikismanz, þess er Guncelinus het[3]. Enn nockur þræta gerdizt um dag meðal þeira, ok urdu þeir missattir, enn þo ætladi Heinrikr[4], at Guncelinus mundi þat einskis virda vit hann, þviat leingi hafdi vinatta þeira verit göd. Þa baud Guncelinus honum heim um dag, ok let sem hann ætti nockut skyllt

1 fundning *Fr.* 2 *Ender Fr. 2den Spalte.* 3 *Her begynder Fr. 3die Spalte.* 4 Heinrekr *Fr.*

eyrende vit hann. Enn er Heinrikr venti ser einkis[1] ótta, þa let Guncelinus setia hann i fiôtur ok lucti hann i myrkvastofu. Enn er hann hafdi þar verit .ix. daga matlaus, sva at eingi madr vitiadi hans, þa het hann af aullu hiarta æ enn helga Mathiam postola ok bad hann leysa sik ur baundum. Þa sofnaði hann ok dreymdi þat, at hann væri laus. Enn er hann vacknadi, þa voru sva rumir fiotrarner a fotum hans, at[2] hann matti audve(l)liga þeim af ser koma, ok þa vard hann fegin ok gerdi gudi þackir ok komz bratt ur myrkvastofunni med guds krapti ok flutningi heilags Mathie postola, ok bar med ser fiotrana til kirkiu postolans, ok læt þar eptir liggia til syniz.

8. Eustakius het einn[3] Kolnisborgar madr, hann hafdi .v. manade siukr verit. Enn er hann het æ Mathiam postola, þa tok hann þegar heilsu sina ok vard feginn, ok sva kona ok aull hiu hans, ok gekk hann berfettr samdægris til kirkiu postolans, ok gerdi þar gudi þackir[4] fyrir heilsu sinni.

9. Kona nockur het Gilla, su er leingi hafdi mallaus verit. Enn hun let gera ur silfri tungu ok bar þat(!) til alltaris Mathie postola uppstigningardag drottins vars, ok tok hun þar þegar mal sitt.

10. Mær nockr hafdi marga vetr siuk verit, ok voru kreptir fetr hennar. Enn er hun vackti at kirkiu Mathie postola, þa gekk hun alheil þadan. Margar eru adrar iarteinir, þær sem gerduz hvern dag fyrir verdleika ok bænir heilags Matthie postola til lofs ok dyrdar drotni vôrum Jesu Kristo, þeim er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir gud um allar alldir allda. Amen.

1 enskis *Fr.* 2 *saal. Fr.;* aat *A.* 3 *saal. Fr.;* ein *A.* 4 *Her ender Fr.*

## TVEGGIA POSTOLA SAGA SIMONIS OK JUDE.

---

### I.

*Her byriaz saga Simonis ok Jude*[1].

1. Þa er helgir postolar drottins vars Jesu Kristz Simon ok Judas komu a Persaland[2], þa kom a mot þeim iarl, sa er het Varardag. En Babilonis[3] borgar konungr, sa er Serxes[4] het, hafði sendan hann til orrostu i gegn Indiamǫnnum, er þa hǫfðu heriat a Persaland. En i fǫr hans voru skurðgoð, ok [blotbyskupar ok visindamenn[5], þeir er blotuðu diǫflum i hverium nattstað, ok gafu monnum svǫr flærðar[6] sinnar. En a þeim degi mattu þeir engi svǫr gefa[7] mǫnnum, þviat skurðgoðin voru dumb orðin. Þa foru þeir til annarrar borgar ok blotuðu þar diofla[8]. Þa tok diǫfull at belia or skurðgoði einu ok mællti: „Goð þau er yðr fylgðu til orrostu, megu eigi svara yðr, þviat postolar guðs eru þar, annarr heitir Simon, en annarr Judas. Þeir hafa sva mikinn krapt af guði sinum, at engi goð þora at mæla fyrir þeim.“ En er Varardag fra þetta, þa let hann leita postolanna ok spurði þa, er þeir funduz, hverir þeir væri, eða hvaðan [þeir væri[9], eða hverra ǫrenda þeir føri. Simon svaraði: „Ebreskir menn erum við at kyni ok þrælar Jesu Kristz, sendir hingat til hialpar yðarrar, at þer fyrirlatit villu skurðgoða ok kennit sannan guð, þann er a himnum er.“ Varardag iarl mællti: „Ek fer nu til orrostu i gegn Indiamǫnnum, er heriuðu a Persaland ok drogu lið mikit saman i gegn oss. Ok er nu eigi tom til at røða um þetta lengr, en þa vil ek heyra orð yður[10], er ek kem aptr með sigri.“ Judas postoli svaraði: „Nu er þer skyllt at vita, með hvers fulltingi þu megir sigr hafa eða sættaz við ovini þina.“ Varardag iarl mællti: „Þat heyri ek sagt, at goð var þori eigi at mæla fyrir yðr[11] ne svara oss[12]; segi þit ok þa oorðna hluti, [sva at ek mega vita[9], hversu ganga mun orrosta su[13].“ Simon mællti: „Til þess at þu megir skilia villu þeira, er þu ætlar þer oorðna hluti segia, þa munum ver[14] gefa þeim velldi at svara þer.“ Varardag mællti: „Verði sva vel, at goð var svari oss.“

1 *Overskr. B.* 2 Persidaland *B.* 3 Babilonar *B.* 4 Xersex *B.* 5 [blotmenn *B.* 6 *saal. B.;* frægðar *A.* 7 veita *B.* 8 aðra *tilf. B.* 9 [*mgl. B.* 10 yckur *B.* 11 yckr *B.* 12 monnum *B.* 13 þessi *B.* 14 vit *B.*

Þa svòruðu postolar: „Bið þu nòckura stund, ok munum við bioða diòflum þeim at mæla, at þu megir reyna lygi þeira, þa er þeir segia þat, er þeir vita eigi.“ Þa mælltu postolar við skurðgoðin: „I nafni drottins vars Jesu Kristz bioðum ver[1] yðr, at þer svarit at veniu yðarri þeim er yðr spyria.“ Þa toku goð þeira at mæla ok sògðu mikla orrostu verða mundu ok mannfall i hvarutveggia[2] liði. Þa toku postolar guðs at brosa. Varardag mællti við þa: „Ek ottumz ok em hræddr, en þit hlæit.“ Postolarnir svòruðu: „Eigi skalltu hræðaz, þviat friðr kom hingat með okkr i þetta herað. [Send þu[3] i dag sendimenn þina, en þeir munu aptr koma a morgun at dagmalum, ok sendimenn Indiamanna með þeim, ok munu segia þer aptrgolldnar iarðir þær allar [ok auðøfi òll með þeim leigum, er þeir toku fra yðr, ok munu[4] geraz skattgilldir undir Persalandz menn framarr en fyrr hafi verit, ok munu þeir hlyðnir vera velldi yðru, hvern maldaga sem þer vilit þeim gera, ok mun verða með yðr hinn fastasti friðr.“ Þa hlogu blotmenn at þeim ok mælltu við iarlinn: „Herra iarl, tru þu eigi þessum lygimònnum, utlendum ok okunnum, er af þvi mæla þetta helldr en þegia, at eigi verði þeir halldnir sem niosnarmenn. En goð var, er alldri liuga, svòruðu þer, at þu værir varr um þik, en þessir vilia gera þik ovaran, at þeir væli[5] þik, ef þu ser eigi við þeim.“ Postolar svoruðu: „Hlyð[6] þu ockr, iarl! Við utlendir menn ok okunnir mælum eigi, at þu skulir biða einn manuð, helldr einn dag. En [a morgin[7] at dagmalum sògðum við koma mundu sendimenn þina ok sendimenn Indialandzmanna með þeim, ok hafa settan frið meðal yðar.“ Þa toku blotbyskupar at reiðaz ok mælltu: „Hvat er bana vert, ef eigi er su guðlastan, er þat er sagt, at goð var liugi, er skina i gulli ok silfri ok gullofnum klæðum ok allri dyrð Babilonisborgar, ok gafu oss svòr guðdoms sins. En þessir menn, er enga tign hafa, ok þakki at ser eigi klæði, ok hryss hugr við, þott at eins siai þa eða heyri til þeira, en þu lætr þer soma, iarl, at sitia þeim guðlastan.“ Jarlinn svaraði: „Þat þikki[8] mer mikils vert, at þessir menn utlendir ok valaðir þora at mæla með sva miklu trausti þat er andvitni berr goðum varum.“ Blotmenn mælltu: „Lattu þa varðveita, iarl, at eigi flyi þeir.“ Jarlinn svaraði: „Eigi at eins mun ek lata þa varðveita, helldr ok yðr með þeim til morgins, at þa mega ek

1 vit *B.* 2 hvarratveggia *B.* 3 [Sentu *B.* 4 [er þeir toku fra yðr ok aull auðæfi aunnur með leigum, ok munu þeir *B.* 5 megi vęla *B.* 6 Heyr *B.* 7 [*tilf. B.* 8 þickir *B.*

reyna, hvarir sannara segia, ok skal þa døma, hvarir dyrðar se verðir eða pisla[1].

2. Annan dag eptir komu sendimenn iarlsins ok sôgðu allt sva farit hafa, sem postolarnir hôfðu fyrir sagt. Þa reiddiz iarlinn blotmônnunum, ok let kynda elld mikinn ok bað kasta i þann elld ôllum blotbyskupum ok ôllum þeim, er røgðu postola guðs. En postolarnir fellu til fota iarlinum ok iosu molldu i hôfuð ser ok mælltu: „Við biðium þik, iarl, at eigi se þeir deyddir fyrir okkrar sakir, þviat við erum til þess sendir at gefa lif dauðum en deyða eigi lifendr.“ Varardag iarl svaraði: „Undrumz ek þat, at þit biðit fyrir þeim, er um þat eina satu ok gafu hôfðingium fe til, at þit værit kvikir i elldi brendir.“ Postolarnir svôruðu: „Su er kenning lærifoður vars, at maðr skal goðu illt launa, en þat skulut er vita, at su er grein a meðal var ok annarra þioða, at allir aðrir launa illu illt ok hata ovini sina, en ver elskum ovini vara, ok gerum vel við þa, er oss hata, ok biðium fyrir þeim, er oss misbioða.“ Jarl mællti: „Veiti þit mer þat þa, at þit takit við auðøfum þeira ôllum, þviat þit erut utlendir ok valaðir.“ Postolar svôruðu: „Við erum eigi valaðir, þviat við hôfum himnesk auðøfi, en okkr er eigi lofat at eignaz iarðligt, þviat auðr okkarr er a himni allr, þar er eilift lif en alldri dauði. En af þvi vilium við eigi eignaz gull ok silfr ok dyrlig klæði, eða hus eða iarðir eða mansmenn, at þat allt er iarðligt ok ma eigi fylgia manni eptir dauðann. En ef þu villt[2], at auðøfi þin stoði þer til heilsu andar þinnar, þa veittu þau aumum mônnum ok fôðurlausum ok siukum, hôlltum ok blindum, ok leys þa or skulldum, er eigi hafa at giallda fyrir sik, ok veittu ollum þeim, er þessarra auðøfa þurfa, en við þurfum enskis þess, er iarðligt er.“ En er postolar hôfðu þetta mællt, þa let iarlinn at þvi leita[3], hversu mikil væri auðøfi byskupanna. En honum var sagt, at einn þeira tok môrk gullz a manaði at mala, en blotbyskupar voru .xx. ok hundrað, en umfram þessa tôlu var yfirbyskup þeira einn, en sa hafði [fiorar tekiur[4] annarra. Þa var samnat saman gulli þeira ok silfri ok klæðum ok mani ok smala, ok var auðr sa sva mikill, at eigi matti telia.

En Varardag iarl sagði konungi þau tiðindi, er gerðuz, ok mællti: „Hlyð þu mer, konungr! Þessir eru guð, er leynaz i manna likium, þviat goð var hræðaz þa ok mattu eigi svara oss, aðr þessir lofuðu. En svôr þeira sialf urðu at lygi, ok var ekki satt i þeim. En er blotmenn varir røgðu þa ok sôgðu uhæft[5]

1 kvala *B.* 2 vill *B.* 3 grafa *B.* 4 [fiôgurra tekiu *B.* 5 ohæfu *B.*

vera at trua þeim, þa let ek varðveita hvaratveggiu, at ek mætta reyna, hvarir satt sôgðu, ok giallda hvarumtveggium, sem þeir væri verðir. En er ek reynda[1] þat allt satt, er þessir sogðu, þa villda ek gera blotbyskupum þann dauða, sem þeir [þessum hugðu[2]. En þessir baðu mik, at þeim skylldi eigi grand gera. En þa bað ek, at [þessir eignaðiz[3] fe blotmanna allt, en þeir fyrirlitu þat allt ok [letuz eigi vilia eignaz iarðligt[4].

3. En er iarlinn hafði þetta konungi sagt, þa fyllduz ôfundar tveir fiolkunnigir menn Zaroes ok Arfaxath, er voru i hirð konungsins, ok mælltu: „Þessir menn eru illgiarnir ok vilia vela þik ok eru ovinir goða þinna. En ef þu villt nu[5] vita, at við segium satt, þa lattu þa eigi koma til tals við þik, fyrr en þeir blota goð þin, ok mattu þa trua þeim; en ef þeir blota eigi, þa lattu þa ekki við þik mæla.“ Konungr mællti: „Þreyti þit við þa, ef þit treystiz, ok se þeir a braut reknir, ef þit stigit yfir þa.“ En þeir svôruðu: „Bloti [þeir, sem við[6] blotum.“ Konungr mællti: „Þat skal mark vera sigrs ykkars, ef þit [fait komit þeim til[7] blota.“ Zaroes ok Arfaxath mælltu: „Villtu sia matt okkarn ok reyna, at þeir munu eigi þora at mæla við okkr? Bioð þu hingat hinum malsniôllustum mônnum, þeim sem algervastir eru bæði at viti ok mælsku, ok bioð þeim at eiga orðaskipti við okkr, ok ef þeir þora at mæla við okkr, þa mattu reyna, at við erum ovitrir, en ef spekingar þinir verða yfirstignir, þa muni þessir utlendir ekki mega við okkr.“ Þa let konungr senda eptir spekingum. En iarlinn eggiaði þa, at þeir leitaði allz við at stiga yfir hina fiôlkunnigu menn i orðum sinum. En er þeir komu [i auglit konungs ok allrar þioðar[8], ok þegar hinir fiolkunnigu toku til mals, þa urðu spekingar allir omala, ok sva at þeir mattu eigi benda, at mal var fra þeim tekit. En er leið ein stund, þa mælltu hinir fiôlkunnigu við konunginn: „Við erum guð, ok munum við nu lofa þeim at mæla, en þeir munu eigi mega ganga.“ En er þeir hôfðu sva gort, þa mælltu þeir við konunginn: „Nu munum við gefa þeim gongu, en þeir munu opnum augum [eigi mega[9] sia.“ En er sva varð, þa hræddiz konungr ok iarl. En vinir þeira mælltu, at þeir skylldu hlyða orðum hinna fiolkunnigu manna, at eigi gerði þeir slikt at konunginum ok iarlinum.

1 heyrða *B*. 2 [hofðu þeim hugðan *B*. 3 [þess at þeir skylldu eignaz *B*. 4 [sogðuz ecki vilia þiggia þat sem iarðligt er *B*. 5 þat *B*. 6 [blót vár, sem vær *B*. 7 [komit þeim til at *B*. 8 [fyrir konung ok iarl i augliti alþyðu *B*. 9 [ecki *B*.

En er þetta leiðmot[1] hafði verit allt fra morni ok til miðdags, þa foru spekingar hryggir heim til husa sinna með mikilli møði hugar.

4. Eptir þetta for iarlinn ok sagði postolunum alla hluti, þa er gerz hôfðu. En þeir mælltu sva: „Þat skalltu vita, iarl, at velar þeira [munu eigi ofraz mega, sva at við sém hia[2], þviat þeir forðaz[3] navistu okkra. En þu bioð spekingum, at þeir komi hingat, aðr þeir fara til hirðar konungs; en ef þeir verða yfirstignir af galldramônnum, er[4] þeir hafa aðr her komit, þa skalltu þat vita, at við munum ok verða yfirstignir af þeim.“ Siðan heimti iarl alla spekinga i hus sin ok mællti við þa: „Ek harma með yðr meingerð þa, er yðr var gôr i gær. En þat skulu þer vita, at ek veit menn þa tva, at yðr munu sva efla, at þer munut sigr vega[5] a hinum fiolkunnigum monnum.“ Þa fellu þeir allir til fota iarlinum ok baðu hann [efna þat[6], er hann het þeim. Siðan leiddi hann þa til postola guðs. En er spekingar sa þa opruða i klæðum, þa toku þeir at fyrirlita þa i hug ser[7].

Þa mællti Simon postoli við þa: „Þat kann opt verða, at oitarligir hlutir eru luktir[8] i gullbunu skrini, en i ofôgrum tre-kistum er lukt[9] gull ok gimsteinar. Þat verðr ok opt, at eitr ok olyfian er i fogrum drykkiarkerum, ok verða þau þa ræk[10] af ôllum, þviat þau bioða flærð; en oitarligir bollar eru fullir hins bezta vins, þess er mikla gleði fær bergiôndum, ok virðiz þa meira søtleikr vinsins, en sakaz verðr[11] við ofegrð bollans. Sa er fagran grip vill eiga, røkir litt, þott ofagrt se um utan, ef sa er goðr gripr, er hann eignaz. Af þvi styggiz þer eigi við [herfiligan fatabuning okkarn, þviat[12] þeir hlutir leynaz fyrir innan, er þer megit af þeim finna eilifa dyrð ok lif. Ver erum allir bornir i heiminn fra einum [karli ok einni[13] konu; en er þau voru skopuð[14] ok sett i lifs herað, þa teygði ôfundarengill þau [til þess at briota guðs boðorð skapara sins, ok[15] voru þau þa anauðguð af diofli, þviat þau hlyddu teygingum hans, ok voru ger utlæg hingat i heim or lifs heraði. En sva hefir guð veitta monnum miskunn sina i utlegðinni, at ofundarengill ma eigi granda manninum, ef hann vill elska skapara sinn. En sa hinn versti engill gerði sva,

1 mot *B.* 1 [megi ecki offra ser, ef við erum i hia *B.* 3 hrædaz *B.* 4 *saal. B;* ef *A.* 5 vinna *B.* 6 [*saal B*; þess *B.* 7 sinum *B.* 8 hirdir *B.* 9 hirt *B.* 10 rekin *B.* 11 verdi *B.* 12 [auðgętligan bunat klæðnaðar ockars, at *B.* 13 [karlmanni ok *B.* 14 af guði *tilf. B.* 15 [*tilf. B.*

at maðrinn hvarf fra skapara sinum guði atmatkum ok truði a skurðgoð, ok kallaði þat guð sinn, er hann gerði sialfr. En er maðrinn hvarf fra guði grøðara sinum, þa varð hann i velldi ovinar sins, en ôfundarengill føddi af þvi þessa villu með monnum, at hann mætti hafa velldi yfir þeim, at gera við þa, sem hann villdi. En af þessarri sok gerði hann yðr dumba eða blinda, meðan hann villdi, fyrir fiôlkunniga menn sina. En ef þer vilit reyna, at ek segi satt, þa heiti þer þvi at hverfa fra blotum ok trua a einn guð osyniligan, ok munu við þa gera krossmark i enni yðru, en þer megit okkr lygi kenna i ôllum hlutum, ef þer vinnit þa eigi sigr a hinum fiolkunnigum monnum."

Þa sa spekingar sanna skynsemi i orðum postolanna ok fellu til fota þeim ok mælltu: „Geri þer[1] sva, at þeir megi eigi taka mal fra oss ne geri annan vansa likômum varum, en guðs reiði se yfir oss, ef ver truum siðan a skurðgoð." Þa hofu postolarnir upp bøn sina ok mælltu: „Þu guð, er niðr brauzt velar tveggia fiôlkunnigra manna a Egiptalandi Jamnes ok Mambres, ok gaft þeim skemd ok sar a likomum þeira, sva komi nu hefnd þin yfir þessa menn Zaroen[2] ok Arfaxath, en þessa þræla þina, er heita nu at hverfa fra blotum, ger þu þa styrka ok staðfasta i gegn þeim, at allir viti, at þu ert einn almattigr guð um [alldir allda[3]." En þeir svôruðu ok sôgðu amen, ok voru siðan merktir krossmarki Kristz.

En er spekingar gengu inn með iarli fyrir konung, þa villdu hinir fiôlkunnigu menn gera enn slikt, sem þeir gerðu hinn fyrra dag, ok mattu þeir eigi. Þa tok einn þeira spekinganna til mals, en sa het Sepides[4]: „Hlyð þu mer, konungr, kasta þu ut ohreinindum þessum or riki þinu, at eigi deyi[5] allr landherr[6] af þeim, þviat þeir hafa með ser ovin allz mannkyns, ok tæla þeir þa menn, er ovinrinn hefir velldi yfir, ok eigi þiona einum guði, en þeir trua a þau goð, er þeir verða sialfir at varðveita, en þau mega hvarki biarga ser ne ôðrum. En af þvi kostgæfðu þessir villumenn, at postolarnir skylldu blota, at þa gremdi þeir sannan guð at ser, en þessir mætti þa fremia i gegn þeim fiolkyngi sina fyrir illgiarnan engil, þann er með þeim var. En postolarnir gerðu með fingri sinum mark guðs sins i enni oss ok sendu oss til þin, ok mælltu, at þeim þyrfti eigi at trua, ef ver hefðim eigi afl við gerningum þessarra manna eptir þetta guðs mark, en nu hlæium ver at

1 þit *B.* 2 Zaroes *B.* 3 [allar alldir *B.* 4 Zebedeus *B.* 5 spilliz *B.* 6 landzherr *B.*

þeim i nafni almattigs guðs.“ Þa hlogu[1] at þeim allir spekingar ok mælltu: „Gerit [þer nu, ef þer[2] megit, þat er þer[3] gerðut i gær.“ [Þa reidduz þeir Zaroes ok Arfaxat ok voktu upp or iorðu mikinn fiolda orma[4]. En þa mælltu menn við konunginn, at hann skylldi lata kalla þangat postola guðs, ok voru menn þa sendir eptir þeim. En er þeir komu, þa sôfnuðu þeir saman ormunum i môtla sina ok kôstuðu þeim a hina fiôlkunnigu menn ok mælltu: „I nafni drottins vars Jesu Kristz, [skulut it eigi deyia, helldr[4] skulu þer[3] vera kvaldir sarliga af ormunum.“ Þa toku ormarnir at slita holld þeira, en þeir yldu sem vargar. Konungrinn mællti þa við postolana: „Lati þit þa deyia, þviat þeim er nu verra lif en hel.“ En þeir svôruðu: „Við erum sendir at kalla menn til lifs fra dauða, en deyða eigi þa, er lifa.“ Þa mælltu postolarnir við ormana: „I nafni Jesu Kristz fari þer aptr til yðarra staða, ok hafit i brott með yðr eitr þat, er þer blesut a menn þessa.“ En sa var þeim mestr sarleikr, er ormarnir sugu eitr ok bloð or holldi þeira. En er ormarnir voru i brott farnir, þa mælltu postolar guðs við hina fiôlkunnigu menn: „[Heyri þer þat, er yðr[5] er sagt ok heilog ritning segir[6]: sa er gerir grôf fyrir naungi sinum, þa fellr hann sialfr i grofina[7]. Þer[3] bioggut fyrir okkr dauðann, en við baðum drottin Jesum Krist, at hann leysti ykkr fra dauða. En þar er þit mundut kveliaz marga vetr af ormum þessum, þa skulu þit hafa heilsu eptir þria daga, ok ma verða at þvi, at þit latit af villu ykkarri, þa er þit reynit guðs milldi yfir ykkr overðum. En til þess latum við ykkr hafa sott a þessum þrim dôgum, at þit gerit iðran fyrir villu ykkra.“ Þa voru hinir fiolkunnigu bornir heim til husa sinna, ok lagu þeir þria daga, sva at þeir mattu hvarki eta ne drekka, helldr stundu þeir avallt eða øptu. En er þeir voru at bana komnir, þa komu postolar guðs til þeira ok mælltu: „Eigi þiggr guð nauðga þionostu[8], af þvi risit nu upp heilir, ok verit nu sialfraðir at snuaz til [goðs fra illu[9] ok fra myrkri til lioss.“ En þeir voru þrair a villu sina ok flyðu sva þessa guðs postola, sem þeir flyðu Matheum, ok blotuðu skurðgoð ok foru um oll heroð Persalandz ok røgðu postola guðs ok mælltu sva: „Koma munu ovinir goða varra[10]; en ef þer vilit hafa hylli goðanna, þa neyði þer þa til blota, en banit þeim, ef þeir vilia eigi blota.“ Þeir blotuðu sialfir i ôllum hofum, ok gerðu menn blinda, [daufa

1 ęptu *B.* 2 [nu, ef þit *B.* 3 þit *B.* 4 [*tilf. B.* 5 [Heyrit þat, sem af yckr *B.* 6 mælir *B.* 7 hana *B.* 8 þionostumenn *B.* 9 [guðs fra villu *B.* 9 *saal. B*; yðarra *A.*

ok dumba[1] eða lama af gôlldrum sinum, en siðan letu þeir þa [sia ok heyra ok mæla ok[2] ganga.

5. En postolarnir dvôlduz i Babilon ok gerðu margar iartegnir ok storar, gafu sion[3] blindum, en heyrn daufum, ok raku diôfla fra oðum mônnum. Þeir hôfðu ok lærisveina marga ok vigðu þa til presta ok diakna, ok letu þeir gera kirkiur margar. En einn diakn þeira varð fyrir lygi þeiri, at ein auðigs mannz dottir kendi honum barn, en hann het Eufrosinus. En frændr konunnar toku hann ok leiddu til draps ok kvaðu hann sekan vera. Þa komu postolarnir þangat ok mælltu: „Hvenær var barn þat alit?“ Frændr konunnar svôruðu: „Snemma morgins i dag.“ Guðs postolar mælltu: „Leiðit [hingat barnit ok diaknann, er þer røgðut[4].“ En er þat var gert, þa mælltu postolarnir við barnit: „I nafni drottins vars Jesu Kristz, mæl þu ok seg, ef diakn sa gerði þessa synd.“ En barnit svaraði ok mællti skyrt: „Sa diakni[5] er heilagr ok hreinn ok saurgaði alldri sinn likama.“ Þa baðu frændr konunnar, at þeir spyrði, hverr faðir væri barnsins. Postolar svôruðu: „Oss byriar at biarga saklausum, en oss er eigi lofat at segia til hins seka.“ Sa atburðr gerðiz enn, at [vinr konungs[6], sa er het Nikanor, var skotinn ôr i kne, þa er hann var i orrostu, en ôrin stoð fost i knenu, sva at eigi matti þaðan[7] koma. En Simon postoli kallaði a nafn drottins Jesu Kristz, ok tok a brott ôrina ok for hondum um sarit, ok varð hinn[8] heill, sva at engi orr voru fundin a honum. Þat gerðiz enn, at dyr .ii. akafliga grimm, þau er tigris heita, urðu laus or bondum ok slitu allt ok rifu, þat er [fyrir þeim varð ok[9] þau mattu taka. Þa flyði allr lyðr til postola guðs. En þeir hetu a Jesum Krist ok buðu dyrunum, at þau sefaðiz ok fylgði þeim heim til huss með ser. En þau hlyddu boðorði postolanna ok voru i husi þeira þria daga. Þa heimtu þeir saman allan lyðinn ok mælltu: „Heyri þer, synir manna, er gervir erut eptir likneskiu guðs, ok guð hefir gefit yðr minni ok manvit, hyggi þer at dyrum þessum, er vôn eru at vera grimm, en þau sefuðuz þegar, er þau heyrðu nafn Jesu Kristz. En menninir eru sva villtir, at þeir hyggia þat guð vera, er or gulli eða silfri, eða or triam eða steinum at forraði manna er gert. En þer kunnit eigi skapara yðarn, er yðr gefr regn or skyium, en brauð af iorð, ok vin ok viðsmior af viði, en

1 [eda daufa *B.* 2 [heyra eda mæla eda *B.* 3 syn *B.* 4 [er hingat diakninn, ok sva komi barnit *B.* 5 diakn *B.* 6 [einn konungr *B.* 7 brutt *B.* 8 hann þegar *B.* 9 [*tilf.* *B.*

sannr er guð drottinn Jesus Kristr sa, er i þess nafni eru dyr þessi hogvær orðin sem sauðir, ok skulu þau vera með yðr. En oss byriar at fara viðara um heroð ok borgir ok boða kenningar guðs.“ En þa gretu allir lyðir ok baðu postolana, at þeir føri eigi a braut. En þeir dvolduz þar ein misseri siðan ok þria manaði. En a þeiri stundu skirðuz meirr en .lx. þusunda karla, en [eigi voru talin[1] konur ok bôrn. En konungr ok iarl ok aðrir rikismenn hôfðu fyrr við tru tekit; þviat þa er menn sa siuka fa heilsu af orðum postola, en dauða risa upp til lifs i nafni drottins Jesu Kristz, þa truðu allir guði ok fyrirletu skurðgoð sin ok gerðu kirkiur. En postolarnir vigðu byskup i Babylon, þann er Abdias het, sa hafði komit af Gyðingalandi með þeim, ok hafði hann seð drottin varn Jesum Krist. Siðan foru postolar or Babilon, ok fylgðu þeim .cc. lærisveina þeira. En þeir foru um .xii. heroð Serklandz ok um borgir þeira. En Craton lærisveinn þeira ritaði a .x. bokum þat, er þeir gôrðu þa .xiiii. vetr, er þeir voru i þeim heroðum. En af[2] þeim .x. bokum er her ritað upphaf [hinnar fyrstu ok endir hinnar siðurstu. En þat ma[3] þôrf vinna þeim, er vita vilia upphaf kenninga postola guðs, eða með hverium enda þeir foru or þessum heimi til eilifra fagnaða.

6. Zaroes ok Arfaxath villumenn foru um borgir ok letuz guð vera, en þeir flyðu avallt guðs postola, ok voru i hverri borg, unz þeir urðu varir við postolana. En hvar sem postolarnir komu, þa eyddu þeir ôll villuverk þeira ok syndu kenning þeira vera af diôfli. I borg þeiri er Susis heitir voru .lxx. blotbyskupa, en serhverr þeira eignaðiz mork gullz af konungi, þa er þeir heldu solarhelgi, en þat var .iiii. sinnum a [tveim misserum[4] at upphafi vars, sumars, haustz ok vetrar. Þessa blotbyskupa eggiuðu hinir fiôlkunnigu menn i gegn postolum guðs ok mælltu: „Koma munu til yðar tveir ebreskir menn allra goða ovinir. En er þeir segia annan guð vera, þa munu þer verða ræntir ôllu fe ok a braut reknir ok enskis virðir. Mæli þer [ok þa[5] við lyðinn, at þessir menn se þegar neyddir til blota, er þeir koma i borgina. En ef þeir blota, þa hafi þer frið við þa, en ef þeir vilia eigi blota, þa munu þeir gôra yðr mein ok skaða [ok dauða[6], ef þeir lifa.“

En er postolar guðs hôfðu farit um ôll heroð Serklandz, þa komu þeir til hinnar miklu borgar Susan[7], ok gistu þar lærisvein

1 [otalit *B.* 2 *saal. B;* a *A.* 3 [ok endir ennar fystu ok sidurstu, þott mart se annat yfir hafit, ok ma þetta *B.* 4 [.xii. manuðum *B.* 5 [*mgl. B.* 6 [*tilf. B.* 7 Sasan *B.*

sinn, er þar atti hus, en hann het Simeon Sennes. En þegar er lysa tok, þa komu þar allir blotbyskupar með otaligum lyð ok mælltu við Simeonem: „Leið ut þu ovini goða varra, ok blota með þeim sialfr, eða[1] ella munum ver brenna þik inni ok hiu þin.“ Þa voru postolarnir hôndlaðir ok leiddir til solarhofs[2]. En er þeir gengu i hofit, þa kôlluðu diôflar fyrir oða menn: „Hvat søkit þit at oss, postolar guðs lifanda? Ver brennum i tilkvamu ykkarri.“ En solar likneski stoð i einu horni hofsins, þat var i austri, en likneskit var i kerru, ok hestar fyrir, en þat var allt or gulli gort. En i ôðru horni hofsins var tungl af silfri, þat var ok i kerru, oc oxn[3] fyrir or silfri. Þa þustu blotbyskupar at postolum guðs ok villdu neyða þa til blota, en þeir Zaroes ok Arfaxath eggiuðu lyðinn a hendr þeim. Þa mællti Judas við Simonem: „Simon broðir, se ek drottin minn Jesum Kristum, ok kallar hann okkr nu.“ Simon svaraði: „Lengi hefi ek seð hann nu meðal engla.“ En er þeir mælltu þetta með ser at ebresku mali, þa vitraðiz þeim engill guðs ok mællti: „Verit nu[4] styrkir ok staðfastir, ok kiosit annattveggia, at þit gangit ut or hofinu, ok mun hofit[5] falla a ovini ykkra, eða þit munut her vera pindir ok koma með sigri til guðs.“ En þeir svôruðu: „Þess eigum við at biðia guð, at hann leiði okkr til sinnar dyrðar, en hann miskunni þessum ôllum, ok verði þat, at nôkkurir snuiz til guðs af þeira liði.“ Þessa vitran mattu postolarnir einir heyra ok sia.

Þa[6] kôlluðu blotmenn at þeim, at þeir skylldi luta likneskinu bæði solar ok tungls. Postolar guðs svôruðu: [Gefi þer[7] hlioð, at ver megim mæla, sva at menn heyri.“ En er hlioð varð, mælltu postolarnir: „Heyri þer allir ok seð! Þat vitum ver allir, at sol ok tungl þiona boðorði skapara sins, ok eru þau a himni. En þat er þeim meingôrð en eigi vegr, er þau eru byrgð i husum[8] inni, þar er ôll þioð veit, at þau eru a himni ok lysa allan heim. En þessi likneski eru full af [diôflum en eigi af solu ne af tungli, af þvi munum við bioða[9] diôflum þeim er yðr svikia, at þeir gangi ut or likneskium þessum ok brioti þau.“ Þa mællti Simon við solar likneski, en Judas við tungl(s)[10]: „Þu hinn versti andi, er tælldir þenna lyð, gakk þu ut or likneski þessu[11] ok briot þat, ok sva kerru þess.“ En er þeir hôfðu þetta mællt, þa sa allr lyðr tva hræðiliga blamenn hrafni svartari ganga ut or likneskiunum, ok yldu þeir grimmri rôddu ok brutu skurðgoðin. Þa drifu blotmenn

1 *mgl. B.* 2 *saal. B*; hofs *A.* 3 yxn *B.* 4 þit *B.* 5 þat *B.* 6 Eptir þetta *B.* 7 [Gefit er *B.* 8 hofum *B.* 9 [*mgl. B.* 10 hitt *B.* 11 þvisa *B.*

at postolum guðs ok vagu þa, ok foru þeir fagnandi[1] til guðs. Þa var ok hôggvinn með þeim Simeon Sennes lærisveinn þeira, þviat hann villdi eigi blota. En a hinum sama degi, þa er aðr var skafheið, þa flugu elldingar, ok rifnaði hofit i þrim stôðum or ræfri ofan ok allt til hins neðsta syllustokks. En þeir Zaroes ok Arfaxath urðu drepnir elldingu ok do hinum versta dauða En er þrir manaðir gengu[2] þaðan, þa sendi Serxes konungr eptir ôllum blotbyskupum ok kennimônnum, ok braut þa til kristni, er hann matti, en hann let hina kvelia til bana, er eigi villdu[3] tru taka. Konungrinn let ok føra likami postolanna til borgar sinnar með miklum veg, ok let þar gora kirkiu til dyrðar[4] þeim ok skrin or silfri at likomum þeira. [En su kirkia var .iiii. vetr i giôrð, en er hon var algor, var hon vigð at iamlengðardegi pislar þeira[5]. I þeim stað megu geta at[6] guði[7] goðgerninga þeir, er þangat koma ok trua rett a einn guð fôður ok a eingetinn son hans drottin varn Jesum Kristum ok a helgan anda, huggara anda varra, [nu ok ey ok of odauðligar[8] alldir allda. Amen.

---

## *Fragment.*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

*vigðo byskup i Babilone þann er Abdias het, sa hafði komit af Gyðingalande með þæim, ok hafði hann seeð drottin varn Jesum Krist. Siðan foro postolar or Babilone, ok fylgðu þæim .cc. lærisvæina þæira. En þæir foro of .xii. heroð Serklanndz ok of borgir þæira. En Craton lærisveinn þæira ræit a .x. bokum þat er þæir gôrðo þa .xiiii. vætr, er þæir voro i þæim heroðum. En a þæim .x. bokum er her ritið uphaf hinnar fyrsto ok endir hinnar siðorstu. En þat ma þôrf vinna þæim, er vita vilea upphaf kenninga postola guðs, eða hverium enda þæir foro or þessom hæimi til æilifra fagnaða. Zaroes ok Arfaxath villomenn foro of borgir ok letoz guð vera, en þæir flyðu avallt guðs postola, ok voro i hverri borg, unnz þæir urðo varir við postolana. En hvar sem postolannir(!) komo, þa eyddo þæir ôll villoverk þæira ok syndo kenning þæira vera af

1 með fagnaði *B.* 2 liðu *B.* 3 við *tilf. B.* 4 sæmdar *B.* 5 [*mgl' B.* 6 af *B.* 7 marga *tilf. B.* 8 [honum se lof ok dyrð ok vegr i þrenningu um *B.* * *Jvf. ovenfor S. 787*[11].

diôfle. I borg þæiri er Susis hæiter voro .lxx. blotbyskupa. En serhverr þæira æignaðiz mork gullz af konungi, þa er þæir heldo solarhelgi. En þat var .iiii. sinnum a tvæim misserum, at uphafi varss, sumars, haustz ok vætrar. Þessa blotbyskupa eggioðo hinir fiôlkungo menn i gegn postolum guðs ok mællto: „Koma muno til yðar tveir ebreskir menn allra goða ovinir. En er þæir segia annan guð vera, þa muno þer verða rønter ôllo fe ok a braut rekner ok enskis virðir. Mæli þer ok þa við lyðinn, at þessir menn se þegar næyddir til blota, er þæir koma i borgina. En ef þæir blota, þa hafe þer frið við þa. En ef þæir vilia æigi blota, þa muno þæir gøra yðr mæin ok skaða, ef þæir lifa.“ En er postolar guðs hôfðo farið of ôll heroð Serklannz, þa komo þæir til hinnar miklo borgar Susan, ok gisto þar læirisvæin(!) sinn, er þar atte hus, en hann het Simeon sennes. Enn þegar er lysa tok, þa komo þar allir blotbyskupar með otaligum lyð ok mællto við Simeonem: „Læið ut þu ovine goða varra ok blota með þæim sialfr, eða ella munum ver brenna þik inne ok hiu þin.“ Þa voro postolarnir hôndlaðir ok læiddir til hofs. Enn er þæir gengo i hofit, þa kôlloðu diôflar fyr oða menn: „Hvat søkit ið at oss, postolar guðs lifanda? Ver brennum i tilkvámo ykkarre.“ En solar likneske stoð i æino horne hofsens, þat var i austri, en likneskit var i kerro, ok hestar fyrer. En þat var allt or gulle gort. En i ôðro horne hofsins var tungl af silfre, þat var ok i kerro, ok oxn fyrer ur silfre. Þa þustu blotbyskupar at postolum guðs ok vildo næyða þa til blota. En þæir Zaroes ok Arfaxath eggioðu lyðinn a hendr þæim. Þa mællte Judas við Simonem: „Simon broðir, se ek drottin minn Jesum Kristum, ok kallar hann okr nu.“ Simon svaraði: „Lengi hefi ek seð hann nu a meðal engla.“ En er þæir mællto þetta með ser at ebresko male, þa vitraðiz þæim engill guðs ok mællte: „Verit it styrkir ok staðfastir ok kiosit annat tveggia, at it gangit ut or hofino, ok mon hofit falla a ovine ykkra, eða it munuð her vera pindir ok koma með sigri til guðs.“ En þæir svaroðu: „Þess æigum við at biðia guð, at hann læiða(!) okr til sinnar dyrðar, en hann miskunne þessum ôllum, ok verðe þat, at nôkkurir snuiz til guðs af þæira liðe.“ Þessa vitron mattu postolarnir æinir hæyra ok sia. Þa kôlloðo blotmenn at þæim, at þæir skylldu luta likneskino bæði solar ok tungls. Postolar guðs svoroðo: „Gefi þer hlioð, at ver megim mæla, sva at menn hæyre.“ En er hlioð varð, mællto postolarnir: „Hæyri þer allir ok seeð! Þat vitum ver allir, at sol ok tungl þionar(!) boðorði skapara

sins, ok ero þau a himne. En þat ær þæim mæingôrð en æigi vegr, er þau ero byrgð i husum inne, þar er ôll þioð væit, at þau ero a himne ok lysa alla(n) hæim. En þessi likneske ero full af diôflum, en æigi af solo ne af tungle, af þvi munum við bioða diôflum þæim, er yðr svikia, at þæir gange ut or likneskium þessum ok briote þau.“ Þa mællte Simon við solar likneski, en Judas við tungl: „Þu hinn vesti anðe, er tælldir þenna lyð! gak þu ut or likneski þesso ok briot þat, ok sva kerro þess.“ En er þæir hôfðu þetta mællt, þa sa allr lyðr tva hræðilega blamenn hrafne svartare ganga ut or likneskionum, ok ylldo þæir grimmre roddo ok bruto skurðgoðin. Þa drifo blotmenn at postolum guðs ok vago þa, ok foro þæir fagnendr til guðs. Þa var ok hôggvinn með þæim Simeon sennes lærisvæinn þæira, þvi at hann villde æigi blota. En a hinum sama degi, þa er aðr var skafhæið, þa flugo elldingar, ok rifnaði hofit i þrim stôðum or røfri ofan ok allt til hins næðsta syllustoks. En þæir Zaroes ok Arfaxath urðo drepnir eldingo ok do hinum versta dauða. En ær þrir manaðir gengo þaðan, þa sendi Serxes konungr eptir ôllum blotbyskupum ok kennimonnum ok braut þa til kristne, er hann matte, en hann let hina kvælia til bana, er æigi villdo tru taka. Konungrenn let ok føra likama postolanna til borgar sinnar með miklum veg, ok let þar gora kirkio til dyrðar þæira ok skrin or silfre at likomum þæira. En er(!) su kirkia var .iiii. vetr i giôrð, en er(!) hon var algor ok vigð at iamlængðar degi pislar þæira. I þæim stað mego geta at guðe goðgerninga þæir, er þangat komo(!) ok trua rett a æinn guð fôður ok a æingetinn son hans drottin varn Jesum Kristum ok a helgan anda, huggara anda varra, nu ok ey ok of odauðlegar alldir allda. Amen.

---

## II.

### *Passio apostolorum Simonis et Jude.*

1. Ver holldum i dag hatið hinum helgum postolom Simone oc Juda, er þessi sigrfarardagr þeirra af þessum heimi til eilifs fagnaðar. Sva segir enn helgi Jeronimus prestr, at þeir havi verit systrungar drottins oc brœþr Jacobi, er um varit a dag með Philippo, oc havi Maria verit moþir þeirra, dottir Cleophe oc systir Marie drotningar. En eigi hofum ver set a bocum ritað, meþ

hverium atburð þeir comu til fylgþar oc foruneytis meþ drotne varum, en meþ honum varo þeir allar stundir til hans piningar. En eptir upstigning drottins for Simon a Egiptaland ok kendi þar kenningar þa fyrst. En Judas, er Taddeus er callaðr, for i Mesopotamiam oc boðaþi þar guðs nafn, unz guþ vitraði, a hvert land hverr þeirra postolanna scylldi fara kenningar at kenna, oc com þeirra lutr up at fara til Serclandz guðs nafn at boþa. Þar varo firir tveir fiolkungir menn Zaroes oc Arphaxat, er flyit hofþu af Blalandi firir Matheo guðspiallamanne, oc gerþu þeir þar allzcyns s[caða] oc framþu margskyns fiolkyngi. Sogþu þeir sva, at þar myndu coma ovinir goþa varra, oc mono þeir firirlita oll goþ oc briota hofin oc brenna, þeir mono eyþa ollum logum oc [siþum] þeim er þar hofþu veret. En i þann tima er postolarnir comu til Serclandz, reð firir Babilonar rike konungr sa er Serkr het. Oc er þeir sottu at borginni postolarnir, þa for i moti þeim meþ miklu liði iarl, sa er het Varardag, hann [atti] landvarner firir konunginn, er Indialandz menn gengu a hans riki. I for varo meþ iarlinum fiolþi blotmanna með scurðgoðum, þar varo fiolkungir menn oc galldramenn. [En þat varð] a þeim degi, er postolarnir qvomo þar, at þeir fengu engi svor af scurþguþom, sem vanði var til, oc ruþu þeir þo iafnvel stallana bloþi sinu, oc var þa eigi nærr en aðr. Foro þeir þa til nalægrar borgar oc blotuþu þar oc frettu eptir, hvi guþ þeirra varo mallaus. Diofullinn toc at belia i scurþgoðinu oc mællti: „Guþ þau, er meþ yþr ero i for til orrostu, megu yþr engi svor veita, þviat þar ero postolar guþs, oc heitir annarr Simon, en annarr Judas. Þeir hafa sva mikla crapta, at engi guð þora at mæla, ef þeir eru við staddir.“ Varardag let at leita postolonum oc spurþi þa at ætt, þa hverir þeir væri, eþa firir hvi þeir kœmi þar. Simon svaraþi: „Ef þu spyrr at ætt varri, þa erom ver ebreskir at ætt; en ef þu spyrr at tegund varri, þa erum við þrælar Jesus Cristz; en ef þu spyrr, firir hvi við erom her comnir, þa comum við at kenna yþr hialparstig til himinrikis fagnaðar oc at firirlata scurþgoða blot, oc at þer kannisc við guð, þann er i himnum er.“ Varardag mællti: „Ec scal nu fara . . . . . . . . . . . . . . . . . .
riki . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .
com til þessar . . . . . . . . . . . . . . . . . .
meþ hvers fultingi van er, at þu megir sigrinn fa eþa elligar frið gera.“ Varardag mællti: „Þat heyri ec mællt, at engi guþ þori at mæla, sva at þer seþ við staddir. Nu segi þer oss fyrir

uorðna luti, sem þau ero van, hverso bardagi mun ganga." Simon postole mællti: „At þu vitir þat villu vera, er þau sægia, þa monum ver geva leyvi til, at guþin svaræ eptir sinum vanða, at þer megit þa reyna þeirra fals oc lygi." Jarliun svaraþi: „Sælir veri ver, ef þau mællti." Postolarnir mællto: „Bið þu litla riþ, oc munum ver bioþa dioflum þessum at mæla." Þa mællto postolarnir: „I nafni drottins vars Jesus Cristz bioþum ver yþr at svara eptir venio." Þa tocu guþin at mæla, oc sogþu orrostu micla firir hondum vera oc mikit mannfall i hvarntveggia flock. Þa tocu postolarnir at læia. En iarlinn mællti: „Ec em ottafullr, en þit læit." Postolarnir mællto: Lati af ræzla, þvi at friþr fylgir varri hingatcomu. Send þu menn þina til motz viþ Indiamenn, en a morgin muno þeir aptr coma at dagmalum, oc meþ þeim sendimenn Indiamanna meþ friðboþum oc scattgilldum, framarr en fyrr havi verit, oc aptr giallda alla yþra eign." Þa tocu blotmenn at læia oc mællto: „Heyr þu, iarl, sogþu þeir, tru þu ecki þessum hegomamonnum lygnum oc lastauðgum, utlendum oc ukunnum, mæla þeir af þvi slica luti helldr en þegia, at þeir se eigi halldnir sem niosnarmenn. En þessi guþ, er alldrigi liuga, baþu þic vera varan oc ahyggiosaman, en þeir biðia þic vera uvaran oc oruggan." Simun mællti: „Vist erom ver utlendir oc ukunnir oc umerkilegir, en eigi mælum við, at biða scyli manuð, helldr seggiom(!) vit, at einn dag scal biþa, oc a morgon scal ockor saga vituþ vera." Þa tocu blotgoþarnir at œþasc allir oc mællto: „Guþ var, er skina oll i gulli oc gimsteinum, prydd gullofnum clæþum oc i allri Babilonar dyrþ, gavo þer svœr af sinum guðdomi, oc scal þau nu lygi vena, en trua stafkorlum þessum, er eigi hava clæþi a ser, oc ero utlendir oc ar(!) engo mannum sinna, oc bera þeir andvitni guþunom." Varardag iarl mællti: „Þat syniz mer mikils vert, þar er þeir ero utlendir oc eigi fatpruðir, er þeir mela af sva miclu trausti oc staþfesti þat, er andvitni er goþunom." Blotmenninir mællto: „Lat þu þa varþveita, iarl, at eigi flyi þeir." Jarlinn svaraði: „Eigi at eins man ec þa varþveita lata, helldr scal alla yþr varðveita til morgons, at þa taki þeir virþing, er þess þyckia verþir, en þeir taki viti, er til þess gera."

2. En um morgoninn eptir ner dagmalum como aptr sendimenn Indiamanna meþ allum þeim boþum, er postolarnir hofþu sagt. Þa varþ iarlinn reiþr acaflega, oc let þa kynda bal mikit oc baþ þar a casta blotbiscupunum þeim allum, er postolana hofþu rœgþa. En postolarnir fellu til fota iarlinum oc mællto: „Við biðiom yþr,

herra, at eigi se þeirra glotun firir varar sacar, þvi at ver erom til þess settir at lifga dauða, en eigi til þess at deyþa þa er aðr liva.“ Oc er þeir lagu firir fotum iarlinom oc iosu dusti yvir havuþ ser, þa mællti iarlinn: „Undrumc ec yþr, er þer biþit þeim friþar, en þe(i)r baro fe undir alla hofþingia, til þess at yþr scylldi kvikva i elldi brenna.“ Postolarnir mællto: „Þat er kenning vars meistara, at eigi at eins scal goþu gott launa, helldr scal oc goþu illt launa; scolum ver þa elsca, er oss hata, oc þeim vel gera, er oss ero meinsamir, oc biðia firir þeim, er oss gera ufriþ.“ Iarlinn mællti: „Ef þer vilið þeim lif geva, þa taki þer alla eign þeirra oc virþingar.“ Var þa siþan eptir leitat um þeirra eign, oc var þat ugrynni fiar.

Let hann þa saman safna allri þeirra eign, oc for siþan meþ postolana a konungs fund oc mællti: „Hlyð þu, konungr, minu mali. Þessir, er menn synasc, ero guþ oc leynasc i manna licneskiom; guþin oll ero rædd viþ þa oc þorþu ecki at mæla, fyrr en þeir leyfþu. En þa er þeir leyfþu þeim malit, þa lugu þau allt, en þessir sogþu allt, sem eptir geck. Blotmenn kolluþu þa utlenda oc ukunna oc storum uvirþilega, en liclega til niosnarmanna En ec let þa varþveita hvaratveggiæ til raunar. Oc þa er allir lutir gengu eptir þeirra fyrirsogn, þa villda ec drepa blotmennina, en þessir baþu þeim friþar. Nu hevi ec saman safnat auþ þeim, er þeir hava att, oc villda ec, at þessir tœki þat allt undir sic, en þeir segia sic ecki iarþlegt eignasc vilia, kalla þeir sina eign alla a himnum vera, segia þeir þar vera eilift lif, oc vilia firir þvi hvarki eiga gull ne silfr, eþa dyrleg clæþi, hus ne garþa, þorp eþa þiona, calla þeir þat allt iarþlegt oc mega ecki fylgia manni, er hann liþr heþan or heimi. En ef menn vilia fiarins niota annars heims, þa [bi]þia þeir geva feit fatœkiom monnum, lomum eða holltum, blindum eþa daufum, eckiom oc utlendum oc foþurlausum.“

3. V[ið þe]ssa frasogn varo staddir hinir fiolkungo menn Zaroes oc Arphaxath, er þa varo meþ konungi, oc tocu þeir sva til orþz: „Ver vitum deilld a þessum monnum, oc ero þeir illgiarnir oc uvinir goþanna, vilia þeir viþ var(!) einar veniær(!) samþyckiasc. Nu lattu, konungr, þessa menn eigi coma yþr i augsyn, nema þeir bloti.“ Varardag mællti: „Hafi þer malstefnur yþar i milli, oc set, hvarir þar sigraz a aþrom.“ þeir mællto: „Bloti þeir sem ver, oc munum ver þa samþingt hava.“ Konungrinn mællti: „Hvat scolu þer nu nema þreyta yþar i milli?“ Hinir fiolkungu menn svoroþo: „Eigi vilium vit reyna ocrar iþrottir a sva herviligum monnum. Bioð þu hinum mestum þinum spekingum at reyna við ocr malspecþ,

oc ef þeir þora eigi viþ oss, eþa mega þeir eigi, þa þurvo þeir eigi, er minna ero verþir, við ocr at þreyta.“ Þa varo spekingar þangat callaþir, þeir er mestir varo. Oc er þeir como i hollina, þa toc fra þeim malit. Oc er sva hafþi gengit eina tiþ dags, þa mællto hinir fiolkungu menn: „At þu vitir oss, konungr, af goþa tolu vera, þa muno vit nu leyva þeim at mela, en nu scolu þeir eigi ganga mega.“ Oc þa varþ sva. Oc er sva geck um stund, þa mællto þeir enn: „Nu scolo þeir ganga mega en sia ecki at opnum augum.“ Oc þa varþ sva. Þa ottaþisc hiarta konungsins oc iarl[sins], at þeir yrþi firir· slicum vabœlum oc var þa slitit þeirri stefnu, oc hafþi hon verit allt til miðsdags fra morni. En spekingar foro heim til husa sinna meþ hrygþ oc svivirþingo.

4. Jarlinn for a fund postolanna oc sagþi þeim til svabuins. En þeir svoroþo: „Til þess at þu vitir, at okr skelva ecki þeirra brogþ, þa kalla þu hingat spekingana, oc munum við læggia hendr i havuð þeim, oc ef þeir gera þeim þa þvilict, þa þarpt þu ecki oss at trua.“ Jarlinn for þa a fund spekinganna oc mællti: „Harma ec þat miok, er yðr hendi sva mikil scomm i konungs holl. En ec hefi þa menn a minum varnaði, er yðr megu sva styrkia, at þessir menn munu ecki granda yþr ne til meins gera.“ Oc er þeir heyrðu þessi orð, þa fellu þeir til fota iarlenum oc baðu, at hann fylldi þat i verki, er hann het þeim i orþi. Siþan leiddi hann þa firir postolana. Oc er þeir sa þa i hervilegum buninge, þa firirlitu þeir postolana i hug ser, oc syndisk(!) þeim þeir utigulegir.

Þa toc Simon til orða oc mællti sva: „Þat cann opt verða, sagþi hann, at i trekistlum ero varðveittir hinir virþilegstu lutir, en i gullegum kistlum þat, er œngu er nytt. Enn er þat oc stundum, at eitr er byrlat gullkerum, en hitt er alsiða, at byrla hiþ bezta vin or trekerum, oc meta þo flestir dryckinn, en hitt minna, hvar or er byrlat. Man oc uscaplect þyckia, ef sa tecr þock oc laun, er giofina [þiggr], en sa eigi, er gefr. Eigi scolu þer firirlita oss, þo at ver seem i felitlum clæþum, þat ma leynaz undir þessum buninge, er yðr taki undan svivirðingo en comi yþr til hialpar. Ver eigum allir einn foþur oc eina moþur, oc a engi varr at firirlita annan, allir varum ver til sælu scapaþir fyrir andverþu oc sættir i lifs herað. En hinn fyrsti maðr misgerði eptir teygingo ofundarengils, oc var hann þa brot rekinn or lifs heraði oc hingat i nauð þessar veralldar, en sa hinn sami fianda arr oc ofundarengill eflir þessa hina fiolkungo menn, er nu hava mioc

yðr a sporþi staðit. Oc at þer reynit þetta meþ sannu vera, sem ver segiom, þa heitiz þer guði en neitið scurðguðum oc rongum atrunaði, en ver monum gera crossmarc i ennum yðr. En ef þeir gera yðr þa þvilic scrœc sem fyrr, þa er ecki oss at treystasc."

Þa fellu spekingarnir til fota postolonum oc mællto: „Ef ver frelsumc undan valldi þessa hinna vandu manna, þa comi guðs reiði yvir oss, ef ver hofnum þa eigi allum blotum" Þa baþu postolarnir til guðs oc mællto: „Þu almattigr guð, er eyddir a Egiptalandi villu oc fiolkyngi þeirra Jafnes oc Mambres, oc gaft þa i skemd oc næisu, lat þu sva coma ond þina yfir þessa hina fiolkungo menn Zaroes oc Arphaxat, en ger nu þessa menn styrkia oc staðfasta, er heita nu til þin at snuasc oc fra scurðgoða blotæ, at allir megi þat vita, at þu ert einn guð almattigr, er livir um allar alldir allda." Oc er cristnir menn sogþu amen, þa gerþu þeir crossmarc i enni serhvers þeirra.

Oc gengu þeir siþan eptir þat inn i konungs holl, oc iarlinn meþ þeim. En er hinir fiolkungu menn sa þa inn ganga, þa villdi(!) þeir enn gera sem fyrr, taca fra þeim syn eþa heyrn eþa gongu, oc mattu þa ecki at gera. Þa toc einn þeirra til orþa spekinganna, sa het Zebedeus, oc mællti: „Hlyð mer, konungr, sagði hann, rec þu a brot or þinni hirð þessa hina vandu menn, at eigi spilli þeir lengr firir þer eþa þinum monnum; þeim fylgir ovundarengill svikari allz mannkyns, oc svikr sva mennina oc meiðir licama, til þess er þeir taca valld a andunum. En postolar guðs ero her, þeir er nu kenna tru retta til guðs oc hava allt valld i moti þessum udaðamonnum, hava þeir nu gert meþ fingri sinum crossmarc i ænnum varum, oc gombrum ver nu yvir þeim, er ver varum aðr yvirstignir af oc firirlagþir." Risu þeir þa up siþan allir spekingarnir oc gerþu scoll micla at þeim oc eggioþu þa a hendr ser, at þeir scylldu þa gera sem fyrr, ef þeir mætti. Þa reiddusc þeir hinir fiolkungu menn, er þeir mattu ecki at þeim gera, oc vocþu up fiolþa hoggorma. Þa melto allir, þeir er [þar varo] staddir, at þangat scylldi kalla postola guðs, oc var sva gert. Oc er þeir como þar, þa sofnuðu þeir saman allum ormunom i motla sina, oc gengu siþan at hinum fiolkungum monnum oc costuþu a þa ormunom, oc mællto: „I nafni drottins Jesu Cristz sculo þer eigi veita þeim bana, helldr scolu þer særa holld þeirra oc blasa eitri . . . . . . . . . . . . . . . þa tocu ormarnir at slita . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . lata þa deyia sem . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . deyþa þa, er aðr liva, helldr at lifga þa er aðr ero dauðir.“ Þeir lagþusc þa til bœnar [postolarnir, oc eptir þat mællto þeir] við ormana: „Hverfit a brot i nafni Jesus Cristz til staða yþarra, oc havit meþ yðr eitr þat allt, er . . . . . . . Ormarnir gerþo, sem þeim var boðit, drogu at ser eitrit, oc hofþu þeir af þvi . . . . . . . . . . siþan hurvu þeir a brot. Siþan mællto postolarnir við þa hina fiolkungo menn: „Lyðit þer, hinir umilldu menn. Þat er [sagt i heilagri ritningu, at sa er] byr grofna firir nangi sinum, man sialfr i hana falla; þer biogguð [ocr] dauðann, [en þer] myndut dauða liota, ef eigi . . . . . . . . . . . skylldug . . . . . . . . . deyia . . . . . . . . . . . . . liggia i þessum sarum þria daga, at þer megit iðran gera firir yþra villu.“ Varo þeir þa . . . . . . . . . . herbergia, oc lagu þeir sva þria daga, at þeir sofnuþo eigi oc [eigi a]tu þeir ne drucku, en þeir stun[du] avallt i sifellu. Eptir þat comu postolarnir til þeirra oc mællto: „Eigi vill guð þiggia nauþgar þionostur; [risit af] þvi up nu heilir, oc takit frelsi at snuasc fra illu oc til goþs, fra myrcri til lioss.“ Þeir [stoðu up] heilir oc varo staþfastir i sinni illzcu. Þeir foro þa i brot . . . . . . . . . . . . sem . . . . . . . . . . myndi koma uvinir guða þeirra . . . . . . . . . . . . . . . . . .

---

## MATHEUS SAGA POSTOLA

### I.

1. Tveir fiolkungir menn voru a Blalandi, Zaroes ok Arfaxath, i borg þeiri, er het Naddaber; en þar reð konungr fyrir, er Eglippus het. Þessir fiölkungir menn villtu [alla þioð[1] ok sogðuz guð vera. Konungrinn truði þeim ok allr borgarlyðr, ok urðu þeir agætir um allt Blaland, ok komu menn viða or heroðum at gôfga þa. En þeir namu sion eða gôngu fra monnum, ok kvôldu menn i sottum, meðan þeir villdu; þeir sendu hôggorma til meins monnum ok

1 [allan lyð *B.*

grøddu sialfir[1] sottir með gôlldrum, þeim[2] er þeir gerðu. En fyrir þvi at guði er røkt a mônnum, ok vill hann ôllum hialpa, þa sendi hann Matheum postola sinn ok guðspiallamann i moti þessi villu. En er hann kom þangat[3], þa braut hann niðr fiôlkyngi þeira, ok gaf hann þeim monnum sion, er hinir fiôlkungu [gerðu blinda[4], en þeim gôngu, er þeir heptu. Hôggorma svæfði hann, þa er þeir sendu til meins monnum, ok grøddi hann i guðs nafni mein þau oll, er af ormunum urðu.

Maðr het Candacis, sa er var gelldingr, hann varðveitti fe drottningar; þenna mann hafði Philippus postoli skirðan. En er hann sa Matheum postola, þa fell hann til fota honum ok mællti: „Guð sa miskunnar augum a borg vara ok sendi þik hingat til var, at þu leystir oss [af hôndum þessa .ii. fiôlkunnigra[5] manna, er heimskir menn ætla guð vera.“ Þa leiddi hann postolann i hus sin, ok komu þar allir vinir Candacis at heyra orð guðs, ok truðu allir a drottin varn Jesum Kristum, ok toku margir tru ok skirn, er þeir sa, at guðs postoli eyddi ôllu illu, þvi er hinir fiolkungu menn gerðu monnum. En þeir grônduðu þeim, er þeir mattu, unz[6] hinir siuku baðu ser heilsu af þeim, ok synduz þeir þa grøða, er þeir letu af at kvelia. En Matheus grøddi eigi at eins þa, er þeir kvoldu, helldr alla þa er til hans komu, [hvatki er[7] þeim var at meini, en hann kendi þeim guðs nafn, ok undruðuz allir mælsku hans. En Candacis, er við honum hafði tekit, spurði hann ok mællti: „Segðu mer, hvi[8] þat gegnir, er þu ebreskr maðr kant grikska[9] tungu ok blalenzka, sva at þeir kunnu[10] eigi iafnvel, er þar eru føddir.“ Matheus svaraði: „Allr heimr hafði fyrst eina tungu, [þar til[11] er su dirfð hofz, er menn fystuz at gera stopul, þann er til himins tøki. En þessa dirfð stoðvaði guð, sva at engi[12] matti nema, hvat annarr mællti. Þa gerðuz fleiri kyn tungna, ok eyddiz þat rað, er menn bundu[13] saman, meðan þeir hofðu eina tungu; þvi at eigi var af goðum vilia helldr af illri dirfð þat, er þeir villdu overðir fara til heilags staðar. En sonr guðs kom at syna þat, hversu þann stôpul skal smiða, er til himins ma uppstiga or, ok sendi hann oss lærisveinum sinum helgan anda af himnum, þa er ver satum i einum stað, ok kom hann yfir hvern varn i elldligum tungum, ok lystumz ver af honum. Þa

1 sidan *B.* 2 þær *B.* 3 *tilf. B.* 4 [hofðu fra tekit *B.* 5 [fra villu enna fiolkunnigu *B.* 6 þar til er *B.* 7 [hvat sem *B.* 8 hveriu *B.* 9 girzku *B.* 10 kunna *B.* 11 [til þess *B.* 12 þeira *tilf. B.* 13 bunduzt *B.*

hvarf fra oss oll hræzla, ok tokum ver at mæla a allar tungur um takn Kristz, ok hversu [guðs son[1] var borinn hingat i heim, sa er var ok er fyrir allar alldir. En hann var borinn fra meyiu, uppføddr ok skirðr, pindr ok deyddr ok grafinn, ok reis upp af dauða a þriðia degi, ok ste til himna, ok sitr til høgri handar guðs foður almattigs, ok mun þaðan koma at døma allan heim með ogn elldz. En eigi er, sva sem þu ætlar, at ver lærisveinar hans kunnim þessar einar tungur, er þu nefndir nu, helldr kunnum ver allar tungur at mæla ok skilia, hvar sem ver komum; þviat nu er gorr stopull til himna eigi af steinum helldr af[2] krapti Kristz. Allir þeir er skiraz i nafni foður ok sonar ok anda heilags, þeim lykz upp stopull sa, er Kristr smiðaði, ok smiða þeir sialfir þann stopul, unz[3] þeir stiga[4] upp i himinriki.

2. En er postolinn hafði [þetta mællt[5] með mikilli skynsemi, þa sagði maðr, at hinir fiolkungu menn Zaroes ok Arfaxath foru þangat, ok flugu drekar með þeim. En drekarnir voru ogurligir ok blesu af nosum ser reyk ok brennusteins loga, ok fengu menn sott eða bana af þeim dauni[6]. Þa signdi Matheus postoli sik ok villdi ganga ut a moti þeim; en Candacis bannaði honum þat [ok lauk aptr durum[7] ok mællti: „Stattu við glugg, ef þu villt, ok mæl þaðan við þa." Matheus svaraði: „Luk upp þu durum, ok statt sialfr við glugginn ok sia dirfð þeira." Þa lauk postolinn upp durum ok gekk ut, þa er hinir fiölkungu menn voru komnir, ok flugu drekarnir [yfir þeim. En þegar er Matheus postoli kom ut, þa fellu drekarnir[8] niðr a iorð ok sofnuðu[9]. Matheus mællti við hina fiolkungu menn: „Hvar er nu vel yður? Veki þit nu ormana, ef þit megit. En ef ek bæða drottin minn Jesum Krist, þa mætta ek senda aptr til ykkar þat mein, er þit efldut a moti mer. En þa er saman kemr allr lyðr, sa er eigi þorir nu hingat at ganga, þa mun ek vekia ormana ok bioða þeim heðan at fara til sinna staða hofsamliga." En þeir leituðu við með fiolkyngi sinni at vekia drekana, ok mattu þeir eigi upp hefia augu sin, ne vakna ne hrøraz. Þa mællti lyðrinn við Matheum: „Ver biðium þik, at þu leysir þenna borgarlyð fra dyrum þessum." Matheus svaraði: „Eigi skulu þer hræðaz, ek mun þeim a braut visa, sva at eigi skal mein at þeim verða." Þa leit hann til drekanna ok mællti: „I nafni drottins mins Jesus Kristz, þess er getinn er af anda helgum ok borinn fra meyiu ok selldr Gyðingum af Juda

1 [gud *B.* 2 med *B.* 3 þar til er *B.* 4 þadan *tilf. B.* 3 [slika hluti sagda *B.* 6 hnyc *B.* 7 [*tilf. B.* 8 [*mgl. B.* 9 þeir þar *tilf. B.*

lærisveini sinum. en þeir krossfestu hann ok[1] grofu, en hann reis upp af dauða a þriðia degi, ok var með oss .xl.[2] daga ok minti oss a hin somu orð, sem hann hafði oss kent fyrir pisl sina; en siðan ste hann til himna, sva at ver sam, ok sitr[3] til høgri handar [fôður sins[4], ok mun hann[5] þaðan koma at døma um kvika ok um dauða; i hans nafni ok krapti søri ek þik, andi, sa er fyrir ollum ormum ræðr, at þu vekir flugdreka þessa, ok latir þa fara hofsamliga til sins staðar, sva at þeir geri ekki grand monnum ne fuglum ne[6] dyrum.“ Þa hofu drekarnir upp hofuð sin ok foru ut i borgarhlið, ok urðu alldri senir siðan. En Matheus mællti við allan lyð: „Heyri þer, brøðr[7] ok synir, ok allir þeir, er leysa vilia andir sinar fra hinum forna dreka, þat er fra diofli! Fyrir heilsu yðra sendi guð mik hingat, at þer fyrirletið[8] villu skurðgoða en truit skapara yðrum. Guð skapaði hinn fyrsta mann ok setti hann i paradis*. En af[9] þvi var illum engli ofund, er hann sa guðs likneski vera i manninum, ok maðrinn matti vera i lifs heraði, þar er oll kvikendi þionuðu[10] honum. Þa tok sa engill ôfund af ser sialfum ok mællti fyrir hoggorminn við konu hins fyrsta mannz, at þau æti[11] epli bannaðs tres; en þa sveik konan karlmanninn. En er þau hofðu bæði misgert, þa voru þau a braut rekin or [lifs heraði[12] hingat i dauða herað, en sialfr finnandi syndar varð fundinn i hoggorminum, ok var hann bolvaðr. En sonr guðs tok mannz likam a sik, sa er með feðr ok helgum anda hafði skapat manninn, ok fyrirlet hann eigi guðdom sinn, þa er hann tok manndom, ok var hann borinn guð ok maðr fra meyiu. En sia mær ok moðir varð kviðug af helgum anda, þa er hon heyrði orð or engils munni ok truði þvi. En trua hennar samtengðiz við anda helgan, þvi at hann elskaði þessa osaurgaða mey, ok fann likam hennar hreinan ok ond hennar hreina ok tru ospillta; ok gerðiz guð maðr i kviði hennar. Sem Salomon mællti ok sagði fyrir, at guðs speki gerði ser hus. En sia maðr Jesus Kristr bøtti yfir misverk[13] þess, er yfir varð stiginn af diôfli ok braut rekinn or paradisu hingat i heim. En hinn fyrsti maðr var or iorðu gorr, ok var iorðin mær, meðan hon var osaurguð ok eigi spillt af syndum ne af uthellingu bloðs. Af þvi var þat rett, at sa var

1 deyddu ok *tilf. B.* 2 fiora tigi *B.* 3 hann *tilf. B.* 4 [guds fodr *B.* 5 *mgl. B.* 6 eda *B.* 7 ok systr *tilf. B.* 8 firirlitid *B.* * *B indskyder her en Skildring af Paradis, som den findes nedenfor i de andre Recensioner.* 9 aa *B.* 10 þionadi *B.* 11 af *tilf. B.* 12 [paradis *B.* 13 misverka *B.*

fra meyiu borinn, er bøtti yfir verk meyiar sonar[1], ok hann stigi fastandi yfir þann, er sigr vann a þeim, er þat at, er [guð bannaði[2]. Jesus Kristr sie yfir velar fiandans ok yfir dauðann deyiandi, ok lauk upp himnesku[3] paradis i upprisu sinni fyrir ondum allra heilagra, þa er þeir[4] fara or likomum sinum, sva at allir megu nu þangat komaz an ifa, þeir er Kristi þiona."

3. En er postolinn hafði þetta mællt við lyðinn, þa gekk hann inn i borgina. En þar var gratr mikill ok ogleði, þviat sonr konungs var þa dauðr. En þeir Zaroes ok Arfaxath stoðu hia [liki hans[5] ok hugðuz mundu reisa hann af dauða. En er þeir mattu þat eigi gera, þa toldu þeir þat fyrir konungi, at hann væri uppnuminn ok orðinn at guði, ok gera skylldi honum hof ok likneski ok blota hann. En Candacis gelldingr gekk fyrir drottningu ok mællti: „Seti þer i bond þessa fiolkunga menn, ok biðit, at hingat komi Matheus postoli; en ef hann reisir hann upp af dauða, þa brenni þer galldramenn i elldi kvika, þvi at ver hliotum allt illt af þeim i borg varri." Þa var Candacis sendr, ok hinir gôfgustu menn [af hirð konungs[6] með honum, eptir postolanum. En er þeir leiddu hann með mikilli vegsemd fyrir konung, þa fell Eufenora drottning til fota postolanum ok mællti: „Ek veit, at þu ert postoli sendr af guði ok þess lærisveinn, er dauðum gaf[7] lif ok ollum siukum heilsu með orði sinu[8]. En nu kom þu at kalla a nafn hans yfir son minn dauðan, ok trui ek, at hann mun þa lifna." Matheus svaraði: „Þu hefir enn eigi [heyrða kenning drottins mins Jesus Kristz af munni minum[9], ok truir þu þegar, af þvi skalltu vita, at son þinn mun lifna." Þa hellt Matheus hôndum til himins ok mællti: „Guð Abraham, guð Ysaac, guð Jacob, er sendir einka son þinn af himni til iarðar at biarga oss ok leysa af villu ok syna oss þik sannan guð. En nu minztu orða drottins mins Jesus Kristz sonar þins, er hann[10] mællti: Satt segi ek yðr, hvatki er þer biðit foður i nafni minu, þa mun hann gefa yðr. En at allar þioðir viti, at engi er guð nema þu, ok kenning munnz mins er sonn, þa risi upp sveinn sa af dauða." Þa tok Matheus i hond hinum dauða ok mællti: „I nafni Jesus Kristz hins krossfesta, ris þu upp, Eufronon!" Þa reis sveinninn upp þegar. [Þa oaðiz konungrinn, ok bað hann føra honum[11] koronu

1 *tilf. B.* 2 [bannad var *B.* 3 *mgl. B.* 4 þær *B.* 5 [likamanum *B.* 6 [*mgl B.* 7 gefr *B.* 8 einu *B.* 9 [kenning mina af drottni minum Jesu Kristo *B.* 10 sva *B.* 11 [Enn konungrinn ottadiz ok baud at færa skylldi postolanum *B.*

ok purpura, ok sendi hann rennara um borgina ok um hin næstu Blalandz herоð, ok mællti: „Komi þer til borgar ok siait guð[1] i mannz liki.“ Þa kom [allr lyðr[2] með kertum ok reykelsi ok [með ollum vanda blota[3]. Þa mællti Matheus við lyðinn: „Eigi em ek guð, helldr þræll drottins mins Jesus Kristz sonar guðs lifanda, er mik sendi til yðar at kynna yðr sannan guð ok leiða yðr fra villu skurðgoða. En ef þer ætlit mik likan guði, hversu helldr skulu þer trua a þann guð, er ek em þræll hans[4], ok reista ek i hans nafni konungs son af dauða. En þer allir, er retta skynsemi megit skilia, taki þer brott heðan gull ok silfr ok gersemar þessar allar, ok farit ok gerit musteri guði, ok komit þangat opt at heyra orð guðs.“

Þa komu til .lx. þusunda manna, ok gerðu kirkiu a .xxx.[5] daga; en su kirkia var kôlluð upprisa Mathei, þviat af upprisu hins dauða gerðiz[6] kirkiugôrð su. En Matheus postoli setti byskupsstol sinn at þessi kirkiu, ok reð þar fyrir .xxiii. vetr ok kristnaði margar borgir ok bøi ok herоð, ok let kirkiur gera ok vigði byskupa ok presta ok kennimenn. Eglippus konungr tok skirn, ok kona hans Eufenora, ok son þeira, er af dauða var reistr, Eufronon, ok dottir þeira Ephigenia, en hon var mær alla æfi. En þeir Zaroes ok Arfaxath hinir fiôlkungu menn tveir flyðu af Blalandi, þegar er Matheus hafði konungs son reistan af dauða, ok foru til Serklandz ok Persialandz, ok gerðu þar slikt eða verra, sem[7] þeir hofðu gôrt a Blalandi, ok villtu þar margar þioðir, unz[8] guð sendi postola sina Simon ok Judam a mot villu þeira[9]. En langt er at telia, hversu môrgum blindum monnum Matheus gaf sion, eða hversu marga hann grøddi siuka, eða reisti af dauða, eða hversu konungr varð kristinn ok lyðr hans allr. Þa mun ek liða yfir þat, ok segia, hversu Matheus kom til pislar[10] fyrir guðs nafni.

4. Eglippus konungr beið goða elli ok for til guðs, en broðurson hans tok velldi eptir hann, en sa het Hirtacus. En hann villdi ganga at eiga Ephigeniam dottur hins andaða konungs, er þa var Kristi helguð ok hafði þa nunnuvigslu tekit af postola guðs, ok reð þa fyrir meirr en .cc.[11] meyia. En Hirtacus vænti, at hann mundi þat geta at[12] postolanum, at hann sneri hugskoti[13] meyiarinnar eptir vilia hans, ok lezt gefa mundu honum helm-

1 þann er leyniz *tilf. B.* 2 [mikill landzherr *B.* 3 [audrum blotatilbunadi *B.* 4 *tilf. B.* 5 þrim tigum *B.* 6 hofz *B.* 7 enn *B.* 8 þar til er *B.* 9 þeiri *B.* 10 dyrdar fyrir pislarsigr *B.* 11 tvenn cc.(!) *B.* 12 af *B.* 13 hug *B.*

ing rikis sins, ef hann gerði sva, at Ephigenia mær villdi ganga með honum. Matheus svaraði honum: „Sva vandiz Eglippus konungr, meðan hann lifði, at hann kom hvern drottinsdag at heyra orð guðs. En þu bioð þat nu, at margr lyðr komi hinn næsta drottinsdag, ok sva Ephigenia með meyiar sinar, ok muntu þa heyra, hversu marga goða hluti ek mun telia um helgan hiuskap; þviat rett halldnir hiuskapir eru þægir guði.“ En þvi mali varð Hirtacus feginn ok bað [mart manna[1] koma þangat, ok sendi orð, at Ephigenia skylldi koma at heyra orð postolans, ok ætlaði hann þat, at þa mundi hugr hennar hverfa eptir þokka hans. En er lið mart var komit, þa hof Matheus upp tǫlu sina ok mællti:

„Heyri þer mal mitt, allir synir kristninnar, heyri þer ok skilit ok halldit i hiǫrtum yðrum. Guð varr helgaði hiuskapi ok lofaði likamliga ast veralldligum monnum, at maðr unni konu sinni, ok kona manni[2] sinum. En þat siam ver opt verða, at konur skiliaz við bøndr sina, eða menn leiðaz[4] konur sinar; en þeir gera i gegn [þeiri ast, er guð veitti ok lofaði at hallda i likomum[5]. En hiuskapr framdr með guðhræzlu, þar er hiu[6] fara saman at guðs lǫgum, sva at karlmaðrinn hefir eigi munuðlifi við aðra konu, ne kona við annan mann, þa hreinsa lǫg guðs hiuskapinn af synda sauri. [En su saurgan ok likams munuð ma hreinsaz fyrir olmosugøði ok miskunnarverk, ok er eigi sva þung synd, at eigi megi hreinsaz fyrir iðranar tar. Hiuskapr hefir saurgan likams af munuðlifi, en eigi gløp. En sa er eigi helldr sik iafnt fra munuðlifi sem fra kiǫtati um langafǫstu eða aðrar lǫgfǫstutiðir, þa hefir hann eigi at eins saurgan likams, helldr ok gløpinn; ok þat er eigi synd, þott maðr matiz, helldr þat er hann mataz a fǫstutiðum. Sva er ok, ef nokkurr tekr fyrst likams føzlu, en siðan dirfir hann sik at taka corpus domini samdøgris, þa verðr hann hvarstveggia sekr af dirfð ok osiðsemi; ok verðr eigi af þvi sekr, at hann eti, helldr af þvi, at hann gerði i gegn guðs lǫgum ok rettum sið, ok át, aðr hann tøki corpus domini; þviat verkin gera eigi manninn sekan, helldr oskynsemi ok ostilling verkanna. Manndrap er illt, þar er saklauss maðr er veginn, ok vitum ver þo stundum manndrapit lofat vera ok rett, þa er ovinr friðarins er drepinn, eða þiofr eða vikingr. Eigi eru verk af eðli ill, helldr af

1 [marga menn *B.* 2 bonda *B.* 3 skilia *B.* 4 afrækiaz *B.* 5 [guds vilia ok ast, at gud veitti ok lofaði, at helldiz i likamanum *B.* 6 hion *B.*

ostilling; þviat ef oskirðr maðr tekr corpus domini, þa snyr hann goðu til illz, ok tekr þaðan sekt, er hann mætti sik leysa fra eilifri kvol.[1] Sva eru ok hiuskapir goðir, þeir er helgaz af guði ok blezaz af kennimonnum ok halldaz at guðs logum."

En er Matheus hafði þetta mællt, þa tok Hirtacus ok hirð hans at lofa miok tôlu hans, ok hugði, at til þess væri su tala gor at snua hug Ephigenie til hiuskapar. En er su tala var lengi lofuð, sem vert var, þa bað Matheus ser hlioðs i annat sinn ok mællti: „Hyggit at, er brøðr ok konur ok synir, hvar til horfir mitt mal Þat manndrap talda ek eitt gott, er einn osiðamaðr er drepinn, at eigi drepi hann marga saklausa, sva sem veginn[2] var Golias forðum, eða Aman[3] eða Olofernes, eða sva sem vegnir voru uvinir yðvars rikis. Sva helgaz ok með goðum verkum þeir hiuskapir, er rettliga eru gorvir at guðs logum. En ef nokkurr þræll [vill eða[4] gengr at eiga festarmey drottins sins, þa mundi hann þess þykkia verðr fyrir gløp sinn ok dirfð, at hann væri kvikr brendr i elldi; ok verðr hann eigi af þvi sekr, at hann kvangaðiz, helldr af þvi at hann tok festarmey drottins sins eða konungs eða nokkurs ser betra mannz. Sva skalltu ok þat vita, konungr, at Ephigenia er festarmær konungs hins himneska ok hefir nunnuvigslu tekna[5]; eða hversu mattu ganga at eiga festarmey þer betra mannz?" Af þessu mali reiddiz Hirtacus konungr, er aðr hafði i hveriu orði lofat tolu postolans, ok gekk a braut okveði. En postolinn stoð ohræddr ok let eigi niðr falla tôlu sina, ok mællti: „Hlyði þer mer enn allir, er elskit guð! Jarðligr konungr hefir skammrar stundar [ok tiðar[6] velldi, en himneskr konungr hefir eilift[7] riki. Ok sva sem hann gefr eilift velldi ok fagnað þeim, er [hallda tru sinni[8], sva gelldr hann ok eilifar kvalir þeim, er a braut fara[9] fra tru hans ok heilagleik. Ef konungs reiði er ogurlig, hyggit at þer, hvar ogurligri er guðs reiði eða mannz. Mannz reiði endiz[10] a einu augabragði stundar[11] með elldi eða iarni, en guðs reiði kyndir eilifan loga misgerondum. Drottinn, kennandi hins sanna, vissi fyrir oorðna hluti ok mællti: Eigi skulu þer hræðaz þa, er likomum granda [at eins[12], þviat þeir megu eigi ôndina vega, helldr skulu þer þann hræðaz, er bæði hefir velldi at fyrirfara ond ok likama i helvitis elldi; sva segi ek yðr, at þann skulu þer hræðaz." Þa fell Ephigenia mær til fota postolanum fyrir ôllum lyð ok

1 [*mgl. B.* 2 drepinn *B.* 3 *saal. B.;* Amon *A.* 4 [*mgl. B.* 5 tekit *B.* 6 [*mgl. B.* 7 velldi ok *tilf. B.* 8 [*saal. B;* trua honum *A.* 9 hverfa *B.* 10 skiott *tilf. B.* 11 *mgl. B.* 12 [*tilf. B.*

mællti: „Ek bið þik, postoli guðs, at þu blezir mik ok meyiar þessar allar, er fyrir þin orð eru guði helgaðar, at ver megim forðaz reiði hôfðingia þessa, er margra raða leitaði i gegn mer i ognum ok feboðum, þa er faðir minn lifði ok moðir; en ef[1] hann þorði þa at freista var, er [þau lifðu[2], þa er þess nu miklu meiri van.“ En postolinn hafði traust undir[3] guði ok hræddiz eigi reiði konungs, ok lagði hann þa hendr yfir hôfuð meyiunum ok blezaði, ok mællti: Guð skapari likama ok anda, er engan fyrirlitr ok engan skilr [fra sinni[4] miskunn, ungan ne gamlam, karl ne konu, gofgan ne ogofgan, helldr ertu iafnt[5] allra skapari ok lausnari! Hlif þu þessum ambattum þinum með skilldi fulltings þins, þviat þu ert goðr hirðir ok valdir þær or flokki hiarðar þinnar ok helgaðir til dyrðar meydoms[6] ok til hreinlifis andar. Efl þu þær til allz goðs verks ok dyrligra krapta, at þær stigi yfir holldligar girndir ok olofaða munuð, ok se þær staðfastar i elsku sonar þins Jesus Kristz. Veittu þeim, drottinn, andlig herklæði, ok hlif sva likomum þeira, at syndir megi eigi velldi hafa i holldi þeira ne i hug. Lifi þær sva i miskunn þinni, at ekki megi eignaz i þeim ovinr goðra [en illra styðiandi[7]. Slokk þu allan skaðsamligan hita likams i þeim með[8] dogg himneskrar milldi, ok kveik i þeim hreinlifis lios. Veri með þeim hreinn meydomr, pryddr ok efldr rettri tru ok vissri van ok algôrri ast. Veittu þann hreinlifis krapt i hug þeira, er yfirstigi diôful ok allar hans velar, sva at þær fyrirlati alla likamliga hluti, en þekkiz andliga, ok þyðiz fôstur meirr en likamligar krasir, meirr bønir ok helgar bøkr en ofdrykkiu. Se þær føddar bønum ok fylldar kenningum, en lystar i vôkum ok albunar at fylla ôll goð verk. Hlif þu ambattum þinum með þessum dugnaðarvapnum, ok veit þeim at ganga osaurgaða gôtu meydoms til drottins vars Jesus Kristz, lausnara anda varra, með þeim er þer guði feðr vegr ok dyrð með anda helgum um odauðligar alldir allda.“ Þa svoruðu allir ok kvaðu amen. Siðan song Matheus messu ok framdi alla guðs[9] þionostu. En[10] þa for hverr heim til husa sinna. En Kristr dvaldi postola sinn eptir i kirkiu, ok tok hann þar pisl fyrir guðs nafni, er hann stoð fyrir alltari, þar er hann hafði helgat corpus domini. Þviat sendimaðr konungs kom ok lagði sverði a meðal herða honum, þa er hann hellt hondum til himna, ok for þa Kristz postoli ok piningarvattr til guðs.

1 er *B.* 2 [hann lifdi ok þau bęđi *B.* 3 af *B.* 4 [þu fra þinni *B.* 5 iafn *B.* 6 mandoms *B.* 7 [*mgl. B.* 8 [miskunn ok *tilf. B.* 9 gudliga *B.* 10 *tilf. B.*

5. En er lyðrinn fra þat, þa foru þeir með elldi til konungs hallar, ok villdu brenna hann inni. En prestar ok kennimenn runnu a moti þeim ok mælltu: „Hirðit eigi þer [hræðaz ok[1] gera i gegn boðorði guðs; þviat Petrus postoli bra sverði ok hio eyra af einum þræli, þeim er i liði var þeira, er hôndluðu drottin; en hann villdi sin eigi hefna lata, helldr grøddi hann eyrat, er af var hoggvit, ok mællti: Veiz þu, at faðir minn mætti senda mer meirr en .xii. þusundir englaliðs, ef ek villda. Hôlldum ver þa ok allir[2] pislartið postolans með fagnaði, ok biðum þess, er guð vill gera.“ En Ephigenia hin helgasta mær veitti kennimônnum guðs fe þat, er hon atti i gulli ok silfri ok i gimsteinum, ok mællti: „Geri þer kirkiu postola guðs, ok gefit valoðum fe þat, er af þvi gengr. En ek verð enn at eiga þrautir við Hirtacum.“ Siðan sendi Hirtacus [konur rikismanna til Ephigeniam ok vænti, at þær[3] myndi telia henni hughvarf. En er þat matti eigi verða, kallaði hann þangat[4] galldramenn, at þeir mætti tæla hana með diôfla velum. En er þeir mattu eigi [lok a þvi gera[5], þa let hann elld leggia i bø hennar, þar er hon var inni ok þionaði guði nott ok dag. En er børinn tok at loga umhverfis hus hennar, þa vitraðiz henni engill guðs með Matheo postola, ok mællti: „Ver þu styrk, Ephigenia, ok hræz eigi elld þenna, þviat hann mun aptr hverfa.“ Þa gerði guð vind mikinn, ok lagði logann allan fra husum Ephigenie til husa konungs, ok brann holl hans, sva at engum eyri matti biarga, er þar var inni. En Hirtacus[6] komz ut or elldi með einka son sinn; ok væri honum þo þat betra, at hann hefði þar inni brunnit, þviat sonr hans var gripinn af diôfli [hinum sterkasta[7], ok rann hann þegar til leiðis Mathei ok ios upp þar fyrir alþyðu ôllum gløpum fôður sins. En eptir þat drap fiandinn Hirtacum hinni verstu likþra or hôfði ofan ok allt a føtr niðr. En er læknar ok fiôlkungir menn mattu hann eigi[8] grøða, þa lagði hann sialfr[9] sverði a ser. En [allir hlogu at dauða hans, ok toku broður Ephigenie til konungs[10], en hann het Veor, en hann hafði tru tekit af orðum systur sinnar, en skirn af Matheo postola. Halfþritugr var hann, er hann tok konungdom, en hann var konungr fiora vetr hins siaunda[11] tigar, ok hafði hann frið bæði við Serki ok [Rom-

1 [at *B.* 2 hatidardag ok *tilf. B* 3 [rikismenn til moz vit Efigeniam ok vęnti, at þeir *B.* 4 til sin *B.* 5 [lokka hana *B.* 6 konungr *tilf. B.* 7 [*mgl. B.* 8 lækna eda *tilf. B.* 9 sidan *B.* 10 [allr lydr hlo at dauda hans, ok var til konungs tekin brodir Ephigenie *B.* 11 fiorda *B.*

aborgarmenn[1], en þa voru öll heroð Blalandz full kristni ok almenniligrar truar. En takn mörg geraz af verðleikum heilags Matheus postola, er fyrstr reit[2] at ebresku mali guðspiall drottins vars Jesus Kristz, með þeim er guði feðr vegr ok dyrð [með helgum anda huggara nu ok æ[3] um allar alldir allda. Amen.

---

*Fragment.*

Tvæir fiölkunngir menn voro a Blalandi Zaroes ok Arfaxath i borg þæire er het Naddaber. En þar reð konungr fyrir, er Eglippus het. Þessir fiölkungir menn villtu alla þioð ok sögðuz guð vera. Konungrinn truði þeim, ok allr borgarlyðr, ok urðo þæir agætir of allt Blaland, ok komo menn viða or heroðum at göfga þa. En þæir namo sion eða gongo fra monnum ok kvölðo menn i sottum, meðan þæir villdo. Þæir sendo höggorma til mæins mönnum, ok grøddo sialfir sottir með gölldrum, þæim er þæir görðo. En fyr þvi at guði er røkð a monnum, ok vill hann öllum hialpa, þa sendi hann Matheum postola ok guzspiallamann sinn i mote þessi villo. En er hann kom, þa braut hann niðr fiölkynge þæira, ok gaf hann þæim monnum siön(!), er hinir fiöl-kungo görðo blinda, en þæim göngo, er þæir hepto. Höggorma svæfði hann, þa er þæir sendo til mæins mönnum, ok grøddi hann i guðs nafne mæin þau aull, er af ormunum urðo.

Maðr het Candacis, sa er var gelldingr, hann varðvæitte fe drottningar. Þenna mann hafðe Philippus postole skirðan. En er hann sa Matheum postola, þa fell hann til fota honum ok mællte: „Guð sa miskunnar augum a borg ora[4] ok sendi þik hingat til var, at þu læyster af höndum þessa .ii. fið(l)kunnegra manna, er hæimskir menn ætla guð vera.“ Þa læiddi hann postolann i hus sin, ok komo þar allir vinir Candacis at hæyra orð guðs, ok truðu allir a drottinn varn Jesum Kristum, ok toko margir tru ok skirnn, er þæir sa, at guðs postole eydde öllu illo, þvi er hinir fiölkungo menn gorðu maunnum. En þæir grönduðo þæim, er þæir mattu, unz hinir siuko baðo ser hæilso af þæim, ok syndoz þæir þa

1 [Romveria *B.* 2 ritadi *B.* 3 [ok med helgum anda huggara einum gudi i þreningu *B.* 4 *En senere Haand har rettet til* vora.

grøða, er þæir leto af at kvelia. En Matheus grødde æigi at æins þa, er þæir kvolðu, helldr alla þa, er til hans komo, hvatke er þæim var at mæine. En hann kende þæim guðs nafn, ok undroðuz aller mælsko hans. En Candaces, er við honum hafði tekit, spurðe hann ok mællte: „Segðu mer, hvi þat gegnir, er þu ebreskr maðr kant grikska tungo ok blalennzka, sva at þæir kunno æigi iafnvel, er þar ero føddir?" Matheus svaraði: „Allr hæimr hafði fyrst æina tungo, þar til er su dirfð hofz, er menn fystuz at gora stopul, þann er til himins tøki. En þessa dirfð stoðvaðe guð, sva at engi matte nema, hvat an(n)arr mælte. Þa gørðuz flæire kyn tungna, ok eyddiz þat rað, er menn bundo saman, meðan þæir hôfðo æina tungo; þvi at æigi var af goðum vilea helldr af illri dirfð þat, er þæir villdo overðir fara til hæilags staðar. En* . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

En er þau hôfðu bæði misgôrt, þa voro þau a braut rekin or lifs heraði hingat i dauða herað. En sialfr finnannde synðar varð fundinn i hôggorminum, ok var hann bôlfaðr. En sonr guðs tok mannz likam a sik, sa er með feðr ok helgum anda hafði skapat mannenn, ok fyrlet hann æigi guddom sinn, þa er hann tok manndom, ok var hann borinn guð ok maðr fra mæyio. En sia mær ok moðer varð kviðug af helgum anða, þa er hon heyrðe orð or engils munne ok truði þvi. En trua hennar samtængdiz við anda helgan, þvi at hann elskaðe þessa osôrgaða mey ok fann likam hennar hræinann ok aund hennar hræina ok tru ospillta, ok gerðiz guð maðr i kviðe hennar. Sem Salomon mællte ok sagðe fyrir, at guðs speki gerði ser hus. En sia maðr Jesus Kristr bøtte yfir misverk þess, er yfir varð stiginn af diôfli ok braut rekinn or paradiso hingat i hæim. En hinn fyrste maðr var or iorðu gorr, ok var iorðin mær, meðan hon var osaurguð ok æigi spillt af synðum ne uthellingo bloðs. Af þvi var þat rett, at sa var fra meyio borinn, er bøtte yfir verk mæiar(!), ok hann stige fastande yfir þann, er sigr vann a þæim, er þat át, er guð bannaði. Jesus Kristr ste yfir velar fiandans ok yfir dauðann deyiande ok lauk upp himnesko paradisis(!) i upprisu sinne fyr ôndum allra hæilagra, þa er þæir fara or likômum sinum, sva at aller mego nu þangat komaz an ifa, þæir er Kriste þiona.

3. En er postolenn hafði þetta mællt við lyðinn, þa gekk hann inn i borgina. En þar var gratr mikill ok ogleði, þvi at sonr konungs var þa dauðr. En þæir Zaroes ok Arphaxath stoðu

* *Her mgl. et Blad; jvf. ovenfor S. 798[32]–800[20].*

hia like hans ok hugðuz mundo ræisa hann af dauða. En er þæir mattu þat æigi gora, þa tôlðu þæir þat fyr konunge, at hann væri uppnuminn ok orðinn at guðe, ok gøra skylde honum hof ok likneske ok blota hann. En Candacis gilldingr(!) gekk fyr drottningo ok mællte: „Seti þer i bônð þessa fiô(l)kunga menn, ok biðit at hingat kome Matheus postole, en ef hann ræisir hann upp af dauða, þa brenni þer galldramenn i elldi kvika, þvi at ver hliotum allt illt af þæim i borg varre.“ Þa var Candacis sendr ok hiner gôfgusto menn af hirð konungs með honum eptir postolanum. En er þæir læiddo hann með mikilli vegsemð fyr konung, þa fell Eufemora drottning til fota postolanum ok mællte: „Ek væit, at þu ert postole sendr af guði ok þess læirisvæinn(!), er dauðum gaf lif ok ôllum siukum hæilso með orði sino. En nu kom þu at kalla a nafn hans yfir son minn dauðan, ok true ek, at hann môn þa lifna.“ Matheus svaraði: „Þu hefir æigi enn hæyrða kenning drottins mins Jesus Kristz af munni minum, ok truer þu þegar. Af þvi skalltu vita, at son þinn mun lifna.“ Þa hellt Matheus hôndum til himins ok mællte: „Guð Abraham, guð Ysaac, guð Jacob, er sendir æinka son þinn af himne til iarðar at biarga oss ok læysa villo ok syna oss þik sannann guð. En nu minztu orða drottins mins Jesus Kristz sonar þins, er hann mællte: Satt segi ek yðr, hvatke er þer biðit fôður i nafne mino, þa man hann gefa yðr. En at allar þioðer vite, at engi er guð nema þu, ok kenning munnz mins er sônn, þa rise upp sveinn sia af dauða.“ Þa tok Matheus i hônd enum dauða ok mællte: „I nafne Jesus Kristz hins krosfesta ris þu upp, Eufronon!“ Þa ræis svæinninn upp þegar. Þa oaðiz konungrinn, ok bað hann føra honum korono ok purpura, ok sendi hann rennara of borgina ok of hin nęsto Blalannz heroð ok mællte: „Komi þer til borgar ok seð guð i mannz liki.“ Þa kom allr lyðr með kertum ok ræykelsi ok með ôllum vanða blota. Þa mællte Matheus við lyðinn: „Eigi em ek guð, helldr þræll drottins mins Jesus Kristz sonar guðs lifanda, er mik sendi til yðar at kynna yðr sannan guð ok læiða yðr fra villo skurðgoða. En ef þer ætlit mik likann guði, hverso helldr[1] trua a þann guð, er ek em þræll, ok ræista ek i hans nafne konungs son af dauða. En er allir, er retta skynsemi megið skilia, take þer braut heðan gull ok silfr ok gørsemar þessar allar,

1 *En Haand fra 17de Aarhundrede har over Linien skrevet* skulu þier, *hvilke Ord ere udeglemte af den gamle Afskriver.*

ok farit ok gòrit[1] musteri guði ok komit þangat opt at heyra orð guðs."

Þa komu til .lx. þusunda manna ok gorðo kirkio a .xxx. daga, en su kirkia var kòlloð upprisa Mathei, þvi at af upprisu hins dauða gerðiz kirkiogorð sia. En Matheus postole setti byskupsstol sinn at þesse kirkio ok reð þar fyrir .iii. vætr ok .xx. ok krisnaði margar borgir ok bøi ok heroð, ok let kirkior gøra ok vigðe byskupa ok presta ok kennimenn. Eglippus konungr tok skirnn ok kona hans Eufenora ok son þæira er af dauða var ræistr Eyfronon, ok dottir þæira Ephigenia, en hon var mær alla æfi. En þæir Zaroes ok Arphaxath hinir fiòlkungo menn .ii. flyðo af Blalandi, þegar er Matheus hafði konungs son reistan af dauða, ok foro til Serklannz ok Persialannz, ok gerðo þar slikt eða verra, sem þæir hofðu gørt a Blalande, ok villto þar margar þioðer, unnz guð sendi postola sina Simonem ok Judam a mot villo þæira. En langt er at telia, hverso maurgum blindum maunnum Matheus gaf sion, eða hverso marga hann grøddi siuka eða ræiste af dauða, eða hverso konungr varð kristinn ok lyðr hans allr. Þa mòn ek liða yfir þat ok segia, hverso Matheus kom til pislar fyr guðs nafne.

4. Eglippus konungr bæið goða elli ok for til guðs, en broðurson hans tok velldi eptir hann, en sa het Hirtacus. En hann villde ganga at æiga Ephigeniam dottur hins andaða konungs, er þa var Kriste helgoð ok hafði þa nunnovigslo tekit af postola guðs, ok reð þa fyrir mæirr en .cc. mæ(y)ia. En Hirtacus vætte, at hann mundi þat geta at postolanum, at hann snere hugskote mæyiarennar eptir vilea hans, ok lætzt gefa mundo honum helming rikis sins, ef hann gerðe sva, at Ephigenia mær villde ganga með honum. Matheus svaraði honum: „Sva vanðez[2] Eglippus konungr, meðan hann lifðe, at hann kom hvern drottinsdag at hæyra orð guðs. En þu bioð þat nu, at margr lyðr kome hinn næsta drottinsdag, ok sva Ephigenia með mæyiar sinar, ok mòntu þa heyra, hverso marga goða lute ek mòn telia of helgan hiuskap, þvi at rett halldner hiuskaper ero þeger guði." En þvi male varð Hirtacus feginn ok bað mart manna koma þangat, ok sendi orð, at Ephigenia skylde koma at hæyra orð postolans, ok ætlaði hann þat, at þa mònde hugr hennar hverfa eptir þokka hans. En er lið mart var komit, þa hof Matheus upp tòlo sina ok mællte: „Heyre þer mal mitt,

1 *I Codex staar* òrit, *samme Haand fra 17de Aarhundrede har føiet* g *til.*
2 *Oprindeligt* vanðe, *men en senere Haand har tilføiet* z *over Linien.*

allir synir kristninnar! hæyre þer ok skilit ok halldit i hiòrtum yðrum. Guð varr (helgaði)[1] hiuskapi ok lofaði likamlega ast veralldlegum monnum, at maðr unne kono sinne, ok kona manne sinum. En þat seam ver opt verða, at konur skiliaz við bøndr sina, eða menn læiðaz konur sinar. En þæir gòra i gegn þæiri ast, er guð væitte ok lofaði at hallda i likòmum. En hiuskapr framiðr með guðhræzlo, þar er hiu fara saman að guðs lògum, sva at kalmaðrinn(!) hefir æigi munuðlifi við aðra kono, ne kona við annan mann, hræinsa lòg guðs hiuskapinn af synða saure. En sia saurgan ok likams munoð ma hræinsazk fyr òlmosogøðe ok miskunnarverk, ok er æigi sva þung synð, at æigi megi hræinsaz fyr yðranar(!) tar. Hiuskapr hefir saurgan likams af munoðlife en æigi gløp. En sa er æigi helldr sik iafnt fra munoðlife sem fra kiòtate of langafòsto eða aðrar lògfòstutiðer, þa hefir hann æigi at æins sòrgan likams helldr ok gløpinn, ok þat er æigi synð, þot maðr matiz, helldr þat er hann mataz a fòstutiðum. Sva er ok ef nokkurr tekr fyst likams føzlo, en siðan dirfir hann sik at taka corpus domini samdøgris, þa verðr hann hvarstveggia sekr af dirfð oc osiðsemi, ok verðr æigi af þvi sekr, at hann ete, helldr af þvi at hann gorði i gegn guðs lògum ok rettum sið ok át, aðr hann tøke corpus domini; þvi at verkin gòra æigi mannenn sekian helldr oskynseme ok ostilling verkanna. Mandrap er illt, þar er saklaus maðr er veginn, ok vitum ver þo stundum mandrapit lofat vera ok rett, þar er ovinr friðarens er drepinn eða þiofr eða vikingr. Eigi ero verk af eðli ill, helldr af ostilling; þvi at ef oskirðr maðr tekr corpus domini, þa snyr hann goðu til illz ok tekr þaðan sekð, er hann mætte sik leysa fra æilifre kvol. Sva ero ok hiuskaper goðer, þæir er helgaz af guði ok blæzazk af kennimonnum ok halld* . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

þu ambattum þinum með þessum dugnaðarvapnum, ok væit þæim at ganga osaurgaða gauto mæydoms til drottins vars Jesus Kristz lausnara anda varra, með þæim er þer guði feðr vægr ok dyrð með anda helgum of odau(ð)ligar allder allda. Þa svòroðo aller ok kvaðo amen. Siðan sòng Matheus messo ok framðe alla guðs þionosto. Þa for hverr hæim til husa sinna. En Kristr dvalðe postola sinn eptir i kirkio, ok tok hann þar pisl fyr guðs nafne,

[1] *Ordet* helgaði *er glemt i Haandskriftet; en Haand fra 17de Aarhundrede har over Linien mellem* varr *og* hiuskapi *tilskrevet* getinn i. * *Her mgl. 1 Blad; jvf. ovenfor S. 804*$^{4}$*–805*$^{28}$.

er hann stoð fyrir alltare, þar ær hann hafðe helgat corpus domini. Þviat sendimaðr konungs kom ok lagðe sverðe a meðal herða honum, þa er hann hellt haundum til himna, ok for þa Kristz postole ok piningarvattr til guðs.

5. En er liðrinn(!) fra þat, þa foro þæir með elldi til konungs hallar ok villdo brenna hann inni. En prestar ok kennimenn runnu a mot þæim ok mællto: „Hirðit æigi ær hrøðaz ok gøra i giegn boðorði guðz, þvi at Petrus postole bra sverðe ok hio æyra af æinum þræle, þæim er i liðe var þæira, er hôndluðo drottin. En hann villde sín æigi hefna lata, helldr grøde hann æyrat, er af var hôggvið, ok mællte: „Væiz þu, at faðir minn mætte senda mer mæirr en .xii. þusundir englaliðs, ef ek villda. Hôlldum ver þa ok allir pislartið postolans með fagnaðe, ok biðum þess ær guð vill gøra. En Ephigenia hin helgasta mær væitte kennimonnum guðs fe þat er hon atte i gulli ok silfre ok i gimsteinum, ok mællte: „Geri þer kirkio postola guðs, en gefit valoðum fe þat er af þvi gengr. En ek verð enn at æiga þrautir við Hirtacum.“ Siðan sendi Hirtacus konur rikismanna til Ephigeniam, ok vænti at þær môndi tælia henne hugbvarf. En er þat matte æigi verða, þa kallaði hann þangat galldramenn, at þæir mætti tæla hana með diôfla velum. En ær þæir mattu æigi lok a þvi gera, þa let hann elld leggia i bø hennar, þar ær hon var inne ok þionaði guðe nott ok dag. En er børinn tok at loga umbhverfis huss hennar, þa vitraðiz henne engill guðs með Matheo postola ok mællte: „Ver þu styrk, Ephigenia, ok hræz æigi ælld þenna, þvi at hann man aptr hverfa.“ Þa gôrðe guð vind mikinn, ok lagði logann allan fra husum Ephigenie til husa konungsens, ok brann hôll hans, sva at engum æyri matte biarga, er þar var inne. En Hirtacus komz ut or elldi, ok með ænka son sinn, ok veri honum þo þat betra, at hann hefði þar inne brunnit, þvi at sonr hans var gripinn af diôfle enom sterkasta, ok rann hann þegar til leiðis Mathei ok ios upp þar fyr alðyðo ôllum gløpum fôður sins. En eptir þat drap fiandinn Hirtacum hinne versto likðra or hôfði ofan ok allt a føtr niðr. En er læknar ok fiôlkunger menn mattu hann æigi grøða, þa lagðe hann sialfr sverðe a ser. En aller hlógo at dôða hans ok toko broður Ephigenie til konungs. En hann het Veór, en hann hafði tru tekit af orðum systur sinnar, en skirn af Matheo postola. Halfðritogr var hann, er hann tok konungdom, en hann var konungr .iiii. vætr hins siônda tigar, ok hafði hann frið bæði við Serke ok Romaborgar menn. En þa voro ôll heroð

Blalannz full kristne ok almennelegrar truar. En takn mòrg gøraz af verðlæikum hæilags Matheus postola, er fyrstr ræit at ebresko male guzspiall drottins vars Jesus Kristz, með þæim ær guðe feðr vegr ok dyrð með helgum anda huggara nu ok ey um allar alldir allda. Amen.

---

## II.

*Passio sancti Mathei apostoli.*

Tveir fiolcunger menn voro a Blalande Zaroes oc Arfaxáþ i borg þeire es hét Nabdaber. En þar reþ konongr sa fyrer, es Eglippus het. En þesser ener fiolcungo menn vilto þar þioþ alla, oc søgþosc goþ vera. Konongrenn truþe þeim, oc allr borgarlyþr, oc urþo þeir agęter of alt Blaland, oc como menn viþa ór hierøþom(!) at gøfga þá. En þeir nómo sýn eþa gøngo fra mønnom oc qvolþo menn i sóttom, meþan þeir vildo. Þeir sendo hǫggorma til meins monnom, oc grædo sialfer sotter með gølldrom þeim er þeir gerþo. En firer þvi es goþe er røcþ a monnom, oc vill hann øllom hialpa, þa sendi hann Matheum goþspiallamann þangat oc postola sinn i gegn villo þesse. En er hann com þangat, þa braut hann niþr fiolcynge þessa, oc gaf hann þeim mønnom syn, er ener fiolcungo høfþo blindaþa, en þeim gøngo, es þeir hefto. Hǫggorma svęfþi hann, þa er þeir sendo til meins monnom,oc græde hann i goþs namni mein þau ǫll, er af hǫggormonom urþo.

Maþr hét Candacis, sa var geldengr, hann varþveitte fe drotningar. Þenna mann hafþi Philippus diacn scirþan. En er hann sá Matheum postola, þa fell hann til fota honom oc melte: „Goþ sa miscunnar augom a borg þessa oc sende þic til vár, at þu leyster ǫss af bǫndom þessa .ii.ª fiolcung(o) manna, er heimscer menn ętla goþ vera.“ Þa leide hann postolann inn i hus sín, oc como aller viner Candacis þangat at heyra orþ goþs, oc truþo aller a dominum Jesum Cristum, oc toco marger scirn, er þeir só, at goþs postole eydi øllo illo, þvi er ener fiolcungo menn gerþo monnom. En þeir grøndoþo þeim, es þeir mótto, unz ener siuco boþo sér heilso af þeim, oc syndosc þeir þa græþa, es þeir leto af at qvelia. En Matheus græde eigi at eins þa, er þeir

qvolþo, heldr þa alla, er til hans como, hvatki es þeim var at meine. En er(!) hann kendi þeim goþs namn, oc undroþosc aller mẹlsco hans. En Candacis, er viþ honom hafþi tekit, spurþi hann oc melte: „Segþu mer, hvi þat gegner, er þu ebrescr maþr cant griska tungo oc blalenzka, svat þeir cunno eige iamvel mẹla, er þar ero føder?“ Matheus svaraþe: „Alr heimr hafþi fyrst eina tungo, unz su dirfþ hofsc at gera stopul, þann er til himens tøki. En þessa dirfþ stọþvaþe goþ sva, at engi matte nema, hvat annarr melte. Þa gerþosc fleire cyn tungnanna, oc eydesc þat raþ, es menn bundo saman, meþan þeir hofþo eina tungo, þviat eigi var af goþom vilia heldr af illre dirfþ þat, er þeir vildo overþer fara til heilax staþar. En goþ(s) sonr com at syna þat, hverso þann støpul scal smiþa, er til himens ma[1] upstiga ýr, oc sendi hann ọss .xii. discipulis suis spiritum sanctum af himne, þa er ver sótum i einom staþ, oc com spiritus sanctus ifer hvern varn i eldligom tungom, oc lystomc ver af honom. Þa hvarf fra ọss øll hræzla, oc tocom ver at mela a allar tungor of iarteiner Cristi, oc hverso sonr goþs var natus hingat i heim, sa er var oc er firer allar alder. En hann var natus fra meyio oc up fødr oc scirþr oc pindr, dauþr oc grafenn, oc reis up a .iii. dege oc ste til himna, oc sitr til høgre handar goþs fọþor almattegs, oc mon þaþan coma at døma of allan heim meþ ogn ellz. En eigi es sicut þu ẹtlar, Candacis, at ver discipuli eius kunnem þessar einar tungur, er þu nemnder nu, heldr cunnom vér alra þioþa tungur mela oc scilia, h(v)arge sem vér comom, þviat nu er ger støpull til himna, eigi or steinom, heldr af crafti Cristi. Aller þeir er scirasc in nomine patris et filij et spiritus sancti, þeim lýxc up støpull sa es goþ smiþaþi, oc smiþa þeir ipsi þann støpul, unz þeir stiga up til himinrikis.

2. En er postolenn hafþi þetta melt meþ micille scynseme, þa sagþe maþr, at hiner fiolcungo menn Zaroes oc Arfaxaþ foro þangat oc flugdrecar þeira En flugdrecarner voro ogorliger oc bleso af nøsom sér reyc oc brennosteins loga, oc fengo menn sott eþa bana af þeim daune. Þa signde Matheus postole sic oc vilde ganga út a mot þeim. En Candacis bannaþi honom oc lauc aftr durom oc melte: „Stattu viþ glugg, ef þu vill, oc mẹl þaþan.“ Matheus svaraþi: „Luc up þu durom oc statt ipse viþ gluggenn, oc se dirfþ þeira.“ Þa lauc postolenn up durom oc gec ut, es

1 *Skriveren har først skrevet* sl' (*d. e.* scal), *men senere sat* m *foran og rettet* sl' *til* a.

hiner fiolkungo voro comner oc flugdrecar þeira. En þegar es flugdrecarner como firer kne postolanom, þa somnoþo þeir. Matheus melte viþ ena fiolkungo: „Hvar er nu vęl yþor? Veket it nu ormana, ef it meget. En ef ec bęþa dominum nostrum Jesum Cristum, þa mętta ec senda þa aftr til ykar, oc mønda ec sva støþva þat mein, er it efldoþ i gegn mér. En þa er saman cǫmr alr lyþr, sa er nu þorir eigi hingat at ganga, þa mun ec vekia ormana oc bioþa þeim aftr at fara til sinna staþa hófsamliga.“ En þeir leitoþo viþ meþ fiolkynge sinne at vekia drecana, oc motto þeir eigi up hefia augo sin ne vacna ne hrærasc. Þa melte lyþrenn viþ Matheum: „Ver biþiom þic, at þu leyser borgarlyþ þenna fra dyrom þessom.“ Matheus svaraþe: „Eigi scolot ér hręþasc, ec mon þeim a braut visa, svát eigi scal mein at þeim verþa. Þa leit hann til drecanna. I nomine domini mei Jesu Cristi, þess er getenn es de spiritu sancto oc natus fra meyio oc seldr Gyþingom af Juda lerisveini sinom; en þeir crossfesto hann oc grofo, en hann reis up a þriþia dege af dauþa oc var meþ ǫss .xl. daga, oc minnte ǫss a in somo orþ, sem hann hafþi øss kent fyrer pisl sina; en siþan sté hann til himna, svát vér som, oc sitr hann til høgre handar foþor sins, oc mon hann þaþan coma at dǫma· of cyqva oc of dauþa; i hans nafni oc crafti søri ec þic ohr(e)inn andi, sa er firer ǫllom ormom røþr, at þu veker flugdreca þessa, oc later þa fara aftr hofsamliga til sins staþar, svat þeir gere eki grand monnom ne foglom ne dyrom.“ Þa hofo drecarner up augo sin oc høfut sin oc foro ut i[1] borgarhliþ, oc urþo aldregi sener siþan. En Matheus melte viþ allan lyþ: „Høriþ, brøþr oc synir, oc aller þeir, es leysa vilia ander sinar fra enom forna dreca, þat er diofle, fyrir heilso yþra sendi goþ mic hingat, at ér firerletet villo scurþgoþa en tryþet scapera yþrom. Goþ scapaþi inn fyrsta mann oc setti hann i paradisom(!).

Paradisus es staþr góþr ollom fiøllom øþre oc nalęgr himne, oc hefir eki þat i sér, er gagnstaþlect er villo manna. Þar hrøþasc eigi foglar fǫr manna, þar vaxa eigi þornar ne illgrese, þar hrarnar(!) aldregi blomar, þar missir einnigra grasa, þar er eigi mein at elle ne øsco, þar ero avalt bliþ veþr i lofti oc goþr ilm(r) firer nøsom, þviat sicut reykelsis ilmr tecr a braut illan ilm fra nǫsom, sva taca oc nasar þeira, es þar ero, ilm eilifrar dyrþar; þar eldesc maþr eigi ne møþisc ne sykvesc; þar reystir hliomr engla goþs sanctorum firer eyrom, oc dyrligar raddir; verþra þar høgg-

1 l *Cd.*

ormr ne froscr ne padda, ne eki illcycqvende þat er grande heilso manna; þar þiona monnom en oorgo dyr, oc hvatqe es maþr męler viþ fogla eþa dyr, þa ero þau iamhlyþin honom sem goþe; .iiii. ár falla þaþan, ein heitir Fison, ønnor Gion, þriþia Tigris, fiorþa Eufrates. Þessar ár ero fullar allzcyns fisca, oc þa er maþr męler viþ vatnet, at þat sendi honom fisca, þa fellr óen up firer føtr honom meþ alzcyns fiska, svát hann ma taca sem hann vill, en þá efter lata, es þat vill hann. Sva it sama oc foglar, oc øll cycvende, þau er monnom mego vera til crasa, þa coma þegar er nemnder ero, oc þarf eigi þar at søfa þá til fęzlo, oc hefir þo hverr gnóga føzlo af þeim oc firerbunar craser af almatcom goþe, oc ero kycqvende þau øll heil oc oscød, þviat hveriom ero þar ǫrnar craser oc fullr føgnoþr, er hann veit, at øll cyqvende þiona honom. En þęr craser, er þar ero, verþa sva hveriom þokaþar, sem hugr hans beiþer. Þar geresc eigi saurr i qviþi manz af áte ne af dryk; þar er eigi hunda gauþ ne ulfa þytr, ne grenion enna oorgo dyra; þar ero aller hluter bliþer oc aller cyrrer oc hogvęrer; þar er aldregi himens fegrþ siukom(!) hulit; þar fliuga aldregi eldingar, þar verþa eigi reiþarþrumor, heldr er þar gleþi avalt on enda, oc hotiþ su er eigi hefir endemarc. En firer þvi er eigi høggormr þar, at øfundar engill framþe illzco .sina fyr høggormenn, oc var hann sva bolvaþr siþan, at hann ma eigi vera i blezoþom staþ.

En at þvi var illom engli øfund, es hann sá goþs licnesce vera i manninom, oc maþrenn matte vera i lifs heraþe, þar er øll cyqvende þionoþo honom. Þa toc engill øfund af ser siolfom oc melte firir høggormenn viþ konona ens fyrsta manz, at þau ęte eple bannaþs trés. En siþan sveic kona carmann(!). En er þau høfþo beþi misgert, þa voro þau beþi a braut rekin yr lifs heraþi hingat i dauþa heraþ. En siþan ipse finnande synþar varþ fundenn i høggormenom, oc var hann bølvaþr. En sonr goþs toc manz licam a sic, sa er meþ feþr oc spiritu sancto hafþi scapaþ mannenn, oc firerlét hann eigi godom sinn, þa er hann tóc manndom, oc hann var borinn goþ oc maþr fra meyio. En sia męr oc moþer varþ qviþog af spiritu sancto, þa er hon heyrþi orþ ór engils munni, oc truþi þvi. En trua hennar samtingþesc(!) viþ spiritu sancto, þviat hann elscaþe þessa osaurgaþa mey, oc fann hann licam hennar hreinan oc ǫnd hennar hræina oc tru ospilta, oc gerþesc goþ maþr i qviþi hennar. Sem Salomon melte oc sagþe fyrer, at goþs speki gerþi sér hus. En sia maþr Jesus

Cristus bøtti iver misgerþ þess, er iver varþ stiginn af diofle oc braut rekenn ór paradiso hingat i heim. En inn fyrsti maþr var ór iorþo gørr, oc var iorþen męr, meþan hon var osaurgoþ oc eigi spilt af synþom ne af uthellingo bloþs. Af þvi var þat rétt, at sa være fra meyio natus, es bøtte iver verc meyiar sonar oc stige fastande iver þann, er sigr vá a þeim, er át þat er goþ bannaþi. Jesus Cristus ste iver vęlar fiandans oc deyiande iver dauþann, oc lauc up paradisum i uprisu sinne. Þangat leide hann hann fyrstan þiof, þann er hec a tre meþ honom, oc lauc hann up paradisom firer alra sanctorum ǫndom, þa er þeir fara or licømom sinom, svat aller mego nu þangat comasc ón iva, þeir er þiona Cristo. En a enom e(f)sta dege þa er up loket himenriki, svát þeir mego þa þangat comasc efter upriso sina. En nú renni sa er vill fra dauþa til lifs oc hverfe aftr til paradisar, þaþan er licamligr pater noster var a braut sendr meþ øllo sino cyne i utlegþ þessa heims. Dominus lauc up (firer) ǫss dyrr paradisi, at ver hverfem aftr til fostriarþa varra, þar er avalt er føgnoþr oc aldregi cømr dauþe.

3. En er postolenn hafþi þetta melt viþ lyþenn, þa gek hann inn i borgina. En þar var gratr micill oc ogloþe(!), þviat sonr konongs var þar dauþr. En þeir Zaroes oc Arfaxaþ stoþo hia lice hans oc hugþosc mondo reisa hann af dauþa. En er þeir motto þat eigi, þa tølþo þeir þat firer konongi, at hann være upnuminn oc orþenn at goþe, oc gera scylde honom hof oc licnesci oc blota hann. En Candacis geldengr gec firer drotningo oc melte: „Seteþ ér þessa ena fiolkungo menn i bønd, oc biþet at hingat come Matheus postole, en ef hann reiser þenna mann af dauþa, þa brenni þér galdramenn þessa i elde cycqva, þviat vér hliotom alt illt af þeim i borg varre.“ Þa var Candacis sendr oc hiner gøfgusto hirþmenn konongs meþ honom efter postolanom. En þeir leido hann firer kne konongi meþ micille vegsemþ. Þa fell Eufenora drotning til fota postolanom oc melte: „Ec veit at þu, postole, ert sendr af goþe, oc ert þess discipulus, es dauþom gaf lif oc øllom siukom meþ orþi sino. En nu comþu oc call a namn hans iver son minn dauþan, oc trui ec, at hann mun þa lifna.“ Postolenn svaraþe henne: „Þu hevir enn eigi heyrþa kenning domini mei Jesu Cristi af munni minom, oc truer þu þegar. Af þvi scaltu vita, at þu sonr þinn[1] monn lifna.“ Þa

[1] sonr þinn *er med Nedflytningstegn skrevet over* þu, *uden at dette er udslettet.*

helt Matheus hondom til goþs oc melte: „Goþ Abraham, goþ Isaac, goþ Jacob, es sende einga son þinn af himne til iarþar at biarga øss oc leysa øss fra villo oc syna oss þic sannan goþ. En nu minztu orþa goþs domini nostri Jesu Cristi sonar þins, es hann þat melte: „Satt segi ec yþr, hvatke er ér biþet føþor i namni mino, þa mon hann gefa yþr. En at allar þioþer vite, at engi er goþ nema þu oc kenning munnz mins es sønn, þa ríse up sveinn sia af dauþa.“ Þa tóc Matheus i hønd enom dauþa oc melte: „In nomine Jesu Cristi ens crossfesta ristu up, Eufronón!“ Þa reis svennenn(!) up þegar. Þa oaþesc hiarta konongs oc baþ hann føra honom postolanom corono oc purpura, oc sende hann rennera of borgena oc of in nęsto Blalandz heroþ oc melte þetta: „Comet ér til borgar oc sét goþ, þann er leynisc i mannz like.“ Þa com allr landherr þangat meþ kertom oc reykelse oc meþ øllom vanþa blótom. Þa melte Matheus viþ lyþenn: „Eigi em ec goþ, heldr em ec þrell domini Jesu Cristi sonar goþs, es mic sendi til yþvar at cynna yþr sannan goþ oc leiþa yþr fra villo scurþgoþa yþvarra. En ef ér etlit mic glikian goþe, þa mun ec segia yþr, hverso miclo heldr ér scolot trua a þann goþ, es ec em þręll hans, oc reista ec i hans namni konongs son af dauþa. En ér aller, er retta scynseme megoþ scilia, taket braut heþan gull þetta oc silfr oc gersemar, oc farit oc gerit mustere goþe, oc comet þangat oft at heyra dyrþ goþs.

Þa como til .lx. þusunda liþsmanna oc gerþo kirkio a .xxx. døgom(!). En su kirkia var colloþ uprisa Mathei, þviat af uprisu ens dauþa gerþesc kirkiogerþ sia. En Matheus postole setti byscopstol sinn at þeire kirkio, oc reþ þar fyrer .iii. vetr oc .xx. oc cristnaþi margar borger oc bøe oc lét gera margar kirkior oc vigþi byscopa oc presta oc kennimenn. Eglippus konongr toc scirn, oc cona hans Eufenora oc sonr þeira, er af dauþa var reistr Eufronon, oc dotter þeira Efigenia, en hon var męr goþs alla ęfe. En þeir Zaroes oc Arfaxaþ fløþo af Blalande, þegar er Matheus hafþi konongssonenn reistan af dauþa, oc foro til Serclandz oc Persidalandz oc gerþo þar slict eþa verra, sem þeir høfþo gert a Blalande, oc vilto þar marga þioþ, unz goþ sendi þangat postola sina Simonem oc Judam a mot villo þeira. En langt er at telia, hverso morgum Matheus gaf syn blindom, eþa hverso marga hann græde siuca, oc reiste af dauþa til lifs, eþa hverso cristenn konongr varþ eþa lyþr hans, þa scal nu segia, hverso Matheus com til pislar firer goþs namni.

4. Eglippus konongr beiþ goþa elle oc for til goþs, en broþorsonr hans tóc veldi efter hann, en hann (het) Hirtacus. En hann vilde ganga at eiga Efigeniam dottor Eglippus konongs, er þa var Cristo helgot, oc hafþi þa nunnovixlo teket af postola goþs, oc reþ þa firer meir en .cc. meyia. En Hirtacus vętte, at hann mønde þat geta at postolanom, at hann snere hugscote meyiarennar efter vilia hans, oc lezk gefa mundo honom helming rikis sins, ef hann gerþe svá, at męren vilde ganga meþ honom. Postolenn svaraþe honom: „Sva vanþe(!) Eglippus konongr, meþan hann lifþe, at domini dag hvern com margr lyþr at heyra orþ goþs. En þu bioþ þat, nu oc, at marger lyþer come at heyra orþ goþs en nesta domini dag, oc sva Efigenia oc meyiar hennar, oc mundo þa heyra, hverso marga hluti goþa ec mon telia of rettan hiuscap, þviat retter hiuscaper ero þegiliger goþe.“ En þvi male varþ Hirtacus feginn oc baþ mart manna þangat coma, oc sende orþ, at Efigenia cøme oc meyiar hennar at heyra orþ postolans, oc ętlaþe hann þat, at þa mynde hugr hennar hvẹrfa efter þoka hans. En er liþ mart var comet, þa hóf Matheus up tǫlo:

Heyriþ ér mál mit, aller syner cristnennar! heyriþ ér oc scilet, oc haldet i hiortom yþrom. Goþ várr helgaþe hiuscape oc lofaþe licamliga ost veraldar monnom, at maþr ynni kono sinni oc kona manne sinom. En þat siom ver oft verþa, at carlar sciliasc viþ konor sinar, en konor leiþasc buendr sina. En þeir gera i gegn þeiri ost er goþ veitte oc lovaþe at heldesc i licǫmom. En ef hiuscapr er frameþr meþ goþs hręzlo, þar er hiu fara saman at goþs løgum, svát carlmaþrenn hevir eigi munoþlife viþ aþra kono ne konan viþ annan mann, þa hreinsar goþ(s) løg hiuscapen af synþa saure. En sia sǫrgun oc licams monuþ má hreinsasc firer olmoso gøþe oc miscunnar verc. Oc er su eigi sva þung synþ, at eigi megi hreinsasc firer utan iþronartór. Hiuscapr hevir saurgon licams af munoþlife en eigi gløp. En sá er eigi vill halda sic iamt fra munoþlife licams sem fra kiotáte of langaføsto eþa aþrar løgføstotiþer, þa hevir hann eigi at eins licams saurgon, heldr bøþe oc gløpenn, oc er eigi þat synþ, þót maþr matesc, heldr þat er hann etr a fostotiþom. Sva oc ef nøcqer dirfer sic at(!) at taca corpus domini þeira, er teket hefir aþr licams føzlona samdøgres, þa verþr hann hvarstveggia sekr, af dirfþ oc osiþseme; oc verþr eigi af þvi sekr, at hann ęte, heldr af þvi at hann gerþi i gegn goþs løgom oc rettom siþ oc át, aþr hann tøki corpus

domini; þviat verken gera mann eigi sekian, heldr oscvnseme oc ostilleng verkanna. Manndrap er ilt, þar er saclaus maþr verþr veginn, oc vitom ver þo stundom lovaþ manndrapet vera oc rétt, þar er ovinr friþarens es drepinn eþa þiofr eþa vikingr. Þa siom vér oc, at lygen es góþ, þót hon se ill i sino øþle, ef sa atburþr verþr, at ovinr þinn vill glata þer, en nøcqer feli þic firer honom oc segþese eigi vita, hvar þu vęrer, þa være honom eigi lofat at eins at liuga, heldr oc at sveria, oc gører þar sia atburþr goþan avøxt af tvennom illom hlutom, þat er lyge oc liugeiþr, þviat goþ dømer meirr at ahuga orom en at vercom. Sa er þat hreþise at liuga, oc selr hann firer þęr sacar mann til dráps, þar er sem hann hrøþesc at glata eirpenninge, en firer þęr sacar glatar hann byrþi gollz. En eige [ero verc[1] af øþle ill heldr af ostilling; þviat ef oscirþr maþr teer corpus domini, þa snyr hann goþo til illz, oc tecr þaþan af secþ eilifrar qvalar, es hann mętte sic leysa fra eilifre qvol. Sva ero oc hiuscaper goþer, þeir es helgase af goþe oc blezase af kennimonnom oc haldase at goþs løgom."

En þa es postolenn hafþe þetta melt, þa tóc Hirtaeus konongr oc hirþ hans at lova postolann miøe oc tølo hans, oc hugþe at til þess være sia tala ger, at snua hugsceote Efigenie meyiar til hiuscapar. En er sia tala var lengi lovoþ, þa baþ postolen sér hlioþs i annat sinn oc melte: „Hyggit at er, fratres oc syner oc konor, hvar til mal mitt horfer; þat eitt manndrap talþa ec gótt, es .i. osiþamaþr es drepenn, at eigi drepe hann marga saclausa, sva sem veginn var Golias forþom eþa Amon eþa Olofernis, eþa sva sem vegner voro oviner yþvars rikis. Sva helgasc oc meþ goþom vercom þeir einer hiuscaper, es retliga ero gørver at goþs løgom. En ef neqer þræll ginge at eiga festarmey domini sui, þa myndi hann þess þykia verþr firer gløp sinn oc dirfþ, at hann være cycr brenndr i elde, oc verþr hann eigi of qvongona(!) secr, heldr af þvi at hann toe festarmey domini sui eþa konongs eþa neeqers ser betra mannz. Sva scaldu oc þat vita, konongr, qvat postolen, at Efigenia es festa(r)męr conongs ins himnesca oc hevir nunnovixlo tecna; hverso mattu eiga ganga festarmey þér betra manz?" En af þesso mali reidesc Hirtacus konongr, er aþr hafþi i hverio orþe lofat tølo postolans, oc gec a braut oqveþi. En postolen stoþ ohredr oc let eigi niþr falla tølo sina oc melte enn: „Hlyþit er mér enn, aller er elseiþ goþ. Jarþligr konongr hefir scamrar tiþar velde, en himnescr konongr hefir eilift rike, oc

[1] [er veit *Cd.*

sva sem hann gefr eilivan føgnoþ þeim er halda tru sinne, sva geldr hann oc eilivar qvalar þeim, er braut fara fra tru hans oc heilagleic. Ef konongs reiþe es ogorlig, hyggit at ér, hvor ogorligre er goþs reiþe eþa mannz. Mannz reiþi endesc á eino augabragþi stundar meþ elde eþa iarne, en goþs reiþe cynder eil(i)fan loga misgerøndom. Dominus goþ, kennande ens sanna, visse firer oorþna hluti oc melte: „Ér scoloþ eigi hręþasc þá, es licomom granda einom saman, en þeir mego eigi øndena vega, heldr scoloþ ér þann hreþasc, es beþi hefir velde at firerfara bøþi ǫnd oc licama i helvites elde. Sva segi ec yþr, at þann scolot ér hręþasc.“ Þa fell Efigenia męr til fóta postolanom firer ǫllom lyþ oc melte: „Ec biþ þic, postole goþs, at þu blezer mic oc meyiar þessar allar, es firir þin orþ ero goþe helgaþar, at ver megem forþasc ógner høfþingia þessa, es margra raþa leitaþe i gegn mer i ógnom oc i feboþom, þa er faþer minn lifþe oc broþer. En ef hann þorþe at freista vár, þa er þeir lifþo, þa er þess nu myclo meire von.“ En postolen hafþi traust af goþe oc hrędesc eigi reiþe konongs, oc lagþi hendr ifer høfuþ meyionom oc blezaþe oc melte: „Goþ scapare licama oc anda, es engi firerlítr oc enge scilr fra sinni miscunn, ungan ne gamlan, carl ne cono, gøfgan ne ogǫfgan, heldr ertu iamt allra scapare oc lausnare! Hlifþo þessom ambottom þinom meþ scilde fultings þins, þviat þu, goþr hirþer, valþer þér yr floke hirþar þinnar oc helgaþer til meydoms oc dyrþar oc hreinlifes andar. Efldu þęr til allra goþra verca oc dyrligra crafta, at þęr stíge ifer holdligar girnþer oc olovaþa munoþ, oc sé þęr staþfastar i elsco sonar þins Jesu Cristi. Veittu þeim andlig herclęþi oc sva hlif licǫmom þeira, at synþer megi eigi (velde) hafa i holde þeira ne i hug þeira. Life þęr sva i þinne miscunn, at eki megi eignasc ovinr i þeim. Sløcþu allan scaþligan hita licams i þeim meþ doggo himnescrar milde, oc qvecþu i þeim lios hreinlifes. Vere meþ þeim hreinn meydómr prydr oc efldr meþ retre tru oc vísse vón oc algørre óst. Veitu þann hreinlifes craft i hug þeira, es ifer stige of diofol oc allar vęlar hans, svát þęr firerlíti licamliga hluti, en þekisc andliga hluti, oc þyþesc fǫstor meir en licamligar craser, meir bøner oc helgar bøcr en ofdrykio. Sé þęr fødar bønum oc fyldar af kenningom oc lystar vøco oc albunar at fylla ǫll goþ verc. Hlifþo ambottom þinom meþ þessom dugnaþar vopnom, oc veit þeim at ganga osaurgaþa gøto meydoms til domini nostri Jesu Cristi lausnera anda varra, meþ þeim er þér goþe feþr er(!) vegr oc dyrþ meþ anda helgom of

odauþiligar(!) alder alda.“ Þa svoroþo aller oc qvoþo amen. Siþan søng Matheus messo oc framþi alla goþs þionusto. En þa fór hverr heim til husa sinna. En Cristus dvalþe postola sinn efter i kirkio, oc tóc hann þar pisl firer goþs namni, er hann stoþ firer altare, þar er hann hafþe vigt corpus domini. Þa com sendimaþr konongs oc lagþe sverþe a miþel herþa honom, þa er hann helt hǫndom til himna, oc for þá postole Cristi oc piningarvattr til goþs.

5. En er lyþrenn fra þat, þa foro þeir meþ elde til hallar konongs oc villdo brenna hann inne. En prestar oc kennimenn runno a mot þeim oc melto: „Hirþet eigi ér at gera i geng(!) goþs boþorþi, þviat Petr postole bra sverþe oc hiv(!) eyra af einom þrele, þeim es i liþi var þeira er hondluþo dominum, en hann vilde eigi hemna lata sin, heldr grøde hann eyraþ, es af var høggvet, oc melte: Veiztu at faþer minn ma senda mer .xii. þusunder englaliþs, ef ec vilda. Høldom vér oc þa aller pislartiþ postolans meþ fagnaþe, en biþom þess es goþ vill gert hafa.“ En Ephigenia en helgasta męr veitte kennimonnom goþs fe þat er hon atte i gulle oc silfre oc i gimsteinom, oc melte: „Gøriþ ér kirkio postola goþs, en gefit valoþom fé þat es af þvi gengr. En ec verþ enn at eiga þrauter viþ Hirtacum.“ Siþan sende Hirtacus conor rikismanna til Ephi(g)eniam oc vętte, at þęr mønde telia henne hughvarf. En er þat matte eigi verþa, þa callaþi hann þangat galdramenn, at þeir mętte tęla hana meþ galdravęlom oc diofla. En er eigi motto loc a þvi verþa, þa lét hann leggia eld i bø hennar, þar er hon var inne oc þionaþi goþe dag oc nott. En er børenn tóc at loga umbhverfes, þa vitraþesc henne engill goþs meþ Matheo postola oc melte: „Vestu styrc Ephigenia, oc hrezc eigi eld þenna, þviat hann mon aftr hverfa til þess er gera lét.“ Þa gerþi goþ vind micinn, oc lagþi logann fra husom hennar oc til hallar konongs, oc brann høll hans øll, svat øngom eyre matte biarga, þeim er þar var inni. En Hirtacus comsc ut ór eldinom meþ einga son sinn, oc være honom þo þat betra, at hann hefþi þar inne brunnit, þviat sonr hans varþ gripenn af diofle enom sterxta, oc rann hann til leiþes Mathei oc ios up þar firer alþyþo øllom gløpom føþor sins. En þa drap fiandenn Hirtacum enne verstu licþro ór høfþi ofan oc alt a føtr niþr. En er lęcnar oc fiolcunger menn mótto hann eigi græþa, þa lagþi hann ipse sverþe a sér. En aller lyþer hlógo at dauþa hans oc toco broþor Ephigenie til konongs, en hann hét Veór. En hann hafþe tru teket af orþom systor sinnar, en scirn af postola goþs.

Hann var halfþritogr at aldri, þa er hann toc konongdom, en hann var konongr .iiii. vetr ens siønda tegar, oc hafþe hann friþ beþi viþ Serki oc Rumaborgar menn. En þa voro øll heroþ Blalandz full cristne oc almenniligrar cristne oc tru. En morg tócn getasc af verþleicom oc bønom sancti Mathei apostoli, er fyrstr reit at oro mali goþspiøll domini nostri Jesu Cristi, meþ þeim er goþe feþr vegr oc dýrþ meþ helgom anda huggar(a) nu oc ei of allar alder alda.

---

## *Fragment.*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

*en hæyrða kænneng drottens vars Jesus Crists or munni minum Oc truir þu þegar. Af þvi scaltu vita. At sonr þin man lifna. Ða hof hann up hendr sinar. Postolen oc mælte þa sva. Deus Abraham. Deus Ysaacc. Deus Jacob. En(!) sende æinga sun sin af himnum. oc till jarðar oc at hann læysti oss fra villu. oc syndi oss sec sannan guð. Mints tu nu orða þinna. Alzvaldande guð. Ðæirra er þu mælter. Sat sægi ec yðr hvatke er þer biðið faður mín. I nafne minu. Ða man hann gefua yðr. Ðic bið ecc at sia svæin risi up. Af dauða till þess at allar þioðer viti þat at ængi se guð nema þu æin. Ða toc Matheus ihond hinum dauða. Oc mælte sva. I nafne drottens vars Jesu Crists hins crosfæsta. Ris upp þu. Eufronon. Ða ræis hann upp þegar. En konongr. fæl till jarðar þegar. er hann sa sun sin hæilan uprisa or dauða. Oc bað færa. Postolanom. corona sit(!) eða purpura skickiu. En siðan þa sende hann menn viða um borger. oc um hærað. at boða þangat komo. Allum mannum. eða at sia guðz jartæinir oc guð sialfuan. En þa com margr lyðr or allum borgom viða vega. Ða mælte Matheus við lyðen. Ec em æigi guð cvað hann. hældr em ec þræls(!) drottens sunar guðz þess er mec sende till yðar. Till þess at þer mætteð vita sannan guðz vilia. oc hværfua fra illu. En ef þer ætleð mec guði glickian. Hværsu miclu hældr sculu þer trua. A þan guð. Er ec em hans þræll. Oc ec ræista up í hans nafne

* *Jvf. ovenfor S 801[24]—803[20].*

þenna konongs sun af dauða. En þer aller er skilia megoð retta scynsemi. Ða takeð abraut fra augliti minu gull þetta oc silfr yðat. eða gereð mynstere guði með þvi fe. Oc komeð oft þangat till. At hæyra orð guðs. Ða samnaðosc till sextigir þusunda manna. oc gerðo kirkiu a þrim togom daga. En su kirkia vas kallað uprisa Mathei. Ðvi at kirkiu smiðen gerðesc af up risu hins dauða. En Matheus. sat at þæirri kirkiu .iii. vetr oc .xx. oc cristnaðe margar þioðer. oc let margar kirkiur gera. oc vigði marga biscupa oc presta. Konongr toc skirn. Eglippus oc cona hans Eufenora. oc sonr hans. Eufronon oc dotter hans. Ephigenia. En hon vas mǽr alla æue. Enn þæir Zaroés oc Arfaxat. flyðu abraut af blalande. Oc till Persalanz. oc gerðo þar slict eða værra. Oc skiftu viðða Simonem oc Judam. oc fengo þar bana. En lanct es um þat at tællia hværso margum blindum Matheus gaf sion. Eða hæilsu margfallega. En ec man liða yfuir þat. oc sæhgia hværsu hann vass pindr fyrir guðz sacar. Eglippus konongr bæið goð ællii(!). oc for till guðz æftir dauða sinn. En Yrtacus vas konongr æftir hann. broðor sunr hans. En hann villdi ganga at æiga Ephigeniam. hins dauða konongs dottor. Es þa hafðe Nunnu vigslu tæckit af postola guðz oc ræið(!) fyrir tvæim hundraðom mæyia. En Irtacus vætte þess. at hann myndi geta at postolanom. at hann snere hugscote Ephigenio. Æftir vilia sinum. Oc quasc hanum gefua myndu hælfning rikis sins. Ef hon genge með hanum. En postolen svaraðe þa. Sa vas vanðe hins fyrra konongs at hann com hværndag hælgan at hæyra orð guðz. Nu bioð þu hingat margum mannum. Occ sva Ephigenie með mæyium sinum. Auc man tu hæyra þa marga goða luti. Es ec man tællia um rættan hiuscap. Ðvi mále varð Hirtacus fæhgin. Oc bauð þangat liði miclu. Occ sva Ephigenie með mæyium sinum. En þa er þar vas komen fiolðe mikill manna. Ða mælte postolen. Hæyri þærr mall mit aller synir Crists. oc skilið þat es ér hæyrið. oc varððvæitið i hiartum yðrum. Guð vár bletsaðe hiuscape. Oc lofuaðe mannum lichamlega ást. At maðr unni kono sinni. Oc kona manne sinum. En þat siom vér oft at kona skilsc við buanda sin. Eða menn læiðasc conor sinar. oc gera i gægn boðorðom guðz. Oc þvi es guð lofuaðe lichammenom. En ef hiuscapr es fræmdr með guðs ræðslo. Ðar es þau fara saman at guðz lahgum oc saurgasc hvarke af syndum fiol ræðes. Ða ræinsa guðsz log hiuscappen af synda saúri. En su saúrgan oc lichams munuðg(!) ma ræinsasc af almusu gærðum oc miscunnar værcum Fyr utan iðranar tár. Hiuscapr

hæfuir saurgan lichams af munugðar lifui. En æigi glœp. En sa er æigi hældr secc fra munuðgðar(!) lifui i aðra staðe. Ða hæfuir sa æigi at æins saurgan lichams. Hældr auc glœpenn Eða við kiot atte um langa fastu . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

---

## III.

*Her hefr upp saugu Mathei.*

Tveir fiolkunnigir menn voro a Blalandi, annarr het Zaroes enn annarr Arfaxath, þeir voro i borg þeiri er Nabdaber heitir. Enn þar reð firir konungr sa er Eglippus het. Þessir inir fiolkungu saugðuz guð vera oc villtu alla þioð a Blalandi. Konungrinn truði þeim oc allt landz[folk], oc urðu þeir agætir of allt Blaland, oc komo menn viða or heroðum at gaufga þa. Enn þeir namo syn eða gaungu fra maunnum oc qvolðu menn i sottum, þeir sendu hauggorma til meins maunnum, oc þotti þa sem þeir græddi, er þeir letu af at meiða. Enn firir þvi at guði er rækð a maunnum oc vill hann aullum hialpa, þa sendi hann postula sin Matheum guðspiallamann a mot villu þessi. Enn er hann kom, þa braut hann niðr villu þessa oc fiolkyngi þeira, oc gaf hann þeim maunnum syn, er inir fiolkunnigu blinduðu, enn þeim gaungu, er þeir toko fra. Hauggorma svæfði hann, þa er þeir sendu til meins maunnum, oc græddi mennina i guðs nafni. Maðr het Candacis, hann var gelldr, hann varðveitti fe drottningar. Þann mann hafði Philippus postuli skirðan. Enn er hann sa Matheum postula, þa fell hann til fota honum oc mællti: „Guð sa miskunnar augum a borg þessa oc sendi þic til vár, at þu leystir oss af illzku þessa tveggia enna fiolkunnigu, er heimskir menn ætla guð vera.“ Þa leiddi hann postulann inn i hus sin, oc qvomo vinir Candacis þangat at heyra orð guðs, oc truðu margir a drottin Jesum Crist oc toko skirnn, er þeir sa, at guðs postuli Matheus eyddi aullu illu, er inir fiolkunnigu menn gerðu maunnum til meins. Enn þeir graunduðu þeim, er þeir mattu, unz enir siuku baðu ser heilsu af þeim,

oc synduz þa græða, er þeir letu af at qvelia. Enn Matheus postuli græddi eigi at eins þa er þeir meiddu, helldr alla þa er til hans kvomò, hvatki er þeim var at meini. Enn hann kendi þeim orð guðs. Allir menn undruðuzt mælsku hans. Þa spurði Candacis postulann oc mællti sva: „Segðu mer, hvi þat gegnir, er þu ebreskr maðr kant at mæla a grixca tungu oc blalenzka oc egipzka, sva at þeir kunnu eigi sva at mæla, er þar eru fæddir?“ Postulinn svaraði: „Allr heimr hafði fyrst eina tungu. En su dirfð hofzt með maunnunum, at þeir fystuz at gera sva havan staupul, at tæki til himins. Enn guð stauðvaði þessa dirfð, sva at engi matti nema hvat annarr mællti. Þa gerðizt(!) fleiri tungurnar, oc eyddiz þat rað, er þeir baru saman, meðan þeir haufðu eina tungu, þviat eigi toko þeir þat upp af goðum vilia helldr af illri dirfð, þar er þeir villdu fara til skapara sins overðir. Enn guðs sonr kom at syna, hversu þann staupul skal smiða, er til himins ma upp stiga af, oc sendi hann oss .xii. postulum sinum helgan anda af himni, þa er ver satum i einu husi, oc kom yfir oss i elldligum tungum, oc birtumzt ver allir af honum. Enn þa hvarf fra oss hræz(la) oll, oc toko ver allir at mæla a allar tungur of stormerki Cristz, hversu eingetinn guðs son var borinn i heiminn, sa er ier(!) oc var firir allar alldir. Enn hann var borinn fra meyio oc skirðr, oc freistaði diofull hans, oc var hann pindr oc dauðr oc grafinn oc reis upp a enum þriðia degi oc ste til himna oc sitr til hægri handar guði feðr, oc mun hann koma at dæma of allan heim firir ogn elldz. Enn eigi kunnum ver lærisveinar Cristz þessar einar tungur fiorar, sem þu nefndir, helldr kunnum ver allra þioða tungur allir at mæla oc skilia, hvargi er ver komum, þviat nu er giorr staupull oc eigi or steinum helldr af crauptum guðs, þviat aullum, þeim er skiraz i nafni fauður oc sonar oc heilags anda, lykzt upp sa staupull, er Cristr smiðaði, oc þeir smiða þann staupul sialfir, unz þeir stiga til himinrikiss.“

Enn er postuli guðs hafði þetta mællt með mikilli skynsemi, þa kom maðr oc sagði, at þeir Zaroes oc Arfaxath foro, oc flugu drekar hræðiligir firir þeim, þeir er blesu reyk oc brennusteins loga or nausum ser oc munni. Enn af þeim reyk fengu menn sott eða bana. Þa signdi postulinn sic oc villdi ut ganga auruggr a mot þeim. Enn Candacis lauk aptr durum oc mællti: „Stattu við glugg, ef þu vill, oc mæl þaðan við þa.“ Postulinn svaraði: „Luk þu upp durum, enn þu statt við glugg, ef þu vill, oc sia dirfð þeira.“ Þa geck Matheus postuli ut, er enir fiolkunnigi(!)

menn voro komnir, oc flugu drekar með þeim. Enn þegar er drekarnir komo firir fætr postulanum, þa sofnuðu þeir. Postulinn mællti við ina fiolkungu: Veki þit nu drekana, ef it megit. Enn ef ek bæða drottin minn, þa mætta ek senda aptr til yckar þat mein, er þit ætluðut mer. Enn er saman kemr allr lyðr, sa er nu þorir eigi hingat at ganga, þa mun ek vekia drekana, sagði postulinn, oc bioða þeim aptr at fara til sins staðar með hogværi.“ Þa letituðu(!) inir fiolkunnugu(!) við at vegkia(!) drekana, oc mattu eigi. Þa mællti lyðrinn við Matheum postula: „Vær biðium þic, drottinn, at þu leysir lyð þenna fra dyrum þessum.“ Postulinn svaraði: „Eigi skaulu(!) þer hræðazt, ec mun þeim a braut visa, sva at eigi mun mein at þeim verða.“ Þa mællti hann við drekana: „I nafni drottins Jesus Cristz, þess er getinn er af anda helgum oc borinn fra Mariu meyiu oc selldr af lærisveini sinum oc krosfestr af Gyðingum, siðan var hann grafinn oc reis upp a enum þriðia degi, oc minti oss a þat, er hann kendi oss firir pisl· sina. Siðan ste hann upp til himna, sva at ver sám a, oc sitr nu til hægri handar fauður sinum, oc mun hann þaðan koma at dæma of lifendr oc of dauða. I hans nafni oc krapti særi ek þic, ohreinn andi, er ræðr aullum ormum, at þu vekir flugdreka þessa oc latir þa fara hogsamliga aptr til sinna staða, oc gori ecki grand maunnum ne dyrum ne foglum.“ Þa hofo drerkarnir(!) upp haufuð sin oc foro ut i borgarhlið oc voro alldregi senir siðan. Þa mællti postulinn við allan lyð: „Heyri þer, bræðr, þeir er leysa vilia audir sinar fra inum forna dreka. Guð sendi mic til heilsu, at iér firirlatið villu skurðgoða oc truið a skapara yðvarn. Þa er guð skop inn fyrsta mann, þa sendi hann inn fyrsta mann i paradis oc kono hans, er skaupuð var or rifi hans.

Paradis er goðr staðr aullum fiollum efri, nalægr himni, oc er þar ecki þat, er gagnstaðlict se heilsu manna; þar hræðazt eigi foglar farar manna, þar renna eigi upp þyrnar ne illgresi, þar hraurna [1] alldri fargrir(!) blomar, þar missir ongra goðra grasa, þar er eigi mein at elli ne æsku, þar eru avallt blið veðr [2] oc goð, oc gera dyrligan ilm firir nausum; þviat sva sem it dyrligsta reykelsi rekr a braut [allt odaunan [3], sva taka nasar þeira [4] ilm eilifrar dyrðar, þann [ilm er þa lætr eigi męðaz ne sykiazt ne elldaz. Þar reysta lofsaungvar [5] engla fyrir eyrum oc dyrligar

1 fölna *B.* 2 *saal. B;* verðr *A.* 3 [illan daun *B.* 4 er þar eru *tilf. B.* 5 [er madr eldizt eigi ne męðizt eda sykizt. Þar reystir hliomr heilagra guds *B.*

raddir [heilagra manna, þar eru eigi hauggormar ne froskar[1] ne padda, oc ecki meinkyckvendi, þar þiona maunnum enu[2] óaurgu dyr, oc [hvatki er[3] maðr mælir við fogla eða við dyr, þa [hlyða þau honum sem guði[4]. Fiorar ar falla þaðan. Ein heitir Fison, aunnur [Gion, þriðia Tigris[5], fiorða Eufrates. Þessar ar eru fullar fiska. [Þa er maðr mælir við vatnit, at þat sendi honum fisk, þa fellr ain firir fætr honum með allzkyns fiskum, sva at hann ma þann taka er hann vill, enn þann eptir lata, er hann vill þat, i vatninu. S(l)ict et sama foglar oc aull kyqvendi, þau er til krasa megu vera, koma þegar er nefnd eru, oc þarf eigi at sæfa þau til fæzslu, oc hefir þo hverr gnoga fæzslu af þeim oc firirbunar crasir af guði, oc eru þo kycqvendi aull heil oc oskaudd, þviat hverium ero þat crasir oc faugnuðr, er hann veit, at aull kycqvendi þióna honum[6]. Enn þær crasir er þar eru, verða sva hverium þockaðar sem hugr hans[7] beiðir. [Þar geriz eigi saurr i qviði manz, þar er eigi hunda gauð ne ulfa þytr ne greniun innu(!) oaurgu dyra[6], þar eru allir hlutir bliðir oc allir hogværir, allir kyrrir, þar er alldregi himins fegrðr(!) skyium hulit, þar fliuga alldri elldingar, þar verða alldri reiðarþrymur[8], helldr er þar gleði án enda oc hatið su er ecki hefir endimark. Enn af þvi er eigi hauggormr þar, at aufundar engill framdi ena fyrstu illzku firir hauggorminn, oc var hann sva baulvaðr siðan, at hann matti eigi vera i blezoðum stað.

Enn at þvi var inum(!) englum aufund, at þeir sa manninn hafa guðs licneski, oc maðrinn matti vera i lifs heraði, þar er aull kycqvendi þiona honum. Þessa aufund tok engillinn af ser sialfum oc mællti or hauggormi við conu Adams, at þau æti epli bannaðs tress. Enn siðan tælldi conan karlmanninn. Enn er þau hofðu bæði misgert, þa voru þau bæði a braut rekin or lifs heraði oc send hingat i dauða herat. Enn sialfr glæps hvetiandi varð fundinn i hauggormi oc tok eilifa baulvan. Siðan let sonr guðs ser soma at taka manz likama a sic, sa er með feðr oc helgum anda skapaði manninn, oc firirlet hann þo eigi guðdom sinn, þa er hann tok manndominn, oc var hann borinn guð oc maðr fra meyiu. Enn su mær oc moðir varð qviðug af helgum anda, þa er hon heyrði (orð) or engils munni oc truði þeim. Enn trua hennar samtengdiz helgum anda, þviat heilagr andi elskaði osaur-

1 [, hauggormr hefir þar eigi vist, ne froskr *B.* 2 en *B.* 3 [hvat sem *B.* 4 [þiona þau ok veita hlydni honum *B.* 5 [Tigris, þridia Gangis *B.* [6 *mgl. B.* 7 manz *B.* 8 reidarþrumur *B.*

gaða mey, oc fann hann likama hennar hreinan oc aund osaurgaða oc tru ospilta, oc giorðiz maðr i qviði hennar, sem Salomon sagði, at guðs speki giorði sér hus. Enn sia maðr Jesus Cristr bætti yfir misverk þess, er yfir varð stiginn af diofli oc braut rekinn or paradiso hingat i heim. Enn firir því at inn fyrsti maðr var skapaðr or hreinni iorðu, þa byriaði þat, at sa væri fra meyio borinn, er bætti yfir verk Adams, oc hann stigi fastandi yfir þann, er sigr vann a þeim, er at þat, er guð bannaði. Enn Jesus Cristr ste yfir vælar fiandans oc yfir dauðan deyiandi, at hann lyki upp dyrr paradisar i upprisu sinni. Enn þangat leiddi hann fyrstan þiof, þann er heck a crossi með honum, oc lauk hann upp paradisu firir aundum allra heilagra, þa er þær fara or (li)kamanum, sva at allir megu nu þangat komazt eptir upprisu sina. Enn nu renni sa er vill fra dauðanum oc til lifsins, oc hverfi aptr til paradisar, þangat er þaðan var likamligr faðir varr a braut rekinn oc sendr með aullu kyni sinu i utlegð þessa heims. Drottinn lauk upp dyrr paradisar, at ver hverfim aptr til fostriarðar varrar, þar er avallt se faugnuðr oc kemr alldri dauði.

Enn er postulinn hafði þetta mællt við lyðinn, þa geck hann inn i borgina. Enn þar var þa (o)gleði mikil oc gratr, þviat konungs son var þa andaðr. Enn hia liki hans stoðu þeir Zaroes oc Arfaxath oc hugðuz mundu mega reisa hann upp af dauða. Enn er þeir mattu þat eigi, þa saugðu þeir þat konungi, at hann væri uppnuminn oc orðinn at guði, oc gera skylldi honum hof oc blota hann. Enn Candaciss gelldingr geck firir drotningu oc mællti: „Seti þer i baund þessa ena fiolkungu menn oc biðit Matheum postula, at hann komi hingat, enn ef hann reisir enn dauða til lifs, þa brenni þer ena fiolkungu kyqva i elldi, þviat þeir vallda aullu illu, þvi er geriz i borg varri.“ Þa var Candacis sendr (með) enum gaufguzstum hirðmaunnum eptir postulanum, oc var hann leiddr firir konung með veg miklum. Þa fell Eufenora drotning til fota postulanum oc mællti: „Ec veit at þu ert postuli sendr af guði, oc ertu þess lærisveinn, er dauðum gaf lif oc aullum siukum heilsu með orði sinu einu. Enn nu kallaðu yfir son minn dauðan a nafn lærifauður þins, oc trui ek, at hann mun lifna.“ Postulinn svaraði: „Þu hefir enn eigi heyrða kenning drottins Jesus Cristz or minum munni oc truir þu þegar. Af þvi vittu þat, at sonr þinn mun lifna.“ Þa hof hann upp hendr sinar oc mællti: „Guð Abrahams, guð Ysaacs oc guð Jacobs, þu er sendir son þinn eingetinn af himni til iarðar, at hann leysti oss fra villu oc syndi

oss sic sannan guð vera, minnztu nu orða drottins vars Jesus Cristz sonar þins, er hann mællti sva: Satt segi ec yðr, hvatki er ier bið(it) fauður minn i nafni minu, þa mun hann veita. Þic bið ek, at siá svein(n) risi upp af dauða, til þess at allar þioðir viti þat, at engi er guð nema þu." Þa tok Matheus i haund inum dauða oc mællti sva: „Ris upp þu Eufronon." Þa reis hann upp þegar lifs oc heill. Enn hiarta konungs oazz(!) oc bað færa postulanum koronu oc purpura oc senði hann rennara of borgina oc of heruð Blalannz oc mællti sva: „Komi þer hingat oc siait guð, er leyniz i manz licneski." Þa kom mikill fioldi lyðs með kertum brennaundum oc með reykelsi oc aullu kyni blota. Þa mællti postulinn við lyðinn: „Ec em eigi guð, helldr þræll drottins mins Jesus Cristz sonar guðs, þess er mic sendi til yðvar, at ier mættit vita sannan guð oc hverfa fra blotum oc villu skurðgoða. En ef ier ætlit mik guð vera, hversu miklu helldr skaulut ier trua a þann guð, er ec em hans þræll, oc ec reista i hans nafni upp þenna konungs son af dauða. Enn ier allir er skilia meguð retta skynsemi, takit a braut fra augliti minu gull þetta oc silfr oc gerit musteri til dyrðar guði oc komit oppt þangat at heyra orð guðs." Þa saumnuðuz til sex tigir þusunda manna oc geyrðu kirkiu a þrimtigum daga. Enn su kirkia var kaulluð upprisa Matheus, þviat kirkiusmiðin gerðiz af upprisu ins dauða. Enn Matheus sat at þeiri kirkiu .iii. vetr oc .xx. oc cristnaði margar þioðir oc let margar kirkiur gera oc vigði byskupa oc presta. Eglippuss konungr tok skirn oc kona hans Eufenora oc son þeira Eufronon, er af dauða var reistr, oc dottir þeira Ephigenia. Enn hon var mær alla æfi. Enn þeir Zaroes oc Arfaxath flæðu a braut af Blalandi a þeiri stundu er Matheus reisti konungssoninn af dauða. Þeir foro til Persiðalandz oc gerðu þar slict eða verra enn a Blalandi, unz guð sendi þangat postula sina Simon oc Judas i gegn villu þeira. Enn langt er at segia serhveriar iarteinir þeira, eða hversu morgum Matheus postuli gaf syn, eða hversu marga hann leysti fra dioflum, eða reisti af dauða, eða hversu konungr lifði eða cona hans, eða senir eða lyðr hans, oc verðr af þvi liða yfir þat, oc segia hversu at bar, er pindr var Matheus guðspi(a)llamaðr. Enn Eglippus konungr beið goða elli oc kona hans Eufrora(!).

*Fra Hirtacus konungi.*

2. Þat er at segia, at konungdom tok eptir Eglippum Hirtacus broðurson hans. Hann villdi ganga at eiga Ephigeniam dottur Eglippus konungs bræðrungu sina. Enn hon hafði tekit nunnuvigslu af Matheo postula, oc reð hon firir tveim hundruðum meyia. Enn Hirtacus vætti þess, at postulinn mundi snua hugskoti hennar, eptir þvi sem hann villdi konungrinn, oc qvaðz gefa mundu helming rikis sin(s), ef hann gerði sva, at Ephigenia mær villdi ganga með honum. Postulinn svaraði: „Sa var vandi Eglippus konungs, at hann kom hvern dag at heyra orð guðs. Nu bioð þu, at margr lyðr komi hingat a morgin, oc sva Ephigenia mær með meyium sinum, oc muntu þa heyra, hve marga goða hluti ek mun telia of rettan hiuskap, þviat heilagr hiuskapr er guði þægr.“ Þvi mali varð Hirtacus konungr feginn oc bað mart lið þangat koma oc sva Ephigeniam með lið sitt. Enn er margr lyðr var þangat kominn, þa lauk postulinn upp munn sinn oc mællti við allan lyð: „Heyri þer mal mitt, allir senir Cristz, oc skilit þat er ier heyrit, oc varðveitit i hiortum yðrum. Guð varr blezaði hiuskap oc lofaði maunnum likamliga ast, at maðr ynni conu sinni, enn cona manni sinum. Enn þat siam ver oppt verða, at cona skilsz við bonda sinn eða bondi le(i)ðiz cono sina, oc gera þau þa i gegn þeiri ast, er guð veitti oc lofaði likamanum. Enn ef hiuskapr er framiðr af guðs hræzlu, þar er hiu tvau fara saman, at guðs laug hreinsa hiuskapinn af sauri synðanna. Enn sia sau(r)gun oc munuð likams ma hreinazt firir aulmosu gæði oc miskunnar verk, ok er eigi sva þung synð, at eigi megi hreinazt með iðrunartarum; hiuskapr hefir saurgun likama af munuðlifi, enn eigi af glæpnum. Enn sa er eigi helldr sic fra munuðlifi sem við kiotati of langafaustu eða aðrar laugfaustur, þa hefir sa eigi at eins saurgun likamans, helldr oc glæpinn með, oc er eigi þat glæpr, at hann matiz, helldr hitt, er hann mataðiz a faustutiðinni. Sva er oc ef nockurr tekr fyrst likams fætzlu, enn siðan gengr at taka corpus Cristi samdægris osiukr, þa verðr hann hvarstveggia sekr dirfðar oc osiðsemi, oc verðr hann eigi af þvi sekr, er hann at, helldr firir þvi er hann gerði i gegn guðs laugum oc mataðiz, aðr hann tæki corpus Cristi; þviat eigi gera verkin ein saman manninn sekian, helldr oskynsemi oc ostilling vercsins. Manndrap sialf siam ver stundum lofat, þar er veginn er osiðamaðr eða þiofr eða vikingr eða illvirki, oc er þo eigi mandrapit gott, ef saklauss maðr væri veginn. Þat siam ver oc verða, at lygin sialf kann

verða goð af atburð, þott hon se ill i sinu eðli. Ef ovinr þinn vill granda þer, enn maðr forðaði þer, oc segiz eigi vita, hvar þu ert, þa væri honum lofat eigi at eins at dylia helldr oc at sveria, oc eru þat tvennir illir hlutir lygi oc liugeiðr, oc gerðu þo goðan avauxt með þessum atburð, þviat guð dæmir at hugskoti varo meirr enn at verkum. Sa er hræðiz at liuga oc selr firir þær sakar mann til dauða, þa er sem hann hræðizt at giallda eirpenning oc glati firir þær sakar byrði gullz. Eigi eru flest verkin at eðlinu ill helldr af ostillingu verksins; þvi(at) ef oskirðr maðr tekr corpus Cristi, þa snyr hann goðu til illz oc tekr af þvi sekt eilifrar qvalar, er hann mætti sic leysa fra eilifri qvaul með, ef hann væri skirðr. Sva eru oc hiuscapir goðir, þeir er helgaz af guði firir blezun kennimanna oc halldaz i guðs laugum, ef þeir eru eigi með ostilling framðir.“ Enn er postulinn hafði þetta mællt, þa tok Hirtacus konungr oc hirðmenn hans at lofa þessa tǫlu, oc hugði hann til þess giort vera þetta mal at snua hug Ephigeniam(!) meyiar. Enn þa er lengi var lofuð sia tala, þa bað postulinn ser hlioðs i annat sinn oc mællti: „Hlyði þer enn, bræðr, oc hyggit at, hvar til horfir mal mitt. Þat vig tel ec gott, er osiðamaðr er veginn, oc er til þess einn veginn, at eigi vegi hann marga saclausa, sva sem veginn var Golias risi eða Amon eða Olofernus eða þeir er ovinir voru yðvars rikiss. Sva helgazt oc hiuskapr með goðum verkum, ef hann er rettliga framiðr at guðs laugum. Enn ef þræll nocqurr gengi at eiga i dag festarcono drottins sins, þa væri hann þess verðr firir dirfð sina oc glæp, at hann væri kvikr i elldi brendr, oc sek(i)zt hann eigi firir þat, er hann qvangaðiz, helldr firir þat, er hann tok festarconu drottins eða konungs sins, eða nockurs ser betra manz. Sva skalltu oc vita, Hirtacus konungr, at Ephigenia er festarmær himnakonungs oc hefir nunnuvigslu, hversu mattu ganga at e(i)ga festarconu þer betra konungs.“ Þa reiddiz Hirtacus konungr, er aðr hafði lofat i hveriu orði taulu postulans, oc geck a braut oqveði. Enn Matheus stoð glaðr oc ohræddr oc mællti: „Hlyði þer mer, allir vinir guðs! Jarðligr konungr hefir skamrar tiðar riki, enn himneskr konungr eilift velldi, sva sem hann gefr þeim eilifan faugnuð, er hallda tru sinni, sva gefr hann oc þeim eilifar qvalar, er eigi hallda hans tru oc villaz fra honum oc hans heilagleik. Ef konungs reiði er ogurlig, hyggit ier at, hvar ogurligri er guðs reiði eða manzins, þviat reiði mannzins endiz a ęinu augabragði með elldi eða iarni, enn guðs reiði kyndir eilifan

loga i helviti misgerundum. Enn drottinn vissi gervallt firir aðr yrði, oc mællti við oss: Eigi skulu þér hræðaz þa er bana likamanum, þviat þeir megu eigi fleira granda, helldr skulu þer þann hræðaz, er hefir velldi at senda aundina i helviti, siðan hann hefir banat likaumunum.“ Þa fell Ephigenia mær til fota postulanum oc mællti: „Ec bið þið, guðs postuli, at þu blezsir mic oc allar meyiar þessar, er firir þin orð eru guði helgaðar, oc ver megim forðaz hofðingia ognir, er margir(!) er margra raða leita(ði) i gegn mer i ognum sinum oc feboðum, þa er faðir minn lifði oc moðir. Enn ef hann þorði at freista vár, þa er þau lifðu, þa er nu þess myclu meiri ván.“ Þa lagði Matheus postuli hendr sinar yfir haufuð guðs meyiom oc blezaði þær oc mællti sva með guðs trausti: „Guð skapaði likamann oc andann, sa er eigi firirlitr ne skilr fra þinni(!) miskunn ungan ne gamlan, karll ne cono, gaufgan ne ogaufgan, helldr ertu iafnt allra skapari oc launsnari(!); hlifðu þessum ambattum þinum með skilldi fulltings þins, er þu, goðr hirðir, valdir or flocki þinnar hirðar oc helgaðir til dyrðar meydoms oc hreinlifiss. Eflðu þær til goðra verka oc dyrligra krapta, at þær stigi yfir holldligar girndir oc allar olofaðar munuðir oc þær eignizt staðfasta elsku drottins vars Jesus Cristz. Veittu þeim, drottinn, andlig heiklæði oc hlif sva likaumum þeira, at eigi hafi syndir velldi i hug þeira ne i holldi, oc lifi þær sva i þinni miskunn, at ecki megi ser eigna ovinr goðra hluta i þessum kerum, er guði eru helguð. Slauktu allan skaðasamligan hita i þeira hiortum með dauggu himneskrar milldi, oc kve(i)ktu hreinlifiss lios i þeim. Se i þeim hræzla saurgunar oc hreinn meydomr pryddr rettri tru oc efldr vissi van oc algiorri ast, at sa kraptr veitiz i hugskot þeira, er stigi yfir dioful oc allar vælar hans, sva at þær firirliti stundliga hluti, enn þeckizt eilifa dyrð, oc þyðizt meirr faustur enn likamligar krasir, meirr helgar bækr oc bænir enn ofdryckiur; se þær fylldar bænum oc fæddar af kenningum oc lystar i vaukum oc bunar at fremia aull goð verk. Hlifðu ambattum þinum með þessum dugnaðarvapnum oc veitt þeim at ganga osaurgaða gautu meydoms til drottins vars, oc veittu lausn anda varra með þeim, er odauðligr er of allar alldir“ Enn allir svaruðu oc qvoðo amen. Þa saung Matheus postuli messu oc framði guðs þionostu. Enn eptir messu for hverr maðr heim til sinna heimkynna. Enn Cristr dvalði eptir postula sinn i kirkiu, oc tok hann pisl firir guðs sakar, er hann stoð oc hafði lokit messu firir altari. Þviat sendimaðr konungs kom oc lagði saxi a meðal herða honum,

þa er hann hellt haundum til himins, oc for Matheus guðspiallaskalld oc piningarvattr með þessum sigri til almattigs guðs. Enn er þetta fragu allir lyðir, þa foro þeir með elldi til borgar konungs; þa runnu a mot þeim prestar oc lærisveinar Matheus oc mællto sva: „Hirðit eigi þer at gora i gegn guð(s) boðorði, þviat Petrus postuli bra . . . . . . . . . . . . . . . . . .

---

## IV.

### *Passio Mathee postola.*

Matheus postoli oc guðspiallamaðr, er ver holldum nu messudag, hann com til fylgþar meþ drotni varum, eptir þvi sem i guðspiollum er sagt, at drottinn kallaþi hann til foruneytis meþ ser fra þeirri iþn, er hann var aðr hvarki agetr at vinsælþ ne at rettlæti. Hann var aþr kallaþr tollamaðr, oc var hann i þvi allu metr oc strangr oc nocqvot berr i rangendum, at þvi er menn virðo. Drottinn þa veizlu eptir þat at Math[eus], er [aðr] var Levi kallaðr, oc sato at þvi borþi margir uraðvandir menn, er aðr hofðu verit [þiofar eþa iafningiar þeira], oc veittu Gyþingar atolu drottni varum, er hann at oc drack meþ bersynðugum monnum. En drottinn svaraþi þvi sem [segir i guðspialli], er þeir tolþu at hans hattum, at meiri þorf var læcningar siukom monnum en heilum, oc var hann eigi til þess cominn, at calla rettlata menn, helldr til þess at calla synðga menn til iðronar oc leiþrettu. En eptir upstigning drottins var Matheus fyrst a Gyþingalandi oc gerþi þar sitt guþspiall a þa tungu, er ebresca er colluþ oc avallt hevir verit, siþan er hinir fyrstu menn varo scapaþir. Siþan for hann i Macedoniam oc i borg þa, er Mirmidonia heitir, oc vildi þeim lyþ aleiþis snua, en þo beið þat þess at, er Andreas postoli cristnaði þa borg. Eptir þat for Matheus til Blalandz, sem guþ visaþi til. Eglippus het konungr, er þar reþ fyrir, en Eufenora drotning, sonr þeirra het Eufronon, dottir þeirra het [Ephigenia. Maðr het Candacis], hann varðveitti fe drotningar, þenna mann hafði Philippus postoli skirðan. En er hann sa Matheum postola, þa fell hann til fota postolanom oc mællti: „Guð sa miscunnar augum a þessa borg oc sendi þec til var, at þu leysir oss af hondum þessa tveggia manna fiolkunnigra, er heimskir menn ætla guþ vera.“ Þa leiddi hann postolann inn i hus sin. Comu þa vinir Candacis þangat at heyra orþ guþs, oc truþu allir a drottin

Jesum Crist oc tocu skirn, er þeir sa, at guþs postoli eyddi allu illu, þvi er þeir Zaroes oc Arphaxath hofþu gert. Matheus grœddi eigi at eins þa, er þeir qvolþu, helldr alla þa er til hans qvomo, hvat sem þeim var at meini, oc kendi þeim guþs nafn, oc allir undroþusc þa melscu hans. En Candacis, sa er við hanum hafþi tekit, spurþi hann sva: „Seg þu mer, hverio gegnir þat, er þu ebrescr maðr kannt griksca tungu oc blalennsca sva, at þeir cunnu eigi iafnvel mæla, er her ero fœddir?“ Matheus svaraþi: „Allr heimr hafþi fyrst eina tungu, til þess er su dirfþ hofsc, er menn fystusc at gera stopul þann, er tœki til himins. En þessa dirfþ stöþvaði guþ sva, at engi matti skilia, hvat annarr mællti, oc gerþusc þa fleiri kyn tungna, oc eyddisc þat rað, er menn bundu saman, meþan þeir hofþu eina tungu, þviat eigi var af goþum vilia, helldr af illri dirfþ, er þeir villdo uverþir fara til heilags staþar. En sonr guþs com at syna, hversu þann stopul scal smiþa, er til himins scal up stiga or, oc sendi hann oss .xii. lærisveinum sinum helgan anda af himni, þa er ver satum i einum stað, oc com hann yvir hvern varn i elldligum tungum, oc lystumc ver af honum. Þa hvarf fra oss oll ræzla, oc tocum ver þa at mæla a allar tungur um iartegnir Cristz, oc hversu guðs sonr var borinn hingat i heim, sa er var oc er firir allar veralldir. En er hann var borinn fra meyio oc upfœddr, scirþr oc pindr, dauþr oc gravinn, oc reis up a þriðia degi, oc siþan steig hann til himna, oc sitr til hœgri handar guþs foþur almattigs, oc man hann þaþan coma at dœma um allan heim meþ ogn elldz. En eigi er sva sem þu ætlar, at ver lærisveinar hans kunnum þessar einar tungur, er þu nefndir til, helldr cunnum ver allra þioða tungur mæla oc skilia, hvar sem ver comum, þviat nu er gerr stopull eigi or steinom, helldr af crapti guðs. Allir þeir er skirasc i nafni foþur oc sonar oc heilags anda, þeim lycsc up stopull sa, er Cristr smiþaði, oc smiþa þeir þann stopul sialfir, til þess er þeir stiga up til himinrikis.“

Oc er postolinn hafþi þetta męlt, þa sagþi maðr einn, at hinir fiolkunnigu menn Zaroes oc Arphaxath foru þangat, oc flugu drecar meþ þeim sva ogorlegir, at þeir bleso af nosum ser reyk oc brennusteins loga, oc fengu menn sottir eða bana af þeim dauni. Þa signdi Matheus postoli sic oc villdi ut ganga a moti þeim, en Candacis bannaþi honum oc lauc aptr durum oc mællti: „Stattu viþ glygg(!), ef þu vill, oc mæl þaþan viþ þa.“ Matheus svaraði: „Luc þu upp durum, oc statt siþan sialfr við glugginn

oc se dirfþ þeirra.“ Postolenn lauc þa upp durum oc gec ut, er hinir fiolkunnigu menn varu comnir, oc drecarnir meþ þeim. Oc þegar er drecarnir comu firir fœtr postolanom, þa sofnaþu þeir. Matheus mællti viþ hina fiolkunnigu menn: „Hvar er vel yþur? Veki þit ormana, ef þit megit nu. En ef ec bæða drottin minn Jesum Crist, þa mætta ec senda aptr þat mein til yckar, er þit efldut mer i moti. En er saman [kemr] allr lyþr, sa er nu þorir eigi hingat at ganga, þa man ec vekia ormana oc bioða þeim aptr at fara til sinna staða [hofsamliga. En þeir] leituðu þa við meþ fiolkyngi at vekia drecana, oc mattu þeir eigi upp hefia augu sin ne vakna [ne rœrasc. Þa mællti lyþrinn] viþ Mathéum: „Ver biðiom þec, at þu frælsir borgarlyðinn fra dyrum þessum.“ Matheus svaraþi: „Eigi scolu þer hræðasc, ec mon þeim a braut visa, sva at ecki scal mein at verþa.“ Þa leit hann til drecanna oc mællti: „I nafni drottins Jesu Kristz, þess er getinn er af anda helgum oc borinn fra Mario meyio oc selldr Gyþingum af Juda lærisveini sinum; en þeir crossfestu hann oc grovo, en hann reis upp af dauða a þriþia degi oc [var með oss .xl. daga, oc minti oss a hin somu] orþ, er hann hafþi oss kennt fyrir pisl sina, en siþan steig hann til himna, [sva at ver sam, oc sitr til hœgri handar foður sins, oc] mun þaþan coma at dœma um kvicqva oc dauða; [i hans nafni oc crapti sœri oc þec, andi, sa er firir] ollum ormum ræðr, at þu vekir flugdreka þessa oc latir þa [fara hofsamliga til sins staðar, sva at þeir geri ecki grand monnum ne fuglum ne dyrum].“ Þa hofu drecarnir upp hofuð sin oc [foru ut i borgarlið oc urðu alldrigi senir siþan. En Matheus mællti við allan lyð: „Heyri þer, brœðr oc synir], oc allir þeir er leysa vilia andir sinar fra hinum forna dreca, þat er dioflinum. Firir heilsu yþra sendi guð mic hingat, at þer firirletiþ scurðgoþa villo en truið scapara yðrum. Guð scapaþi enn fyrsta mann oc setti hann i paradisum. Paradis er goðr staðr, ollum fiollum œþri oc nalægr himni, oc hevir ecki þat i ser, er gagnstaðlict er heilso manna. Þar ræðasc eigi foglar for manna, þar vaxa eigi þyrnar ne illgresi, þar missir alldrigi goðra crasa, þar er eigi mein at œscu, þar er avallt blið veþr oc goþr ilmr firir nosum; þviat sva sem reykelsis ilmr recr a braut illan daun, sva taca nasar þeirra, er þar ero, ilm eilifrar dyrþar, þann er maþr elldisc eigi, oc eigi mœþisc maþr ne sykisc. Þar reystisc liomr engla guþs firir eyrum oc fagrar raddir. Hoggormr hevir þar eigi vist ne froscr, padda ne ecki illkyckvendi, þat er grandi heilsu manna;

þar þiona monnum en uorgu (dyr), oc hvat sem maðr mælir við fugla eþa dyr, þa eru þau iafnlyþin honum iafnlyþin(!) sem guði. Fiorar ar falla þaþan, heitir ein Fison, annur Gion, þriðia Tigris, fiorþa Eufrates. Þessar ar ero fullar fisca allzkyns, oc þa er maðr mælir við vatnit, at þat sendi honum fisca, þa fellr up ain firir fœtr honum meþ allzkyns fiskum, sva at hann ma taca, þa er hann vill, en þa eptir lata, er hann vill þat. Sva hit sama oc fuglar oc oll kyckvendin, þau er monnum megu vera til crasa, þa coma þegar, er nefnd ero, oc þarf eigi at sœva þar til fœzlu monnum, oc hava þo allir gnoga fœzlu oc firirbunar crasir af almatkum guþi, oc ero þo kyckvendin oll heil oc uscodd, þvi at hveriom ero þat crasir oc fullr fagnaðr, er hann veit, at oll kyckvendi þiona honum. Oc þær crasir, er þar ero, verþa sva hveriom þockaþar, sem hugr hans beiðir. Þar gerisc eigi saurr i kviþi manz af ati eþa dryck, þar er eigi hunda gauð ne ulva þytr, eigi grenian enna uorgu dyra, þar ero allir lutir bliþir, kyrrir oc hógverir. Alldrigi er þar himins fegrd scyiom hulið, þar fliuga elldingar alldrigi, alldrigi reiþarþrumur, helldr er þar gleþi an enda, oc hatið su er eigi hevir endimarc. En þvi er eigi hoggormr þar, at ovundar engill framþi illzcu sina firir hoggorminn, oc var hann sva bolvaþr siþan, at hann ma alldrigi vera i blezsoþum stað. En at þvi var englinom ovund, er hann sa guþs licneski i manninum, oc maðrinn matti vera i lifs heraði, þar er oll kyckvendi þionuþo honom. Þa toc engillinn ovond af siolvom ser oc mællti firir hoggorminn viþ cono ens fyrsta manz, at hon æti æpli bannaðs tres, en siþan sveik conan karlmanninn. Oc er þau hofþu bæþi misgert, þa varo þau a brot rekin or lifs heraði oc i dauða herað, þessa verolld. En sialfr finnandæ synðarennar varþ fundinn i hoggorminum, oc var hann þa bolvaðr. En siþan toc sonr guþs manz licam a sic, sa er meþ feþr oc helgum anda hafþi scapat manninn, oc firirlet hann eigi guðdom sinn, þa er hann tok manndom, oc var hann borinn bæþi guþ oc maþr fra meyio. En sia mær oc moþir varþ qviþug af helgum anda, þa er hon heyrþi orþ engilsins, þviat hann elscaþi þessa usaurgaða mey, oc samtengþisc þa hennar trua helgum anda, oc fann heilagr andi reinan hennar licam, oc sva ond, oc uspillta tru, oc gerþisc guþ þa maþr i hennar qviþi. Sem Salomon sagþi firir, at guþs speki gerþi ser hus. En sia maðr Jesus Cristr bœtti yvir misverca þess, er yvir varþ stiginn af diofli oc braut rekinn or paradiso oc hingat i heim. En inn fyrsti maðr var

or iorþu gerr, oc var iorþin þa mær, meþan hon var usorguþ oc eigi spillt af synðum eþa af uthellingu bloþs. Af þvi var þat rett, at sa veri fra meyio borinn, er bœtti yvir verc meyiar sonar, oc hann stigi fastandi yfir þann, er sigr vá a þeim, er át þat, er guþ bannaði. Jesus Cristr ste yvir velar fiandans oc yvir dauðann deyiandi oc lauk up paradiso i upriso sinni. Þangat leiddi hann fyrstan þiof, þann er heck a crossi meþ honum, oc lauc hann up paradiso firir ondum allra heilagra manna, þa er þer fara or licomum sinum, sva at allir megu nu þangat comasc án iva þeir er Cristi þiona. En a hinum ðfsta degi þa er up lokit himinriki, sva at þeir megu þangat comasc eptir upriso sina. En nu renni sa er vill til lifs fra dauþa oc hvervi aptr til paradisar, þaþan er licamlegr faþir varr var a braut rekinn meþ allu sinu kyni i utlegþ þessa heims. Drottinn lauc oss up dyrr paradisar, at ver hvervim aptr til fostriarþar varrar, þar er avalt fognuþr oc alldrigi kemr dauði."

Oc er postolinn hafþi þetta mællt viþ lyþinn, þa geck hann inn i borgina. Oc var þar gratr mikill oc ugleþi, þviat sonr konungsins var þa danþr. En þeir Zaroes oc Arphaxath stoþu hia liki hans oc hugþusc mundu reisa hann af dauða. En er þeir mattu þat eigi, þa tolþu þeir þat firir konunginum, at sonr hans veri upnuminn oc orþinn at guþi, oc hann scylldi gera lata licneski eptir honum oc blota hann. En Candacis geck þa firir drotningu oc mællti: „Setiþ þer nu i bond þessa ena fiolkunnigu menn, en biðit at hingat comi Matheus postoli; en æf hann reisir þenna af dauþa, þa brenni þer galldramenn þessa i elldi, þvi at ver liotum allt illt af þeim i borg varri." Þa var Candacis sendr oc hinir gofgusto hirðmenn konungs meþ honum eptir postolanum, oc læiddu þeir hann firir konunginn meþ mikilli sœmþ. Þa fell Eufenora drotning til fota postolanum oc mællti: „Ec veit, at þu ert postole sendr af guþi oc þess lærisveinn, er dauþum gaf lif oc allum siukum heilso meþ orþi sinu. Nu com þu oc calla a nafn hans yvir son minn dauðan, oc trui ec, at hann man lifna." Postolinn svaraþi: „Þu hevir enn eigi heyrþa kenning drottins mins Jesus Cristz af minum munni, oc truir þu þegar; [af þvi] scallt þu vita, at sonr þinn man lifna." Eptir þat hellt Matheus hondum til himins oc mællti: „Deus Abraham, deus Ysaac, deus Jacob, er sendir son þinn af himni til iarþar at biarga oss oc leysa fra villo oc syna oss þic sannan guþ. En nu minz þu orða drottins vars Jesus Cristz sonar þins, er hann

mællti: Satt segi ec yþr, hvat sem þer biþit foþur i nafni minu, þa man hann geva yþr. En til þess at allar þioþir viti, at engi*

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

firir arnun sins postola, sa er fyrr gaf viðsmior af þurru keri oc vatn or biargi fram fliotandi til dryckiar þyrstum lyð." Oc er þeir sa til kersins, þa flaut þar yvir vin, oc drucku þeir allir at œrnu. Athanasius hof þa up augo sin til himins oc mællti: „Þu enn sæli guþs þionn Mathee, nu se ec, at þu hevir mæirr vitrazk firir sakir Salernitarum manna helldr en ockrar sakir mœðgina." Biscup gerþi þackir, oc allir þeir aðrir, almatkum guði oc hinum sæla Matheo postola. Oc er nott com, þa foru menn at sova. En Athanasius villdi na a brot helgum domi postolans, oc for inn i kirkio um glugg einn, oc fyrr en hann com a golf niðr, þa song i orkinni, sva at allir vocnuþu viþ. Sa þeir þa Athanasium oc tocu hann oc fœrþu Joni biscupi. Hann hirti hann bliþlega oc miðlaþi við hann nocqvot af helgum domi postolans. En um morgoninn toc biscup helgan dom Matheus postola oc bar sialfr, til þess er þeir comu at a þeirri, er a leiþinni var. Þa toc við prestr, sa er Petrus het, oc slo iva i scap honum, hvart hann bæri þann helgan dom, sem latit var, eþa eigi. Malla het ain, oc er prestrinn oð a ana, þa rac undan honum fœtrna, oc rac hann eptir anni. Þeir naðu bratt helgum dominum, en sva fremmi prestinum, ær hann var nalega at bana cominn. Jatti hann þa firir biscupi iva þann, er verit hafþi i hans scapi. Foro þeir þa siþan meþ helgan dominn i Petrs kirkio, en þar var firir diacn sa er Rogatus het, hann truþi engu um iartegnir, þær er sagþar varo fra Matheo, oc eigi bazk hann ferlegra orþa um. En um nottina eptir þa vitraþisc honum maðr virþilegr synum, hann bar firir hann rossaslatr, oc bað hann up risa oc eta. Diacninn svaraði: „Hvi man ec eta uatan, drottinn?" Sa mællti: „Eigi verþr briost þitt reinna af þeirri hugrenningu oc munzhofn, er þu hefir aðr, helldr æn af þvi, þo at þu etir þetta." Hann þottisc þa mæla: „Þo at hingat til havi sva verit, þa man mic þat alldrigi siþan henda." Hann vacnaþi siþan ræzlu fullr oc sagþi biscupi draum sinn, oc þar meþ iva oc utru, þann er hann hafþi haft. Biscup let þa bera helgan dom postolans i Mario kirkio, þar sem hans stoll var, oc let bua um vandlega.

Gisulphus het hofþingi vitr oc mattugr i hofuþborg þeirri, er Salernitana heitir. Oc er hann spurþi, at heilagr domr Mathei

* *Her mangler 2 Blade.*

var sva nær þangat cominn, þa sendi hann eptir abota þeim, er Jon het, oc meþ honum gofga menn, at þeir hefþi heim helgan dominn. Byscup varþ ryggr við þeirra comu, en treystisc þo eigi oþro en selia fram helgan dominn þeim, er vitia varo comnir. Foro þeir þa siþan heim meþ helgan dominn. Oc fyrr en þeir kœmi til borgarennar, þa geck Bernardus biscup þeirrar borgar i moti þeim, oc fiolþi kennimanna meþ honum, meþ kertum oc reykelsi oc fogrum lofsongum. Var þar borinn heilagr domrinn i Mario kirkio oc buit um vandlega, oc verþa þar i sifellu margar iartegnir oc fagrar, þær er enn sæli Matheus gerir allt til þessa dags.

Maðr het Andreas, hann atti dottur sva siuca, at nalega var hon at bana comin. Hann mœddisc mioc a vokum oc yvirsetu meyiarennar, oc sofnaði hann, oc bar þat firir hann, at hann þottisc ganga meþ sævarstrondu oc bera meyna i faðmi ser. Þa þotti honum ureinn andi gripa meyna or faðmi ser oc laupa a sioinn ut. En hann þottisc vera i horþum hug, sem van var. Þa vitraþisc honum biartr maþr scolauss oc hafþi mottul yvir ser. Sa spurþi, hvi hann veri sva ryggr. Hann sagþi hvat til bar. Sa mællti: „Grát þu eigi, Andrea, bratt mun dottir þin coma heil til þin.“ Hann þottisc feginn verþa oc mællti: „Þo at ec mega ecki til þin at verþleic gera, þa villda ec þo vita nafn þitt oc kyn.“ Hann svaraþi: „Ec em Matheus postoli oc guþspiallamaðr, oc þarf ec ecki þinna giava.“ Postolinn toc meyna fra uhreinum anda oc selldi heila i hendr foþur sinum, oc siþan leið hann fra augum hans. Andreas vacnaði oc fann dottur sina heila, oc syndi hann biscupi oc allum þeim, er viþ varo, oc sagþi þeim greinilega þenna atburþ. Oc var þessi iartegn hina næstu nott eptir, er heilagr domr Mathei hafþi þangat comit.

Þar var enn cona, su er atti siuca dottur, oc var sva qvalið af iþraverc, at hon var nær at bana comin. Moþir hennar for til heilags doms Mathei meþ mœþingu mikilli sins hugar oc bað firir henni meþ tarum, oc gaf enn sæli Matheus hœnni hæilsu, oc geck hon sinum fotum a brot, en hon var borin þangat.

Systir Gisulfi hofþingia het Roþillda, gafug cona oc auþig, hon atti þion, þann er hon virði mikils, er Stephanus het. Hann þyrsti mioc um nott, oc baþ hann cono sina fara at fa ser dryck. Oc er hon let eigi allsciott til at fa honum dryckinn, þa varþ hann reiðr miok oc mællti [he]rmiliga: „[Gefi] mer dryckinn diofullinn!“ Konan reis þa up oc feck honum dryckinn, oc liop þar i diofullinn, sa er hann hafþi til qvaddan, oc svalg hann þa

allt saman, oc varð þegar diofuloþr, oc var þegar i bond fœrðr, er matti. Siþan var sagt drotningo, oc for hon at finna hann oc bað firir honum, leitaði hon eptir, ef nocqvorr maþr kynni raþ til leggia. Athanasius muncr var þar, oc lezc hann hava tonn Matheus postola. Biscup toc þa tonnina at raði Roðilldar oc lagþi i vigt vatn oc gerþi cross yfir, gavo hanum nauðgum at drecka. Diofullinn villdi undan leita, oc matti eigi þa leið fara, sem vatnit var fyrir, oc for hann aptr oc þar ut meþ fylu mikilli. En hann var alheill eptir. Oc gerþu allir guþi þackir, er við varo, oc naði Athanasius eigi siþan tonninni. Þessir atburþir urþu i Benevent.

Eptir þat for hofþingi sa i Salernesborg, er Landulfus het, oc beiddi, at þeir myndi nocqvot vilia miðla við þa af helgum domi ens sæla Mathei guðspiallamanz til sœmþar þeim oc styrcþar. Þeir miðluþu við hann handlegg postolans, oc foro brot meþ fagnaði oc heim til sinnar borgar. Beneventar[menn] spurþu, aðr en þeir cœmi aptr, hve œrendi þeirra var orþit, oc for biscup ut af borginni oc nalega allr borgarlyþr, oc sungu lærþir menn lof guþi oc hinum sæla Matheo postola. Sa maðr var þar i borginni, er Landulfus het, en sa hofþingi nafni hans, er fyrr var getið, hafþi latit setia þenna mann i bond. En er hann heyrði þys þenna oc hareysti, þa spurþi hann, hvi sætti. Maðr svaraþi: „Firir scommo kom heilagr domr Matheus postola i Salernisborg, en nu er her cominn handleggr hans, oc ganga honum i moti meþ glaumi oc fagnaði.“ Hann mællti þa bandinginn: „Ef þu ert Matheus guðspiallamaðr, oc se þessar miniar af þer, er her ero comnar, þa lat þu losna bond þessi, er ec þickiomc saclauss i sitia.“ Þa spruttu þegar bondin af honum. Oc var honum sagt hofþingianum, oc baþ hann þa leiða hann or myrkvastofonni, oc toc hann þa i sett oc fullan friþ viþ sic, oc urþu allir fegnir þessum atburþ.

Margar verþa þar iartegnir i hvarritveggio borginni allt til þessa dags, oc hvarvetna þar er hann er rettliga dyrkaðr; megum ver oc hans arnaþarorþz niota i sifellu bæþi þessa heims oc annars. Amen

# JONS SAGA BAPTISTA.

## I.

*Lifssaga hins sæla Johannis baptiste.*

Þessi hatid er helgod med allmatkum gudi enum gofga hans dyrlingi Joani baptista, oc hon er med annare setni(n)gu en flestar adrar hatidir, af þvi at þessi dagr er halldin i mining hingadburdar hans, en sa er engi madr annar, er burdardagr er halldin, nema sialfum guds syni oc hans modor Marie ero þeir dagar hallnir, en engum monnum odrum af guds halfo. Er þat i þessu en merct sem i maurgu annars, at gud hefir þau miclo meira virdt bædi en alla adra sina astvini. Her er oc fatt a bocum sagt fra æfi þessa ens dyrliga guds astvinar hia þvi sem þeirra, er lagir ero hia honom at verdleic, en þat ber til, at han var leyninn at crauptum sinum oc meinlætsemi lifi fyr maunnunum en ber i guds augliti, oc gerdi gud af þvi bert, at han virdi Johannem um adra men fra(m), at þat matti eigi vitat verda ellegar iamgiorla, nema skaparin sialfr bæri vitni um. Nu ma eigi sidan ifa, er han qvedr sva at, at engi væri honum ædri feddr. Þa eina hofum ver sogu fra lifi Johannis, er i gudspiollum er sogd, oc er þat haleit virding þessum enum dyrliga guds astvin, at hans ferr afvallt iamfram i frasogn æfi sialfs guds sonar.

Þat er uphaf þess mals, at madr het Zacharias, han var guds vinr oc godr kenimadr a dogum Herodis konungs, han (var) ættadr af bæ þeim a Gydingalandi, er Abia heitir. Han var qvangadr vel oc atti kono þa (er) Elisabed het, þau voru bædi retlat i guds augliti oc voro stadfost i hans bodordum oc letu ser skaptitt allt, er gott var. Þau oru vel saman oc lengi, oc var þeim eigi erfingia audit, þviat Elisabed var obyria en fyra hlut æfi sinnar. En er at þvi kom (at han) atti fornir at færa, at þvi sem hlutr rac þa til, af þvi at þa skylde kennimanzskapr at hlutfaullum fara i þan tima, þa for Zacharias ut riykelse(!) at bera a þeirri tid sem þat var bodit. Oc þa er han var inn gengin i guds mustari, en lydrin var inn(i) oc beid þar medan, þa vitradiz honom engil guds oc stod a hægra veg altaris, oc vard han ottafullr af þvi at han var ovanr engla syn. En engillinn fann þat brat oc melti: „Eigi skalltu ottaz, þvi at heyrd er bæn þin, kona þin mon son fæda, þann er id munud eiga, oc skal han Johannes

heita, oc mon þer verda mikill fognodr oc gledi i hans tilqvomu, oc margra manna fagnadr mun þat vera. Þessi madr Johannes mon michill verda i guds auglite, oc mun han eigi drecka vin eda afengen dryck, mun han fyllasc helgum anda i modor qvidi, oc mun han snua morgum monnum til guds af sonum Gydinga lyds, han mun fara fyrir drotni i anda oc krapti Helie, at hann vinni[1] fedra hiortu til sonanna oc otrua menn[2] til vizcu oc bua drotni algorvan lyd. Zacharia þótti uliclec(!) saga engilsins oc trudi tregliga at sva mundi verda, oc vitradiz honom þa i anat sinn Gab(r)iel engill oc mælti vid hann: „Eg em engill guds, er stendc i sifellu fyrir gudi, oc em ec nu sendr vid þic at mæla oc segia þer med merkium, þat er þu hefir her til mistruat. Oc fyr þat sama er þu mistrudir min ord, skaltu mallaus vera, unz þat kemr fram, sem ek hefi þer fyrir sagt“ En eptir þat leid engillinn fra honom at syn, en spamadrenn var eptir i mustarinu mallaus, unz adrir men qvomo hans at vitia, oc foro þeir sidan heim med han, oc markadi han þa allt at bendingum, þar til er Joan var fædr, oc var mioc einvistum.

A þessi tid urdu þau stortidende, at þa kom Gabriel engell at boda Marie guds son oc sagdi þa henni, hvat tit var um rad Elisabed fræ(n)kono hennar. Oc af þeirra fundi reis Maria up oc for i fiallbygd at hitta Helisabed oc forvitnaz þat, er til hennar var viked af þes(sum) stormælum, er engillinn hafdi vitrað. Enn Maria qvaddi Ellisabed. Þa kom þat fram, sem engillenn hafdi sagt Zacharia, at sveinnenn fylldiz þa helgom anda, er hon bar fyrir briosti, oc hne(i)gdi Joan sic i modor qvidi drotni varum oc hans modor Marie, er þa hafdi qvadda Elisabed. Oc er þau vissu oll saman þessi tidendi, þa dvaldiz Maria þar, unz Elisabed vard letari. En er su tid kom, er þess var von, þa fæddi hon son sinn. Oc er þat spurdu frændr hennar oc nagrannar, at gud micladi miskunn sina med henne, þa qvomo þeir hana at finna oc gerdo henne fagnad þa vicu alla.

En a enum (atta) degi qvomo þeir menn, er sveinin skyldu um snida oc nafn gefa, oc villdu kalla han nafni fodur sins, en modir hans bannadi þat oc sagdi Johannem heita skylldu. En þeir lætu undarlliga yfir þvi oc saugdu engan mann med þvi nafni vera i þeirra æt, oc foro þa til fyndar(!) vid Zachariam oc bado, at han skylldi nackot benda, hvat sveinnenn skylldi heita. Zacharias beiddi ritfæra oc reit sva: Johannes er nafn hans.

1 in *Cd.* 2 mem *Cd.*

Þeim þotti ollum undarlic(t), er vid voro, er þetta kom upp nafn sveinsins. Oc eptir þetta laucsc upp mudr Zacharie oc toc han mal sitt oc blezadi gud. Þa kom otti mikill yfir alla er vid voro, oc foro þessi tidendi brat um alla fiallbygdina oc voro morgum manne mioc hiartnæm, oc ræddo[1] sin a milli, hvelicr þessi sveinn mundi verda, þottosc sia þat gerla, at gud hellt þegar mioc henndi yfir honom. En Zacharias fadir hans fylldisc hellgum anda oc melti med spaleic þan cantica, er bendictus er upphafid, oc er þar su fyrirsogn i, sem sidan gecc eptir um sveinsins rad, at han mundi bædi spamadr vera oc lagdr til mikils þrifnadar oc gæfo Gydinga lyd, oc þa mundi sa fęddr vera, er guds gautur mundi fyrir skolo bua, oc han mundi leid skolo lysa þeim, er adr svima i myrcrum, oc mun han greida gautur varar a fridar stigu. Eptir þessi fagnadar tidendi for hver til sins heimilis, oc þa er eigi gettid i bocum mioc þadan i fra samvistu þeirra frændqvenna Marie oc Elisabed.

Sva segia bæcr, at frændsemi hafi farid(!) verit med drotni varum oc Joani, at Anna modir Marie atti systur þa er Esmeria het, oc var hon modir Elisabed, oc voro þær badar, sem i gudspiollum er sagt, komnar fra dættrum Áárón oc oro af kyni Levi, oc sva oc Zach(a)rias. Var han af þvi kennimadr at sinu leyti, at i þeirri ætt skylldi of allt kennima(n)zskapr vera i Moysse logum, oc toc af þvi þann hatt a sic i sumu lagi Johannes, þegar er han hafdi til þess alldr. En Maria var bædi af konungligri ætt komin oc kennimanligri, af þvi at hon var bædi af Judas ætt oc Levi, en su leifdi sit kyn hvar eptir sic ætin.

Þegar Joan hafdi alldr til þess, þa for hann i eydimorc, oc var þar e(i)nvistum þess a mille, er menn sótto a hans fynd, sumir lærisveinar hans at geraz, en sumir kenningum hans at lyda, sumir foro til fretta at ganga, en sumir fyrir forvitnis sacar, sumir foro skirn at taca. Þar var oc eigi smatt eitt at forvitnaz, at þvi sem i gudspiollum segir, af þvi at sva segir þar, at han hefdi þau klædi er af ulfallda hari voro gǫr, en af al hafdi hann belti um lendar ser; han hafdi til matar ser þau kyqvendi er locuste heita, oc þar med skogar hunang oc drac vatn[2] vid; lengstum var han i nand vid Jordan oc skirdi menn i þeim stad er Beitania heitir, oc for þa frett vida um Joan, sem van var at.

En er Gydingar spurdu til Joans, þa sendu þeir kennimenn til fundar vid Joan at fretta han sialfan, hverr han væri. Oc

1 raddo *Cd.* 2 vatit *Cd.*

frettu þeir han, ef han væri Cristr, en han neitadi þvi. Þa spurdu þeir, ef han være Helias. En han sagdiz eigi Helias vera. Þa spurdu þeir, ef han væri spamadr. En han lez eigi spamadr vera. Þeir frettu, hvat han villdi fra ser segia, at þeir kynne segia [þeim er[1] þa hofdo senda. Han svaradi þa: „En ec em rodd kallanda i eydimorc, en er greidit drotins gautur oc gerid reitta(!) hans stigu.“ Þeir spurdu, hvat skirn han flytti, ef han var eigi Cristr oc eigi Helias oc eigi spamadr. Han melti: „Ec skiri i vatni oc kennig ydr synda at idrasc, oc bodac ydr þat, at nu nálgaz himna riki. En sa er ydar a mille, er mer (er) ædre, oc er kenniz eigi vid, han mun skira i helgum (anda), oc er sa ocar munr eda meire, at ec em eigi verdr hans skoklædi at leysa.“

Menn drifu þa floccum i eydimorkena til hvarstvegia skirn at taca af honum oc kenningar hans at heyra oc rad at sækia. Oc er þeir komo han at hitta oc skirnar at beida, er oeirumenn voro oc ofmetnadar fullir, þa melti han vid þa: „Er erod nodru ætt, oc er torsótt ydr at syna, hversu flyia skal comanndi[2] reidi. En sa er ydr til at gera sæm(i)liga idrun ydarra annmarka, oc dirfiz eigi at, medan er erod sva bunir, a kalla Abraham fodor ydarn, af þvi at sva erod er attlæra(!) at sva bunu, at gudi er eigi torveldra at gera af grioti sonu Abrahe helldr en at gera ydr at mann(um).“ Þeir spurdu hann þa, hvat þeir skyldi rad taca. En han melti: „Sa er tva kyrtla á, gefi han annan fatækium monnom, oc skipte sva et sama um fæzlur.“ Þa qvomo til hans bersyngir menn oc spurdu, hvat þeir skylldu til rads taka. Han svaradi: „Þat mun at ydr heimt sem leid(!) er, oc eigi framar, enda monod eigi þat verda undan at draga, sem þer hafid fong a.“ Eptir þat qvomo ridarar (til hans oc spurdu, hvat þeir skylldu til rads taka. Han svaradi: „Verit þer ridarar) fridsamir oc ómeinsamir oc unid vid ydar(t) lan en girniz eigi annarra.“ En af slicum kenningum oc odru hans athæfi hugdu margir, at han væri Cristr, oc sonnodo þat honom a hendr. En han neitadi þvi þverliga oc sagdi þeim þa grein, sem var þeirra a mille oc hann hafdi þeim fyrr sagt.

En þa er Johannes hafdi einn vetr kenningar kendt i eydimorcenne, þa kom sialfr guds sonr til hans, at han leiti(!) skirasc af honom. Joan toc vid honum stadfastliga oc litillatliga oc tiadi þat sem honom syndisc, at han þottisc skirn þyrfa(!) at taca af guds syni, en han þottisc vanfærr til han at skira. En er han

1 [*staar to Gange i Cd.* 2 comamoanndi *Cd.*

sa, at þat var guds vili, þa skirdi han drottin varn, oc nadi þa þvi af sem engi annarra, at han sa helgan anda coma yfir guds sou oc hau heyrdi rodd guds faudur, at han iatadi ser þan son er þa var skirdr. Oc þa sagdi hann þat berum ordum þeim maunnum, er vid voro, oc retti hond sina til guds sonar oc melti sva: „Se her lamb guds, er tecr syndir hę́imsins; her er nu sa, er ec hefi fra sagt, er eptir mer kom en er mer fyrri oc ædri.“ Han bar þvi framar vitni um hervist drotins en allir adrir spamenn, at han syndi þann med sinni hendi, er allir adrir spamenn hofdu sagt fyrir, at han myndi i heim koma, oc han sagdi oc sva, at i hans tilqvomo var fyllt þat logmal, er fyrir Moysen var bodit, en (fyrir) Jesum Crist [1] var gefen i stadinn miskunn oc sanleicr.

Nu verdr þess vid at geta, at þa er menn foro floccum at heyra ord guds sonar, hvat han melti of Johannem, en hann sagdi sva, sem uu er opt sidan sungid i hans lofs(a)ungum, at eigi reis ædri madr up Joani baptista fæddr fra karli oc konu, sa einn var ædri i himna riki, er yngri var her i heimi, oc mun morgum sa nu lægri synaz. Sa vitnisburdr [2] ma engum audrum allicr synaz, er sa bar, er gerst vissi, hvat um var at mæla. oc mælti um han sva virduligum ordum sem um engann annan þvilicum, oc ma sia, at þat ma nu retligast synaz ollum at samþyckiaz vid sialfan guds son oc dyrka þann mest, er han kallar æztan.

Joan kendi þa un kenningar i morkenne þau missere en næstu eptir oc mioc va til annara paska, oc gec a berhog at banna allar þær uhæfu er honom voro mioc i nand [3] at heimvistum, oc ol hau eptir engum monnum udadir. Johannes fastadi oc langafostu fyrr en drotin varr fiora tugu daga oc fiora tugo natta oc greinde þa tid meirr til meinlæta en adrar. Verdr af þvi sva at qvedit, at Johannes bioge guds gautur oc gerdi hans stigu retta. En i sliku bio han guds gautur, at han fastadi fyrri, kendi han oc fyrre kenningar, skirdi hau oc fyrri en drottinn varr; þa bio han einkanliga guds gautu, er hann skirdi i vatninu, en þa gerddi hann hana fyr oss, er han skirdi skaparann sialfan oc sa himnana opna fyr þeim, er þa skirn tæki sidan. En þa gerdi hann retta hans stigu, er han kendi maunnum synda at idrasc oc til yfirbota at ganga.

I þann tima voro fiogur riki yfir Gydingalandi, sem i gudspiollum er sagt; reid(!) einum fiordung lands Pilatus, odrum Lisania,

1 Cristr *Cd.* 2 vittusburdr *Cd.* 3 nænd *Cd.*

þridia Herodes; einum(!) fiorda Philippus brodir hans; þeir voro synir Herodes ens illa, er samtida var hingadburd drotins, oc atto þeir einn fodor oc eina modur Filippus qvangadiz oc fecc dottor Arethe konung(s) af Syrlande, er het Herodiadis, væn kona oc æstilig(!). En er riki Herodis gecc fram meirr en Filippus, þa þottisc Herodiadis vargefin, oc foro þa ord um, at hon mundi ganga med Herode, ef han (h)efdi þrec til at fa hennar. For þa Herodes a fund Arede konungs oc fastnadi ser þa Herodiam oc toc hana af brædr sinum naudgum oc fecc hennar sidan oc unni ofrast. En um þessa uhæfo vandadi Johannes oc avitade Herodem, er han hafdi tiltekit eiginkonu sins brodur. Þau kunnu bædi illa hans umvondun oc ottoduz mioc, (at) menn mundu gaum gefa at hans rædu, sva fiolmennir sem menn gerdu(z) a fund hans, oc ugdu at þau mundu rekin af rikinu fyr sinar udadir. Herodis gerdi menn til at taka Johannem, oc var han bunndinn oc i myrqvastofo settr nær paskatid, oc sat þar alla tolf manudr.

En er han heyrdi sogd Cristz verk, þa er han sat i bondum, þa sendi hann tva sina lærisveina at spyria Crist sialfan, hvart hann mundi dauda taca sialfr til hialpar mannum oc til helvitis (fara, eda mundi annarr) eptir honum koma, sva sem han hafdi hingad i heim eptir honom komid. Drotinn mælti sva vid þa: „Farid oc segid Joani, sem er sad oc heyrdot, blindir sia, haltir ganga, licþrair hreinsaz, en daufir taca h(e)yrn, daudir lifna, en fatækir audgaz, oc er sa sæll er vid mig verdr samhuga.“ Eptir þat mælti drotin vid floccana þa er vid voro þesa rædu: „Til hvers forud er ut i eydimork? Villdu(d) er sia reyr vidi skekinn? Eigi er Joan sva, þvi at hann hnigr eigi fyr blidu ne stridu. Eda forod er at sia blaudklæddan mann? I konunga husum bygia þeir en eigi a eydimorkum. Eda villdud er spamann sia? Ec segi ydr sat, meir en spamadr er Joann, þviat um hann er þat ritad: Ec mun senda engil min þann er bua skal gautu þina fyrir þer.“ En er lærisveinar Johannis komu aptr oc sogdu þessi ord drotins, þa þottisc han vita glegt sitt liflat miok nalægt, oc hann mundi skolo koma fyre honom til helvitis.

Herodias gol opt at um liflat Johannis, at fram skylldi koma, en Herodes treystiz traut fyrir vinsældar sacar hans, oc forst af þvi fyrir um stundar sacar. En nær paskum gerdi Herodes veislu mikla vinum sinum oc hofdingium sins rikis, oc skylldi þa hallda hatid i minning burdar konungsins. Þar var morgo vid slegid til beinabotar, oc at ecki væri af dregid, þa var mærin a golfi dotir

Herodes oc lec til gamans maunnum, oc dadu þat allir, oc fyrir þa beinabot er hon þotti gera, þa mælti konungren, at hon skylldi kiosa ser laun fyrir sina skemtun, þott hon villdi halft riki hans. Mærin spurdi modor sina, hvers hon skylldi beida. En hon svaradi: „Bid hann gefa hofud Joans baptista.“ For hon sidan a fund konungsins oc mælti: „Ecki læt ec mer annat lika, en þu latir mer a diski færa hofod Joans baptista.“ Konungrinn gerdi a ser hrygdarsvip at yfirbragdi fyrir bodsmaunnum, en þo sendi hann mann til at hogva hofud af Joani baptista, oc let sidan færa henni a diski, en hun fecc modur sinni. Hon let hofudit fela i turn einum havum, þviat þau hugdu hann mundu upp risa af dauda, ef hofodit nædi til bolsins, en þotti þa enngi von annars, en þau mundi skild verda þverliga. En lerisveinar Joans toco likama hans oc færdu i Samaria oc grofo hann þar med mikilli hrygd. Oc er drotinn spurdi liflat Joans, þa þotti honom sva mikils[1] um vert, at han gecc i eydimorc eptir um stundar saca(r). En er stundir lidu þadan, þa qvomo Serkir oc ræntu þar ollo oc toco mioc sva oll bein Joans oc brendo i elldi oc kostodu sidan ut a acra, en þau fundusc sidan at aqvedinni stundu, oc ero nu þar dyrcud af einum(!) æzta manni(!), en nu er mestr hofodstadr i heiminum i Latrane þar sem heimili pafans er.

*De miraculo capitis Johannis baptiste.*

En hofod Joans fanz at guds tilvisun af tveim muncum a degi Mathie postola, oc urdu þeir fegnir mioc, oc er þeir villdu heim fara til sins claustrs, þa slosc madr i ferd med þeim, oc toc i brot hofodit at þeim sofondum oc færdi i borg þa er Edissa het, er stortigna hefir audit ordit, oc var þat þar dyrkad i akia(!) um stundar sakar. Þa leid enn nacqverra manna lif oc gleymdiz þa su minning, er þar haldi gior verit fyrr sacar hofods ens sæla Joans baptista. Oc vitradisc hann þa sialfr einum sidlatum manne oc sagdi honom til greiniliga, hvar hans hofud var folgid oc þa mundi fin(n)az, ef leitad væri. En þa sagdi hann byscupi þessa vitron, en hann baud fostu sinum clercum oc lyd, oc gengu til þess stadar, sem til var visad, oc fundu hofudit i fauto einni, oc urdu fegnir oc gerdu gudi þacir oc baro sidan i kirkiu med lofsaungom, oc drupu þa or bloddropar, sva sem nyhogvid væri af, oc var þvi ridit a haund clercs eins, oc mati hann hana adr naliga ecki hræra oc vard þegar heil. En annar fecc bot i

1 miskils *Cd.*

processione, oc var þa sva mikill fagnadr þeirra manna, er voro vid þessi tidendi, at sa dagr er nu um allan heim halldinn agetliga at tidum i minning hans liflatz, er þo var a paskatid, en þat hefir nu synz guds cristni merkiligast at hallda þa minning a þeim degi er hofudid fanzc med storum iartegnum oc . . . . . .
. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

---

## II.

### *Bref Grims prestz.*

Virðuligum herra Runolfi abota i Veri sendir Grimr prestr qveðio guds ok sina sanna vinattu. Þers truir ek yðr minniga vera, at þer baðut mik saman lesa or likama heilagra gudspialla lif hins sæla Johannis baptiste ok setia þar yfir tilheyriligar glosur lesnar af undirdiupi omeliarum hins mikla Gregorij, Augustini, Ambrosij ok Jeronimi ok annarra kennifedra. Nu þvi at hvarki mællti fyrir mer gnott klerkligra lista edr natturugiðf hiartaligra vitzmuna ne lofligr vitnisburðr fyrirfaranda lifs, ok adrir voro stormargir miklu betr til þessa starfs fallnir, sá ek ỏngva sỏk til þers, er þer bundut þat mer á hendi, adra enn þa, at þer unnut mer þers odrum framarr, sem þer sád mik ỏdrum framarr þurfanda, enn þat er aflausn andmarka, ef almattigum gudi ok hans haleita fyrirrennara Johanni þætti nockut þess vert fyrir þenna samanburd. Hefir ek nu gert, at brottkastadu(m) ollum kinnroda, um þenna lut ydvarn bodskap, þo at ek vissa á minu verki mundu finnazt morg ok stor gỏrdarlyti. Truir ek, at nockurum monnum syniz i mỏrgum stỏdum mỏrg orð yfir sett, þar sem fá standa fyrir. Gorða ek þvi sva, at þat var ydvart atkvædi, at ek birta ord hans med glosum. I annan stad truda ek, ef obóckfrodir menn heyrdi hans hin fỏgru blom ok hinar myrku figurur, at þeim mundu þær a þa leid onytsamar, sem gimsteinar ero svinum, ok at betra væri at lysa hans spæsogur ok skynsemdir morgum manni til trubotar, helldr enn at sinna heimskra manna þocka, þeira sem allt þickir þat langt, er fra Cristz kỏppum er sagt, ok skemtaz framarr med skrỏksỏgur. I

þridia stad syndiz mer sa orskurdr her til heyra, at miklum soma miklir lutir. Af þvi lét ek frammi allt þat, er mer þotti af þessa dyra mannz lofi her til heyriligt, ok þat sem ek truda vitrum monnum mundu sögubót i þickia. Vil ek nu bidiandi vera, at þer takit þenna samanlestr til skodanar ok umbotar, æigi fyrir annat enn þat er þer budut mer þetta at gera, ok mer syndiz, sem þer seed sakir astar ok godvilia ok visdoms a mannligar boklistir ok gudligar röksemdir til þessa starfs öruggir, ok uti muni vera byrgd öll skynsamlig aleitni oss samlendra manna af þvi aullu, sem þer vilit med ydrum skynsemdum veria. Sva vil ek ok einkannliga bidia, at þer æstit þers almattigan gud födur, at æigi taka ek fyrir þetta verk þinu sakir ofdirfdar helldr aflausn andmarka fyrir yfirsetu ok eptirlæti med ydr. Ok þott æigi vinniz til þess gipta, at ek verda i valdra manna tölu vars herra, mega ek þo fyrir arnadarord sæls Johannis med domi bersyndugra manna fordaz bruna helvitis fyrir makliga ok vidrkvęmiliga idranar ávöxtu ok bida sællar vanar i hinni sidarri sealfs drottins tilkvámu. Quod ipse p.[1]

### *Prologus.*

Þat byriar oss at skilia oc i minning at hallda, at varr drottinn oc lausnari, sa er allan heiminn vissi tapaðan fyrir synð hinna fyrstu manna, let ser soma sakir sinnar omælldrar[2] miskunnsemðar at tendra i heimi þessum marga liosa lampa til þess at leiða allt mannkyn, þat er tapaz hafði fyrir flærð hins forna fianda, til ens sanna lioss, oc voru [fyrstir af þeim[3] helgir hofuðfeðr oc spamenn. A meðal þeira skein hinn sæli Johannes sva sem solin, er biartari skinn [a himnum[4] enn onnur himintungl, þviat hann var pryddr með hærum guðs giofum her a iarðriki. Þessi hinn fyrsti þionn oc framflytiari vatzskirnar oc fyrirrennari drottins vars var fæddr, þa er liðnir voru fra upphafi [veralldar þessar[5] fim þusundrat oc .c. oc niutigir ara oc niu[6] oc þrir manaðir[7], i þann tima er Octovianus Augustus reð ollum heimi, sa er næstr var einvallds[8] höfþingi yfir Romveria riki eptir Julium Cesarem, þann er fyrst[9] tok undir sig allz heims velldi af Romverium, siþan riki[10] hvarf undan girskum[11] monnum.

1 *Dette Brev findes kun i B, og mangler sandsynligvis i A paa Grund af et forrest i Bogen udrevet Blad.* 2 umælldrar *B.* 3 [*saal. B*; af þessum fystir *A.* 4 [*tilf. B.* 5 [heims *B.* 6 .viii. *B.* 7 manadr *B.* 8 einvalldz *B.* 9 fyrstr *B.* 10 rikit *B.* 11 girzkum *B.*

*Her byriar upp lifssogu ok pinslarsogu hins helgazta Johannis baptiste sonar Zacharie*[1].

1. Af kynferð þessa hins storburðuga oc gôfga guðs vinar Johannis segir sva virðuligr prestr Beda yfir orð Luce guðspiallamannz, at eigi at eins voru þau faðir [oc moðir Johannis[2] sialf fyrir sig[3] agæt, helldr oc þar með af agætu kyni komin, oc sialfr upphefiari allra goðra hluta let fyrir þvi sva til bera, at eigi mætti predican oc fyrirsogn guðligrar tilkvamu, su er hinn sæli Johannes bar framm, synaz usannlig[4], ef eyrindrekinn væri braðliga[5] upprunninn af kynsmonnum litillar roksemðar, helldr gerði frægð fyrirfarandi frænda goða vænting sannrar roksemðar honum oc hans frambornum orðum, þar sem hann vàr eigi at eins af retvisi[6] helldr þar með af konungligri oc kennimannligri kynsloð kominn, sva sem Lucas segir.

*Fra Herode*[7].

2. I þann tima er Herodes konungr reð Judea, var sa kennimaðr er Zakarias[8] er nefndr af leyti Abia, enn husfreyia hans var af Aarons ætt, su er Elisabeth het. Þessi Herodes var ættaðr af Idumea at fauðurkyni enn af[9] Arabia at moðurkyni. Faðir hans het Antipater[10], en Cipris moðir, naskyld konungi af Arabia. Fyrr nefndr Herodes var fyrst af Antonio, þeim er riki skipti við Augustum, skipaðr yfir Galileam, en siþan[11] yfir Judeam, oc [enn siðan[12], at sigruðum Antonio oc Kleopatra drottning Egipti, þotti Augusto litið riki Herodis, oc fyrir[13] sakir margra dygða hans oc velgerninga til sin tok hann mikinn hlut af riki þvi, er fyrr nefnd Kleopatra hafði raðit, oc [skipaði Herodi[14]. Oc var i þessu marki þat riki er Trakonitida heitir oc [annað Ituriam[15], oc allar borgir oc bygðir, þær er með sio liggia til þeirar borgar, er Pigrumstratones[16] heitir, enn siþan var uppsmiðuð af sama Herode til sæmþar Augusto oc kollut Cesarea. Herodes gerði oc i þeiri borg er Askalonia[17] heitir konungligt[18] hus, oc þvi var hann Askalonita kallaðr. Hann atti .viii. eða .ix. konur, oc [atti við þeim[19] marga sonu, enn þo mun ek fa nefna. Frumgetinn son hans [het Antipater[20],

1 *Overskr. B;* kynferð Johannis *A.* 2 [hans ok modir *B.* 3 sik *B.* 4 usannligri *B.* 5 bradkomliga *B.* 6 rettvissi *B.* 7 Af Herode ascalonita *B.* 8 Zacharias *B.* 9 *saal. B*; ab *A.* 10 Antipas *B.* 11 sidarr *B.* 12 [um sidir *B.* 13 *saal. B; þvi A.* 14 [*saal. B*; skipat H. *A.* 15 [annat Iturea *B.* 16 Pirgumstratonis *B.* 17 *saal. B*; Ascalonita *A.* 18 konunglig *B.* 19 [af .vii. þersum tok hann *B.* 20 [var Antipas *B.*

moðir hans het Dosides, hon var utigin at ætterni; þar næst voru þeir Alexander oc Aristobolos, moðir þeira het Mariagenes[1] frændkona Hirkani; þar næst[2] var Arkilaus, Matica het moðir hans af Samaria. Þenna Herodem segia sumir[3] sun Mariagene[4]. Þessum næst voru þeir Herodes antipas, er siþan var kallaðr[5] tetrarka[6], oc Philippus, moðir þeira var Kleopatra af Hierusalem. Þessi Herodes Askalonita let drepa hina saklausu sveina oc vall moðkum til bana, hann reð riki oc konungsnafni .xxx. ara oc atta ár.

*Vitran Gabriel engils.*

3. Zakarias þessi var, sem fyrr segir, leytismaðr Abia, þess er einn var af fiorum oc .xx. þeim kennimonnum, er David skipaði, þa er hann villdi auka guðs gôfgan, valdi þessa .xvi. af ætt Eleazar Aarons sonar enn viii. af Ithamar, ok skipaði serhverium þeira vik(u) at lutfalli eptir annan. Þessi hiu fyrr nefnd voru rettlat fyrir guði. Beda segir, at þvi kallar Lucas þau rettlat fyrir guði, at eigi eru þeir allir rettlatir fyrir guði, þeim sem hiortun ser, þeir er eptir augnasyn einni saman dæma synaz rettlatir, oc af falsaradomi bera a ser yfirbragð rettlætis en hafa eigi satt rettlæti. En þessi hiu er falslaust þionuðu guði oc voru rettlat eptir vitnisburð guðspiallzinz fram i ollum boðorðum guðs oc rettleiðingum an allri kveinan, þat greinir Beda sva: Sa gengr eptir guðs boðorðum, er þeim hlyðir, en sa helldr rettleiðing guðs, er aðra dæmir með rettlæti. Oc a einu hausti, þa er hlutr Zakarie kom upp, gekk hann i mustari drottins eptir kennimanna sið oc bunaði, oc berr reykelsi i Sancta sanctorum, þat er i þann hlut mustarisins, sem tialldit, þat sem um þvert husit var fest, greindi fra hinum ytra hlut herbergis. Þar var varðveitt lôgmalsorkin, su er i voru tvau steinspiold, þau er a voru skrifuð .x. laga boðorð, þau er guð gaf Moysi, oc gullig fata, su er himnamiol var i, oc vond(r) Aarons, sa er blomgaz hafði. Þessa hatið segir Beda verit hafa a einhveriu ari a hinum siaunda manaði fra paskum, er byskupinn skylldi i þetta herbergi ganga at biðia fyrir folksins hialp. Oc nefnir Commestor þessa diem propitiationis, en þat þyðizt liknardagr, en ver kôllum ymbrudag, oc bað hann þa tilkvamu hialpar hans, oc þvi sa hann guðs engil, þann er honum birti, með hverri framferð þat mundi verða sem hann bað, standa til hægri handar alltaris, þess er reykelsi var yfir sett. En

1 Mariannes *B.* 2 næstr *B.* 3 *saal. B*; menn *A.* 4 Marianne *B.* 5 *mgl. B.* 6 *Her ender 1ste Blad i B.*

er Zakarias sa þessa syn, varþ hann miok ottafullr, sva at hann þorði eigi nafns at spyria engilinn. Enn hann mællti til hans: „Eigi skalltu ottaz, Zakarie, þviat heyrð er bæn þin, oc Elisabeth eiginkona þin man þer son fæða, oc mantu nefna hann Johannem. Af þessu mantu fagna oc gleðiast, oc margir munu fagna a hans burðartið. Hann mun mikill vera fyrir guði oc drekka eigi vin ne afenginn drykk, oc þegar fra moður kviði man hann vera fullr af helgum anda, oc marga af sonum Iraels man hann snua til guðs sialfra þeira, oc hann mun fyrir honum fara i krapti oc anda Helie, oc marga þa, sem aðr eru otrufullir, man hann leiða til sannrar vizku rettlatra manna oc snua hiortum feðra til sona, oc hann mun bua algert folk guði til handa. Vit þessi orð engilsins slo ęfa i skap kennimanninum sakir mikileika fyrirheitinna oc elli sinnar oc huspreyiu sinnar, oc beiddiz af englinum marks til styrkingar truar sinnar, þess er hann gerði visan af þessum hlutum, oc þvi mællti hann til hans: „Af[1] hveriu marki skal ek þetta vita, þvi ek em gamall. oc huspreyia min ellri en hon megi born[2] geta, oc hefir hon þo aðr ekki barn alit.“ Engillinn svaraði þa: „Ek em Gabriel engill, sa er iafnan stendr fyrir guði, enn nu em ek til þin sendr at tala við þig oc at bioða[3] þer þessa hluti. Nu fyrir þvi at þu truðir eigi orðum minum, þeim er framm munu koma a sinum tima, mantu mallauss verða[4] til þess dags, er þessi min spa man verða framgeng.“ Beda segir i þeim[5] stað, at manni er leyft at beiðast takna eða roksemða af þeim hlutum, er maðr segir honum, enn þat sem guðs engill segir, er manni eigi rett at [spyria eða[6] gruna ne takna at beiðast til styrkingar sogunni[7], oc fyrir verðleik sinnar otrygðar[8] gallt hann þagnar viti, þat er honum var til marks[9] gefit um þa hluti, sem hann mistrygði talandi en truði þegiandi. Þat er oc hugsanda, hvi engillinn sagði, at margir mundu fagna a burðartið sveinsins. En þa kom þat fram, þegar er nagrannar[10] fognuðu stundliga þvi, er Zakarie var son fæddr, en nu kemr þat fram iafnan, er heilǫg kristni gleðz með andligri[11] gleði a hatið halldinni i minning hans signaða burðar. Sva er a þat litanda, hvi hann skylldi Johannes heita, þat þyðiz guðs miskunn. En þat leysir Beda a þa leið, at af þvi fekk hann þetta nafn eptir guðligri tilskipan, at hann auðlaðist einkannligri miskunn oc forpris en aðrir helgir menn i[12] þvi, er

1 *Her beg. C.* 2 barn *C.* 3 boda *C.* 4 vera *C* 5 þessum *C.* 6 [*mgl. C.* 7 saugninni *C.* 8 tortrygdar *C.* 9 *saal. C;* margs *A.* 10 *saal. C;* naungar *A.* 11 *saal. C;* anligri *A.* 12 *tilf. C.*

hann var skipaðr fyrirrennari sealfs guðs sonar i sinni predican, skirn oc sigrvegarasamligum[1] dauða, oc þvi er hann bar fagnaðartiðindi til helvitis, þau er engi bar aðr enn hann. En þat er engillinn sagði hann mikinn mundu verða, skal eigi sva skilia, at sæll Johannes mundi mikill vera at likams vexti, helldr skal [þar til[2] skilia, at hann mundi mikill verða at mannkostum oc at goðum verkum; þviat eigi gerir vallarsyn manninn[3] mikinn fyrir guði, þeim sem bæði ser oc skyniar andir oc li[kami][4], helldr er sa[5] fyrir honum mikill, sem hann elskar umfram alla hluti oc honum fylgir i þvi at fylla ok frambera mikileik hans boðorða með fullum vilia oc verki, orðum oc eptirdæmi. En þat er engillinn sagði Johannem þegar mundu fra moður kviði eða i moður maga fyllaz af helgum anda, sannaz i þvi, at hann var þegar i[6] moður kviði sva framarliga helgaðr af guði, sem summa theologia greinir, at hann matti eigi fremia dauðliga synð, oc hann hafði myklu minni fysi enn aðrir menn at gera likamligar synðir, oc þvi gerði hann færi oc smæri enn flestir menn aðrir. Heðan af hefir sa vandi verit i kristninni sums staðar at hallda getnaðartið þeira guðs moður, at þau voru bæði helgut i moður kviði. Enn sumir kennifeðr segia, at fyrir þa skylld eigi[7] eigi þann dag at hallda, at þau voru bæði með eptirlifis synð getin. En þar er af þeim, er þann dag vilia hallda, þvi a moti kastað, at þetta hald se skipat i þa minning, er þau voru i moður kviði helgut, en eigi fyrir getnað þann sem með[8] synð var. Hinir svara þa, at eigi er vist, nær þau fengi þa helgan[9], oc þvi eigi með ongu moti einn dag fyrir þat at hallda. Sumum meistorum synist, at hverr eigi sealfraði[10] at vera þess[5], hvart hann helldr þetta dagshalld eða eigi, þar sem hvarirtveggiu hafa nær fullar skynsemðir fyrir ser. En þar er engillinn sagði, at hann mundi snua hiortum feðra til suna, kom þa fram, er hann sneri morgum af Juðum, [þeim er[11] aðr voru bæði at alldri oc froðleik feðr oc meistarar Moyses laga, sva at þaþan fra voru þeir Kristz lærisveinar oc hans sannir synir i 5 miskunn inna nyia guðspialla[12] boðorða, oc margir rangtruaðir urðu fyrir hann rettruaðir. En þat er hann sagði Johannem mundu fyrir fara sealfum guði i anda ok krapti Helie[13], skal sva skilia, at Johannes kom a þa leið fyrir ena fyrri guðs hingatkvomo,

1 *saal.* *C*; sigrvegsamligum *A*. 2 [þat til þess *C*. 3 *saal.* *C*; manni *A*. 4 likam *C*. 5 *tilf.* *C*. 6 fra *C*. 7 aa *C*. 8 af *C*. 9 *saal.* *C*; hellan *A*. 10 sialfradr *C*. 11 [*saal.* *C*; þeir sem *A*. 12 gudspiallz *C*. 13 Elie *C*.

sem Helias man koma fyrir ena siðarri, oc sva sem Johannes var fyrirrennari lausnarans, sva mun Helias vera domandans[1], oc þeir voru at morgu likir, sem siðarr mun sagt verða. Þess ma oc spyria, hvi engillinn sagðiz iafnan standa fyrir guðs augliti en vera nu sendr til Zakariam; þviat þat ma eigi skilia eptir likamligri staðasetning[2], at engill sa, sem eigi var[3] i ollum stoðum senn, megi bæði standa a himni fyrir guðs augliti oc vera þo hingat sendr a iarðriki. En þessi spurning verðr auðvelliga leyst, ef ver hugsum, at guð er i ollum hlutum oc þo með ongu moti inni luktr, oc hann er um alla hluti framm oc hvergi uti luktr. Renna þvi englarnir um umællt viðerni hans guðdomligrar navistu, hvart sem þeir renna til himins eða iarðar. Oc þo at þeir se eigi i ǒllum stôðum[4], þa er hann þo þeim nalægr i ollum stôðum, oc þvi megu þeir hvergi fara fra hans augliti. Enn eptir þat er engillinn hafði þetta talat, sem nu var[3] greint, hvarf hann fra spamanninum at syn, en hann gekk mallauss af mustarinu[5] til folksins, þess er a bænum hafði verit alla stund, meðan hann færði fornina, oc undraði, hvi hann atti þar sva langa dvol, oc af þvi at hann matti ekki tala við þa, þottuz þeir vita, at hann mundi syn seð hafa i mustarinu.

### *Um getnat Johannis*[6].

4. Ok er liðnir voru þeir dagar, er hann hlaut i mustarinu at þiona, for hann til heimkynna sinna, oc atti þa lag[7] við eiginkonu sina, oc varð hon hafandi at barni, oc leyndi hon þvi .v. manaði oc talaði sva fyrir[8] sealfri ser: Þannig[9] gerði guð við mig a þeim dogum, at[10] hann villdi brott taka þat brigsli, sem ek hefi aðr borit milli manna. Beda segir, at þessi grein um[4] heimfor Zakarie er þvi skrifut, at þaþan af megi skilia, at þann tima sem kennimenn þionuðu i mustarinu, voru þeir skildir eigi at eins fra faðmlagi huspreygna[11] sinna, helldr oc iafnvel af allri inngongu sinna herbergia. Var þeim[12] nauðsynligt hionalag oc barngetnaðr, er kennimanzskapr hvarf sem[13] erfð i ætt þeira[14], en þeim kennimonnum, er nu standa iafnan at skylldu fyrir helgum alltorum a vorum timum, hæfir [iafnan hreinlifi at hallda[15].

1 domarans *C.* 2 *saal. C*; staðnasetning *A.* 3 er *C.* 4 *tilf. C.* 5 musterinu *C, og saaledes senere.* 6 Er Johannes baptista var feddr *C.* 7 samlag *C.* 8 med *C.* 9 þann veg *C.* 10 er *C.* 11 husfreygna *C.* 12 þat þa *C.* 13 med *C.* 14 Levi *C.* 15 [*saal. C*; oc iafnan at hreinlifi halldi *A.*

*Fra þvi er Gabriel bodadi Mariu* [1].

5. I þann tima var smiðr sa i Judea, er Joseph het, oc ser hafði festa með guðligri tilskipan mey, þa er Maria het, oc biotz i þann tima við brullaupi sinu. Þessi mær var frændkona [2] Elisabeth oc atti þann foður, sem Joachim het. Sva segir Speculum Historiale, at Johannes var getinn octavo kalendas octobris a iafndægri um haust, þa er nætr taka at vaxa en dagar at minkaz. En þessi [3] mær Maria gat son sinn a hinum setta manaði fra þvi a octavo kalendas [4] aprilis a varligu iafndægri, þa er dagar taka at vaxa en nætr at minkaz, sem nu mun sagt verða. A þessum tima þa er hin sæla mær Maria var ein saman a bæn sinni i luktu herbergi, kom Gabriel engill oc birtiz henne oc heilsaði hana oc sagði henne, at hon mundi fæða Jesum son hins hæsta guðs. Hon leitaði þa eptir, með hverri tilskipan þetta mundi verða, þar sem hon hafði þvi heitið i hiarta sinu at kenna eigi karllmanz, at skilia at eins likamz losta. Engillinn sagði henni þa, at þenna getnað mundi eigi leiða af karllmanz sambuð, helldr af verki heilags anda. Hann sagði henni, at Elisabeth frændkona hennar mundi son fæða. En þa frændsemi greina bækr, at Esmeria moðir Elisabeth væri systir Aunnu moður Marie. En þo hofðu fyrrum blandaz konunga ættir oc kennimanna, þa er Aaron fekk eiginkonu af ætt Jude Elisabeth systur Naason, oc Joram konungr gipti dottur sina Elisabeth Joade byskupi. Oc þa er Maria hafði heyrt oc skilt engils orð um getnað þeira beggia sins sonar oc sinnar frændkonu, mællti hon: „Se her ambatt drottins, verði mer eptir orði þinu.“ Ok þa þegar var Kristr getinn með henni at uskoddum hennar meydomi, fullkominn maðr i aund oc likama, oc var getinn, sem fyrr segir, .viii. kal. aprilis, oc at liðnum .xxx. oc .iii. arum væri hann pindr oc deyddr a þeim sama degi. Yfir þessa vitran alla saman segir Bernardus langa skyring, af þeiri rita ek fa orð, sakir leti at forðaz langmæli, þau er hann glosar yfir þessi orð Ecce ancilla domini, fiat mihi secundum verbum tuum. Se her ambatt drottins. I þessum orðum er litillæti synt, at miskunnar sæti var fyrirbuit. Hvert er þetta hit haleita litillæti, er eigi lettir fyrir vegsemðinni oc eigi kann dramba i dyrðinni? Moðir guðs var hon valit oc nefnir sig þo ambatt. Oc fyrirfarandi þessa giof þekkiliga fyrirheitz iok hon með viðtengðum verðleika sinnar sætuztu bænar: Verði mer, sagði

1 *Overskr. C;* Fra Marthe (!) *A.* 2 fyr nefndrar *tilf. C.* 3 fyr nefnd *tilf. C.*
4 *Her mgl. 2 Blade i C.*

hon[1], eptir þinu orði; sem (hon) segði með þessum hætti: Verði mer þat orð, sem i upphafi var guð, hold af holdi minu eptir þinu orði; verði mer þetta orð eigi til þess framsagt at liða um, helldr getiz með mer at vera holldi skryd enn eigi lopti; verði mer þetta orð eigi at eins heyriligt með eyrum, helldr oc syniligt með augum, oc þreifanligt með hondum, oc bærıligt a herðum; verði mer þetta orð skrifat i hiarta minu, eigi sem i iokli se ritað i solar skini, helldr sem með obrugðuligum(!) penna ritað a lifs bok; verði þat eigi sem með mallausum fingrum fatað a dauðra kvikvenda skinnum, helldr lifliga fast sett með mannligri mynd i minum skirum iðrum, eigi fyrir dauðligan penna helldr fyrir enn helga anda.

*Fra Mariu ok Elisabeð*:

6. Eptir þessa hluti, sem nu voru sagðir, reis Maria upp oc for af Nazareth i borg Juda. Juda[2] er (i) þessum stað borgar nafn en eigi ættar. En Jerusalem er i Beniamins ætt, um hana la vegr sancte Marie, þa er hon for i þann kastala eða borg, sem heimkynni Zakarie voru, oc var sa staðr .iiii. milur af Jerusalem, sem Johannes var fæddr. Her um segir Ambrosius super Lucam: Maria for til fiallbygða eigi sem mistryggvandi engiliga forspa, eigi sem ovis af sendiboðunum, eigi efandi um dæmit, helldr sva sem gloð af fysinni, siðlat i þionustunni, fliot af felagleikinum; eða hvar var hennar vegr, þar sem hon var full af guði, nema at fara til hinna hæri hluta oc þo með skunda[3], þviat heilagr andi kann eigi sema (við)talman. Nemi þer her af heilagri konu, hvilika gaumgæfð þer skulut þeim konum veita, er með bornum ganga. Maria, su er aðr hirði sig i hinum instum leynum husanna, let sig eigi talma fra þessi ferð kinnroðann meydomsins, oc eigi fra þionustunni snarpleik fiallanna, oc eigi fra kostgæfinni langleik ferðarinnar, oc mærin með skunda steig til fiallbygðanna minnig embættisins enn ominnig meingerðarinnar, ostyrk i tegund en styrk at goðviliafor, at fyrirlatnum sinum heimkynnum. Nemi þer, meyiar, at renna eigi opt um annarra manna herbergi, eða eiga langar dvalir a strætum, eða blandaz miog við alðyðu með margfolldu tali. Maria var seinlat inni en skiotlat uti. Hon var með frændkonu sinni .iii. manaði, oc þvi at hon kom til þionustu, eigi fyrir þvi at hana lysti at vera i annarra herbergium, helldr fyrir þa skyld, at hon villdi eigi optliga opinberliga litin vera.

1 af orði *tilf. Cd.* 2 Judea *Cd.* 3 skynda *Cd.*

Nemit nu, meyiar, kinnroða at Mariu, nemit oc litilætið. Frændkona kom til frændkonu, en yngri til hinnar ellri, eigi at eins kom hon, helldr heilsaði hon fyrri. Se hver sem ein mær þvi litillatari, sem hon er helgari, oc kunni at vegsama ser ellri menn Se með henni meistaradomr litillætis, þar sem algerleikr er skirlifis, se oc sôk milldinnar oc regla læringarinnar; hugsi hon þat, at hin hæri kom til hinnar lægri, Maria til Elisabeth, Kristr til Johannem. Þegar birtiz hvat arnaðiz i tilkvamu Kristz oc Marie. Iafnskiott sem Maria gekk i herbergit oc heilsaði Elisabeth, gladiz barnit i i kviði hennar, oc þaþan af varð hon full af helgum anda. Seam her grein serhverra hluta. Elisabeth heyrði rôddina, en Johannes kendi fyrri miskunnina, hon heyrði eptir skipan natturunnar, en hann fagnaði eptir skipan stormerkisins, hon kendi tilkvamu Marie, enn hann tilkvamu drottins, kona konu oc sun sunar. Þær vinna stormerkit fyrir innan byrgit i moðurligum iðrum, en þær tala miskunnina fyrir utan oc spa taknsamliga með tvifôlldum spaleikxanda sinum oc sinna suna. Gladdiz barnit, gladdiz moðirin, eigi var moðirin fyrrum full af helgum anda en suninn, helldr þa er suninn fekk hans gipt, fekk oc moðirin. Þa er Johannes fagnaði, fagnaði Elisabeth. En eigi segium ver Mariam þa hit fyrsta fyllda heilags[1] anda, þess er aðr var með henni, helldr segium ver anda hennar fagnat hafa þvi, at oumbræðiligr guð vann oumræðiligan sinn matt með sinni mæðr, varð [hon fylld[2] hins helga anda fyrir getnað sins sunar, en Elisabeth eptir getinn sinn sun Oc til vitnisburðar, hvat með henni var, kallaði hon til varrar fru: „Blezuð ertu a meðal kvenna, oc blezaðr er avoxtr kviðar þins; oc hvaðan af kom su gipt at mer, at moþir drottins mins kæmi til min? þvi at iafnskiott sem rodd þinnar heilsanar hlioðaði fyrir minum eyrum, fagnaði barnit i kviði minum, oc sæl ertu, er þu truðir, þat er at skilia, engiligum orðum, þviat þeir hlutir munu algerliga fram koma um þig, sem af guði voru til þin talaðir.“ Her yfir segir hinn sam(i) Ambrosius byskup: Af þessum orðum Elisabeth, er hon sagði barnit fagna i kviði hennar, birtiz at þa þegar hof Johannes þa þionustu, sem hann var tilskipaðr, at bua veg fyrir varum herra, er hann heilsaði honum með hiartaligum fagnaði, meðan eigi vanz tungan til talsins, oc kom(u) fram forspáár Gabriels, at þessi sveinn Johannes mundi i moður kviði vera fullr helgum anda. En eigi er fyrir þa skylld sagt, at moðir hans kallaði með mikilli rôddu, at hlioð hennar heyrðiz viða eða hagliga um loptzinz

1 helgum *Cd.* 2 [oc ufylld *Cd.*

viðerni eða landz, helldr var þessi rôd mikil at goðfysi oc kendi miklar guðs giafar, þa er hon sagði sva Blezuð ertu a meðal kvenna, þviat Maria var eigi at eins blezuð meðal kvenna, helldr var hon meðal blezaðra kvenna einkannliga tignut með meiri blezan helldr en allar aðrar konur. Ok þa er hon sagði blezaðan avoxt kviðar Marie, þann sem eigi er sva blezaðr sem aðrir blezaðir menn, helldr sva sem postolinn segir, er hann blezaðr yfir alla hluti fram um allar veralldir, oc fyrir hann veitaz allar aðrar blezanir. Oc þessi orð guðspiallzinz koma saman oc orð psalmsins, þau er David segir undir skilning sealfs guðs foður talandi til sin: Af avexti kviðar þins man ek setia, at skilia hôfðingia, yfir sæti þitt, þat er yfir Gyþingafolk. Þvi toluðu þau bæði engillinn oc Elisabeth hin somu blezanarorð til Marie, at i þvi syndiz hon vera virð oc vegsomuð bæði af monnum oc englum oc forprisut ollum kvenmonnum. En i þvi er hon sagði sva Hvaðan af kom mer su tign, at moðir drottins mins kæmi til min, synir hon sig eigi uvitandi þess, at þvilik dayndi mattu eigi með auðrum kosti veitaz helldr en þeim, sem nu er auðsynt, at þeim var þa samvinnandi hinn helgi guðs andi, oc þat varð eigi fyrir hennar verðleik, helldr fyrir guðs giof, at moþir spamanzinz heilsaði moður drottins sins til aukningar verðleiks sunar sins. Oc sva er þat, er sa hinn sami andi, sem gaf spaleikinn, gaf oc litillætið, sem hon segði með þessum hætti: Fyrir hvert mitt rettlæti eða af hverium minum verðleik varð þetta tilfelli, er guð veitti mer þa giof, at til min kæmi moðir drottins mins? kenni ek takn þetta, veit ek oc stormerkit. Moðir drottins ertu fyrir guði oc af guðs orði oc full af guði, þviat iafnskiott sem rôdd þinnar heilsanar kom til minnar heyrnar, fagnaði barnit i kviði minum. Ambrosius segir enn þetta: A þvi augabragði sem roddin kom til eyrna likamans, kom andligr kraptr til hiartans, oc eigi at eins tendrandi moðurina, helldr oc þar með hennar eldi með ast guðs sonar, þess er þa var til þeira kominn, oc með birting hins helga anda, þess sem hennar hiarta fylldi, skildi hon, hvat fagnaðr barnsins bendi, þat er, at þa var þar komin moðir þess, sem sun hennar skylldi fyrirrennari geraz. Ok (su) er fyrrum skammaðist þunga moðurnafnsins, meðan hon vissi eigi stormerkit siðlætisins, blezaði nu eldinu Marie ok moður eldisins; oc su er aðr leyndi þvi, er hon hafði mann getið, hrosaði nu, at hon hafði spamann getið, oc þau stormerki, sem hon hafði aðr leyniliga með ser, predicaði hon nu fyrir ôllum opinberliga aheyrondum sva mælandi: Sæl ertu þinnar

tru, þviat i þer munu fullgeraz þeir hlutir, sem til þin voru af guði sagðir. Var þat oc viðrkvæmiligt, at Maria oc Elisabeth tæki spaleiksanda fyrir fæðing sinna suna, at sva sem syndin hofs af konunni, sva birtiz upphaf hialparinnar af konunni. Af þessi sælu konu Elisabeth segir hinn mikli Gregorius super Ezekielem sva mælandi: Heilagr spaleiksandi tekr með misiofnu moti hug spamanna, stundum sea þeir umliðna hluti oc samtiða hluti i anda sinum, enn eigi okomna hluti, stundum sia þeir bæði umliðna hluti oc ukomna, en eigi samtiða hluti, stundum sia spamenn bæði senn umliðna hluti oc naverandi hluti oc ukomna, sem Elisabeth sa Mariu til sin koma oc vissi, at hon bar fyrir briosti guðs orð með holldi hulit, kendi oc Mariu vera moður drottins sins oc sagði: Hvaþan af veittiz mer þat, at moðir drottins mins kæmi til min? Hon mællti oc: Sæl ertu truar þinnar, þviat allir þeir hlutir munu algerliga fram koma, sem til þin voru sagðir af guði. I þessu er hon mællti þessi orð, birtir hon, at hinn helgi andi hafði henni birta þa hluti, sem til Mariu hofðu talaðir verit af getnaði guðs sonar; hon sagði oc, at hann sa fyrir, hversu þeir hlutir, sem okomnir voru Marie fyrirsagðir, mundu fram koma a siðurrum timum, sa hon oc þa alla senn umliðna hluti oc samtiða oc ukomna, er hon vattaði Mariu hafa truat umliðnum orðum engilsins, oc kendi hana vera nefnandi moður, berandi fyrir sinu briosti lausnara allz mannkyns[1], oc sagði framkvæmð ukominna engilsins fyrirheita. Var þvi likligt, at hon mundi sig birta með ollu spadoms kyni, þar sem hon bar fyrir briosti hinn mikla oc framarr enn spamann.

### *Feðing Johannis.*

7. Eptir þat er Maria hafði heyrt þessi orð Elisabeth, sem nu var sagt, matti hon eigi lengr þegia yfir sva haleitum guðs giofum, sem hon hafði þegit, oc þa hluti, sem hon huldi aðr með þaugn sakir meyligs kinnroða, lauk hon nu upp a viðkvæmiligum tima sva mælandi: „Miklar aund min drottin oc andi minn gladdiz i guði hialpara minum.“ Siðan leiddi hon með trausti hins helga anda þenna guðligan lofsaung til enda, er heilug kristni syngr hvern dag i aptansong, oc er hann fullega glosaðr i sialfrar hennar sogu. En ek set her fa orð, þau er heilagr Bernardus hefir skrifat til birtingar þessum cantica, litandi a hennar haleitu hugsan, sem hon hefði sva a þessa leið talat: Meðr sva mikilli oc með sva

[1] manskyns *Cd.*

oheyrðri giof hefir guð mig tignat, at með ongum kosti ma þat mannlig tunga greina, oc varla ma þat rannsaka með hinni diupuztu hugsan hiartans, oc af þvi geri ek guði þakkir ofrandi honum öll öfl mins hugar i þessum haleitum giofum, oc ek færi honum með fagnaði, litandi a hans hit haleita lof, alt mitt lif oc alla mina skilning oc alla mina greining, þviat minn andi gleðz með[1] þeiri gleði, er ek fagna eilifum guðdomi Jesu hialpara, at skilia, allra leystra manna [fra eilifum dauða[2].

*Er Maria var med frendkonu sinni.*[3]

8. Sva vatta heilug guðspioll, at var fru heilug Maria var með sinni frændkonu .iii. manaði. Oc var eigi fyrir þvi þar[4], at henni þætti annars[5] heimkynni skemtiligri enn sin, helldr fyrir þa skyld, at hon villdi eigi at sinni opinberliga verða uti litin, oc fyrir þvi at sok þionustunnar hvatti hana til þessarar ferðar. Villdi hon oc þionustuna fylla, þviat þann tima sem Elisabeth fæddi son sinn at liðnum .ix. manuðum fra hans getnaði, veitti hon sinni frændkonu astsamliga þionustu, sva sem lesit er i bok þeiri er Liber Justorum heitir, at hon[6] hof Johannem af iorðu nyfæddan. Se her haleita dyrð þessa haleita sveins, at drotning himins oc iarðar, su er þa bar fyrir briosti konung konunga oc drottin drotna, oc su er englarnir oc öll skepna þionar með rettri reglu, fyrir þvi er hon fæddi þann, er alla hluti skapar, veitti honum nyfæddum elskuliga þionustu, sakir þess er heilagr andi, sa er hennar briost kaus ser til herbergis, vissi þenna hinn dyra mann mundu verða fyrirrennara hennar sæta sonar oc ukominn þion ukominnar skirnar, þeirar er sialfr upphefiari allra goðra[7] hluta let ser soma at taka af hans signuðum hondum. Sannliga[8] var hann þa sælaztr allra [ufæddra smasveina[9], er hann kendi eigi sialfan sig oc kendi þo drottinliga tilkvamu, oc þann heimsins hialpara, er hann matti eigi með tungunni birta, birti hann með spadomligum fagnaði; oc sem hvert barn kemr með hryggviligum grati i þessa verold, kom fyrrum[10] til hans andligr fagnaðr umfram natturulögin; þviat þat somði, at sa, er fra ubyria mæðr var fæddr dasamliga, birti með sinum[7] dasamligum getnaði dasamligan getnað meyiarinnar, þann er meyiunni gaf dygð frioleiksins enn raskaði með aungu moti[11] insigli meydomsins. Þat er oc miog undranda oc harðla

1 *Her beg. atter C.* 2 [*mgl. C.* 3 *Overskr. C; A har her ikke nyt Capitel.* 4 *saal. C*; þat *A.* 5 annarra *C.* 6 vor fru *C.* 7 *mgl. C.* 8 Senniliga *C.* 9 *saal. C;* ufædda sinna sveina *A.* 10 fyrri *C.* 11 *tilf. C.*

dasamligt, er Zakarias faðir Johannis tyndi malinu, er hann truði eigi englinum, þar til er fyrirheitið kom fram, oc fyrirrennari hins nyia manz leysti nyfæddr bond foðurligrar tungu oc lauk upp þann munninn, sem engillinn byrgði. Enn þa er grannar oc frændr Elisabeth heyrðu, at hon hafði son fæddan, er guð miklaði miskunn sina með henni, þa samfögnuðu þeir henni, oc kom þa [hit fyrsta[1] fram spasaga Gabriels, su at margir mundu fagna a burðartið þessa sveins. Ok enn atta dag þaþan komu menn, eptir þvi sem lögmal Moysi bauð[2], oc veittu honum skurðarskirn. Þa villdu þeir kalla hann Zakariam eptir feðr sinum, enn moðir hans bannaði þat oc sagði sveininn Johannem heita skyldu. Þeir svoruðu henne þa, at engi væri með þessu nafni[3] af hennar frændum, oc fyrir þvi at Elisabeth let eigi eptir þeim, beiddu þeir Zakariam giora[4] orskurð um þeira þrætu. Hann bendi þa, at honum skylldi fa þat sem pugillaris er nefnt af guðspiallamanninum[5]. En Petrus Commestor segir helst, at þat se sva litið vaxspiald eða bleikiuspiald, at lykia ma[6] hnefa, þviat pugillus er hnefi at varu mali. Eptir þat ritaði hann þat sama sem moðirin hafði aðr talat, sva at allir þeir sem[7] þetta sa undruðu. Þess ma einnhverr spyria, hvi Elisabeth var vitandi, hvert nafn engillinn sagði at sveinninn skylldi hafa, þar sem hon heyrði eigi [hans sögu[8], enn Zakarias mallauss matti eigi þenna hlut sagt hafa. En þat er auðvitat, at hon vissi þat af leyndri heilags anda birting. Enn er Zakarias heyrði[9] nafn sonar sins, losnaði tunga hans oc lauks[10] upp munnr hans, oc talaði hann blezandi almatkan[11] guð veitara allra goðra hluta. Her af segir einn meistari: Hvat er iafndyrðarfullt sem þetta siðlæti, hvat er þessarri tru tiguligra? Fyrir hennar skyld verðr obyria kona frio, mærin foðir sun, hinn mallausi talar, sveininn[12] luktan i leynum moðurligra iðra gleðia ukomnir fagnaðir[13], oc eigi var þat undarligt, þo at i þeim punkt, er fyrir var buin af guði almennilig andar heilsa, fengi eigi dauðlig nattura varðveitt forna skipan sinna laga. Þat er oc vitanda, at eigi efaði Zakarias þaðan af, at Johannes væri [honum af guði[14] fyrirheitinn oc gefinn, þa er hann kendi sig af hans sok hafa tekit oc tapað eiginligu mali. Enn þa er þessi tiðindi spurðust oc [viða frægðust[15] um allar fiallbygðir Judee, slo miklum otta a folkit, sva at hverr oc

1 [*mgl. C.* 2 stodu til *C.* 3 kalladr *tilf. C.* 4 gefa *C.* 5 *saal. C,* guðspiallamonnum *A.* 6 med *tilf. C.* 7 er a *C.* 8 [sögn hans *C.* 9 hafdi skrifat *C.* 10 laukz *C* 11 almattigan *C.* 12 suninn *C.* 13 *saal. C;* fagnaðar *A.* 14 [af gudi sendr ok honum *C.* 15 [vidfrægduz *C.*

einn talaði i sinu hiarta: Hvat hyggr þu, at skilia aund min, hvilikr þessi sveinn man verða. [Sem hann segði: yfir vit mitt er[1] at skilia, hversu mikill þessi sveinn [mun verða i guðs augliti.[2] Oc senniliga, sogðu þeir, var nu haund[3] hans, þat er kraptr hans, með honum, þat er sva at skilia, fyrirrennandi takn veita[4] veg oc visa leið fyrirrennara sannleiksins, oc umliðnar spár eru forsagnir fremri dyrða þessa haleita manz.

*Dictaðr Benedictus.*

9. Eptir þessa hluti varð Zakarias faðir hans fullr af spaleiksanda oc hof sinn lofsong, þann sem hann dictaði af þeim hlutum, sem þa birti honum hinn helgi andi, Benedictus dominus usque in finem. Se her mikinn ǫrleik[5] guðligrar milldi, þat malit er fyrir tortrygð var tekit fra efanda manni, veittiz nu oc aptr gallz[6] með viðrlogu[7] spaleiksanda rettruaðum manni. Elisabeth spaði fatt, enn Zakarias mart, enn þo var hvartveggia fullt af helgum anda, oc varðveittu þau i þessu þat guðligt boðorð, at kona skal framarr astunda[8] at nema helldr enn kenna guðlig stormerki. [Fyrir þvi sagði Zakarias fram þessi orð[9] Blezaðr er drottinn guð [Iraels, þviat[10] þa er hann bað guðliga milldi leysa folkit fyrir[11] tilkvamu græðarans, var honum veitt at eiga þann son, er vera skylldi fyrirrennari græðarans, oc litlu siðarr vitiaði guð faðir[12] þenna heim fyrir sinn einka[13] sun, [þann sem[14] syndiz i mannligu holldi oc þa gerði heila, sem aðr voru dofnaðir i longum siuknaði, oc þa rettlata, sem aðr voru honum miog fiarlægir vorðnir af sin sialfra fullkomnu ranglæti. Þvi sagði hann, at guð gerði lausn folks sins, at su lausnin [var þa[15] dictuð i drottinligri fyrirhyggiu, er skiott kom framm, oc þat var þa gert i guðligu raði[12], þo at eigi væri til lykta leitt, at guð faðir mundi með blezuðu sins sæta sonar bloði[16] leysa heim þann, sem aðr var selldr fyrir[17] synð hinna fyrstu manna oc hertekinn, þviat hann gerði, þat er at skilia[18] let fram koma lausn við folk þat, er hann gerði sitt meðr sialfs sins vitian. Þar næst fylgir þetta vers: Oc hann reisti upp heilsuhorn, þat er at skilia þat er hann gaf oss, i husi Davids sveins sins. Heilsuhorn kallar hann stoðugan

1 [*saal. C;* i guðs augliti, oc senniliga er yfir mitt vit *A.* 2 [*saal. C;* eigi fyrir guði *A* 3 *saal. C;* aund *A* 4 *saal. C;* vatta *A.* 5 *saal. C;* orðleik *A.* 6 *saal. C;* golldit *A.* 7 vidlagdri giof *C.* 8 stunda *C.* 9 [*tilf. C.* 10 [Israels at *C;* 11 med *C.* 12 *tilf. C.* 13 eigin *C.* 14 [*saal. C;* þeim *A.* 15 [væri *C.* 16 banabloði *C.* 17 undir *C.* 18 *Her mgl.* *2 Blade i C.*

oc styrkan hagleik heilsugiafar þeirar, er guð gaf folkinu, oc er þetta horn sialfr guðs son. Verðr oc með þessi figuru synt, hvi Salomon oc aðrir konungar Juda voru með þvi viðsmiorvi smurðir i sinni vigslu, sem i horni varðveitis af kennimonnum, þann tima sem þeir toku valld oc stiorn yfir folkinu at guðs vilia. Þvi sagði Zakarias hornit uppreist i Daviðs husi, at Cristr var a Judea fæddr. Þri(ði)a vers psalmsins segir sva: A þa leið sem guð talaði fyrir munn spamanna þeira, sem eru liðnir, at skilia af þessi verold. Hvað ma sannara segia enn þetta, þviat oll ritning hins forna logmals allt til varra tima sagði spar[1] af Kristi, oc allir helgir feðr bera bæði með verkum sinum oc orðum vitni guðligri tilskipan. Hit fiorða vers talar sva: Heilsu[2] af uvinum varum oc af hendi allra þeira sem oss hotuðu. Þetta vers er fylling ens fyrra vers, oc skal sva skilia: drottinn reisti upp heilsuhorn i husi Daviðs sveins sins, þat er at hann gaf oss Krist sinn, þann er at sonnu er var heilsa, oc fyrir hans milldi megum ver fa odreyrugan sigr, þo at (ver) striðim likamliga við uvini vara, oc hallda likams heilsu oc andar, ef ver snôrumz alhuglega undan hendi, þat er undan afli eða valldi allra vandra manna, þeira sem oss hata likamliga, eða enn sannligarr nndan ollu valldi vandra ohreinna anda, þeira sem oss veita umsat nætr oc daga. Þessar heilsu eigum ver at vænta með guðligu fulltingi, at fa ongvan skaða af þvi i andligri orrustu her i þessu lifi, en allir leystir menn fra eilifum dauða munu fa i andligu lifi. Hit fimta vers þat er sva segir: Til gerandi miskunnnar með feðrum varum oc at minnaz hins helga logmals, leiðir[3] enn skilning af hinu fyrra versi, at drottinn reisti upp þetta horn Crist sinn til þess, at ver þęgim miskunn af honum a þa leið, at sva sem hann leiddi feðr vara a fyrirheitz iorð, sva leiði hann oss oc til fyrirheitinna himinrikis fagnaða, oc minniz þannig sins heilaga lôgmals at lata þat nu fram koma andliga, sem þat merkir i laugunum, var þa heitið at fylla likamliga. Hit setta vers mælir sva: Særi[4] þat er hann sor Abraham feðr varum at gefa sialfan sig oss til lausnar, þat skal sva skilia, at Zakarias birti með þessum orðum, at guð faðir let nu fram koma þat heit sem Genesis vattar, at(i) kyni Abrahe skylldu allar þioðir blezan taka, er hann gaf oss sinn sun Jesum fæddan or hans kyni, þann er sinn likama veitti oss til piningar at heimta undan diofuligu veldi allan heim; en hann gefr hversdagliga ollum rettkristnum monnum fyrir sanna iðrun oc tru. Hit .vii. vers segir, at ver þionim' guði an ôllum

1 spat *Cd.* 2 heilsi *Cd.* 3 leiðit *Cd.* 4 Sæti *Cd.*

otta leystir undan ollu valldi ovinarins. Hit .viii. vers vattar, hvilik þessi þionusta skal vera, at með heilagleik oc rettlæti fyrir guði skulum ver honum þiona alla daga vars lifs, oc þrofan rettlætis þessa skal eigi vera undir mannligri skyn heldr undir vitni sialfs hans, oc þessi þionusta skal eigi vera augabragðlig eða stundlig helldr alla daga vara, þat er utan enda. I enu niunda versi vendir hann tungunni til sunar sins, at þar sem hann hefir aðr talat af guðs getnaði, vattandi þa velgerninga sem allri truandi þioð voru veittir, syniz hann eigi oþakklatr fyrir hann um þær astgiafir, sem hann kendi fra sialfum ser veittar i þvi, er honum var sun fæddr iartegnasamliga oc i moti natturu: Ok þu sveinn, sagði hann, mant kallaðr vera spamaðr hins hæsta guðs, oc þu mant fara fyrir augliti hans at bua hans gôtur. Þat ma nokkurum synaz undarligt, er spamaðrinn talar við sveininn atta daga gamlan sva skiliandi hans ræðu, en þeim ma þvi svara, at þat er truanligt, at Johannes fæddr mætti skilia foðurligt mal, þar sem hann kendi i moður kviði heilsan moður, ella talaði Zakarias þessi orð birtandi þeim sem hia voru, hvilikar giafir sveinninn mundi af guðligri gipt þiggia, eptir þvi sem engillinn hafði fyrir sagt. Hit .x. vers segir sva sem leiðandi sinn skilning af hinu fyrra, at hann skylldi gefa folki hans vizku sann(r)ar heilsu til fyrirgefningar synða þeira. Þat er i þessu fyrst hugsanda, at fyrir þa sok nefnir spamaðrinn optliga hialp eða heilsu i sinum cantica, at hann vill lofa nafn Jesu, er hialpari eða græðari þyðist, oc sem vandvirkligaz skyra þat sem fyrst segir hann heilsuhorn upprunnit, þar næst skulum ver (beiða) heilsu andligra sára eða likamligra, þeira sem ovinir varir veita oss i andligri eða likamligri orrustu, oc vega sigr a þeim. Enn nu segir hann, at þessi guðs fyrirrennari Johannes skal með þvi moti bua gotur at kenna folki hans þa vizku, at þeir viti skyn a sinni saluhialp oc heilsu, þeiri sem Cristr er; oc (at) eigi at eins litz nokkurum, sem hann beiddi at likams heilsu, þa er stundlig er at eins, þvi let hann fylgia, at þessi heilsa mundi þeim veita aflausn eiginligra synða, oc þetta allt mundi þeim veitaz, eptir þvi sem hit ellipta vers vattar um miskunnar iðr guðs vars. Miskunnar iðr guðs eru astsemðir hans, þær er hann veitir oss fyrirgefning synða, eigi eptir varum fyrirfarandi verðleikum helldr fyrir eina saman sina elsku, þa er hann hefir a oss, sva sem postolinn vattar: Guð sendi sun sinn eingetinn i liking synðugs holldz, eigi fyrir annat en þa hinu miklu astsemð er hann elskaði oss, i þenna heim, at veita oss aflausn synða varra. Endir

þessa vers a at leysaz með hinu .xii. versi, oc segir sva, at[1] af hæð rann upp (oc) vitiaði oss, til þess at lysa fyrir þeim, er sitia i myrkrum oc dauðaskugga, oc at greiða fætr vara a friðar stig. Þessi orð Zakarie segia, at guðs orð, þat[2] er guðs sun, sa er af hæð, þat er af himnum, rann upp at birta alla verolldina með andligri birti, a þa leið sem solin rennr upp at birta heiminn með likamligu skini, vitiaði til þess hiortu þeira, er i myrkrum satu, þat er i þykri þoku svartra synða, oc þrongdir voru i hiartaligum blindleik oc i synða skugga, þat er i þeim hugarvillum, er þa drogu a dauðligar synþir, at upp lykiz fyrir þeim himinrikis braut, oc þeir sæi hit sanna lios sialfan guðs son, oc af hans (liosi) birtaz fyrst hiortun oc þar næst greiðast þeira stigar með goðum verkum a gotu hins sanna friðar, þviat gongur verka varra eigum ver með ollu moti[3] at samþykkia um miskunn vars birtara, þar til er ver gongum i vist ens sanna friðar. Af þvi at þessi salmr Benedictus er guðspialligr, hefir heilug kristni þann siðvanda upp tekit at standa, meðan hann er sunginn, sva sem um Magnificat cantica varrar fru, eptir þvi sem virðuligr prestr Beda segir.

### *Capituli.*

10. I þann tima sem hinn sæli Johannes tok at vaxa, for heilög Maria heim, oc var þa fundin af virðuligum Joseph, at hon var frio orðin af helgum anda. Fæddi hon sinn sæta son at .vi. manuðum liðnum fra hennar heimkvamo .viii. kal. Januarij. Oc a þrettanda degi hins fyrsta eða annars árs komu .iii. austrvegskonungar oc færðu honum fornir. Ok at liðnum reinsanardogum hans virðuligu moður færði hon hann til guðs mustaris með fornum. Þa birtu þau Simeon oc Anna sina spadoma fyrir þeim hlutum, sem siðan gerðust i hans lifi. Fyrir þetta allt saman vildi Herodes konungr tapa honum, oc ætlaði hann vera kominn af kyni Hyrkani eða Aristoboli, þeira konunga sem hann hafði fyrir riki raðit, oc at hann mundi taka riki af ser eða sonum sinum, let hann drepa hina saklausu sveina. En Joseph fostri drottins flutti i Egiptum at engiligu boði Jesum oc moður hans, voru þau þar, meðan þessi fyrr nefndr Herodes rikði. Oc þvi at hann hafði marga sonum rænta, þa fell su ugipta til hans, at sialfr hann let drepa sonu sina oc do sialfr af uheyrðum harmkvælum, vall moðkum oc veitti ser averka með knifi; varð herfilig framför ens versta glæpamanz a fiorða ari eptir barnadrapit. Eptir drap Herodis tok Archilaus,

1 ek *tilf. Cd.* 2 þo *Cd.* 3 matti *Cd.*

sa er kiliarka var kallaðr enn eigi konungr, halft riki feðr sins Judeam oc Jdumeam, enn annan helming sneið Augustus i tva luti, tok Herodes broðir Archilai annan lutinn[1] fyrir handan Jordan oc Galileam, þviat þat var fiorðungr foðurligs valds, er hann styrði, var hann þaþan af tetrarka kallaðr, enn þat sem eptir var tok Philippus broðir hans, Ituriam oc þat herat sem Trakon heitir, oc þat hit þriðia er Auranias heitir. A dogum þeira Arkilai flutti Joseph Jesum oc moður hans i Nazareth Galilee, vox hann þar upp. Arkilaus þessi rikti .ix. ár, þviat fyrr nefndr Augustus þolði honum eigi lengr sinn grimleik oc sendi hann i Viennam borg i Gallia utlagan oc sviptan allri sæmð. I hans stað kom Komponius, oc þann tima sem hann kom aptr i Roma, var Markus Rufus settr hôfðingi i hans stað. A hans dogum andaðiz Augustus i Kampania heraði i horg þeiri er Acella heitir, oc hafði hann .xv. ár styrt riki, þa er varr herra var fæddr, enn reð Romverium .l. oc .vii. ar, oc .xiiii. af þessum með Antonio. Hann hrosaði þvi við dauða sinn: leirborg var Roma, þa er ek fekk hana, enn nu er hon marmaraborg. I hans stað kom Tiberius Nero sun Julie huspreyiu hans. Þessi sendi Valerium Gaium i Judeam, oc kallaði hann aptr i Romam eptir .xv. ár, en sendi Pontium Pilatum i Judea, er hellt Archilaum bundinn i fyrr nefndum stað. Þessi Tiberius rikti .xxiiii. oc sva Herodes tetrarcha.

*Fra uppruna Johannis.*

11. Eigi hofum ver, segir Beda, mikla frasogn af uppruna hins sæla Johannis, enn þessi fa orð er guðspiallamenninir segia, at sveininn vox at likams vexsti oc styrktiz i anda, þat er i andligum krapti, til þess at fremia hafa hluti oc þola meinlæti fyrir guðs astsemð. Af þvi for hann i eyðimork oc var þar til þeira daga, sem til voru skipaðir af upphefiara allra goðra hluta oc rettruandi manna, at hann hof sitt predicanaremlbætti, oc segir Beda, at[2] fyrir þvi valdi hann ser snarpleik eyðimerkr, at hann mætti fyrir þat dæmi, er hann tamði sitt horund fra ollum lystingum þessa heims lifs þegar a barns alldri, frialsligar kalla fra þessarrar veralldar astsemð þa menn, sem hans kenning sottu til sannrar iðrunar, með sinum fogrum fortolum. Af þessum lutum segir Innocencius tertius: Sva haleitr var Johannes, at hann fyrirlet foðurligt hus með ollum auðæfum, en girntis eyðimerkr með fullkomnum fatækleik, oc var þar[3] alt til þess er guð villdi,

1 Herodes *tilf. Cd.* 2 af *Cd.* 3 þat *Cd.*

at hans predican birtiz firir Iraels folki. Eigi vildi hann neyta kennimannz tign eptir feðr sinum oc taka logligar inntekiur, þat er ofr oc frumfornir, sva oc tiundir folksins, fyrirlet hann alla hluti, at hann tæki eitt at moti, þat er almatkan guð; oc sa gerir hverr at hans dæmi, er sva nemr Crist at bera i sinum likama, at hann fyrirlætr auð en elskar aureign, ferr fra krasum til fôstu oc tekr harklæði við silkiklæðum, þogn moti skemtan oc skroksogu, vokur moti svefni, starf moti sysluleysi, eymð við sælu, striðu við bliðu, anauð við frelsi, motstaðliga luti við farsælu, skirleik oc bindendi moti lostasemi oc allri ofgeytlan.

*Predican Johannis.*

12. Þessi fyrr nefndr Lucas evangelista greinir, at sæll Johannes bar guðs orð fram i Judea nær þritugr at alldri, sva segiandi, at þa kom guðs orð yfir Johannem sun Zakarie i eyðimork. Þat er sva at skilia, at i þann tima bauð guð honum at fara i ubygðir at predica fyrir folki iðran oc aflat annmarka oc at taka vatzskirn, oc var þat a .xii. ari rikis Tiberij cesaris, at þvi sem bækr visa til; voru oc þa þeir flestir landzstiornarmenn, sem fyrr greinir, Pontius Pilatus i Judea, Herodes tetrarcha i Galilea, Philippus broðir hans (i) Ituria; Lucas leggr til hinn fiorða Lisaniam, þann sem Commestor segir son Tholomei eins gofugs manz, enn sumir kennarar segia verit hafa son ens mikla Herodes, enn guðspiallit vattar nafn hans, oc at hann haf(ð)i einn fiorðung rikis oc var tetrarka Abiline heraðs oc þess fleira, sem þar la til. Hofðu Romveriar þenna tima smaad oc parterað riki ebreskra manna, sva sem nu er greint, at allir mætti sia, at miog sva var þa kominn þess rikis endir. Eptir þvi sem sialfr guðs son sagði þeim með þessum orðum: Hvert riki i sialft ser skipt man eyðast. Enn i annan stað syndi guðspiallamaðrinn, at i þann tima var Romveria riki stôðugt, þar sem þar vattar, at þvi styrði einn hôfðingi, enn fyrrum styrðu þvi margir. Hinn mikli Gregorius segir þat berum orðum, fyrir hveria sok guðlig milldi skipaði sva til um skipti rikianna, at enir ebresku letu sakir synðagialldz [þa tru[1], sem feðr þeira hofðu lengi af guði halldit, enn heiðinn domr, sa er gofgaði marga guði, var þa samankallaðr i retta tru oc til gofgunar eins guðs. Hinn sami Lucas greinir oc, at[2] i þann tima voru kennimenn Juda Annas oc Caiphas[3]. Oc er fyrir þa sok int, hverir konungar voru oc hôfðingiar [fyrir heiðnum monnum[4], oc

1 [þar til *Cd.* 2 *Her beg. atter C.* 3 *saal. C;* Cleophas *A.* 4 [yfir heidninni C.

sva hverir kennimenn voru i Judea, at Johannes kom þangat at predica, sem marga kallaði til sannrar[1] truar oc aflausnar eiginna synða af hvarritveggiu þioð oc bæði var konungr oc byskup.

### *Um skirn Johannis oc predican.*[2]

13. Enn þessi hinn haleiti guds vin hof sina kenning með þessum orðum: Giori þer, sagði hann, iðran, at skilia fyrir annmarka yðra, þviat nu nalgaz himinriki[3]. Commestor segir, at þetta talaði hann til huggunar[4] þeim, sem honum truðu oc lyddu kenning hans, vattandi at fyrir aflat synða oc sanna iðran mundu þeir nalgaz[5] aflausn annmarka. Oc hann for um alt þat herat, sem[6] liggr við ana Jordan, oc skirði folkit iðranarskirn i vatni. Hinn sami Commestor segir, at fyrir þvi var af guðspiallamanninum skirn Johannis kòlluð[7] iðranarskirn, at hann eggiaði menn til at iðraz afgerða sinna, oc skirði[8] þa eina, sem hann sa at iðrandi voru, oc sagði fyrir, at su skirn mundi skiott birtaz oc fram koma, er syndir mundi fyrirgefa oc af þva, oc hann skirði lyðinn i vatni með sinni skirn til þess at venia hann at taka, þegar sem fyrst yrði færi á, Cristz skirn. Enn þat er[9] sagt er, at sæll Johannes vattaði, at himinriki mundi nalgaz, er sva skilianda[8], at hit forna lògmal oc spamanna bækr hetu monnum friði oc farsælu oc auðrum iarðligum gæðum, þeir[10] sem þat helldi, er[11] þeim var boðit. Enn þessi guðs vin het fyrir[12] himinriki oc eilifri ombun þeim, sem hans kenningum fylgði, oc sagði þat nalægt vera, þat er at skilia, mundu veitaz eptir Cristz pining oc upprisu aullum rettruandum[13] monnum.

### *Af heilræði Johannis*[14].

14. Næst þessum orðum sagði sæll Johannes til folksins: Rodd kallar i eyðimork: greiði þer[15] gautu guðs, sva sem Ysayas spamaðr kendi, oc gerit stigu[16] hans retta. Hverr dalr man fyllaz, en fioll oc halsar munu lægiaz, rangir hlutir munu rettaz, en snarpir[17] slettaz, oc alt hold man sia hialpræð guðs. Þess ma

1 rettrar *C.* 2 Af kenning Johannis *C.* 3 *saal. C;* riki himnaiki(!) *A.* 4 hugganar *C.* 5 nalęgiaz *C.* 6 er *C.* 7 *saal. C;* kallaðr *A.* 8 *tilf. C.* 9 sem *C.* 10 þeim *C.* 11 sem i *C.* 12 fystr *C.* 13 truudum *C.* 14 *Overskr. af C.* 15 ok fyrirbuit *tilf. C.* 16 stiga *C.* 17 lutir munu *tilf. C.*

nokkurr spyria, hvi[1] sæll Johannes talaði þessi orð fyrir folkinu, eða hvern skilning þau hafa. Enn kennifeðr helgir segia þa glosu yfir þau, at sialfr hann se þessi rôdd fyrir laungu spað i bok Ysaie, er kallar[2] i Judea þeiri, sem eyðimork er i þessum stað kôlluð, af þeiri sok er hon[3] var þa sakir synðagialldz af guði fyrirlatin oc at þrotum komin, nema hon[3] þektiz i þvi hans[4] gagnsamliga kenning [at bua veg vars herra[5] til sins eiginligs[6] hiarta oc gera hans stigu retta, þat er at verpa af ser ranglæti enn taka retta tru oc gera goð verk. Þvi sagði hann dali mundu fyllaz enn fioll oc hola[7] lægiaz, fyrir þvi at heiðit folk, sem þa var lágt oc afleitt i guðs augliti, var þa fyrir satt litillæti oc retta tru hefianda til þeirar tignar at fyllaz af viðrtekning guðligrar miskunnar oc vera skipuð[8] i forna sæmð Iraels[9] folks, enn Judea, su er forðum stoð i hæð mannkosta, var nu fyrir ofdramb oc otru af guði fyrirlogð, þviat hann mygir metnaðarfullum enn veitir miskunn litillatum. Þvi sagði hann ranga luti mundu rettaz en snarpa slettaz, at fyrir hans kenning urðu þau hiortun illra[10] manna, sem aðr voru ranglat oc snôruð með margfalldri illzku, siþan greidd til rettlætisreglu, oc snarpar oc omiukar hyggiur af sôk rangrar reiði, þeir[11] sem predicanarfæri gafu ekki rum til sin at koma, urðu snunir til hogværi oc veittu sannre kenning slettan veg til sinna hiartna fyrir guðliga miskunnsemi. Sa oc þa skams brags allt holld, þat er Judar oc heiðingiar, karll oc kona, ungr oc gamall, hialprað Kristz, eptir þvi sem Johannes hafði tiað, þa er varr drottinn syndi sik i manz likama birtandi sinn guðdom með margfolldum iartegnum i lifinu, enn eptir dauða krossins með dyrð ufalsaðrar upprisu. Enn þo at eigi mætti i þessarri verolld hverr maðr guðs son sia, [munu allir goðir menn ok illir[12] sia hann i enda þessarrar veralldar; goðir menn til uætlanligrar[13] aukningar eilifra dyrða oc fagnaða, enn illir menn til [eilifrar fyrdæmingar oc skemðar[14] oc botlausrar bolvanar, þa er þeir fyrirdæmaz til endalauss ufagnaðar[15]. Enn su er sok til þess, hvi guðlig milldi let ser soma slikar aminningar at veita Juðum, sem iafnan stendr hans uþrotnanlig astsemð, er a4 aullum timum lætr[16] ser soma at kalla oss[17] synðga menn til [sannrar

1 fyrir hveria sôk *C.* 2 *saal. C;* kallat *A.* 3 *saal. C;* honum *A.* 4 *tilf. C.* 5 [*tilf. C.* 6 eigins *C.* 7 halsa *C.* 8 *saal. C;* skrifut *A.* 9 Israels *C.* 10 allra *C.* 11 þær *C.* 12[*saal. C;* ma nu bæði goðr oc illr *A.* 13 *saal. C;* væntanligar *A.* 14 [eilifra aurskemda *C.* 15 ofarnadar *C.* 16 let *C.* 17 *saal. C;* a *A.*

iðranar annmarka[1], oc at ver megim enga afsakan finna um þa luti, sem ver gerum i moti hans vilia at[2] efsta domi.

*Af predican Johannis*[3].

15. Marcus guðspiallamaðr vattar oc þessi tiðindi, sem nu eru greind, at sæll Johannes predicaði i eyðimork Judee fyrir þvi folki, sem sotti hans fund, oc skirði iðrandi menn undir van ukominnar synðalausnar i á þeiri, er Jordan heitir, oc kendi þeim[4], at [þeir iataði[5] afgerðer sinar. Þess ma spyria, segir enn heilagi prestr Beda, hvi sva er at kveðit, at sæll Johannes gæfi iðranarskirn undir von synðalausnar, þar sem auðsynt er, at i einni saman Kristz skirn gefz[6] sônn synðalausn. Sva ma oc spyria, hvart skirn Johannis var nokkut gagnsamlig þeim, sem hana toku. Enn þar liggr sa orskurðr til, at hon ma með ongum kosti profast oavaxtsamlig takandum[7], oc sæll[8] Johannes skirði til þess folkit iðranarskirn[9] i vatni at fylla embætti sinnar fyrirrasar, oc predicaði ukomna synðalausn, þa sem fram kom i Cristz skirn, oc gaf sina skirn undir vænting fyrirheitinnar aflausnar oc til truarmarks oc iðranar, oc til þess at enir skirðu geymdi[10] sin i þvi at bindaz annmarka oc at gera aflausn[11] a Crist at trua, iafnskiott[12] sem hann birtiz, oc at skynda til hans skirnar, þeirar sem synðir mundi af þva fyrir hans einkanliga miskunn.

*Um klæðnat Johannis*[13].

16. Þessi sami Marcus segir, at menn foru at taka [fyrr greinda skirn Johannis[14] af allre Judea, sva oc þeir menn sem af Jerusalem komu, oc virðir fyrr nefndr Beda þat sva, at hinir visuztu menn komu fyrstir at heyra [kenning þess goða manz oc[15] guðs vinar oc at taka skirn hans. Guðspiallamaðr hinn sami segir oc[16], at sæll Johannes hafði klæði vofin[17] af hari þeira kvikvenda, sem kameli heita oc ver kollum ulfallda, oc segir enn sami Beda, at i sinum bunaði birti hann, at iðrandi monnum heyrir[18] harklæði at bera at hans eptirdæmi, oc allt sitt lif lifði hann auðrum til eptirlikingar, þeim sem þurfu[19] at fa yfirbot annmarka

1 [*saal. C;* lausnar annmarka iðranar *A.* 2 a *C.* 3 *Overskr. C.* 4 *saal. C;* honum *A.* 5 [iata *C.* 6 *tilf. C.* 7 *saal. C;* taknondum *A.* 8 fyrr nefndr *C.* 9 *mgl. C.* 10 *saal. C;* geymdu *A.* 11 *saal. C;* olmusur *A.* 12 *mgl. C.* 13 Fra klędabuningi Johannis *C.* 14 [skirn af sęlum Johanne *C.* 15 [kenningar þessa goda *C.* 16 sva *C.* 17 vofit *C.* 18 *saal. C;* hvert *A.* 19 *saal. C;* þurftu *A.*

eða ser vilia[1] afla i himinriki eilift verkaup[2]. Þessi Marcus segir oc, at Johannes gyrði sig með al[3] um lendar, oc segir Beda, at i þvi er hann bar um sig bellti af dauðs[4] kvikvendis skinni, kennir hann oss at þrongva lendar, þær er[4] i ser bera lostasemi, meðr[5] skirlifi oc bindendi oc deyða sva með oss allar rangar girndir. Sia sami ewangelista greinir oc um fæzlu Johannis, at hann at skogarhunang oc þat sem locuste heitir, oc innir Beda i glosa super Marcum, at þetta eru smair foglar, þeir sem snart oc skamt beina flug sinn fra iorðu enn fliuga skiott niðr til hennar. Þa kalla Norðmenn engisprett, oc merkia þeir fugligt oc ustöðuligt hugarfar Juda, þviat þeir voru stundum trufastir, þa er þeir reyndu a ser bardaga guðligrar milldi eða sa hans takn, þau er hann veitti þeim leysandi þa undan margfolldum nauðum, ufriðe eða þrælkan oc herleiðingum, þann tima er þeir voru pindir sakir sins synðagialldz oc hirtir til goðra luta, sva sem beinandi skiotan flug til himins með mannkosta vængium. Enn þa er þeir voru ottalausir um sialfa sig, gleymðu þeir guði oc goðum verkum oc blotuðu skurðgoð, þau sem þeir smiðuðu eptir liking iarðligra kvikvenda, sva sem fallandi af hæð himnesk(r)a verka oc guðleg(r)ar gôfgunar i saurugt lif oc i svivirðlegar heimsins girndir. Skogarhunang þat sem eigi er vax fraskilit ne sictat með mannligri list, en helldr þo með ser natturuligan sætleik, merkir heiðit folk, þat sem eigi var fágat með list guðleg(r)ar kenningar enn skildi[6] greiniliga likamliga spekt sva sem þann sætleik, er sialf natturan dictaði af guðs giofum. Þviat sæll Johannes kallaði marga menn af þessum hvarumtveggia lyð i eining þess likama, sem sialfr hann var i, en sa sami likami er heilög kristni samansôfnuð undir vars herra nafni fyrir hans ofalsaða tru. Ma hann ok taknsamliga kallaz sva sem vist þess fyrr nefn(d)s guðs vinar, þvi at Johannes þyðist guðs miskunn, eru þessir lyðir þvi hans vist, er hann leiddi með sinum fögrum fortolum oc hvossum greinum sinnar kenningar sva sem myliandi með þeim tônnum, er bita uvini siðlætis, oc leiðandi i kvið cristninnar oc til miskunnar iðra almattigs guðs. Sumir visir menn segia, at Johannes hafi grasa neytt, þeira sem þeir nefna locustas, þau grôs kalla menn buxhorn; oc ef sva er, þa er auðsynt, at af sinum dæmum kendi hann eremitis oc anachoritis oc sva oðrum elskorum eyðimerkr við gros at lifa. Eru oll hans orð spakleg[7], sa er synir oc kennir cristnum monnum retliga at lifa. Ma i hans

1 vili *C.* 2 verdkaup. *C.* 3 aal *C.* 4 *tilf. C.* 5 *Her mgl. 6 Blade i C.* 6 skilit *Cd.* 7 spegleg *Cd.*

saugu naliga kalla sva morg orðin sem stormerkin. Petrus Commestor greinir eigi framarr, en hann segir[1], at Johannes neytti nokkuru kyni locustarum, þvi sem leyfiligt er til fæzlufangs[2]. Hinn mikli Augustinus segir fra[3] þessum lut in sermone de .xl[ma]: Johannes drottinligr fyrirrennari lifði við locustas oc teigarhunang enn eigi við kvikvenda kiot eða [við sætleika fuglaholllds[4]. Matti hann oc auðvelliga lata veiða ser fiska til matbunaðar, þar sem hann var [nærr anni[5] Jordan. En þvi at hann var til þess skipaðr af guði at kenna folkinu aflat annmarka oc iðranar eptirdæmi, atti hann með fôstum [oc striðum[6] við sialfs sins likama auðrum bindendi[7] at kenna framarr með eptirdæmi enn með orðum. Nu þvi at hinir visuztu[8] meistarar[9] deilaz at þessu, leifum þvi þetta mal ugreint þeira disputan, en dæmum eigi visliga[10] um uvisa luti.

*Fra tru oc siðum Saduceorum oc Phariseorum*[11].

17. I þenna tima komu margir af Phariseis oc[12] Saduceis til Johannem at taka skirn af honum. Pharisei eru þeir menn, segir Petr Commestor, sem sig skipta fra sameiginligri[13] tru oc lifnaði annarra manna[14]; hofðu þeir snarpligan[15] klæðabunat oc oskrautligan, enn neyttu storum sparliga matar oc dryckiar. Þær skipanir, sem þeir somðu ser[16], helldu þeir sva rikt, at fyrir þeim færðu þeir or morkum eða fyrirletu skipanir Moysi. Rituð blôð, þau er a voru skrifut .x. laga boðorð, þau sem guð gaf Moysi, bunndu þeir i enni ser oc [við enn[17] vinstra armlegg; þviat guð hafði sva kent i lôgmali af decalogo: Þetta skalt þu festa fyrir augu þer oc bera i þinni hendi. Breyttu þessir menn þvi sva[18], sem nu var sagt, at [þeir skildu[19] sem guðs orð ætti likamliga at hallda enn eigi andliga at skilia. Enn nu skilia cristnir menn, at [þa hafi þeir[20] decalogum fyrir augum[21], er þeir rita hann a blaði rettrar minningar, halldandi þau .x. laga boðorð, sem hann kennir, fyrir sinum hugskotzaugum, oc þa hafi þeir hann i hendi, er þeir hallda hann i verki. Þessi bloð, sem Pharisei bundu a sig, hetu philacteria, þat er at varu mali logmals varðveizla, þviat thorath er logmal a ebresku enn philaxe varðveizla. Þessir menn hofðu meiri

1 *Her beg. atter B.* 2 fædzlugagna *B.* 3 ok af *B.* 4 [sætleik fuglaholldz *B.* 5 [nærri *B.* 6 [*mgl. B.* 7 bindandi *B.* 8 visu *B.* 9 synaz oss *tilf. B.* 10 hvatvisliga *B.* 11 Johannes skirdi Phariseos *B.* 12 af *tilf. B.* 13 eiginligri *B.* 14 Juda *B.* 15 snarpan *B.* 16 *mgl. B.* 17 [med hinn *B.* 18 til *tilf. B.* 19 [*tilf. B.* 20 [*saal. B;* þeir hafi þeim *A.* 21 oc fyrir (i *B*) hendi *tilf. A, B.*

trefr a klæðum sinum enn aðrir menn; við þær bundu þeir þyrna, at þeir stangaði þa iafnan, er þeir gengu, þottuz þeir verða við þat minnigir guðs boðorða. Alla luti ætluðu þeir guði, enn truðu miog i manz valldi at geyma oc at vangeyma rettlætis; þo truðu þeir getnaðartima mikit til [hialpa mega[1] oc ræring himintungla. [Feðrum sinum[2] oc formonnum mælltu þeir alldri i moti, biðandi ukomins guðs doms. Allar andir sogðu þeir ubrugðnar[3] vera fra upphafi, einar saman illra manna andir sogðu þeir hverfa i aðra likami oc vera i þeim allt til doms oc upprisu oc byrgiaz i eilifum [kvǫlum oc[4] myrkrum. Voru þeir fyrir þetta, er þeir skiptu sig fra sameiginligum[5] siðum annars folks oc rettri tru, pharisei, þat eru sundrskiptar[6], kallaðir, þviat phares þyðiz skipti. Voru oc með þessum monnum i sveit þeir menn, sem ukomna luti vissu fyrir annattveggia [af astronomia eða oðrum visdomi eða[7] forneskiu. Saducei neita, at getnaðartimi raði ne eitt[8] ne himintungla gangr[9], en segia guð vera alitara allra luta; i manz sialfræði segia þeir vera at gera gott oc illt; [dyrð oc pinu andanna trua þeir ongva vera oc neita almenni(li)gri upprisu dauðra manna[10]. Andir trua þeir deyia með likomum; ongva[11] trua þeir engla vera, enn hallda at eins .v. bækr Moysi. Þeir eru miog striðir oc harðir i domum sinum, oc af þessu [falsligu rettlæti[12], sem þeir draga [a sialfa sig at usyniu[13], kalla þeir þa[14] Saduceos, þat er rettlata. Sva eru oc með þeim framsynir[15] menn, sem með Phariseis var aðr getið.

*Fra þvi er Johannes talar vid Phariseos*[16].

18. Enn [eptir þat[17] er sæll Johannes sa þessa menn [til koma[18] at taka skirn, mællti hann til þeira: „Hverr kendi yðr at flyia undan ukominni reiði, þar sem þer megut retliga kallaz afkvæmi þeira orma sem[19] vipere heita.“ Fra þessum segir einn philosophus: Concipiens morte parit equa vipera sorte. Þat er sva at skilia, at ormr, sa er vipera heitir, getr yrmlinga með dauða karllormsins, oc hon tapaz með þvilikum [lut at skilia[20] i skilnaði við yrmlingana. En glosa super[21] grecismum segir, með hverium hætti þat verðr, at kvenormrinn drepr karllorminn i sambuðinni: þa er hann rettir hofuðit[22] i munn henni oc friovar

1 [hialpar *B.* 2 [*saal. B;* feðr sonnm *A.* 3 *saal. B;* ubrugnar *A.* 4 [*mgl. B.* 5 sameignum *B.* 6 sundrskiptarar *B.* 7 [astronomiam edr annan visdom ok *B.* 8 einu *B.* 9 *saal. B;* gangi *A.* 10 [*mgl. B.* 11 enga *B.* 12 [hinu falsliga rettlæti aullu saman *B.* 13 [osyniu aa sik *B.* 14 sik *B.* 15 frammvisir *B.* 16 *Oversk. B.* 17 [þa *B.* 18 [koma til sin *B.* 19 er *B.* 20 [hætti *B.* 21 yfir *B.* 22 hofud sitt *B.*

hana, veit hon, at hon skal deyia af þeiri[1] sambuð, af þvi bitr hon af honum hofuðit. Enn þa er yrmlingarnir geraz vaxnir með henni, rifa þeir hana til dauða oc biða eigi þess, er þeir [eru fæddir[2] með fullu. Þessi orð sæls Johannis glosar [hinn fyrr nenfdi[3] Beda oc segir, at allt se eitt oc þott hann hafi sva talat: Engi man[4] yðr kenna at flyia undan ukominni reiði ogurligs domanda, þeiri sem at efsta[5] domi man koma yfir vanda menn, ok[6] þa ma enn syndgi með ongum kosti forðaz, nema þer, sem erut eitrs fullir synir þeira feðra, sem eina leið oc þer voru fullir af eitri vandrar villu, sem þer erut, oc iafnan striddu, sem þer striddut[7], a goða menn, [oc sva drapu[8] sem þer drepit yðra naunga með illri kenning, spyit[9] upp fyrst þvi olyfiani, sem þer hafit innan briostz, þat [er at[10] þer lettið af hinni fornu illzku oc komit sva til skirnar. Enn ef yðr tregar þat, sem þer hafit[11] illa gert, oc skipit til at[12] gera eigi sva illa lengr, man ek yðr kenna retta kenning. Oc er þeir hofðu heyrt þessa [orðaslattu hans[13], þo at horð væri, mællti hann enn við þa: „Giori þer makliga avoxtu iðranar,“ sem hann segði: Hegni þer meðr viðrkvæmiligri hegning annmarka yðra, oc latið eigi uframarr birtaz með yðr heðan af avoxt goðra verka, helldr enn aðr syndiz með yðr framkvæmð illra verka, þviat sa skal framarr bæta, er framarr braut. Oc enn kendi enn sæli Johannes þeim aðra kenning: „Geymi þer at kalla eigi Abraham foður yðvarn, þviat guðs hond ma reisa upp af steinum þessum[14] sonu Abrahe.“ Commestor segir, at hann man synt þeim hafa þa .xii. steina, sem .xii. [hôfðingiar Iraels[15] ættar baru af þurum[16] Jordanar veg a þurt land, at sa griotvarði væri verandum[17] monnum oc viðkomandum til sanz vitnisburðar um þa iartegn, er þeir gengu þurrum fotum yfir fyrr nefnda a[18]. Einn af þessum steinum segiz sæll Jeroninus seð[19] hafa sva þungan, sem þa mattu tveir menn letta, oc eigi fyrir þvi at [steinarnir hefði[20] vaxit, helldr fyrir þvi[21] at mannfolkit hafði[22] þorrit. Oc ef sa skilningr er halldandi, þa er sem Johannes hafi mællt: Þvi banna ek yðr at kalla Abraham foður yðvarn, at[23] guði er eigi meira fyrir at reisa til lifs þa menn, sem hann leti[24] verða af steinum

1 þeira *B.* 2 [fædaz *B.* 3 [*tilf.* *B.* 4 mun *B.* 5 [hinum efzta *B.* 6 *tilf.* *B.* 7 stridit *B.* 8 [þar *B.* 9 *saal.* *B*; spyia *A.* 10 [*tilf.* *B.* 11 her til *tilf.* *B.* 12 gera betr ok *tilf.* *B.* 13 [ordslattu *B.* 14 *saal.* *B*; þessa *A.* 15 [foringiar Israels folks *B.* 16 *saal.* *ogsaa* *B.* 17 verande *B.* 18 aa *B.* 19 set *B.* 20 [*saal.* *B*; steinar hafi *A.* 21 þat *B.* 22 hefði *B.* 23 *saal.* *B*; þviat *A.* 24 lætr *B.*

þessum, sem her liggia, enn at giora yðr retlata, sem aðr eruð steinum likir fyrir harðleik hugar oc fullkomna otru. Fyrr nefndr Beda segir, at þessi orð sæls Johannis hafa enn annað[1] at segia, sva sem hann hefði þannig[2] sagt til þeira: þvi at þer vilit eigi [fyrir þat[3] við kannaz, at þer seð synða fullir, er þer eigut[4] kynsloð yðra at rekia[5] til Abraham, banna ek yðr heðan af at metaz [eptir þvi[3] oc at treysta a þessa holdlega kynstærð, er af honum leiðir, fyrir þat er þer gerit yðr orkynia[6] fra hans retlæti oc hans agætri tru. [Oc bið ek yðr[7] fyrir þa ormliga vizku, sem yðr er natturlega gefin til þess at vita [fyrir ukomna[8] luti, skili þer, at guðs hond er mattug at gera heiðna menn, þa sem[9] steins hiortu hafa, oc, fyrir[10] þat er þeir kalla[11] steina guð sin, megu við steina iafnaz[12], at sonnum sonum Abrahe fyrir tru oc retlæti oc at lata nu[13] fram koma yfir[14] þeim þat fyrirheit, at i hans kyni mundu allar þioðir blezan taka. Sumum meistorum syniz sæll Johannes hafa figuru talat til þeira oc nefndan guð foður undir[15] skilningi Abrahe haufuðfeðr, oc hafa með fyrr greindum orðum þessum monnum bannat at hefia upp [til guðs lofs eða bænarorða[16] sinn munn saurgaðan með ferligri predican falsligrar[17] villu, þeirar sem auðsen er i morgum lutum[18] fyrr greindum i frasogn [truaðra þeira[19], enn leyfa[20] þeim at eins hiartaliga bæn[21], sem nu gera pafar við opinbera villumenn, þa sem þeir skripta at þegia, sva sem gert var við Petrum Abaleardum[22], eða sva sem helgir menn [gerðu við[23] einstaka menn, þa sem aðr eru agætir at motstoðu við almatkan guð, sva sem var Advenir konungr, sa er Josaphat [konungs son[3] setti þagnar skript, oc sem Pafnutius[24] gerði við Thaidam. Er þessi skript sumum sett [at akveðnum[25] tima, en sumum allt til dauða, þviat oll[26] orð Johannis eru uleysiligt lôgmal almattigs guðs, þau er i hans predican standa, ef þau eru rett skilit.

Enn þvi at hinn oyfirstigligi oc hinn gôfgi guðs kappi sa þessa fyrr nefnda menn nokkut sveigða en eigi fullkomliga undir satt [litillæti lagða[27], syndi hann þeim aðra figuru sva mælandi: „Nu er bolôx sett við[28] tria rætr, oc hvert tre, þat sem[29] eigi

1 annat *B.* 2 þann veg *B.* 3 [*tilf. B.* 4 eigit *B.* 5 reka *B.* 6 aurkynia *B.* 7 [Bidr ek *B.* 8 [hversu fyrir komna *B* 9 er *B.* 10 *saal. B*; þvi *A.* 11 stocka ok *tilf. B.* 12 *A tilf. her* en eigi. 13 *tilf. B.* 14 *saal. B;* fyrir *A.* 15 *saal. B;* undan *A.* 16 [*mgl. B.* 17 *saal. B*; ferligrar *A.* 18 stôdum *B.* 19 [truar þeirar *B.* 20 leyfdi *B.* 21 þeonostu þa leid *B.* 22 *saal. B;* abadardum *A* 23 [gera med *B.* 24 Pafuntius *B* 25 [a akvedinn *B.* 26 *mgl. B.* 27 [*sadl. B*; rettlæti lægða *A.* 28 *saal. B*; til *A.* 29 er *B.*

gerir goðan avoxt, man vera upphauggvit oc i eld kastat. Þat [skal sva[1] skilia: þvi at allt mannkyn er sem margr viðr vaxinn af einum rotum, man lausnari allz heimsins, sa sem skiott man birtaz milli manna oc ek merki fyrir bolôxi, af þvi at hann hefir með ser iarn guðdomsins, þat er i gegnum gengr oc sigrar alla luti, oc skapt manndomsins, þat er með likamligum hôndum ma taka oc hallda, þo at hann þoli nu með miukri biðlund[2] var ill verk, at hinum efsta domi eigi at eins þær kvislir, sem aungvan avoxt [bera, þat er heiðingia, þa sem eigi hafa með ser avoxt goðra verka, i eilifan bruna kasta, oc falsara slika, sem þer erut, eða rett kallaða villumenn, þa (er) ongvan avoxt[3] bera, nema þann sem til bruna er makligr, þo at skammsynum monnum syniz hann nokkut[4] nytr, oc alla þa menn, sem i þessum heimi vilia eigi[5] betra sitt rað með avaxtsamligri[6] iðran, helldr man allr illr viðr oc oavaxtsamr með aullum illum rotum, þat er allt[5] illt afkvæmi með illum feðrum, i elld kastað, at þar af megi engi ill risla upp renna [um alldr[3], þat er at skilia dæmt[7] til endalauss bruna, at af þvi megi eigi ill kynsloð upp renna[8] um aldr her i heimi. Enn af þvi at þessir menn, sem sæll Johannes atti tal við, voru margvisir, var makligt, at hann hneykti þeira vizku[9], er þeir hugðu aðr at oyfirstiglig væri, oc bryti niðr ofdramb þeira oc [dul með[10] myrkum figurum, þeim sem þeir mætti undirstanda, at[11] skilia, at þeir voru eigi at eins sannsakaðir oc verðir harðrar pinu[12], helldr oc fullkomliga með hans usigranligri vizku unnir oc yfirkomnir fyrir sannar skynsemðir. Nu þvi at þeir urðu miog ottafullir við þau[13] orð, toku þeir með litillæti sælan Johannem raðs at biðia, at þeir mætti við gera oc liota eigi[14] þann bruna, sem þeir skildu sig makliga, sva mælandi: „Hvat skulum ver gera,“ sem þeir mællti, þvi at þu hinn goði guðs vin hefir nu synt, hvat ver eigum at forðaz, seg nu með þvilikri miskunnsemi[15], hvat ver skulum til þess vinna, at ver megim af guði liknina[16] auðlaz. Hann svaraði þessu [at moti[10]: „Sa yðvarr sem .ii. kyrtla hefir[17], gefi [hann annan[18] þeim sem aungvan[19] hefir, oc sa sem vistir hefir, geri[20] slikt hit sama.“ Sem hann segði: þvi byð ek yðr at gefa annan kyrtil, [ef .ii. eru til[21], oc vistum at skipta eptir sama hætti,

1 [er sva at *B.* 2 *saal. B*; bliðlynd *A.* 3 [*mgl. B.* 4 nockuru *B.* 5 *tilf. B.* 6 avaxtsamre *B.* 7 *saal. B;* domr *A* 8 vaxa *B.* 9 otru *B.* 10 [*tilf. B.* 11 ok *B.* 12 refsingar *B.* 13 þessi *B.* 14 þat upphógg ok *tilf. B.* 15 skynsemi *B.* 16 *saal. B;* likama *A.* 17 aa *B.* 18 [*saal. B;* ann *A.* 19 engan *B.* 20 gefi *B.* 21 [af tveim *B.*

at eigi at eins eigum ver hina ytri luti vara, þa sem oss eru minnr nauðsynligir, helldr oc þa luti, sem oss eru harðla nauðsynligir, fram at leggia i nauðsyn við vara naunga. Her yfir segir hinn mikli Gregorius: Guðligt lôgmal byðr oss naunginn at elska sem sialfa oss, oc af þvi er auðsynt, at sa elskar hann ser minnr, er eigi skiptir milli sin oc hans [sinum lut, ef þurft beiðir[1]. En þvi bauð Johannes einn kyrtil af tveimr at gefa, at einum fær eigi oðruvis skipt, [enn þa er hvargi nôktr[2], sa er gefr oc hinn er við tekr. Oc af þessu ma marka, hvat miskunnarverkin mega, er þau eru boðin i makliga iðranar avoxtu, oc sialfr guðs son mælir: Gefi þer olmosu, at skilia, rettskriptaðir oc af rettfengnu, oc eru yðr þa allir lutir rettir[3]. Af þessu efni ma nokkurr sva tala, segir heilagr Jeronimus i þeiri bok, er hann ritar til Evidiam: Hversu ma maðr gefa annan kyrtil i frostum hinnar koldu Scithie eða i sniofum alpinar fialla, þar sem varlla má veria likamann[4] við kulda með .ii. eða .iii. kyrtlum eða með skinnklæðum. Enn þar liggr su[5] orlausn til, at sa klæðnaðr, sem þorf vinnr likamanum[6], er einn kyrtill rett skilðr, oc vinnaz ma þeim manninum[7], sem natturan hefir naukðan skapað, oc su vist, sem þann tima er nauðsynlig, sem þa stendr yfir, þar til er ônnur [ma faz[8], eptir natturu er eins dags vist. Oc ef þu, segir Gregorius, hefir meira, veitt[9] þat þurfundum. Sumir meistarar segia[10], at Pharisei oc Saducei voru villtir af fornri villu[11] ebreskra manna, oc fyrir þa sok hafi enn sæli Johannes setta þeim þessa skript, oc af þessu hans dæmi hefir heilug kristni þat logtekit, at uppnæmir eru[12] penningar [þeir allir[13], er opinberir villumenn [hafa at[14] varðveita, oc ef þeir eru[15] klerkar, falla þeira fiarlutir undir kirkiu, en ef þeir voru[16] leikmenn, undir konungligt valld. Enn þetta boð sæls[17] Johannis se eigi [alðyðu skullda[18], helldr rað eða bænarstaðr, a þa leið sem varr herra mællti: Ef þu vill algerr vera, far oc sel alla eign þina oc gef fatækum monnum, oc fylg mer. Var oc þetta rað vars herra enn eigi hverium sem einum skyllt at hallda, nema hin hæsta nauðsyn [kalli, at[19] þa eru allir lutir sameiginligir.

1 [i hans naudsyn sinum naudsynligum lutum *B.* 2 [er þa er hvarrtveggi nôckvidr *B.* 3 reinir *B.* 4 likama sinn *B.* 5 *mgl. B.* 6 *saal. B*; likomunum *A.* 7 *saal. B*; monnum *A.* 8 [fæz *B.* 9 veit *B.* 10 lita a þat *B.* 11 tru *B.* 12 se *B.* 13 [*saal. B*; allir þeim *A.* 14 [*tilf. B.* 15 varu *B.* 16 eru *B.* 17 *tilf. B.* 18 [alþydu skyllda *B.* 19 [gangi til, *B.*

*Fra riddarum ok domandum*[1].

19. A einum tima komu fyrir sælan Johannem at heyra kenning hans publicani. [Þessu nafni[2] eru stundum kallaðir þeir menn er með soknir fara, sva oc þeir menn sem heimta skatta, tolla eða alôgur af folkinu, eða þeir sem nyiar alôgur eða pyndingar leggia a menn; sva ok þeir sem fremia nokkurn þann kaupskap eða rangan fiarafla, sem trautt eða með ongum kosti ma synðalaust fremia; oc eru þessa lastar harðla margar kynkvislir, [ran oc ribballdaskapr, viking oc allr onauðsynligr herskapr, okr oc allzkonar vælakaup, vagir oc mælingar rangar oc falslig giold, oll lygi oc opinberir lestir[3]. Þat er greinanda um tolla eða alogur, hvart þær eru nyiar eða fornar oc svarðar oc skynsamligar, þviat þær er nauðsyn at giallda, oc liggr við horð pina þeim, er eigi gelldr eptir logum guðs oc manna, einkanliga ef konungr eða hofðingi helldr sina eiða við þa. En nyiar alôgur ma konungr eða hofðingi fyrir nauðsyn at eins a leggia oc einkanliga[4] með roksemð [heilagrar kirkiu[5] oc fyrir retta sok, ef menn [þurfa fostrland[6] sitt at veria fyrir ransmonnum eða[7] vikingum a landi eða sio eða fyrir vorn rettrar truar moti heiðingium oc villumonnum eða annarri þvilikri sok, ma þa[8] konungr þat frealsliga gera eptir stilling eða atvikum. Enn þa er lond eru reinsut oc goðr er friðr, a ekki nyia tolla at auka[9], enn i vorn fostriarðar sinnar oc einkannliga borgar sinnar, biar[10] eða kastala, þorps eða heraðs, er maðr eigi skylldr at eins penninga sina[8] til at leggia, helldr oc starf sitt oc vokur til varðhallds oc at giora varnir, oc þar með likama sinn, ef þôrf er a, at hann megi hallda ser heilum oc sinni eign. Enn ef aðrir gera þessar alôgur, er þeim fyrir dæmi [orð Johannis hafandi[11]. Af þessum segir Ysaays: Vei verði þeim, er lôg setia moti rettindum oc rita ranglæti til þess at þraungva monnum i domum oc at gera ofrefli litlum monnum oc lagum i folki minu, segir drottinn, oc at ekkiur verði[12] herfang þeira oc[13] þeir gripi fyrir smasveinum. Eða hvat munu þer gera, eða hvert munu þer flyia til fulltings a minum vitianardegi oc a degi uvęgs[14] hita, eða hvar[15] munu þer skilia við yðra dyrð, at eigi bogni þer undir bandi oc fallit með drepnum monnum? Yfir ollum þessum lutum[16]

1 Fra predican sæls Johannis baptista *B.* 2 [*saal. B*; þessir menn *A.* 3 [*mgl. B.* 4 fyrir nauðsyn *tilf. A.* 5 [kirkiunnar *B.* 6 [eiga land *B.* 7 ok *B.* 8 *tilf. B.* 9 tak(a) *B.* 10 *mgl. B.* 11 [orda sæls Johannis hafnanda(!) *B.* 12 væri *B.* 13 edr at *B.* 14 ofvægs *B.* 15 *saal. B*; hvat *A.* 16 *mgl. B.*

snyz eigi min reiði af yðr, oc enn[1] er min hond upprett[2], at skilia, til refsingar. Eigu allir þeir, er i moti fyrr greindri reglu taka fe fyrir monnum, aptr at luka þeim er attu eða þeira erfingium, ef þeir finnaz, eða[3] ella eptir kirkiunnar domi[4] fatækum monnum, oc standa i dauðligri synð, til þess er þeir [giallda aptr[5]; þvi at þat er afskapligt, at varnarmaðr[6] verði vikingr oc tænaðarmaðr at tapanarmanni. Þvi at sa heitir rex, þat er stiornari, er rett gerir, enn engi annarr, oc þott nokkurr hyggi betra at svipta sinkan oc auðgan, en gefa fatækum guðs[7], segir hinn sæli Augustinus, at sia hugsan er af slægð annskotans tendruð, oc maðr eykr glæpinn, þott hann gefi allt þat er hann tok, helldr enn minkar. Jeronimus segir, at su borg[8] er guði at sva liotum glæp, sem sa er slikt gerir sæfi sun[9] i augliti fauðurins, oc er fyrir þvi rett tekin rôksemð Ysaie at glosa Johannis orð, þar sem hann kallaz eptir þvi guðs gôtur greiða, sem Ysaias sagði fyrir, oc ma i þessum orðum sia, hveria pinu hann eignaði[10] þeim, sem vond[11] lôg skipaði, þat er ofn[12] oc elldz bruna[13], lat sømða, bond oc bana, usigr i orrustum. Enn þar sem þessi pina gnæfir yfir þeim, er almuginn þrongva, hvat man þa, ef þeir hôfðingiar[14], sem leikmanna vald hafa, leggia tolla eða alôgur eða skatta uskyllda a klerka eða [kennimenn ok a[15] kirkiur, dragandi undir sig þeira logsogn, eða taka þat, sem kirkiur eða klerkar eiga, or kirkna vernd? Þessir falla i hit meira bann, oc sva þeir sem visvitandi[16] taka við sva fengnum penningum eða veita til þessa rað, fullting eða leyfi[17] opinberliga eða leyniliga. Eru oc þessi log ôll eða skipanir[18] onyt oc mega ekki eptir natturulôgunum[19], þviat ekki logmal hefir neitt afl moti guði, oc enn minni hefir ekki valld moti enum meira. Verr oc þessa menn engi [hefd ne[20] landzsiðr. Eigu þeir eða þeira arfar þetta allt með [fullu aptr at giallda oc rettri stôðu[21] at bæta oc skafa þessar[22] skipanir af sinum bokum oc fullkomliga at onyta oc or logum taka, aðr þeir fai lausn af þeim, sem valld hefir til at leysa þess kyns[23] mal. Hefir oc sialfr guð slika luti harðliga refsat, þar sem mannlig hond [spardi[24] þeim hegning sliks lôgbrotz, sem ritningarnar vatta. Þessa alla

1 *tilf. B.* 2 uppreist *B.* 3 enn *B.* 4 *saal. B;* dæmi *A.* 5 [bæta *B.* 6 varnadarmadr *B.* 7 edr gudi *B.* 8 sorg *B.* 9 soninn *B.* 10 ognadi *B.* 11 vand *B.* 12 ofriðr *B.* 13 bruni *B.* 14 menn *B.* 15 [*tilf. B.* 16 vitz vitandi *B.* 17 lof *B* 18 aullum *tilf. B.* 19 sealfum *tilf. B.* 20 [*saal. B*; hefnd eða *A.* 21 [fullum aptrgiolldum ok rettarstôdum *B.* 22 þess hattar *B.* 23 hattar *B.* 24 *saal. B*; syndi *A.*

saman oc serhvern [i sinni gradu[1] hepti [enn sæli Johannes ne einum[2] rangt at gera, oc mællti: „Krefi þer ekki framarr enn yðr er skipat,“ sem hann segði: Geymit gersamliga þess, at eigi komiz þer at annarra eign með röngu eða[3] girniz at fa hana uretliga, at þer megit oc vilit þvi næst miðla naungum yðrum yðra eign retliga[4]. Oc enn segir hers[5] af þessu efni: harðla mikit afl fylgir orðum þessa agæta manz, þar sem hann leiðir bersynðga menn oc þa sem voru með [öllu onytsamir[6] a heilsu rað, fyrirbioðandi at neinn þeira tæki eða heimti nokkut um rett fram. [Er með þessi grein niðrbrotinn margs manz oskynsams oskynsamligr þokki, sa er domarann hyggr allt eða mikinn þora þess, er i sakeyri er tekit, uretliga afla. Sumir hyggia oc, at alt þat, sem heilog kirkia tekr, se fatækra manna eign, oc domendr eða soknarmenn, þeir er þar hafa starfat fyrir, eigi þar ekki af at taka, þo at þeir hafi þar ongva aðra rentu til. En þat er auðsynt, at natturulögin ætla hverium mala fyrir sitt starf, oc þvi er agætt miskunnarverk at gefa ölmusum sakeyri oc sækia a sinum kosti helldr enn lögskyllda.[7]

### *Fra þvi er riddarar komu til Jons.*

20. Riddarar oc þeir menn, sem [konungliga stiorn[8] hofðu, komu oc til Johannem ok spurðu: Hvat skulum ver gera? Hann fyrirbauð þeim crimen concutionis[9]. Þat ma sva þyða helst, at hann fyrirbauð þeim nokkurn at hrista eða skaka [með ogn[10] til penningalatz. Ok er þessi figura tekin af þeiri liking, er maðr hefir ker i hendi fullt nokkurs hræriligs lutar, sva sem korns eða [silfrs eða[7] einshvers lagar, oc siþan ristir hann kerit[11] eða skekr, sva at þat, sem aðr var i þvi, slagnar niðr. Kennir [hinn fyrr nefndi Johannes[10] soknaranum sva at þyrma [undirmonnum sinum[12], þeim er hann hefir i sinu valldi [sva sem[13] i sinni hendi, sva sem þeim, er kerit berr, dugir þyrmiliga með þvi[14] at fara, þviat domarinn[15] ma at likendum sakir valldz eða vitzmuna a þessa lund leika at viti eða pen(nin)gum sinna undirmanna. Verðr þetta lyti þa framit, er[16] domarinn geriz ofsoknarmaðr oc ræðir[17] ser minni menn með kuga[18] eða einhverri[19] væl til [þess at þeir

1 [*mgl. B.* 2 [hann neinum *B.* 3 ne *B.* 4 rettvisliga *B.* 5 hann *B.* 6 [fullu onytsamligir *B.* 7 [*mgl. B.* 8 [konunglig störf *B.* 9 concussionis *B.* 10 [*tilf. B* 11 *mgl B.* 12 [undirmanninum *B.* 13 [ok *B.* 14 þat *B.* 15 domandinn *B.* 16 ef *B.* 17 rærir *B.* 18 *saal. A. og B.* 19 einnihverri *B.*

leggi penninga fram við hann[1], þar sem eigi eru logligar sakir til, oc þrongvir þa aflogliga, sem hann ætti[2] vernd at veita oc fullkomit fullting til allra rettra mala eptir skylldu sialfra laganna at boði sins hofðingia, verðr þa vikingr af varnarmanni, en vargr af geymslumanni. Ok er[3] kunnari verða kynkvislir þessa lytis þeim er þat[4] vilia forðaz, þar sem varlla ma illt varaz, nema vitað se, verðr þat framit, ef nokkurr, sa er i malafylgiu starfar, snarar með kuga eða einhverri væl penninga af monnum fyrir rett fram, oc[5] ef domandi vill eigi malum luka, nema honum se nokkut gefit til[6], þar sem hann er aðr skylldr at gera [goða grein[7] a hveriu lôgprofuðu mali fyrir þa rentu, sem [hann er i logunum skipaðr til hvers mals[8]; sva oc ef umvandanarmaðr lettir af rettri[6] umvondun fyrir log fram eða fyrir heit fram laga, eða soknari lætr af rettri asokn annarligs mals, sva oc ef soknari tekr fe til at sækia einnhvern eða [lata sækia[9]. Þessir enir siðurstu eigu aptr at giallda[10], eigi þeim sem gaf, helldr þeim sem mein stoð af giofinni, utan sa sem gaf hafi [fyrir goðu[11] gefit, þa a hann aptr at luka gialldit. En hvat[12] sem domarinn dæmir illa[13] vitandi oc með væl, fyrir ræzlu sakir við einnhvern eða fyrir vinattu eða hatr eða fegirnd, þa a[14] þat allt, sem hinn missir sins, aptr at luka þeim, sem hann hallar [domi á[15], oc þar með [skynsamligan rett[16] fyrir allt mein oc fyrir skaða þann, sem hinum leiðir[17] af hans misdæming, nema þessi sami domandi fai þann, sem hann hefir fylgt i malinu, a þat leiddan at luka þetta allt aptr. Eigu þessir rettir at tempraz eptir atvikum, oc sva refsingin eptir malavoxtum. Enn ef domr[18] tekr fe til at dæma, er greinanda, hvart hann tok til þess at dæma rangt, eða tok hann til þess at dæma rett, eða tok hann at eins til þess at dæma. I enum fyrsta atburð af þessum, er hann tok til þess at dæma rangt, a hann, sem fyrr segir, at luka þeim aptr, sem[19] misdæmdr var, enn i enum siðarrum tveim a hann aptr at luka, þvi at hann tok liotlega oc framdi fyrr nefnt lyti concucionis[20], þat er sæll Johannes bannaði, at neinn tæki i nokkuru[21] mali framarr enn þeim[22] mala eða rentu, sem login

1 [peninga um rett fram *B.* 2 aa *B.* 3 at *B.* 4 þær *B.* 5 sva ok *B.* 6 *tilf.* *B.* 7 [godan enda *B.* 8 [honum er i l. til hvers mals skipad *B.* 9 [at létta af ásokn *B.* 10 luka *B.* 11 [*tilf.* *B.* 12 hvart *B.* 13 viliandi ok *tilf.* *B.* 14 hann *tilf.* *B.* 15 [a dominum *B.* 16 [*saal.* *B;* skynsaml. veitt *A.* 17 leiddi *B.* 18 domari *B.* 19 er *B.* 20 concussionis *B.* 21 neinu *B.* 22 þann *B.*

segia honum, þar sem hann var [fyrir hana[1] skylldr at dæma fyrir utan allt annat kaup. Hit sama [syniz ok[2], ef hann tekr til þess at dæma eigi, eða til þess at dæma eigi illa, [þar sem hann er aðr skylldr at[3] dæma vel. Þviat Augustinus hinn mikli segir, at domanda se eigi lofat at selia rettan dom, oc a hann i þeim[4] fiorum atburðum hinum siðurrum þeim[4] aptr at luka, sem gaf, ef hann vildi fyrir goðu gefa til þess at fa sin rettindi eða leysa sig undan rekstri, kostnaði oc onaðum; en ef hann[5] gaf til þess, at hann vildi með undirhyggiu snua hug domandans undir asionu hins retta til rangrar fylgiu með ser, oc veit þat domandi[6], þa a þetta at gefa fatækum monnum eða þeim, sem hann villdi at mein fengi af giofinni, eptir þvi sem kirkiudomandinn vill. Enn ef nockurr domandi vill [með engu moti[7] dæma eitt mal eða fleiri, oc verðr nokkurr þar fyrir [at missa[8] sinna rettinda, þa a domarinn at svara [allri hans[9] missu oc ollu þvi meini, sem [honum leiðir[10] þar af, oc bæta þat allt aptr af [sinum peningum[11], sem hinn skaðar af[12] hans vanrækð eptir rettum domi. Þetta sama lyti concutionis[13] er oc, ef domr[14] snyr sinum retti i giafir oc afrækis[15], at hinn mishaldni fai sin rettindi, oc skal fara sva sem nu var sagt af næstu grein.

### *Predican Johannis*[16].

21. Þessu næst mællti sæll Johannes enn við ena somu konungs menn[17] oc sagði sva: „Eigi skulu þer [ne einum[18] calumpniam gera". Calumpniam kalla lôgin aburð usanz lytis[19] vilianlegan fyrir ôfund, ef domandi eða einnhverr annarr girniz peninga einhvers manz með agirni, eða[20] girniz hann með heipt þeiri, sem hann hefir a honum, limar hans eða lif, segiandi at hann hafi tekit með gripdeild, stulð eða rani, eða fengit annars kostar rangliga hest eða uxa eða annan smala eða nokkura peninga eða gripi eða akra eða eignir, eitt eða fleira af þessum[21], oc lætr þat sanna með falsvitnum eða rangfengnum soknargôgnum. Stundum berr hann a hann kvenna legorð, averka eða banorð manna leynd eða berlig, eða orð þau, er sekð stendr á, oc rægia þess kyns menn sina ovini lognu rogi við hofðingia; stundum lata þeir þyfi bera (ða

1 [fyrr *B.* 2 [*tilf. B.* 3 [þat er hann (er) skylldr at dæma ok *B.* 4 þessum *B.* 5 *tilf. B.* 6 domarinn *B.* 7 [eigi *B.* 8 [*mgl. B.* 9 [*saal. B;* allra þeira *A.* 10 [hinum leiddi *B.* 11 [sinu *B.* 12 fyrir *B.* 13 concussionis *B.* 14 domandi *B.* 15 afrækiz *B.* 16 *Ikke nyt Capitel i B.* 17 þionostumenn *B.* 18 [ok neinum *B.* 19 *saol. B;* lytiz *A.* 20 ella *B.* 21 *saal. B;* þessu *A.*

binda a menn eða a þeira varnað, er þeir[1] vilia fyrirkoma; stundum vinna þeir eða lata vinna nokkur illvirki oc nefnaz þeira nofnum, sem þeir vilia fyrir [lygi hafa[2]; stundum snua þeir goðum verkum til illz, sem Pharisei sogðu varn herra eigi með guðs krapti takn gera, helldr með diofuls krapti; stundum rista þeir með runum eða rita a bloðum login lyti með sundrlausum orðum eða samfostum, versum eða kantilium[3], figurum eða bendingum, oc kasta i opinberum stoðum, til þess at þeira uvin[4] fai af[5] skomm eða skaða, ofagnað[6] eða alldrtila. Þessir allir falla i dauðliga synð oc eigu at standa undir þungum pinum fearlatz eða bardaga, brigsla eða utlegða, meizla eða bana eða limations[7] eptir mikilleik tilgerða; þviat vikings[8] ma varaz, enn eigi[9] illan domanda, þvi [at hann[10] er hverium ransmanni verri. En þeir, er menn ufrægia með fyrr greindum uppslattum, eru þvi verri en þiofar, þeir sem fenu stela, at þessir stela frægðinni oc sva, ef þeir mega, sialfu lifinu; þeir eru skylldir, ef þeir vilia bæta [yfir misverka sinn[11], at[12] kannaz við villu sina oc biðia ser liknar þa menn, sem þeir gerðu mein undir sinni personu. Enn ef þeim er lifshaski at tala við sinn sokudolg, geri hann þat [fyrir milli setta personu[13]. Hann er skylldr at færa af honum ufrægðina, slikt sem[14] hann vinz til. Eru oc allir þeir, er slikt gera, skyldir til at bæta eptir lagadomi þeim, sem[14] þeir ufrægðu, oc eru allir þeir, sem þessi bref finna, skylldir at brenna þau oc lata ongvan mann sia. Enn ef þeir lata þau uppi aufundsamliga, þa falla þeir i sekt með hinum, er fyrir ondverðu reistu lygina. Virðuligr prestr Beda segir[15], at sæll Johannes minti með rettri stilling[16] riddara a þat [i þessum orðum[17], at eigi tæki þeir fyrir[18] alygi penninga [eða með hernaði af þeim[19], er þeir voru skylldir at veita vernd við ollum hernaði oc fullting til allra rettra mala[20]. Oc enn segir Beda prestr: Ongan alldr oc ekki embætti eða[21] þionustu eggiaði sæll Johannes eigi til miskunnar, alla saman bað hann til þess, at hverr veitti þat hverigum, sem hann kendi þann þurftugan, þviat miskunn er fylling[22] allra mannkosta. At hirtum lytum domanda[23] vendi sæll Johannes sinni

1 *saal. B;* þeim *A.* 2 [liuga *B.* 3 cantilenum *B.* 4 uvinir *B.* 5 þvi *tilf. B.* 6 *tilf. B.* 7 liftions *B.* 8 vikinginn *B.* 9 varla *B.* 10 [*tilf. B.* 11 [sinn miska *B.* 12 *saal. B;* oc *A.* 13 [*saal. B;* fyrri milli settra persona vist er *A.* 14 er *B.* 15 i þessum ordum *tilf. B.* 16 *saal. B;* skilning *A.* 17 [*mgl. B.* 18 *saal. B;* með *A.* 19 [*saal. B;* af monnum með hernaði *A.* 20 luta *B.* 21 ne *B.* 22 *saal. B;* fullting *A.* 23 domandanna *B.*

signuðu tungu til huggunar þeim oc mællti: Hallda skulu þer malagiofum yðrum; sem hann segði: hvarvetna þar sem þer innit af hendi með lögum þat starf, sem hofðingiar skipa yðr at gera rett manna a milli, þa skulut þer oc megut þer með rettu taka þann mala, sem hofðingiar skipa yðr fyrir [yðra þionustu eða starf[1]. Beda segir her yfir: Rettliga[2] ma domari eða ridari taka sinn mala, þann sem lögin segia honum, at eigi þurfi hann, þa er kostinn vantar, með rani at taka, at skilia þat expens, sem hann eða hans sveinar þurfa til mala eða klæða eða farargreiða, meðan þeir acta almennings nauðsyniar. Hafa þvi helgir pafar oc aðrir heimsins formenn rentu skipað til hvers starfs, at postolinn Paulus segir: Engi er skylldr auðrum at þiona a sinum kosti, er þvi sannligt, at logbrotsmaðrinn leggi af sinum kosti fyrir þann, er honum þrongvir til þess at hallda lögin oc ryðr til rettinda hinum retlata, þeim sem helldr login, oc hvergi er skulldbundinn undir lögin.

*Johannes neitaði sig Krist.*

22. I þann tima sem fyrr nefndr Johannes talaði þvilika luti, sem nu voru greindir, fanz folkinu sva mikit um, at a tveim tungum lek, hvart hann mundi eigi Cristr vera, oc segia bækr þa sok til þess, at ebreskir menn vissi af orðum spamanna oc einkanliga Davids, at þa var kominn sa timi, er Cristr mundi beraz lata i[3] heim. Var þo undrandi sa blindleikr, er þeir mistrygðu þat yfir Jesu rettindum at taknum oc stormerkium[4] syndum með vitnisburð Johannis, sem þeir truðu sealfkrafa[5] yfir sælum Johannes[3], sem ekki takn giorði eptir vitni guðspiallzens i lifi sinu. En su var sok til þeirar tortrygðar, at þvi sem virðuligr prestr Beda segir, at þeir hugðu Crist mundu fæðaz fra konu enn eigi fra meyiu at moti Ysaia, er þeim sagði, at mær mundi son fæða oc geta, oc nafn hans mundi kallaz Emmanuel, þat er guð með oss. At moti þessi[6] villu mællti sæll Johannes oc sagði sva: „Eigi em ek Cristr, ek skiri yðr i vatni til synða iðranar, en sa er mer sterkri, sem eptir mig man koma, oc ek man eigi verðr at bera skoklæði hans, hann man yðr skira i helgum anda oc elldi. Hann hefir sitt ventilabrum i hendi, oc hann man reinsa sinn lafa oc samna hveitikorni i hlauðu sina oc brenna agnir i osløkkviligum elldi. Sem hann segði: Ek væti likami i vatni oc kenne synða iðran, oc tek upp þann vanda oc hatt, at menn taki vatzskirn,

1 [hveria grein ok þionostu ydra ok starf. Hinn sami *B.* 2 *Her mgl. 2 Blade i B.* 3 þ' *tilf. Cd.* 4 oc *tilf. Cd.* 5 sealfa krapta *Cd.* 6 þessu *Cd.*

oc man þessi min skirn halldaz þar til, er sa kemr, sem gefr helgan anda; þviat (sa) man skiott koma, sem mer er styrkari. Oc ef yðr syniz sa styrk(r), er til þess skirir at kenna oc iata synðir, þa er sa styrkari, er til þess skirir at fyrirgefa synðir. Ok ef sa er styrkr, er i ser hefir hinn helga anda, þa er sa styrkari, er gefr þann sama anda; oc ef sa syniz styrkr, sem fyrst kemr at predica himnariki, þa er sa styrkari, er gefr þat sama riki. Ek em litill, hann er mikill, þviat ek skal at eins vera hans fyrirrennari at predican oc at skirn, oc ek em eigi verðr at bera með miuni predican stormerki hans holldgunar, þat er hann tok a sig dauðlegan likama, þann sem skoklæðit merkir um allan heiminn, þviat þat er embætti postola hans. Hann man yðr af synðum reinsa i vatzskirn fyrir hinn helga anda oc (með) elldi sinnar eiginligrar astar i þessi verolld, enn i ukominni verold með reinsanarelldi. Hann hefir oc fulla grein rettrar roksemðar doms i sinni hendi, þa sem guð faðir gaf honum i hond, oc hann man reinsa þessa verold, er lavi hans kallaz, a þa leið sem lavamaðr kastar með einu keri, þvi sem ventilabrum heitir, utindu korni með sauri oc saðum oc ǫgnum, sva at i annan stað flygr ǫgnin með ollum ureinindum oc merglausum haumsum, þeim sem hann kastar i oslokkiligan[1] elld, þat er ranglatum monnum, þeim er fyrir opinbera glæpi verða sniðnir af kristninni her i heimi, en i auðrum heimi dæmaz til eilifs bruna, en i annan stað flygr allt ufalsat korn, þat sem hann fær i kornskala, þat er retlat folk, þat sem hann laðar til himinrikis hallar oc skipar i fyrirbunar fullsælu vistir. Marga luti aðra talaði enn sæli Johannes fyrir folkinu.

*Johannes bar vittni drottni Jesu.*

23. Johannes guðspiallamaðr segir oc i sinu guðspialli, at nafne hans sæll Johannes baptista bar drotni Jesu vitni, þa er hann vissi eða heyrði, at hann mundi koma til hans i þann stað, sem hann veitti monnum skirn i anni Jordan, oc hefir hann at guðspialligu vitne stundum veitt þetta embętti nær kastalanum i Bethania, stundum hefir hann þat framit i Ennon, þat eru morg votn. Hann hof sva sitt mal at skilia: „Jesus er sa sem ek hefi fyrrum fra sagt, at sa mundi i heiminn koma mer siðarri, sem mer er fremri, þviat hann var mer fyrri.“ Sem hann segði: Nu man sa koma, er mer siðar var i heiminn fæddr, oc mer siðar man predica i heiminum, oc mer er fremri sva miklu, sem solin

1 oslokeyligan *Cd.*

er biartari[1] en morginstiarnan, þo at hon syniz siðarri, oc okkat vald skilr sva mikit, sem skilr laupanda svein, þann sem fyrirboðar kvamu domandans, oc sealfan domarann, þann er siðarr kemr, oc sva mikit sem skilr konung oc þræl. Oc hann var mer fyrri, þviat orð var i upphafi, oc orð var með guði, oc guð var orð. Næst þessum orðum sagði sæll Johannes enn af Jesu sva mælandi: „Allir hofum ver af hans fullting tekit miskunn fyrir miskunn", þat er at segia, ver spamenn oc hôfuðfeðr, postolar oc allir þeir sem fyrir holdgan verða sendir, hôfum allir af hans fullting tekit, þviat hann er brotin, en ver erum kerin, oc ver erum menn, enn hann er guð, oc veitti hann oss þa miskunn i þessum heimi, at ver fengim fyrir hans giof retta tru oc giptu til þess at standa i hans ast-semð ok auðrum goðum verkum allt til enda þessa hins stundliga lifs, enn eptir þetta lif fyrir þau verkin oc þa miskunnina, sem ver þagum i liknsamligu lifi at aungum varum fyrirfarendum verðleikum, þa miskunn at lifa at eilifu með Kristi. Oc enn talaði sæll Johannes þessi orð: „Lôgmal var gefit fyrir Moisen, enn sannleikr oc miskunn fyrir Jesum Cristum Þat er sva at skilia, Moyses syndi folkinu þat lôgmal, sem þvi het, at þeir mundu hreinsatz af synðum fyrir adreifing þess lambs bloðs, er þeim var boðit at sæfa oc fornfæra, oc matti þetta lôgmal sannliga kallaz skuggi eða figura ukominna luta, enn su miskunn oc sa sannleikr man veitaz fyrir Jesum Cristum, at sia figura man at sonnu veiða, þa er hann þvær folkit af synðum með sinu eiginligu bloði. Þvi næst sagði fyrr nefndr Johannes fram þenna orðskvið: „Engi sa guð um alldr, en hans eingetinn son, sa sem er i fôðurligum faðmi man segia." Þat hefir þann skilning: Engi maðr sa sem lifir i dauðlegum likama, þeim sem saman er settr af holdi oc bloði oc eigi ma stundliga sol sia, þa sem skinn her i heimi i eina stund, sva at eigi daukvi ustyrkleik mannligrar synar, ma nu lita oumræðiligt lios guðdomligs vallds, þat sem hvergi ma inni lykia, oc eingetinn guðs son, sa sem sitr i leyndri varðveizlu foður sem i hans faðmi, oc en er eigi almenniliga birt(r), hann man segia oc greina með sonnum raunarstofum at hinum efsta domi þessa figuru, þa er vandir menn munu guð sia ser til uætlanligrar[2] orskemðar dæmandi þa til eilifs ufarnaðar. En þeir sem honum hafa her i heimi með reinu hiarta þionat, manu leiddir vera at sia heilaga guðs þrenning til oætlanligs hroka allra goðra luta, þeira sem veitiz i samlagi allrar himneskrar hirðar.

1 biartara *Cd.* 2 væntanligrar *Cd.*

*Fra sendimonnum.*

24. Enn[1] sami Johannes ewangelista segir, at þann tima sem nafni hans enn sæli Johannes haf(ð)i nu greinda luti af Kristi spaad eða fram sagt, sendu Judar af Jerusalem þa menn til Johannem, sem i kennimanna stett voru, oc þa menn, sem af kyni Levi Jacobs sonar voru, at spyria hann, hverr hann væri, oc reis spurningin af alðyðu rom, þeim sem þat talaði, at hann væri Cristr. Enn hann iataði enn neitaði eigi oc sagði: „Eigi em ek Cristr.“ Af þessum orðum segir Gregorius enn mikli, at miok er lofanda litillæti Johannis, þar sem hann var sva mikill hugarkosta maðr, at folkit villdi trua hann Crist vera, villdi hann at standa stauðuliga i þvi sem hann var, at eigi væri hann með mannligri skamsyni hafiðr upp yfir þat sem hann var, oc at hann yrði fyrir iatning sannleiksins limr Kristz, þar sem hann dro eigi með falsi a sig nafn Kristz. At heyrðum þessum annsvorum Johannis, spurðu sendimenn, ef hann væri Helias, at skilia endrborinn eptir ætlan villumanna, þeira sem andir segia aptr hverfa i ymsa likami, eða ella spurðu þeir þessa fyrir þa sok, at þeir vissu þa kominn vera tima drottinligs burðar, enn þeir voru ovisir af þvi, hvart Elias mundi koma fyrir ena fyrri Cristz tilkvamu eða ena siðarri, oc af þvi spurðu þeir, hvart Johannes væri Elias. En hann neitti þessu fullkomliga, þar sem hann sa, at spurningin reis af vandri villu. Þeir spurðu þa, ef hann væri spamaðr. Sæll Johannes neitaði þvi sem hinu fyrra. Þess ma spyria, hvi hann neitaði sig spamann vera, þar sem hann sagði[2] marga luti ukomna fyrir. En sok til þessa greinir Petrus Commestor, at þessir menn spurðu undir spamanz nafni, hvart hann væri Elias[3], at skilia endrborinn, fyrir þvi at figura skirnar hafði i þessum spamonnum fyrirfarit, Elia oc Heliseo; matti sæll Johannes þvi frialsliga[4] neita, er með undirhyggiu var spurt eða með alðyðligri[5] villu. Aðrir kennifeðr segia oc, at hann matti þvi neita sig spamann vera, at honum var þat embætti a hendi folgit at syna sialfan lausnarann með sinum[6] fingri oc renna fyrir honum með predican, skirn oc [sigri vegsamligs[7] dauða, oc at boða hans tilkvamu i helviti. Er þat auðsynt, at þetta allt var framarr enn spadomr. Sendimenn helldu [a somu[8] eyrindi oc mælltu: „Hveriu skulum ver annsvara þeim hofðingium[9], er oss sendu, fra þvi, hvat þu segir[10] af sealfum þer?

1 Einn *Cd.* 2 *Her beg. atter C.* 3 Heliseus *C.* 4 friasliga *A og C.* 5 alhugligri *C.* 6 *tilf. C.* 7 [sigrvegarasamligum *C.* 8 [enn a sinu *C.* 9 monnum *C.* 10 sagdir *C.*

Hann svaraði: „Ek em rödd kallanda i eyðimork, greiði þer guðs götur, sva sem Ysaias spamaðr kendi.“ Sem hann segði: Ek fer i Judea, þeiri er nu ma við eyðimork iafnaz sakir [þess er hon er nu fyrir sitt syndagialld[1] af guði fyrirlitin, utan hon bæti sig nu með sannri iðran fyrir guðs syni, þeim sem at rettu kallaz hans orð, sva sem röddin [su sem fyrrum kemr[2] til eyrnanna, en orðit megi skiliaz[3], oc bið ek, at þer buit honum veg til yðvars hiarta með rettri iðran annmarka, sva at þer megit með litilæti skynsamliga heyra hans kenning, þa er hann kemr til yðar, þviat hann er orð guðs oc sealfr sannleikrinn. I þessum stað segir [fyrr nefndr[4] Johannes guðspiallamaðr, at sendimenn Juda voru af Phariseis, þat er at skilia, hofðu þeir[5] tru oc siðu þa, sem [greindir eru[6], oc komu eigi til þess at fretta hann[7] at gerðum sinum eða malsendum, at þeir girntiz at nema eða eptirlikia hans meðferðir, helldr til þess at hugsa aufundsamlega, ef þeir mætti i nokkuru hann lasta, oc þvi helldu þeir afram spurnenne[8], at þeir mætti þat nokkut finna, sem þa fysti, segiandi a þa leið: „Hvi fremr þu skirnarembætti, ef þu ert eigi Cristr, eigi Elias, oc eigi spamaðr?“ En sæll Johannes svaraði með hogværi, þott hann væri með undirhyggiu spurðr, oc skipti ekki skapi, helldr kendi hann þeim kenningar sva mælandi: „Ek skiri i vatni, en sa stendr a millum yðvar, sem þer kunnut eigi skynia[9].“ Sem hann segði: þvi frem ek skirnarembætti, at ek renna fyrir þeim, er i millum yðvar stendr með minni skirn oc i anda man skira, oc þo at þer kennit hann at likams[10] syn, þa er hann yðr þo ukunnigr at valldi. Oc enn sagði sæll Johannes: „Sa kom siðarr en ek, sem fyrr[11] var enn ek, oc eigi em ek makligr at leysa skoklæðaþveng hans.“ Þat er sva at skilia: i[12] þvi sigrar sa mig, sem mer siðarr er i verolldina fæddr, at hann þrongva eigi timar sins getnaðar, oc þo at hann se a tima af moðurinni [fæddr oc[13] getinn, þa er hann fyrir alla tima oc fyrir utan tima af guði feðr getinn, enn ek em fyrir þvi eigi verðr at fletta hans fætr, at ek vil fyrir ongan mun draga a mig þat bruðguma nafn, sem mer heyrir með ongu moti. Ma þessi en siðustu orð sæls Johannis betr skilia, ef sagt er, hvi hann tok sva til mals. Sa siðr var með enum fyrrum monnum, ef sa maðr, sem einhveria[14] konu atti með lögum at fa, hafnaði hennar

1 [*saal. C*; sins synðagealldz *B*. 2 [kemr fyrri *C*. 3 skilia *C*. 4 [*tilf. C*. 5 þeira *C*. 6 [fyrr eru greindir *C*. 7 guds mann *C*. 8 spurninginni *C*. 9 skyn a *C*. 10 likamligri *C*. 11 fyrri *C*. 12 *saal. C*; oc *A*. 13 [*mgl. C*. 14 einahveria *C*.

eiginorði, at sa hans frændi, sem skylldastr[1] var okvændr skylldi leysa skoþvengi[2] af fæti hans[3], er konunni hafnaði, oc[4] eiga þa konu siðan, sem hans frændi villdi eigi fa. Atti varr herra þessa figuru her a mille manna, þviat hann er sannr[5] bruðgumi sinnar Kristni. Enn þo at menn hygði her i heimi Johannem Crist vera, neitaði hann þvi fullkomliga; fyrir þvi kallaz[6] hann eigi maðr til at leysa af honum skoklæðe, þat er at eigna ser með falsi bruðguma nafn fyrir uvisan alðyðu rom.

*Jesus kom til skirnnar.*

25. Fyrr nefndr Johannes evangelista segir, at þessi tiðindi urðu i Bethania við ana Jordan, þar sem hans nafni skirði mannfolkit. Annan dag eptir þessa atburði sa Johannes baptista Jesum koma til sin af Galilea heraði at [taka skirn[7] af honum. Oc þa mællti hann til hans: „Se her lamb guðs, þat er syndir tekr af heiminum.“ Þat [skal sva[8] skilia: Nu er sa her kominn, sem sva er einfalldr oc meinlauss mille vandra manna sem lamb mille varga, oc sva er lutlauss af aullum synðaflekkum, þo at hann hafi holld af hollde aðr, sem fornarlamb a annmarkalaust at vera, þat sem Moyses bauð i lôgmali guði at sæfa; oc a þa leið sem bloði þess sama lambs var dreift yfir folkit til [annmarka lausnar[9], man sea með sinu bloði[10] þva syndir af heiminum. Oc enn sagði sæll Johannes at skilia lærisveinum sinum eða þeim monnum, sem[11] þa voru nær: „Nu er sa kominn, er ek sagða yðr at skilia fyrrum fra, at maðr mundi siðarr koma enn ek, sa sem[11] fyrrum var enn ek, þviat hann var mer fremri, oc ek kunna hann eigi, en þo kom ek fyrir þa sok at veita monnum vatzskirn[12], at hans nafn birtiz fyrir Iraels[13] folki.“ Þat er liosara at segia: Þessi maðr sami er sa, sem þer heyrðut mig fyrrum fra segia, at mer siðar mundi i veroldina koma[14], oc þo er mer fremri at konungligri tign oc valldi oc at þeiri frumtign, sem hann hefir fram um[15] englana, oc hann var mer fremri[16] at eilifleik guðligs vallds[17], þar sem hann er aliafn guði feðr. Enn hafa þau orð Johannis, er hann sagðiz til þess fremia vatzskirn, at hans nafn at skilia Jesu birtiz fyrir folki, annan skilning, sem hann segði: Eigi kom ek fyrir þa sok i vatni at skira, at ek mætta gefa synda[18] aflausn, helldr at birta [með minni[19]

1 sidarstr *C.* 2 skokledi *C.* 3 þess *C.* 4 at *C.* 5 at saunnu *C.* 6 kalladiz *C.* 7 [lata skiraz *C.* 8 [er at *C.* 9 [aflausnar annmarka *C.* 10 banablodi *C.* 11 er *C.* 12 vatnskirn *C.* 13 Israels *C.* 14 fędaz *C.* 15 *saal. C*; við *A.* 16 fyrri *C.* 17 velldis *C.* 18 *tilf. C.* 19 [*saal. C*; mina *A.*

predican oc minni skirn ollu Jraels folki þann, sem skirir i helgum anda oc þvær synðir af heiminum. Lettir[1] nu af þeiri skirn, er til iðranar er gefin, þviat nu man skiott birtaz su skirn, er til aflausnar synða er gefin. Oc enn[2] lettir af at vilia skirn taka af yðrum samþræli, [þviat nu[3] er nær allra manna herra oc hôfðingi, sa sem skirir leiðandi þvegna[4] menn til eilifs lifs, biðit af[5] honum skirn at taka, fylgit þeim oc truið þeim, sem ek skirnarþionn yðvarr girniz at taka skirn af. Mer er hann siðar at manndomi, enn fyrr at hofðingiadomi oc fyrr at eilifum guðdomi. Þvi sagðiz sæll Johannes eigi kenna hann, at engi kann sun at fullu nema faðir. Sumir meistarar segia, at sæll Johannes sagðiz fyrir þvi eigi kenna Jesum, at hann vissi eigi, at varr herra mundi ser einum ætla vald skirnarennar, oc undir einum guði væri einleikr hennar. Sva segir Speculum Historiale, at guðs son, sem aungvan hafði synðaflekk, þann sem skirnin þurfti at þva, villdi fyrir fleiri skynsemðir en eina skirn taka. Var su en fyrsta, at hann veitti vegsemð Joani oc skirn hans; aunnur er su, at hann villdi fylla retlæti lôgmalsins, at eigi byði hann auðrum þat, sem hann villdi eigi sialfr með verki fylla oc fremia, fyrir þessa sok villdi hann skirn taka oc vera ofraðr til mustaris oc hallda hit forna paskahald; hin þriðia, at hann syndi af ser litilætis dæmi i þvi at lata ser soma af sinum þionustumonnum skirn at taka; su var hin fiorða, at með sinum heilaga likama þeim, sem þa syndiz(!) votnin þva, veitti hann þa helgan oc þat afl votnunum, at þau mætti a þa leið reinsan veita aundunum, sem þau megu aðr veita þvatt likomunum, ef yfir þau er kallat hans haleita nafn; hit fimta, at fyrir syniliga dufu syndi hann usyniliga tilkvamu heilags anda yfir hverium, er Kristz skirn er skirðr; hinn setti, at engi væri sva haleitr eða helgaðr, stollz eða storr, at hann dæmdi ser eigi skirnina nytsamliga oc þarfsæliga; hit .vii., at hann syndi þat, at allir þeir, sem endrgetnir[6] verða fyrir vatn oc helgan anda, geraz i skirninni guðs synir oc samerfingiar Kristz.

*Capitulum.*

26. Annarr guðspiallamaðr segir, at drottinn Jesus kom af Galilea til Johannem at taka skirn af honum. Enn Johannes bannaði þat oc mællti: „Ek ætta af þer skirn at taka.“ Heyrum nu, hvi sæll Johannes afneitaði honum skirn at veita. Bar su

1 *saal. C*; lætr *A*. 2 *saal. C;* eigi *A*. 3 [*saal. C;* þvi *A*. 4 *mgl. C*. 5 *Her mgl. 1 Bl. i C*. 6 eingetnir *Cd*.

sok til þess, at hann sa þann kominn til þess af ser skirn at taka, sem engan hafði synðaflekkinn, þann sem skirnin mætti þva, oc syndirnar mætti af ollum rettruundum monnum þva; matti hann þat eigi at eins af ser helldr af ollu mannkyninu[1] segia, at af honum ætti skirn taka, þar sem hann kom til þess i verolldina, at enir synðugu menn fengi aflausn sinna annmarka. I þessum stað rennr oc inn vond spurning, hvi sæll Johannes, reinsaðr aðr af enni gomlu synð þegar i moður kviði eða i skurðarskirn, mællti sva: Ek ætta af þer skirn at taka. En til þess liggia þau svor, at þo at Johannes væri aðr storliga reinn, vissi hann þo sig mundu framarr i pisl Kristz reinsaz með ollum rettruandum monnum. Ella hefir hann a sig tekit skilning almennings, þvi at hverr maðr, sa sem i þessu lifi er, þarf[2] af guði reinsan at þiggia. At moti þessum orðum Johannis annsvaraði Jesus: „Ger sem ek bið, þviat með þessum hætti samir okkr at fylla allt retlæti." Commestor segir, at þat er skyllt rettlæti at leggia sig undir hlyðni við ser meiri menn fyrir guðs sakir, enn þat er nægianda litillæti at lyða sinum iafnmaka, en framarr er enn nægianda litillæti at hlyða ser minna manni. Fylldi varr herra þvi þetta dæmi, at alldri um alldr syndiz nokkurum manni vanvirða at taka umvandan eða sacramenta kirkiunnar af ser minna manni. Sæll Johannes let þa eptir honum, þegar hann vissi, at með þvi moti mundu þeir fylla allt rettlæti. Þessi siðustu orð Jesu glosar Beda sva sem hann segði: Lat eptir mer at skira mig i vatni, sem ek vil, at þu megir eptir þat skiraz af mer i helgum anda. I þessum stað rennr vetratals grein meistorum kirkiunnar fyrir orð[3] þat er hann segir, at Jesus var uphefiandi eða tiltakandi sva sem þritugr at aratali. Hyggia menn af þvi, at hann væri þa hit þritogunda ar upphefiandi, þat er sva at skilia, at hann hafði sva mikit haft af hinu þritogunda ari, þat sem var fra ioladegi til ens þrettanda dags, oc telia þeir sem þvi fylgia, at varr herra hafi haft .xxx ara oc .ii. oc halft ar, þviat a sama degi, sem hann tok skirn at liðnum eptirfarendum .xii. manuðum, sneri hann vatni i vin, oc a hinum næstum paskum fra þvi var sæll Johannes innkastaðr, oc a oðrum paskum annars árs hins fiorða tigar var hann hóggvinn, enn at hinum þriðium paskum yfir .xxx. var Cristr pindr; hefir hann þa haft .xxx. ara oc .ii. ar oc sva mikit af hinu þriðia, sem hans hingatburðardagr var fram til paska, oc eru þeir dagar settir fyrir halfu ári i þeim stað. En Johannes Crisostomus segir, at eptir

1 mannkynynu *Cd.* 2 eigi *tilf. Cd.* 3 orðluti *Cd.*

fullkomliga liðna .xxx. ara kom Jesus til Jordanar at taka skirn af Johanne baptista, oc þat umfram sem var fra fæðingardegi hans til ens þrettanda dags, oc hefr þessa sina predican af þvi orði sem Jesus mællti: Með þessum hætti somir okkr at fylla alt retlæti, at þar sem hann hafði aðr um .xxx. ara fyllt retlæti lögmalsins, kom hann skirn at taka oc at kenna guðspiallit sva sem setiandi roka a[1] allar skylldir þess sama lögmals hins forna, oc hafði hann af þessarri grein .xxx. fulla oc .iii. ar heil, oc af hinu fiorða sva langt sem er fra fyrsta ioladegi til paska. Oc þo at sæll Johannes væri agætr maðr oc heilagr, ottaðiz hann þo drottin at skira sva sem minnigr mannligs breys(k)leiks oc agætz litilætis, samðykti hann þo guðligum vilia, þegar hann vissi, at með þvi moti skylldi fyllaz allt retlæti, er með ser helldr i foruneyti sanna lyðni, oc eptir þetta veitti hann skirn varum herra.

### *Fra skirn Kristz.*

27. Hinn sæli Lucas segir i sinu guðspialli, at þa er naliga var allr lyðr skirðr at skilia skirn Johannis, oc Jesus var skirðr oc bað fyrir þeim, at skilia sem þaðan af voru skirandi i hans nafni, at þeir tæki hinn helga anda i anne, þa lukuz upp himnar, þat er sva rett at skilia, at uætlanligr liomi skein um hann, sva sem loptligr himinn oc sa himinn, sem i sinu takmarki hefir sialf himintunglin, voru upp loknir[2], oc birti ens elldliga himins veittiz með [hinu biartazta[3] skini a sealfri iorðunni. Oc þa steig niðr at skilia til iarðar af himinriki sendr hinn helgi andi i dufu liki, oc sat yfir hofði Jesu. Kannaðiz oc þa sæll Johannes baptista við þat, sem aðr kallaðiz hann eigi vitað hafa, at einn saman Jesus mundi þaþan af skira, þat er, at hann villdi[4] ser einum spara valld skirnarinnar[5] oc þa þionustu, sem saman helldr einleikr[6] kristnennar, þat er at veita aflausn synða fyrir enn helga anda, þo at aðrir hafi hendr at skirninni, oc at eigi væri sva margar skirnirnar sem skirifeðrnir, sem aðr er greint. Kom þat þa fram, sem fyrrum hafði guðs andi vitrat Johanne, þa er hann var i eyðimork, sa sem honum bauð at veita monnum skirnarembætti, at sa[7] mundi einn milli margra skirandi [manna til hans[8] koma, at skilia Johannes mundi sia niðrstiga yfir þann helgan[9] anda

1 oc *Cd.* 2 *saal. C, som atter beg. med dette Ord;* lokin *A.* 3 [*saal. C;* sinu biartara *A.* 4 mundi *C.* 5 *saal. C;* kristnennar *A.* 6 einleik *C.* 7 *saal. C;* hann *A.* 8 [*saal. C;* til *A.* 9 hinn heilaga *C.*

oc yfir honum vera, oc sa einn mundi skira i enum helga anda. [Hinn fyrr nefndi[1] Commestor segir, at þessi dufa, sem syndiz yfir Jesu, var eigi af kyni[2] annarra dufna, en var þo sônn dufa. En Speculum Historiale segir, at þessi dufa var sônn, oc sannr var hennar likamr formeraðr a þeiri stundu til þess at synaz; eigi sva þo at hinn helgi andi hafi oviðrskilianliga tekit [a sig[3] þenna dufu likama, sva sem guðs sun mannliga natturu ok likama, helldr til einnar saman birtingar, þvi at enn usyniligi matti eigi auðruvisi[4] synaz. Oc er sva retskilit[5] af þessi dufu sem af þeim oðrum figurum, sem guð syniz i, at þær hverfa aptr at luktaðu sinu embętti i fyrirfaranda efni, þat sem þær eru afteknar. Lucas ewangelista segir, at þa heyrðiz rôdd fôður af himne sva mælandi: Þessi er minn sun elskaðr, i þeim [þoknadiz mer. Annarr gudspiallamadr segir: Þessi er minn son elskadr, i þeim[6] þoknuðumz ek mer. Fyrr nefndr Commestor segir, at eptir heyrða rôdd hvarf hit himneska lios, þat er þangat til skein[7] yfir Jesu. Johannes ewangelista segir, at sæll Johannes baptista talaði a þessa land: Oc ek sa hinn helga anda koma[8] yfir Jesum. Oc er eigi efanda, segir Beda, at hann hafi storliga mikit við gengiz, þa er hann sa oc skirði guðs son i mannligri mynd. Sa hann oc enn helga anda i dufu liki, heyrði hann oc fôðurliga rôdd, ma þvi [synaz sannligt[9], at þo at hann væri aðr agætr at spadomi oc heilagleik, at hann hafi uætlanligan hroka oc aukning [allra ser[10] veittra goðra luta fengit, þa er honum varð auðit þeirar hofuðgiptu at vera vattr oc vitnismaðr ennar haleituztu vitranar eilifrar guðs[11] þrenningar. Oc þvi er eigi vort[12] at meta, hvilikt eða hversu mikit hann hefir þa at birtum eigi at eins likams augum helldr oc þar með hugskotz augum fengit numit af birting himneskrar speki, til þess at skilia yfir ollum lutum gnæfanda valld guðligs haleiks[13]; oc truligt at hann þættiz aðr litla skyn [hafa a guði kunnat[14] i samvirðingu þeirar haleituztu vizku, sem hann hafði nu, þegar[15] hann sa himininn upplokinn, til þess at ver vitim [hverium manni i Kristz skirn gefinni upplokit himinriki. Hann sa enn heilaga anda koma yfir Jesum i dufu liki, til þess at ver vitim[16] enn helga anda veitaz hverium skirðum[17] i Kristz skirn. Hann heyrði oc fôðurliga rôdd, þa

1 [*tilf. C.* 2 fræi *C.* 3 [*mgl. C.* 4 audruviss *C.* 5 *saal. C;* retligt *A.* 6 [*tilf. C.* 7 var *C.* 8 komanda *C.* 9 [saunnu likt þickia *C.* 10 [*saal. C*; ser allra *A.* 11 *mgl. C.* 12 *saal. C;* vert *A.* 13 *saal. C;* hagleiks *A.* 14 [*saal. C;* a hafa guði kanað *A.* 15 fengit *C.* 16 [*tilf. C.* 17 *tilf. C.*

er guð vattaði sinn elskaðan son skirðan, oc at sa þoknaðiz honum vel, at ver vitim hvern sem einn · i Kristz skirn skirðan undir iatningu postoligrar truar geraz guðs son oc veitaz[1] aflausn allra synða, fyrir þat er faðir sagðiz i þeim[2] ser vel þoknaz, oc at ver vitim þat atkvæði aptr tekit, er guð sagðiz þess iðraz, er hann hafði manninn skapat, þa er hann vattaði sinn elskaþan sun skirþan. Hinn sami Lucas segir, at Jesus fullr af helgum anda gekk af Jordan, oc skal þat eigi sva skilia, at þa hit fyrsta væri hann fullr heilags anda, þess er iafnan var með honum, helldr fyrir þat at þa tok hann at syna hans gipt eptir sina skirn, er hann gekk fyrst i eyðimork at hans leiðzlu oc fastaði .xl. daga oc natta. Siþan for hann aptr til Jordanar i þann stað, sem Johannes baptista var fyrir oc .ii. af hans lærisveinum, þviat Johannes hafði lærisveina i þenna[3] tima, sem þessi tiðindi gerðuz, oc var annarr af þeim Andreas broðir Simonis Petri. Enn þa er sæll Johannes sa Jesum til sin koma, mællti hann [sem fyrrum[4]: Se her lamb guðs, þat er syndir tekr af heiminum. Commestor segir, at enn ma sa skilningr finnaz i þessum orðum Johannis, at hann hafi fyrir þa sok kallat Jesum lamb guðs, at lambit veitir [af ser[5] þria luti, ull til klæða, miolk til drykkiar, hold til vistar. Sva veitir oc varr drottinn sinum monnum i himinriki odauðleiks stolu, þa er retlatir menn skina sem sol i riki fɵður þeira; hann veitir oc miolk einfalldrar kenningar[6] þeim sem næringar þurfu i hans almenniligri[7] tru; hann veitir oc af heilugu alltari vist sins eiginligs likama folkinu til synðalausnar. Oc er þessi orð sæls Johannis heyrðu .ii. af viðstoddum hans lærisveinum, sneru þeir a veg með Jesu metandi sva þessi orð sins sannorða meistara, sem hann kendi þeim viðr sig at skilia enn honum at fylgia, oc voru þeir með Jesu þann dag. Enn [skams brags[8] giorðuz þessir somu bræðr Petrus oc Andreas hans lærisveinar uviðrskilianligir oc forunautar, sem greinir i helgum guðspiollum. A auðru ári þa er kom iafnlengþardagr drottinligrar skirnar, sat varr herra at brullaupi oc giorði vin or vatni. Eptir þat hof hann predicanarembætti opinberliga með iartegnagiorð.

1 veitta *C.* 2 þessum *C.* 3 þann *C.* 4 [enn sem fyrr *C.* 5 [*tilf. C.* 6 miskunnar *C.* 7 *saal. C;* anligri *A.* 8 [skambragz *C.*

*Kristz skirn hofs*[1].

28. Nokkuru siðarr kom Jesus i Judeam með lærisveinum sinum oc veitti monnum skirn, þo at eigi skirði hann folkit, helldr lærisveinar hans. En hinn sæli Johannes veitti þa skirnarembætti i Ennon. Þar eru morg votn hia kastalanum Salim, þar sem forðum rikði Melchisedech konungr oc byskup. Þessi staðr er skamt fra Jordan. Oc af þvi at margir sottu hann þa enn til þess at taka skirn af honum, bauð hann þeim fra ser at fara til Jesum. Oc toku þa lærisveinar Johannis[2] at þræta við Juda um þat, hvart betri væri skirn Johannis eða Jesu. Augustinus hinn mikli segir greiniliga efni þessarrar þrætu, at sæll Johannes hafði skirðan margan lyð, er Cristr tok at skira folkit, oc rann þat fra Johanne til Cristz enn eigi fra Cristi til Johannem. Judar þeir sem deiluna helldu, sôgðu Crist vera meira enn Johannem, þar sem fra skirn Johannis var runnit til Kristz oc hans skirnar. Enn lærisveinar þessa sama Johannis samðyktu þat eigi oc vorðu skirn sins meistara oc lôgðu urskurð[3] þessa mals undir hann, oc mælltu sva: „Meistari, sogðu þeir, ver gerum þer þat kunnigt, at sa hinn sami maðr, sem þu bart vitni[4] við Jordan, veitir nu morgu folki skirn, oc allir koma nu til hans, þeir sem skirn vilia taka. En hvat dæmir þu um þetta mal? Enn at visu syniz oss, sem eigi dugi, at þer rekit fra yðr oc til hans þa menn, sem til yðvar vilia koma at taka skirn nu sem fyrr.“ Yfir þessi orð segir fyrr nefndr Augustinus: Hugleiði astsemð yður yðr[5] til nytsemðar oc eptirdæmis oc agætz litillætis, hvat[6] sæll Johannes villdi i þessi þrætu, þa er menn villtuz um sialfan hann [oc matti hann ser leitað hafa[7] nokkurs metnaðar, þvi at hann mætti[8] sva talað hafa: Satt segi þer, min skirn er betri enn Cristz skirn, oc er þat til marks, at min skirn er æðri, at ek hefi skirðan sialfan Krist. Seam nu, hversu langt þessi guðs maðr matte sig fram fæera, ef hann villdi; oc þo at hann sęi, hversu hann matti sig upp hefia, vissi hann, at betra var við þann, sem hann atti at skipta, sialfan sig [at lægia; kunni hann[9] at vægia þeim i iatningu, sem hann for fyrir með skirn oc kenningu; vissi hann von sina vera i Kristi, oc fyrir þvi svaraði hann: „Ekki ma maðr neitt a sig taka, nema þat sem honum er af himni gefit; þer sialfir berit mer vitni, at ek hefi sagt: eigi em ek Kristr.“ Sem hann segði: Hvi blekkit þer

1 Er skirn Jesu hofz *C.* 2 hans *C.* 3 orskurd *C.* 4 *saal. C;* i vatn *A.* 5 *tilf. C.* 6 hvart *C.* 7 [ser leita *C.* 8 matti *C.* 9 [*saal. C;* a legia kunni *A.*

sialfa yðr, þar sem þer vitið, hvilikt vitni ek hefi honum borit, eða hyggi þer, at ek muna nu segia hann annan, en ek sagða hann fyrr, oc vili þer gera mig hegomamann, sva at ek tala nu[1] moti sônnu, þar sem ek hefi aðr af himneskri giof þegit at vera nokkut, þviat maðr ma ekki a sig taka, nema þat er honum er af himni gefit. Sialfir beri þer mer vitni, at ek sagða: eigi em ek Kristr. Oc þo at þer segit: vitum ver, at eigi ertu Kristr, enn eigi vitum ver, nema þu ser honum meiri, þviat þu skirðir hann. Sendr em ek, fyrirrennari em ek, domandi er hann. Oc enn talaði [sæll Johannes[2]: „Sa sem bruði a, er bruðgumi, en vin bruðguma stendr oc heyrir hann oc gleðz af[3] fagnaði fyrir rodd bruðguma. I þessum lut er minn fagnaðr fylldr oc framkominn.“ Sem hann segði: Kristr er bruðgumi, en bruðr hans er heilog kristni, hana skipar hann i gæzlu sinna vina her a iorðu, enn hann er a himni. Ek em vin bruðguma, oc ek stend, þvi at ek fell eigi i þat urað at draga bruðguma nafn a mig oc kallaz Kristr, sa sem ek em með ongu moti. Enn þat er hans rôdd, [sva er oc þat[4] hans vili sem kenning, at ek veita vandlæti um fyrr greinda hans bruði, at engi fifli hana eða elski eða kenni ser utan sialfr hann. Ek heyri rôdd hans, þviat ek held kenning hans i þvi at geraz eigi drottins sviki eða horkarll rækiligr ollu folki oc mannkyni. Hans er bruðrin en eigi min. Ek heyri, en hann segir; ek em lysandi, en hann er liosit; ek em eyra, enn hann er orðit. Ek skil, at ek ma aungvan fagnað taka af minni vizku, helldr er minn fagnaðr at gleðiaz af þeiri vizku, sem guð gaf mer; i þvi er minn fagnaðr fylldr oc framkominn, at ek hefi oc helld enn tynis eigi þvi lani oc þeiri miskunn, sem hann[6] gaf mer. Enn þo kenni ek mer ekki framarr enn ek hefi; ek girnumz eigi at hafa háfa raust, helldr at hann hafi háfa raust, þviat ek girnumz hans sæmð enn eigi mina. Oc þvi kenni ek mer ekki framarr enn ek hefi, at eigi tyna ek þvi, sem ek hefi. Þessu næst talaði enn sæll Johannes baptista: „Mer byriar at þverra, enn honum byriar at vaxa.“ Sem hann segði: Fyrir þa sok at þer truið mig framarr en ek em, byriar mer at þverra, at skilia fyrir augum yðrum. Enn fyrir þvi at þer truit hann lægra en hann er, oc ætlið hann mann vera, þar sem hann er sannr[7] guð, [samir þat[8] oc byriar, at hann vaxi fyrir yðrum augum, eigi a þa leið sem iarðligir menn vaxa at likams[9] vexti, helldr heyrir[10] yðr, at hans trua vaxi með yðr a þa leið, sem

1 at *tilf. C.* 2 [hann *C.* 3 med *C.* 4 [ok þat er sva *C.* 5 ek *tilf. C.* 6 gud *C.* 7 *mgl. C.* 8 [*tilf. C.* 9 likamligum *C.* 10 fyrir *C.*

syn þroaz með þeim blindum manni, sem[1] eigi ser þat líos, sem honum er hiaveranda, fyrr[2] en kænn læknir berr aut[3] oc lækningarlyf a augu hans, sva at þaðan af vex hans skyguleikr dag fra degi, til þess er hann fær fullkomliga[4] syn til þeira luta, sem hann hefir þaurf til. Oc ek kann yðr segia, at þessi Jesus er bæði lysandi [mannligra hiartna oc sialft liosit[5]. Enn gefr sæll Augustinus aðra glosam in sermone af sælum Johanne yfir þessi orð Mer byriar at þverra enn honum at vaxa, sem hann mællti: þat byriar mer, at mitt hôfuð se af bol hôggvit, til þess at mandomrinn lægiz, enn honum byriar, at hann se hafiðr a tre krossins til lausnar ollu mankyni, at guðdomrinn se upphafiðr. Þessu næst talaði enn sæll Johannis: „Sa sem ofan kemr, er yfir ollum, en sa sem af iorðu er, hann er af iorðu oc talar af iorðu. Sa sem af himni kemr, hann er yfir ollum oc [vattar þat sem hann (sa oc) heyrði[6], oc tekr þo engi maðr hans vitni. Enn sa sem þetta hans vitni hefir tekit, merkði at guð er sannsogull.“ Sem hann segði: Sa sem ofan kemr Jesus Cristr er yfir alla fram, enn sa er af iorðu er, at skilia[7] skapaðr sem ek, hann er af iorðu, þat er at skilia iarðlegr maðr at natturu, oc hvat sem hann talar, þa talar hann af iorðu, þat er af þeim likama, sem af iorðu er skapaðr. Oc ef hann talar nokkut guðligt, þa er þess, er veitir oc lysir, en eigi þess, er liosit er gefit, oc sva mikit skilr okkr, at ek em iorð oc ek tala af iorðu, en hann [er guð[8] af himni, at skilia af sinu eiginligu sæti, oc hann er yfir alla fram at natturu guðdomligs mattar, oc hann er konungr konunga oc drottinn drotna; oc sva sem maðr talar sena luti af iarðligum natturum oc talar her i heimi, a þa leið talar hann sena luti af himni, oc þa luti, sem hann heyrði af feðr, þviat hann a ser fôður, talar hann her i heimi; oc heyrir hann þo eigi a [þa lund[9] fauður, sem maðr heyrir mann, helldr berr hann fram fôðurligt orð, sem hann er sialfr, a þa leið sem maðr berr fram með ritanlegum figurum þat orð með sinum eiginligum munni, sem aðr hefir hann getið þat er[10] fyrirhugsat i hiarta, oc a þa leið sem maðr getr sitt orð a tima, sva gat guð sitt orð fyrir utan alla tima. Nu þvi at þetta orð hans [er son guðs[11], talar hann fyrir oss eigi sitt orð, helldr foðurligt orð, oc predicar oss sealfan sig, þa er hann predicar fauðurligt orð oc vattar fauðurligt vitni.

1 er *C.* 2 *saal. C*; fyrrum *A.* 3 *saal. ogs. C.* 4 fullkomna *C.* 5 [*saal. C;* oc sealfr liosit mannligra hiartna *A.* 6 [*saal. C;* vattr *A.* 7 *tilf. C.* 8 [kom *C.* 9 [þann hatt sinn *C.* 10 *saal. C*; eða *A.* 11 [*tilf. C.*

Oc þo at hans orð[1] oc vitni se sannligt, tekr þat engi at skilia af þeim lyð, sem til vinstri handar guði man skipaðr[2] at enum efsta'domi oc til fyrirdæmingar er[3] fæddr. Enn sa lyðr, at skilia, sem hans vitni tekr, þat er hlyddir[4] oc helldr hans kenning, hefir merkt, þat er at skilia ritað i sinu hiarta með fullum raunarstofum oc til raunar truar oc iartegna þeira, sem i Kristz nafni gerðu nalega allir kristnir menn i upphafi kristnennar, at guð er sannsogull, þat er at su ein [er sônn kenning oc trua, sem hann kennir[5]. Oc enn sagði sæll Johannes fram þessi orð: „Sa talar guðs orð, sem guð sendi, oc eigi gefr guð sinn anda til mælingar.“ Af þessum orðum Johannis syniz grein ganga millum hans oc þess Paulum[6], er skolann hellt[7] i himinriki(!), oc sva sagði til sin oc annarra lærisveina Jesu Cristz: Hverium sem einum varum er guðs andagipt gefin eptir mæling[8] hans vingiafa. Enn sæll Johannes segir: eigi gefr guð sinn anda eptir mæling. Þessa grein tekr i brott sæll Augustinus, þyðandi orð Johannis sem hann hafi [þetta talat[9] til greinar millum sin oc guðs sonar, a þessa leið: Sa Jesus sem i þenna heim er af guði sendr, talar sva margfalliga[10] hans orð, at hann gefr honum sinn hinn helga anda utan alla mæling, þo at ek oc aðrir menn hafim þenna sama anda með mæling oc settum endimorkum hans vingiafa. *Ok* enn *sagði sæll* Johannes: „Faðir elskar son[11] oc gefr honum alla luti i hendr. Sem hann segði: Guð faðir elskar eigi a þa leið sun sinn Jesum, sem bondi elskar þræl sinn eða tilæskingarsun, helldr sem eiginlegan sun, gefandi honum [alla hluti i[12] valld, at skilia himin oc iorð oc þa alla skepnu, sem i þeim er, at sva mikill sem faðir er, se oc hans sun eigi minkaðr, helldr honum aliafn i eilifum guðdomi. Oc enn talar sæll Johannes: „Sa sem a son truir, hefir eilift lif.“ Sem hann segði: Sva haleita ombun tekr sa maðr fyrir sina tru, er a guðs son truir, at hann hefir at verkalaunum vist eilift lif. Enn mikli Gregorius segir, at þetta er satt, oc þvi at eins, ef maðr helldr þessa somu tru[13] i hiarta oc iatar hana með munni, en vattar hana með goðum[14] verkum. Þessu næst gerði sæll Johannes enda a sinu mali oc sagði sva: „Hverr sa sem syni er eigi trur, man eigi lif sia, helldr er yfir honum guðs reiði“. Þessi orð sæls Johannis, segir fyrr nefndr Augustinus, syndu Juðum,

1 vattord *C.* 2 vera *tilf. C.* 3 *tilf. C.* 4 *saal. C;* lyðr *A.* 5 [kenning er sônn ok su ein trua saunn, sem hann kendi *C.* 6 Pauli *C.* 7 hafdi *C.* 8 þessa *tilf. C.* 9 [*tilf. C.* 10 framarliga *C.* 11 sinn *tilf. C.* 12 [*saal. C;* allra luta *A.* 13 *saal. C;* tro *A.* 14 *mgl. C.*

þat er ebreskum monnum, sina villu oc ollum oðrum þeim monnum, sem suninn syniz sem þræll, en faðirinn sem guð, oc kendi hann i þeim orðum ollum monnum at gofga einn veg fauður oc son, þviat Judar mæla: Hvat a ek at gera með syni, en fôður vegsama ek sem guð. Enn þessi orð Johannis hafa þann skilning, sem hann [talaði sva[1] til þeira: Lygr þu, ef þu segiz vegsama fauður, en þu guðlastar sun oc giorir svivirþing sealfum feðr, i þvi er þu hafnar[2] at trua a son, oc þvi er su guðs reiði yfir þer[3], sem iafnan gnæfar[4] yfir ollum rangtruuðum[5] monnum, oc Adam oc Eva ofluðu ser oc sinu afkvæmi, með þvi er þau atu bannat epli i paradiso. Oc at fengnum þessum svorum foru sendimenn heim oc sogðu sin eyrindislok.

### *Jesus for i Galileam*[6].

29. Eptir þessi tiðindi, sem nu voru sogð, var Jesu kunnigt gert, at Pharisei [toku visir at verða[7], at hann hafði fleiri lærisveina, en fyrr nefndr Johannes hafði með ser halldit, oc skirði fleiri menn, en Johannes hafði skirða, þo at eigi skirði Jesus helldr lærisveinar hans; fyrirlet hann Judeam oc for i Galileam. Augustinus segir, at eigi hefði hann farit af Judea, þo at [Pharisei afvirði þessa hans tiltekiu[8], ef hann vissi þeim til batnaðar[9] mundu komit hafa sina þarvist, helldr gaf hann i þessi ferð sinum monnum þat dæmi at flyia[10] sina ovini, þa er þeira kenning vinnr i sumum[11] stôðum meira til snuðar, helldr en þar sem þeir eru aðr, þviat hann mundi kyrr [verit hafa[12] i Judea, ef hann hefði vitað Phariseos a sig truandi en eigi striðandi.

### *Fra Herode tetrarcha.*

30. I þenna tima rikði i Galilea Herodes sun ens mikla Herodis, sa er tetrarcha var kallaðr, þviat hann hellt at eins undir ser fiorðung fauðurligs rikis, sem fyrrum er sagt. Hann var um marga luti eptirlikiari foðurligrar illzku, hann vann ofan a þessa alla luti þat uhæfuverk, at hann rænti fyrr nefndan Philippum broður sinn eiginkonu sinni, þeiri sem guðspiallit nefnir Herodiaden [ok geck at eiga, enn let eina sina konu. Þessa

1 [tali a þessa lund *C.* 2 *saal. C*; iafnar *A.* 3 *saal. C*; þeim sett *A.* 4 gnæfir *C.* 5 *saal. C*; rettruandum *A.* 6 Fra ferd Jesu af Judea ok i Galileam *C.* 7 [voru visir þess *C.* 8 [Phariseis yrdi kunnig hans tiltęki *C.* 9 betranar *C.* 10 *saal. C*; flygia *A.* 11 audrum *C.* 12 [hafa setit *C.*

atburdi greinir hinn sęli Jeronimus vottandi, at su frasaugn, sem Historia Vetus er kòllut, segir Philippum son mikla Herodis hafa fengit til eiginkono Herodiaden[1] dottur Arethe konungs af Damasko. Þessi saga greinir oc, at nokkut sundrþykki hafi uppkomit millum þeira[2] maga, sva at fyrir þat hafi Aretha konungr ræntan mag sinn dottur sinni, þann er storliga miog sytti sina missu, oc i moti hans vilia hafi hann gefit[3] hana Herode broður hans, þviat þeir bræðr[4] voru oc uvinir sin i milli. En Josephus segir Herodiaden verit hafa dottur Aristoboli þess sonar ens gamla Herodes, er hann sialfr let drepa sakir þeira svika, sem hann villdi eitra[5] með feðr sinn. Hann segir oc Herodiaden verit hafa systur Herodis Agrippa, oc hana hafi[6] Herodes fauðurfaðir hans[7] gefit til huspreyiu Herodi syni sinum, þviat hann fæddi þessi born Herodem Agrippam oc Heriodiaden upp með mikilli vegsemð, þott hann leti drepa foður þeira. Fyrr nefndr Josephus segir þenna Herodem hafa verit sun ens mikla Herodis oc broður Herodis tetrarcha, oc hafi [hann þenna[8] son attan við dottur Simonis kennimanz. Enn sami Josephus segir, at Philippus þessi hafi dauðr verit, sem fyrr var nefndr, aðr Gaius tæki at rikia, oc at sia Herodes man[9] her Philippus kallaðr. Hann greinir oc, at Herodes tetrarcha atti[10] dottur Arethe konungs af Damasko, þa sem eigi er nefnd. Ok eitt sinn er Herodes[11] for i Romam, tok hann nætrgisting at þessa broður sins oc talaði leyniliga við huspreyiu hans, at i sinni aptrferð mundi hann segia skilt[12] við sina konu en fa hennar. En þo at þessi svik væri leyniliga dictuð, komu þau allt[13] at liku til eyrna sialfs hans eiginkonu; þvi[14] villdi hon eigi hans heima biða oc for þegar af skyndingu heim til fauður sins. Oc þa er Herodes tetrarcha for heimleiðis, efndi hann sitt it uretliga fyrirheit, sva at hann tok fyrr nefnda konu af nafna sinum oc flutti heim oc gerði brullaup til. Varð hann fyrir þetta fullkominn uvin[15] Herodis broður sins oc Arethe, sva at mikit strið varð[16] i millum þeira fra þessu upp[17] um stundar sakir.

*Umvandan Johannis*[18].

31. En þa er sæll Johannes baptista heyrði[19] þessa ohæfu fram fara, sakaði[20] hann Herodem oc sagði, at honum var oleyft eptir þeim lògum, sem hann hafði inn[21] gengit, at hafa at likams

1 [*tilf.* *C.* 2 þessarra *C.* 3 gipt *C.* 4 brędrnir *C.* 5 *saal.* *C*; erta *A.* 6 hafdi *C.* 7 hennar *C.* 8 [*saal.* *C*; þann tima *A.* 9 muni *C.* 10 ętti *C.* 11 tetrarka *tilf.* *C.* 12 skilit *C.* 13 *mgl.* *C.* 14 þa *C.* 15 ovinr *C.* 16 var *C.* 17 *mgl.* *C.* 18 Fra þvi er Johannes vandad um framferd Herode *C.* 19 vissi *C.* 20 asakadi *C.* 21 i *C.*

losta eiginkonu broður sins lifanda. Her af segir enn sæli Jeronimus: Þvi at hinn sæli[1] Johannes hafði til þess komit i þenna heim at renna fyrir sinum herra i krapti oc anda Elie, hirti hann a þa leið Herodem oc Herodiaden, sem forðum hirti Elias Achab oc Jezabel, oc vildi helldr þola konungsins reiði en gleyma guðs boðorðum fyrir uleyft eptirmæli við sialfan hann. Þvi sendi hinn fyrr nefndi Herodes fyrir aeggian horkonu sinnar mikit folk oc tok hondum Johannem oc villdi drepa hann, at þvi er heilagt guðspiall vattar, enn sakir otta þess margs lyðs, sem iafnan kom at heyra kenning hans[2], dvaldi hann [uhæfu þa[3], þvi at [þat folk[4] hellt hann fyrir spamann. Oc þvi at hann var eggiaðr til [þeira oraða[5] oc i hiartanu fanginn fyrir astriki[6] við Herodiaden, hafnaði hann rettlæti oc vanvirði guðs boðorð setiandi hans haleita vin sælan Johannem i myrkvastofu. Um þessi tiðindi talar enn mikli Augustinus i einum sermone sva mælandi: I dag neykiaz mannligir[7] lutir oc skialfa hiortun, dȯknar synin, [deyfaz eyrun[8], sliovaz skilningin, þa er oss er sagðr kraptr Johannis enn grimleikr Herodes[9], eða hvat er þa stoðugt i mannligum vitzmunum, er mikileikr mannlastanna tapar mikileik mannkostanna. Herodes tok Johannem oc setti hann [i bond[10] i myrkvastofu. Johannes er skoli mannkostanna oc meistaradomr mannligs lifs, forn heilagleiks, spegill skirlifis, lofan[11] lastveri, eptirdæmi reinlifis, gata iðranar, likn lasta, læring siðferða. Johannes er meiri enn maðr, aliafn englum, fylling hins forna lȯgmals, helgan guðspiallz, rodd postola, þaugn spamanna, lampi heimsins, fyrirrennari domandans, oddamaðr Kristz oc manna, vattr drottins oc hiastandandi meðalgongumaðr allrar guðs þrenningar. Enn Herodes saurgaði mustari enn rænti lærdominn, neykði hann vigslupallinn en daraði konungsrikit, spillti hann þat sem var siðlætis[12], þat sem var lȯgmals[13], þat sem var guðspiallsins[14], þat sem var siðferðanna, oc alla retta reglu raskaði hann oc neykði. Herodes var morðari sinna samborgarmanna, ladrunn[15] tiginna manna, [audnarmadr eiginna felaga, hervikingr heimamanna[16], tapanarmaðr almennings, banamaðr eiginna suna, manndrapari utlendra manna, frændrapari eiginligra sialfs sins niðia; drukna gerði hann iorðina af mannligum[17] deyra, en

1 heilagi *C.* 2 sęls Johannis *C.* 3 [ohęfuna *C.* 4 [hann *C.* 5 [þessa orads *C.* 6 *saal. C*; allt riki *A.* 7 *saal. C*; manlegs *A.* 8 [deyfiz heyrnin *C.* 9 Herodis *C.* 10 [bundinn *C.* 11 *saal. C;* lofanlig *A.* 12 sidlætissins *C.* 13 laugmalsins *C.* 14 godlifissins *C.* 15 *saal. rettet;* ladremingr *A*, ládrisningr *C.* 16 [*tilf. C.* 17 iardligum *C.*

var[1] þo sialfr þystr[2] til dreyra. Fyrir þat[3] svalg hann enn millda oc enn dyra dreyra Johannis i sinum grimleiksdrykk. Sa enn sami Johannes, er synðabondin var vanr at leysa, var nu bundinn með synðugs manz bondum, oc bundin liknin[4] fyrirlet eigi stað liknarinnar. Heyrðu Herodes, þu fremr hóran, en Johannes ferr i myrkvastofu, oc sitr nu hinn seki i stað domandans[5], oc i stað hegningarmanz enna meinsomu sitr nu asoknarmaðr meinleysis. Heyrðu Herodes, bið ek, segðu, hvar er nu sett[6] asiona gerandi luta, hvar er nu skamfyllin, hvar er nu rett ætlan retz provanarmanz, hvar er nu guð, hvar er nu maðr, hvar er nu leyfi, hvar er[7] nu login, hvar [er nu[8] sealf rettindi natturunnar? Allir þessir lutir eru svivirðir at þer dæmanda oc raðanda oc lifanda. Heyrðu Herodes, þig bitr sokin, þig asaka bondin, þig rægir myrkvastofan, þig asakar pinan opinberliga a logð. Johannes er kunnr heiminum, frægr af mannkostunum, agætr at heilagleik; þa er hann kallar[9] til sin atfrettarmenn usæmðarinnar, gerir hann þina horan[10] morgum kunniga; slikt gerir hann til þess, at þig hepti opinber neyking, þar sem ekki vinnr at leynd[11] aminning. Johannes, segir Augustinus, gaf Herode aminning enn hneykði hann[12] eigi með opinberu amæli, oc sva sem skirlifis[13] elskari villdi hann hirta þann, sem hann villdi eigi at fyrirfæriz. En Herodes blindr at hugskotzaugunum hitnaði af logbrondum lostasemi, villdi helldr tapaz enn hallda eigi uleyfiliga eiginkonu broður sins, oc þoknaðiz fyrir þat herteknum vinum lastanna oc uvinum meinleysis, þeim sem iafnan eru vanir at hafa frelsit, þviat iafnan er mannkostrinn gagnstaðligr lastafullum, oc þeim[14], sem helguðum[15] lutum raska, er heilagleikrinn hatrsamligr, enn uskirum er feandskapr[16] fullr skirleikrinn oc pina, en lostasomum er motsnuin hofsamlig næring[17] matar oc drykkiar, oc grimmum monnum synist horð miskunn, enn umilldum syniz oþolanlig milldi[18]. Þetta mællti Johannes við Herodem: „Eigi er þer lofat at hafa at likams losta broðurkonu þina." Siam her, fyrir hvat Johannes fekk uþokka, oc fyrir hvat Herodes varð reiðr. Sa fekk oþokka, sem illa menn hirtir, oc opt verðr sa hataðr, sem þa asakar, er lastafullir eru. Johannes talaði þat, sem var laganna, oc þat sem var retlætissins, oc þat sem var heilsunnar,

1 *Her beg. D.* 2 siþyrstr *C, D.* 3 þvi *C, D.* 4 likami *C.* 5 domarans *C, D.* 6 rett *C.* 7 eru *C.* 8 [eru *C, D.* 9 spandi *C.* 10 *saal. C, D;* þoran *A.* 11 bryndi *C.* 12 *mgl. C.* 13 *saal. C, D;* eptirlifis *A.* 14 *saal. C;* þa *A, D.* 15 heilógum *C, D.* 16 fiandskapar *C, D.* 17 neyting *C, D.* 18 milldin *C, D.*

at skyru[1] talaði hann þat, sem eigi var hatrs fyrir vert helldr astar. Siam her, hvert verkaup[2] hinn milldi fekk af enum umillda fyrir sinn goðvilia. Herodes villdi drepa hann, enn ottaðiz margmenni, þviat litið er fyrir at leiða þann a gotuleysi[3] fra sannleikinum, er i soknunum[4] ottaz eigi guð helldr menn, oc tilfellit dvelr framkvæmð synðarinnar enn tekr eigi i brott viliann. Af þvi verða þeir opt, sem fyrir tilfellit eru heptir fra mannlytum, agiarnari[5] til lytisins oc girnaz þat þvi hætligar[6] i huginum, til þess er þeir fullgera þat illt, sem hugrinn hefir; enn einn saman guðs otti leiðir meinsama menn fra [lytum oc[7] lostum oc hirtir mannlyti, rekr i brott uhæfur, varðveitir meinleysi oc veitir eilift sialfræði til goðra luta. Nu þo at Johannes væri i myrkvastofu, komu margir menn til hans at heyra hans haleitu kenning, þviat hann letti[8] eigi af, sva framarliga sem fong voru a, at hallda uppteknum hætti um sina predican.

### *Predican Kristz*[9].

32. Ok þa er drottinn varr heyrði þessi tiðindi, for hann i brott af Judea, þaðan sem aðr var hann, oc for i Galileam oc bygði i Kapharnaum nær herodum Zabulon oc Neptalim, oc hof predican sina með [þeim hætti oc[10] þvi upphafi, sem fyrrum hafði sæll Johannes, þviat þeir likiaz at morgu, sem goðir þikkiaz, oc sagði sva: „Giorið iðran fyrir annmarka yðra, þviat nu nalgaz himnariki[11].“ Ætla menn þessa hans ferð verit hafa alla eina oc hina, sem fyrr greinir, er hann flyði undan Phariseis.

### *Fra sendimonnum.*

33. I þenna tima sendi sæll Johannes i bondum hafðr til Jesum .ii. sina lærisveina oc spurði hann: „Hvart ertu sa sem koma man, eða biðum ver annan?“ Sem hann segði, þvi at nu mun[12] skamt þess at biða, er ek man niðr stiga til mins folks, þat er at skilia, at ek man enda mitt lif, vil ek vita, hvart þu ert Kristr, eða man hann siðarr koma. Enn ef þu ert Kristr, þa forvitnar mig, hvart ek skal a þa leið segia fyrir þina tilkvamu þeim, sem i helviti eru, sem aðr sagða ek þeim, er a iarðriki eru.

1 visu *C;* sonnu *D.* 2 verkkaup *C*; verdkaup *D.* 3 gautu *C.* 4 saukunum *C.* 5 *saal. C, D;* agiarn *A.* 6 heitligar *D.* 7 [*tilf. C.* 8 let *C* 9 Fra ferd vars herra af Judea *C.* 10 [*tilf. C.* 11 himinriki *C, D.* 12 er *C, D.*

I þessum stað [leita Manichei[1] a sælan Johannem oc segia hann efað hafa, hvart hann væri Kristr, oc vera fyrirdæmdan af sok þessarrar otruar. Enn þat er[2] lesit, þott hann hafi spurt, at hann hafi eigi[3] efat. Spurði Jesus skattheimtumenn, hvers likneski a penninginum væri, eigi uvitandi, helldr til þess at hann mætti sin ansvor makliga tempra eptir þeira orðum. Sva spurði hann oc eigi fyrir uvizku, hvar Lazarus væri grafinn, helldr fyrir sakir sinna lærisveina oc þess folks er hia stoð, at sem flestir kæmi til oc sæi, er[4] enn ferdagaði reis upp af dauða. Johannes efaði eigi, hvart hann væri Kristr, þar sem hann hafði fyrrum sagt Se her lamb guðs, enn fyrir sakir sinna lærisveina, þeira sem orð hans efuðu, let hann þa þessa spyria, at þeir yrði fyrir hann, at skilia Jesum, af þessu oruggir. Þat er oc auðsynt, at ætlan Manicheorum er lygi, oc at Johannes er[5] eigi fyrirdæmdr, þviat þat er vitað, at eigi er oll efan fyrirdæmilig, matti oc þat vera[6], at þvi er Gregorius super Ezechielem syniz segia vilia, at Johannes hafi um þat efat, hvart Kristr mundi fyrir sialfan sig oc i sinni personu niðr stiga til helvitis oc draga þaðan sina vini, eða mundi hann annan til þess senda.

Enn Jesus tok or hiarta þeira [allan efa[7], oc sagði þeim skyr mork sinnar tilkvamu nu framkomin sva mælandi: „Blindir menn sia, en halltir ganga, likþrair hreinsaz, daufir fa heyrn, dauðir lifna, en fatækir viðfrægiaz, oc er sa sæll, sem eigi ratar[8] i nokkura utru, þa er hann ser þa luti, er um mig geraz." Oc eru þessi orð tekin or spasögu Ysaye, þar er sva ritað: Drottinn man koma oc hialpa oss, þa munu lukaz upp augu blindra manna, oc eyru daufra munu fa heyrn, þa [munu halltir[9] hlaupa sem hiortr, oc losna man tunga enna mallausu manna, oc annat þat sem fylgir oc greint er i bok Ysaye. Þessi orð drottins, sem nu [er ritað[10], glosar hinn mikli Gregorius, sva sem hann mællti: Dasamlig takn gerða[11] ek, þau er mig vatta Krist vera; en þo let ek mer soma at þola afleita[12] luti, oc þvi er monnum viðsianda, at eigi fyrirliti þeir mig af sok mins dauða, þess er ek þoli til lausnar ollu mannkyni, ef þeir veita mer vegsemð af mikileik minna eiginligra takna. Annarr guðspiallamaðr segir, at a þeiri stundu, sem lærisveinar Johannis [foru fyrir varn[13] herra, græddi hann marga siuka menn,

1 [*saal. C. D;* leitaði manichi *A.* 2 eigi *tilf. C, D.* 3 *mgl. C.* 4 at *C, D.* 5 se *C.* 6 *saal. C, D;* vita *A.* 7 [þessa efan *C, D.* 8 rasar *C.* 9 [mun hinn hallti, *C D.* 10 [eru ritud *C, D.* 11 geri *C, D.* 12 flesta *C.* 13 [voru fyrir varum *C, D.*

oc syndi þeim eigi at eins með orðum helldr oc með verkum framkomin mork guðligrar[1] tilkvomu, þau sem Ysayas sagði fyrir.

Lærisveinar sæls Johannis foru skiott aptr til meistara sins flytiandi honum annsvor vars herra, þau er hann gerði[2] visan þeira luta, sem hann villdi forvitnaz lata. Oc þa er þeir voru i brottu farnir, tok Jesus at tala fyrir þeim flokkum, sem fyrrum hofðu heyrða kenning Johannis oc nu voru komnir at heyra hans agætan meistaradom oc kenning, oc hof a þessa lund [lof Johannis[3] sva mælandi: „Til hvers foru þer i eyðimork, eða foru þer at sia reyrvond vindi skekinn, eða villdut þer sia blautklæddan mann?“ Þeir bera blaut klæði, sem i [husum þessa heims konunga eru[4]. Gregorius segir, at með þessum figurum greindi varr herra Johannem fra[5] falsðrum oc eptirlifismonnum, þeim sem alla [vega lata[6] sla i ymissum[7] tilfellum, oc hniga sem reyrvendir i hvossu veðri[8], fyrir stormi motmælis [ok blidum blę eptirmælis[9], oc fra þeim er með sinum blautum bunaði bera vitni um þat, at þeir stunda framar a riki oc metnað i þessum fallvallta heimi, sem ver byggium, enn annars heims dyrð, sem sa Johannes, er eigi gerði[10] bliðan eptirmæli ne reiðan[11] motmæli, oc likam huldi með ulfallda hari, oc iðrandi monnum gaf dæmi með sialfs sins lofligum lifnaði. Þa tok fyrr nefndr Jesus at auka sitt tal til ens sama folks oc segia: „Hvat foru þer at sia i eyðimork, eða villdu þer sia spamann? ek kann yðr[12] segia oc framarr enn spamann. Þessi er sa, sem þetta er til talað: Ek sendi engil minn fyrir þitt andlit, sa man bua þina gotu fyrir þer.“

I þessum orðum ma sia yfirkomna villu Manicheorum, at eigi er Johannes fyrirdæmdr, þar sem sialfum sannleiknum þotti honum of lágt at vera nefndum með ubreyttu spamanz nafni. Oc af þvi kallaði hann sælan Johannem framarr enn spamann, at hann hafði syndan [sialfan hann með sinum fingri[13], oc þar með kallaði hann sælan Johannem engil. Af þessu segir Gregorius hatt nafn at heita engill, þviat angelus er girzka en nuntius a latinu, enn a vara tungu engill eða sendiboði. Enn þo er lif Johannis eigi lægra[14] en nafnit. Johannes Crisostomus segir yfir þau orð, er drottinn kallaði hann engil: Þat ætla ek eigi dirfð at mæla, at sæll Johonnes er dyrligri [maior homine, par angelis[15]. Maðr var hann,

[1 *saal. C, D;* gudspialligrar *A.* 2 [*saal. A, D;* gerdu *C.* 3 [*saal. C, D;* of Johannem *A.* 4 [konunga husum eru þessa heims *C.* 5 *saal. C, D;* fyrir *A.* 6 [*mgl. C.* 7 misiofnum *C, D.* 8 edr *tilf. C.* 9 [*tilf. C.* 10 gerdu *C, D.* 11 *saal. C, D;* ræddan *A.* 12 at *tilf. C, D.* 13 [*saal. C, D;* hann með sinni figuru *A.* 14 lengra *C.* 15 [enn madr *C, D.*

en fyrir verðleika[1] sakir oc hugarkrapta er hann engill kallaðr. I þessum stað leiða inn villumenn þa villu, at Johannes hafi verit himneskr engill holdgaðr, oc er su villa fyrirdæmd með ollu moti. Þat er oc vitanda, at enn voru þeir villumenn, er fyrir þat hafa grunað þat vitni, sem sæll Johannes bar Kristi, at hann fylgði honum eigi, oc hann mundi til hans farit hafa, ef hann hefði goðr verit. En þvi ma þar til svara, at meira var vert vitni þat, er hann bar at fraveranda Kristi, helldr en hann hafði með honum farit. Sva sem Matheus evangelista segir fra þeim manni dioful-oðum, er Jesus gerði heilan, oc sa bað at fylgia honum, enn varr herra let þat eigi eptir honum oc bauð honum at fara oc predica in Neptalim[2] þat takn, sem guðlig milldi veitti honum, oc vann þa meira su kenning, sem hann flutti fram at fraveranda Kristi, helldr enn þa mundi, ef hann hefði iafnfram Jesu predicat. Ma oc þat auðvelliga skilia, at Johannes var eigi af þessi sok fyrirdæmdr, þo at villumenn segi þat, þar sem siðan kallaði hann Johannem engil.

Oc eptir þat haleita lof lagði hann til hans mikinn auka hinna fyrri sæmðarmala oc sagði: „Ek segi yðr satt, at engi þeira manna, sem[3] fra konum eru fæddir, er meiri en Johannes baptista.“ Þat glosar a þa leið enn sami Augustinus oc segir sva: Hæri er hann hverium sem einum, gnæfar[4] hann yfir giorvollum[5], fyrir gengr hann spamannasveitinni, yfir gengr hann hofuðfeðrna, oc hverr sa er fra konu er fæddr er lægri Johanne. Af þessum orðum ma nokkut sva mæla, ef sæll Johannes er hæstr af kvenna sonum, þa er hann hialparanum hæri. Þessa grein skal sva onyta, at Johannes er konu son, enn Kristr er meyiar son[6]; Johannes er fæddr af brugðligum konu kviði oc með karllmans friovi[7], en Cristr er blom osaurgaðs kviðar, getinn af helgum anda an ǫllu karllmanz frioi. Commestor segir þenna orskurð gefinn fyrir umliðinn tima, oc i þessu drottinligu atkveði er ugreint, hvart nokkurr heilagr maðr man siðarr verða iafn eða æðri Johanni i verolldunni.

Ok enn iok Jesus sitt mal sva segiandi: „Sa sem minni er i himinriki, er honum meiri.“ [Sem hann segði: Sa sem minni er at alldri enn hann samiafn[8] heilagra her i heimi, er honum meiri[9]. Skal þessi orð sva skilia, ef einfaldliga er alitið af varum herra. En sæll Jeronimus segir, at sa sem minstr er i himinriki af tali heilagra, er méiri enn hinn helgasti maðr her a iarðriki,

1 verdleiks *C, D.* 2 Pentapoli *C.* 3 er *C.* 4 gnæfir *D.* 5 ollum *C, D.* 6 *tilf. C, D.* 7 frioe *C;* fræi *D.* 8 i samansamnan *C.* 9 [*mgl. D.*

sa sem eigi er reynd endalyktin. Oc enn sagði hann[1]: „Allt lôgmal oc allar spamanna bækr sogðu ukomna luti fyrir allt til Johannem, oc ef þer vilit vita, þa er hann Elias, sa sem koma mun. En sa heyri[2] þessi orð, sem eyru hefir at heyra. Oc fra dogum Johannis allt her til þolir himinriki ofrefli, oc ofreflismenn gripa þat.“ I þessum vars drottins orðum finnaz stormorg lof heilags Johannis, þau sem hann biðr eigi at eins þa heyra, sem likamliga heyrn hafa, helldr oc þar með [andligan skilning[3].

Þvi ma spyria, hvar himinriki þolir ofrefli. En þvi ma [sva til[4] svara, at stundum kallaz su himnesk hirð, sem rikir með Kristi i himinriki, en stundum su kristni, sem honum þionar her i heimi, stundum sônn oc hiartlig[5] trua, stundum heilug ritning, sem dæmi finnaz til, þau er allar þessar sôgur[6] sanna eptir rettum[7] skilning. Syniz ritningin þola nauðgun[8] eða ofrefli, þar sem logmal Moysi byðr at hegna með likams dauða manndrap oc marga aðra luti, sva sem guðlastan, horan oc aðra þa luti, sem Decalogus greinir, en Johannes kallar þa lifendr i likama til synða iðranar, þo at þeir væri dauðir i ônd, oc het þeim aflausn synða fyrir yfirbot verka[9], sva sem engi aðr, oc skildi þann, sem deyðandi[10] var sagðr i likama, dauðan i ôndinni[11] enn endrlifnanda[12] fyrir iðran oc yfirbot snuandi letrligum skilningi i andligan. Truan syniz oc fra dogum sæls Johannis ofreflis kenna, þar sem þa var boðit þvi at trua, at mærin fæddi son oc i moti ollum natturulôgunum, oc um likama vars herra oc um marga luti aðra, þa sem eigi ma mannlig tilraun sanna oc guð vildi verða lata a þa leið sem eru[13], at þat mætti[14] snuaz til verðleiks aukningar þeim sem tryði[15]; sem postolinn segir: Su trua hefir ongan verðleik, er mannlig tilraun ma prova með sinum visleik. Guðs kristni, su sem honum þionar her i heimi, toc oc fra dogum Johannis ofrefli at þola, þar sem at hans dæmum toku menn fyrst at elska vilianliga eymð oc fatækt eyðimerkr oc utlegðir, vas oc vokur, bænahalld oc bindendi, fôstur oc kulða[16], vil oc erfiði, harðlifi oc hárklæði, [þôgn oc allzkonar athalld, ast oc ôlmusugæði, friðsemð oc falyndi[17], með þaganligu[18] reinlifi, oc vonduz a þetta ofan at þola vilianligt pislarvætti. Enn þo at þessum orðum kasti nokkurr a moti oc segi, at margir

1 sva *tilf. C.* 2 *saal. C;* heyrði *A, D.* 3 [andliga heyrn *D.* 4 [*mgl. C, D.* 5 hiartalig *C;* hiartanlig *D.* 6 sagnir *C, D.* 7 letrligum *C.* 8 naudung *C, D.* 9 misverka *C.* 10 *saal. C, D;* deyiandi *A.* 11 *saal. C, D;* synðyni(!) *A.* 12 endrlifna *A.* 13 er *D.* 14 matti *C.* 15 *saal. C, D;* truði *A.* 16 ok klædleysi *tilf. C.* 17 [*mgl. C.* 18 *saal. A, D;* fagrligu *C.*

undir fornu lôgmali hafi slika luti gerfa, þa er þeim þessu svaranda: Þo at Jacob bęðiz[1] fyrir oc Daniel oc Elias fastaði, en Judas Machabeus gefi[2] salugiafir, er þat vitanda, at fair voru þa slikir, oc fromdu þo sialdan slika luti, en fra dogum ens sæla Johannis toku storliga margir slika luti at giora, oc storliga opt, sva at þaðan fra oc allt her til stunduðu menn fyrir [atstôðu oc[3] iðinleik [goðra verka[4] með miklum flokkum oc morgum fylkingum at þrongvaz til kristinligrar[5] truar oc at bera hans kross, honum fylgiandi bæði andliga oc likamliga um hit þrongva hlið til haleitra himinrikis fagnaða. Meðr slikum hætti ma oc segia, at himinrikis dyrð þoli ofrefli, þa er bersynðugir menn, ribballdar oc ransmenn, þeir sem fyrst leiddi hinn sæli Johannes til iðranar með sinum fogrum fortolum, oc aðr veittu monnum ofrefli, [toku ser siðan umakligt[6] sæti með hinu sama ofrefli[7], at ongum fyrirfarendum[8] verðleikum helldr fyrir eina saman milldi oc miskunnsemi Kristz. Þetta sannar enn mikli Augustinus talandi af þeim ladruni[9], sem hia guðs syni var krossfestr a þessa leið: Siam her loflegan ladrun[10] oc dasamligan, eptirlikianda at skilia i sinum oruggleik; fyrrum striddi hann með sverði, enn tok nu himinriki at herfangi, fyrrum gandi[11] hann a ran, en nu hitnaði hann af sannri tru, oc þann sem Petrus neitaði sem mann, vegsamaði þessi sami ladrun[12] crossfestan[13], at skilia sem guð.

Þat er oc greinanda, hvi Jesus sagði, at lôgmal oc spamanna bækr hefði[14] ukomna luti fyrir sagt allt til Johannem, enn þat er sva takanda, at fyrir þvi letu[15] fra dogum Johannis af miog sva spárnar, þær sem i lôgmali oc spamanna bokum hofðu þar til endz, at [þa var at[16] miklum þora þat allt framkomit, sem þær bendu[17] fyrir, oc fyrr nefndr sæll Johannes syndi[18] þann með sinum fingri, sem kominn var at fylla allar spar, oc voru þær eigi [þaðan af[19] nauðsynlegar, er lausnin var framkomin. Enn þo at þvi se i moti kastað, at siðan spaði[20] Agabus spamaðr [oc fiorar dætr Philippi[21], þa er þvi svaranda, at þessar spar voru litils verðar hia enum

1 *saal. C, D*; beidiz *A*. 2 giæfi *D*. 3 [ok stodu i *C*. 4 [guds boðorda *C*. 5 kristiligrar *C, D*. 6 omakligir *C*. 7 [*mgl. D*. 8 fyrirfarandi *C, D*. 9 *saal. rettet*; ladryingi *A*, ladrudningi *C*, landræningi *D*. 10 *rettet*; ladryning *A*, ladrudning *C*, laadreyning *D*. 11 girntiz *C*, gaadi *D*. 12 *rettet;* ladreyngr *A*, ladrudningi *C*, ladreyningr *D*. 13 krossfestr *C, D*. 14 *saal. C, D*; hofðu *A*. 15 letti *C*. 16 [*tilf. C*. 17 kendu *D*. 18 *saal. C, D;* bendi *A*. 19 [siþan iafn *C*; 20 *saal. C, D;* sagði *A*. 21 [*mgl. D*.

fyrrum[1] spasogum, þeim sem endir gerðiz a fyrir sælan Johannem, þar sem aðr spaði mikill þori manna.

Þat er skoðanda, hvi sæll Johannes er aðr[2] af sialfum sannleiknum Elias sagðr[3], enn hann neitaði sig Eliam vera, þa er Pharisei spurðu hann, hverr hann væri, eða hversu ma Johannes kallaz spamaðr sannleiksins, ef hann ęr þo gagnstaðligr orðum sialfs sannleiksins. En sæll Gregorius leysir þat sva, at hinn heilagi[4] Johannes var Elias i anda, eptir þvi engillinn sagði, at hann mundi fyrir fara drotni i krapti oc i anda Elie; var þat oc viðrkvæmiligt, at drottinn Jesus segði [lærisveina sina andligan skilning af Johanne hafa[5], þar sem þeir hofðu [af honum greiningarvit þegar[6] til þess at skilia andliga luti, oc þvi kallaði hann Johannem Eliam, at hann var a þa leið skipaðr til þess at vera fyrrirrennari lausnarans i hinni fyrri hans tilkvomu, sem Elias man vera fyrirrennari domandans[7] i hinni siðarri hans hingatkvomu. Baðir voru þeir skirlifir oc baðir [neyttu þeir sparlliga fætzlu[8], baðir voru þeir i eyðimork, baðir voru þeir ofagrliga bunir, baðir þoldu þeir reiði konungs oc drotningar, annarr Achab oc Jezabel, enn annarr Herodes[9] oc Herodiaden. Helias stemdi Jordan[10], meðan hann gekk yfir hana, en Johannes skirði drottin i þeiri somu á. Elias var numinn af iorðu, til þess at eigi yrði hann fanginn af sinum uvinum, en sæll Johannes var fyrir orð sialfs sannleiksins koronaðr með pislarvættis koronu, til þess at hann vęgi deyiandi sigr a ollum sinum uvinum. Enn sæll Johannes sagði flokkum, at hann væri eigi Elias oc neitaði þvi [af skilningum[11], sem Jesus sagði fram af andanum, atti hann með rettu letrlegan[12] skilning obokfroðri alðyðu at segia, sva sem Jesus matti rettliga sinum lęrisveinum andligan skilning segia. Var þvi hvargi oðrum gagnstaðligr Jesus oc Johannes. Þvi sagði drottinn, at sa skylldi heyra þessi lof Johannis, sem eyru hefði, at til þessa vanz eigi likamlig[13] heyrn at nogu, su sem allir hofðu, þeir sem hia stoðu, helldr [andligr skilningr, sa[14] sem postolarnir hofðu oc þeira eptirkomendr.

Oc þa er [varr herra[15] lauk sinu mali, lofaði oll alðyða með Kristz lærisveinum guðlig dayndi[16], þau sem veitt voru sælum Jo-

1 fornum Ç, *D.* 2 *mgl. C, D.* 3 kalladr *C.* 4 *Her mgl. 1 Blad i C.* 5 [lærisveinum sinum andligan skilning af Joh. *D.* 6 [þegit greiningarvit *D.* 7 domarans *D.* 8 [voru þeir sparneytnir *D.* 9 Herodis *D.* 10 iordina (!) *D.* 11 [i skilninginum *D.* 12 lettligan *D.* 13 likams *D.* 14 [andlig, su *D.* 15 [Jesus *D.* 16 daaindi *D.*

hanne. Sva oc bersynðugir menn, þeir sem fyrrum[1] voru skirðir með skirn Johannis, lofuðu guðligt rettlæti oc truðu kenningum hans. Enn Pharisei oc logspekingar hôfnuðu guðs raði oc villdu eigi taka skirn af honum, oc þa tok hann at tala til þeira sva mælandi: „Hveriu skal ek lika telia menn þessarrar ęttar, nema þeim sveinum, sem a torgi sitia oc tala til sinna iafnalldra: sungum[2] ver, oc sungu þer eigi, syttum ver, oc syttu þer eigi. Johannes baptista kom til yðvar oc snęddi eigi brauð oc drakk eigi vin, oc kaulluðut þer, at diofull væri með honum; mans sun kom til yðvar, sa sem at oc drakk, oc kolluðu þer hann etara oc ofdrykkiumann oc vin bersynðugra manna, oc kendiz spekin retlat af [sonum sinum[3].

Sæll Jeronimus segir, at þessi orð hafi þann skilning, sem Jesus hafi sva mællt: Sveinar minir, þat er lærisveinar oc kennarar minna boðorða, þeir sem[4] sitia a torgi eða akri predicanar ok kenna, hversu kaupa skal himinriki með andvirki[5] goðra verka sinum iafnolldrum, þat er yðr ebreskum monnum þeim sem erut[6] samtiða, oc þvi at þer villdut eigi heyra, þvi toluðut þer eigi at eins, helldr kolluðut þer með fullum kverkum: [Sungum ver[7] fyrir yðr, þat er sva at skilia, ver kendum yðr at lifa með skemtan oc hoglifi oc bindendi annmarka oc með ast mannkosta, oc villdut þer eigi eptir þvi likia, oc þessu næst syttum[8] ver fyrir yðr, þat er [ver syndum yðr sutfullan[9] lifnað iðrandi manna oc þeira, sem með meinlętum vilia ser afla eilifs verkaups[10], oc hofnuðu þer þvi iafnvel sem enu fyrra dæmi, oc er þat eigi undarligt, þo at þer fyrirlitið tvenna heilsugotu, þar sem þer hofnuðut bæði fostunni oc saðningunni. Enn ef yðr likaði fastan oc harðlifit, fyrir hvi mislikaði yðr Johannes, sva at þer kolluðut hann diofuloðan. Ok ef yðr likar hofsamlig saðning, fyrir hvi mislikaði yðr manz[11] son, sva at þer kolluðut hann etara oc ofdrykkiumann oc vin bersynðugra manna? Nu þo at þer villdut hvariga þessa kenning þekkiaz, kendiz spekin, þat er guðlig tilskipan oc kenning oc ek, þviat ek em [guðs kraptr[12] oc speki rettlat, þat er at skilia, hafa rettliga gert af sinum sonum postolum minum, þeim er faðir vitraði þa luti, sem hann fal fyrir þeim, er ser sialfum synduz spakir oc

1 fyrr *D.* 2 *saal. D;* syngium *A.* 3 [*saal. D:* sinum vinum *A.* 4 at *tilf. D.* 5 andvirdi *D.* 6 eru *D.* 7 [*saal. D;* syngium *A.* 8 *rettet;* lystum *A, D.* 9 [syndum ydrum hæfer at fylgia *D.* 10 lifs *D.* 11 mansins *D.* 12 [gud *D.*

